# SÝSLUMANNAÆFIR

EPTIR

BOGA BENEDIKTSSON

Á STAÐARFELLI.

## Með skýringum og viðaukum

eptir

Jón Pètursson

jústítíaríus.







REYKJAVÍK.

Í PRENTSMIÐJU EINARS ÞÓRÐARSONAR.

1881—1884.

# A.

## Norðlendingafjórðungur.

# Formáli.

Eptir það, að landið kom undir konung, voru settir umboðsmenn hans, stundum yfir allt land, stundum yfir einn eða tvo landsfjórðunga, og stundum yfir minna svæði, og var kallað, að þeir hefðu sýslu konungs, og eigi var þá settur maður yfir hverja sýslu, sem þar eptir, heldur höfðu þeir undir sem flestar sýslur og voru á sífelldum yfirreiðum: seinna þótti þeim þetta mjög umsvifamikið, lètu því opt helztu mennina í hèruðunum vera umboðsmenn sína, að heimta saman tolla og nefna lögrèttumenn í dóma, og kölluðu þá sveina sína, og þar til völdu þeir helzt fullveðja menn í fjárheimtum, lètu þá hafa misjöfn hèröð til yfirsóknar, og sviptu þá þeim völdum, er þeim leizt, og fengu þau öðrum; kölluðust þá þessir menn, er leigðu af konungi landið eða hluta þess fyrir ákveðna leigu árlega, sýslumenn konungs, en umboðsmenn þeirra, sveinar[1] þeirra. Seinna var farið að kalla þessa sýslumenn hirðstjóra eða höfuðsmenn, og umboðsmenn þeirra, sýslumenn; var þá mjög stopult um vald þessara sýslumanna, sem fyr sagt, og komið undir geðþekkni hirðstjóra, er optast völdu þá, er gjörðu allt að vilja þeirra, og buðu þeim eða guldu mesta leigu eptir umdæmi sitt; en margir kepptust eptir að fá hjá hirðstjórum lèni þessi, þareð þeim þótti í þeim ríki nokkurt, en vandinn ekki annar, en taka tollana, nefna dómsmenn og samþykkja lögrèttumanna eða dómsmanna dóma; voru þeir opt

---

1) Í Jónsbókinni kölluðust þeir: «umboðsmenn sýslumanna», «sóknarar sýslumanna» og «lènsmenn sýslumanna»; þeir máttu vera að eins 4 í fjórðungi, og eigi nema 2, ef sýslumaður var innan fjórðungs.

sjálfir ólærðir menn, stórbókkar og auðugir. Nokkur umbót á þessu komst seinna á, en mest eptir það, að Herluff Daae færði hingað konungsbrèfin um sýslumenn, og konungur fór sjálfur að veita embættin og hafa meiri afskipti af landinu, og sýslumenn hættu að vera sveinar hirðstjóra, og fóru sjálfir að svara fyrir embættisverk sín.

Þess ber hèr að geta, að við þetta uppkast mitt um sýslumenn í Norðlendingafjórðungi hefi eg öðlast góða stoð af annál hins iðjusama sýslumanns Jóns Jakobssonar yfir sýslumenn í Norðlendingafjórðungi, einkum frá siðaskiptunum, þareð hann hefir safnað saman öllum dómum þeirra, sem hann hefir yfir komizt, (flestir af þeim eru þó teknir upp í Árbækur Espólíns hins fróða) og þar að auki gjört margar upplýsingar og sagt álit sitt um valdaár þeirra. Að vísu hefi eg í þessu uppkasti mínu eigi alstaðar fylgt hans meiningu, þar sem eg hugsaði að annað væri rèttara, einnig aukið mörgu og nefnt fleiri menn, en hann, suma, er eg þó enga vissu hefi fyrir að hafi haft sýsluvöld, en hafa verið höfðingjar, og því eptir þá veranda aldarsið kunna að hafa haft völd um tíma. Ættir sèrhverra hefi eg og eptir öðrum fræðibókum og föngum tilfært, og hefir það ollað mèr mikillar tímatafar. Þá höfðingja[1], er eg öndverðlega við hverja sýslu hefi upp talið, og ef til vill, eigi hafa verið sýslumenn, hefi eg hèr sett, að eigi með öllu gleymdust eptirkomandi aldarmönnum, er eigi hafa betra við að styðjast, en þetta uppkast mitt, er vart er hálfverk á, hvorki að efni nè orðfæri, en mætti verða til nokkurs leiðarvísis fyrir þá, er seinna vildu rita þar um, einkum, ef hver fræðimaður eptir annan umbætti.

Þá, er Árna biskups sögu lýkur, er sagnafátt um gjörðir og völd leikmanna, þó má svo mikið ráða af annálum, að margir höfðingjar hafa verið hèr á landi.

---

1) Auk höfðingja þeirra, er nefndir eru í riti þessu, og uppi voru á 13. öld, eptir að landið kom undir konung, og 14. og 15., mætti telja ýmsa fleiri.

# A. Norðlendingafjórðungur.

## I. Þingeyjarsýsla.

HÉRÖÐ þau, er frá Varðgjá við Eyjafjarðarsýslumót liggja allt á Langanes, austnorðurhorn Íslands, kallast nú almennt Þingeyjarþing, eða Þingeyjarsýsla, og stundum Norðursýsla.

Þar voru í fyrndinni þessir þingstaðir:

1. Svalbarð á Svalbarðsströnd.
2. Grýtubakki í Höfðahverfi.
3. Háls í Fnjóskadal.
4. Ljósavatn í Bárðardal.
5. Haganes við Mývatn.
6. Helgastaðir í Reykjadal.
7. Húsavík á Tjörnesi.
8. Keldunes í Kelduhverfi.
9. Árlækur í Axarfirði.
10. Presthólar í Núpasveit.
11. Svalbarð í Þistilfirði.
12. Sauðanes á Langanesi.

---

### A.

### Höfðingjar,

(er eg held, að hafi haft þar völd).

**Sveinn Þorsteinsson eða Þórisson**[1].

Hann var kallaður Sveinn Langur, kom út með brêf

---

1) Um herra Svein Þorsteinsson eða herra Svein Lang, sjá tímarit mitt 1. B. bls. 11. Það er með berum orðum í annálum sagt, að hann hafi komið út 1301, og að honum hafi þá verið skipaður Skagafjörður.

konungs um hvalveiði: var biskup skuldaður að hafa til sín dregið fátækra hluti: sendi því konungur Svein þennan með brèfum sínum 1305 til Jörundar biskups, að hann borgaði hið áður tekna, og gjörði eigi þá órèttvísi framvegis. Var þá Krókálfur sýslumaður konungs eða hirðstjóri. Þó Sveinn væri herraður, er óvíst, að hann hafi haft nokkur völd hèr, utan verið hirðmaður og sendiboði konungs, þó hefir hann verið hirðstjóri sunnan og austan 1305. Í hirð Hákonar konungs var hann 1301, 1303, 1306, 1310.

### Herra Þórður á Möðruvöllum[1],

er bjargaði Krókálfi á Hegranesþingi, er líkastur til að hafa haft umboð yfir sýslum fyrir norðan Öxnadalsheiði fyrir, um og eptir 1300.

### Eiríkur Sveinbjarnarson.

*Faðir:* Sveinbjörn, son Sigmundar í Súðavík, er var opt í bardögum með Sturlungum og dó 1235. Sigmundur var Gunnarsson og var kona hans Herdís, dóttir Rafns á Rafnseyri; hafði Herdís átt fyrr Eyjólf Kársson, er fèll í Grímsey 1222 af fylgd við Guðmund biskup. Óljóst er mèr, hver kvinna Sveinbjarnar var, en ritað er, að hann hafi dáið 1290.

*Kvinna* Eiríks var Vilborg, dóttir Einars Vatnsfirðings, er fæddur var 1227 og var son Þorvaldar í Vatnsfirði, er inni var brenndur á Gillastöðum 1227. Vilborg dó um 1343.

*Barn* þeirra var Einar í Vatnsfirði, sjá um hann í Ísafjarðarsýslu[2].

---

1) Um herra Þórð á Möðruvöllum í Eyjafirði og Hall föður hans, sjá Vaðlaþing.

2) Að rekja þannig saman, sem hèr er gjört, gömlu Vatnsfjarðarættina, er í karllegg endaði með Einari Þorvaldssyni, og seinni Vatnsfjarðarættina, er í karllegg byrjaði á Einari Eiríkssyni, föður Björns Jórsalafara, er án efa með öllu rètt, því fyrst og fremst er þannig rakið í gömlum ættartölum, er menn hafa enga ástæðu til að rengja að orsakalausu. Í annan stað er það kunnugt, að í katólsku tíðinni fengu þeir, er byggðu

Eiríkur var í förum ungur og gjörðist konungsmaður, sló og konungur hann til riddara 1316, en fèkk honum hirðstjórn[1]

---

kirkju hjá sèr og lögðu henni næga heimanfylgju, öll umráð yfir kirkjunni og eigum hennar, og þessi umráð gengu að erfðum til afkomenda þeirra, en ef eignin var seld, missti hinn nýi eigandi umráð þessi, og kirkjan með eignum sínum fèll undir umráð biskups. Nú sèst af Árna biskups sögu, að bæði Oddastaður og Vatnsfjörður voru þá dæmdir af erkibiskupinum í Noregi undir umráð biskups, og að Oddverjar þá lètu af hendi Odda, er að nokkru leyti gengið hafði sölum, en Vatnsfirðingar sinntu ekki dóminum og slepptu eigi Vatnsfirði við biskup, enda hafði Vatnsfjörður eigi gengið sölum. Hefði nú herra Eiríkur Sveinbjarnarson frá Súðavík, er næst eptir Einar Þorvaldsson er nefndur eigandi Vatnsfjarðar, eignast hann við kaup, mundu Skálholts biskupar eigi hafa lengi hikað sèr við að framkvæma erkibiskupsdóminn og taka Vatnsfjörðinn, en að þeir eigi gjörðu það, lýsir beinlínis því, að Eiríkur hefur fengið Vatnsfjörðinn með því, eins og sagt er, að eignast dóttur Einars Þorvaldssonar, er erft hefur Vatnsfjörðinn eptir Einar föður sinn. Og í þriðja lagi virðist það mjög svo eðlilegt, að Einar Eiríksson hafi verið látinn heita eptir móðurföður sínum, Einari Þorvaldssyni. Af því, sem nú hefir verið sagt, auk annars fleira, er hèrtil má tína, sèst, hversu ástæðulaust það er, að efast um það, að Vilborg, kona Eiríks Sveinbjarnarsonar og móðir Einars sonar hans, hafi verið dóttir Einars Þorvaldssonar, þótt sagt sè í tveim annálum, að frú Vilborg Sigurðardóttir hafi dáið 1343; því auk hins fyr sagða, getur enginn með vissu sagt, að þar sè átt við Vilborgu, konu Eiríks, og ef þar er átt við hana, hlýtur föðurnafnið að vera rangt, því auk annars er hvergi nokkurstaðar Sigurður nefndur, er átt hafi Vatnsfjörð millum þeirra Einars Þorvaldssonar og Eiríks.

1) Í annálum er sagt, að 1323 hafi Sigmundur Fótur Eyjólfsson komið út með sýslubrèf herra Eiríks og herra Ketils, og í Lárentíusar biskups sögu er og þess getið, að Eiríkur hafi haldið sýslu í Norðlendingafjórðungi, hið vestra, þá er biskup byggði honum Flugumýri, en að hann hafi haft sýslu í Vestfirðingafjórðungi, hefi eg eigi sèð: að vísu átti hann þar

fyrir norðan og vestan 1323. og virðist sem hann hafi henni haldið til þess að hann dó 1342. — Óvíst er. að hann hafi sýslur haldið öðruvísi en sem hirðstjóri í 19 ár eða því nær. Hvort hann hefir haldið nokkra umboðsmenn. eða hverjir þeir hafi verið, er mèr dulið, þó eg hafi þess tilgetið við aðrar sýslur um höfðingja. er þá voru uppi honum samtíða. 1324 leigði Eiríkur riddari af Lárentíusi biskupi Flugumýri í 4 ár og skyldi gjalda í leigu 12 hndr. á ári. 1332 fór Eiríkur utan á konungs fund.

### Jón Sveinsson Langur[1].

*Faðir* hans áður nefndur Sveinn. er kallaður var Langur. Jón var og af hæð sinni nefndur Langur. Hann bjó í Axarfirði og er talinn með höfðingjum í sinni tíð. Hans börn eru nafnkennd:

1. Finnbogi gamli í Ási, sjá hèr síðar.
2. Hallur á Vindheimum[2], hans börn:
   a, Hálfdán[3] átti Þorgerði Símonardóttur.

---

miklar eignir, en um þær mundir fengu menn engu síður sýslu annarstaðar, en þar sem eignir þeirra voru: þannig hefir Benidikt Kolbeinsson frá Auðkúlu, er 1323 kom út með sýslu, eigi fengið sýslu í Húnaþingi, þótt eigur hans mestar stæðu þar, heldur einhverstaðar annarstaðar, því herra Eiríkur hafði þar þá sýslu, sem fyr segir. Að Eiríkur hafi haldið sýslu í umboði nokkurs sýslumanns eða hirðstjóra. eptir að hann var herraður, er með öllu ólíklegt.

1) Um Jón Lang sjá tímarit mitt 1. B. bls. 11. Eg hefi hvergi sèð, að hann af hæð sinni hafi verið kallaður «Langur», heldur held eg að það hafi verið ættarnafn hans; þvílík viðurnefni hèldust þá stundum nokkra liði í ættum.

2) Hallur, faðir Hákonar á Vindheimum, var ekki bróðir Finnboga gamla í Ási í Kelduhverfi, heldur son hans.

3) Hálfdán þessi á að vera forfaðir Odds biskups Einarssonar, en Þorgerður kona Hálfdánar var afasystir síra Sæmundar Kárssonar í Glaumbæ.

b. Hákon á Vindheimum átti Ingveldi[1] Halldórsdóttur.
Þeirra son:
Gísli á Hafgrímsstöðum.
3. Sveinn Jónsson[2]. Áður nefndur Hallur á Vindheimum nefnist í mörgum ættartölum sonur þessa Sveins, og sonarsonur Jóns Langs, en ekki son hans.
4. Jón. Sumar ættartölur sleppa honum.

Jón gjörðist höfðingi í Þingeyjarþingi, getur og gjarnan verið, að hann hafi haft umboð nokkurt þar um hríð, nálægt 1330 og þar eptir, þar eð hann var son handgengins konungsmanns, og þess, er hirðstjóri hafði verið.

## Ásgrímur Guðbjartsson[3].

***Faðir:*** Guðbjartur á Ytri-Bægisá, son Vermundar Kögurs; er þessi Guðbjartur að sögn kominn af Guðrúnu systur Þrándar í Götu og ætt hans annars talin þannig: 1. Þorsteinn Egilsson Skallagrímssonar, hans dóttir 2. Helga væna átti með Þorkeli í Hraundal; börn þeirra einn son 3. Haukur, hans son 4. Höskuldur; hans son 5. Steinn, hans son 6. Vermundur, hans son 7. Loðinn, hans son 8. Vermundur Kögur, hans son 9. Guðbjartur, hans son 10. Ásgrímur, hans son 11. Guðbjartur Flóki, hans son 12. Þorkell prestur, hans son 13. Magnús sýslumaður.

***Börn:*** A. Erlendur.
B. Guðbjartur hèlt Laufásstað, og var officialis Hólakirkju; hann var og fyrst á Bægisá, og var sagður

---

1) Kona Hákonar og móðir Gísla hèt Ingunn Halldórsdóttir, en ekki Ingveldur, og hèt bróðir hennar Magnús.

2) Það er enginn vafi á því, að Hallur faðir Hákonar hafi verið son Finnboga, sem fyr sagt, en hvorki Sveins nè Jóns, sjá hèr síðar.

3) Um síra Ásgrím sjá tímarit mitt 4. B. bls. 29; hann gaf sonum sínum Erlendi og Guðbjarti gjafir, er dæmdar voru löglegar af Sigurði lögmanni, eins og hèr segir.

fjölkunnugur og kallaður Flóki: barnamóðir hans hèt Þorbjörg; þeirra kaupmáli dagsettur 1383.

Þeirra son:

Síra Þorkell átti Þórdísi[1] Sigurðardóttur frá Svalbarði fyrir barnamóður (1430). sagt er, að honum hafi verið kennd 30 börn, meðal þeirra voru:

1. Ásgrímur faðir Jóns sýslumanns í Eyjafirði.
2. Magnús sýslumaður í Eyjafirði.

Ásgrímur var ríkur höfðingi og hafði lèni: eptir það er mælt að hann yrði prestur og testamenteraði fè sitt Erlendi og Guðbjarti sonum sínum: dæmdi gilda þá gjöf Sigurður lögmaður Guðmundsson á 25. ári ríkis Hákonar konungs. Óvíst er samt, að Ásgrímur hafi haft Þingeyjarþing eða aðrar sýslur. heldur lèni hjá einhverjum ábóta.

## Magnús Brandsson[2].

Sjá um hann við Vaðlaþing; hann held eg að hafi um

---

1) Faðir Þórdísar, barnamóður síra Þorkels, var Sigurður á Svalbarði, sonur Björns Sæmundssonar Þórarinssonar: Magnús Brandsson átti Svalbarð, og hefir Eiríkur son hans erft það eptir hann; af börnum Eiríks hefir Sæmundur keypt það, þannig tók hann að sèr 1391 30 hndr. skuld, er Ása, dóttir Eiríks, skuldaði kirkjunni þar, og Björn sonur Sæmundar átti bæði Svalbarð og Einarsstaði í Reykjadal. og í gegnum Þórdísi hefir Svalbarð komizt í ætt síra Þorkels. Ætt sú, er komin er frá Magnúsi, kallast Svalbarðs ættin hin fyrri, en sú er komin er frá síra Þorkeli Svalbarðs ættin hin síðari.

2) Ætt Magnúsar Brandssonar telst þannig upp: Faðir Brands var Eiríkur, hans faðir Einar, hans faðir Guðmundur Dýri á Bakka í Yxnadal, hans faðir Þorvaldur Auðgi, hans faðir Ketill Fljóti, hans faðir Guðmundur Egli, hans faðir Eyjólfur halti, hans faðir Guðmundur ríki á Möðruvöllum í Eyjafirði, hans faðir Eyjólfur Valgerðarson, hans faðir Einar, hans faðir Auðunn rotinn, hans faðir Þórólfur smjör, er kom út með Hrafna-Flóka, hans faðir Þorsteinn skrofi, hans faðir Grímur Kamban, er fyrstur byggði Færeyjar. Kona Fljóta-Ketils telst Þuríður, og segja sumir, að hún hafi verið dóttir Guðmundar Agla og er

hríð haft umboð í Þingeyjarþingi um eða fyrir miðja 14. öld, en hefi þó eigi annað fyrir mèr í því, en getgátu, af því hann var mikill höfðingi og auðugur; það sèst af börnum hans, sem giptust auðugustu og mestu mönnum þar nærri.

1. Arnþrúður Þorsteini á Urðum Eyjólfssyni, sjá Hegranessþing.
2. Solveig Sigurði lögmanni[1] á Svalbarða, sjá Vaðlaþing, er líklega hefir um hríð haldið Þingeyjarþing.
3. Eiríkur á Möðruvöllum átti Ingiríði[2] Loptsdóttur Þórðarsonar og Málmfríðar dóttur Árna, er flúði hingað, þá er aðalsmenn í Noregi voru margir drepnir, með konu sinni Ásu frá Aski í Noregi og mikið lausafè; ef til vill hefir hann verið af ætt þeirra Árnasona, er Ólafs helga saga umgetur. — Loptur átti aðra dóttur, sem hèt Bergljót, dulið er mèr, hvort hún átti afkvæmi: sjá börn Eiríks við Vaðlaþing. Ekki er ólíklegt, að Eiríkur hafi haft umboð um hríð í Vaðla- og Þingeyjarþingi. Ritað er, að hann hafi dáið 1381 og verið mikilmenni.

Fyr má þó Magnús Brandsson hafa haft þar umboð.

---

ekki ósennilegt, að þetta kunni að vera rèttara, þó kvað ættin vera talin hinseginn af Ara lögmanni Jónssyni, er kominn var af Oddnýju systur Magnúsar, í brèfi, er var með hans auðþekkjanlegri hendi og fannst í Skálholti í tíð Odds biskups Einarssonar.

1) 1350 eða 1351 var höfðingjum norðanlands stefnt út, eru í brèfi um þá stefnu tilgreindir meðal annara Magnús á Svalbarði og Sigurður mágur hans. Með því er sjálfsagt meintur Sigurður lögmaður Guðmundsson. Sigurður lögmaður og forfeður hans bjuggu án efa í Lögmannshlíð, og við það hefur hún fengið nafn sitt.

2) Ingiríður var systir síra Halldórs Loptssonar, sjá tímarit mitt 4 B. bls. 40. Þórður faðir Lopts, er herra Þórður Hallsson á Möðruvöllum, er hefir hèr fyr verið nefndur, sjá um hann Vaðlaþing. Að Árni í Aski eða Askey í Noregi — hans getur í fornbrèfasafninu norska við árin 1303 og 1323 — hafi flutt sig til Íslands, hefi eg hvergi annarstaðar sèð, og efast mikillega um, að það sè rètt.

Hann er talinn með mestu mönnum á sínum dögum, og ritað er, að hann hafi dáið 1363.

## Björn Brynjólfsson.

***Faðir:*** Brynjólfur[1] ríki Bjarnarson, dó 1381, en 1377 keypti hann af Valgarði bónda Loptssyni Mánaskál fyrir Syðri-Vallá á Kjalarnesi; virðist sem hann hafi um hríð verið sveinn eða umboðsmaður hirðstjóra yfir sýslu norðanlands, máske parti af Þingeyjarþingi. Hann var 1378 ráðsmaður yfir Reynistaðar klaustri.

***Kvinna:*** Málmfríður, dóttir Eiríks ríka á Möðruvöllum sjá Vaðlaþing

***Börn***[2]***:*** A. Sigríður, sem átti Gunnlaugur Magnússon, sjá Borgarfjarðarsýslu.

B. Ólafur, honum lagði Björn faðir hans 1392 hvorutveggja Akra og fleiri jarðir til móts við systur sínar, Sigríði og Málmfríði. Ólafur átti Kristínu dóttur Þorsteins lögmanns og hirðstjóra Eyjólfssonar, þeirra son Þorsteinn, hirðstjóri 1427 og lögmaður 1432, sjá um hann við Hegranessýslu.

C. Málmfríður.

***Bróðir;*** Benidikt, sjá Húnaþing.

---

1) Brynjólfur bjó á Ökrum í Skagafirði, og voru foreldri hans Björn prestur Brynjólfsson og Ingunn Grímsdóttir Einarssonar skikkjupeðs.

2) Börn Björns eru hèr rètt nefnd, Ólafur, Sigríður og Málmfríður, og skipti hann jörðum millum þeirra 1392; skyldi Ólafur hafa Stóru-Akra, en það virðist svo, sem Ólafur hafi dáið ungur og barnlaus, líklega í svarta dauða 1402, því Sigríður var nokkru seinna orðin eigandi Stóru-Akra og bjó þar; maður hennar var Þorsteinn hirðstjóri Ólafsson, sem hèr er með öllu ranglega nefndur son Ólafs Björnssonar, bróður Sigríðar. Þau Þorsteinn og Sigríður giptust 1408 í Hvaley á Grænlandi: það getur staðizt tímans vegna, að Gunnlaugur sýslumaður Magnússon hafi verið fyrri maður Sigríðar, og það kvað vera víst, að kona Gunnlaugs hafi heitið Sigríður Björnsdóttir, en hafi það verið fyrtèð Sigríður Björnsdóttir, þá hafa þau engin börn

Björn var mikill höfðingi og hefir, ef til vill, haft völd um tíma sem umboðsmaður, þó eigi hafi eg sèð rök fyrir því og fullyrði það því eigi heldur.

### Oddur Ásmundsson.

*Kvinna* hans var Guðlaug dóttir Finnboga gamla á Ási í Kelduhverfi[1].

*Börn:* A. Jón[2], faðir síra Ólafs föður Örnólfs, sem átti Kristínu, laundóttur Eiríks á Keldum Þorsteinssonar Helgasonar lögmanns, þeirra dóttir Halla, fyrri kona Björns Þorleifssonar lögmanns.

B. Ásmundur, hans son Oddur, hans son Ásmundur, hans son Oddur, hans son Rafn í Skörðum.

C. Helgi Oddsson á Stóruvöllum á Landi varð lögmað-

---

átt, er arf hafi tekið eptir Sigríði. Að Þorsteinn hirðstjóri Ólafsson hafi verið dótturson Þorsteins gamla Eyjólfssonar, er getgáta eintóm og án efa röng; það er langtum meiri ástæða til að álíta hann bróður Árna biskups milda og síra Þorkels Ólafssonar. — Málmfríður Björnsdóttir hefir líklega dáið líka í svarta dauða, eða þá ekkert afkvæmi átt eptir sig.

1) Sumir segja, að Finnbogi faðir Guðlaugar, konu Odds lögmanns, hafi verið Finnbogi lögmaður, og að Sturla Þórðarson á Staðarfelli, er átti Guðlaugu dóttur Finnboga lögmanns, hafi verið seinni maður hennar; en það hlýtur að vera rangt, því Finnbogi lögmaður gat varla hafa átt dóttur, er var orðin fulltíða 1456; hann giptist og 1467 Málmfríði dóttur Torfa hirðstjóra, og því 11 árum seinna, en Oddur varð lögmaður; það fær og eigi heldur staðizt tímans vegna, að Ormur lögmaður Sturluson hafi verið hálfbróðir Helga lögmanns Oddssonar.

2) Nokkrar ættartölur telja Ólaf föður Örnólfs, son Odds lögmanns og Guðlaugar, og sleppa Jóni. Kona Þorleifs lögmanns Pálssonar var Steinunn systir Kristínar, móður Höllu; hafi Björn því verið skilgetinn, og það segja ættartölur að hann hafi verið, þá hafa þau hjónin, hann og Halla, verið systrabörn. Að þau hefðu gipzt saman svona skyld, hefði verið ólíðandi í pápiskunni, en um siðaskiptin var lítið skeytt um það, þó hjón væru talsvert skyld.

ur sunnan og austan 1495 og helt Skaptárþing um hríð.

1432 getur þess, að Oddur Ásmundsson vitnaði um afhendingu Margrètar Eiríksdóttur, ekkju Benidikts Brynjólfssonar, og Magnúsar sonar þeirra á jörðunni Sjávarborg til Jóns biskups og Hólakirkju, sjá Húnavatns-þing.

1456 fèkk Oddur brèf Kristjáns konungs fyrir lögmannsembætti, hafði Torfi Arason hirðstjóri útvegað það, og galt Oddur með samþykki Guðlaugar Finnbogadóttur konu sinnar fyrir það Torfa 20 hndr. í Þorleiksstöðum í Blönduhlíð fyrir hans kostnað. — 1459 á Þingvelli vitnaði Oddur lögmaður Ásmundsson á Ökrum um kaupgjörning Björns hirðstjóra Þorleifssonar á jörðunni Norðtungu í Borgarfirði.

1466 tók Oddur lögmaður Ásmundsson eið af Sigríði Árnadóttur, að hún hefði fengið Jóni sýslumanni Ólafssyni hálfa jörðina Klofa, sem sonur hennar Árni Sæmundsson hafði deilt til; framfór það að stærrum Völlum. 1471 var Oddur lögmaður vitni, þá er Ólöf Loptsdóttir og Þorleifur son hennar seldu Magnúsi bónda Kross í Landeyjum. Líklegt þykir mèr, að Oddur hafi eptir 1440 haldið Þingeyjarþing, þá er Arnfinnur Þorsteinsson sleppti því, og haldið það fram yfir 1450, þó hann byggi á Ökrum[1]; þó er þetta óvíst, en ekki finn eg á þeim tímum annan líklegri þar til sýslumanns, en eg meina, að Arnfinnur tæki það eptir Finnboga gamla. Björn á Skarðsá telur Odd Ásmundsson lögmann sunnan og vestan árið 1480, en það ár tók Eyjólfur Einarsson við lögsögu; hefir því Oddur sleppt 1479 eða dáið um alþingistíma 1480, líkt og Halldór Ólafsson og Páll Vídalín lögmenn. Eg held, að Oddur Ás-

1) Að Oddur lögmaður Ásmundsson hafi nokkurn tíma búið á Stórökrum í Blönduhlíð, held eg ekki rètt. Torfi hirðstjóri Arason bjó þar, er Oddur varð lögmaður, og áður höfðu einlægt búið þar afkomendur Brynjólfs ríka Björnssonar, er getið var hèr að framan, en þegar Oddur varð lögmaður S. og A., hefir hann farið austur og búið á Stóruvöllum, þar bjó og Helgi lögmaður sonur hans, og voru Stóruvellir þá kallaðir Lögmannsvellir. Sjá um Odd lögmann lögmannatal Jóns Sigurðssonar.

mundsson hafi fengið ásamt lögmannsdæminu syðra sýslu í Skaptárþingi næst eptir Teit Gunnlaugsson að tilstuðlan Torfa riddara Arasonar, sem var óvildarmaður Teits. en sleppt þá Þingeyjarþingi eða litlu fyrri. og að hann hafi þar um tíma haft völd um og eptir 1440.

## Sigurður Guðmundsson.

*Faðir:* Guðmundur riddari og lögmaður 1302, sonur Sigurðar, lögmanns 1266 og 1292, Guðmundssonar.

*Kvinna:* Solveig dóttir Magnúsar Brandssonar á Svalbarði (sjá hèr að framan).

*Börn:* 1. Þórdís[1] fylgdi síra Þorkeli í Laufási Guðbjartssyni, þeirra börn:

a. Magnús sjá Vaðlasýslu.

b. Þorvaldur[2] átti Halldóru Narfadóttur Ketilssonar

---

1) Að Þórdís barnamóðir síra Þorkels, hafi verið dóttir Sigurðar lögmanns fær eigi staðizt tímans vegna: Sigurður lögmaður dó um 1380, sem hèr segir, og hefði Þórdís þá eigi getað verið yngri, en um sextugt, er hún og síra Þorkell bundu fèlag sitt. Magnús sonur síra Þorkels og kona hans, er var dóttir Eyjólfs riddara, hefðu þá og verið þriðja og fjórða, en hjón máttu eigi vera svo skyld í katólsku tíðinni. Um föður Þórdísar, sjá annars hèr að framan.

2) Að Þorvaldur, faðir Narfa þess, er hèr getur um, var Þorkelsson, er víst, en hitt tel eg óvissara, að sá Þorkell hafi verið síra Þorkell Guðbjartsson. Þó skal þess getið, að Magnúsi syni síra Þorkels var gjört að svara þriðjunginum af skuld þeirri, er síra Þorkell skuldaði Laufásstað, er hann fèll frá: hafa því líklega þrír synir síra Þorkels tekið arf eptir hann, Magnús, Ásgrímur og einhver einn til, en sem eg eigi veit, hver verið hefir; nokkrir telja Þorstein jökul son síra Þorkels, en bæði er hann af öðrum talinn Magnússon, enda virðist það koma betur heim við tímann, að hann hafi verið sonar-son síra Þorkels. Halldóra kona Þorvaldar er sögð föðursystir Erlendar sýslumanns Erlendssonar, en Narfi faðir Erlendar eldra, og þá hennar, var ekki Ketilsson, heldur Vigfúsarson, eptir sem sýnist Flosasonar, en það virðist samt auðsætt, að Erlendur

þeirra barn:
Narfi á Geirrauðareyri við Álptafjörð átti Þuríði dóttur Björns ríka, sjá Dalasýslu.
c, Ásgrímur Þorkelsson, hans son:
Jón sýslumaður í Eyjafirði, o. fl.
2, Guðni[1].

Sigurður[2] bjó á Svalbarða, og hygg eg, að hann hafi haft lèni hirðstjóra, líkast til Ívars hólms eða Ólafs Bjarnasonar. um Þingeyjarþing; hann varð lögmaður sunnan og austan 1358 eitt ár, og aptur 1376, 1377, 1378, var Sigurður þá gamlaður mjög og dó 1381[3].

## Herra Loptur Þórðarson[4] á Grund í Eyjafirði.

Hann átti Málmfríði Árnadóttur frá Aski í Noregi. er telzt að hafa hingað hrokkið frá Noregi með konu sína og mikið lausafè vegna óeyrða. Börn þeirra teljast:
1. Eiríkur[5] á Möðruvöllum, frá honum er ætt,

---

eldri, er bjó á Kolbeinsstöðum í Hnappadal, og þar að auki átti Ketil fyrir bróður, hafi á einn eða annan hátt verið kominn af herra Katli Þorlákssyni, er dó 1342. og þá líkast til verið dótturson hans.

1) Í mörgum ættartölum stendur, að son Sigurðar lögmanns hafi heitið Guðni eða Guðmundur, en hvergi er getið afkomenda hans. mætti vera, að hann hafi verið sá Guðmundur Sigurðsson, er annálar segja, að dáið hafi 1380.

2) Að Sigurður lögmaður hafi búið á Svalbarði, álít eg, sem fyr sagt, miður rètt.

3) Um Sigurð lögmann, sjá lögmannatal Jóns Sigurðssonar.

4) Loptur Þórðarson er áður nefndur. sjá og Vaðlasýslu; hann bjó ekki á Grund heldur á Möðruvöllum.

5) Loptur Þórðarson átti án efa engan son. er Eiríkur hèt, og hafi svo verið, hefir sá Eiríkur dáið barnungur; en auk Ingiríðar átti Loptur fleiri börn, en sem menn nú eigi geta rakið ættir til, og skal hèr nefna:
a, síra Halldór, sjá um hann tímarit mitt 4. B. Bls. 76—78.
Börn hans voru:
α, Ingiríður. β, Helga. γ, Setzelja.

2. Ingiríður, sem átti Eiríkur ríki Magnússon Brandssonar á Svalbarða; þeirra börn:
   a, Málmfríður, sem Björn Brynjólfsson átti.
   b, Margrèt, sem átti Benidikt Brynjólfsson, bróðir Björns.
   c, Sophía átti Guttorm Örnólfsson í Skógi og börn.
   d, Ingileif,
   e, Ragnheiður,
   f, Ása, frá þeim eru ekki ættir.

Það er tilgáta, að Loptur þessi hafi verið af ætt Hálfdánar Sæmundssonar og Steinvarar Sighvatsdóttur, sem átti Grund í Eyjafirði, hafi farið utan og orðið hirðmaður konungs og fengið herra nafnið, gipzt svo í Noregi, komið út og sezt á ættleifð sína. Eg held hann bróðurson Steinvarar, og að hann hafi haft sýsluumboð nokkurt, helzt þá er sýslumenn konungs voru í sínum utanferðum, sem þá var títt. 1312 tjáist Loptur Hálfdánarson að hafa dáið. Óvíst er, hvor þessara Lopta er meintur í máldaganum[1].

## Eiríkur Loptsson á Möðruvöllum[2].

Hann hefir verið höfðingi, orðið lögrèttumaður og máske haft eitthvert sýsluumboð í Vaðla- eða Þingeyjarþingi líkt og faðir hans; líkast er að hann hafi haft umboð herra Þórðar Hallssonar á Möðruvöllum í hans utanferðum og orðið eigi langlífur.

---

b, Bjarni.
c, Kolfinna, hún dó barnlaus.
d, Ingibjörg.
e, Þórður lg.
f, Björg lg.

Systur Lopts Þórðarsonar voru:
α, Sunnifa, β, Tófa.

1) Loptur sá, er nefndur er í Grundarmáldaga Auðunnar biskups, er án efa herra Loptur Hálfdánarson.

2) Þessi Eiríkur Loptsson ætti að falla burtu; Eiríkur Loptsson, er getið er í Grundarmáldaga Ólafs biskups, er Eiríkur, sonur Lopts ríka Guttormssonar.

**Eyjólfur bóndi á Urðum eptir 1300[1].**

Hann hefir verið auðmaður og höfðingi, líklega lögrèttumaður, og faðir Þorsteins, er seinna var hirðstjóri og lögmaður. Hann mun hafa verið Arnfinnsson og átt Ólöfu Björnsdóttur Þorkelssonar; móðir Eyjólfs mun hafa verið dóttir Þor-

1) Sjá um Þorstein lögmann Eyjólfsson tímarit mitt 2 B. bls. 115. Sumir hafa álitið, að faðir Þorsteins lögmanns hafi verið herra Eyjólfur Ásgrímsson, Þorsteinssonar úr Hvammi, en það virðist samt of langt millum herra Eyjólfs og Þorsteins lögmanns til þess, að Þorsteinn hafi getað verið sonur hans. Getgáta sú, er hèr finnst, um framætt Þorsteins lögmanns, er óneitanlega sèrdeilis sennileg, og er hún að líkindum mest byggð á ættartölubroti því, er stendur í Landnámu, er prentuð var í Kaupmannahöfn 1843, bls. 357; eg vil við þetta tækifæri geta þess, að þar stendur á næstu blaðsíðu á undan «Helgi rauðbekri» í staðinn fyrir: «Helgi úr Auðbrekku», og er bæði auðsèð, hvernig böndin í skinnbókinni hafa verið ranglega leyst, og líka er til eptirrit af ættartölu þessari, og þar stendur: «Helgi úr Auðbrekku». En svo sennileg, sem áður áminnzt getgáta er, þá er það þó athugavert, að í Auðunnar biskups máldaga stendur við Þönglabakka kirkju, að Eyjólfur Helgason hafi þá gefið til hennar hvaltíund af rekum þeim, er hann átti með Bakkalandi; sè nú hèr, eins og eg held, átt við Grýtubakkaland, því eg þekki ekkert annað Bakkaland nær, þá virðist þessi Eyjólfur Helgason að hafa verið faðir Þorsteins lögmanns, því Eyjólfur faðir Þorsteins átti einmitt um þær mundir Grýtubakka, sem ráða má af viðauka við Auðunnar biskups máldaga við Grýtubakka kirkju, eins og Þorsteinn lögmaður líka átti síðar þá jörð. Allir þessir langfeðgar, Eyjólfur, Þorsteinn, Arnfinnur, Eyjólfur riddari og Guðni sátu á Urðum hver eptir annan, og hafa þeir verið miklir auðmenn og fjarska duglegir og framkvæmdarsamir, eru og víst hvergi á landinu meiri leifar af fornum garðlögum, en í Svarfaðardal, en þeir munu og hafa verið miklir stórbokkar, og þaðan mun sá talsháttur í Norðurlandi kominn, að þegar mikill dugnaður og framkvæmdarsemi er í einhverri sveit, en þó meðfram stórbokkaskapur, segja menn: «að nú sè setinn Svarfaðardalurinn».

steins í Hammi í Vatnsdal og kallað son sinn eptir Eyjólfi, er fèll á Þveráreyrum.

Í Auðunnarmáldaga 1318 getur Árna bónda við Sauðanesskirkju, og í Jóns Skalla máldaga 1360 við tèða kirkju getur Steindórs[1] bónda, og aptur sama Steindórs við sömu kirkju 1394 í Pèturs máldaga, og enn nú sama Steindórs í Ólafs biskups máldaga 1461. Hvort tèður Árni og Steindór hafi haldið sýslu í Þingeyjarþingi eða annarstaðar, er mèr dulið, en líklegt er að þeir hafi verið auðugir stórbændur og dóms- eða lögrèttumenn.

**Arnfinnur son Þorsteins lögmanns og hirðstjóra,**

er var konungshirðmaður og sumir nefna riddara, hygg eg hafi haft sýsluvöld um tíma í Þingeyjarþingi eða Múla- eða Vaðlaþingi og 1416—1418 að nokkru hirðstjóraumboð[2]; bæði er óvissa um árin, og í hverri sýslu hann hafði þá eða þá vald, en bóndi kallast hann í ritum (Laugalands kirkjumáldaga Ólafs biskups Rögnvaldssonar[3] 1461, og víðar). Arnfinnur hefir lifað fyrir, um og eptir 1400; er eigi ólíklegt að hann hafi á þeim tímum völd haft.

---

1) Það er sama gjöfin, sem sagt er í Auðunnar biskups máldaga að Árni bóndi hafi gefið Sauðanesskirkju, og sem sagt er í seinni máldögunum að Steindór bóndi hafi gefið henni; Steindór virðist þannig í seinni máldögunum að vera misritað fyrir Árni.

2) Í brèfi nokkru til konungs, gjörðu á alþingi 1419, kallar Arnfinnur sig hirðmann foreldra hans (ɔ: Eiríks konungs af Pommern) og stendur hann þar fyrstur og lögmennirnir síðan næst á eptir honum, og þar á eptir Loptur Guttormsson og ýmsir aðrir höfðingjar, er þá voru uppi.

3) Sá Arnfinnur bóndi, er nefndur er í Ólafs biskups máldaga við Laugalandskirkju, er víst ekki Arnfinnur Þorsteinsson, heldur Arnfinnur Jónsson, er einnig getur í sama biskups máldaga við Bakkakirkju í Yxnadal, og til hans mun og mega rekja ættir; sjá Vaðlaþing.

### Eyjólfur Arnfinnsson.

*Faðir:* Arnfinnur hirðmaður konungs, og sumir kalla hann riddara, son Þorsteins lögmanns og hirðstjóra Eyjólfssonar frá Urðum.

*Kona:* Snjálaug dóttir Guðna sýslumanns Oddssonar Lepps lögmanns Þórðarsonar.

*Börn:* 1, Kristín, sem átti Magnús sýslumann Þorkelsson, sjá við Vaðlaþing.

2, Þorbjörg átti Árna[1] Þorsteinsson, höfðingja og auðmann mikinn; hún dó barnlaus.

3, Guðni átti Guðrúnu[2] Gunnlaugsdóttur frá Marðarnúpi, þeirra dóttir var Ólöf, er dó ógipt og barnlaus litlu síðar en Guðni faðir hennar (sjá Ísafjarðarsýslu).

4, Margrèt átti Rafn eldra Brandsson (sjá Húnavatnssýslu).

Eyjólfur var í förum líkt og faðir hans, þá er hann hafði aldur til, og í einni hans utanferð eptir 1420 gjörði Eiríkur konungur af Pommern hann að riddara, og var í merki hans hvítur fálki. Eyjólfur meinast að hafa haldið sýslu í Múlaþingi eptir eða um 1440, og í Þingeyjarþingi nálægt 1460, en í Vaðlasýslu um 1450, en stutta stund eða fá ár í hverjum stað,

---

1) Árni bjó í Fljótum og hèt bróðir hans Hallsteinn, er var ríkur maður; sumstaðar telst, að Magnús hafi heitið sonur Árna.

2) Guðrún átti, sem hèr segir, Guðna, er sumstaðar kallast Guðmundur, og var hann fyrri maður hennar, en seinni maður hennar var Jón lögmaður Sigmundsson, og var hún hans fyrri kona; Guðni og Guðrún áttu börn saman, er dóu barnlaus hjá Jóni og Guðrúnu, og erfði því Guðrún þau, og eins munu börn Guðrúnar og Jóns hafa dáið ung, en lifað þó móður sína, og Jón síðan erft þau. Við þetta varð Jón eigandi Urða og annars þess fjár, er Guðni hafði átt. Sumstaðar telst þó Einar, son Jóns, sonur Guðrúnar, en eigi Bjargar seinni konu hans, en það er skakkt. Gunnlaugur faðir Guðrúnar var son síra Þorkels Ólafssonar, bróður Árna biskups milda; hann bjó á Marðarnúpi í Húnavatnssýslu.

og hèlt þó í lènum sínum umboðsmenn. Oddur[1] Þorkelsson bróðir Magnúsar sýslumanns Þorkelssonar átti Guðrúnu Arnfinnsdóttur, systur Eyjólfs riddara; tèð Guðrún dó barnlaus 1463, kallaði þá Eyjólfur riddari til arfs eptir hana. Í fyrstu var Oddur tregur til að miðla arfinum, en þó sættust þeir Eyjólfur og Oddur þar um á Grýtubakka í Höfðahverfi 1463. Eyjólfur riddari var mikill auðmaður; bæði erfði hann mikið af jarðagózi (1 hndr. hundraða) með konu sinni, og fèkk sjálfur í arf mikið jarðagóz, keypti og þar að auki jarðir. Það sýnist sem Eyjólfur hafi verið spakmenni og ekki átt í deilum. Með vissu verða eigi talin þau ár, sem hann hèlt sýslur. Hann lifði fram yfir 1473, og er hans við getið við ýms tækifæri.

### Oddur Þorkelsson.

Sjá um hann við Vaðlasýslu[2]; hann var bróðir Magnúsar sýslumanns, er seinast bjó í Skriðu eptir lát Eyjólfs riddara. Oddur var lögrèttumaður og bjó á Grýtubakka, hafði og stundum umboð sýslumanna til þingstefnu, en eigi get eg með vissu sagt hvar eða hvenær. Oddur var og bóndi í gildara lagi og hafði fengið til ekta Guðrúnu systur Eyjólfs riddara.

Í Auðuns biskups kirkjumáldaga 1318 er og getið Guðmundar bónda við Höfðakirkju í Höfðahverfi; líka Jóns bónda við Grundarkirkju; Stígs bónda við Ljósavatnskirkju; Þorgríms bónda við Einarsstaðakirkju, og Halls[3] bónda við Núpufellskirkju. Hvort þeir hafi verið utan auðmenn eða umboðsmenn sýslumanna, er dulið. Þó getur verið, að Hallur á Möðruvöllum, sem átti Núpufell, og sem getið er í Sturlungu og Lárentíusar biskups sögu, sè hèr meintur.

---

1) Oddur Þorkelsson, er átti Guðrúnu Arnfinnsdóttur, var ekki sonur síra Þorkels Guðbjartssonar, nè bróðir Magnúsar sýslumanns Þorkelssonar.

2) Sjá og næstu athugagrein hèr á undan.

3) Að í máldaganum sè átt við Hall á Möðruvöllum, föður herra Þórðar, er ólíklegt, og það því heldur, sem þessu virðist seinna vera bætt við máldagann, en þó fyrir 1360. Þessi Hallur virðist því að hafa dáið millum 1318 og 1360.

Í Jóns biskups Skalla máldaga 1360 eru nefndir Arnbjörn[1] bóndi við Grýtubakkakirkju; Dálkur bóndi[2] við Reykjakirkju í Skagafirði og Bólstaðahlíðarkirkju í Húnavatnsþingi; en Sighvatur bóndi[3] við Sjávarborgarkirkju í Skagafirði; þessir eru mèr í ritum ókenndir, utan hafi Sighvatur, goðinn á Grund, haft meðgjörð fyrir miðja þrettándu öld með kirkju á Sjávarborg, hvers eg þó eigi sè að getið sè í Sturlungu.

Í Pèturs biskups máldaga 1394 við Möðruvallnakirkju er nefndur Eiríkur bóndi[4] (sjá um hann fyr). Við Grýtubakkakirkju er getið Eyjólfs bónda (sjá um Eyjólf riddara fyr); við Árskógs og Auðbrekku kirkjur getur Gunnars[5] bónda, hvaða stands maður hann var, hefi eg eigi getað uppgötvað. Um Hákon bónda Gissurarson og Jón son hans sjá Húnavatnsþing; þeirra er getið við Víðidalstungu og Ásgeirsár kirkjur. Við Gnúpufellskirkju getur Magnúsar bónda Runólfssonar; hann var stórbóndi og máske hefir um tíma haft eitthvert sýsluumboð. Við Silfrastaðakirkju getur Sigurðar bónda; það getur hafa ver-

1) Í máldaga Jóns biskups Skalla er Arnbjarnar getið við Gnúpskirkju í Miðfirði, en ekki við Grýtubakkakirkju.

2) Um Dálk bónda, sjá tímarit mitt 1. B. bls. 17. Dálkur átti og son, er Einar hèt. Auk Bólstaðahlíðar átti Dálkur Reyki í Tungusveit

3) Sighvatur, er getið er í máldaga Jóns biskups Skalla við Sjávarborgarkirkju, var uppi og sonur hans Jón líka 1377, þegar Jón biskup tók þar reikning kirkjunnar, en Sighvats er þar á móti eigi getið 1389, heldur að eins Jóns, er reikningur kirkjunnar var tekinn á ný, og hefir Sighvatur því þá að öllum líkindum verið dáinn. Jóns Sighvatssonar er víðar getið; þannig fylgdi hann ásamt með fleiri höfðingjum norðanlands Birni Jórsalafara 1394 til að stefna Þórði Sigmundssyni undir Gnúpi, og var þá með fleirum höfðingjum kosinn af Birni til að vera gjörðarmaður millum hans og Þórðar.

4) Eiríkur þessi, er Eiríkur Magnússon, faðir Sophíu og þeirra systra, móður Lopts ríka.

5) Gunnar þessi var Pètursson; hafði hann skipti við Jón Ólafsson á Auðbrekku og Hólum í Eyjafirði.

ið Sigurður lögmaður Guðmundsson, sem dó 1380; hann átti Solveigu dóttur Magnúsar Brandssonar á Svalbarða; hann meina eg hafi haft sýslu um hríð.

Í Ólafs biskups Rögnvaldssonar máldaga 1461 getur Arnfinns bónda[1] (eg meina Þorsteinssonar) við Laugalandskirkju; hans er fyr getið. Við Djúpadalskirkju getur Árna[2] Einarssonar og Einars Árnasonar feðga: þeir voru stórbændur og höfðu metorð, en ekki finn eg, að þeir hafi haft frá hirðstjórum sýsluvöld, þó getur verið, að þeir einhverntíma hafi haft umboð í Skagafjarðarsýslu. Árni Þorleifsson[3] í Glaumbæ, líklega son Þorleifs Árnasonar í Vatnsfirði; sá Árni fèll í Svíaríki af liði Kristjáns konungs fyrsta, og mun hafa haft sýsluvöld áður utan fór. Bessa bónda á Reykjum í Skagafirði geta og forn rit sem mikils manns, er hafði um tíma nokkur sýsluvöld.

Um Bjarna[4] bónda Ívarsson, er getið er í máldaga Glaumbæjarkirkju, veit eg ekkert að segja.

1) Sjá hvað hèr að framan er sagt um þennan Arnfinn.

2) Sjá tímarit mitt 1. B. bls. 53 og 54, og hèr síðar.

3) Árni Þorleifsson sá, er hèr getur, var sonur Þorleifs Árnasonar frá Auðbrekku, var kona hans Sophía, dóttir Lopts ríka Guttormssonar, og sonur þeirra Þorleifur, faðir Teits lögmanns Þorleifssonar: það var eigi þessi Árni, er fèll við Brúnkaberg í Svíþjóð 1471, heldur Árni, sonur Björns ríka Þorleifssonar og bróðurson nefnds Árna Þorleifssonar.

4) Bjarni þessi Ívarsson var fyrri maður Sophíu Loptsdóttur; þau Sophía áttu son, er Ormur hèt; um það, hver hafa skyldi fjárhald hans, gekk dómur 1482, gjörðu tilkall til fjárhaldsins Guðmundur prestur Skúlason, Árni Þorleifsson og Páll Brandsson, en hvorki erfingi Orms nè nokkur annar, er honum stóð nær, var álitinn að hafa nægar vörzlur, fyrri en þær systur Ingibjörg og Guðríður Þorvarðardætur, og skyldu því umboðið hafa vegna kvenna sinna Páll Brandsson og Erlendur Erlendsson. Húsfrú Margrèt Vigfúsdóttir hafði sezt í arfinn og beiðzt dóms um fjárhaldið, og það virðist beinlínis benda á, að Ívar, faðir Bjarna, hafi verið Ívar Vigfússon bróðir Margrètar, sjá Árbækurnar við árið 1482, en þar er skakkt sagt frá því, hverj-

Brandur Jónsson[1] á Hofi á Höfðaströnd varð lögmaður um 1454 og sleppti lögsögn 1479; hann hafði og sýsluvöld norðanlands.

1417 keypti Brandur[2] bóndi Halldórsson Barð í Fljótum. og varð um það seinna mikil þræta millum Hóla biskups og Brands og niðja hans. Brandur var stórbóndi, lögrèttumaður og eg meina, að hann hefði stundum sýsluumboð nokkurt. Á yngri árum var Brandur í förum í Grænlandi 1408—9 og svo í Noregi; hann var faðir Rafns lögmanns í Skriðu.

Einar bóndi Árnason var sýslumaður 1454 í Þingeyjarþingi (sjá hèr síðar um hann) og meinast son Árna í Djúpadal. er áður er getið.

Áður er áminnzt um Eirík Loptsson við Grundarkirkju og eins minnzt á Eyjólf riddara Arnfinnsson við Grýtubakka og Urða kirkjur.

Gríms bónda Pálssonar er getið við Möðruvallakirkju 1461, hefir hann þá verið ungur; hann varð seinna sýslumaður í Þingeyjarþingi, en löngu fyr var hann lögrèttumaður.

Halldór Brandsson á Barði var lögrèttumaður. átti Barð og komst í mál við Ólaf biskup[3].

Hákon Gissurarson og Jón Hákonarson, bændur í Víðidalstungu; á þá verður seinna minnzt, sjá Húnavatnsþing.

Um Jón[4] bónda við Lundarbrekkukirkju veit eg ekkert. Magnús bóndi Benidiktsson, sonar Brynjólfs ríka, var auðugur maður og höfðingi, líklega hefir hann verið lögrèttumaður og máske stundum lögsagnari, en eigi veit eg víst um völd hans.

Hvaða Jón Sigmundsson það hefir verið, sem getur um í

---

um fjárhaldið var dæmt. Það virðist sem Ormur hafi átt dóttur, er Narfi Sigurðsson átti; er ætt frá þeim Narfa, en í ættartölum er honum slengt saman við Narfa ábóta Ivarsson.

1) Um Brand lögmann Jónsson sjá lögmannatal Jóns Sigurðssonar.

2) Um Brand Halldórsson sjá tímarit mitt 1. B. bls. 50.

3) Hann var sonur Brands Halldórssonar, er fyr var getið.

4) Ár 1461 á Vindheimum í Hörgárdal seldi Jón Jónsson Jóni Sigmundssyni hálfa Lundarbrekku. Jón þessi Sigmundsson kemur víðar fyrir í brèfum.

Lundarbrekkukirkju máldaga Ólafs biskups 1461, veit eg eigi.

Magnús bóndi Runólfsson[1], er um getur við Laugalandskirkju máldaga 1461, hygg eg bróður Páls, er fyrir og eptir 1400 hafði sýslu í Múlaþingi og Höskuldar í Eyjafirði sýslumanns, sem skipti eptir Lopt ríka 1437 sem fyrirliði. Þessi Magnús hefir líklega verið lögrèttumaður og stórbóndi.

Um Odd bónda Þorkelsson er áður sagt, en um Sigurð[2] bónda á Svalbarðsströnd veit eg ekki nè um Orm[3] bónda við Víðidalstungukirkju.

Páll Brandsson hafði um tíma sýslu í Vaðlaþingi og átti Hof á Höfðaströnd.

Skúli son Lopts ríka hafði sýslu um tíma í Húnavatnsþingi.

Sumarliði bjó á Grund eptir föður sinn Eirík, hans son var Eiríkur prestur, sem átti arfaþrætu við Finnboga lögmann. Sumarliði hygg eg hafi verið lögrèttumaður[4].

Þorleifur Árnason í Glaumbæ, líklega son áðurnefnds Árna í Glaumbæ, hefir verið stórbóndi og líklega lögrèttumaður: hann var faðir Teits lögmanns, sem missti fè sitt til Jóns biskups og Rafns lögmanns.

Óljóst er mèr, hver Þorsteinn[5] Magnússon það er, sem máldagi Holtskirkju í Fljótum getur um.

---

1) Faðir Magnúsar var Runólfur Sturluson; hann seldi Magnúsi syni sínum Laugaland 1442.

2) Sjá um Sigurð Björnsson hèr að framan.

3) Ormur sá, sem þar er nefndur, er Ormur Loptsson, maður Solveigar Þorleifsdóttur, er erfði Víðidalstungu eptir föður sinn Þorleif Árnason, en Þorleifur hafði keypt hana hálfa af Sveini Bergþórssyni manni Guðnýar, dóttur Jóns Hákonarsonar, en hina hálflenduna hefir Þorleifur fengið hjá Þorleifi bónda Marteinssyni, er erft hafði hana eptir dóttur sína Margrèti, er gipt hafði verið Helga Jónssyni, bróður Guðnýar.

4) Sveinn var og sonur Sumarliða, hann átti Guðríði dóttur Finnboga lögmanns, sem síðar segir.

5) Þorsteinn þessi var sonur Magnúsar Jónssonar, er verið hefir ríkismaður. Þorsteinn giptist 1427 Ólöfu Árnadóttur

## B.
## Sýslumenn.
### Rafn Guðmundsson[1].

*Faðir:* Guðmundur líklega Arason Guðmundarsonar Arasonar Ingimundarsonar, er var son Jóns Brandssonar og Steinunnar dóttur Hvamms-Sturlu Þórðarsonar; en móðir Steinunnar var Ingibjörg dóttir Þorgeirs í Hvassafelli Hallssonar og Hallberu dóttur Einars Arasonar á Reykhólum. Þorgilssonar Arasonar Mássonar, er getur í Landnámu. Þetta er ritað eptir líklegri getgátu Espólíns hins fróða. Þorbjörg, sem átti Guðna, son Odds lögmanns Lepps, var systir Rafns lögmanns: einnig var Ari[2] á Reyk-

---

Einarssonar (hún kallast í ættartölum sumum ranglega Vigdís), og hafði hann til kaups við Ólöfu 2 hndr. hundraða, þaraf gaf Magnús faðir haus honum 60 hndr., Loptur ríki Guttormsson 60 hndr., og Ingunn Árnadóttir, kona Magnúsar og stjúpa Þorsteins, 1 hndr. hundraða og þar á meðal Holt í Fljótum; en Árni gaf dóttur sinni, með því er hún hafði erft eptir móður sína, 1 hndr. hundraða. Son Þorsteins og Ólafar hèt Vigfús, hans sonur Helgi, og sonur Helga Brandur, er kallaður var Fljóta-Brandur, var hann merkismaður og má rekja ættir upp til hans. Þorsteinn þessi kallast í sumum ættartölum Svartur, og hefir það verið viðurnefni hans, en eigi má blanda honum saman við Þorstein Svart Hallsson.

1) Hannes biskup, sem var hinn fróðasti maður í sögu landsins, hefir álitið, að Rafn lögmaður Guðmundsson hafi verið bróður- eða systurson Rafns lögmanns Bótólfssonar, en Rafn Bótólfsson var dótturson Glaumbæjar-Rafns, er var sonarson Rafns hirðstjóra Oddssonar, en Rafn Oddsson var dótturson Rafns Sveinbjarnarsonar á Eyri (Rafnseyri); sjá um Rafn lögmann Guðmundsson lögmannatal Jóns Sigurðssonar.

2) Ari var tvígiptur og var seinni kona hans Þorgerður Ólafsdóttir, þeirra dóttir Ólöf, er Sumarliði Loptsson átti; laundóttir Ara hèt Oddfríður, hún var tvígipt, hèt fyrri maður hennar Halldór Jónsson, en hinn seinni Hákon Jónsson, voru þeir báðir maktarmenn á Vestfjörðum. Þorgerður Ólafsdóttir gipt-

hólum, sem átti Ólöfu, dóttur Þórðar undir Núpi í Dýrafirði 1394, bróðir þeirra; son Ara og Ólafar var Guðmundur[1] ríki á Reykhólum, af hverjum Einar og Björn synir Þorleifs Árnasonar og Vatnsfjarðar-Kristínar höfðu aleigu 1442 eða 1443, sjá hèr um fremur Strandasýslu.

*Kona* Rafns var Margrèt[2] Bjarnadóttir Ólafssonar hirðstjóra um 1350 Bjarnasonar.

*Börn*: 1. Guðrún átti Ólaf, launson Lopts ríka Guttormssonar.

2. Ragna átti Brand Halldórsson á Barði, sjá Vaðlaþing.

Það er eigi ólíklegt, að Rafn hafi haldið Þingeyjarþing sem sveinn hirðstjóra fyrir, um og eptir 1400, því hann var orðinn maktarmaður 1400; hann bjó í Skriðu. Misklíð nokkur gjörðist millum Rafns og Ara bróður hans út af arfaskiptum eptir Guðmund föður þeirra, sem dó í plágunni; reið þá Rafn á Reykhóla með marga menn 1403. Sættust þeir Ari og Rafn bræður þar þá um fjárskiptin Nálægt þeim tíma virðist Rafn hafa sleppt Þingeyjarþingi en tekið Vaðlaþing, sjá betur þar um hann. Rafn gjörðist lögmaður norðan og vestan 1409 eða fyr, um 1403. Aptur meina eg, að hann tæki Þingeyjarþing um 1430, því 1431 lèt hann dóm ganga um vogrek á Harðbak á Sléttu eptir lögbók; en Jón biskup Vilhjálmsson dæmdi Hólakirkju vogrekið, þar hennar eign væri jörðin. Biskup bannsetti síðan Rafn lögmann fyrir dóminn. Eigi gaf Rafn sig að heldur; árið eptir eða 1432 dó Rafn, en frú Margrèt gaf þá biskupi Hóla í Laxárdal, svo biskup lèt syngja sálumessur og leysti líkama og sálu Rafns úr banni.

---

ist aptur Birni nokkrum Jónssyni, einnig maktarbónda. Þórður Sigmundsson, faðir Ólafar fyrri konu Ara, átti dóttur Gísla Svartssonar á Reykhólum, er var bróðir Þorleifs Svartssonar, er þar var og; hafa þeir bræður Svartssynir átt Reykhólana.

1) Um Guðmund ríka, sjá Húnavatnssýslu.

2) Kona Rafns lögmanns Guðmundssonar hèt Margrèt Bjarnadóttir; lifði hún mann sinn og hefir sjálfsagt verið komin af miklum mönnum.

## Finnbogi gamli Jónsson.

*Faðir:* Jón[1] í Axarfirði, sem vegna hæðar sinnar var kallaður Langur og var uppi fyrir, um og eptir miðja fjórtándu öld. Eigi er fullvíst, þótt margir meini, að hann hafi verið sonur Sveins Langs. Óvíst er og, hvort hann hafi verið sá Jón Langur, sem fèll í Grundarbardaga 1461, því það getur eigi komizt heim við tímann, og það er ólíklegt.

Hver móðir eða kona[2] Finnboga var, finn eg eigi.

*Börn:* A. Þórunn, sem fylgdi að lagi síra Jóni Pálssyni, sjá hèr síðar.

B. Þórdís: hennar maður telst Þórður, faðir Sveinbjarnar officíalis í Múla, er dó 1490. Hann tjáist að hafa átt með ýmsum kvennmönnum 50 börn, sem hann meðkenndist, auk hálfrefa. 1431 var Sveinbjörn djákn að vígslu og hafði umboð Jóns biskups Vilhjálmssonar til að veita staði og annað í Þingeyjarþingi. 1432 er hann prestur. 1440 hèlt hann Múlastað. 1463 var hann orðinn officíalis og var það til þess að hann dó. Af börnum hans voru helzt:

a. Hallgrímur bóndi á Egilsstöðum í Vopnafirði, þar af eru fjölmennar ættir enn þá.

b. Sigurður faðir Helgu, sem hèlt við Jón biskup Arason, þar af er mikill ætthringur; af

c. Þorsteini og d. Árna eru og ættir[3].

---

1) Sjá hèr að framan.

2) Kona Finnboga hèt Margrèt Höskuldsdóttir: 1440 seldi Finnbogi með samþykki tèðrar konu sinnar Halli syni sínum ½ Nes í Laufássókn og ½ Byrgi í Kelduhverfi, en Finnbogi hefir þá verið orðinn afargamall, þó varla eldri en áttræður, og eigi er víst, að hún hafi verið móðir barna hans.

3) Fleiri eru börn síra Sveinbjarnar nefnd en þetta, en menn munu varla geta rakið nú ættir frá fleirum þeirra ofan til nú lifandi manna en frá Hallgrími og Sigurði.

C. Jón[1], kallaður lögmaður, hans son, meðal annara, Sæmundur; hans synir: a. Jón, b. Páll og fleiri.
D. Oddur (sjá Húnavatnsþing), hans synir: 1. Þorgrímur, 2. Halldór, 3. Erlendur, 4. Jón.
E. Guðlaug, kona Odds lögmanns Ásmundssonar (sjá hèr að framan), barn: Ólafur, hans son Örnúlfur.
F. Gísli, hans son Finnbogi, hans son síra Gísli[2].
G. Hallur á Vindheimum, hans son Hákon[3].
H. Járnbrúnn, hans dóttir Inga.
I. Arnfinnur[4].

Finnbogi bjó í Ási í Kelduhverfi og þótti höfðingi. Óvíst er, nær hann tók Þingeyjarþing, en 1406 var hann í skiptum eptir Loga prest, meinast hann þá hafa haft sýslu í Þingeyjarþingi. 1415 hafði Finnbogi mikil jarðaskipti. 1418 gefur Árni biskup mildi, laugardaginn fyrir allraheilagramessu að Ási í Axarfirði, Finnboga Jónssyni, sveini sínum, kvittunarbrèf fyrir 60 hdr., sem Finnbogi átti að lúka biskupi, er þá

1) Kona Jóns var Steinunn dóttir Arnfinns Þorsteinssonar. Eg hef ekki sèð í ættartölum honum eignuð fleiri börn en Sæmund, og Sæmundi eigi fleiri en Jón og Pál. Þó tel eg það víst, að þeir bræður Arnfinnur og Finnbogi Jóns synir hafi verið synir Jóns og konu hans Steinunnar Arnfinnsdóttur, og hafa þeir heitið eptir öfum sínum: Arnfinns hefur hèr verið getið fyr, og varð hann sýslumaður í Vaðlaþingi, en Finnbogi átti Margrètu dóttur Halldórs Brandssonar á Barði, og voru þeirra börn Jón, Regna og Una, og giptust þau. Það gæti og verið, að sonur Jóns Finnbogasonar hafi enn verið sá Halldór Jónsson, er 1469 seldi Eyjólfi riddara Arnfinnssyni, bróður Steinunnar konu Jóns, Brimnes í Svarfaðardal, því Jón Finnbogason hafði fengið það 1441 hjá síra Jóni Pálssyni.

2) Dóttir þessa síðara síra Gísla telst af sumum Guðrún, móðir Steinunnar Guðbrandsdóttur biskups, móður Þorláks biskups Skúlasonar.

3) Hákon var faðir Gísla á Hafgrímsstöðum, föður Árna á Hlíðarenda og þeirra bræðra.

4) Árni telst enn fremur son Finnboga í fornum ættartölubókum, en varla Arnfinnur, og dóttir Árna Inga.

var og hirðstjóri, og tekur svo til orða: «han hefur blivet í voru fullo og öllo minne»: meinast það að hafa verið gjald af lènum Finnboga. og því kalli Árni, sem var hirðstjóri og biskup, hann «svein sinn». 1430 framfór úrskurður Ara prests Þorbjarnarsonar officíalis, millum Jóns biskups Vilhjálmssonar og Finnboga gamla í Ási um biskups gistingu. Finnbogi mun hafa sleppt sýslu áður en hann dó. Hann varð mjög gamall og hefur lengi haft völd þar nyrðra.

## Einar Árnason[1].

*Faðir:* Árni Dalskeggur Markússon.

---

1) Sjá tímarit mitt um þennan Einar I. B. bls. 53 og 54 og víðar hèr að framan; hann var bróðir Ólafar konu Þorsteins Magnússonar, er áður er getið, og var faðir þeirra Árni Einarsson. Frá börnum Einars niður til nú lifandi manna munu menn varla geta rakið, utan Eyjólfi lögmanni. Annars er þessi ætt í ættartölubókum nokkuð ógreinilega rakin, og að nokkru leyti sumstaðar miður rètt. Síra Jón Ólafsson rekur hana þannig:

Börn Einars Árnasonar:

I. Eiríkur (rangt, fyrir: Eyjólfur) lögmaður (o. s. frv.).
II. Björn Einarsson (o. s. frv.).
III. Árni Einarsson.
IV. Hálfdán Einarsson, hans son
 a. Einar Hálfdánarson á Arnbjargarbrekku.
 b. Ketill Hálfdánarson, hans son Einar Ketilsson.

Dætur Einars:

1. Ingibjörg, kvinna Einars Árnasonar, son Gísli, hans synir
 a. Einar Gíslason.
 b. Árni Gíslason.
 (Önnur ættartölubók mjög gömul hefur þetta þannig: 1. Ingibjörg, hennar dóttir Ingunn, hennar son Gísli o. s. frv.).
2. Helga Einarsdóttir, átti Magnús Jónsson (o. s. frv.).
3. Bessi Einarsson, bróðir Ingibjargar og Helgu (o. s. frv.).
4. Hallgrímur Einarsson.

Þótt þessi ættartala sè eigi með öllu rètt, er hún þó

*Börn:* A. Bessi, sýslumaður í Húnavatnsþingi, sjá þar um hann.

B. Eyjólfur lögmaður; hans son Einar, er átti Hólmfríði Erlendsdóttur; börn: α Eyjólfur í Dal átti Helgu, dóttur Jóns biskups Arasonar, β Sesselja[1], γ Guðríður[2].

C. Björn, hans dóttir Þuríður, hennar dóttir Herdís.

D. Hálfdán, hans son Einar á Arngerðarbrekku, hans son Ketill[3], hans son Einar, hans börn: Ingibjörg, Helga, Bessi, Hallgrímur.

1454 hefur Einar tekið að Grenjaðarstöðum í Þegjandadal svarinn vitnisburð Þorsteins Oddssonar, að Þorsteinn nokkur Einarsson hafi fyrir 10 árum fest Björgu Guðmundsdóttur. 1457 er þess getið, að Einar hafði konungsumboð í Þingeyjarþingi (Árb. 2. þ. bls. 53)[4]. Óljóst er, hve nær eða hve lengi hann hèlt Þingeyjarþing eða hvort hann var annað en lögrèttari en það, sem hèr stendur. Það er, eptir máldögunum, enginn vafi á því, að Eyjólfur, Björn og Árni Einars synir voru bræður; líka hefur 4. bróðirinn heitið Hálfdán, þótt máldagar Djúpadalskirkju nefni hann ekki, er kemur víst til af því, að hann eigi hefur fengið nokkuð í þeirri eign; þetta sèst af því, að 1495 í Dal í Eyjafirði lofaði Þorlákur Þorsteinsson Sigríði Þorsteinsdóttur, að láta af hendi alla hálfa peninga, er fèllu til arfs eptir Árna Einarsson, bónda Sigríðar, Einari Hálfdánarsyni, því Þorlákur reiknaði sèr umboð Einars: Sigríður lofaði aptur á móti, að láta allt framkoma til skoðunar, er í hennar vörzlum var. Eins og hèr er sagt, voru þau og systkyni Bessi Einarsson og Helga Einarsdóttir, en faðir þeirra var ekki Einar Árnason, heldur Einar Bessason, og systkyni þeirra munu þau Ingibjörg og Hallgrímur hafa verið (sjá Húnavatnsþing).

1) Sesselja átti Markús Jónsson skafins, og er ætt frá þeim.

2) Guðríður dó ógipt, barnlaus.

3) Ketill var Hálfdánarson og bróðir Einars, sem fyr segir.

4) Af vitnisbrèfi um fyrnefnda eiðtöku virðist, sem Einar eigi hafi haft sýsluna 1456, og að hann þá hafi verið búinn að sleppa henni.

sagnari. 1437 eða 1436 var Einar í skiptum eptir Lopt ríka, líklega þá orðinn sýslumaður.

**Rafn lögmaður Brandsson Halldórssonar**

(sjá Húnavatnsþing) mun hafa haldið allt eða hálft Þingeyjarþing 1460.

Það er auðsèð, að frá því landið kom undir konung og til þess Finnbogi Maríuskáld tók Þingeyjarþing, hafa margir þar verið sveinar höfuðsmanna, sem eg hefi enga vissu fyrir, og ekki ólíklegt lögmennirnir, báðir Brandarnir og Rafnarnir, hafi haft um hríð Þingeyjarþing, máske í lögmannslaun; líklegt er og, að höfðingjar Eyfirðinga (sjá Vaðlaþing) hafi Þingeyjarþing haldið af hirðstjórum, en merkilegasti sýslumaður, sem eg hefi fulla vissu um, er

**Finnbogi Jónsson.**

*Faðir:* Jón prestur á Grenjaðarstað, sonur Páls[1] sýslumanns, er var í hirðstjóra stað 1392 til 1403, er hann dó, Þorvarðssonar á Eyðum. Jón prestur var mjög merkilegur maður í sínu standi og ríkmenni, sem hann átti kyn til, vil eg því hèr rita stutt æfiágrip hans.

Jón prestur var ungur, þá er hann tók Þórunni dóttur Finnboga gamla í Ási sèr til fylgilags.

Börn þeirra, er til aldurs komu, voru:

A. Brandur[2] lögmaður (sjá Vaðlaþing).
B. Finnbogi lögmaður.
C. Hallbera.
D. Guðný.
E. Hallur[3] á Vindheimum.

---

1) Páll, faðir síra Jóns, getur naumast hafa verið Páll Þorvarðarson á Eyðum, eða síra Jón Pálsson verið bróðir Ingibjargar konu Lopts ríka, því meðal annars hefðu þá hjónin Sveinn Sumarliðason og Guðríður dóttir Finnboga lögmanns verið þriðja og fjórða, og eigi mátt eigast.

2) Um framætt Brands lögmanns Jónssonar sjá tímarit mitt 3. B. bls. 52.

3) Hallur, langafi Árna Gíslasonar á Hlíðarenda, var sonur

Um 1405 gjörðist Jón prestur Hólastaðar ráðsmaður. Jón biskup Tófason skipaði Hólakirkju jarðirnar Valþjófsstaði og Arnarstaði í Núpasveit, og tjáir Jón prest Pálsson hafa lúkt sèr þær fyrir það, sem hann hafi brotlegur orðið; framfór það 1419. Hólastaðar ráðsmaður er Jón prestur 1420, og þá var það, sem Enskir í yfirgangi sínum börðu hann. Nálægt þessum árum mun hann hafa farið utan, og fengið erkibiskups brèf fyrir Grenjaðarstað. 1423 var hann enn Hólakirkju ráðsmaður, og Jón biskup setti hann fyrir officíalem 1427, en það umdæmi afhenti hann Jóni biskupi Vilhjálmssyni 1429, og tók þar fyrir fulla kvittun, hèlt þó um þessar mundir jafnframt Grenjaðarstað. 1430 var óvild millum Jóns biskups Vilhjálmssonar og síra Jóns; reið hann þá á prestastefnu með 30 menn tíaða, en hvort hann hefir gjört það af stórmennsku eða að hann hefir verið hræddur við ofríki biskups, er óljóst. Fyrir þetta hótaði biskup honum banni, tók af honum Grenjaðarstað og veitti hann síra Þorkeli Guðbjartssyni, bauð og að taka eigur Jóns prests, hvar sem næðust; þar eptir sættust þeir biskup og prestur, og borgaði síra Jón nokkuð biskupi. 1437 var Jón prestur enn á Grenjaðarstað og þá officíalis og ráðsmaður Gottskálks biskups, sættist þá og við Þorkel prest Guðbjartsson um fjárupptektir o. fl. 1448 gaf Gottskálk biskup Jóni presti kvittunarbrèf fyrir officíalstarfi, ráðsmennsku Hólakirkju og prófastsdæmi í

---

Finnboga gamla í Ási, sem fyrr er sagt, en eigi síra Jóns Pálssonar. Hallbera Jónsdóttir hèt kona Vigfúsar Þorsteinssonar Magnússonar, er hèr að framan hefir verið nefndur, og Hallur Jónsson, er Vigfús seldi jörð 1468 með samþykki tèðrar konu sinnar, getur vel hafa verið bróðir hennar, enda virðist ekkert geta verið móti því tímans vegna, að þau hafi verið börn síra Jóns Pálssonar, heldur er það sennilegt, fyrst honum í gömlum ættartölum eru eignuð börn með þessum nöfnum, það var og títt opt í fyrndinni, að ættingjar skiptust jörðum eður seldu þær fremur þeim en öðrum.

Skagafirði, samþykkti og brèf Áskells erkibiskups, er hann hafði gefið Jóni presti fyrir Grenjaðarstað. 1455 hafði Jón prestur jarðakaup nokkur. 1458 gjörðist hann enn officíalis eptir dauða Gottskálks biskups, en sleppti því starfi, þá er Ólafur biskup Rögnvaldsson var kominn til stólsins 1468, tók þar fyrir kvittun biskups. Jón prestur hafði tekið undir sig að nýju Valþjófsstað, og hèlt Þórunn fylgikona hans staðinn sem sína eign, þar fyrir stefndi Ólafur biskup Þórunni Finnbogadóttur, og lèt á prestastefnu 1464 á Eyrarlandi dæma jörðina eign Hólakirkju. Eigi kom Þórunn eða nokkur frá henni á tèða prestastefnu; sendi því biskup Ólaf prest í Húsavík að lesa dóminn fyrir henni; var hún þá á Grenjaðarstað með Jóni presti; en er Ólafur prestur kom þangað og hóf að lesa brèfið þar á hlaðinu, bar þeim Jóni presti nokkuð á milli; kærði Ólafur prestur síðan fyrir biskupi, að Jón prestur Pálsson hefði tekið til sín og viljað ná af sèr brèfinu og blótað sèr, en Þorgils Gunnlaugsson hefði þrifið í brèfið og rifið úr höndum sèr og slitið í sundur og haft með sèr mestan hlutann. Fyrir þetta bannfærði biskup Þorgils, en forboðaði Finnboga, son síra Jóns og Þórunnar, er tilstyrkt hafði með föður sínum, bannaði og messusöng að Grenjaðarstað, og lèt ákæra seinna þann, er braut þar á móti. Ekki gaf Jón prestur sig að heldur, og stóð svo um hríð; skarst þá Páll sýslumaður Brandsson[1], sonarson Jóns prests, í málið og lögðu þeir biskup mót með sèr á Röðugrund í Skagafirði, var Páll fyrir hönd afa síns og handabandaði biskupi Valþjófsstað og þar að auki 40 hndr., (sumir segja 60 hndr.), einnig að gjöra biskupi sæmilega veizlu

1) Það er því nær óskiljanlegt, að menn skuli hafa álitið, að síra Jón Pálsson hafi verið bróðir Ingibjargar Pálsdóttur, konu Lopts ríka, og Brandur lögmaður sonur síra Jóns, ef svo hefði verið, hefðu þau hjónin Páll Brandsson og Ingibjörg Þorvarðardóttir verið þrímenningar, en hjón máttu í katólsku tíðinni eigi vera svo skild.

og útleiða hann með gjöfum; þar á móti lèt biskup koma niðurfall á sökum og fullkomna kvittun Jóni presti og hans fólki til handa; framfór þetta 1468. Þar eptir lifði síra Jón í næði, uns hann dó 1471 eða 1472.

*Móðir* Finnboga var Þórunn Finnbogadóttir áður nefnd.

*Kona* Finnboga var Málmfríður dóttir Torfa riddara og hirðstjóra Arasonar (sjá Hegranesþing og hans testamenti hèr á eptir). Finnbogi taldi sèr til giptingar 4 hndr. hndr., en húsfrú Kristín Þorsteinsdóttir Ólafssonar taldi dóttur sinni 2 hndr. hndr., var kaupmálinn gjörður á Ökrum, en brèfaður á Grenjaðarstað næsta dag fyrir Andresarmessu 1467.

*Börn:* A. Þorsteinn sýslumaður (sjá hèr seinna).

B. Sigurður sýslumaður (sjá Hegranesþing).

C. Jón, varð príor á Möðruvöllum 1524, dó 1547. 1494 er ritað, að hann hafi tekið Grenjaðarstað og haldið til þess að hann gjörðist príor. 1522 nefnist hann officialis. Sumar ættartölur segja, að síra Torfi í Saurbæ og Málmfríður hafi verið þessa Jóns príors börn, en aptur Sigurður, Erlendur og Arngrímur hafi verið börn síra Jóns í Laufási. Börn:

1. Sigurður átti Þorgerði dóttur Þorleifs á Möðruvöllum sýslumanns Grímssonar (sjá Vaðlaþing); hann nefnist í ættartölum klausturhaldari á Möðruvöllum; hans börn:
   α. síra Jón í Laufási.
   β. Finnbogi.
   γ. Ísleifur.
   δ. Sigríður[1].
2. Erlendur á Æsustöðum í Langadal.
3. Arngrímur faðir Jóns lögrèttumanns í Húnaþingi.

---

1) Sigríður var húsfrú Ólafs biskups Hjaltasonor; hún tók fram hjá honum og átti barn með Bjarna, sveini biskups, syni Smíða-Sturlu.

D. Síra Jón[1], er hèlt Laufásstað 36 ár; gjörðist 1520 officialis, en 1538 lèt Jón biskup Arason dæma hann frá Laufásstað, og veitti þá Ólafi Hjaltasyni staðinn; þessi síra Jón var launson Finnboga. Börn:

1. Síra Torfi í Saurbæ í Eyjafirði; hann hèlt við Þórunni, er fyrst átti barn með Ara lögmanni, er hèt Elín og dó ung, hèlt svo við síra Halldór[2], og þar eptir við síra Torfa áður nefndan. Síra Torfi missti Saurbæ, þar eð hann eigi vildi taka hinn nýja sið. Börn:
   α. Málmfríður, kona síra Björns Gíslasonar[3].
   β. Geirdís fyrri kona síra Odds[4] Þorsteinssonar.
   γ. Arnfríður átti launbarn með síra Oddi, giptist svo Halli[5].
   δ. Pètur.
   ε. Einar.
   η. Játgeir.
   ϑ. Finnbogi.

---

1) Það eru margir, er álíta þennan síra Jón í Laufási, sem Jón biskup Arason tók Laufás af og veitti síra Ólafi Hjaltasyni, sama mann og Jón príor, og telja þeir, að Finnbogi lögmaður hafi eigi átt fleiri sonu, er Jón hafi heitið, en Jón príor, og eigna því Jóni príor öll þessi börn, sem hèr eru eignuð bæði honum og síra Jóni í Laufási. Aðrir aptur, er láta Jónana hafa verið tvo, telja síra Jón í Laufási laungetinn og föður Sigurðar, Erlendar og Arngríms, en Jón príor föður síra Torfa og Málmfríðar, og það er, án efa, hið rètta.

2) Sonur Þórunnar og síra Halldórs Benidiktssonar var Benidikt ríki á Möðruvöllum.

3) Síra Björn var bróðir Árna Gíslasonar á Hlíðarenda og faðir Hákonar föður Guðmundar sýslumanns Hákonarsonar á Þingeyrum.

4) Síra Oddur var launson Þorsteins Guðmundssonar, seinasta manns Þórunnar Jónsdóttur biskups Arasonar.

5) Maður Arnfríðar var Hallur skáld Magnússon.

2. Málmfríður átti síra Illuga Guðmundsson í Múla. Börn:
α. Síra Þorsteinn.
β. Ingjaldur.
γ. Jón á Laugum.

E. Guðríður átti Svein Sumarliðason, Eiríkssonar Slónefs Loptssonar ríka (sjá Vaðlaþing); þau giptust á Grund í Eyjafirði um 1485; þá er Sveinn dó, erfði barn þeirra hann, svo dó barnið og erfði það þá Guðríður móðir þess[1]. Eiríkur prestur, bróðir Sveins, klagaði þar yfir og kom Finnboga í óvild konungs, en náði arfinum.

F. Guðlaug átti Sturlu sýslumann á Staðarfelli Þórðarson (sjá Snæfellsnessýslu).

Sumir telja enn börn Finnboga:

G. Kristín, sem giptist 1509 Sigurði Þorleifssyni[2].

H. Hallur.

I. Torfi, dó utanlands, laundóttir hans hèt Hallbera, er síra Guðmundur[3] á Bægisá átti 1542.

---

1) Seinast dó Guðríður barnlaus, og taldi þá Finnbogi til arfs eptir Guðríði dóttur sína, en út af því reis þræta mikil millum hans og síra Eiríks, bróður Sveins, sem fyr á vikið.

2) Sigurður þessi Þorleifsson var bróðir Teits lögmanns í Glaumbæ, hann átti Vatnshorn í Haukadal; það er enginn vafi á því, að hann átti Kristínu dóttur Finnboga lögmanns; þau áttu ekki barn, er uppkæmist, en svo lítur út, sem þau hafi þó átt börn, er lifað hafi föðurinn og því erft hann, en dáið síðan, og móðirin þá erft þau, og síðan hún dáið, og Finnbogi lögmaður þá erft hana; því til að jafna þann erfðaskakka, er Ormur Bjarnason hafði uppborið eptir Sophíu Loptsdóttur móti þeim bræðrum Teiti lögmanni, Árna og Sigurði Þorleifssonum, lèt Narfi Sigurðsson af hendi við þá Teit og Finnboga jarðirnar Ásgeirsá og Lækjamót og 4 jarðir á Ströndum; þar af fèkk Finnbogi þriðjung, en hina tvo partana hafa þá fengið þeir Teitur og Árni.

3) Sira Guðmundur þessi á Bægisá var Skíðason, og er hans opt getið.

Enn nú teljast börn Finnboga, en óvíst með Málmfríði Torfadóttur.

K. Margrèt[1], móðir Tuma á Skíðastöðum.

L. Ragna, er barn átti við Jóni Jónssyni öðrum og þriðja við sig, þar fyrir tók Gottskálk biskup af henni Garð í Ólafsfirði, en af Jóni Bæ í Dölum, Vindheima og Ás í Hörgárdal og Hóla í Yxnadal. Ragna giptist síðar Þorsteini Jónssyni.

M. Una.

Líklegt þykir, að Finnbogi hafi haft sýsluvöld í Þingeyjarþingi, þá er hann giptist 1467, en eigi hefi eg sèð dóma að hans tilhlutan fyr en 1477. Það ár lèt hann dóm ganga að Ljósavatni um handrán. Hann hefir fyrst haft Þingeyjarþing hálft, eða verið þar umboðsmaður Rafns lögmanns eptir 1460, einkum þá er Rafn varð lögmaður og átti í málum við Ólaf biskup, en eigi haft það allt fyr en eptir 1480 að veitingu, en virkilegur lögmaður varð hann 1484. 1480 var hann í dómi með Þorleifi hirðstjóra Björnssyni að Lundi í Lundareykjadal um arf barns, er útlægur maður getur með konu sinni; frádæmdist það arfi. 1481 ákærir hann konungdómsins vegna Magnús bónda Þorkelsson og þá kallast Finnbogi sýslumaður. 1482 framfór vitnisburður, að Finnbogi hefði greitt D. Pinning 3 ára skatt af Þingeyjarþingi. 1487 mánudaginn næsta fyrir tveggjapostulamessu á Grýtubakka í Höfðahverfi lèt hann ganga 12 manna dóm um ákæru Magnúsar bónda Þorkelssonar til Jóns Sigmundssonar vegna kvinnu hans Kristínar Eyjólfsdóttur um arf og peninga eptir Eyjólf heitinn Arnfinnsson; kærði Magnús, að Jón hèldi jörðunum Grýtubakka og Hlèskógum, er Magnús tjáði Kristínu konu sinni hefði til erfða fallið eptir Eyjólf heitinn Arnfinnsson að rèttum hlutskiptum við önnur hennar systkin. Í annan máta, að Jón hèldi 1 hndr. hundraða í lausafè, vegna barna Guðna heitins Eyjólfssonar, er hann að sèr tók eptir föður sinn Eyjólf, og sóru 3 vottar fyrir lögmanni, að Guðni hefði gripið þær jarðir og

1) Þessi börn, Margrèt, Ragna og Una, voru ekki börn Finnboga lögmanns, heldur annars Finnboga Jónssonar, sem fyr er getið.

lausafè. 1488 lukti Henrich Mæðing, umboðsmaður D. Pinnings hirðstjóra, Finnboga lögmanni í sitt lögmanns kaup alla rentu af Þingeyjarþingi, sem Finnbogi hafði gjört sinn reikning af, og þau 7 hndr., sem Finnbogi var skyldugur í gamlan reikning af Þingeyjarþingi; gefur hann þá Finnboga kvittan um alla reikninga af Þingeyjarþingi. Skyldi hann framvegis taka alla rentu af Þingeyjarþingi í sitt lögmanns kaup, að frá skildum 10 marka málum og þaðan af stærrum. Hann skal og hafa umboð yfir konungs jörðum og taka þar landskuld af upp á rèttan reikning í þau 15 hndr., sem honum ber í sitt lögmannskaup. 1490 veitir Ólafur biskup Finnboga Múlastað. 1503 stefnir síra Eiríkur Sumarliðason Finnboga lögmanni innan tveggja ára til Noregs fyrir erkibiskup og hið norska ríkisráð fyrir hald á Grund í Eyjafirði og fleiri jörðum. Síra Eiríkur var prestur að Saurbæ í Eyjafirði um þessar mundir, varð ábóti á Þingeyrum 1515 og átti þá þrætu við Gottskálk biskup um Kaldaðarnes, sem hann vann undir klaustrið, en dó sama ár eða 1516. Hèr í landi gengu dómar í máli þeirra síra Eiríks og Finnboga og vísuðu til konungs úrskurðar. Síra Eiríkur sigldi því til Noregs, kom sèr í vingan hjá erkibiskupi og öðrum þar; loks kom málið undir dóm konungs og hans ríkisráðs, en Finnbogi lögmaður, sem skotið hafði málinu til konungs, mætti eigi. Síra Eiríkur mætti með öll skjöl sín, og vann 1507 konungsdóm á fasteigninni. Sagt er, að síra Eiríkur hafi þá af flutt mjög fyrir Finnboga, svo konungur setti Jón Sigmundsson fyrir lögmann 1509; kom hann þó eigi fram lögsögu fyr en á alþingi 1510, og þá sleppti Finnbogi lögmannsdæmi, en 1511 hefir hann, að eg meina, sleppt hálfri sýslunni til Gríms Pálssonar, og meina eg, að þá hafi byrjað skipti á þeirri sýslu, sem lengi viðhèlzt síðan. En Þorsteinn Finnbogason hefir í fyrstu tekið sýslupart föður síns sem umboðsmaður hans. Lögmannsdómar Finnboga eru svo margir, að eg hvorki veit þá alla, nè hirði um að rita þá. Eptir 1510 finn eg eigi dóma hans sem sýslumanns, þó eg meini, að hann hafi þar eptir haldið hálfri sýslunni til handa syni sínum; lögmaður hefir hann gjörzt 1481 í umboði Rafns, sem þá fór utan, en varð virkilegur lögmaður, þá er Rafn sleppti, 1484, og gjörði seinast lögmannsverk 1510 eða 1509. Hann hafði og

ýmsar konungsjarðir að lèni og var mesti höfðingi. 1517 var hann ásamt öðrum á Leiðarhólms samþykkt, en skömmu þar eptir mun hann hafa dáið, mjög hniginn að aldri. Finnbogi hefir verið hinn mesti auðmaður, sem og sèst af því, er hann fèkk börnum sínum. Hann var maður kynsæll, svo af hans ætt er mikill fjöldi ríkismanna og höfðingja kominn: fèdráttarsamur hefir hann verið og líka hèraðsríkur.

Fylgiskjal við það, sem sagt er að framan og sagt verður við Hegranesþing um Torfa hirðstjóra Arason.

Torfa finn eg fyrst getið 1445, þá er hann seldi Skúla Loptssyni Hvalsnes og fleiri jarðir fyrir Þykkvaskóg í Breiðafjarðardölum; eru líkindi til, að Torfi hafi þar fyrst búið[1]. Hann gjörðist hèr hirðstjóri 1448 og riddari 1450, hafði og í lèni Vestmannaeyjar fyrir 7 lestir fiska, en áður var eptir það leiga 9 lestir fiska. Sögn er, að hann hafi heimt af hverjum sýslumanni eitt hundrað fyrir hvern þingstað og þar af sè dregið máltækið: «Torfa lög». 1457 lèt hann af hirðstjórn; 1458 fór hann utan til Noregs, þar meinast hann hafa dáið í Björgvin 1459, þá er hann hafði gjört sitt testamentum, sem er svo hljóðandi:

> In nomine domini Amen! Sakir þess, að enginn dauðlegur maður má sèr nokkurn öruggleik setja um lengd lífdaga sinna, þá gjöri eg, Torfi Arason, heill að samvizku, en nokkuð krankur á líkama, svofellt mitt testamentum fyrir minni sál, sem hèr eptir stár. Inprimis að eg gef mig allan og mína sál guði í vald og hans blessaðri móður Jomfrú St. Mariæ og öllum guðs heilögum mönnum. Hèr með kýs eg mínum moldlegum líkama legstað frammi fyrir St. Ólafi í kirkjunni út til Bræðra í Björgvín, gefandi því sama

1) Mèr finnast engin líkindi til þess, að Torfi hafi þar búið; því þá er hann seldi Hvalsnes, hefir hann verið giptur Akra-Kristínu og því þá búið á Stóru-Ökrum í Skagafirði: fyrri maður Kristínar, Helgi lögmaður Guðnason, átti Hvalsnes, og við það, að eignast Kristínu, hefir Torfi eignast það. Að tala hèr um Torfa hirðstjóra Arason virðist annars eigi eiga alls kostar vel við, en eg áleit, að eg þó eigi ætti að sleppa því sama.

klaustri mèr til bænahalds fyrir minni sál eina hlekkjafesti og pansara, hatt og kraga, skjöld og jukku, og einn rauðan stút[1] með skinn, og tvær tunnur þýzkt öl, stykki malts, stykki mjöls. Öllum mínum bræðrum[2] bláan[3] stakk og brúna kápu með silfurspennu[4], og leikbræðrum 20 álnir vaðmáls[5]. Item til dómkirkjunnar hálfan spíting vaðmáls[6]. Item til St. Ólafskirkju stykki malts. Item til St. Katrínarkirkju tunnu þýzkt öl. Item stykki malts til Nunnuseturs, og eina tunnu mjöð. Item til Krosskirkju eina tunnu þýzkt öl. Item eitt par brúnar hosur þeim, sem gröfina rífur[7]. Item reiðusveinar eina rauða hettu. Item Stepháni eina græna hettu. Item Ingiríði sjö álnir blakt lèrept. Item öllum Kanúkum stykki malts og eina tunnu þýzkt öl. Item Postulakirkju stykki malts. Item þeim, sem mèr gjöra mína reiðu[8], eina silfurskál. Item steikaranum í klaustrið 12 álnir vaðmáls. Item hans dreng eina rauða hettu. Item Evert Súrker eina tunnu malvase og eina silfurskeið, er vegur sex lóð. Item Eirík Ólafsson[9] sæng með áklæði og línlökum, og þar með eitt armbryste nýtt og pansara og hatt. Item Jón Björnsson[10] stakk og hettu og eitt armbryste. Item Gottskálk eitt nýtt armbryste og eina rauða kápu með spennum. Item er eg skyldugur[11] Mr. Gert og hans stallbróður tvær álnir lèrepts. Item er eg skyld-

1) Aðrir: stakk.

2) Aðrir: öllum messubræðrum.

3) Aðrir: einn.

4) Aðrir: silfurspennum.

5) Aðrir bæta hèr inn í: en smábræðrum sex álnir vaðmáls.

6) Aðrir bæta hèr inn í: item til Vorfrúkirkju hálfan spíting vaðmáls.

7) Aðrir: grefur; item bróður Marteini eina bláa treyju.

8) Aðrir: Item þeim, sem gröf mína reiða.

9) Aðrir: Eiríki Ólafssyni.

10) Aðrir: Jóni Björnssyni.

11) Aðrir: skyldur.

ugur til Bryggjunnar[1] fyrir tvo humla og eitt tog. Item Eyjólfur og Jón Hallsson[2] stykki mjöl og eina tunnu þýzkt öl. Item biskupi Andreas eitt stykki, eigur hann sjálfur eina tunnu þýzkt öl í skipið. Item Vermundi tuttugu gyllini í vöru, ef hann verður heill af sínum[3] krankleika. Item síra Þormóður[4] eitt armbryste með öllum reiðskap. Item er eg skyldugur herra Ól. K..lsyni[5] tvær tunnur þýzkt öl. Item kunngjöri eg, að eg þykjumst einkis[6] skyldugur mínum herra konungi fyrir þann kostnað, er eg hefir[7] fyrir hans náð. Item skal Gottskálk og Erich Ól.son[8] afhenda og útgefa minna vegna alla þessa[9] peninga fyrir mína skuld. En Eiríkur Surber[10] og þeir kaupmenn, sem eg hefi keypt skipið út af, taki það hálft í gjen, því það hefur eg ekki betalað, en vilji þeir hafa það allt í gjen, þá gefi þeir mèr mína peninga í gjen, sem eru tvö hundruð gyllini. Item er Henrik Grjót[11] mèr skyldugur 19 gyllini, að kaupstefnu að ári. Item gef eg Aris einn dúk. Item Ingibjörgu sex álnir með vörulèrept. Segir eg Kristínu Þorsteinsdóttur og öllum mínum frændum og vinum á Íslandi kveðju Guðs og mína[12], og gjörið vel, og biðjið gott fyrir[13] minni sál. Og til sanninda hèr um, setur eg mitt innsigli fyrir þetta mitt Testamentisbrèf, sem skrifað var út

1) Aðrir: bruggunar.
2) Aðrir: Item Eyjólfi og Jóni Hallasyni.
3) Aðrir: af þessum sínum.
4) Aðrir: Þormóði.
5) Aðrir: herra Ólafi Rögnvaldssyni.
6) Aðrir bæta inn í: með öllu.
7) Aðrir: hefir haft.
8) Aðrir: og Eiríkur Ólafsson.
9) Aðrir bæta hèr inn í: fyrrskrifaða.
10) Aðrir: Evert Surker.
11) Aðrir: Grot.
12) Aðrir: «marga góða nátt» fyrir; «kveðju guðs og mína».
13) Aðrir bæta hèr inn í: mig og.

til Bræðra í Björgvín, sunnudaginn næstan eptir St. Bartholsmæidag A° Dni M° C D° L° nono.

## Grímur Pálsson.

*Faðir:* Páll sýslumaður Brandsson (sjá Vaðlaþing); hann átti Grím, áður en hann giptist Ingibjörgu[1].

*Kona:* Helga dóttir Narfa á Narfeyri Þorvaldssonar Þorkelssonar, en móðir Helgu var Þuríður, laundóttir Björns ríka Þorleifssonar (sjá Dalasýslu).

*Börn:* A. Þorleifur sýslumaður, sjá Vaðlaþing.

B. Páll sýslumaður á Holtastöðum, sjá Húnavatnsþing.

C. Benidikt, var stundum lögsagnari föður síns; eitt sinn, þá er hann ásamt öðrum reið suður fjöll, þóttist hann sjá álptir á vatni nokkru, en fylgdarmenn hans kváðust eigi sjá þær, hleypti þá Benidikt hesti sínum út á vatnið og drukknaði. Hann kvæntist eigi, en átti launbörn, er voru:

1. Halldór, prestur á Helgastöðum; nálægt 1566 bauð hann í árlega leigu eptir Möðruvallaklaustur 100 rd. sp: og fèkk það með þeim kjörum, eptir síra Björn Gíslason. 1570 veitti Jóhann Bucholt klaustrið Benidikt syni hans, en 1569 hafði konungur veitt það Ormi lögmanni Sturlusyni, en hann varð að sleppa því. Sjá um börn hans við Vaðlaþing.
2. Guðríður Benidiktsdóttir, hennar maður Teitur, þeirra börn:
   a. Benedikt[2].
   b. Síra Þorkell í Goðdölum[3].

---

1) ɔ: Ingibjörgu Þorvarðardóttur frá Möðruvöllum.

2) Benedikt bjó á Ásgeirsá og átti fyr Sigríði dóttur Eiríks frá Ásgarði. Seinni kona hans, Ingunn Gamladóttir.

3) Síra Þorkell í Goðdölum var sonur Guðríðar og hálfbróðir Benedikts á Ásgeirsá, hèt faðir hans Ólafur.

   c. Guðrún hèt enn dóttir Guðríðar, hennar maður Arngrímur, þeirra son Þorleifur.

D. Ingibjörg átti Gísla á Hafgrímsstöðum, Hákonarson á Vindheimum, Hallsonar[1] Jónssonar Langs. Börn:

1. Árni sýslumaður á Hlíðarenda (sjá Rangárþing).
2. Síra Björn officialis á Saurbæ í Eyjafirði, hann hjelt og Möðruvallaklaustur, og átti Málmfríði dóttur síra Torfa í Saurbæ og Þórunnar (sjá að framan); þeirra börn:
   a. Hákon sýslumaður í Nesi við Seltjörn (sjá Rangárþing og Gullbringusýslu).
   b. Gísli lögrèttumaður á Hrafnabjörgum, átti Þórunni dóttur Hannesar Björnssonar frá Snóksdal; var hún þá 18 vetra, er þau giptust; þeirra börn:
      α Daði[2] á Hrafnabjörgum.
      β Björn[3] lögsagnari.
      γ Árni[4] á Staðarfelli.
      δ Guðrún[5].
      ε Jón[6] á Hóli í Hörðudal.
      ζ Málmfríður[7].
      η Ragnheiður[8].
      ϑ Ragnheiður yngri[9].

---

1) Á að vera, Hallssonar, Finnbogasonar gamla o. s. frv. sjá hèr að framan.

2) Daði átti Ingunni dóttur Sveins Bjarnasonar í Gröf í Miðdölum.

3) Björn bjó á Vatnsenda í Skorradal og Bæ, átti Ingibjörgu dóttur Orms sýslumanns í Eyjum.

4) Árni átti Gyríði Björnsdóttur Guðmundssonar.

5) Guðrún var kona Bjarna Tyrfingssonar Ásgeirssonar.

6) Jón átti Sigríði dóttur síra Jóns Þormóðssonar.

7) Málmfríður átti Þorlák, son Ara Magnússonar í Ögri.

8) Ragnheiður eldri átti Vigfús son Orms sýslumanns í Eyjum.

9) Ragnheiður yngri átti Þorgils á Brimilsvöllum Jónsson Þorgilssonar; Þorgils yngri var mjög hraustur.

ι Þorbjörg[1].
ϰ Torfi[2].
c. Ingibjörg átti Jón sýslumann Vigfússon (sjá hèr seinna).
d. Elín átti Pètur í Vík á Svalbarðsströnd Magnússon frá Stóradal, sjá Strandasýslu.
e. Þórunn, fyrri kona Magnúsar Hjaltasonar; þeirra börn:
α Páll.
β Erlendur.
Launbörn síra Björns voru enn fremur:
f. Árni átti Ljótunni Halldórsdóttur, þeirra dóttir: Steinunn.
g. Síra Stígur átti Guðfinnu, þeirra börn: Jón[3].
3. Gunnar á Víðivöllum klausturhaldari á Reynistað og sýslumaður (sjá Hegranesþing).
4. Helga átti Jón lögmann Jónsson, barnlaus.
5. Síra Hákon[4] dó úr bólu barnlaus.
6. Herdís Gísladóttir, laungetin, átti Björn Þorvaldssson á Æsustöðum; börn:
a. Þorvaldur sýslumaður (sjá Húnavatnsþing).
b. Valgerður átti Benedikt sýslumann ríka, sjá Vaðlaþing.
c. Ingibjörg átti Guðmund Nikulásson.
7. Steindór[5] Gíslason telst og af sumum, faðir Þórarins föður:

---

1) Þorbjörg átti Þórarinn Illugason frá Kalastöðum, var Illugi bróðir Orms sýslumanns í Eyjum.

2) Torfi átti Þordísi, dóttur síra Skapta Loptssonar.

3) Jón Stígsson bjó í Gröf í Skagafirði. Guðrún hèt og dóttir síra Stígs, hún var kona Jóns Grímssonar á Brenniborg. Sumir telja og þriðja launbarn síra Björns Gíslasonar síra Jón Björnsson í Grímstungum, er kallaður var Siðamaður, en aðrir telja hann öðruvísi til ættar, sem er rèttara.

4) Það er sagt um síra Hákon, að hann hafi verið snilldarmaður.

5) Það, sem hèr er sagt um Steindór þenna og afkomendur hans, er án efa miður rètt, og ætti að falla í burtu.

a. Ólafar, er var seinni kona síra Einars Sigurðssonar í Eydölum.
b. Einars í Bólstaðarhlíð föður Oddnýjar.
c. Philuppusar á Svínavatni.

E. Solveig[1] tjáist fyrri kona Einars á Espihóli Brynjólfssonar, Magnússonar, Benediktssonar, Brynjólfssonar (sjá Vaðlaþing, og hèr að framan). Börn:
Jón Einarsson átti Málmfríði dóttur Bjarna sýslumanns Erlendssonar (sjá Múlaþing).
Einar Brynjólfsson átti síðar Solveigu Steinsdóttur (sjá Vaðlaþing).

F. Guðný átti fyrr Jón Sturluson Magnússonar (sjá Barðastrandarsýslu). Kona Sturlu Magnússonar var Sigríður (aðrir Ingiríður) Jónsdóttir, og voru þeirra börn:
a. Jón fyr nefndur, sem átti Guðnýju Grímsdóttur.
b. Sigríður, fyrri kona Þorleifs sýslumanns Grímssonar (sjá Vaðlaþing).
c. Þorgerður, sem átti Þorstein son Torfa sýslumanns í Klofa (sjá Rangárþing). Þegar Þorvarður Erlendsson og Kristín Gottskálksdóttir giptust á Hólum 1508, var Sturla einn kaupvottur[2].

---

1) Einar Brynjólfsson hefir eigi getað átt fyrst Solveigu Grímsdóttur og síðan Solveigu Steinsdóttur, því þær voru ofskyldar til þess; kona hans var Solveig Grímsdóttir, og sèst það af því, að 1579 gaf Bjarni Einarsson próventu sína Nikulási Þorsteinssyni og syni hans Hallgrími, og fèkk Nikulási allt það, er hann hafði erft eptir Einar Brynjólfsson föður sinn og Solveigu Grímsdóttur móður sína, að undanskildum Ytra-Hóli í Kaupangssveit. Sigríður systir Bjarna samþykkti þetta, en Sigríður var kona Nikulásar, að því er flestir segja.

2) Sturla Magnússon var eigi að eins einn af brúðkaupsvottunum, heldur hinn fyrsti þeirra, hinir voru Eiríkur Þorsteinsson (líklega frá Keldum), Vigfús Erlendsson, (bróðir Þorvarðar), síra Nikulás Villhjálmsson, Grímur Jónsson (líklega á Ökrum), og Jón Þorgeirsson merkisbóndi (víst í Svarfaðardal og

Börn Guðnýjar og Jóns Sturlusonar voru:

1. Þorsteinn ætlaði að eiga Önnu í Dal, en þá er hann reið frá handsalsölinu, drukknaði hann í Markarfljóti og með honnm Magnús Ásgrímsson, bróðir Jóns Ásgrímssonar á Fjalli.
2. Grímur Tvídauði (sjá Barðastrandarsýslu).
3. Elín kona Magnúsar sýslumanns Jónssonar (sjá Barðastrandarsýslu).
4. Sigríður dó ógipt og barnlaus í miklu-bólu.

Guðný átti seinna Jón á Svalbarða, barnlaus (sjá Vaðlaþing).

G. Valgerður Grímsdóttir, laungetin. Börn:

1. Guðmundur.
2. Sigríður.

H. Þorbjörg Grímsdóttir, laungetin, átti Guðmund, þeirra son: Þorvarður.

Grímur sýslumaður Pálsson var borinn fyrir 1460, áður en Páll faðir hans giptist; Grímur var orðinn giptur fyrir 1490. Páll Brandsson og kona hans Ingibjörg Þorvarðardóttir áttu tvö ektabörn: Bjarna og Benedikt; Ingibjörg dó í miklu plágunni 1494, og erfðu þá synir hennar hana. Litlu síðar dóu þeir bræður báðir í tèðri plágu, og erfði þá Páll báða sonu sína, en dó ekki löngu þar eptir; var þá ekki annað eptirlifandi af börnum Páls en launsonur hans Grímur, er þá var giptur og átti tvo skilgetna sonu unga, Þorleif og Benedikt, (því hin börn Gríms voru þá eigi fædd). Grímur frambar nú, að börnum sínum væri eptir lögbókinni tilfallinn arfurinn eptir Pál bónda, en Erlendur sýslumaður í Rangárþingi Erlendsson tjáði arfinn tilheyra Guðríði Þorvarðardóttur, konu sinni; Grímur setti sig á móti því með fylgi Finnboga lögmanns. Lèt Finnbogi lögmaður ganga 24 manna dóm á Spjaldhaga 19. júní 1495 um arf þennan, er þá var dæmdur Þorleifi og Benedikt, sonum Gríms, og á alþingi sama ár gekk þar um dómur af 12 mönnum, sem staðfestu Spjaldhagadóm, og Pètur Truels

---

forfaðir Steins biskups). En Sturla þessi var son Magnúsar, Runólfssonar, Sturlusonar, er fyr hefir verið nefndur; Helgi hèt bróðir Sturlu Magnússonar og var hann prestur.

höfuðsmaður samþykkti dóminn. Eigi að síður átöldu synir Erlendar, Þorvarður og Vigfús, arfinn, og báru fyrir sig rèttarbót Hákonar konungs 1313, er síðan var kölluð Möðruvallarèttarbót[1]; lèt því Finnbogi lögmaður 12 manna dóm[2]

1) Eptir rèttarbótinni hefðu óðöl þau, er þeir synir Ingibjargar Þorvarðardóttur höfðu erft eptir hana, átt að hverfa að föður þeirra Páli fráföllnum aptur til móðurættar þeirra.

2) Þetta var ekki dómur, heldur úrskurður Finnboga lögmanns, er hann felldi um áður nefnda dóma, að þeir væru löglegir og skyldu vera óbrygðanlegir, og þenna úrskurð samþykktu með honum 10 merkustu bændur eður lögrèttumenn, og settu innsigli sín með hans undir. Meðal annara ástæðna getur Finnbogi lögmaður þess, að hann viti, að í meir en 100 ár hafi aldrei verið dæmt eptir rèttarbótinni hèr á landi og nefnir sem dæmi þar upp á, að húsfrú Kristín Björnsdóttir hafi að erfð orðið eigandi að þriðjungi í jörðunni Möðruvöllum í Eyjafirði með öðru gózi, af því hún hafði átt bóndann Jón Guttormsson (ɔ: bróður Lopts ríka) og barn með honum, er þessi þriðjungur fèll til arfs, og síðan hafi Þorleifur Árnason með upplagi greindrar Kristínar (hann var seinni maður hennar) selt áðurnefndan þriðjung í jörðunni Möðruvöllum.

Í febrúarmánuði næsta eptir, eða fimmtudaginn næstan fyrir Valentini martyris, á Vatnsleysu í Biskupstungum á almennilegu hèraðsþingi voru 6 menn í dóm nefndir (þar af 4 lögrèttumenn) af Þorvarði Erlendssyni, er þá var lögmaður orðinn sunnan og austan á Íslandi eptir brèfi konungs Hans, er þar var þá á þinginu upplesið, til að skoða og dæma um fyrtèða rèttarbót Hákonar konungs, leizt dómsmönnunum hún skjalleg í allan máta, en dæmdu til næsta Öxarárþings undir lögrèttumanna dóm og lögmanns úrskurð þess, er þá ætti með rèttu að vera í sögðu takmarki fyrir sunnan og austan á Íslandi, hverja makt að rèttarbótin skyldi hafa. Þorvarður hefir nú haldið áfram að kæra upp á gózin og stefnt Grími Pálssyni utan, því um sumarið (1500) útnefndu á alþingi þeir Benedikt Hersten, hirðstjóri og höfuðsmaður yfir allt Ísland, og Finnbogi Jónsson, lögmaður norðan og vestan á Íslandi, 24 menn í dóm — í afskriptum þeim, er eg hefi sèð af dómi

ganga að Lönguhlíð 1499 um haustið, og dæmdist fè Páls bónda Brandssonar til halds Grími Pálssyni, vegna skilgetinna sona sinna, og þann dóm samþykkti Pètur hirðstjóri Hersten. Þar dómsmenn kváðu svo að orði, að nefnd rèttarbót væri hèr eigi lögtekin, og hefði hèr eigi gengið fyrir lög, lèt Þorvarður Erlendsson, er þá var orðinn lögmaður, dóm ganga að Vatnsleysu í Biskupstungum 1500, fimmtudaginn fyrir Valentini, er

---

þessum, eru að eins 22 dómsmenn nefndir, er annaðhvort getur komið af því, að 2 hefir af vangá verið sleppt í afskriptunum, er varla mun þó vera, því afskriptirnar eru mjög gamlar og hvorug rituð eptir hinni, eða 2 af dómsmönnum hafa verið á öðru máli, en hinir 22 gjört dóminn — til að dæma um, hvaða afl skyldi hafa sú ákæra eða utanstefna, er Þorvarður Erlendsson hafði stefnt með Grími Pálssyni til Noregs fyrir þær sakargiptir, að Grímur hèldi fyrir sèr því jarðagózi, er Bjarni og Benedikt hefðu erft eptir Ingibjörgu Þorvarðardóttur móður þeirra. Dómsmenn segja nú, að Þorvarður hafi borið fyrir sig, að rèttarbótin gilti sem lög í Noregi, en Grímur hafi tjáð og birt á þinginu dóma af 3 tylftum manna og lögmanns úrskurð, að sonum hans Þorleifi og Benedikt væru dæmdir og úrskurðaðir allir peningar fastir og lausir til æfinlegrar eignar, er átt hafði Ingibjörg Þorvarðardóttir, og synir hennar eptir hana. Síðan segja dómsmennirnir, að standi skrifað, að þeim málum, sem lögmenn eða sýslumenn fái eigi yfirtekið, skuli stefna til Noregs, en allar ólöglegar utanstefnur sèu í lögum fráskildar; nú hafi þetta mál, er Þorvarður hafi fyrir stefnt, til fullra lykta verið dæmt, og úrskurður áfallinn með lögrèttumanna samþykki, eins hafi fyrtèð rèttarbót aldrei hèr í landi fyrir lög gengið; þess vegna dæmi þeir áðurnefnda dóma og úrskurð, er Grímur hafi sona sinna vegna fyrir opt nefndum fastagózum, fasta, stöðuga og óbrygðula, og Grím engra svara skyldugan fyrir greinda ákæru, og enga stefnu þar upp á að skyldu fara eiga, nè hann skyldan nokkurt lögsvar þar fyrir að halda; eins dæmdu þeir með fullu dómsatkvæði rèttarbótina hèr á landi í allan máta að vera og verið hafa ólöglega til nokkurra fjárskipta eða arftöku eptir henni

staðfestir nefnda rèttarbót og lögleiðir hana. Sama ár[1] staðfestu þeir Hersten og Gottskálk biskup dóma Finnboga lögmanns, fèll þeim Erlendssonum þá móður í fyrstu, því 1501 miðvikudaginn næstan eptir krossmessu um haustið að Möðrufelli í Eyjafirði að nærverandi Finnboga lögmanni, síra Sígurði Eyólfssyni og lögrèttumönnum höfðu þeir Þorvarður lögmaður og Grímur Pálsson skipti á þessum jörðum: Þorvarður fèkk Grími Hóla í Eyjafirði I hndr. hundraða, Arnarstaði 50 hndr., Vatnsenda 20 hndr., Jökul 20 hndr., Tjarnir 40 hndr., Úlfá 16 hndr., Torfufell 50 hndr, Vilingadali báða 40 hndr.; liggja þessar jarðir í Eyjafirði; þar á móti fèkk Grímur Þorvarði Breiðabólsstað í Ölvesi 20 hndr., Öxnalæk 10 hndr., í Þúfulandi 4 hndr., Grímslæk 10 hndr., Hraun 30 hndr., Bjarnastaði 40 hndr., Götu 10 hndr., Eimu 10 hndr., Hlíð 10 hndr.; liggja þessar jarðir í Ölvesi og Selvogi, Hof á Kjalarnesi 40 hndr. Arnarholt 40 hndr., Skrauthóla 20 hndr., Öfugskeldu 10 hndr., Galtarvík á Akranesi 20 hndr.; það jarðagóz, sem Þorvarður fèkk Grími, reiknaðist 2 hndr. hundraða og 80 hndr. betur, en það sem Grímur fèkk Þorvarði 2 hndr. hundraða og 70 hndr. betur[2], og hèr að auk lofaði Grímur til jafnræðis Þorvarði 48 hndr. í kúgildum og öðrum partlegum aurum; svo og gjörðu þeir Þorvarður og Grímur í sama sinn fullkomna sátt sín á millum með þessu gjörningsbrèfi, og stóð svo um hríð. — Þess er áður getið, hvaða framgang síra Eiríkur Sumarliðason hafði í fjárheimtu á hendur Finnboga lögmanni í líku tilfelli, og að Christian II. hafði með brèfi sínu staðfest Möðruvallarèttarbót 1507[3]; höfðu þeir bræður, Þorvarður og Vigfús,

1) Hersten hirðstjóri samþykkti þegar á alþingi 1500 dóma og lögmanns-úrskurði þá, er Grímur hafði fyrir gózinu, en Gottskálk biskup gjörði það um haustið í septembermánuði.

2) Í upptalningunni á þessum jörðum eða dýrleika þeirra verður að vera eitthvað skakkt; en Þorvarður sjálfur kvað hafa ritað: «reiknaðist jarðagóz fyrir sunnan það við Grímur Pálsson býttum og skiptum LXX hndr. og II hundruð hundraða. En það, er eg fèkk Grími fyrir norðan Hóla og Hólaeignir LXXXX hndr. og II hundruð hundraða.»

3) 1507, mánudaginn næstan eptir Maríu præsentationisdag

farið utan 1506, og eptir mætti stutt mál Eiríks prests, og að konungur staðfesti rèttarbótina. Komu þeir Erlendssynir út 1507, hafði Vigfús þá fengið hirðstjórn, en Þorvarður var lögmaður sem fyr og þá orðinn ekkjumaður; tóku þeir þá að nýju að ásækja Grím um arfinn; útnefndi Þorvarður hèraðsdóm um vorið 1508 að Vatnsleysu í Biskupstungum og lèt dæma rèttarbótina gildandi lög hèr á landi, en sèr og systkinum sínum Möðruvallaarf[1], og aptur á alþingi tylftardóma um sama; var Grímur dæmdur skyldugur undir óbótamál, að af-

---

(ɔ: eptir 21. nóv.) dæmdi Kristján konungur með ríkisráðinu í Noregi mál þeirra Finnboga lögmanns og síra Eiríks og staðfesti í þeim dómi rèttarbót Hákonar konungs hins helga, hann kallar hann einlægt svo, um erfðirnar (ɔ: Möðruvalla rèttarbótina) og sama ár stæ Catharinæ dag (ɔ: 25. nóv.) bauð hann, að allar rèttarbætur Hákonar konungs skyldu vera lög á Íslandi, og sama daginn gaf hann síra Eiríki mjög sterkt verndarbrèf; skyldi enginn vera dómari hans í veraldlegum málum, utan konungur sjálfur, eða sá, er hann þar til nefndi. Í opnu brèfi, sama ár, miðvikudaginn næsta eptir Andrèsarmessu (ɔ: eptir 30. nóv.) lýsir Eiríkur Valkendorf, er þá var prófastur í Hróarskeldu, því yfir, að hann hafi gjört þann samning við síra Eirík vegna Vigfúsar hirðstjóra og bróður hans Þorvarðar Erlendssona og systur þeirra húsfrú Hólmfríðar Erlendsdóttur, og annara fleiri manna á Íslandi, að hann skyldi gefa sèr fyrir fyrirhöfn þá, er það hefði kostað sig, að útvega prívilegía þau, er konungur hefði veitt þeim og almúganum á Íslandi, 80 rínsk gyllini af fullri vigt og 80 refskinn, er kölluð sèu svört skollaskinn, skuli þeir hafa sent sèr þetta fyrir næstkomandi Mikjálsmessu eða skila prívilegíunum aptur; síra Eiríkur sè búinn að borga sèr í sinn part 10 rínsk gyllini.

1) Eg man ekki eptir því, að eg hafi sèð þennan dóm, og eg held, að hann hafi aldrei til verið, og sè blandað saman við fyrnefndan Vatnsleysudóm Þorvarðar 1500. Alþingisdómur Þorvarðar 1508 minnist heldur eigi neitt á slíkan dóm, þar á móti lèt Vigfús hirðstjóri Erlendsson dóm ganga um haustið 1508 um Hóla og Hólaeignir í Eyjafirði, og dæmdi þetta góz undir þau systkin aptur, m. fl.

henda fèn innan 14 nátta að heyrðum dóminum. En þar eð Grímur hafði fyrir sèr áðurnefnda lögmanns- og hirðstjóra-úrskurði, vildi hann eigi sleppa fènu. Riðu þeir bræður um sumarið norður til Hóla, og vinguðust við Gottskálk biskup. beiddi þá Þorvarður Kristínar dóttur hans, og kom honum þannig í málið; þaðan riðu þeir í Eyjafjörð, og var mikil málsókn með þeim bræðrum og Grími um haustið, með kröfum, dómum og fjáraðtektum, varð Grímur ekki linhlaupa, bar fyrir sig áðurtèða dóma, sátt þeirra og fleira, en það dugði eigi, því Vigfús hirðstjóri lýsti Grím og fylgjara hans fallna í óbótamál og konungsbrèfabrot. Biskup veitti og þeim bræðrum, svo að Grímur hlaut loks undan að láta, og hlýta þeirri sátt, er biskup bar milli þeirra á Miklagarði í Eyjafirði föstudaginn fyrstan í vetri. Skyldi Grímur og landsetar hans með frelsi njóta ábúðar og forverks síns til næstu fardaga, og gjalda þeim Erlendssonum fullar landsskuldir, ganga svo tregðulaust af öllum þessum eignum, en hirðstjórinn gaf upp óbótamálin og konungsbrèfabrotið; skyldi allur hugmóður niður falla á báðar síður; og urðu þessi málalok að sinni. Grímur undi illa hlut sínum, en varð að hafa svo búið um hríð. Loks kom hann þó máli sínu og öllum ástæðum þess fyrir konung; úrskurðaði konungur, að sú sátt, er þeir Grímur og Þorvarður höfðu gjört 1501 og þau jarðaskipti, er þá framfóru, skyldu haldast. Þessi úrskurður Christians 2. framfór 1513, og var Þorvarður þá dáinn[1]. Ekki dvaldi Grímur að taka að sèr Möðruvelli og aðrar þær eignir, sem hann til náði af Möðruvallaarfi; það umbar Vigfús, er þá var lögmaður og Hólmfríður

---

1) Konungur með ríkisráðinu í Noregi dæmdi á ný í málinu 1512 í desembermánuði, og staðfesti þá sátt þá, er þeir Þorvarður og Grímur fyrrum höfðu gjört með sèr; fyrir konungi mætti þá Þorvarður sjálfur og Benedikt bóndi Grímsson, og kváðust þeir vilja hafa og halda það í alla staði, er þeim sagt yrði með rèttum dómi. — Þorvarður hefir þá dáið utanlands annaðhvort við enda ársins 1512, eða snemma 1513, því þá í aprílmánuði gjörði konungur Vigfús bróður hans að lögmanni sunnan og austan.

systir hans lítt; stóð í þrætu þeirri 1514, og til þess Grímur[1] og þau sættust 1515 á alþingi, fyrir milligöngu biskupanna Stepháns og Gottskálks, Narfa ábóta á Helgafelli, Árna ábóta í Veri, síra Ögmundar Pálssonar á Breiðabólsstað, síra Einars Snorrasonar á Staðastað[2] og margra annara bæði lærðra og leikra. Skyldu hvorirtveggja alsáttir um allan hugmóð, heimsóknir og fjárupptektir, þar með lögðu þau systkin Vigfús og Hólmfríður aptur Grími og sonum hans Möðruvelli og Silfrastaði, og alla þá peninga, er í Eyjafirði lágu og fyrir norðan, sem þau höfðu tekið eptir rèttarbót Hákonar konungs og þarmeð fyrir sunnan jarðirnar Kirkjuvog, Kotvog, Merkines, Sandgerði og Straum til æfinlegrar eignar, en þau systkin skyldu halda jörðunum Engey, Laugarnesi, Kalmanstjörn og Kirkjuhöfn. Þetta varð endir Möðruvallamála; síðan hefir eigi dæmt verið nokkuð áríðandi eptir Möðruvallarèttarbót. (Þó mest af þessu finnist í árbókunum, er það hèr ritað til að fá Möðruvallamál samanhangandi.)

Strax og Páll Brandsson dó, tók Grímur Möðruvelli, hann gjörðist og umboðsmaður Finnboga lögmanns, og voru þeir jafnan góðir vinir. En þá er Finnbogi sleppti hálfri sýslunni, gjörðist Grímur þar konungs umboðsmaður 1511, því svo kallast hann í dómi þeim, er hann lèt ganga 1511, mánudaginn næsta eptir Hallvarðarmessu á Helgastöðum í Reykjadal, þá er hann nefndi í dóm Magnús Þorkelsson, Jón Þorsteinsson og 5 aðra, um ákæru Pèturs Tómassonar til Kolbeins Halldórssonar, áhrærandi 12 fullrèttisorð og 6 hálfrèttisorð, og um hest, er Pètur hafði gripið fyrir Kolbeini. 1512, föstudaginn næstan eptir Dýradag, á Helgastöðum lætur hann ganga 12 manna dóm millum Ásmundar Sturlusonar og Þorleifs Þorleifssonar, um arf þann, er fallið hafði í garð Ásmundar og Kristínar konu hans eptir Ólöfu Halldórsdóttur. Grímur hjelt umboðsmenn, sem þá

1) Þorleifur tók þátt í sættinni með föður sínum Grími.

2) Fyrir utan þessa voru enn við sættina síra Jón Arason (ɔ: er seinna varð biskup), síra Pètur Pálsson, Jón Magnússon (á Svalbarða), Brandur Einarsson, Grímur Jónsson (á Ökrum), Einar Einarsson, Snjólfur Rafnsson (ɔ: án efa Snjólfur son Rafns lögmanns Brandssonar) og Jón Ólafsson.

var títt, meðal þeirra var Benedikt sonur hans og Sæmundur Símonarson. Hvað lengi Grímur hefur haft sýsluvöld í Þingeyjarþingi, er mjèr dulið, en frá sysluvöldum var hann víst 1514, þó finnst ritað, að hann hafi verið syslumaður fram yfir 1515. Grímur var maður stórauðugur og dó á Möðruvöllum 1526, hvar hann hafði lengst búið. Sýnist sem Helga kona hans hafi verið dáin á undan honum, því eigi getur hennar í skiptabrèfi eptir Grím. Grímur erfði eigi Pál föður sinn, þar hann var óskilgetinn, en hèlt fè föður síns undir sonu sína skilgetna Þorleif og Benedikt, og hefur því ekki til þeirra útsvarað, því við skipti eptir Grím 1527 (sjá það skiptabrjef við Vaðlaþing) reiknast fè Páls bónda Brandssonar 21 hndr. hundraða í jörðum[1] og 5 hndr. hundraða í lausafè, sem þeim þá fæddu Gríms Pálssonar sonum, Þorleifi og Benedikt tilfèllu, sem sje hvorum 13 hndr. hundraða[2]. Benidikt dó, sem áður er sagt, án þess að eptir láta sjer skilgetið afkvæmi, erfði því faðir hans tèð 13 hndr. hundraða[3], en af óskiptu var tekið það, er Þorleifur erfði eptir Pál afa sinn, 13 hndr. hundraða[4], en hinum 13 hndr. hundraða[5] var þá skipt millum barna Gríms[6], varð bróðurhlutinn þar af 3 hndr. hundraða og 85 hndr. og 3 ærgildi, en hverri systur skiptust þá 1 hndr. hundraða 102 hndr. og 5 ærgildi; voru því ójöfn skiptin, að systurnar höfðu áður meira úttekið en helming móti bræðrunum. En ljóst er, að Þorleifur hefir í arfa fengið meir en 16 hndr. hundraða. Hefir Þorleifur átt meira fè en 20 hndr. hundraða, sem sjá má af skiptabrèfi eptir hann (sjá Vaðlaþing). Grímur Pálsson var mikill höfðingi, sem faðir hans, en eg meina, að hann eigi hafi haldið utan hálft Þingeyjarþing, og óvíst, hvort hann hafi annað verið, en umboðsmaður Finnboga lögmanns um hríð í hálfri sýslunni til 1514 eða lítið lengur.

---

1) Og 80 hndr. betur (sjá skiptabrèfið).
2) Og 40 hndr. betur.
3) Og 40 hndr.
4) Og 40 hndr.
5) Og 40 hndr.
6) Tveggja sona og þriggja dætra skilgetinna.

### Sæmundur Símonarson.

*Faðir:* Símon bóndi í Leyningi[1].
*Móðir:* Þórunn Einarsdóttir.
*Kona:* Guðrún Einarsdóttir, systir Orms Einarssonar[2] (segir Björn á Skarðsá).
*Börn:* 1. Síra Jón Sæmundsson, vígður að Felli í Slèttuhlíð 1551, en hèlt Kvíabekk frá 1570—1586.
2. Kár, er átti 16 börn, er úr barnæsku komust, einn hans sona var síra Sæmundur Kársson, er hèlt Glaumbæjarstað í 44 ár.

1508 er Sæmundur umboðsmaður Finnboga í Þingeyjarþingi og tekur handaband af Magnúsi Hallssyni, að Bessi Þorláksson[3] skyldi kvittur um vígsbætur eptir Hall heitinn Magnússon, og meðkenndist Magnús að hafa meðtekið alla þá peninga, er Þorlákur Þorsteinsson «hefði í lófann lagt» um greindar vígsbætur. 1524 mun Sæmundur hafa haft hálft Þingeyjarþing, því hann er sagður að hafa nefnt ár konungssýslu, þá er hann lèt 12 manna dóm ganga á Helgastöðum um ákæru þá, er nefndur Sæmundur hafði til Bergs Runólfssonar í umboði Ásgeirs Hallssonar, að nefndur Bergur hefði að sèr tekið fè og peninga, er átt hefði síra Jón Andrèsson. Var Bergi eða Nikulási syni hans dæmdur allur arfur eptir móðurföður sinn Jón prest Andrèsson, en tilkall Ásgríms vegna konu sinnar, Steinunnar Andrèsdóttur, var dæmt ógilt og ónýtt.

### Þorsteinn Finnbogason.

*Faðir:* Finnbogi lögmaður (sjá að framan).

---

1) Símon þessi var Þorsteinsson og lögrèttumaður í Vaðlaþingi á dögum Einars Brynjólfssonar á Espihóli, en faðir hans var Þorsteinn Brandsson og móðir Guðrún Símonardóttir; hafði hún erft Skarð í Fnjóskadal eptir föður sinn, en Þorsteinn seldi það 1464 fyrir aðra fasteign.

2) Hèr er átt við Orm á Seltjarnarnesi eða í Reykjavík.

3) Bessi þessi Þorláksson var faðir Árna Bessasonar, er fèll á Sveinsstaðafundi, en faðir hans hefir víst verið Þorlákur Þorsteinsson, sem hèr er nefndur, og vígsbæturnar greiddi fyrir hann; Þorláks Þorsteinssonar hefir hèr fyr verið getið.

*Móðir:* Málmfríður Torfadóttir, riddara Arasonar.
*Kona:* Sesselja dóttir Torfa sýslumanns í Klofa, Jónssonar sýslumanns Ólafssonar, Loptssonar ríka, Guttormssonar, (sjá Árnesþing). Þau Þorsteinn og Sesselja giptust 1505, taldi Þorsteinn sèr til giptingar 4 hndr. hundraða, en Sesselju voru talin 2 hndr. hundraða; þau Þorsteinn bjuggu fyrst í Reykjahlíð. Börn:

A. Vigfús sýslumaður (sjá hèr síðar).
B. Nikulás klausturhaldari á Munkaþverá átti fyr Sigríði Einarsdóttur lögsagnara á Espihóli Brynjólfssonar (sjá Vaðlaþing). Börn:
   1. Katrín[1] Nikulásdóttir átti fyrst launbarn með Guðmundi Illugasyni, giptist síðan Sigurði Jónssyni halta í Lóni.

---

1) Þótt í ættartölum standi svona, að maður Katrínar hafi verið Sigurður Jónsson halti í Lóni, þá er það eigi með öllu rètt, því þessi Sigurður Jónsson halti, maður hennar, var skólameistari fyrst á Hólum og svo í Skálholti, en varð líkþrár, og flutti sig norður að Hóli í Kinn, og dó þar. Katrin giptist þá aptur Kolbeini Jónssyni frá Svalbarði, og bjuggu þau í Lóni vestra. Ár 1619 í Lóni fyrir Snæfellsjökli seldi Kolbeinn Jónsson og kona hans Katrín Nikulásdóttir Pètri Pálssyni frá Staðarhóli Hól og Garðshorn í Kinn, vísaði hún til brèfa fyrir jörðum þessum undir varðveizlu Jóns bónda Einarssonar í Bólstaðarhlíð, en hann átti Solveigu systur hennar, sem fyr er sagt. Magnús í Ögri kallar Kolbein bróður sinn Kolbein Klakk í vísunni, er hann gjörði um þá bræður:

«Sigurður, Jón og Kolbeinn Klakkur,
kenni' eg gjörla hann Manga,
og þótt hann Páll sè augnaskakkur,
allir kunna að ganga».

En Kolbeinn hefir sjálfsagt verið laungetinn og yngstur þeirra bræðra, því Magnús telur hann eigi í dómi sínum um framfærslu Finnu Ívarsdóttur meðal þeirra bræðra, er arf hefðu átt að taka eptir hana, ef hún hefði átt nokkuð til, heldur að eins sig, og þá bræður sína, Pál, Jón og Sigurð.

2. Einar Nikulásson átti Kristínu[1] dóttur síra Jóns Loptssonar, Pèturssonar, Loptssonar, Ormssonar, Loptssonar ríka; börn:

aa. Jón í Hafrafellstungu átti Guðrúnu Jónsdóttur[2] frá Draflastöðum og Stóruborg, Jónssonar Kolls frá Draflastöðum; þeirra börn:
1. Síra Þórarinn á Hrafnagili.
2. Ólöf átti síra Eirík á Kirkjubæ, frá þeim systkinum eru ættir[3].

bb. Nikulás Einarsson fyr á Hèðinshöfða svo í Reykjahlíð, átti fyr Þórdísi Jónsdóttur Illugasonar lögsagnara; þeirra börn:
1. Síra Einar á Skinnastöðum 1662, dó 1699, giptur, átti börn.
2. Guðleif átti síra Þorvald á Hrafnagili og börn.
3. Þorbjörg átti síra Guðmund Ketilsson.
4. Guðrún átti síra Jón Tómasson[4].
5. Jón lögrèttumaður, barnlaus.
6. Ragnheiður.
7. Steinunn.

---

1) Á að vera Kristrúnu.

2) Jón á Draflastöðum var son Jóns Glókolls á Draflastöðum og Einarsstöðum, Ormssonar á Draflastöðum, Jónssonar Kolls á Draflastöðum, Oddssonar á Hvoli í Saurbæ vestra, Pèturssonar. Vermundur prestur Oddsson vitnaði 1496 um frásögn Jóns Oddssonar, er kallaður var Kollur, eptir föður hans, Odd Pètursson, um landamerki millum Holts og Brunnár í Saurbæ; af þessu má sjá, að Jón Kollur Oddsson og Einar Oddsson, er Geitaskarðsættin gamla var frá, hafa verið bræður, sjá tímarit mitt.

3) Enn var dóttir Jóns Einarssonar, laungetin, Steinvör; hún átti síra Hallgrím prest í Mývatnsþingum, son Guðmundar á Laugum Jónssonar.

4) Síra Jón Ólafsson á Hálsi, maður Guðrúnar, var bróðir síra Þorvaldar á Hrafnagili, er átti Guðleifu, systur Guðrúnar.

8. Valgerður.
9. Solveig.

Alls átti Nikulás með Þórdísi 15 börn.

Seinni kona Nikulásar Einarssonar var Helga Árnadóttir sýslumanns Magnússonar á Eyðum; þeirra börn:

1. Gísli á Rangá lögrèttumaður, giptist, átti börn.
2. Árni giptist og átti börn.
3. Þórdís giptist og átti börn.
4. Jón lögrèttumaður átti launbörn.

Laundóttir Nikulásar Einarssonar var

5. Ólöf, sem átti Jón Illugason[1].

Tèður Nikulás var merkisbóndi og auðugur.

cc. Hallgrímur Einarsson átti Solveigu Guðmundsdóttur Illugasonar; þeirra börn:

1. Þorgrímur.
2. Sigríður.
3. Steinvör[2].

dd. Sigríður Einarsdóttir átti síra Jón Runólfsson á Skeggjastöðum, svo 1627 í Þistilfirði, dó 1671. Börn:

1. Síra Þorsteinn, vígður 1650 til kapelláns til föður síns, svo á Eyðum 1671; var 19 vetur heyrari á Hólum, svo skólahaldari hjá Magnúsi lögmanni á Munkaþverá, dó 1699, átti Guðrúnu Magnúsdóttur[3].
2. Runólfur, rektor á Hólum, svo utanlands, hálærður, dó þar í pestinni 1654.
3. Steinvör, átti síra Þorstein Illugason á

---

1) Jón þessi var sonur síra Illuga í Húsavík Björnssonar.

2) Margrèt var enn dóttir Hallgríms, hana átti Þorgrímur í Krossavík, son Guðmundar í Laugum Jónssonar; er Guðmundar áður getið.

3) Guðrún var dóttir síra Magnúsar Jónssonar á Mælifelli og Ingunnar Skúladóttur, systur Þorláks biskups.

Völlum í Svarfaðardal; þeirra dóttir Kristín[1], sem átti Ari frá Sökku, þeirra dóttir Hólmfríður, móðir Guðrúnar[2], móður Gottskálks, föður hins fræga myndasmiðs Bertels Thorvaldsens.

ee. Kristín Einarsdóttir[3] átti Grím Jónsson á Lundi í Fnjóskadal og var hans seinni kona. Börn:

1. Síra Jón á Hjaltabakka 1668, dó 1723, átti Sigríði Jónsdóttur Sigfússonar[4] og börn.
2. Þórey, átti Björn lögrèttumann Hallsson og börn.
3. Illugi lögrèttumaður á Veisu, tvígiptur, átti börn.
4. Katrín átti Þorstein Símonarson og börn.
5. Jón átti Herdísi[5] Vigfúsdóttur Friðrikssonar og börn.

---

1) Kristrún víst rèttara.

2) Guðrún var laundóttir Hólmfríðar, og var faðir hennar Ásgrímur Einarsson á Hraunum í Fljótum, maður Hólmfríðar var Þorlákur Markússon á Sjávarborg.

3) Eins og hèr er sagt, var Kristín seinni kona Gríms á Lundi, hann bjó og á Veisu, en Grímur var bróðir í hið minnsta samfeðra Guðrúnar, konu Jóns í Hafrafellstungu Einarssonar Nikulássonar, sjá hèr að framan; en fyrri kona Gríms var Þórný Jónsdóttir frá Snartastöðum í Núpasveit, og þeirra son var síra Jón á Hjaltabakka, Jón annar, Illugi faðir síra Grímólfs í Glaumbæ, Sæmundur, og dætur: Málmfríður, Ingibjörg, Þórunn og Hildur.

4) Faðir Sigríðar, konu síra Jóns Grímssonar, var síra Jón Egilsson á Völlum.

5) Herdís, kona Jóns þessa, var systir Ingibjargar, er síra Hallur Eiríksson í Höfða átti, Sesselju, konu Jóns Þorleifssonar á Ketilsstöðum eystra, og Þórarins klausturhaldara í Grenivík; Friðrik, faðir Vigfúsar var kaupmaður í Húsavík, danskur að kyni og kominn af góðum ættum, en kvæntist hèr á landi íslenzkri stúlku.

ff. Guðrún Einarsdóttir átti Jón Jónsson, bróður Gríms, þeirra dóttir Þórdís.

gg. Guðlaug[1] átti Þórð sýslumann Hinriksson, barnlaus.

3. Ólöf Nikulásdóttir átti fyr Eirík á Eyvindarmúla son Eyjólfs í Dal og Helgu Jónsdóttur biskups Arasonar. Börn:

aa. Magnús á Kirkjubæ og Höfðabrekku átti Kristínu dóttur Árna prófasts í Holti undir Eyjafjöllum, Gíslasonar biskups Jónssonar; börn:

1. Vígfús á Kirkjulæk átti Jórunni Guðmundsdóttur og börn.
2. Ísleifur á Höfðabrekku, tvígiptur, átti börn.
3. Hallgrímur giptist, átti börn.

bb. Eyjólfur á Eyvindarmúla í Fljótshlíð átti Þórdísi Eyjólfsdóttur sýslumanns Halldórssonar; börn:

1. Jón á Eyvindarmúla, giptist og átti börn.
2. Solveig átti Árna Magnússon á Heylæk og börn.
3. Sigríður Eyjólfsdóttir.

cc. Ingibjörg Eiríksdóttir átti síra Odd Stefánsson í Gaulverjabæ; hann var officíalis, og í 51 ár prestur, dó 1642; börn:

1. Síra Sigfús í Gaulverjabæ, dó 1650, átti Katrínu Gísladóttur og börn.
2. Síra Sigurður í Arnarbæli 20 ár, dó 1641, var tvígiptur og átti börn.
3. Nikulás í Sauðholti í Holtum, giptist, var barnlaus.
4. Þorgerður átti Jón Arnórsson Jónssonar og börn.

Seinni maður Ólafar Jón, kallaður Gróuson, í Skál á Síðu, góður bóndi; þeirra börn:

---

1) Sumir nefna hana Þorlaugu.

dd. Eiríkur á Kirkjubæ í Fljótshlíð átti Helgu dóttur síra Stefáns í Odda Gíslasonar; börn:
1. Helga átti Sigmund Guðmundsson og börn:
2. Solveig barnsmóðir Bjarna Eiríkssonar.
3. Guðrún átti síra Sigurð Jónsson í Eyvindarhólum og börn.
4. Ólöf átti síra Bjarna Sveinsson í Meðallandi og börn.
5. Emerentíana átti Odd bónda Bjarnason og barn.

4. Solveig Nikulásdóttir átti fyr Eirík á Stóruborg Egilsson[1] frá Geitisskarði; hann var kvennamaður mikill og tók fram hjá Solveigu, er bjargaði manni sínum eptir mætti. Jón lögmaður Jónsson bjargaði honum og seldi þá Eiríkur Jóni Stóruborg og flutti að Núpi, hvar hann loks varð undir heystabba. Börn Solveigar og Eiríks:
aa. Jón á Núpi átti Halldóru dóttur síra Bjarna á Grenjaðarstað Gamalíelssonar prests. Jón átti 5 börn áður en hann giptist; seinna átti hann Sesselju Grímsdóttur, en ekki börn með henni. Son Jóns og Halldóru var Eiríkur á Núpi, átti Málmfríði Jónsdóttur og börn[2].
bb. Helga.
cc. Sesselja.
dd. Guðmundur[3].

---

1) Faðir Egils var Jón sýslumaður á Geitaskarði Einarsson Oddssonar á Hvoli í Saurbæ Pèturssonar, sjá hèr að framan, og tímarit mitt 1. B. bls. 14.; en móðir Egils var Kristín dóttir Gottskálks biskups grimma; var Einar seinni maður hennar, en Þorvarður lögmaður Erlendsson fyrri maður.

2) Á meðal þeirra voru þau Pètur og Málmfríður, sem nefnd eru í tímariti mínu 1. B. bls. 20.

3) Aðrir telja börn Eiríks, auk Jóns, Guðmund, Gísla og Helgu.

Solveig varð svo seinni kona Jóns Einarssonar á Gunnsteinsstöðum[1].

5. Hallgrímur Nikulásson, ekki heppinn maður í fjársökum; hann sótti um Munkaþverárklaustur eptir föður sinn 1597, en fèkk eigi, því fleiri buðu hærri leigu; hann drukknaði í Mývatni.
6. Þorsteinn, barnlaus[2].
7. Grímur átti Guðrúnu[3] dóttur síra Jóns Loptssonar.
8. Guðmundur bjó á Laxamýri, átti Ingibjörgu Björnsdóttur Þorvaldssonar, systur Valgerðar, er átti Benedikt ríki sýslumaður (sjá Vaðla- og Húnaþing); börn:

aa. Jón bóndi á Laxamýri: hans börn:
1. Þórður[4] á Laxamýri, átti Guðrúnu Sigurðardóttur Björnssonar frá Munkaþverá og börn.
2. Valgerður á Reykjarhóli.
3. Þorsteinn.

bb. Herdís átti Sigurð á Bjarnastöðum á Höfðaströnd[5]; börn:
1. Magnús skáld í Hvammi í Hörgárdal átti Þórunni Svanborgardóttur; börn:
α. Síra Þórarinn á Grund[6].
β. Ásgrímur skáld.

---

1) Seinni maður Solveigar var Jón Einarsson í Bólstaðarhlíð, sjá hèr að framan.

2) Sumir telja son hans Nikulás.

3) Sumir nefna hana Guðnýju.

4) Þórður, maður þessarar Guðrúnar Sigurðardóttur, er af Jóni Magnússyni, bróður Árna, talinn son Jóns Guðmundssonar frá Laugum, og er það víst rètt, sjá tímarit mitt 4. B. bls. 2—4.

5) Aðrir segja, að hann hafi búið á Dálkstöðum á Svalbarðsströnd.

6) Síra Þórarinn Magnússon á Grund, er ekki nefndur í prestatalinu, og eg hefi hvergi sèð hann nefndan, og held því

cc. Sigfús[1] prestur á Þóroddsstað í Kinn 1554, dó 1595, gáfumaður og skáld; hans börn:

1. Síra Magnús, handskrifari Guðbrandar biskups, gáfumaður, skáld og söngmaður mikill og góður kennimaður, vígður 19 vetra til kírkjuprests á Hólum 1607, fèkk Höskuldsstaði 1632, dó 1663.
2. Helga átti síra Árna í Garði 1585 fram yfir 1612 og börn.
3. Jón á Urðum átti Bergljótu Jónsdóttur og börn.

dd. Síra Ólafur[2] skáld á Sauðanesi 1571, dó 1609; hans fyrri kona var Ólöf dóttir síra Magnúsar Einarssonar í Eyjafirði; þeirra börn:

1. Síra Magnús á Sauðanesi 1609 um 20 ár.
2. Síra Ketill á Kálfafellsstað um 34 ár, dó 1634, átti Önnu Einarsdóttur prests frá Eydölum og mörg börn.
3. Síra Guðmundur í Einholti lifði 1651 eða lengur, giptist og átti börn.
4. Síra Hallgrímur á Hofi á Skagaströnd; af honum er komið fátækt fólk.

---

að þetta sè skakkt; þar á móti hèt systir Ásgríms skálds Þóra eða Þórunn, var maður hennar síra Jón, kirkjuprestur á Hólum, þeirra son Tómas, faðir Guðrúnar, seinni konu Jóns Jónssonar á Melum í Hrútafirði, Auðunssonar; bróðir Guðrúnar hèt Arngrímur Tómasson, lögrèttumaður í Borgarsveit í Skagafirði, og er hans getið 1732.

1) Þótt síra Sigfús Guðmundsson á Þóroddsstað sè í sumum ættartölum, sem hèr, talinn son Guðmundar Nikulássonar, þá verður það að vera skakkt, því síra Sigfús lifði fyr, en að það geti verið.

2) Það er eins um síra Ólaf á Sauðanesi, sem síra Sigfús, að hann getur varla tímans vegna verið son Guðmundar Nikulássonar, enda var faðir síra Ólafs bóndi á Svalbarðsströnd, en Guðmundur Nikulásson á að hafa búið á Laxamýri.

5. Síra Jón Ólafsson í Öræfum.
6. Síra Sigurður eða Sigfús á Refstað.
7. Guðlaug, sem átti Jón Þórarinsson frá Skinnastöðum og börn mörg.
8. Ásmundur.
9. Ragnhildur.
10. Ingibjörg.

ee. Ingiríður Guðmundsdóttir[1] átti fyr Jón Þórðarson á Tindum; börn:

1. Síra Þórður í Garpsdal átti fyrst launson, sem hèt Bjarni, giptist síðan 1644 Kristínu Einarsdóttur prests Guðmundssonar, dó 1662.
2. Margrèt Jónsdóttir, kona Ara, en móðir Steinunnar, sem átti Gísla Bjarnason frá Hvoli.
3. Ingibjörg[2] átti Þórarinn á Melum á Skarðsströnd; þeirra börn:
   a. Ari átti Katrínu Þórðardóttur Pètursonar og börn.
   b. Guðmundur á Melum átti Þorbjörgu dóttur Þórðar í Tjaldanesi Pèturssonar, Þórðarsonar, Ormssonar, Sigurðssonar, Narfasonar á Narfeyri; Þorbjörg var systir Katrínar konu Ara; þeirra synir:
      α. Jón hái giptist og átti börn.
      β. Pètur í Dagverðarnesi giptist og átti börn.
   c. Arnþrúður átti Einar son Einars í

---

1) Það er án efa óvíst, hvort Ingiríður Guðmundsdóttir, kona Jóns Þórðarsonar á Tindum, hafi verið dóttir þessa Guðmundar,

2) Ingibjörg, kona Þórarins á Melum. telst annarstaðar dóttir Nikulásar Þorsteinssonar, en það virðist líkara, að hún hafi verið systir áðurnefndrar Ingiríðar Guðmundsdóttur.

Ásgarði Teitssonar samastaðar, Eiríkssonar þar og: þeirra börn:

α. Guðrún átti fyr Eirík Steindórsson, barnlaus, svo Steinólf Árnason Gíslasonar á Staðarfelli; þeirra dóttir Þóra átti Sighvat Teitsson í Öxney og mörg börn.

β. Jón skáld og smiður á Skarðsströnd, faðir Jóns og Ögmundar bónda í Arnarbæli.

Nikulás klausturhaldari Þorsteinsson átti seinna Sigríði Sigurðardóttur, er Ólafur biskup Hjaltason fyr hafði átt; rita sumir, að biskup hafi gipzt henni, þá er hann kom úr siglingu 1553. Sigríður tók fram hjá Ólafi biskupi með Bjarna Sturlusyni[1], og kvað biskup ekki verða sèr að manni, og skildu þau. Ritað er, að Ólafur biskup í utanferð sinni (líkast til 1549) hafi orðið kunnugur kvennmanni utanlands og lofað henni eiginorði, en brugðið því upp seinna, hafi hún þá fengið af fjölkyngismanni að gjöra honum glettingar, svo að hann hafi fengið lífsýki, sem þjáði hann þaðan í frá til hans dauða[2]; einnig hafði hann orðið ónýtur til kvenna. Ólafur biskup var ekki hálærður, en samt mjög nýtur biskup á þeirri öld, að koma á nýju siðunum, er hann átti mjög örðugt með, sökum þrákelkni aldraðra og óupplýstra manna, er mjög fast hengu við páfavillu; sjálfur var hann góðmenni og óágengur og rèttvís; ekki var hann fjárgæzlumaður. Hann lèt prenta nokkrar bækur til eflingar hinum

1) Sturla, faðir Bjarna, var annálaður góður smiður, og því kallaður Smíðasturla.

2) Það eru til vitnisburðarbrèf forn, er sanna, að biskup hafi þjáðst af sýki þessari: hann hafði og meiðst mjög, er Jón biskup Arason lèt draga hann út úr Laufásskirkju. Ólafur biskup og Sigríður áttu saman nokkur börn, eitt þeirra var síra Hjalti á Fagranesi.

nýja sið, og braut með hæglæti ísinn fyrir eptirmann sinn, hinn mikla, en ráðríka Guðbrand biskup. Sigríður kom sèr seinna við Nikulás klausturhaldara, svo hann giptist henni: eigi er getið barna þeirra að nafni, þó segja nokkrir, að þau hafi átt afkvæmi. Nikulás var mikill höfðingi og auðugur, hann varð maður gamall og tjáist hafa dáið 1596. Fjölmennar ættir eru frá honum komnar, bæði mikilmenni og vesalmenni, og margt þar af er barnafólk. Nikulás bjó um hríð í Hafrafellstungu lènalaus, en var vel auðugur, eins og áður segir. Meðal annars hafði hann ásamt Vigfúsi sýslumanni bróður sínum erft eptir Þorstein föður sinn miklar brennisteinsnámur, er konungur vildi eignast. Fór því höfuðsmaðurinn Páll Stígsson norður og keypti af þeim Þorsteinssonum allan brennistein í Fremrinámum, Hlíðarnámum og Kröflu, konungsins vegna; veitti hann þá Nikulási Munkaþverárklaustur fyrir árlegt afgjald 80 rd. species með gjörningsbrèfi, dagsettu 15. ágúst 1563 í Eyjafirði; skyldi Nikulás hafa tèð klausturs-afgjald í 4 ár, fyrir sinn hluta í námunum, en síðan fyrir venjulegt afgjald; 13. apríl 1565 fèkk hann Flateyjarumboð fyrir 10 rd. afgjald, en það lèni hafði áður haft Magnús sýslumaður Jónsson frá Svalbarði, er þá var kominn vestur til tengdaföður síns. Síra Halldór Benediktsson hafði næst áður haldið Munkaþverárklaustur, því eptir skipun höfuðsmanns Páls Stígssonar tekur Ólafur biskup Hjaltason reikning af síra Halldóri Benediktssyni um þá peninga, sem Nikulás Þorsteinsson þóttist vera vanhaldinn af, vegna Munkaþverárklausturs. Hafði því síra Halldór áður klaustrið og átti að svara peningum þess eptir Grím heitinn Þorleifsson, sem dó 1560; framfór sá reikningur á Grenjaðarstað með ráði síra Sigurðar Jónssonar og síra Illuga Guðmundssonar, er ásamt biskupi undirskrifuðu. Nikulás hèlt klaustrinu þar til hann dó. Þar eptir

hækkaði klausturs afgjaldið, svo það um 1607 var 160 ríkisdalir.

C. Torfi Þorsteinsson Finnbogasonar átti Guðrúnu Magnúsdóttur systur Halls skálds. Torfi drukknaði í Laxá í Aðaldal, þá er hann reið frá veizlu á Grenjaðarstað.

D. Úlfheiður Þorsteinsdóttir átti Árna Brandsson[1]. Börn:

1. Eiríkur sýslumaður í Múlasýslu.
2. Guðrún átti Erlend Hjaltason á Borg undir Eyjafjöllum.
3. Guðlaug átti Þórð Björnsson á Eyvindará austur.
4. Helga átti Jón Björnsson á Egilsstöðum, barnlaus.
5. Ingibjörg átti síra Þorvarð Magnússon og börn.

E. Guðríður átti Bjarna sýslumann Erlendsson á Ketilsstöðum.

F. Þóra átti Markús á Víðivöllum í Fljótsdal, þeirra dóttir var Ingibjörg móðir Brynjólfs á Höskuldsstöðum eystra, hans dóttir var Katrín móðir Bessa sýslumanns[2].

Þorsteinn Finnbogason mannaðist vel og gjörðist umboðsmaður föður síns. 1506 ákærði hann Glaumbæjar-Teit í umboði Finnboga lögmanns föður síns um peninga, er Eiríkur

---

1) Brandur, faðir Árna, var Brandur príor Rafnsson. Á meðal barna Árna og Úlfheiðar er enn talin Þórdís, kona síra Sigurðar Árnasonar á Skorrastað, er dó um 1600, þeirra son síra Árni, hans son síra Sigurður, er dó 1669, hans son síra Árni, er prestur var í 55 ár og dó 1724; allir þessir langfeðgar voru prestar á Skorrastað.

2) Enn voru 2 Kristínar dætur Þorsteins Finnbogasonar, þær giptust báðar, en menn geta nú eigi rakið ættir frá þeim; önnur þeirra átti Brynjólf nokkurn, þau dóu bæði með 3 börnum sínum í stórhríð í tjaldi sínu fyrir utan Skörð í Kelduhverfi.

Loptsson[1] og Bjarni Ivarsson, bóndi Sophíu Loptsdóttur, hefði átt: hefði Þorleifur faðir Teits þá í óleyfi burt flutt frá Grund: þeir hefðu tilheyrt Sveini Sumarliðasyni og hans erfingja Finnboga lögmanni. 1507 fimmtudaginn næstan fyrir visitationem beatæ virginis veitir Vigfús hirðstjóri Erlendsson honum Vaðlaþing allt, en eg efast um, að hann hafi haft það allt lengur en til 1508, þá Vigfús hirðstjóri hefir veitt Jóni Ásgeirssyni það (eg meina hálft); óvíst er, hvað lengi Þorsteinn hefir hèr (ɔ: í Þingeyjarþingi) haft völd, þó eg meini, að það hafi verið til 1544 yfir hálfri sýslunni eða ef til vill lengur; þó er það óvíst. 1514 var Auðunn Sigurðsson og aðrir 4 menn í dóm nefndir af Þorsteini Finnbogasyni, konungs umboðsmanni í Þingeyjarþingi, fimmtudaginn næstan fyrir Marteinsmessu að Ljósavatni í Bárðardal um veturinn; var Bessi

---

1) Eiríkur hafði haft umboð Sophíu, meðan hún var í ómegð hjá Ólöfu systur sinni, en Bjarna, fyrra manni Sophíu, þótti að Eiríkur eigi hefði staðið tilhlýðileg skil á arfi hennar, og að nokkuð af fè hennar hefði runnið inn til hans. Sökum þessa hafði hann og Þorleifur, sonur Sophíu, gjört fjárupptektir á Grund hjá Eiríki eða afkomendum hans, sjálfsagt sinn á hverjum tíma, en skaðabætur fyrir þetta áleit Finnbogi lögmaður að sèr, sem erfingja Guðríðar dóttur sinnar og konu Sveins, sonarsonar Eiríks, bæri af Teiti Þorleifssyni, og síra Árna bróður Teits, að því leyti þeir erft höfðu föður þeirra Þorleif. Sú var önnur sök, er Þorsteinn kærði Teit fyrir, að Narfi Sigurðsson, sem fyr er getið, hafði fengið Finnboga lögmanni og Teiti jarðirnar Lækjamót og báðar Ásgeirsárnar, ásamt 4 smájörðum á Ströndum, Krossnesi, Melum, Norðurfirði og Seljanesi, fyrir þann mismun á fjárskakka, er þeir bræður Árni, Sigurður og Teitur Þorleifssynir höfðu fengið í arfskipti við Orm Bjarnason eptir Sophíu Loptsdóttur, föðurmóður þeirra, en Teitur hafði tekið til sín jarðirnar og eigi látið Finnboga hafa nokkuð eptir þær. Allan þann rètt, er Finnboga bar gegn Teiti út af þessu hvorutveggja, keypti Þorsteinn af föður sínum, og var hann búinn að því, áður en hann stefndi Teiti þar um; hann kærði því mál þetta fyrir sjálfan sig, en eigi í umboði föður síns.

Þorláksson, banamaður Halls Magnússonar. dæmdur lögráðandi alls síns fjár, eptir dómsbrèfi Finnboga lögmanns og konungs landsvistarbrèfi. — Þetta ár 1514 selur Þorsteinn Finnbogason Jóni Ásgrímssyni Hvamm á Gálmarströnd, Haga á Árskógsströnd og Einarsstaði í Kræklingahlíð fyrir Breiðumýri í Reykjadal, Voga og Haganes við Mývatn: Sigurður bróðir Þorsteins samþykkti söluna. Vottar: Sigurður Finnbogason, Ormur Sturluson, á Espihóli í Eyjafirði þriðjudaginn næstan fyrir uppstigningardag. 1517 föstudaginn næsta eptir dýradag í Reykjahlíð undirskrifar Þorsteinn gjafabrèf Þorvarðar Guðmundssonar, þá er hann gaf Sigurði Finnbogasyni og konu hans Margrèti Þorvarðardóttur Egilsstaði í Fljótsdal og Vallaness kirkjusókn til fullrar próventu með sèr og konu sinni Guðlaugu Tómasdóttur. Þetta ár var hann og í Leiðarhólms samþykkt. 1527 var hann í dómi Rafns yfir Glaumbæjar-Teiti. Víst hefir Þorsteinn haldið sýsluna lengi, því þótt Jón biskup Arason kallist konungs umboðsmaður í Þingeyjarþingi í makaskiptabrèfi því, er gjört var í Miklagarði í Eyjafirði sunnudaginn næsta fyrir Luc. evang. 1535, þá er hann fèkk Bessa Þorlákssyni 5 jarðir í Lundarbrekku kirkjusókn og 3 aðrar, sína í hverjum stað, fyrir hálfa Ánastaði, hálft Skarð og 5 hndr. í Kárastöðum á Vatnsnesi, samt hálft Samtún í Kræklingahlíð, þá hefir það verið, er biskupar höfðu hèr hirðstjóra embætti, er eigi stóð lengi, og er líkast, að Þorsteinn samt hafi verið fyrir sýslunni, en goldið biskupi eptir hana. 1542 hefir Þorsteinn samþykkt giptingu og fjárskilmála Ingibjargar Sigurðardóttur og Jóns Skúlasonar; það samþykkti og Ísleifur bróðir hennar á Grund og móðir Ingibjargar, Margrèt Þorvarðardóttir; fyrri maður Ingibjargar var Bjarni son Torfa sýslumanns í Klofa (sjá Hegranesþing). Eptir 1540 hefir Þorsteinn sleppt hálfu Þingeyjarþingi til Vigfúsar sonar síns, sem þar kallast konungs umboðsmaður 1543. 1551 sór hann konungi trúnaðareið ásamt öðrum; hann er sá elzti sýslumaður, sem næst Ormi lögmanni undirskrifar Oddeyrardóm; konungur Kristján 3. skrifar og honum um Jóns biskups Arasonar föngun, þá bjó Þorsteinn í Hafrafellstungu. 1551 laugardaginn næsta fyrir haust-krossmessu, að Presthólum í Núpasveit, nefnir konungs umboðsmaður í Þingeyjarþingi, Þorsteinn bóndi Finnbogason, 6 menn í

dóm um nokkrar jarðir, sem (eptir Oddeyrardómi skyldi hver mega að sèr taka sínar eignir) voru dæmdar eigendum af fè Jóns biskups og sona hans; þá gekk og dómur um gjöf Finnboga lögmanns og Málmfríðar konu hans til sonar síns Þorsteins á 4 hndr. hundraða, er Þorsteinn skyldi eiga auk arfaskipta að löggjöf. 1552 galt síra Sigurður Jónsson á Grenjaðarstað Þorsteini bónda Finnbogasyni jörðina Syðribrekkur og lausafè fyrir Haga í Hvömmum, áður hafði hann goldið hálfa Egilsstaði í Fljótsdal; gáfu þeir hvor annan kvittan um öll peningaskipti og brennisteinsburð, sem síra Sigurður hafði hafa látið til þess dags í Húsavík á Tjörnesi; var þetta skrifað fyrnefnt ár í Múla og 8 vottar undir. Þorsteinn hafði fengið að erfðum eptir föður sinn flestar brennisteinsnámur þar nyrðra, skipti hann þeim og miklu gózi öðru milli barna sinna þetta ár, en námurnar skiptust Vigfúsi og Nikulási sonum hans. 1553 meðkennist Nikulás Þorsteinsson að hafa fengið Vigfúsi bróður sínum til eignar brennistein í Fremrinámum og heima í Hlíðarnámum fyrir sig og sína menn, svo lengi sem þeir lifa báðir, og gefið honum alla Kröflu til æfinlegrar eignar, gjört að Ási í Kelduhverfi, en sama ár í Hafrafellstungu gefur Þorsteinn Finnbogason síra Birni Gíslasyni sína lífstíð brennistein í Fremrinámum; hefir hann því tilskilið sèr það, þá er hann afhenti þær. Þorsteinn dó í Hafrafellstungu 1553. og var mikill höfðingi og mjög auðugur, þó eigi til líka við föður sinn.

## Vigfús Þorsteinsson.

*Faðir:* Þorsteinn sýslumaður nýnefndur.

*Móðir:* Sesselja Torfadóttir frá Klofa.

*Kvinna fyrri:* Þorbjörg Magnúsdóttir frá Eyðum; þau voru saman í 9 ár.

*Börn:* A. Magnús[1], er seinna bjó á Eyðum og átti Ólöfu dóttur Eiríks undir Ási Snjólfssonar (þann Snjólf nefna sumar ættartölur son Brands príors á Skriðu, Rafnssonar lögmanns, en aðrar segja, að Snjólfur

1) Sjá Tímarit mitt 1. B. bls. 50 og 51, en þar er á 52. blaðsíðunni undir d. sagt, að Ólöf hafi verið kona Vigfúsar Þorsteinssonar, en það er prentvilla, eins og þar síðar er sagt.

þessi hafi verið son Rafns lögmanns, en ekki hans sonarson). Börn:

1. Árni sýslumaður í Múlaþingi[1].
2. Þorbjörg kona Jóns lögmanns Sigurðssonar á Reynistað (sjá Húnavatnsþing).

B. Ingibjörg átti fyr síra Bjarna Högnason[2] (aðrir Finnbogason). Börn:

1. Þorbjörg átti Pètur sýslumann son Staðarhóls-Páls, sjá Strandasýslu.
   Svo giptist Ingibjörg síra Oddi Þorkelssyni; þeirra börn:
2. Bjarni sýslumaður á Bustarfelli.
3. Ólafur í Krossavík átti Þrúðu Eiríksdóttur; þeirra börn:
   a. Síra Ólafur.
   b. Þorkell í Njarðvík.
   c. Ingibjörg.
4. Margrèt átti Jón klausturhaldara Björnsson í Skriðu (sjá Múlaþing)[3].

***Kvinna síðari*** Vigfúsar var Anna Eyjólfsdóttir Einarssonar í Dal.

***Börn*:** C. Þorsteinn drukknaði 1592 í Hamborgarelfu á útsiglingu; nokkrir segja, að hann hafi þá haft veitingu fyrir Þingeyjarsýslu og ráðabrugg að koma á nýjum skatti hèr á landi; hann var ógiptur, barnlaus. 1592 ljet Þorsteinn dóm ganga á Helgastöðum um veð í jörðu; hann hefir það haust utan farið.

D. Jón sýslumaður (sjá um hann síðar).

E. Þorbjörg átti Hákon sýslumann Árnason sýslumanns á Hlíðarenda Gíslasonar.

Vigfús mannaðist vel, giptist og bjó fyrst á Skútustöðum. Snemma tók hann hálft Þingeyjarþing, því 1543 kallast hann

---

1) Sjá Tímarit mitt 2. B. bls. 59.

2) Sjá Tímarit mitt 2. B. bls. 53.

3) Margrèt var Bjarnadóttir og alsystir Þorbjargar, konu Pèturs á Staðarhóli, sjá Tímarit mitt 2. B. bls. 53.

konungs umboðsmaður í Þingeyjarþingi í transskriptarbrèfi um jarðakaup Finnboga lögmanns og Einars Bergþórssonar, sem Vigfús bóndi Þorsteinsson hefur þá fidimerað. 1553 að Ási í Kelduhverfi lýsti Vigfús bóndi fyrir Ólafi biskupi Hjaltasyni, að kirkjan í Ási ætti 20 hndr. skuld í heimalandi jarðarinnar, en biskup vildi ei samsinna því, og álasaði mjög ágirnd og fèdrætti hinna fyrri biskupa, í því að draga eignir og óðul manna undir stólana og kirkjurnar, sem sýnir, að Ólafur biskup var ágirndarlaus, ósèrplæginn og rèttdæmur í þessu. Sömdu þeir Vigfús bóndi þá með sèr, að nefnd 20 hndr. skuld skyldi kvittast með byggingarkostnaði og öðru því, er kirkjan með þyrfti, og Vigfús til legði; voru þeir biskup og Vigfús jafnan vinir síðan. 1555 hefur hann ei haft utan hálfa sýsluna eða 1554, því Magnús Jónson[1] er þar talinn sýslumaður 1555; er líkast, að Magnús hafi 1553 við dauða Þorsteins sýslumanns fengið hálfa sýsluna, en þetta ár 1555 gjörðist Vigfús umboðsmaður Páls sýslumanns á Hlíðarenda, sem dómur hans í Rangárþingi nefnt ár sýnir: hefir þá Magnús verið það ár og svo umboðsmaður Vigfúsar í hans sýsluparti. 1556 er Vigfús konungs umboðsmaður í Þingeyjarsýslu og lætur dóm ganga yfir klögu síra Einars Sigurðssonar til Starkaðar Valtýssonar á Öndólfsstöðum um hald á tíundum, heytolli og líksöngseyri, hafði Vigfús þá prófastsvald með 2 prestum þar yfir að dæma, voru það síra Illugi Guðmundsson og síra Ólafur Árnason, en leikmenn Jón Ormsson, Þorgrímur Þorleifsson, Þorsteinn Vigfússon og Magnús Björnsson; dæmdist fyrir 2 ára tíundar hald 9 marka sekt; fyrir 3 ára heytolls hald 3 aura sekt ofan á hvern heytoll; auk þessa skyldi hann gjalda tíundirnar innan sjöundar að heyrðum dóminum, en sektirnar innan fardaga. 1563, þá er þeir bræður seldu brennisteinsnámurnar konungi, veitti hirðstjórinn Páll Stígsson Vigfúsi bónda Þorsteinssyni alla Þingeyjarsýslu sína lífstíð móti vanalegu afgjaldi (»sem nú er 30 rd. Croner, 1 rúst hestur, 4 rd. spesíes og sakafall 7 rd.«). Vigfús skyldi hafa öll 6 marka mál, og þaðan af minni. Fyrir sinn part í námunum skyldi hann hafa alla rentu sýslunnar í 6 ár, en þar eptir fyrir vanalegt afgjald. Sömuleiðis fèkk hann

1) Sjá um Magnús Jónsson hèr síðar.

Möðrufell með Gilsbakka í Eyjafirði afgjaldslaust í 6 ár og síðan fyrir vanalegt afgjald. 1565 mánudaginn næstan eptir páskaviku á Helgastöðum í Reykjadal lætur Vigfús bóndi Þorsteinsson sýslumaður í Þingeyjarþingi með 6 mönnum ganga dóm um hjónaband síra Halldórs Benidiktssonar og Helgu Illugadóttur, er dánumenn höfðu viljað forlíka. Hafði Helga beðið sýslumann fyrir guðs sakir með dómi að láta rannsaka sína neyð og nauðsyn, því hún sagðist eigi vita, hverrar miskunar hún hefði af sínum manni að vænta, og hún treystist eigi saman við síra Halldór að vera, og þetta meinar hún að renna nokkurn part frá konunni Ragnheiði, sem hann elski fremur en sig o. s. frv. Dæmdu dómendur, að ef Helga treystir sèr til að sverja þann eið, að hún haldi sig eigi styrk hafa til að búa saman við síra Halldór, og sú neyð sè sönn, sem hún hefir auglýst, skyldi hún friðhelg vera mega hjá sínum föður eða lènsmanninum Vigfúsi Þorsteinssyni, fyrir síra Halldóri; en vilji þetta mál eigi betrast þeirra á milli, dæma dómendur það fyrir biskupinn og syslumanninn. 1565 hinn 15. september var Vigfús sýslumaður við, þegar biskup Ólafur Hjaltason tók reikning af síra Halldóri Benidiktssyni fyrir Múnkaþverár klausturs peninga. Ólafur biskup hafði veitt Vigfúsi prófastsdæmi, og prófastur segist Vigfús vera 1565 hinn 20, maí, þá er hann lèt dóm ganga um lambseldi í Fnjóskadal, hvar um síra Teitur Magnússon klagaði. 1572 lætur hann dóm ganga að Ljósavatni um fjölmæli, heimskuyrði og blak Lopts Jónssonar; var dæmd 3 marka sekt til konungs fyrir fjölmælin og sýslumanni fullrètti. Fyrir það, að Loptur hafði blakað fátæka konu Ásgerði, skyldi hann bæta konunni mörk; fyrir það, að hann hafði ausið ösku og saur á konuna, dæmdu þeir konunni 2 aura. 1574 næsta mánudag fyrir krossmessu um haustið á Grýtubakka í Höfðahverfi lætur Guðbrandur biskup með 6 prestum, síra Sigurði Jónssyni, síra Einari Sigurðssyni, síra Jóni Sigurðssyni, síra Ólafi Árnasyni, síra Þorsteini Eiríkssyni ásamt sýslumanninum í Þingeyjarþingi, Vigfúsi Þorsteinssyni með 6 mönnum, Sigurði Jónssyni, Magnúsi Björnssyni, Jóni Ormssyni, Guðmundi Nikulássyni, Jóni Illugasyni og Oddi Ásmundssyni, dóm ganga um samvistir Magna Jónssonar og Kötlu Þorsteinsdóttur; hafði Katla áður keypt verið af öðrum manni, Helga Þórólfssyni,

með eigin vilja og samþykki móður hennar, en ekki giptingarmanns, bróður Kötlu; dæmdu dómendur Magna og Kötlu í hórdóms sekt, en settu til lögmanns og biskups um hjónaband þeirra. Þetta ár hóf Guðbrandur biskup prentverks iðju á Hólum, keypti fyrst prentsmiðju síra Jóns Mattíassonar á Breiðabólsstað fyrir lítið verð, fèkk þar eptir tilföng til hennar mest frá Hamborg, svo hún varð í bezta standi; en þegar hún var komin í svo gott lag með allt, reiknaði biskup, að hún hefði kostað sig 1100 spesíudali; en 1578 fèkk Jón son síra Jóns svenska lènsbrèf Friðriks 2. fyrir jörðunni Núpufelli, var prentverkið þangað flutt og skyldi Jón þar prenta bækur eptir biskups fyrirmælum. Biskup Guðbrandur þótti ráðríkur og hlutsamur, harður í kirkjureikningum og gefa sig inn í hèraðsstjórn sýslumanna, en Ólafur biskup hafði verið mildur og óhlutsamur. Vigfús og fleiri sýslumenn norðanlands kvörtuðu þar yfir fyrir lögmönnum, sem þá voru Þórður Guðmundsson og Jón Jónsson. 1574 á Öxarárþingi gjörðu því lögmenn ásamt lögrèttunni þá samþykkt, að allir þeir, sem hefðu lèni af konungsvaldi, skyldu lènsmenn vera, og yfir svo miklu hafa hèraðsstjórn, sem brèf þeirra upp á hljóða. 1579, hinn 27. apríl, að Helgastöðum í Reykjadal á 3 hreppa þingi, lætur sýslumaður Vigfús Þorsteinsson 6 manna dóm ganga um leigukúgildi, sem í mjög mörg ár ekki höfðu verið uppbætt að sögn Starkaðar Valtýssonar á Öndólfsstöðum, sem kúgildin skar, en Sigurður Jónsson umboðsmaður tilkallaði: dæmdist Starkaður Valtýsson skyldugur að svara þessum kúgildum í óleyfi drepnum og ósködduðum með öllu, utan aldri, í fardögum, svo mörgum sem hann móttók, þar hann þeim eigi heim skilaði, þá er hann eigi vildi þau lengur leigja, en Sigurður Jónsson, konungs umboðsmaður, hafi sinn aðgang að þeim, sem áður hèlt umboðið. 1581, 18. október, lætur Vigfús bóndi Þorsteinsson 6 manna dóm ganga að Helgastöðum um það, hver umboð Halldórs prests Benidiktssonar skyldi hafa, þar hann væri svo aldraður og vanfær, hvort heldur Benidikt bóndi eða Jónar tveir synir Halldórs prests og Katrínar, en árið eptir dæmdist Benidikt sýslumanni umboð föður síns. 1582, 15. júní, að Helgastöðum voru af konungs umboðsmanni, Vigfúsi bónda Þorsteinssyni, í dóm nefndir Magnús Björnsson og Jón Illuga-

son, svarnir lögrèttumenn og 10 menn aðrir til að dæma um ákæru þá, er margur maður í Þingeyjarþingi dóms á beiddist, um það, að búendur sögðust eigi sínar tíundir lúkt geta í vaðmáli, hvorki konungi nè presti, sakir sauðleysis og ullarleysis, því á mörgum bæjum væri nú sauðlaust orðið, en á flestum sauðfátt, svo almúginn gæti eigi klætt sig, börn nè þjónustufólk, en þótt fólk vildi gjalda jóachimsdali eða eyri silfurs, vildi sýslumaður eigi taka hann meir en 10 álnir vaðmáls, hvað eð reiknast 21 alin; en almúginn vildi gjalda hvern eyri silfurs fyrir 5 aura, það eru 36 álnir; svo og vildu sýslumenn eigi fríða aura í konungstíundir taka, og eigi sumir prestar; segja þeir full 200 eða 300 manna naktra og fatlausra ganga yfir í sýslunni og liggi við dauða á vetrum af klæðleysi. Segja dómsmenn, að eyrir silfurs brennds hafi ætíð verið goldinn fyrir 15 álnir vaðmáls og 8 þumlunga betur utan um nokkur ár: dæma þeir þetta fyrir lögmenn og lögrèttu á Öxarárþingi, en annars hvern eyri brennds silfurs rètt goldinn í tíundir fyrir 14 álnir vaðmáls og 8 þumlunga betur, svo jóachimsdalur verði þá af hverju einu hundraði. («Eyrir brennds «silfurs galt í fyrstu 48 álnir vaðmáls, svo 30 álnir vaðmáls, «en seinna 48 fiska, hefir vaðmál hækkað í verði, en silfur «lækkað, jafnvel 1582 og þó meira seinna, mesti munur er á «eyri brennds silfurs vegnum eða eyri töldum, Jón Jakobsson»). («Þetta er eigi ljóst dæmt, 4 jóakimsdalir gjörðu 1 hndr., máske «röng afskriptin. B. Benediktsen»)[1]. Þetta ár 1582 hefir Vigfús slepp hálfri sýslunni, sem Jón lögrèttumaður Illugason hefir haft, eða Jón verið Vigfúsar umboðsmaður, sem er líklegra, þó Jón 2. janúar það ár við dómsmanna útnefning segist hafa sýslu konungs í Þingeyjarþingi, kallast hann sama árið 15. júní svarinn lögrèttumaður (sjá meir um Jón hèr síðar). 1590 lætur Vigfús Þorsteinsson dóm ganga um hjónaband Bjarna Einars-

---

1) Eg hefi eigi sèð þennan dóm, og held, að eitthvað sè rangt skrifað í honum; eg skal geta þess, að Bogi hefir fyrst skrifað «af hverju einu hundraði hundraða», en dregið aptur út «hundraða». Í hverjum eyri voru 6 áln. í fyrndinni, 5 aurar voru því 30 áln. en ekki 36 áln.: sjá um þennan dóm Árbækur Espólíns við árið 1582.

sonar og Solveigar Sigurðardóttur ásamt Guðbrandi biskupi. 1591, ásamt með prófasti Þorsteini Illugasyni, lætur Vigfús dóm ganga um fyrnefnt hjónaband, og sama ár 2. júní að Helgastöðum ásamt tèðum prófasti um pening og innstæðu kirkjunnar á Draflastöðum, því biskup Guðbrandur kærði til Jóns bónda Ormssonar, að kirkjan ætti 20 hndr., sem sè 10 málnytukúgildi og 10 hndr. í öðrum peningum: dæmdu þeir Jón Ormsson og hans samarfa skylduga að svara þessum peningum til kirkjunnar, svo framt þeir hefðu fè upp borið eptir greindan Orm. Sama ár 4. nóvember lèt Vigfús helmingadóm ganga með Þorsteini prófasti Illugasyni um ákæru síra Ólafs Tómassonar vegna Guðbrandar biskups um jörðina Steinkirkju í Fnjóskadal, sem Ólafur biskup hafði burtselt frá Hólakirkju. Þar eptir finn eg engan dóm Vigfúsar, var hann þá mjög hniginn að aldri, og hefir haft umboðsmenn eða sleppt sýslunni. 1591 átti hann í máli við Magnús á Espihóli Björnsson út af Hallbjarnarstaðareka, riðu þeir báðir þetta ár til alþingis, dæmdist þar Magnúsi tèður reki. Vigfús sýslumaður sleppti sínum sýsluverkum og sýslunni algjörlega 1603 og dó sama ár. Hann var haldinn höfðingi og með helztu sýslumönnum. Hann var vel auðugur og vitur maður, var við sýsluvöld yfir 50 ár. Hann mun hafa tekið hálfa sýsluna nálægt 1540, fyrst á móti föður sínum, svo á móti Magnúsi Jónssyni frá 1553 til 1563, þar eptir haldið hana alla, en haft umboðsmenn seinast.

### Magnús Jónsson[1].

(Sjá um hann við Barðastrandarsýslu). Mín meining er, að hann hafi fengið hálft Þingeyjarþing eptir Þorstein Finnbogason 1553 og haldið það til þess Vigfús fèkk alla sýsluna 1563.

---

1) Páll Jónsson (Staðarhóls Páll) hefir undir eins fengið Þingeyjarþing eptir Þorstein Finnbogason, það er að segja, þann hlutann, er Þorsteinn hafði haldið, því 1553 lèt Magnús Jónsson, í umboði Páls Jónssonar, sýslumanns konungs í Þingeyjarþingi, dóm ganga um framfærslu Finnu Ívarsdóttur: hefir Páll líklega haldið þann hluta sýslunnar, þangað til hann fór vestur.

En aðrir meina, að hann hafi eigi verið nema umboðsmaður Vigfúsar[1].

### Árni Magnússon á Grýtubakka.

(Sjá hans ætt og börn við Strandasýslu). Hann kallast í ættartölum sýslumaður og þykir mèr líkast til, að hann hafi verið um hríð umboðsmaður Vigfúsar sýslumanns Þorsteinssonar eptir 1563 eða nálægt 1570 í Þingeyjarsýslu.

### Jón Illugason.

*Faðir*: Síra Illugi Guðmundsson í Múla, Hólastaðar ráðsmaður.

*Móðir*: Málmfríður Jónsdóttir Finnbogasonar lögmanns.

*Kona*: Guðrún dóttir Þorgríms í Lögmannshlíð Þorleifssonar.

*Börn*: A. Guðmundur á Stórulaugum átti Sesselju dóttur Árna á Grýtubakka Magnússonar, sjá Strandasýslu. Börn:

1. Síra Hallgrímur á Arnarvatni við Mývatn, varð úti hjá vallargarði 1653, átti Steinvöru laundóttur Jóns Einarssonar í Hafrafellstungu; börn:
   a. Ingibjörg.
   b. Sesselja.
   c. Guðrún[2].
2. Sigurður á Illugastöðum átti Margrèti Jónsdóttur, barnlaus.
3. Þorgrímur lögrèttumaður í Krossavík átti Margrèti Hallgrímsdóttur Einarssonar; þeirra börn: Sigurður[3] lögsagnari átti Guðrúnu dóttur síra Vigfúsar Árnasonar.

---

1) Eins og að framan er getið, hefir Vigfús stundum haldið umboðsmann, þannig fèkk hann Magnúsi Björnssyni 1566 þrjá hreppa sýslunnar, er hann skyldi halda og gjöra, í umboði sínu, öll sýslumanns störf í.

2) Þórunn hèt og dóttir síra Hallgríms, kona Pèturs Guðmundssonar frá Flatatungu.

3) Börn Sigurðar Þorgrímssonar voru:

a. Skúli lögrèttumaður átti Margrèti Einarsdóttur prests

4. Jón í Vík við Flateyjardal átti Guðrúnu Jónsdóttur Jónsonar gamla, hálfsystur Margrètar[1]; þeirra börn:
   a. Guðmundur.
   b. Sesselja[2].
5. Þórný átti Björn[3] Jónsson á Narfastöðum; þeirra börn:
   a. Guðmundur.
   b. Margrèt.
   c. Málmfríður.
   d. Valgerður.
   e. Jón.
   f. Sesselja.
   g. Jón annar.
6. Síra Jón fyrst kapellán í Laufási 1650, dó 1676, átti Þórunni Pètursdóttur, barnlaus.

---

á Ási í Fellum, systur síra Bjarna, er þar varð prestur eptir föður sinn.

b. Sigurður, átti 1 hndr. hundraða, er hann giptist, en eyddi öllu fè sínu og varð örsnauður.

c. Sesselja, ólánaðist og svo.

1) Jón Magnússon segir, að kona Jóns í Vík hafi verið Guðrún Jónsdóttir Jónssonar frá Einarsstöðum: en kona Sigurðar, bróður Jóns, Margrèt dóttir Jóns Gamla á Einarsstöðum. Espólín telur þær systur og dætur Jóns Jónssonar gamla á Einarsstöðum, (Ormssonar), eins telur Ólafur Snógdalín Margrèti til ættar sem Espólín, en Guðrúnu telur hann dóttur Jóns nokkurs við Mývatn Ingjaldssonar í Vogum, Hallgrímssonar skálds á Grímsstöðum á Fjöllum, en bróðir Guðrúnar segir hann að hafi heitið Jón, verið lögrèttumaður, og búið á Einarsstöðum.

2) Þórður hèt enn son Jóns í Vík, og er hann af sumum ranglega kallaður sonarson Guðmundar Nikulássonar, sjá hèr að framan.

3) Björn var ættaður af Vestfjörðum, móðir hans var Þordís, dóttir síra Jóns í Stafholti Egilssonar.

B. Illugi[1] var um hríð Hólastóls ráðsmaður, átti Halldóru Skúladóttur, systur Þorláks biskups. Börn:

1. Síra Þorsteinn prestur á Völlum í Svarfaðardal átti Steinvöru[2] dóttur síra Jóns Runólfssonar; þeirra börn:
   a. Kristín.
   b. Gróa.
   c. Jón.
   d. Sigríður.
2. Jón Illugason á Urðum lögsagnari (sjá Vaðlaþing).
3. Skúli snikkari átti Guðríði Þorvaldsdóttur úr Hrísey; þeirra börn:
   a. Helga.
   b. Guðrún.
4. Þórdís átti Þorlák prófast á Auðkúlu Halldórsson; þeirra börn:
   a. Síra Illugi á Kúlu.
   b. Síra Halldór á Bægisá.
   c. Síra Guðmundur á Þönglabakka.
   d. Guðrún.
   e. Valgerður.
   f. Ólafur.
   g. Björn.
   h. Margrèt[3].
5. Ragnheiður átti Magnús Bergsson; börn:
   a. Bergur lögrèttumaður.
   b. Ingibjörg.
   c. Guðrún.

---

1) Illugi dó í Illugalá fyrir sunnan Hofsós, var á heimleið úr kaupstaðnum, var grunsamt um, að hann hefði verið svikinn í ádrykkju.

2) Steinvör, eða sem sumir nefna hana Steinunn, var systir Runólfs meistara, sjá hèr að framan, hún dó 1705.

3) Þórður hèt og sonur síra Þorláks og Þordísar, og er ætt frá honum.

6. Guðrún átti Grím lögrèttumann Sigurðsson; þeirra börn:
   a. Síra Þorlákur.
   b. Steinunn.
   c. Illugi lögrèttumaður.
7. Málmfríður átti Guttorm Jónsson, bjuggu í Fljótum; börn:
   a. Helga átti Jón Sveinsson[1] forpaktara.
   b. Jón.
8. Ingunn átti Jón Guðmundsson.

C. Þórdís Jónsdóttir fyrri kona Nikulásar Einarssonar; þau áttu saman 15 börn[2]; þar af voru:
1. Síra Einar á Skinnastöðum.
2. Guðleif.
3. Þorbjörg.
4. Solveig.
5. Steinunn.
6. Ragnheiður.
7. Guðrún.
8. Valgerður.

D. Halldóra Jónsdóttir átti Ólaf í Hèðinshöfða; þeirra börn: síra Þorgrímur prestur til Möðruvalla, og fleiri[3].

Jón Illugason var með heldri bændum á sinni tíð, og hefur 1582 gjörzt umboðsmaður Vigfúsar sýslumanns í Þingeyjarþingi, en var löngu fyr orðinn lögrèttumaður. Hannes biskup Finnsson telur Jón Illugason nálægt 1563 að hafa verið lögsagnara, en eg held, að það hafi ei verið svo snemma. 1582, 2 janúar að Helgastöðum í Reykjadal, lætur Jón Illugason, er þá segist hafa konungsins sýslu í Þingeyjarþingi, 6 manna dóm ganga um vinnufólk, sem ólöglega er rekið úr sveit sinni undir vetur, illa til reika og klæðlítið o. s. fr. Sama ár eptir páskaviku lætur hann ganga helmingadóm með Þorsteini prófasti bróður sínum

1) Jón var sonur síra Sveins á Barði Jónssonar.
2) Börn Þórdísar og Nikulásar eru áður talin.
3) Eg hefi eigi sèð getið fleiri barna Halldóru og Ólafs, svo eg muni, en síra Þorgríms.

og 2 prestum að Helgastöðum og 3 leikmönnum, sem konungs umboðsmaður, um jörðina Arnarvatn, sem Ólafur biskup hafði frá dómkirkjunni burtselt síra Jóni Sigurðssyni í Laufási; dæmdu þeir jörðina Hólakirkju. 1591, 4. september með prófasti Þorsteini, lætur Jón Illugason dóm ganga að Helgastöðum um jörðina Steinkirkju, er Ólafur biskup hafði burtlátið frá dómkirkjunni. 1592, og aptur 1593, lætur hann ásamt bróður sínum Þorsteini prófasti ganga helmingadóm 23. apríl að Helgastöðum, með hverjum þeir ónýta jarða sölu Ólafs biskups Hjaltasonar og síra Sigurðar á Grenjaðarstað, svo Bakki og Lón fèllu aptur undir Hólastað, en Hrafnstaðir og Hyllur voru tildæmdar þeim bræðrum, Birni og Þorsteini Magnússonum. Hèr af má sjá, að Jón þessi hefur lengi verið umboðsmaður Vigfúsar, en eg efa, að hann hafi haft veiting fyrir nokkru af sýslunni. 1599 meina eg að Jón hafi sleppt þessu umboði fyrir Vigfús eða sýslupartinum, hafi hann haft nokkra veiting, en lengi lifði Jón þar eptir og opt var hann dómsmaður, sem svarinn lögrèttumaður, bæði með Vigfúsi og öðrum. 1611 á alþingi lèt Jörgen Daníel umboðsmaður hirðstjórans Herlúfs Daaes, dæma þennan Jón Illugason í bætur til höfuðsmannsins, 8 tunnur lýsis, fyrir það að Jón í bónarbrèfi til konungs, hafði kallað sig sýslumann í Þingeyjarþingi. Jón bjó á Stórulaugum.

## Jón Sigurðarson.

(Sjá um hann við Hegranessýslu). Hann mun fyrst hafa orðið umboðsmaður Vigfúsar sýslumanns í Þingeyjarþingi 1599, heldur en 1597. 1601 reið hann til alþingis í miklu harðindunum, og varð samferða Benidikt sýslumanni ríka og Sigurði sýslumanni föður sínum frá Reynistað, og riðu þeir þá Holtavörðuheiði (segir Björn á Skarðsá). 1602, 2. ágúst að Helgastöðum í Reykjadal, lætur Jón Sigurðsson löglegur umboðsmaður Vigfúsar bónda Þorsteinssonar ganga dóm með 6 mönnum, Jóni Illugasyni (fyr nefndum), Birni Magnússyni, Ólafi Jónssyni, Andrèsi Sigfússyni, Pètri Jónssyni og Ólafi Jónssyni um framfæri þeirrar vanfæru konu Kristínar Ólafsdóttur, sem var systurdóttir Vigfúsar bónda Þorsteinssonar, og barna hennar, gjörðu dómendur ómagaskipti með hjónunum, skyldu hvoru hjóna fylgja 2 byrðarbörn, svo og dæmdu þeir börnin upp á

fè og peninga síra Björns[1] Högnasonar, svo framt sem prestur eigi verjist með eiði; en Kristínu Ólafsdóttur með 2 börnum sínum dæmdu þeir á fè Fúsa bónda Þorsteinssonar, svo framt hann hefði forlagseyri til, og á Jón Vigfússon og Einar Nikulásson, ef faðir Jóns en föðurbróðir Einars, sýslumaður Vigfús, bevísaðist eigi að eiga fyrir ómögunum að lögum. Eigi er fullvíst, hvert ár Jón tók sýslupartinn eða sleppti honum, en í 6 ár var hann þar sýslumaður yfir nokkru af sýslunni, sem fylgjandi vitnisburðir sýna. Árni prestur Einarsson, búandi í Garði, hefir 1609 mánudaginn næstan fyrir krossmessu útgefið Jóni Sigurðssyni þann vitnisburð, að hann í þau 6 ár, sem hann hafði míns náðuga herra konungsins umboð og sýslu í Þingeyjarþingi, hafi hagað sèr vel. 1609 29. apríl hefir Jón Þórarinsson í Hafrafellstungu útgefið Jóni Sigurðssyni þennan vitnisburð: «Vor lögmaður norðan og vestan, þá hann hafði Þingeyjar- «sýslu í þeim parti, sem var undir Helkunduheiði og ofan undir «Fjöll, því eg var þá opt með honum, og svo heyrði eg þá á «bændum, og enn heyri, að þeir vildu honum lengur haldið «hafa». Hèr af sèst, að hann hefir haft tiltekið sýslupláss, og verið þar í 6 ár, máske Vigfús hafi lènt honum það. þó mun heldur hitt, að hann hafi verið Vigfúsar lögsagnari fyrst, og svo fengið hálfa sýsluna eptir hann mót Jóni Vigfússyni, en tekið Sigurð Markússon fyrir sinn lögsagnara, þá er hann fèkk Hegranesþing 1602, og síðan sleppti þeim parti líka.

## Ólafur Jónsson.

*Faðir:* Jón Refur, son Sigurðar Rebba í Búðardal Oddssonar á Hvoli Sigurðssonar[2] sama staðar.

*Móðir:* Margrèt, dóttir Eiríks í Ásgarði, sjá Dalasýslu.

---

1) Á víst að vera síra Bjarna Högnasonar, er prestur var að Hofi í Vopnafirði. Það er auðsært af þessu, að faðir barnanna Ólafur hefir verið náskyldur síra Bjarna, því helmingur barnanna, eða þau tvö, hafa verið dæmd á föðurætt þeirra, en hin tvö á móðurættina.

1) Sigurður, faðir Odds, var Geirmundsson Herjólfssonar, en bróðir Geirmundar var án efa Einar Herjólfsson, er útkom með svarta dauða. Sigurður var bróðir Ólafs yngra Tóna og dóttur-

*Kona:* Þórunn eldri, dóttir Benedikts ríka Halldórssonar.
*Börn:* A. Halldór lögmaður, sjá Hegranessþing.
B. Þorvaldur átti Halldóru yngri dóttur Jóns sýslumanns Björnssonar, sjá Húnavatnsþing. Þorvaldur dó snögglega 1650.
C. Sigfús Ólafsson laungetinn, lögrèttumaður á Öxnhóli[1].

Ólafur hafði farið utan og verið sveinn Enevolds Kruses, er varð hirðstjóri; eptir 1600 var hann umboðsmaður á Bessastöðum. Þá er Vigfús sýslumaður Þorsteinsson dó 1603 á áliðnu sumri, og Hákon sýslumaður Árnason gjörðist umboðsmaður ekkjunnar, fèkk hann Ólaf fyrir sinn umboðsmann, því Hákon, sem hafði lofað Vigfúsi, þá ellimóðum, umsjón sinni, hafði í mörgu öðru að snúast, svo hann gat eigi gegnt þar sýslumanns verkum. 1603, þriðjudaginn næstan fyrir Mikaelsmessu lèt Ólafur Jónsson í umboði Hákonar Árnasonar, umboðsmanns Vigfúsar sýslumanns Þorsteinssonar í Þingeyjarþingi dóm ganga að Ljósavatni um ómaga. Tjá þá dómsmenn Vigfús sýslumann Þorsteinsson sofnaðan, og dæma því ómagann á sonu hans Jón og Magnús og frænda þeirra Einar Nikulásson. 1605 fèkk Ólafur Möðruvallaklaustursumboð, er hann hefir haldið þangaðtil hann dó; Möðruvallaklaustursumboð tók síra Björn Gíslason 1547, síðan hèlt það síra Halldór Benidiktsson; 1560 veitti konungur það Ormi lögmanni Sturlusyni, en þareð Ormur eigi stóð í skilum með afgjaldið, tók Bucholt það af honum og veitti það Benidikt Halldórssyni sýslumanni, er hèlt það til 1605, að Ólafur tók það. Eptir Ólaf fèkk umboðið Halldór lögmaður son hans, en missti það að nafninu 1628, en fèkk það aptur 1629. Benidikt Pálsson Guðbrandssonar biskups fèkk nefnt klaustur að veiting 1639 og hèlt því til síns dauða 1664; þá fèkk Jón Eggertsson fyrir því veitingu umboðsmannsins á Bessastöðum, en missti það 1667 til Jóns Þor-

---

son Ólafs eldra Tóna, er var sonur Þorleifs Svartssonar á Reykhólum; var Þorleifur fæddur 1301, en dó 1379.

1) Enn var dóttir Ólafs Kristbjörg, er síra Ásmundur á Helgastöðum Halldórsson Ásmundssonar átti, þeirra son var Halldór prentari á Hólum.

lákssonar; Jón skipti því mót Skriðuklaustri og Múlasýslu við Þorstein Þorleifsson 1670. Jón Eggertsson náði því þó frá honum 1680, en missti það þó aptur 1683; þá tók það Þórarinn Vigfússon, til þess Lárus Scheving fèkk það 1694, er hèlt það til dauða síns 1722, hèlt svo klaustrið ekkja hans um tíma. Hans son þeirra hèlt svo klaustrið til 1782, þá amtmaður Stephán tók það[1].

### Jón Vigfússon.

*Faðir:* Vigfús sýslumaður Þorsteinsson, sjá að framan.

*Móðir:* Anna Eyjólfsdóttir í Dal Einarssonar.

*Kona fyrsta:* Ingibjörg dóttir síra Björns officíalis í Saurbæ Gíslasonar og Málmfríðar Torfadóttur Jónssonar Finnbogasonar lögmanns; þau giptust 1593 næsta sunnudag fyrir Maríumessu síðari að Saurbæ í Eyjafirði; taldi Vigfús bóndi faðir hans honum 2 hndr. hundraða í jörðum og tuttugu hundruð í lausafè, en Anna móðir hans þar að auk 1 hndr. hundraða og 50 hndr. í jörðum, þar í Stóridalur við Eyjafjöll 60 hndr., að auk löggjöf 30 hndr., tilskildi Vigfús bóndi, að hann og Anna kona hans skyldu hafa það af jörðum þessum, er þau gáfu Jóni syni sínum, sem þau vildu, sèr til sæmdar og uppeldis, meðan þau lifðu.

*Börn:* A. Þórunn giptist fyrst 1613 Sigurði yngra syni Odds biskups, þeirra dóttir Hólmfríður, hann drukknaði með annan mann 1617; svo 1620 Magnúsi sýslumanni Arasyni, sjá Barðastrandarsýslu. Þórunn dó 1674 á Skútustöðum, en var fædd 1599.

B. Hólmfríður, fædd 1596, fyrri kona síra Sigurðar eldra Oddssonar biskups; áttu ekki börn, dó 1616.

C. Helga fædd 1595, fyrri kona Árna lögmanns Odds-

---

1) Amtmaður Stephán hèlt klaustrið til dauðadags. Jón Kjernesteð, sonur Þorláks bónda í Skriðu Hallgrímssonar, hèlt það síðan fáein ár, síðan tók það Þorsteinn Daníelsson á Skipalóni, er á Margrèti, alsystur Jóns heitins Kjernesteð, og hefir einlægt haldið það síðan, utan fá ár, sem Sveinn nokkur Þórarinsson hèlt það.

sonar; hún andaðist barnlaus í bólu 1616; erfði Þórunn báðar systur sínar og átti að sögn 38 jarðir, varð hin auðugasta kona, og því kölluð Þórunn ríka.

*Kona önnur:* Kristín Þorvarðardóttir Þórólfssonar frá Suður-Reykjum, dó barnlaus.

*Kona þriðja:* átti að verða Margrèt dóttir síra Sigurðar Einarssonar frá Eydölum og Ingunnar, systur síra Gísla á Hrafnagili Jónssonar; en Jón andaðist milli kaups og festa. Fróðra manna gáta er, að faðir Jóns hafi afstaðið við hann sýslunni 1602, eða að minnsta kosti hálfri, en eigi hefir hann haldið hana lengur en til 1606, að Hrólfs synir tóku við.

Jón þótti eigi laginn til sýslumanns og röggsemdarlítill, sem sjá má af aðfinningu Þingeyinga til lögrèttunnar; gaf hann sig því frá því embætti. Hann bjó fyrst í Ási í Kelduhverfi, seinna flutti hann sig að Galtalæk suður á landi; hann tjáist að hafa verið fjárgæzlumaður, búþegn góður og mikill auðmaður; hann var að útliti mjög liðlegur maður og mannalegur, gæflyndur og siðlátur; þótti fèfastur og nokkuð þurrlegur í háttum og viðmóti, ekki syrgði alþýða hans fráfall. Hann dó á Galtalæk 1610, eptir dagsetur föstudaginn næsta eptir Maríumessu, í faðmi Önnu móður sinnar, og hafði mjög litlu áður tekið á móti gjöldum af jörðum sínum, er að norðan var til hans sent, smjör á 8 hestum, hákall á 5 hestum, fiskur á 3 hestum, vaðmál og peningar á einum hesti, því hann átti þá 32 jarðir, en 6 jarðir var móðurarfur barna hans, er þá voru öll ung; varð Jón eigi gamall maður, og mun eigi hafa haldið nema hálfa sýsluna.

## Sigurður Markússon.

*Faðir:* Markús sýslumaður Ólafsson, sjá Hegranesþing.

*Móðir:* Ragnheiður Björnsdóttir Jónssonar biskups Arasonar.

*Kona:* Guðbjörg, dóttir Torfa sýslumanns á Kirkjubóli í Langadal Jónssonar, sjá Barðastrandarsýslu.

*Börn:* A. Þóra átti son Jóns lögmanns Sigurðssonar, sjá Húnavatnsþing.

B. Steinunn[1] (aðrir Ragnheiður) átti Magnús á Sjáfarborg, Jónsson frá Svalbarði, Jónssonar frá Ökrum, Grímssonar lögmanns. Börn:
1. Sigríður stórráða, sjá Húnavatnsþing.
2. Jón[2] Magnússon dó barnlaus.

C. Ragnheiður fyrri kona Gunnars Arngrímssonar lærða á Melstað.

D. Þóru telja sumir og enn aðrir Bjarna á Stokkseyri (meðal þeirra Gessings Jub. T. 1. pag. 214, en það er villt svo sem fleira).

Sigurður bjó á eignarjörðu sinni Stóradal í Skagafirði, sem og kallast Hèraðsdalur. Þó sumir meini hann eigi utan lögsagnara Jóns sýslumanns Sigurðssonar á Reynistað í Þingeyjarþingi, álít eg líkara, að Sigurður Markússon hafi haft hálft Þingeyjarþing að veitingu 1603 og 1604, en frá sagt sèr sýsluna 1605. 1603 telst hann lögrèttumaður í Skagafirði. 24. apríl 1605 segist hann vera sýslumaður konungs í Þingeyjarþingi í dómi þeim, er hann lèt ganga með 6 mönnum á Keldunesi í Kelduhverfi um ómaga framfæri, sem Jón Vigfússon, nýnefndur sýslumaður í hinum parti sýslunnar, dóms á beiddist, og taldi Magnús Vigfússon bróður sinn jafnt sèr standa að framfæra ómagana, sem voru: Kristín Ólafsdóttir og Benidikt sonur hennar, einnig Ásný systir hennar og Guðrún Jónsdóttir; dæmdust þá ómagarnir að meira parti Magnúsi, en Jóni Vigfússyni. Á sama ári fyr, 9. apríl, hefir Sigurður bóndi Markússon látið 6 manna dóm ganga að Grýtubakka í Höfðahverfi að álíta stefnu þá, er Guðmundur Illugason hafði með stefnt Ólafi Jónssyni, og dæmdu þá dómendur, að Guðmundur ætti rètta heimtu að Ólafi um jörðina Fagrabæ á Eyjafjarðarströnd, sem síra Jón Sigurðsson hafði 1594 fengið Ólafi Jónssyni syni sínum, en Ólafur skyldi þarámóti vera rèttur sóknari að andvirði Arnarvatns, hverja jörð þeir bræður síra Þorsteinn og Jón Illugasynir höfðu dæmt Hólakirkju 1582. Með þennan dóm varð

---

1) Kona Magnúsar á Sjáfarborg hèt Steinunn ekki Ragnheiður.

2) Það er sagt um Jón Magnússon, að hann hafi aldrei verið við konu kenndur, en verið vel kvennskur til matar meðferðar og skyrgjörðar.

Ólafur óánægður, því 1609, 11. júlí, lögðu þeir síra Jón Jónsson, Ólafur Jónsson og Guðmundur Illugason þetta mál undir dóm 24 manna á alþingi. Skipaði þá höfuðsmaðurinn Herluff Daae lögmönnum Gísla Þórðarsyni og Jóni Sigurðssyni með 24 mönnum að dæma þetta mál, var þar þá úrskurðað, að jörðin Fagribær skyldi vera lögleg eign þess, er Nikulás Þorsteinsson hefði hana selt löglega, (sem sè Ólafs Jónssonar, er hana keypt hefði). 1605, 1. október að Helgastöðum í Reykjadal, lætur Jón Illugason í umboði Sigurðar Markússonar 6 manna dóm ganga um ákæru síra Bjarna Gamlasonar í umboði síra Gamla Hallgrímssonar til Þórðar Einarssonar, áhrærandi kú, sem prestur klagaði að Þórður hèldi fyrir föður sínum síra Gamla; dæmdu þá dómendur síra Bjarna kúna, og þarmeð 2 ára leigu. 1605 laugardaginn næsta fyrir krossmessu um vorið lèt Sigurður bóndi Markússon, sýslumaður í Þingeyjarþingi, dóm ganga að Húsavík um selveiði Múlakirkju og nótna lög á beneficii eign. Af framanskrifuðu er auðsèð, að Sigurður hefir um vorið 1605 haldið til í Þingeyjarþingi, en seinni hluta tèðs árs hefir hann þar haft umboðsmann og sleppt sýslupartinum nálægt nýári. 1603 var Sigurður Markússon dómsmaður í Skagafirði, þá er Ari Guðmundsson, umboðsmaður Jóns Sigurðssonar, lèt þar dóm ganga um utansveitarfólk, sjá Hegranessþing; þar eptir gjörðist Sigurður umboðsmaður Jóns sýslumanns Sigurðssonar í Hegranessþingi, því 1610, 20 október að Lýtingstöðum í Tungusveit, lætur Sigurður Markússon í umboði Jóns lögmanns Sigurðssonar 6 manna dóm ganga um, hversu nærri annars landi mætti stekk setja, og dæmdist, að það skyldi vera tvö hundruð faðma tólfræð frá landamerkjum annara, þar sem eigi væri löggarður landa á millum. Sigurður var merkisbóndi, og opt hafður við mál og dóma; hann var og maður vel við efni, sem sjá má við giptingu Þóru dóttur hans (sjá Húnavatnsþing) (þó Hannes biskup skrifi, að Sigurður hafi verið sýslumaður í Hegranessþingi 1605, hygg eg það að eins ritvillu á sýslunöfnum Hegranessþing fyrir Þingeyjarþing). Sigurður Markússon andaðist í Hèraðsdal 1653, þá 80 ára gamall.

## Þorbergur Hrólfsson.

*Faðir:* Hrólfur sterki[1] lögrèttumaður í Hegranessþingi, hans ætt telst svoleiðis af mörgum. Faðir Hrólfs var Bjarni Skúlason Hákonarsonar Skúlasonar Jónssonar Grímssonar Eyjólfssonar Rafnssonar Þorkelssonar Halldórssonar Guðmundarsonar ríka á Möðruvöllum. Aðrir telja, að Hrólfur hafi verið Bjarnason Hrólfssonar Þorsteinssonar prests á Völlum í Svarfaðardal, er var son Nikulásar príors á Möðruvöllum og Þóreyjar, og það sýnist líklegra. Móðir Hrólfs var Geirþrúður (sjá Dalasýslu).

*Móðir* Þorbergs var Ingibjörg Bjarnadóttir Torfasonar ríka í Klofa Jónssonar; móðir Ingibjargar var Ingibjörg Sigurðardóttir Finnbogasonar.

*Kona fyrri:* Halldóra dóttir Sigurðar sýslumanns á Reynistað Jónssonar, hún dó 1645 72 ára. Eigi finn eg getið barna þeirra.

*Kona síðari:* Jórunn dóttir síra Einars á Melum Þórðarsonar, barnlaus. Jórunn hafði áður átt síra Þorstein Tyrfingsson, og átti með honum börn.

*Launson* A. átti Þorbergur með Geirdísi[2] Halldórsdóttur, er hèt Halldór; ól Halldóra, fyrri kona Þorbergs, hann upp, sem væri hann son hennar. Halldór gjörðist listamaður, vel að sèr í lögum og ýmsum fróðleik; hann gjörðist lögrèttumaður og lögsagnari Benidikts sýslumanns Halldórssonar á Seilu og fórst það laglega, en hann þótti kvennamaður um of. Kvinna Halldórs hin fyrri var Vigdís dóttir síra Ólafs Jónssonar á Miklabæ. Börn:

1. Halldóra kona Skúla á Seilu Ólafssonar; börn:

---

1) Sja Tímarit mitt 1. B. bls. 18—19. Það er fleira, en þar greinir, er sannar það, að faðir Hrólfs var Bjarni Skúlason; hann hefir verið fjáður maður og átt nokkurt jarðagóz; hann hafði upp alizt á Skeiði í Fljótum.

2) Móðir Geirdísar telst Ingibjörg Gísladóttir Brandssonar lögmanns Jónssonar.

a. Þorlákur á Seilu átti Steinunni, dóttur síra Jóns Guðbrandssonar frá Flugumýri.
b. Síra Björn á Hjaltastöðum átti Halldóru Stephánsdóttur; börn:
α. Stefán[1] skólameistari á Hólum, barnlaus.
β. Síra Jón á Kúlu átti Halldóru Árnadóttur Þorsteinssonar frá Bólstaðarhlíð; börn:
1. Björn, stiptamtsmanns skrifari, svo Munkaþverárklaustursbaldari (sjá Húnavatnsþing).
2. Halldóra kona síra Auðuns Jónssonar (sjá Húnavatnssýslu).
3. Skúli á Langamýri giptist og átti börn[2].
c. Jón.
d. Guðrún.
e. Hólmfríður.
f. Málmfríður átti Martein prentara Arnoddsson.
2. Björg kona Jóns lögsagnara Illugasonar á Spákonufelli, þeirra dóttir Guðrún (sjá Húnavatnssýslu).
3. Helga kona Þórarins í Garði Þorlákssonar, þeirra son Þorlákur í Ólafsdal.
4. Gunnvör laundóttir Halldórs átti Þórð Þorláksson, bróður Þórarins, er átti Helgu[3].

---

1) Stephán Björnsson var sagður geðstirður, komst í ólempni á Hólum, sigldi og dó þar gamall; hann var mikill reikningsmaður.

2) Enn voru börn síra Björns á Hjaltastöðum:
γ. Þóra kona síra Eggerts í Glaumbæ, barnlaus.
δ. Halldóra, kona Magnúsar gullsmiðs í Gilhaga, áttu börn.
ε. Kristín átti Ólaf á Frostastöðum, þaðan góðar ættir.
ζ. Skúli átti Svanhildi Þorgrímsdóttur frá Miðgrund, áttu börn.
η. Þórunn giptist, átti börn.
ϑ. Björg barnlaus giptist eigi.

3) Enn er sögð dóttir Halldórs og Vigdísar: Guðrún, maður

Kona Halldórs hín síðari var Ingigerður[1] Ingimundardóttir, þeirra börn:

5. Síra Jón á Völlum í Svarfaðardal, hans börn:
   a. Síra Halldór á Hólum.
   b. Helga[2].

---

hennar hèt Einar, var að norðan, þeirra son: Halldór, hann giptist og átti börn.

1) Rèttara víst Ingiríður.

2) Síra Jón Halldórsson á Völlum hafði verið fyrirtaksprestur í mörgu, hann var tvígiptur, fyrri kona hans var Helga Rafnsdóttir frá Reistará; þeirra börn voru:

a. Síra Halldór prófastur á Hólum, hans kona Salvör Þórðardóttir frá Staðastað.
b. Helga, hana átti Þorgrímur, sonur síra Jóns Ketilssonar á Myrká.
c. Þorbergur sigldi og dó í Grænlandi,
d. Halldóra átti Björn á Moldhaugum.
e. Björg átti Jón Einarsson í Reykjahlíð.

Seinni kona síra Jóns hèt Guðfinna Jónsdóttir; þeirra börn:

f. Olöf, hana átti síra Hallgrímur Eldjárnsson.
g. Hólmfríður, hana átti Jón nokkur Jónsson á Árskógsströnd.
h. Helga.
i. Þorsteinn á Sökku, kona hans hèt Guðrún.
k. Gísli og
l. Páll, dóu báðir barnlausir.
m. Síra Þórður á Völlum átti fyrst Þuríði, dóttur síra Jóns Sigurðssonar á Kvíabekk, svo Ingibjörgu dóttur síra Jóns Guðmundssonar á Melstað, og seinast Elínu, ekkju síra Þorsteins Hallgrímssonar.
n. Síra Jón Jónsson á Myrká, hans fyrri kona Elísabet Jónsdóttir Björnssonar frá Eyrarlandi; en seinni kona Rósa Þorsteinsdóttir.
o. Guðrún, seinni kona Páls á Hofsstöðum.
p. Sigríður átti Pètur prentara. Það er sagt, að síra Jón Halldórsson hafi átt 20 börn alls, 10 sonu og 10 dætur.

Enn átti Halldór launson, er hèt

6. Hallgrímur, hann bjó á Steini á Reykjaströnd, var skáld og þótti vel syndur; hans kona Guðrún Guðmundsdóttir; börn:
   a. Sigurður í Keflavík, giptist og átti börn.
   b. Björg átti Ásgrím á Sauðá í Skagafirði, barnlaus.
   c. Guðbjörg átti Jón á Sauðá og börn.
   d. Guðmundur á Hafsteinsstöðum átti Ingibjörgu og börn.
   e. Guðrún giptist eigi, barnlaus[1].
7. Páll launson Halldórs giptist Hildi, dóttur lögrèttumanns Ólafs lærða, bjó á Esjubergi, svo á Árvelli, en var seinast í einhýsi á Reynistað. Þá er rekstur var gjör á beinamálinu, fannst hann þar dauður og var grafinn í túnvelli[2]; hans börn:
   a. Halldór á Mógilsá í Mosfellssveit átti Hildi Jónsdóttur: börn:
      α. Oddur.
      β. Ólafur.
      γ. Jón[3].
   b. Ingibjörg átti Guðmund Jónsson frá Eylífsdal.

Halldór var fæddur 1623, bjó á Seilu, var 9 seinustu ár æfi sinnar á Hólum í Hjaltadal, dó 1711, 88 ára; hann skrifaði annál frá 1640 til 1659.

---

1) Enn var dóttir Hallgríms:
   f. Gróa, er Nikulás í Sólheimagerði átti, þeirra son Guðmundur í Krákugerði.

2) Páll var grafinn þar eptir ósk hans.

3) Enn voru börn Halldórs:
   δ. Vigfús hreppstjóri á Reykjum í Mosfellssveit.
   ε. Þórður í Reykjavík, varð úti.
   ζ. Erlendur drukknaði.

B. Oddur[1] laungetinn, meinast Geirdís og að hafa verið móðir hans; son Odds var Þorbergur faðir Málmfríðar[2], er átti Sveinn son síra Magnúsar á Fagranesi Árnasonar.

Þorbergur Hrólfsson varð sýslumaður í hálfu Þingeyjarþingi 1606, en bjó þó á Seilu í Skagafirði; hann var fæddur 1573. 1606, 13. apríl, lætur hann 12 manna dóm ganga á Helgastöðum yfir Guðrúnu Þorsteinsdóttur, sem í grautarkatli hafði brennt til dauðs barn Ólafs Jónssonar: var hún dæmd dræp og síðan brennd eptir dómi 1608, segir Björn á Skarðsá, og telur bæði Þorberg og Sigurð bróður hans hafa það dæmt. 1611 krefst Guðbrandur biskup af sýslumönnum Þorbergi og Sigurði, að þeir gjöri lagadóm á millum síra Gamla á Þóroddsstöðum og síra Bjarna á Hálsi. 1612 11. maí að Helgastöðum lætur Þorbergur sýslumaður 12 manna dóm ganga um þá 7 áverka, er Jón Halldórsson lýsti sig fengið hafa af þeirri öxi, er Bjarni Magnússon hefði á haldið í viðskiptum þeirra Jóns, er vanvirt hafði dóttur Bjarna; dæmdu þeir konungi eina mörk fyrir hverja ákomu, er á höfðinu var, en hálfa mörk fyrir hverja, sem á höndunum var, en þar Jón hafði vanvirt dóttur Bjarna og engin lagaboð sèr til helgunar eða friðar boðið, dæmdu þeir, að niður skyldi falla fjórðungur áðurnefnds sakeyris. 1615 11. júní lèt Þorbergur eptir dómi á Helgastöðum drekkja Ragnheiði Magnúsdóttur frá Geldingaá á Svalbarðsströnd, hún hafði drekkt barni sínu 5 vikna gömlu í ánni. 1617, 29. apríl, lætur Þorbergur Hrólfsson með Þorsteini prófasti Illugasyni dóm ganga að Helgastöðum með 3 prestum, síra Bjarna Jónssyni, síra Þórði Ólafssyni, síra Jóni Þorvalds-

---

1) Að Þorbergur Hrólfsson hafi átt Odd nokkurn fyrir son, mun víst eigi vera rètt, og eigi getur Jón Magnússon þess.

2) Þetta er ekki rètt; síra Magnús átti víst engan son, er Sveinn hèt, en sonur síra Magnúsar, er Gísli hèt og hrapaði til dauðs í Tindastól, átti laundóttur, er Guðríður hèt, við Málmfríði nokkurri Þorbergsdóttur, en Þorbergur faðir hennar var sonur Jóns Þorbergssonar Bessasonar Ingimundssonar Bessasonar Hrólfssonar sterka; var þessi eldri Bessi bróðir Þorbergs sýslumanns.

syni og 3 lögrèttumönnum, Jóni Illugasyni, Jóni Jónssyni og Guðmundi Illugasyni um mál Jóns Ólafssonar og Svanhildar Björnsdóttur, sem fyrir ósamlyndi og fleira aðskilin voru að hjónabandi. 1617 3. apríl að Hálsi í Fnjóskadal lætur Þorbergur dóm ganga um arf eptir Halldóru Þorvaldsdóttur; til hans kallaði bróðir hennar síra Jón Þorvaldsson og föðurbróðir hennar síra Tómas Ólafsson, var arfurinn dæmdur bróður hennar síra Jóni. Nefnt ár voru Þorbergur og Sigurður í dómi að Seilu í Skagafirði með Jóni lögmanni Sigurðssyni, Ísleifi Þorbergssyni og fleirum, að dæma jörðina Velli í Hólmi undir Hólakirkju. 1618 10. febrúar að Bólstaðarhlíð lèt Jón lögmaður með Þorbergi Hrólfssyni og fleirum dóm ganga um ákæru Teits Björnssonar móti síra Ólafi Erlendssyni út af hálfum Torfalæk, sem síra Ólafur eignaði sèr, en síra Erlendur faðir hans hafði áður fengið Teiti, líka það, að síra Ólafur innihèldi arfi Þuríðar konu Teits; kom dómsmönnum eigi saman, og var því málinu skotið til alþingis. 1621 23. apríl að Helgastöðum lætur Þorbergur sýslumaður dóm ganga um hórdómslíkindi Ólafs Jónssonar með Sigríði Þorkelsdóttur, konu Ívars Jónssonar; skyldi Ólafur með tylftareiði fría síg frá verkinu, ella gjalda hórdómssekt og tvöfalt fullrètti, eða 6 merkur Ívari. Sama ár var að Helgastöðum dómur út nefndur af sýslumanni Þorbergi um, að þau klæði, er menn bera móti konungs þegnskyldu, sèu upptæk af konungs umboðsmanni, líka stígvèl og framandi strumpur, þar innbyggjurum þeim, er fjáðir eru, sè þarfara að eiga skylduvopn. 1622 11. september lèt Þorbergur sýslumaður með Þorsteini prófasti Illugasyni í Múla dóm ganga yfir stefnu þeirri, sem síra Bjarni Gíslason með stefndi Oddi Jónssyni, að hann hefði rægt sig fyrir andlegu og veraldlegu yfirvaldi, og að Oddur hefði án heimildar markað á síra Bjarna o. fl.: var Oddur dæmdur fjölmælis- og rógsmaður, sekur við konung eptir lögum og lúka síra Bjarna fullrètti. 1623 21. apríl að Hálsi í Fnjóskadal láta sýslumenn Þorbergur og Sigurður Hrólfssynir dóm ganga um hest, er Einar Eiríksson hafði gripið fyrir Sveini Jónssyni á Illugastöðum í Fnjóskadal: var Einar dæmdur skyldugur hestinum að svara til Sveins, og lúka honum fullrètti 3 merkur, en konungi 3 aura. Í sama sinn lètu þeir dóm ganga um jörðina Hallgilsstaði, er Arnbjörn

Jónsson og Ólafur Jónsson deildu um, skyldu viðkomendur mæta þar um á alþingi. 1623 16. september að Hálsi í Fnjóskadal lèt Sigurður sýslumaður Hrólfsson hreifa máli Einars og Sveins á Illugastöðum, sem þó eigi þá var til lykta leitt; Sveinn þessi var sonarson Sveins ríka á Illugastöðum og átti í deilum við Sigurð á Garðsá; þeir hafa að sögn verið hinir síðustu á Íslandi, sem höfðu hesta, er þeir öttu (sjá þar um Árb. V. þátt bls. 21). Dóttir Sveins var Ólöf móðir Magnúsar föður Sveins föður Tómasar föður Sölva föður Sveins lögmanns. Eptir þann góða vetur 1624 kom svellavetur hinn mikli 1625, fèll þá peningur hrönnum, svo að margir fóru á vergang, orsökuðust þar af stuldir miklir, en Þingeyingum þóttu sýslumenn sínir fjarri sitja og aðgjörðalitlir, og klöguðu yfir því; þá tóku þeir Þorbergur og Sigurður Hrólfssynir fyrir umboðsmann Guðmund son Jóns lögsagnara Illugasonar, og var hann þeirra og síðar Hrólfs lögsagnari. 1635 dó Sigurður sýslumaður Hrólfsson, en son hans Hrólfur fèkk sýslupartinn 1636 móti Þorbergi. 1637 lètu þeir sýslumenn Þorbergur og Hrólfur fanga útilegumann, Guðmund Jónsson, er hálshöggvinn var sama ár. Það ár fór Jens Sörensen um Norðurland og tók á móti gjöfum, er buðust, en fór utan með Vopnafjarðarskipi; fylgdi Þorbergur sýslumaður honum að Ærlæk. 1640 13. ágúst að Helgastöðum lètu þeir Þorbergur og Hrólfur sýslumenn 6 manna dóm ganga um grip á kapli, er Loðvík Jónsson klagaði Eggert Jónsson fyrir; skyldi Eggert synja með lýrittareiði hinum meiri; en Guðmundur umboðsmaður þeirra skyldi taka af honum eiðinn. Sveinn Skotti, son hins nafnkennda Axlar-Björns, flakkaði víða um land og var í flestu illa ræmdur; hann vildi nauðga konu í Húnavatnssýslu 1644 og hafði gjört þar fleira illt, var hann þá þar hýddur, hljóp síðan til Þingeyjarþings og kynnti sig þar illa; lètu þá sýslumenn Þorbergur og Hrólfur húðfletta hann 1645; þá flakkaði hann suður með líkri kynning; þar klagaði Brynjólfur biskup hann í lögrèttu; dæmdu þá lögmennirnir, Arni Oddsson og Magnús Björnsson, að Sveinn Skotti skyldi fá húðlát svo mikið, sem hann mest mætti bera, missa annað eyrað og ábyrgjast sig sjálfur; skyldi hann strax víkja til sveitar sinnar í Ísafjarðarsýslu. Lítið batnaði Sveinn fyrir þetta og fór sínu fram,

var hann enn hýddur og seinast hengdur. 1650 20. ágúst að Ærlæk lèt Hrólfur Sigurðsson og Þorbergur Hrólfsson dóm ganga um Ketil Jónsson hýddan þjóf og óknyttamann. Nú tók Þorbergur sýslumaður að gjörast mjög hniginn að aldri, sleppti því sýslupartinum 1650, og bjó þar eptir embættislaus. 1656 reið hann frá heimili sínu Seilu í Hofsós kaupstað, kenndi sóttar, þá er hann fór úr kaupstaðnum, komst að Óslandi, lá þar viku og andaðist 8. september, 83 ára gamall; var hann grafinn í Glaumbæ. Hann hafði verið sýslumaður í Þingeyjarþingi í 44 ár; hann var meðalmaður að vexti og álitlegur. Enginn var hann tilgjörðamaður, en sökum fjarlægðar þótti Þingeyingum hann röggsemdarminni en skyldi; búsældarmaður var hann, og stóðu til arfs eptir hann 9 bræðrasynir hans; hann var karlmenni að afli og gæfur hversdagslega, eigi sjerlegur auðmaður, og eigi lærður svo skrif liggi eptir hann. Seinni konu sinni trúlofaðist hann í Hítardal 4. júlí, en fastnaði hana á Seilu 1647 í næsta mánuði. Jón sýslumaður Jakobsson meinar, að Þorbergur hafi haldið sýslu til dauða síns, en Magnús Magnússon sýslumaður á Eyri segir, að hann hafi sleppt sýslunni 1650 og þá hafi Sigurður Magnússon á Skútustöðum þann sýslupart tekið. Magnús lifði samtíða Þorbergi, og hefir því ritað sannleika. Enn fremur staðfestist það þar af, að 1653 selur Þorlákur biskup Skúlason sýslumanni í Þingeyjarþingi Sigurði Magnússyni jörðina Geirastaði við Mývatn fyrir Mjölbrigðastaði í Fljótum, hefir Sigurður því þá verið orðinn sýslumaður í Þingeyjarþingi. Þess ber að geta, að á meðan þeir bræður Þorbergur og Sigurður hèldu Þingeyjarþing, var Þorbergur meiri röggsemdarmaður í sýsluverkum, sem hann opt gjörði einn fyrir þá báða. Þorbergs getur mjög opt sem meðdómsmanns á alþingi, t. a. m. 1634, 1636, 1637 og 1638.

### Sigurður Hrólfsson.

***Faðir:*** Hrólfur áður nefndur.
***Móðir:*** Ingibjörg Bjarnadóttir Torfasonar.
***Kona:*** Guðrún, dóttir Sæmundar prófasts í Glaumbæ Kárssonar og Ragnheiðar Sigurðardóttur sýslumanns á Reynistað (sjá Hegranessþing).

*Börn:* A. Hrólfur sýslumaður (sjá hèr síðar).

B. Grímur lögrèttumaður í Miklagarði, átti Guðrúnu Illugadóttur Hólaráðsmanns (sjá hèr að framan). Börn:

1. Síra Þorlákur í Miklagarði átti Guðnýju Björnsdóttur Hallssonar harða; börn:
   a. Hallur.
   b. Skúli.
   c. Guðrún.
   d. Guðbrandur.
   e. Grímur[1],
2. Illugi lögrèttumaður í Vaðlaþingi bjó í Stóradal og í Garði í Aðalreykjadal, átti fyr Herdísi Þórarinsdóttur; þeirra dóttir:
   a. Guðrún átti Pètur[2] lögrèttumann á Kálfaströnd við Mývatn; börn:
      α. Síra Bjarni á Melstað átti Steinunni Pálsdóttur.
      β. Hallgrímur.
      γ. Steingrímur dó í skóla.
      δ. Pètur hálfviti.
      Seinni kona Illuga Málmfríður Jónsdóttir; þeirra son:
   b. Síra Grímólfur[3] í Glaumbæ.

---

1) Enn var Jón sonur síra Þorláks, hann varð úti á Heljardalsheiði með Jóni Pálssyni Vídalín; var efnilegt ungmenni.

2) Pètur á Kálfaströnd var meira enn tvegga maki til burða; þau Pètur og Guðrún áttu Herdísi fyrir dóttur; hennar maður var Magnús, son síra Þorleifs Skaptasonar, og voru þeirra börn Hallgrímur stóri, Steingrímur og Pètur, er hèr að ofan ranglega eru eignaðir Pètri; þessir allir bræður dóu barnlausir.

3) Síra Grímólfur var fæddur 1697 að Garði, var prestur yfir 62 ár, og varð afargamall; móðurætt hans er hvervetna talin, sem hèr, og Ólafur Snóksdalín og fleiri telja föðurætt hans, sem hèr er gjört, en hèr að framan er föðurætt hans talin öðruvísi, og það er víst rèttara, svo telur Espólín, og eins síra Jón Konráðsson í prestatali sínu, er hefir líklega haft það eptir síra

3. Steinunn átti síra Þorfinn Þórðarson á Felli, barnlaus.

C. Ingibjörg, fyrri kona Jóns Þorsteinssonar, barnlaus.

B. Björn í Dal[1] átti Gunnvöru dóttur Benedikts í Bólstaðarhlíð.

E. Jón lögrèttumaður í Þingeyjarþingi átti Sigríði dóttur síra Geirs á Helgastöðum Markússonar. Börn:

1. Halldóra átti síra Eirík Guðmundsson og börn.
2. Málmfríður seinni kona Illuga Grímssonar (sjá að framan); börn:
   a. Síra Grímólfur.
   b. Sigurður.
3. Sigríður átti Tómas Helgason, þeirra son Sigurður lögrèttumaður á Varðgjá.
4. Ragnheiður, hennar launson með Jóni á Svarðbæli Þorsteinn.

Sigurður Hrólfsson bjó á Víðimýri í Skagafirði og tók hálft Þingeyjarþing móts við Þorberg, bróður sinn, 1606, þó er það eigi fullvíst, hvort Jón Vigfússon eða Sigurður Markússon hafi þá sleppt þeim parti sýslunnar, en það er víst, að 1608 var Sigurður þar orðinn sýslumaður með bróður sínum. Sigurður var kyrrlátur maður, og því var Þorbergur bróðir hans opt fyrir dómaraverkum vegna þeirra beggja. Nokkrir dómar Sigurðar eru áður nefndir, er hann gekk með bróður sínum

---

Bjarna formanni sínum, er var að safna til prestatals fyrir Hólastipti, og kunnugur var síra Grímólfi, en safn síra Bjarna fèkk síra Jón; eins telur og Hallgrímur djákni í prestatali sínu. Eg man það og, að í ættartölu Elínar Grímólfsdóttur, fyrri konu föður míns, er afi minn síra Pètur hafði samið og gefið henni, stóð, að síra Jón Grímsson á Hjaltabakka hefði verið föðurbróðir síra Grímólfs, sem með öllu er rètt, þegar ættin er rakin, sem fyr segir. Ef það væri rètt, sem hèr segir, hefðu þar að auki foreldri síra Grímólfs verið bræðra börn, og, eptir því sem þá við gekkst, víst of skyld til að mega eigast.

1) Björn í Stóradal í Húnavatnssýslu, er átti Gunnvöru Benediktsdóttur frá Bólstaðarhlíð, var sonur Hrólfs sýslumanns Sigurðssonar, eins og hèr síðar er sagt.

Þorbergi. 1621 dó Páll sýslumaður Guðbrandsson á Víðimýri hjá Sigurði sýslumanni, þá er Páll ætlaði til Hóla. 1635 dó Sigurður sýslumaður Hrólfsson á Marteinsmessu 63 ára að aldri; hafði hann verið sýslumaður með bróður sínum nærfellt 30 ár, «einn frómur maður» (segir Björn á Skarðsá); hann hafði flutt frá Víðimýri að Stórulaugum og búið þar nokkur ár, en dó á Víðimýri og var grafinn þar í kirkjunni; hann var opt kvaddur til meðdómsmanns á alþingi, og það var hann seinast 1634.

### Guðmundur Jónsson.

*Faðir:* Jón lögsagnari Illugason (sjá að framan).
*Móðir:* Guðrún, dóttir Þorgríms í Länguhlíð (sjá að framan).
*Kona:* Sesselja, dóttir Árna Magnússonar á Grýtubakka.
*Börn:* A. Hallgrímur.
B. Sigurður.
C. Þorgrímur.
D. Jón.
E. Þórný.
F. Jón annar (sjá að framan).

Guðmundur gjörðist umboðsmaður þeirra Hrólfssona í Þingeyjarþingi, þá er sýslubúar kvörtuðu yfir fjarlægð og aðgjörðaleysi þeirra rèttu sýslumanna. 1627 31. maí að Grýtubakka í Höfðahverfi lætur Guðmundur Jónsson umboðsmaður sýslumanna Þorbergs og Sigurðar Hrólfssona 6 manna dóm ganga um framfæri ómaga þeirra, er áður höfðu verið dæmdir á síra Magnús í Laufási Ólafsson og á hans kvinnu, Agnesi Eiríksdóttur; fylgdu þá Laufásstað 36 kúgildi, en fè síra Magnúsar virtist eigi meira en á 25 hndr. í fríðu og dauðu; var síra Magnús og kona hans fríkennd fyrir framfæri ómaganna. Á sama þingi sama ár og dag fríkenndi Guðmundur síra Hall[1],

1) Sumir telja síra Hall Ólafsson á Höfða son síra Ólafs Guðmundssonar, er þar var prestur næst á undan honum, og aðrir son annars síra Ólafs Guðmundssonar, en sumir hafa talið hann son Ólafs Árnasonar Pèturssonar Loptssonar, sjá Tímarit mitt 1. B. bls. 19, og sannar dómur þessi, að þeir hafi rètt.

son síra Ólafs Árnasonar áður í Höfða, og konu hans Ragnhildi Eiríksdóttur frá sömu ómaga framfæri. Faðir síra Magnúsar meinast Ólafur Helgason, er bjó á Hofsá í Svarfaðardal, en dó frá kornungum börnum: móðirin færðist á fátæki, og er sagt, að síra Magnús hafi fundizt á henni dauðri; síra Eyjólfur á Völlum skrifar assessor Árna Magnússyni, að Bessi bóndi á Urðum hafi tekið Magnús; en Páll lögmaður Vídalín hefir ritað, að það hafi gjört Benidikt sýslumaður Halldórsson, og má hvorttveggja satt vera, og Benidikt sýslumaður komið honum til menningar; síra Magnús dó 1636, 22. júlí, eptir brèfi Benidikts sonar hans til Óla Vorms. 1634, þá er Þorbergur lætur á Helgastöðum 6 manna dóm ganga um ómagann Ingibjörgu Jónsdóttur, að hún skuli framfærast af Ingjaldi Illugasyni, samt erfingja þeirra bræðra, Þorsteins prófasts í Múla, Jóns og Guðmundar Illugasona, en síra Björn Jónsson vegna kvinnu sinnar, Hildar Illugadóttur, skyldi láta flytja fyrnefnda Ingibjörgu inn í Eyjafjörð til sonar Guðmundar heitins Illugasonar, sem flytji hana vestur til Ingjalds Illugasonar, má sjá, hvað margkvísluð þá var orðin þessi Illugaætt. 1640 skipa Þorbergur og Hrólfur sýslumenn Guðmundi umboðsmanni sínum að taka eið af Eggerti, sjá að framan. 1645 28. maí að Helgastöðum lætur Guðmundur Jónsson, umboðsmaður sýslumanna í Þingeyjarþingi, dóm ganga um aðtekt á fè ekkjunnar Þórdísar Þorsteinsdóttur á Þeystareykjum, er prófastur síra Jón Gissurarson klagaði ekkjunnar vegna, að stjúpsynir hennar Grímur, Gvendur og Snorri væru sekir, og voru þeir dæmdir til að skila aptur öllu því, er þeir hefðu ólöglega frá ekkjunni tekið, kviku og dauðu. Af þessu má sjá, að Guðmundur var lengi umboðsmaður þeirra Þorbergs, Sigurðar og Hrólfs í Þingeyjarþingi.

## Hrólfur Sigurðarson.

*Faðir:* Sigurður sýslumaður Hrólfsson, sjá að framan.
*Móðir:* Guðrún Sæmundardóttir frá Glaumbæ.
*Kona:* Björg yngri Skúladóttir, alsystir Þorláks biskups á Hólum.
*Börn:* A. Sigurður, gjörðist lögrèttumaður og bjó á Heiði á

Langanesi, átti Málmfríði dóttur síra Sigurðar skálds Jónssonar á Presthólum, börn:

1. Jón[1] lögrèttumaður þar og í 40 ár, átti Sigríði elztu dóttur síra Geirs á Helgastöðum (dó 1665) Markússonar bónda á Felli í Kinn Geirssonar prests Jónssonar, þeirra dóttir Ragnheiður.
2. Kolbeinn,
3. Guðleif,
4. Signý.

B. Arngrímur sýslumaður, sjá hèr síðar.

C. Síra Sæmundur á Undirfelli, svo á Upsum svo í Stærra-Árskógi, átti 1684 Ingibjörgu dóttur Jóns í Flatey Torfasonar, hún hafði áður átt barn með Jóni syni Þorleifs lögmanns Kortssonar, var það Kristín, kona síra Arnbjarnar á Undirfelli. Börn síra Sæmundar og Ingibjargar:

1. Síra Eggert á Stærra-Árskógi átti Sesselju dóttur síra Halls í Grímstungum.
2. Einar[2] átti Margrèti dóttur Björns á Hvanneyri.
3. Þórunn átti Eyvind[3] snikkara Jónsson.
4. Jón dó 1707.
5. Páll drukknaði 1707.

D. Björn[4] dó 1720, var lögrèttumaður í Húnavatnsþingi, og bjó í Slèttardal; hann átti Gunnvöru Benidiktsdóttur frá Bólstaðarhlíð, börn:

1. Guðbrandur[5] átti Ragnhildi Ólafsdóttur frá Bólstaðarhlíð barnlaus.

---

1) Jón lögrèttumaður Sigurðsson, er átti Sigríði dóttur síra Geirs, var bróðir Hrólfs sýslumanns, sem fyr segir. Þess er og eigi getið, að Sigurður Hrólfsson hafi átt önnur börn, en Kolbein, Signýju og Guðleifu.

2) Einar var sèrlega vel hagmæltur; eitt af börnum hans var Björg, er kölluð var Látrabjörg, hún var og vel hagmælt, en mjög undarleg, giptist ekki og átti ekki barn.

3) Eyvindur bjó á Karlsá og var kallaður duggusmiður.

4) Björn bjó í Stóradal, sem fyr sagt.

5) Kona Guðbrandar var dóttir Ólafs á Haukagili; Guð-

2. Guðrún átti Ólaf Bjarnason frá Steiná.
3. Halldóra átti Þorlák Halldórsson frá Bægisá.
4. Benidikt.
5. Björg, barnlaus.
6. Guðrún önnur, barnlaus.
7. Bjarni laungetinn[1].
8. Ólöf laungetin, sjá hèr síðar.

E. Ragnheiður átti lögrèttumann Jón Jónsson í Vaðlaþingi, börn:
1. Halldóra.
2. Guðrún.
3. Hallbjörg.
4. Björg.
5. Guðrún önnur.
6. Halldór.

F. Sigurður yngri, lögrèttumaður, átti Þuríði Bjarnadóttur Hallssonar, sjá Vaðlaþing, þeirra börn:
1. Rafn.
2. Sigríður.
3. Þorvaldur.
4. Björg[2].

G. Skúli átti Hólmfríði Hallgrímsdóttur, prests, börn:
1. Hallgrímur.
2. Einar.
3. Ingunn.
4. Þorbergur.
5. Egill.
6. Sigríður.
7. Bergljót.
8. Steinunn.
9. Skúli laungetinn,

---

brandur var kallaður Kvæða-Guðbrandur, hafði fjarska há hljóð, en mjög sèrleg; sonur Guðbrandar og Ragnhildar hèt Hákon.

1) Kona Bjarna var Helga Jónsdóttir frá Valadal.

2) Björg var móðir Sigríðar, konu síra Jóns Jónssonar í Núpufelli.

átti áðurnefnda Ólöfu; sumir segja Skúla Skúlason skilgetinn.

Hrólfur fèkk partinn af Þingeyjarþingi eptir föður sinn Sigurð 1636, þá er Þorbergur hafði hinn partinn. 1650 að Ærlæk var útnefndur dómur af Þorbergi Hrólfssyni og Hrólfi Sigurðssyni um þjófnað Ketils Jónssonar. 1651 í Húsavík nefndi Hrólfur dómsmenn um barnsfaðernislýsingu Guðrúnar Jónsdóttur upp á Pètur Munch. 1654 20. apríl lætur Hrólfur sýslumaður Sigurðsson dóm ganga á Helgastöðum upp á klögun kaupmanns Kristjáns Ólafssonar og skipherra Hans Pèturssonar, sem kvörtuðu um missi sinn með því skipbroti, sem skeði við sandinn fyrir vestan Laxárós; en Höskuldur Þorvaldsson, Erlendur Illugason, Sæmundur Bergsson og Þorvaldur Jónsson voru hafðir grunsamir að hafa góz úr skipinu með leynd og óheimild burt tekið, hvar fyrir þeir eigi sverja vildu, og þar fyrir var dæmt, að þeir á eiðnum fallnir væru, og skyldu sekir 4 mörkum til konungs, o. s. frv. Þetta mál kom til alþingis sama ár 30. júní, og vísa lögmenn dómendum til þjófabálks 8. kap. og farmannalaga 12. kap. og dæma, að umgetnir menn straffist harðlega. 1655 lýsti Hrólfur Sigurðsson hesti á alþingi.

1661 30. júní klagaði lögrèttumaðurinn í Vaðlaþingi, Vigfús Jónsson, á alþingi fyrir lögmönnum sýslumann Hrólf Sigurðsson fyrir það, að hann hefði eigi viljað gjöra sèr lög og rètt í landaþrætumáli því, er hann kærði til Jochums Mums eldra, er byggt hafði Sauðasel á landi Vigfúsar; en Hrólfur sýslumaður afsakaði sig með því, að stefnt hefði verið fyrir báða sýslumenn Sigurð Magnússon og sig, en Sigurður eigi við verið, er stefnan hefði verið fram lögð. Úrskurðaði þá Árni lögmaður, að Hrólfur væri skyldugur og hvor sýslumanna fyrir sig, að gjöra mönnum lög og rètt, nær löglega væri fyrir þá stefnt, annars ættu þeir að klagast fyrir lènsmanni eða hans fullmektugum. Um þetta mál Vigfúsar var aptur rætt á alþingi 1662, hafði sýslumaður Sigurður Magnússon dæmt þar um, en þar eð dómur hans var óendilegur, var honum aptur heim vísað. 1663 lèt Hrólfur sýslumaður dóm ganga í orðamáli Jóns Sigurðssonar, er Vigfús Friðriksson (er var faðir Þórarins, föður Guðrúnar, móður Þórarins

sýslumanns og hústrúr Málmfríðar á Munkaþverá) klagaði fyrir það, að hann hefði á þingi talað þessum orðum við sig; «Eg lýsi þig rètttækan undir konungsins lás, landráðamann og konungsins fánga». Dæmdi Hrólfur Jón í sektir, en setti sekta hæðina til lögmanna úrskurðar á alþingi; dæmdu þá lögmenn, að Jón skyldi eiga kost á að standa við orð sín, ef hann gæti, annars gjalda tvöfalda sekt konungi og þegni: orðið landráðamaður skyldi vera fullrèttisorð, og 4 merkur konungi, en hitt hálfrèttisorð, og tvöföld sekt á, þar á þingi voru töluð.

Undir lögfestu síra Eiríks Hallssonar í Höfða 9. maí 1663 og 16. maí 1681 hefir sýslumaður Hrólfur Sigurðsson skrifað nafn sitt. 1664 kom orðamál fyrnefnds Jóns Sigurðssonar fyrir á alþingi, og úrskurðuðu lögmenn, að sýslumönnum í Þingeyjarþingi tilkæmi rèttilega, að útpanta sektirnar hjá Jóni eptir dóminum, þar eð hann eigi hefði bevísað sín orð innan takmarkaðs tíma. 1675, þá er síra Gunnlaugur Sigurðsson í Saurbæ í Eyjafirði sleppti Möðrufellsspítala umsjón, tekur aptur við nefndum spítala sýslumaður Hrólfur Sigurðsson í viðurvist síra Bjarna Hallssonar og Guðbrands Þorlákssonar. Undir kröfu síra Eiríks Hallssonar í Höfða 25. apríl 1681 á Grýtubakkaþingi til Vigfúsar Bjarnasonar um arf eptir Málmfríði Hallsdóttur, systur síra Eiríks, hefir Hrólfur sýslumaður Sigurðsson skrifað. 1682 11. maí dæmir Magnús lögmaður Jónsson frekustu húðláts refsingu Jóni Sigurðssyni á Þverá fyrir guðsorða foröktun og tilskyldar sýslumennina í Þingeyjarþingi, Hrólf Sigurðsson og Jón Vigfússon að leggja þá refsingu á Jón Sigurðsson. Sama ár 4. september virðir sýslumaður Hrólfur með tilkölluðum mönnum Lautásstað fyrir 50 hndr. með 2½ kúgildi. 1683 lætur síra Eiríkur Hallsson, þá 69 ára gamall, 11. júní á Grýtubakka, upplesa lögfestu sína fyrir Höfðastað; en Jón sýslumaður Vigfússon upp á skrifaði. 1688 3. júlí lýsir landfógeti Heidemann á alþingi 47 rd. skuld af stríðshjálpartolli hjá sýslumönnum í Þingeyjarþingi, Hrólfi Sigurðssyni og Jóni Vigfússyni, voru þeir þó báðir þá frá sýslunni. Það er meining mín, en eigi fullvissa, að Hrólfur hafi sleppt sýsluparti sínum 1684 eða 1683. Hrólfur bjó fyrst á Víðimýri og flutti þaðan norður að Laugum í Reykjadal. Síra

Jón Þorgrímsson á Hálsi hefir sagt Jóni sýslumanni Jakobssyni, að Hrólfur hafi búið 12 ár á Skútustöðum, 12 ár í Möðrufelli og 12 ár á Grýtubakka, og þar hafi hann tekið Arngrím son sinn fyrir lögsagnara, en sannast mun, að hann hafi tekið Arngrím son sinn fyrir lögsagnara nálægt 1680, og Arngrímur hafi því utan farið 1684, að fá sýslupartinn, er hann tók að veitingu 1685, og máske Hrólfur hafi þangað til við lafað, en haft Einar Einarsson fyrir umboðsmann 1684; bjó Hrólfur sýslumaður þá á Bringu og var orðinn mjög hnigginn að aldri, þar eptir fór hann í Dal, til Björns sonar síns, og dó þar 1704. 1660 var Hrólfur dómsmaður í Skagafirði Benidikts sýslumanns Halldórssonar, var þó Hrólfur þá sýslumaður í hálfu Þingeyjarþingi.

### Sigurður Magnússon.

***Faðir:*** Magnús sýslumaður Arason á Reykhólum, sjá Barðastrandarsýslu.

***Móðir:*** Þórunn ríka Jónsdóttir sýslumanns Vigfússonar.

***Kona:*** Sigríður Oddsdóttir (dó 1683, 88 ára) á Borg Þorleifssonar í Búðardal, Bjarnasonar Oddssonar. Þau giptust 1650.

***Börn:*** A. Magnús í Bræðratungu átti fyr Jarðþrúði (aðrir Arnþrúði) Hákonardóttur sýslumanns; hún dó af barnsförum að andvana 4. barni 1686, barnlaus.

Síðar átti Magnús 1689 Þórdísi, dóttur Jóns biskups Vigfússonar, þeirra börn:

1. Síra Sæmundur Magnússon prófastur á Miklabæ átti Guðrúnu Þorsteinsdóttur lögrèttumanns á Flugumýri Jónssonar; börn:
   a. Síra Magnús á Þingvöllum.
   b. Oddur á Atlastöðum.
   c. Margrèt.
   d. Jarðþrúður.
   e. Þorsteinn.
   f. Helga.
2. Jón[1] á Stóranúpi átti fyrst Sigríði Guðmundsdóttur; börn:

---

1) Það er sagt, að Jón á Stóranúpi hafi verið fimmgiptur.

a. Síra Guðmundur á Krossi.
b. Síra Þórður á Kálfafelli.
c. Sigríður.

Önnur kona Jóns var Bergljót Guðmundsdóttir; börn:

d. Guðrún.
e. Sigríður.
f. Guðmundur.
g. Sigurður.

Þriðja kona Jóns var Guðrún[1] Skúladóttir, barnlaus.

Fjórða kona Jóns Guðlaug Ólafsdóttir; þeirra barn:

h. Þorbjörg.

Launbörn Jóns voru þar að auki:

i. Jón[2].
k. Jón annar.

3. Elín átti Bjarna lögrèttumann á Móeiðarhvoli Brynjólfsson; börn:
   a. Karítas.
   b. Elín.
4. Sigríður og
5. Oddur, dóu 1707.

Magnús var drykkjumaður og óeyrinn við öl, einkum við konu sína Þórdísi. Biskup Jón Vídalín áminnti hann þar um, en það dugði eigi. Þórdís flýði frá Magnúsi heim í Skálholt; var þar þá Árni assessor Magnússon; Þórdís gekk stundum í stofu, þar er Árni hafði aðsetur sitt; þar af or-

---

1) Guðrún Skúladóttir er talin fimmta kona Jóns, og átti hann ekki barn með henni, en þriðja kona hans var Herdís dóttir Sæmundar fálkafangara, með henni átti hann og ekki barn.

2) Annar Jónanna var skilgetinn, og sonur Bergljótar, annarar konu Jóns á Núpi; sá Jón sigldi, nefndi sig Jón Núp, lærði skósmíði, settist að erlendis, varð tvígiptur og átti þar mörg börn.

sakaðist, að Magnús skrifaði Árna svigurmæli, að hann mundi fleira við hana tala, en sæmdi. Þetta hafði Árni til máls, og varð Magnús fyrir þungum sektum, þá skaut hann málinu til hæstarèttar og fór sjálfur utan að framfylgja málinu; en áður en það yrði dæmt í hæstarètti, dó Magnús 1707; málinu var framfylgt, og tapaði Árni því fyrir hæstarètti, og varð að borga málskostnað.

B. Elín, seinni kona síra Skúla Þorlákssonar á Grenjaðarstað, hún dó 1699 42 ára. Börn:

1. Síra Þorlákur dó 1707, barnlaus.
2. Sigríður átti síra Jón, dóu bæði barnlaus 1707[1].
3. Margrèt átti Halldór sýslumann Einarsson, dóu bæði 1707, barnlaus.
4. Sigríður dó 1707 barnlaus[2].
5. Benidikt dó 1707, barnlaus.
6. Jórunn[3] átti Brynjólf sýslumann Thorlacíus á Hlíðarenda, og var hans seinni kona, sjá Árness þing.

Sigurður Magnússon mannaðist vel og var með móður sinni Þórunni á Skútustöðum; hann giptist 1650 Sigríði dóttur Odds ríka á Borg, systur síra Sæmundar í Hítardal og tók sèr bústað á Skútustöðum, lèt þar byggja mjög rausnarlegan bæ og kirkju og lèt þar til fara stórviðu af Langanesi með miklum kostnaði; móðir hans var þar og, en að kalla búlaus; lifði hún af eignum sínum. Þá er Þorbergur sýslumaður Hrólfsson sleppti sínum parti í Þingeyjarþingi, fèkk Sigurður Magnússon sèr hann veittan 1650, að vitni Magnúsar sýslumanns á Eyri í Seyðisfirði Magnússonar, og stóð hans vegur með blóma. Espólín meinar, að Sigurður hafi tekið sýsluna 1660 og eins sýslumaður Jón Jakobsson, en það er eigi rètt. Fáir dómar Sigurðar hafa mèr fyrir sjónir komið, þó má þetta telja: 1651,

---

1) Sigríður eldri var heitmey síra Jóns Jónssonar á Möðruvöllum, en dóu bæði, áður en saman næðu.

2) Sigríður yngri átti Martein prentara Arnoddsson, en dó barnlaus; hún hefir verið hans fyrri kona.

3) Jórunn erfði öll systkin sín.

20. september lætur sýslumaður í Þingeyjarsýslu, Sigurður Magnússon, dóm ganga að Keldunesi um Rauðasel; sá dómur var ákærður af Jóni lögrèttumanni Vigfússyni sem óendilegur, kom hann því undir lögmanna úrskurð á alþingi 1662, 30. júní. 1653, 30. júní selur Þorlákur biskup sýslumanni í Þingeyjarþingi, Sigurði Magnússyni, Geirastaði við Mývatn fyrir Mjölbrigðastaði. Hvorki getur rètt verið nafn eða ártal á brèfi Gísla biskups Þorlákssonar, útgefnu 1688, að síra Guðmundur Jónsson skuli hafa umboð yfir hálfri Geldingsey mót sýslumanni Sigurði Magnússyni, því Sigurður var þá dáinn, og Gísli biskup líka dáinn (líklega hefir ártalið átt að vera 1658). Að Sigurður sýslumaður hafi drukknað í Mývatni, er eins ósatt; því árið 1668 lagðist hann í þungan sjúkdóm og þjáðist mjög og dó loks úr þeim sjúkdómi um allraheilagramessu 1668, þá er hann hafði verið 18 ár sýslumaður. Óljóst er mèr, hvort Sigurður sýslumaður hefir haldið nokkurn umboðsmann, en eigi er ólíklegt, að hann í sinni þungu banalegu hafi fengið fyrir sína hönd mág sinn Jón Vigfússon í Lögmannshlíð, og að hann hafi þar þjónað sem umboðsmaður til þess hann fèkk veitingu 1669. Ekki var Sigurður mjög auðugur í fyrstu, því hann hafði eigi annað en sinn föðurarf, og eigi lifði hann svo lengi, að hann næði til arfs eptir móður sína, sem dó 1674, eða föður konu sinnar Odd á Borg, sem dó 1683, bjargaðist samt vel af eigin atburðum. Eigi var Sigurður nè aðrir sýslumenn í Þingeyjarþingi um þær mundir haldnir miklir lagamenn.

### Jón Vigfússon.

*Faðir*: Vigfús lögrèttumaður í Lögmannshlíð (fæddur 1609 dó 16. nóvember 1685), sonur Jóns lögmanns Sigurðssonar á Reynistað.

*Móðir*: Guðrún (fædd 1609 dó 18. ágúst 1697) dóttir Halldórs lögmanns Ólafssonar, sjá Hegranessþing.

*Kona*: Helga, dóttir Magnúsar sýslumanns Arasonar og Þórunnar ríku, þau Jón og Helga giptust 1660, voru henni þá talin 90 hndr. í lausafè.

*Börn*: Þorbjörg, átti Pètur son Bjarnar sýslumanns á Staðarhóli, sjá Dalasýslu.

Um uppvöxt og menning Jóns hef eg ekkert að rita, en

líkast er, að hann hafi verið vel uppalinn og fræddur. Hann bjó lengst í Lögmannshlíð. Eg meina, að hann hafi sem umboðsmaður tekið þann hluta Þingeyjarþings, er Sigurður sýslumaður Magnússon hafði, 1668, en veitingarbrèf þar fyrir gaf honum 20. júlí 1669 Jóhann Pètursson Klein á Bessastöðum, upp á hans konunglegu hátignar og lènsmannsins vegna, og skyldi hann sækja til hans staðfesting þar upp á, þá er hann kæmi til landsins: skyldi Jón undir embættismissi borga árlega á Bessastöðum um Jónsmessuleytið eða um mitt sumar eptir ½ Norðursýslu í vaðmálum 11 voðir, í sokkum stórthundrað og 55 pör, og fyrir einn hálfan (rust) hest 2 rd., samt fyrir óvissar tekjur og sakfall gjöra reikning, skila rekum, einhyrningshornum, rostungstönnum, hvítum fálkum, hvítabjörnum og sèrhverju fágætu, sem tilfalla kynni. Hólabiskupar munu þá hafa haft konungstíund af sýslunni. Áður en Jón gjörðist sýslumaður, var hann lögrèttumaður í Vaðlaþingi, en óþarft tel eg að rita hèr dóma hans, get þó þess, að 1670 var Jón sýslumaður Vigfússon á alþingi með dóm um barneign. 1673 er dómur Jóns sýslumanns útnefndur á Grýtubakka um barnsfaðernislýsingu Sigríðar Þórðardóttur upp á enskan skipbrotsmann. 1679 dæmdi hann ásamt Hrólfi sýslumanni, að Náttfaravíkur lægju undir Stað í Kinn, og að þar mætti enginn (leyfislaust) setja byggð. 1682 19. apríl að Húsavík láta sömu sýslumenn dóm ganga um tilkall kaupmannsins þar Christophers Hansens Bangs til Ingjalds Einarssonar fyrir búðarbrot og stuld þaðan af nokkru gózi; stefnan í málinu var dæmd ónýt, þar hún sè ófullkomlega orðuð og innihaldi eigi sínar bevísingar. Jón bjó í Lögmannshlíð utan sýslu eptir konungsleyfi. Þá er Jón hafði í 14 ár verið sýslumaður í hálfu Þingeyjarþingi og smáharðnaði í ári, en sama var afgjald sýslupartsins, og hann átti langt til að sækja, þótti honum embættið eigi ómaksins vert og frásagði sèr sýslupartinum, þar hann eigi fèkk linun í eptirgjaldi 1683, og bjó síðan sem bóndi. 1685 hefir Jón látið hreppstjóra í Glæsibæjarhrepp gjöra aðsjón hjá sèr upp á ómagaframfæri Guðmundar Ólafssonar; hefir hann frátalið skuldir og 90 hnd. lausafjár, fè konu sinnar, þá hafa þeir talið 8 menn á fæði, en bæði matbjörg og heyfeng ónógan. Hèr af má sjá,

að ekki hefir verið svo stórmannlegt, eða slíkar búnægtir hjá Jóni, sem auð hans af jarðagózi sambauð, að hann skyldi eigi hafa utan 8 manns að fæða, og þó voru matar- og heyjaföng ónóg. Hefir hann sem fleiri bændur smánurlað saman til jarðakaupa, en verið sparsamur í búi. Ómaga framfæri hefir þá og verið reiknað eptir búsgnægð og lausafjárupphæð. Það var venja þá og lengi síðan, að valdsmenn tóku vitnisburði sína, það gjörði og Jón, þá er hann frásagði sèr sýslupartinum á alþingi 1683. 1702 hefir Helga kona Jóns verið dáin, því það ár 26. september að Lögmannshlíð hefir Jón Vigfússon fengið dóttur sinni Þorbjörgu til fullkominnar eignar þessar jarðir: Ás í Kelduhverfi með tilliggjandi hjáleigum 40 hndr., jörðina Byrgi með Byrgisseli í sömu sveit 20 hndr., Miðvík á Svalbarðsströnd 15 hndr., Krossanes syðra við Eyjafjörð 20 hndr., fyrir þá fasteign, sem Þorbjörgu hefir borið eptir móður sína, Helgu Magnúsdóttur, en tilskildi sèr þar á móti, að mega halda til alls ágóða þeim jörðum, sem Þorbjörgu hefðu með rèttu tilfallið eptir móður sína. Viðstaddir hafa verið Bjarni Pètursson, Hákon Árnason og Egill Jónsson. 1709 um haustið fór Jón vestur að Skarði og Tjaldanesi að finna dóttur sína og son hennar; var hann um veturinn hjá Bjarna Pèturssyni á Skarði, og fór aptur norður að Lögmannshlíð sumarið 1710. 1714 hefir Jón sýslumaður dáið millum þess 11. og 12. september í Lögmannshlíð, því í þeirri sætt, sem þeir Bjarni Pètursson og Sölfi Tómásson hafa gjört sín á millum að Lögmannshlíð 27. maí 1715, segir Sölvi, að fósturfaðir sinn hafi á sinni banasæng 10. september 1714 gefið sèr gjöf (en nefnir ei hverja), þessa gjöf hefir Sölvi sèr frá sagt, og mikið auðmjúklega í undirgefni beiðzt undan ákærum Bjarna. Er af þessu auðsèð, að Sölvi muni með sterfbúið eitthvað ógætilega hafa farið, sem þá niðurfèll. Jón Vigfússon var maður góðgjarn; hann uppól nefndan Sölva og Ólöfu Einarsdóttur, og kom þeim til þeirrar menningar, sem auðið var. Sölvi gjörðist klausturhaldari á ½ Munkaþverárklaustri ; faðir hans var Tómás, örsnauður bóndi á Stóru-Glerá í Kræklingahlíð; þessi Tómás fór með konu sinni á grasafjall og komu á meðan syni sínum Sölva fyrir hjá þeim hjónum í Lögmannshlíð; en þá er Sölvi skyldi heim fara til foreldra sinna, er sagt, að hann hafi

haldið um knè á Jóni og eigi viljað fara. Sölvi giptist seinna Halldóru dóttur Jóns bónda Jónssonar, er um tíma hafði Fljótaumboð; þeirra son var Sveinn lögmaður. Í Lögmannshlíðarkirkju var á töflu uppsett grafskript eptir foreldri Jóns sýslumanns:

«Hèr undir hvíla ærugöfug höfðingshjón,
virðuglegur og velvís höfðingsmann
Vigfús Jónsson b. m.
Hver í Guði sætlega burtsofnaði þann 16da
November 1685 á 76ta ári hans aldurs
Ásamt dyggðæðla höfðingsmatronu
Guðrúnu Halldórsdóttur b. m.
Hver hèrveru sinna lífdaga endaði þann 18da
Augusti 1697 á 88da ári hennar aldurs».

Taflan er gjörð 1699.

Jón sýslumaður Vigfússon þótti kyrrlátur, gætinn og hægferða, góður en þó nokkuð fèfastur maður, ekki fór orð af lærdómi hans, en búhöldur var hann í meðallagi talinn. Það virðist sem Jón hafi eigi algjörlega losnað við sýslupartinn fyr en 1685, sjá hèr síðar.

Í ættartölum nefnist Jón sýslumaður í Þingeyjarþingi 1661; ef það er rètt ártal, þykir mèr líkast, að hann þá hafi orðið umboðsmaður Sigurðar Magnússonar.

### Jón Jónsson[1].

*Faðir:* Síra Jón Þorvarðarson á Skinnastöðum.

*Kona Jóns fyrri:* Guðný dóttir Jóns bónda úr Reykjadal.

*Kona Jóns seinni:* Kristín Grímsdóttir Gottskálkssonar frá Glaumbæ.

*Barn:* Kristín giptist Bjarna syni síra Magnúsar Bjarnasonar á Eyjadalsá (sem var bróðir síra Jóns Magnússonar skálds í Laufási); þau barnlaus.

1683, 25. ágúst skikkaði landfógeti Heidemann Jón til dómara yfir klögun síra Magnúsar Illugasonar í Húsavík um átroðning höndlunarfólks þar, hèr um lèt Jón dóm ganga samastaðar 14. apríl 1684. 1685 skrifar landfógeti Heidemann

---

1) Um ætt þessa Jóns Jónssonar veit eg ekkert, en held að það sè eitthvað bogið, er hèr stendur um hana.

sýslumönnum í Norðursýslu, Jóni Vigfússyni og Jóni Jónssyni um húsavirðing og inventarium í Húsavík. Þetta ártal reynist rangt og eiga að vera 1683. Sjá það er hjer seinna verður sagt um dauðaár Jóns Jónssonar. 1684 bjó Þorlákur bóndi Jónsson á Rauf á Tjörnesi. en Jón sonur Illuga prests í Húsavík bjó á Bakka á Tjörnesi með 3 sonum sínum, var þá óaldarvetur mikill í Þingeyjarþingi, brugðust mönnum heyföng og togfiskur. Svo bar við, að synir Jóns á Bakka höfðu fundið lagvað Þorláks á svokölluðu Hundraðsmiði, drógu hann upp og tóku þar af 2 fullorðna hákalla og leyndu, þetta kvisaðist og komst svo langt, að Þorlákur stefndi Jóni og sonum hans fyrir dóm Jóns sýslumanns Jónssonar; dráttur varð nokkur á þinghaldinu, en þá er sýslumaður reið frá heimili sínu Ærlæk og átti skammt til Húsavíkur, varð honum snögglega illt og lagðist fyrir í Norðmannalág skammt suður frá Húsavík og lézt þar, var hann jarðaður í Húsavíkur framkirkju, meinast þetta hafa skeð síðla vetrar 1685. Sögn var, að Jón Illugason hefði fengið rýndan karl í Skógargerði (Húsavíkurkoti) að fyrirkoma sýslumanni eða glepja fyrir honum af ótta fyrir útfalli lagvaðsmálsins. Jón Illugason gipti Þorláki bónda á Rauf dóttur sína mót vilja sínum með góðri þóknun. Jón sýslumaður bjó á Ærlæk í Axarfirði og hafði lengi áður verið lögrèttumaður í Þingeyjarþingi, en var settur þar sýslumaður af Heidemann, sem fyr er sagt, þegar ekki fèkkst boð upp á Þingeyjarsýslu og bæði Jón Vigfússon og Hrólfur höfðu frásagt sèr hana, mun Jón þó eigi hafa haldið utan hálfa sýsluna. Sè ártal á fyrnefndu Heidemannsbrèfi rètt, hefir Heidemann viljað halda Jóni Vigfússyni við sýsluna, þó hann frásegði sèr hana 1683, og fógetinn hefir þá eigi vitað um dauða Jóns Jónssonar, er hann hefir ritað brèfið, eða það hefir verið fyr á árinu, sem Jón dó.

## Einar Einarsson.

*Faðir:* Einar Fljóta umboðshaldari, sonur Skúla Einarssonar og Steinunnar laundóttur Guðbrandar biskups.

*Móðir:* Þuríður dóttir síra Sigurðar Jónssonar[1].

*Kona:* Halldóra dóttir síra Jóns Guðmundssonar (Jón var

1) ɔ: frá Goðdölum.

prestur til Möðruvalla í Eyjafirði og bjó á Rúgstöðum[1]).

*Börn:* A. Einar,
B. Jón,
C. Guðrún, dóu öll barnlaus í stórubólu 1707.
D. Halldóra átti síra Jón Sæmundsson við Mývatn.

Einar var orðinn lögrèttumaður í Þingeyjarþingi 1679[2], gjörðist svo lögsagnari Hrólfs sýslumanns; hann var á alþingi 1700 og bjó á Hèðinshöfða.

### Nikolás Einarsson.

Sjá Hegranesþing. Hann hefir hèr ei verið utan lögsagnari um tíma, sem þó mun óvíst.

### Arngrímur Hrólfsson.

*Faðir:* Hrólfur sýslumaður Sigurðarson.
*Móðir:* Björg yngri Skúladóttir.
*Kona:* Hólmfríður dóttir Björns sýslumanns Pálssonar á Espihóli í Eyjafirði.
*Börn:* A. Björn á Laugum lögrèttumaður átti Steinunni (aðrir Steinvöru) Þorvaldsdóttur prests á Presthólum, börn:
1. Arngrímur.
2. Ragnheiður.
3. Jón.
4. Þorvaldur.
5. Björn.
6. Hólmfríður.

B. Páll bjó á Víkingavatni, átti Ragnhildi Þórarinsdóttur[3], er þar bjó, og börn:
1. Ingunn.
2. Hólmfríður.

---

1) Halldóra var systir Jóns Rúgmanns, er var háskólakennari í fornfræðum í Svíþjóð.

2) Það er sagt, að hann hafi það ár gipzt Halldóru.

3) Sumir nefna föður Ragnhildar Þorgrím, en það er líklega rangt. Þórarinn faðir hennar var Þórarinsson og ríkur bóndi.

3. Þórarinn[1].
4. Runólfur.
5. Helga.
6. Vigdís.
7. Páll.
8. Þórður.
9. Þórarinn.
10. Guðríður.
11. Ragnheiður[2].

C. Björg giptist 1709 Runólfi Einarssyni prests frá Skinnastöðum, þau bjuggu í Hafrafellstungu, börn:
1. Einar.
2. Hrólfur.
3. Arngrímur.
4. Jón.
5. Nicolaus.
6. Þórður.

D. Ragnheiður (aðrir Ragnhildur) dó í stórubólu 1707.
E. Bergur dó barnlaus.
F. Helga dó ógipt.

Fyrst tjáist Arngrímur að hafa farið utan 1684 með Birni sýslumanni Magnússyni á Munkaþverá, kom út 1685 með konungs veitingarbrèf 11. apríl fyrir Þingeyjarþingi og 6 konungsjörðum í Reykjadal, samt leyfisbrèf til að eiga Hólmfríði þrímenning sinn, hann giptist síðan og tók sèr bústað á Stóru-Laugum í Reykjadal. 1685 8. ágúst að Presthólum í Núpasveit lèt Arngrímur dóm ganga um duggu, sem enskir fiskimenn höfðu eptirskilið á Raufarhöfn á Melrakkaslèttu 1684, en enginn síðan vitjað; sama dugga var á alþingi dæmd konungi, en Arngrímur skyldi sæta útlátum fyrir forsómun í því, að taka dugguna með tilheyrandi að sèr, og gjöra konungi rèttan reikning fyrir öllu. 1690 klagaði Jón Sigurðsson

---

1) Sonur Þórarins eldra hèt Árni faðir síra Hóseasar.

2) En voru börn Páls, er upp komust:
12. Guðbrandur eða Guðmundur.
13. Þórdís, hennar dóttir var Þórunn kona síra Einars Björnssonar á Klifstað.

á Dæli í Fnjóskadal yfir hjáhliðrun Arngríms sýslumanns í því, að gjöra sèr lög og rètt móti Pètri Bjarnasyni frá Staðarhóli, sem hèldi fyrir Jóni með ofríki jörðunum Hálsi í Kinn 20 hndr., Þverá 60 hndr., Víðivöllum í Fnjóskadal 25 hndr., samt Ljótsstöðum; skipuðu lögmenn Magnús Jónsson og Sigurður Björnsson á alþingi 9. júlí sýslumanni Arngrími Hrólfssyni að láta sækja sök Jóns Sigurðssonar og útfæra móti Pètri, samt gjöra honum lög og rètt. 1595 frambar Arngrímur í lögrèttu umkvörtun yfir haldi á skatti, tíundum og gjaftolli af jörðunni Grýtubakka, hvar upp á lögmenn svöruðu, að þar eð þetta áhrærði konungsins Interesse og afgjald af sýslunni, þá sè valdsmaður lögskyldur með vitafjársókn að sækja í hèraði, svo konungsins víseyrir eigi fyrir tráss nè lögleysu niður falli.

Um 1696 tók Arngrímur að krenkjast, var þó við sýsluverk opt sjálfur, en tók fyrir lögsagnara stundum Einar Einarsson á Rauðuskriðu og sín seinustu ár Þorgrím Jónsson í Reykjahlíð. 1697 tilfèll «K i ð u n u b b a» eða «g e i t a m á l i ð», sem var svoleiðis, að Jón Þórðarson í Tunsu, Múlastaðarhjáleigu, stal geit, skar hana lifandi á kviðinn og dró úr henni mör og innýfli; var Jón þar fyrir kagstrýktur og brennimerktur eptir dómi Arngríms sýslumanns sama ár. Arngrímur lagðist í rekkju af skyrbjúgi og dó af þeim krankleika 1700. Hann bjó á Stóru-Laugum í Reykjadal, sem áður er sagt, var ekki mikill auðmaður, ekki þótti hann röggsemdarmaður í embætti sínu, var annars kyrrlátur og hefir, ef til vill, ekki treyst lagavizku sinni, sem haldið var að ekki hafi verið mikil. Arngrímur hèlt alla sýsluna um sína daga og var 16 ár sýslumaður, átti og stundum andstreymt í málum og fleiru. Mælt er, að hann eða Hrólfur faðir hans hafi á alþingisferð glatað prótókolum sínum, en sumir segja lögbókum sínum.

## Þorgrímur Jónsson.

***Faðir***: Jón sonur Þorvalds bónda, bróður Þorláks biskups Skúlasonar.

***Móðir***: Sesselja[1] dóttir Jóns Svenska.

---

1) Sesselja var dóttir Jóns sonar Jóns prentara í Núpufelli sonar síra Jóns sænska.

*Kona*: Margrèt Bergsdóttir hálfsystir Markúsar sýslumanns Bergssonar, hún varð frávita sín seinustu ár.
*Barn*: Helga átti síra Jón Halldórsson á Völlum, þau voru barnlaus.
*Launson* Þorgríms: Hildibrandur fór suður og varð lögrèttumaður, en seinast beiningamaður.

Þorgrímur bjó í Reykjahlíð og varð gildur bóndi, gjörðist og lögrèttumaður í Þingeyjarþingi og lögsagnari á seinustu árum Arngríms sýslumanns, og stóð einn fyrir sýslunni árið 1700 til þess Halldór sýslumaður við tók; þó sýnist að Nikulás Einarsson kunni og að hafa verið þar lögsagnari; aptur meinast Þorgrímur að hafa verið settur lögsagnari eptir Halldór sýslumann og Pètur lögsagnara, er báðir dóu í stóru bólu 1707. Þorgrímur dó snögglega á ferð 1709; sama ár testamenteraði Margrèt kona hans Brynjólfi Thorlacius fè þeirra, en 1710 testamenteraði hún það Páli Vídalín, sem fèkk þar upp á 1721 konunglega staðfestingu.

Pètur, son síra Markúsar Geirssonar í Laufási, var settur, þá er lát Halldórs frèttist, en dó skömmu þar eptir; hann var stúdent og áður ráðsmaður á Hólum.

## Halldór Einarsson.

*Faðir*: Einar sýslumaður Eyjólfsson (sjá Árnessýslu).
*Móðir*: Margrèt dóttir síra Halldórs Daðasonar prófasts í Hruna.
*Kona*: Margrèt dóttir síra Skúla Þorlákssonar prófasts á Grenjaðarstað, og Guðrúnar Benidiktsdóttur sýslumanns Halldórssonar lögmanns. Margrèt dó í stóru bólu 1707 barnlaus.

Þá er Einar sýslumaður faðir Halldórs dó 1695, tók Páll Vídalín Halldór, sem þá var við skólalærdóm, mjög skarpur piltur, en Páll Vídalín þá skólameistari í Skálholti, höfðu þeir Einar sýslumaður og Páll verið mestu vinir, og er sögn, að Páll hafi numið af Einari fornfræði, er fáir þá stunduðu. Páll Vídalín gjörðist 1696 sýslumaður í Dalasýslu og flutti að Víðidalstungu. Þangað fór Halldór með honum og nam af honum lögvísi; er það í frásögu fært, að í lögrèttu hafi hann lesið þremur öðrum fyrir innlegg en skrifað hið fjórða sjálfur, lík-

lega eptir áðurgjörðum uppköstum. Halldór var bæði vel minnugur, aðgætinn og fljótskarpur, þurfti því stuttan tíma til að nema ýmsan fróðleik, er aðrir þurftu langan tíma til. Eptir Arngrím Hrólfsson var Halldór settur sýslumaður í Þingeyjarþingi seint á árinu 1700 eða þó heldur 1701, en fèkk konungsbrèf fyrir sýslunni 1702, 25. apríl, og sama árið byrjaði málið milli Gísla Árnasonar í Ási í Kelduhverfi og Halldórs sýslumanns út af tíundum og þinggjöldum, sem Gísli þverskallaðist við að borga sýslumanni; varð úr því máli mikill rekstur, þar Gísli hafði borið sýslumann því: 1. að hann hefði brotið á börnum Gísla rèttarbót Magnúsar konungs og tvö konungabrèf. Eptir skikkun amtmanns Müllers var settur Þorgrímur Jónsson lögrèttumaður í Reykjahlíð dómari í því máli, og dæmdi hann Gísla eptir mannhelgis 25. kapítula sekan 4 mörkum við konung og 6 mörkum við sýslumann. 2. hafði Gísli haft svigurmæli um, að Halldór sýslumaður hefði gjört sèr galdur. 3. fyrir þegnskyldna óskil. Dæmdu þeir Gísla til að gjalda skatt með 6 aura skatthaldi, og skyldi lúkt í næstu fardögum, eptir þegnskyldubálki 23. kap. Fleiri sakir fóru milli sýslumanns og nefnds Gísla. 1702 dæmdi hann í dulsmáli konu, er hafði fyrirfarið barni sínu, og var henni drekkt í Hörgárdal eptir dómi hans. 1702, 25. apríl, fèkk hann staðfestingu konungs upp á sýsluna og Reykjadalsjarða umboð. 1703 dæmdi hann um þjófnað á 1 sauð 2 ám og 1 lambi, er tvær vinnukonur stálu. 1704 rannsakar hann eptir skipun amtmanns um Munkaþverár landseta klögun yfir Sveini klausturhaldara Tómassyni. 1703 13. júlí skrifar hann andlegum og veraldlegum í Þingeyjarþingi áminningarbrèf frá Reykjahlíð um að gefa Árna assessor og Páli Vídalín góðar skýrslur um jarðir sínar og annað það, er þeir mundu eptir spyrja. 1704 mætir hann í synodalrètti á Flugumýri og bíður sig til að svara á móti síra Skúla á Grenjaðarstað fyrir síra Halldór[1] Benidiktsson í Nesi í þrætu þeirra út af Hrathólma. 1705 21.—25. september þingaði hann eptir skipun amtmanns Müllers á Saurbæ í Eyjafirði til að taka eið af Magnúsi Benidiktssyni,

---

1) «Síra Halldór» er víst ritvilla og á að vera síra Magnús.

sem Páll lögmaður Vídalín hafði honum tildæmt fyrir morðsmál Guðrúnar Jónsdóttur á Úlfá í Eyjafirði (sjá hèr um Húnavatnsþing). Þar eð Magnús vantaði bæði lýrittar- og fangavotta, þótti sýslumanni hann fallinn á eiðnum, og óskaði, að Lárus sýslumaður vildi taka Magnús í forsvaranlegt fangelsi, en skaut málinu til lögmanns o. s. frv. 1705 dæmir Halldór sýslumaður Ólaf Sveinsson, er menn meintu að verið hefði í vitorði með þeirri barnsmóður sinni, er drekkt var 1703, til útlegðar, því hann hafði ráðið barnsmóður sinni Sigríði Vigfúsdóttur að myrða barn sitt, hvað hún opinberaði. Árni Björnsson, bróðir Ingibjargar konu síra Jóns Gíslasonar í Saurbæ, hafði átt barn með systur konu sinnar og var hilmað yfir. En fyrir freka eptirleitni sýslumanns, sem lofaði Árna að hann skyldi strafflaust af komast, meðkenndi hann, og var tekinn af á alþingi, en konunni drekkt 1705. 1706 21. apríl á Keldunesi lætur Halldór dóm ganga um ranga barnsfaðernislýsingu og meðkenning Ásmundar Jónssonar með Kristínu Halldórsdóttur, dæmdu lögmenn þar um 17. júlí eptir N. L. 6.—13.—27. 1706 30. apríl að Ærlæk dæmdi hann flesta þingsóknarmenn í boðfallssekt eptir framfærslubálki 10. kap. og R. B. E. K., þar þeir eigi voru á nóni til þings komnir. 1707 22. júní að Helgastöðum dæmdi Halldór um barn Pèturs Helgasonar og Hallfríðar Vigfúsdóttur, sem dautt hafði fundizt í bæjarlæk undir Ytrafjalli; foreldri barnsins, er voru mjög vel kynnt, voru dæmd til að standa opinberar skriptir og að gjalda 10 aura til fátækra eptir N. L. 6.—11.—13. 1707 4. maí átti Halldór að dæma yfir klögun Sigurðar Bjarnasonar yfir Lárusi sýslumanni Scheving að Hvammi á Gálmarströnd, en þá fèll það mál til sátta. Margir aðrir voru dómar sýslumanns. 1707, þá stóra bóla gekk, sagði hann, að maður trautt mundi í henni deyja, ef maður væri á sífelldri hreifingu; þegar hann kenndi sèr sóttarinnar, gekk hann um gólf í húsi sínu (því maðurinn vildi lifa) og andaðist í stólnum við sængina 1707; aðrir segja, að hann hafi sagt um bóluna «ekki skal hún fella mig», og að hann hafi dáið standandi upp við þil eða þess konar. Kona hans dó og þá. Hann þótti rýndur maður í sinni tíð, og var hègómlegt tal alþýðu, að furðu lètt þótti líkkista hans, þá er hann var til greptrunar út hafinn, (en

orsökin mun hafa verið grannleiki líkamans). Halldór sýslumaður var hár vexti, en þó eigi gildur, dökkur á hár, bjart hörundið, vel limaður, langleitur, nokkuð opinmynntur og sá með jafnaði til tannanna, fljótur á fæti, fljótur og stór í skapi, skrautmaður í meira lagi, áhuga- og umsýslumaður mikill og harðlyndur að því skapi; hann þótti hreinlyndur optast, en ekki góðmenni; hann leitaði smásmuglega eptir lagabrotum í sýslu sinni og straffaði þau vægðarlaust. Ekki var hann syrgður af sýslubúum sínum, var hann heldur óvinsæll hjá þeim. Vel var hann viti borinn og lærður í betra lagi, fljótur og nettur skrifari (til merkis þar um var fullkomin messusöngsbók með settletri eigi stærri en lykja mætti í lófa manns; hana átti með hendi Halldórs sýslumanns Einar prófastur Hálfdánarson faðir magisters Hálfdáns rektors á Hólum, H. E.). Mælt er, að Halldór hafi verið svo fljótur ritari, að hann hafi ritað 8 arkir á dag. Hann var og skáld og kvað eptir Þorstein sýslumann Þorleifsson; hann tjáist og að hafa verið vel lærður í lögvísi. Magister Hálfdán telur upp rit hans:

1. Um Íslands fyrstu bygginu, og hversu hèr á landi hófust lög.
2. Um engi á annars manns jörðu.
3. Um fèlög.
4. Um ýmislegar gjafir.
5. Útlegging yfir kaupabálks 6. kap.

Fyrst bjó Halldór með Katrínu systur sinni á Einarsstöðum, áður en hann giptist. Tèð Katrín dó ógipt, barnlaus 1707 í stóru bólu ásamt bróður sínum og Margrètu konu hans. Mælt er, að kaupmönnum væri illa til Halldórs sýslumanns; hafði hann eitt sinn sett Húsavísurkaupmann í húsarrest, en látið á meðan verzla við innbúana eptir ströngustu lögum, sèr sjálfum ásjáanda, þangað til kaupmaður gekk til hlýðni; orsök tjáist rangsleitni kaupmanns út af sokkatöku. (Þetta er eptir munnlegri sögn, er Jón sýslumaður Jakobsson hefur í rit fært). Fóstursyni sínum Einari Hálfdánarsyni, Jónssonar lögrèttumanns á Reykjum í Ölfusi, er var systurson Halldórs sýslumanns, hafði Halldór og kona hans Margrèt ánafnað eptir sig, ef þau dæju barnlaus, alla sína fjármuni. Hafði þá Margrètu tilfallið nokkur arfur eptir systkin sín, líka Halldóri

eptir bróður sinn, síra Arngrím[1] á Staðarbakka, naut þó Einar einskis af þessu fè, því Björn biskup á Hólum stóð á móti vegna fóstru sinnar Jórunnar Skúladóttur og Eyjólfs klausturhaldara á Reynistað, er var bróðir Halldórs sýslumanns, hafði þó Eyjólfur þess lítil not, varð lítið úr honum og börnum hans. Einar Hálfdánarson var barn að aldri í stóru bólu, en seinna lærði hann í skóla, varð kapellan í Arnarbæli hjá síra Árna Þorleifssyni og þar eptir 1720 prestur að Kirkjubæjarklaustri og prófastur í Skaptafellssýslu 1749, til þess hann dó 1752.

### Pètur Markússon[2].

*Faðir:* Síra Markús í Laufási Geirsson.
*Móðir:* Elín Jónsdóttir Magnússonar.

Pètur lærði og gjörðist lögsagnari Halldórs sýslumanns 1701, en dó 1707 (Markúsar-annáll).

### Gísli Magnússon.

*Faðir:* Síra Magnús á Kvíabekk Sigurðsson.
*Móðir:* Valgerður dóttir Ásgríms skálds.

1707, þá er frèttist lát Halldórs sýslumanns, sótti Gísli um Norðursýslu, og fèkk upp á væntanlegt samþykki konungs fyrir sýslunni veitingarbrèf; var Gísli þá lagstur í bólunni, dó úr henni og kom eigi til sýslunnar. Gísli var bróðir Benidikts sýslumanns Becks (sjá Hegranesþing).

### Benidikt Þorsteinsson[3].

*Faðir:* Þorsteinn sýslumaður í Húnavatnsþingi.
*Móðir:* Halldóra dóttir síra Erlendar á Mel Ólafssonar.
*Kona:* Þórunn dóttir Björns sýslumanns á Bustarfelli Pètturssonar Bjarnasonar sýslumanns Oddssonar (sjá Múlaþing), en faðir síra Odds var Þorkell Hallgrímsson Sveinbjarnarsonar prests í Múla.

---

1) Hann kallast venjulega síra Grímur, en samt getur verið, að hans rètta nafn hafi verið Arngrímur.

2) Sjá um hann hèr að framan.

3) Sjá um hann lögmannatal Jóns Sigurðssonar.

Benidikt og Þórunn giptust 1712, Þórunn dó 1747 (aðrir 1748).

*Börn:* A. Jón sýslumaður (sjá hèr síðar).

B. Þorsteinn fæddur 1717 dó 1805, giptist Hólmfríði dóttur síra Jóns á Myrká Ketilssonar. Þau Þorsteinn og Hólmfríður bjuggu í Presthvammi, Skútustöðum, Miklagarði, Bakka í Yxnadal og síðast á Laxamýri á Tjörnesi, börn:

1. Síra Jón, fyrst djákni á Möðruvöllum, og skrifari hjá amtmanni Stepháni svo aðstoðarprestur á Hólmum í Reyðarfirði[1].
2. Laurentius fór utan, gjörðist hattari.
3. Benidikt fór utan, gjörðist og hattari.
4. Guðmundur yngri fór og utan til sama.
5. Þorsteinn djákni á Möðruvöllum dó 1786 í bólu.
6. Guðmundur eldri, dó barn.
7. Þrúður dó ung.
8. Sigríður dó barn.
9. Guðrún barnlaus.
10. Guðrún einnig barnlaus, átti Sigurð[2] sýslumann Snorrason í Húnavatnssýslu.

C. Björn átti Björgu Jónsdóttur prests frá Vogum við Mývatn, þeirra dóttir:

Guðrún átti Jón garðyrkjumann Grímsson, þeirra börn:

a. Þorvaldur á Gauksmýri.
b. Jón Laxdal.
c. Grímur Laxdal.
d. Björn.
e. Björg fór utan.

D. Elísabet önnur kona Jóns ökonomusar á Hólum Árnasonar; þau voru barnlaus.

---

1) Átti dóttur síra Jóns Högnasonar.

2) Sigurður sýslumaður átti 1 dóttur með fyrri konu sinni Sigríði, er varð fulltíða og Hólmfríður hèt, sjá Húnavatnsþing.

E. Elín dó 1788, þriðja kona síra Björns á Grenjaðarstað Magnússonar. Börn;

1. Síra Magnús á Helgastöðum dó 1784, átti Kristínu dóttur síra Stepháns í Laufási og Jórunnar dóttur Steins biskups; þeirra dóttir Jórunn.
2. Síra Vigfús fèkk fyrst Skinnastaði, svo Garð 1797, átti Guðlaugu Andrèsdóttur frá Búströðum; þeirra börn:
   a. Þórunn kona síra Hjörts á Gilsbakka.
   b. Sesselja kona Ara læknis á Flugumýri.
   c. Síra Björn prestur í Eyðaþingum[1].
   d. Þrúður[2].
   e. Sigríður[3].
   f. Elín[4].
   g. Þórdís[5].

   Önnur kona síra Vigfúsar Ragnheiður[6].

   Þriðja kona síra Vigfúsar Kristín Þórðardóttir á Skjöldólfsstöðum; þeirra son:
   h. Síra Benidikt á Hólum í Hjaltadal.
3. Benidikt fyrst djákni á Möðruvöllum, svo kapellan á Breiðabólsstað, dó 1784 barnlaus.

---

1) Síra Björn fèkk seinna Kirkjubæ, hans fyrri kona Þórunn, dóttir Guðmundar sýslumanns í Krossavík, hin síðari Anna, dóttir síra Stepháns á Presthólum.

2) Þrúður átti síra Stephán á Eyjadalsá.

3) Sigríður var fyrri kona síra Halldórs Björnssonar á Sauðanesi.

4) Elín fyrri kona síra Einars Hjörleifssonar í Vallanesi.

5) Þótt Ólafur Snókdalín segi, að Þórdís þessi hafi verið fyrri kona síra Stepháns á Völlum Þorsteinssonar, þá er það eigi rètt, því kona síra Stepháns var Guðrún Einarsdóttir, og síra Stephán var að eins eingiptur; hafi þessi Þórdís til verið, hefur hún líklega dáið barnlaus og ógipt.

6) Síra Vigfús var að eins tvígiptur, og var Kristín seinni kona hans; sonur þeirra var síra Benidikt á Hólum í Hjaltadal, átti Þorbjörgu dóttur síra Jóns Konráðssonar á Mælifelli.

4. Síra Einar[1] á Klifstað átti Þórunni Þorgrímsdóttur; þeirra börn: Þorgrímur og fleiri.
5. Þórunn kona síra Magnúsar í Miklagarði og síðar Saurbæ; þeirra dóttir: Elín[2].
6. Guðrún barnlaus.

F. Sigríður[3] giptist eigi, dó 1787, 74 ára, í Bjarnarhöfn, hennar launbarn með Jóni Þorgrímssyni: Hallgrímur Bachmann, átti Halldóru dóttur Skúla landfógeta Magnússonar; þeirra börn:
   a. Síra Jón Bachmann.
   b. Árni Bachmann[4].
   c. Kristín, gipt Ólafi chirurg, dó barnlaus.

G. Guðrún, fædd 1715 ágætt kvendi, dó ógipt.

Benidikt var fæddur í Bólstaðarhlíð 1688 og settur í Hólaskóla 1702, þaðan útskrifaðist hann 1706, fór 1707 utan til Kaupmannahafnar háskóla, og lagði sig eptir sagnafræði og guðfræði, meðan hann dvaldi þar, kom inn 1708, og tók þá til að leggja sig eptir lögfræði og fornfræðum föðurlandsins, 1709 var hann af hinum fullmektugu Oddi Sigurðssyni og P. Beyer settur lögsagnari í Þingeyjarþingi á 21. aldursári. 1710, 20. júlí, settu tèðir fullmektugir hann þar fyrir sýslumann. 1712 giptist Benidikt. 1616 sat hann í lögrèttu í stað Odds lög-

---

1) Síra Einar átti fyr Þórunni Þorgrímsdóttur frá Skógum Jóakimssonar, var hún systir Sigurðar, er þar bjó síðar, en móðir hennar var Þórdís, dóttir Páls Arngrímssonar sýslumanns, sem fyr greinir: börn síra Einars og Þórunnar:
   a. Elín drukknaði unglingur.
   b. Þórunn.
   Seinni kona síra Einars hèt Kristín, ekkja ríks bónda eystra; þeirra son
   c. Þorgrímur.

2) Elín Magnúsdóttir átti síra Sigurð Jónsson í Goðdölum. Þeirra son síra Magnús, kallaður græni, drukknaði í Svartá í Skagafirði, barnlaus.

3) Sígríður var fædd 2. janúar 1717, og hefir því orðið rètt 70 ára; hún vildi eiga Jón, en fèkk eigi.

4) Árni sigldi, varð sykursuðusveinn, giptist, ytra og dó þar.

manns í utanferð hans. 1717, 18. júní, fèkk hann af konungi vísilögmanns embætti. 1725, 3. júní, staðfesti Friðrik konungur 4. veitingarbrèf Benidikts fyrir Þingeyjarþingi. 1727, 2. júní, veitti konungur honum virkilegt lögmanns embætti. Það embætti hlaut hann mest af því, að aðrir, sem þóttu þar til betur fallnir, vildu eigi gefa sig til þess. Hèr að auki gjörðist Benidikt klausturhaldari á Múnkaþverá, umboðsmaður konungsjarða í Þingeyjarþingi, og Hóla biskupsstóls haldari fyrir norðan, og hafði allt þetta á hendi í senn, hvað honum fórst allvel; en beztar voru búsældir hans, þá er hann eigi hafði utan Þingeyjarþing. Fram hjá öllum hans dómum geng eg, þar eð fullvissa er fyrir hans sýslumanns og lögmanns embættisárum. Benidikt lögmaður bjó fyrst á Svalbarði á Eyjafjarðarströnd, síðan á Einarsstöðum í Reykjadal og þá hèlt hann Munkaþverárklaustur 2 ár, þar eptir bjó hann að Rauðuskriðu, og átti þá jafnan þröngt í búi, því hann dró flest til jarðakaupa. Hann hafði jafnan mikla skemmtun af stórum hundum, og fylgdu honum optast 2 eða 3, lèt hann þá liggja á fótum sèr, því hann varð snemma fótaveikur og lagðist í fótaveiki. Þó lá hann rúmfastur eigi fullt missiri og dó í Rauðuskriðu 1733 á 45. aldurs ári, sýslumannsembættis 24.; hann var vísilögmaður á 11. ár og lögmaður á 7. ár. Benidikt var álitinn að hafa meðalgáfur, og eptir þeirrar tíðar máta í meðallagi að lagavizku og öðrum lærdómsmenntum. Á vöxt var hann með hæstu mönnum, mikill og álitlegur á fæti, heldur fölleitur og bólugrafinn í andliti, dökkt hárið, og eigi fríður maður í andliti, nokkuð var hann málstyrður, en stillti þó jafnan vel orð sín. Hann þótti góður maður sýslubúum í orði og ráðum, og stundaði eigi að uppleita lagaafbrigði þeirra þeim til tjóns; honum var lagið að bjarga sakamönnum, sem varð honum stundum til vandræða og ámælis. Undirmönnum var hann heilráður, en eigi ætíð jafnaðargjarn. Oddur lögmaður Sigurðsson hóf hann fyrst til valda, en föðurlandssagan sýnir, hvort Benidikt gjörði honum jöfnuð seinna. Hann var sèður maður og haldinn vinfastur, en þar hjá fèfastur, og sýslubúum þótti hann harður í tekjum. Vellauðugur varð hann að fasteign, þó lèk orð á, að sumt hefði hann eigi sem rèttast undir sig dregið. Búþröng var opt hjá honum, enda vildu honum til ótrúir þjónar, og ekki hafði hann

hjúalán. Yfir höfuð að segja var hann valinn maður í mörgu, en var eigi laus við ýmsa bresti. Þórunn kona hans lifði þar eptir nokkur ár, og andaðist í Rauðuskriðu hjá syni sínum 28. janúar 1748. 1722 þá er Húsavíkur verzlunarskip strandaði, keyptu þeir síra Magnús í Húsavík og Benidikt sýslumaður það fyrir 30 rd.

## Ólafur Árnason.

Sjá um hann við Barðastrandarsýslu. Hann var hèr settur lögsagnari eða sýslumaður frá því Benidikt lögmaður dó 1733 og til þess hann 1734 fór til amtmanns Lafrenz og gjörðist handritari hans; en 1736—37 var hann tèðs amtmanns fullmektugur í utanför hans 1736.

## Jón Benidiktsson.

*Faðir*: Benidikt lögmaður Þorsteinsson (sjá að framan).
*Móðir*: Þórunn Björnsdóttir sýslumanns Pèturssonar.
*Kona*: Sigríður dóttir síra Jóns Sæmundssonar í Vogum við Mývatn og Halldóru[1] dóttur Einars lögrèttumanns í Þingeyjarþingi. Sigríður dó 1788, og varð þeim eigi barna auðið.

Jón Benidiktsson fæddist á Einarsstöðum í Reykjadal 6. júlí 1714, lærði hann fyrst hjá síra Jóni Gíslasyni í Saurbæ í 2 vetur. Þessi síra Jón var vel lærður maður, og hafði verið utanlands, og gefið sig fyrir stríðsmann, var þar við um 6 ár, og þar af 3 ár undirliðsforingi (Underofficer), eins og hans lausn og passi til Íslands, út gefinn á þýzku af B. E. v. Kleist, Kaupmannahöfn 4. desember 1697, sýnir. Síra Jón varð seinna nokkur ár prófastur í Vaðlaþingi. Síðan var Jón Benidiktsson einn vetur við lærdóm hjá Birni Magnússyni á Munkaþverá, er þá var þar djákni, en varð síðar prófastur á Grenjaðarstað; þar eptir var hann hjá Þorleifi prófasti í Múla Skaptasyni, og eptir þriggja vetra lærdóm hjá þessum skarpa og vel lærða prófasti, var hann útskrifaður af honum 17 ára gamall árið 1731, en 1733 fór hann utan til Kaupmannahafnar háskóla og

1) Sjá um Halldóru, dóttur Einars lögrèttumanns Einarssonar, hèr að framan.

tók þar fyrsta reynslupróf með heppni undir þáverandi Rectore magnifico H. Gram, (er var hans prívat Præceptor, en eptir hann var jústitsráð og prófessor Thestrup það). Þegar Jón frètti andlát föður síns, kom hann inn árið eptir, og var þá undir eins 1734 settur fyrir sýslumann í Þingeyjarþingi, en fèkk konungsbrèf fyrir sýslunni 4. febrúar 1735, hèlt hann þá til í Rauðuskriðu. 1735 11. júlí stóð Jón sýslumaður fyrir máli, að verja dóm föður síns, er hann hafði látið ganga sem sýslumaður á Helgastöðum 27. og 28. marz 1733 yfir Birni Þórarinssyni, er klagaði upp á dóminn, að hann fjærverandi hefði verið dæmdur og flæktur inn í þjófnaðarmál. Bjarni sýslumaður Halldórsson var talsmaður Björns, en Magnús lögmaður Gíslason hafði gefið út stefnuna eptir beiðni Björns, er Benidikt lögmaður sem undirdómari var stefndur með fyrir lögþingisrèttinn. Jón sýslumaður hafði á móti stefnunni og fór því fram, að stefna hefði átt föður sínum fyrir yfirrèttinn, og að lögmaður Magnús hefði ekki löglega gefið út stefnuna. Lögmaður Schmidt dæmdi með interlocutorio, að Jón sýslumaður hefði rètt eptir N. L. 1.—4.—22. og 1.—21.—1. og 2. Sýslumaður Bjarni appelleraði. 1737 giptist Jón sýslumaður Sigríði, sem áður er sagt. 1755 kallaði hann vegna krankleika síns sèr til lögsagnara studiosus juris Björn Tómasson, sem það ár stóð fyrir embættisverkum hans. Þar eptir sótti Jón um til konungs, að fá fyrir lögsagnara sinn studiosus juris Vigfús Jónsson, og var hann bænheyrður um það 1764 og Vigfús settur honum til aðstoðar með von um sýsluna eptir hann; stóð svo um hríð. 1771 kom upp misklíð milli þeirra Jóns sýslumanns og Vigfúsar, skrifuðust á um það amtmaður Ólafur Stephánsson og Jón sýslumaður, og varð það að ráði, að Sveinn lögmaður Sölvason ferðaðist að Rauðuskriðu og jafnaði misklíðina millum þeirra. 1773 gjörði Jón sýslumaður öll sýslumannsverk í Þingeyjarþingi og hèlt þing á hverjum þingstað sýslunnar, en við þinglok hèlt hann á öllum þingstöðum stutta en íhugunarverða ræðu og kvaddi svo alla sýslubúa sína. Jón sýslumaður var lengi þjáður af fótaveiki, sem hann átti ætterni til, og loksins lagðist hann af henni í rekkju, var þá lengi hjá honum handlæknir Magnús Guðmundsson, er seinna þóttist eigi hafa vitað líka Jóns sýslumanns með allt í

svo þungum krankleika, en allir viðburðir hans dugðu eigi, því þessi mikli maður dó að Rauðuskriðu í Reykjadal 28. apríl 1775, þá 61 árs gamall; hafði hann þá með heiðarlegu mannorði verið sýslumaður í Þingeyjarþingi. Jón sýslumaður Benidiktsson var með hæstu mönnum á vöxt, og þar eptir að gildleik, stórleitur í andliti og harðeygður, nefstór og varaþykkur; þótti hann fremur myndugur en mannúðlegur, einkum þá er honum mislíkaði; hann þótti og harðdrægur í hèraðsstjórn og mjög hèraðsríkur; ekki stoðaði sýslubúum hans að viðhafa andgeiplur móti boðum hans, því þá sættu þeir afarkostum, urðu þeir því að leggja í þá skál, er Jón sýslumaður vildi, og fremur óttuðust þeir hann en elskuðu. Hann var hègómalaus, tryggur og trúfastur vinum sínum. Hann var vel lærður í lögum, sagnafræði og ýmsu öðru, í grískri, latínskri og þjóðverskri tungu vel æfður, hafði og góða þekkingu á læknisdómum, og hefir hann þar um ritað nokkuð úr þjóðverskum bókum; fátt var það, er hann eigi bæri nokkurt skyn á, en í mörgum vísindagreinum var hann vel heima. Hann var höfðingjadjarfur og meðal helztu sýslumanna á sinni tíð. Í embættisverkum sínum var hann öruggur, umsýslunarmaður í búskap, höfðingi í útlátum og velgjörðum við nauðstadda; enginn var hann búsýslumaður, skorti þó aldrei hið nauðsynlega, er hann meðþurfti. Hann byggði rausnarlegan bæ í Rauðuskriðu, og með leyfi konungs litla, fallega smíðaða kirkju, er síra Stephán í Laufási Einarsson vígði til guðsþjónustugjörðar eptir skipun biskups; en að Jóni önduðum, þá ekkjan flutti sig þaðan, voru helztu húsin rifin, jörðin seld og kirkjan einnig seld og burtflutt. Jón sýslumaður gjörði margar nýbreytingatilraunir og varði þar til fjármunum, þótt fæst af því færði mikinn ávöxt utan danski vefstóllinn, er hann var fyrstur til í Þingeyjarþingi að útvega sèr og láta nota. Yfir höfuð var Jón sýslumaður drottnunargjarn stórhöfðingi og vel fallinn til yfirmanns á sinni tíð.

## Vigfús Jónsson.

*Faðir:* Jón Björnsson sýslumanns frá Bustarfelli, Pèturssonar Bjarnasonar.

*Móðir:* Helga dóttir Magnúsar á Espihóli, sonar Björns sýslu-

manns samastaðar Pálssonar sýslumanns Guðbrandssonar biskups; þau Jón og Helga bjuggu á Eyrarlandi í Eyjafirði, var Helga hin mesta dugnaðarkona og þótti fyrir bónda sínum í flestu; hún varð ekkja en hjelt áfram búi og uppól Sigríði Stephánsdóttur, og kom samaan giptingu hennar með Þórarni sýslumanni Jónssyni. Móðir Helgu var Sigríður eldri dóttir Jón biskups á Hólum Vigfússonar.

*Kona:* Halldóra dóttir síra Sæmundar á Þóroddsstað í Kinn Jónssonar prests við Mývatn Sæmundssonar. Kona síra Jóns var Halldóra dóttir Einars lögrèttumanns (sjá að framan), Þau Vigfús og Halldóra giptust 1763.

*Börn:* A. Björn dó við Kaupmannahafnar háskóla.

B. Guðbrandur apótekari í Nesi átti danska konu, dó barnlaus 1822.

C. Árni dó við Kaupmannahafnar háskóla.

D. Katrín, heiðursjómfrú, ógipt, barnlaus, dó 1843.

E. Margrjet giptist ekki, en átti launbarn, varð ringluð og dó á Ökrum á Mýrum 1848.

F. Gísli skólagenginn, bjó á Ökrum. átti 1795 Þóreyju Sigurðardóttur, prests til Hítarnesþinga. Gísli dó 1842, börn:

1. Vigfús átti Halldóru dóttur síra Gísla á Breiðabólstað á Skógarströnd, Ólafssonar biskups Gíslasonar, börn:

a. Guðbrandur[1],

b. Hólmfríður[2].

c. Sigurður[3].

d. Guðríður[4].

---

1) Guðbrandur, Doctor við háskólann í Oxford, ógiptur og barnlaus.

2) Hólmfríður átti Jón Bjarnason frá Harastöðum.

3) Sigurður, gullsmiður og fornfræðingur í Reykjavík, kona hans Ólína dóttir Bonnesens sýslumanns, sjá Rangárþing, barnlaus.

4) Guðríður átti Sigurð í Hörgshlíð í Vatnsfjarðarsveit.

2. Árni[1] giptist og átti börn.
3. Guðríður giptist 1835 Benidikt hreppstjóra Sigurðssyni: börn
   a, Júlíana.
   b, Lárus.
4. Ingibjörg dó ógipt, barnlaus (6 önnur dóu börn).

G. Helga átti síra Árna Skaptason; börn
1. Vigfús.
2. Hannes[2].
3. Guðfinna.
4. Steinunn.
5. Katrín[3] átti Jón Jónsson.
6. Guðrún átti Magnús í Árbæ, þeirra son Halldór.

H. Jón átti Halldóru Þorsteinsdóttur Hákonarsonar (sjá Gullbringusýslu).

Vigfús lærði, fór utan, og lagði sig eptir lögum, en tók eigi próf í þeim; kom svo inn og giptist Halldóru Sæmundsdóttur 1763, en 1764 gjörðist hann aðstoðarmaður Jóns sýslumanns Benidiktssonar með von um sýsluna eptir hann. 1771 kom sundurlyndi milli Jóns sýslumanns og Vigfúsar, sem áður er sagt. 1775, þá Jón sýslumaður dó, fèkk Vigfús algjörlega Þingeyjarþing, hafði hann þar áður þjónað í 11 ár. Vigfús sýslumaður bjó á Hèðinshöfða og á Sigurðarstöðum á Slèttu. 1783, þá hann var settur dómari í Eyjafirði í máli Besleifs fríhöndlara og sat í dómarasæti, kom hastarlega að honum þvílíkt óráð, að hann hljóp út úr þinghúsinu og ofan í Eyjafjarðará, óð lengi eptir henni, en náðist þó; síðan varð hann aldrei samur að heilsu og áður. Þetta ár fèkk hann sèr settan fyrir lögsagnara Björn Tómasson, sem eptir hann fèkk sýsluna, sem Vigfús sýslumað-

---

1) Árni bjó á Ísleifsstöðum á Mýrum, átti Guðríði Gísladóttur Einarssonar.

2) Hannes hafði lagt fyrir sig lyfjafræði, átti Guðríði, dóttur Árna gamla Jónssonar á Borg í Miklaholtshreppi.

3) Katrín átti fyr Jón Jónsson, er kallaður var «lausamaður», föður Jóns prentara í Reykjavík, og með honum 1 dóttur; síðan giptist hún dönskum klæðaskurðarmanni Boddy og átti með honum einn son.

ur sleppti algjörlega 1786, þar eð honum ekki batnaði veikleiki sinn. Óvitrir menn og alþýða eignaði þetta fjölkyngi, en hann hafði áður eigi verið hraustur til geðsmuna, og hefur líklega eigi þolað að hugsa um málið, er var flókið. Vigfús bjó svo embættislaus til þess á slætti 1795, að hann gekk út á tún til vinnumanna sinna, er þar voru við heyskap, skildi við þá með vanalegri heilsu og gekk hann að bænum; fólkið sá, að hann hneig niður, fór til hans, var hann þá máttlítill og rænuskertur, og áður en það gat borið hann inn í bæinn, var hann látinn. Vigfús sýslumaður þótti allvænn maður, en allt af nokkuð undarlegur í skapi, þunglyndur, og tók sèr hvað eina nærri; ekki var hann heppinn dómari, var þó sagður ekki illa að sèr í lögum; hann var kallaður eigi mikill búþegn, enda voru harðindi í Þingeyjarþingi lengst af meðan hann var þar sýslumaður, svo hann hafði lítinn afgang af sýslugjaldi, og barnafjöldi hans ærinn, og umferð fátæklinga mikil. Halldóra kona hans þótti mikill og vænn kvennkostur, og var fríð og dugleg; hún bjó um hríð eptir mann sinn látinn.

## Björn Tómasson.

*Faðir:* Tómas bóndi á Lundarbrekkku Flóventsson.

*Móðir:* Halldóra Þorláksdóttir Benidiktssonar, Pálssonar sýslumanns, Guðbrandssonar biskups.

*Kona fyrri:* Steinunn Þórðardóttir úr Reykjadal.

*Börn:* A. Þórður sýslumaður (sjá hèr síðar).

B. Tómas söðlasmiður átti Guðrúnu dóttur Davíðs Guðmundssonar. Börn:

1. Björn[1].
2. Ásta[2].
3. Steinunn[3].

---

1) Björn Bech var og söðlasmiður, bjó á Sjávarhólum á Kjalarnesi, átti Margrèti dóttur Lopts Guðmundssonar á Neðrahálsi í Kjós.

2) Ásta var kona Pèturs kaupmanns Dúss i Keflavík.

3) Steinunn kona Jakobs Björnssonar sekretèra á Esjubergi. Með seinni konu sinni Guðlaugu Árnadóttur, sonar síra Gests Árnasonar á Kjalarnesi, átti Tómas söðlasmiður ekki barn.

C. Guðrún[1] átti fyr síra Einar kapellan í Múla, son síra Tómasar á Grenjaðarstað. Börn:
1. Síra Hálfdán[2] á Kvennabrekku átti Álfheiði dóttur síra Jóns á Möðrufelli og börn.
2. Guðrún[3].
3. Álfheiður[4].
Annar maður Guðrúnar var síra Jón í Garði Sigurðsson (hans seinni kona); börn:
4. Jón[5].
Þriðji maður Guðrúnar, Hallgrímur í Rauðuskriðu, barnlaus.
Fjórði maður Guðrúnar síra Einar á Stað í Kinn.

D. Guðbjörg giptist ekki.

---

1) Guðrúnar 1. maður var síra Jón í Garði Sigurðsson, voru saman 10 vikur, þá missti hún hann; þeirra son Jón í Rauðuskriðu, átti Þórunni dóttur síra Þórarins í Múla, bróður Benidikts eldra Gröndals. 2. maður Guðrúnar, síra Einar Tómasson Skúlasonar. 3. maður Hallgrímur Árnason í Rauðuskriðu, barnlaus. 4. maður síra Einar Hjaltason, hans 4. kona, þau voru bæði þá mjög gömul, er þau giptust.

2) Börn síra Hálfdáns og Álfheiðar:
a. Síra Helgi, kennari við prestaskólann í Reykjavík, hans kona Þórhildur Tómasdóttir Sæmundssonar, sjá hèr síðar.
b. Síra Guðjón á Bergþórshvoli á Sigríði Stefánsdóttur frá Reynivöllum.
c. Einar á Hvítanesi í Ögurssveit á dóttur síra Ólafs Thorbergs.
d. Jóna.

Seinni kona síra Hálfdánar Guðrún Vernharðsdóttir, ekkja síra Runólfs Erlendssonar á Brjámslæk, barnlaus,

3) Guðrún drukknaði, trúlofuð Birni Bech frænda sínum, barnlaus.

4) Álfheiður átti fyrst síra Gísla Evertsson Víum, svo Björn Kristjánsson, bróður amtmanns Kristjáns.

5) Sjá um hann hèr að framan.

*Kona seinni* Björns sýslumanns: Guðrún dóttir síra Sigurðar í Garði Benidiktssonar, Þórðarsonar bóndamanna; þeirra börn:

E. Björn[1],

F. Halldóra átti Guðmund Jónsson í Hlíðarhúsum, og börn.

G. Steinunn átti fyr Mads Grönbech og 6 börn, svo Andersen og 4 börn[2].

H. Sesselja.

I. Þórdís átti síra Guðna Guðmundsson á Ólafsvöllum, barnlaus.

Björn var skólalærður og stundaði lög. 1755 og 1756 var hann lögsagnari hjá Jóni sýslumanni Benidiktssyni í Rauðuskriðu. 1757 og 1758, þegar Pètur sýslumaður Þorsteinsson í norðurhluta Múlasýslu var í utanferð sinni, var Björn lögsagnari hans og fullmektugur. 1783, þegar Vigfús sýslumaður Jónsson bilaðist til geðsmuna, gjörðist Björn lögsagnari hans, og þá er Vigfús fèkk lausn frá sýslunni 1786, stóð Björn úr því einn fyrir sýslunni til 1790; þá setti konungur hann 27. ágúst virkilegan sýslumann í Þingeyjarþingi; var hann þá hniginn að aldri, en orðlagður mesti reglu- og ráðvendnismaður; þjónaði hann þar eptir sýslumannsembætti með sóma í 6 ár, til þess hann dó 1796. Björn sýslumaður bjó að Garði í Aðaldal, og þótti einhver hinn ágætasti maður í flestu og vel viti borinn; hafði almennings lof fyrir stöðuglyndi og rèttsýni. Hann dó nóttina milli 1. og 2. október 1796.

## Þórður Björnsson.

*Faðir:* Björn sýslumaður Tómasson nýnefndur.
*Móðir:* Steinunn Þórðardóttir Gunnlaugssonar.
*Kona:* Bóthildur Guðbrandsdóttir.
*Börn:* A. Hallgrímur sigldi til Kaupmannahafnar háskóla, en kom inn aptur 1834; en 1835 kom inn konuefni

1) Hann var í Læknis-Nesi, og ætlaði að læra læknisfræði, átti launbarn með Ingunni (móður Jóns Guðmundssonar, útgefanda Þjóðólfs), hèt Kristín.

2) Eitt af þeim er skáldið Carl Andersen.

hans, danskur kvennmaður; giptust þau og fóru að búa á Garði í Aðaldal. Hallgrímur var um of hneigður fyrir ölföng og dó 1836.

B. Sigríður[1] átti síra Tómas Sæmundsson 1835; hann var candidatus theologiæ og hafði ferðast þar eptir um mörg lönd Norðurálfunnar, og var svo prestur á Breiðabólsstað í Fljótshlíð. Faðir hans, Sæmundur bóndi á Eyvindarholti, var son síra Ögmundar á Krossi í Landeyjum, sonar síra Högna á Breiðabólsstað í Fljótshlíð Sigurðssonar prests Högnasonar prests Guðmundssonar.

Eptir afstaðinn lærdóm hèr í landi fór Þórður utan til meiri lærdómsframa og tók við Kaupmannahafnar háskóla vanaleg lærdómspróf, lagði sig svo eptir lögfræði og tók þar í svo nefnt rómverskt embættispróf með bezta vitnisburði. Hann kom inn 1796, og þar faðir hans lèzt sama ár, var hann settur sýslumaður í Þingeyjarþingi 1796, og fèkk konunglegt veitingarbrèf fyrir því 1797. 8. ágúst 1810 fèkk hann kansellíráðsnafnbót. 1819 veitti konungur Þórði sýslumanni Árnesþing, en hann afþakkaði það aptur, og var það þá veitt Bjarna assessor Thórarensen. Þegar konferenzráð amtmaður Stephán Þórarinsson dó, var kansellíráð Þórður settur 3. apríl 1823 af stiptamtmanni Moltke til að gegna amtmannsstörfum í norður- og austuramtinu; hafði Þórður kansellíráð það embætti á hendi, þar til hann afhenti Grími amtmanni Jónssyni það 1824 á álíðandi sumri. Aptur, þá er amtmaður Grímur fór utan 1826, þjónaði kansellíráð Þórður amtmannsstörfum til þess Grímur kom inn 1827. Kansellíráð Þórður dó 11. febrúar 1834 af þvagteppu, meir en 70 ára gamall. Hann var mesti lagamaður af sýslumönnum í Norðlendingafjórðungi á sinni tíð, og þar

---

1) Börn þeirra síra Tómasar og Sigríðar voru:

a. Þórður læknir á Akureyri, átti danska konu og með henni 2 börn; hún sigldi með börnin, er hann dó.

b. Þórhildur, kona síra Helga Hálfdánarsonar, sjá hèr að framan.

Sigríður giptist síðan Ólafi sekrítèra í Viðey og var hans 3. kona, þau barnlaus.

eptir í embættisverkum og sýslustjórn. Á yngri árum tjáist hann að hafa verið maður óvílsamur, en með aldrinum hneigðist hann til ölfanga, þó með hófi; hann varð maður auðugur. Við dauða hans hljóp bú hans til 6000 spesía; var meiri hlutinn þar af í peningum. Amtmaður Bjarni Thórarensen orkti eptir hann snotur erfiljóð (sjá Skírnir 1835 bls. 107), og setti fyrir sýsluna 1834 stúdent Halldór Kröyer, son Jóhanns hreppstjóra Kröyers í Höfn í Siglufirði.

## Sigfús Skúlason.

*Faðir:* Síra Skúli prestur í Nesi 1804 og í Múla 1816, sonur síra Tómasar, er fyr var kapellan og prestur á Saurbæ í Eyjafirði 1768, fèkk Grenjaðarstað 1786 og dó 1808. Faðir síra Tómasar var síra Skúli á Möðruvallaklaustri 1727, dó 44 ára 1744, son Illuga snikkara og lögrèttumanns í Höfðahverfi Jónssonar lögrèttumanns og lögsagnara á Urðum í Svarfaðardal Illugasonar (sjá Vaðlaþing),

*Móðir:* Þórvör dóttir síra Sigfúsar skálds í Höfða 1760 (dó 1803) Jónssonar bónda á Enni á Höfðaströnd Bjarnasonar; en móðir síra Sigfúsar í Höfða var Þórvör dóttir síra Egils í Glaumbæ, er dó 1724, Sigfússonar prests Egilssonar, Ólafssonar. Síra Eldjárn Jónsson var fyrri maður Þórvarar móður síra Sigfúsar í Höfða.

Sigfús var settur 1835 fyrir Þingeyjarsýslu næst eptir Halldór Kröyer til 1836.

## Jóhann Árnason.

*Faðir:* Árni stúdent Davíðsson, er fyrst var ritari hjá Ólafi stiptamtmanni Stephánssyni, en bjó seinna í Belgsholti og dó 1816.

*Móðir:* Þóra dóttir síra Jóns Hannessonar á Mosfelli í Mosfellssveit 1775; hans faðir Hannes bóndi í Marteinstungu, sem átti Guðrúnu[1] Brynjólfsdóttur. Hannes var son Jóns á Reykjarhóli í Fljótum Magnússonar í Njarðvík, Eiríkssonar í Djúpadal, Magnússonar á Reykjum,

---

1) Guðrún var systir Halldórs biskups Brynjólfssonar.

Björnssonar officialis á Melstað, Jónssonar biskups Arasonar. Kona síra Jóns á Mosfelli var Sigríður dóttir Arnórs sýslumanns í Belgsholti (sjá Borgarfjarðarsýslu).

*Kona:* Olina Maria Jacobina, dóttir Ísaks Jacobs Bonnesens sýslumanns[1].

*Börn* áttu þau, er dóu.

Jóhann sýslumaður var fæddur í Belgsholti 1807, fór í skóla 1822, útskrifaðist 1826, sigldi svo á háskólann, og tók fullkomið embættispróf í lögum með bezta vitnisburði; kom svo inn og gjörðist aðstoðarmaður Bonnesens 1834, og giptist dóttur hans, sem fyr er sagt. Við dauða sýslumanns Bonnesens 1835 var hann settur sýslumaður yfir Rangárþing, en sama ár fèkk hann veitingu konungs fyrir Þingeyjarþingi, hèlt þó það ár Rangárþingi og fram til 1836, þá er hann flutti norður og setti bú að Rauðuskriðu. Tók hann þá við sýslunni af Sigfúsi, er þar var millibilssýslumaður, sem fyr er sagt. Ekki fèll þeim hjónum búskapur, brá hann því búi og gjörðist húsmaður. Bróður sinn Arnór hafði hann sèr til styrktar við sýslustörf, því sjálfur var hann heilsulinur, og dó svo að kalla á bezta aldri í marz 1840. Hann var vonum framar orðinn efnaður. Amtmaður Bjarni Thórarensen setti í hans stað að gegna sýslumannsstörfum candidatus juris Arnór Árnason bróðir hins dána.

## Arnór Árnason.

Hann var albróðir Jóhanns sýslumanns formanns síns. Þá er Þingeyjarsýslu var 1841 skipt í 2 hluta, var norðurhluti sýslunnar veittur tèðum Arnóri 1842. Arnór var fæddur í Belgsholti 25. ágúst 1808, fór í Bessastaðaskóla 1826, útskrifaðist 1832, fór utan og tók svo fyrsta og annað examen við háskólann í Kaupmannahöfn með heppni, og síðan fullkomið embættispróf í lögum með lofi, og kom svo inn 1838 og gjörðist aðstoðarmaður bróður síns í Þingeyjarsýslu; en þegar Jóhann sýslumaður dó, setti amtmaður Bjarni Thórarensen hann sem fyr er sagt, sýslumann yfir alla Þingeyjarsýslu. 1842 fèkk

---

1) Jóhann sýslumaður var 1. maður hennar, annar Vigfús, sonur Bjarna amtmanns Thórarensens, og hinn þriðji Sigurður gullsmiður Vigfússon, sjá hèr að framan.

hann konungsveitingu fyrir norðurhluta sýslunnar og lifði þar ógiptur sem húsmaður[1]. 1847 fekk Arnór sýslumaður konungsveitingu fyrir Húnavatnssýslu (sjá þar um hann meira).

**Sigfús Skúlason.**

(Sjá um hann hèr að framan og við Snæfellsnessýslu). Þá er Þingeyjarsýslu var tvískipt, fèkk Sigfús sýslumaður konungsveitingu fyrir vestur eða- suðurhluta sýslunnar og flutti sig 1842 með konu sinni og barni frá Bjarnarhöfn norður að Múla til föður síns. 1843 lèt hann byggja sèr hús úr timbri á Húsavíkur verzlunarstað og flutti þangað. 1847, þá er Arnór sýslumaður sleppti norðurhluta Þingeyjarsýslu, var Sigfús sýslumaður einnig settur yfir þann hluta sýslunnar.

## Viðbætir.

Sýslumaður Sigfús Skúlason fèkk svo að veitingu konungs einnig norðurhluta sýslunnar, og var þannig sýslumaður í allri sýslunni, unz hann 1861 fèkk lausn frá embætti sínu og dó árið eptir, 1862. Ekkja hans flutti sig síðan til Reykjavíkur og bjó saman við Gísla skólakennara Magnússon, er þá var orðinn ekkjumaður; áttu þau einn son saman, er heitir Árni Beinteinn.

**Þorsteinn Jónsson.**

*Faðir*: Jón á Stóra-Ármóti í Flóa Jónsson sýslumanns á Móeiðarhvoli, sjá Árnessýslu og Tímarit mitt 2. B. bls. 32.

*Móðir*: Halla Magnúsdóttir frá Skálmholtshrauni, sjá Tímarit mitt 2. B. bls. 32.

*Kona:* Ingibjörg, dóttir síra Gunnlaugs dómkirkjuprests í Reykjavík Oddssonar, og Þórunnar Björnsdóttur frá Bólstaðarhlíð; þau giptust 1849.

*Börn:* 1. Gunnlaugur.
2. Jón.
3. Halldór, kandídat í guðfræði.

---

1) 1844 reisti hann bú á Skógum í Axarfirði og bjó þar ógiptur með Sigríði systur sinni, unz hann flutti til Húnav.sýslu.

Þorsteinn sýslumaður er fæddur 15. október 1814; 1836 var hann útskrifaður af Árna biskupi Helgasyni, sigldi síðan samsumars til háskólans í Kaupmannahöfn, og tók þar um haustið fyrsta lærdómspróf og hið annað árið eptir, og 1843 fullkomið embættispróf í lögum; varð svo assistent í rentukammerinu, sem 1846 setti hann sýslumann í Norður-Múla og Suður-Múla sýslum, og fèkk hann 1. júní 1848 veitingu konungs fyrir syðri sýslunni. 20. júlí 1849 var hann settur sýslumaður í Árnessýslu, og þá er Rosenörn stiptamtmaður sigldi, var hann 1. ágúst 1849 settur stiptamtmaður yfir Íslandi og amtmaður yfir suðurumdæminu, og þjónaði þeim embættum, unz stiptamtmaður Trampe kom. 1850 var hann aptur settur sýslumaður í Norður-Múlasýslu og fèkk hana að veitingu konungs 1. maí 1851, en hèlt samt áfram að þjóna Suður-Múlasýslu, sem settur sýslumaður þar, unz Jónas sonur Jóns landlæknis Þorsteinssonar fèkk hana 1854, þar eð Þorsteinn sýslumaður hafði þá afsagt að þjóna henni lengur. Honum stóð til boða, að verða virkilegur sýslumaður í báðum Múlasýslunum, eins og hann og mun hafa átt kost á að fá Austur-Skaptafellssýsluna lagða til Múlasýslnanna, en hann þáði hvorugt. 1861 25. maí veitti konungur honum Þingeyjarsýslu, og Árnessýslu 7. júní 1867, og þjónaði hann síðan sýslu þeirri, unz hann 16. ágúst 1878 fèkk lausn frá embætti, en 1880 um haustið varð hann málaflutningsmaður við yfirdóminn. Meðan Þorsteinn var sýslumaður í Norður-Múlasýslu, varð hann 1857 konungkjörinn vara-alþingismaður og eins aptur 1859 og 1861 virkilegur alþingismaður, en kom samt aldrei á alþingi. 1861 var hann gjörður að virkilegu kansellíráði. Meðan hann var sýslumaður í Þingeyjarþingi, hafði hann aðsetur sitt í Húsavíkur verzlunarstað.

## Lárus Eðvarð Sveinbjörnsson.

***Faðir:*** Eðvarð Thomsen, kaupmaður í Reykjavík.

***Móðir:*** Kirstín, dóttir Lárusar Knudsens kaupmanns í Reykjavík og Margrètar konu hans, er var dóttir Lárusar Hölters, beykis í Stykkishólmi, og Guðrúnar Þorbergsdóttur, er var systir síra Hjalta Þorbergssonar, afa amtmanns Bergs, sjá Tímarit mitt 1. B. bls. 10.

*Kona:* Jörgina dóttir Guðmundar kaupmanns á Eyrarbakka Torfasonar Guðmundssonar prests á Lambastöðum á Seltjarnarnesi Þorgrímssonar sýslumanns á Mýrum, og Sylvíu dóttur Níelsar kaupmanns á Siglufirði Jónssonar verzlunarmanns í Húsavík Níelssonar; en kona Jóns Níelssonar og móðir Níelsar í Siglufirði var Solveig Jónsdóttir, ættuð úr Skagafirði; var Jón hennar fyrri maður, en seinni maður Baagö, er lengi var kaupmaður í Húsavík; þeirra dóttir var Jakobína, er Jón landlæknir Jónsson Hjaltalín átti. Þau Lárus og Jörgina giptust 1868.

*Börn:* 1. Kirstín.
2. Guðmundur.
3. Jón.
4. Ásta.
5. Jónína.

Lárus er fæddur 31. ágúst 1834, var móðir hans þá ógipt, en giptist skömmu síðar Þórði konferenzráði og dómstjóra í yfirdóminum Sveinbjörnssyni, er tók Lárus að sèr sem son sinn, og gaf honum ættarnafn sitt. Þegar Lárus hafði lokið skólalærdómi sínum 1855, sigldi hann samsumars til háskólans í Kaupmannahöfn, og tók þar með bezta vitnisburði 1863 fullkomið embættispróf í lögum. 1866 var hann settur sýslumaður í Árnessýslu, en fèkk veitingu fyrir Þingeyjarsýslu 11. október 1867: síðan varð hann 1874 bæjarfógeti í Reykjavík og sýslumaður í Gullbringu- og Kjósarsýslum, en 1878 varð hann annar dómandi og dómsmálaritari í yfirdóminum. Meðan Lárus var sýslumaður í Þingeyjarþingi, hafði hann aðsetur sitt í Húsavíkur verzlunarstað.

## Benidikt Sveinsson.

*Faðir:* Sveinn Benidiktsson, prestur á Mýrum eystra, sjá Tímarit mitt 2. B. bls. 27.

*Móðir:* Kristín Jónsdóttir, sjá Tímarit mitt 2. B. bls. 28.

*Kona:* Katrín, dóttir Einars umboðsmanns á Reynistað Stefánssonar, og Ragnheiðar Benidiktsdóttur Vídalíns á Víðimýri.

*Börn:* 1. Ragnheiður.
2. Einar.

3. Kristín.
4. Ólafur.

Þau Benidikt og Katrín skildu.

Benidikt lærði fyrst í Bessastaða- og síðan í Reykjavíkurskóla, en yfirgaf skólann 1850 og útskrifaðist árið 1852 af kennendum skólans, síðan var hann fá ár á Reynistað hjá Einari umboðsmanni, til að kenna Stefáni syni hans undir skóla, og þaðan sigldi hann til háskólans í Kaupmannahöfn, og tók þar 1858 fullkomið embættispróf í lögum með bezta vitnisburði, og varð sama ár annar dómandi og dómsmálaritari i yfirdóminum, en var vikið frá embætti 1870. 1874 var hann settur sýslumaður í Þingeyjarsýslu og fèkk 1876 konungs veitingu fyrir henni. Meðan Benidikt var í yfirdóminum, bjó hann því nær einlægt á Elliðavatni, er hann keypti af ekkjunni Guðrúnu, dóttur síra Jóns Mattíassonar í Arnarbæli, en seldi þá jörð aptur, er hann var norður kominn, Sæmundi frá Reykjakoti Sæmundssyni, er nú býr þar. Eptir að Benidikt var kominn norður, keypti hann Hèðinshöfða og býr þar nú. Sem konungkjörinn varaþingmaður mætti Benidikt á alþingi 1861 og 1863, og síðan hefir hann setið á alþingi sem þingmaður Árnesinga.

---

## Leiðrèttingar.

Bls. 55: athugagrein 4: síra Jón Ólafsson, les: síra Jón Tómasson.
— 58: síra Sigfús í Gaulverjabæ, ætti að vera: síra Vigfús.
— 92: Sigurð á Garðsá, á að vera: Sigmund á Garðsá.
— 102: fyrri kona Magnúsar í Bræðratungu hèt Jarðþrúður, ekki Arnþrúður, það sèst af líksteini í Bræðratungu kirkjugarði.
— 105, 3. lína neðan frá, Bjarnar les: Bjarna.
— 112: 1595 les: 1695.

## II. Eyjafjarðarsýsla.

Héröð þau, er liggja í millum Úlfdalafjalla og Varðgjár í Norðlendingafjórðungi, kallast Eyjafjarðarsýsla eða Vaðlaþing.

Þar voru í fyrndinni þessir þingstaðir:

1. Spjaldhagi, þriggja hreppa þing.
2. Nes í Siglufirði.
3. Þóroddstaðir í Ólafsdal.
4. Grund í Svarfaðardal.
5. Hvammur á Gálmarströnd.
6. Skriða í Hörgárdal.
7. Glæsibær í Kræklingahlíð.
8. Hrafnagil í Eyjafirði.

---

### A.
### Höfðingjar,
(er eg held að hafi þar haft völd).

**Hallur Kleppjárnsson**[1]

á Möðruvöllum í Eyjafirði hafði lítið goðorð fyrir norðan Yxnadalsheiði eptir 1200. Guðmundur biskup Arason bannfærði Hall um 1206; hann var í Víðirnessbardaga 1208, og sættist þar eptir við biskup, var þó í atför við hann 1209. Hallur færði þar eptir bú sitt að Hrafnagili, en nokkru þar eptir fèll hann fyrir Kálfi og hans fylgjurum.

---

1) Kona Halls Kleppjárnssonar var Ingibjörg dóttir Guðmundar Dýra á Bakka í Yxnadal; þeirra synir: Einar og Kleppjárn.

### Hallur[1] yngri á Möðruvöllum

var og góður maður og höfðingi mikill: um hann orkti Þorsteinn[2] Draummaður vísu þessa:

«Öll unna hjú Halli,
Hallr er blíðr við alla,
getr eigi slíka' í sveitum
sveit, þótt víða leiti;
kynnist mörgum manni
mannbaldr fremri aldri;
full er ölværð öllum
öll á Möðruvöllum».

1246 var Hallur hjá Böðvari í Bæ, svo að eigi þyrfti hann að vera í deilum Sturlunga, því 1242 neyddist hann að vera með Kolbeini unga í herferð. 1255 mælti hann móti Þorvarði Þórarinssyni til yfirmanns í Eyjafirði, en vildi sætta Þórð Kakala og Henrik biskup. 1262 sór hann konungi eið, og þótti ætíð ágætur maður. Hans börn voru:

1. Herra Þórður[3] á Möðruvöllum, átti Guðnýju dóttur

---

1) Hallur þessi, faðir herra Þórðar, kallast í Sturlungu Jónsson, en á einum stað í einu eða tveimur handritum af sögu Guðmundar biskups góða er hann kallaður Kleppjárnsson, og á að vera Hallur sá, er Þorsteinn Draummaður gjörði vísuna um: en það er auðsætt, að hann getur eigi verið sá Hallur Kleppjárnsson á Hrafnagili, er fyr var getið, því sá Hallur var veginn 1212, og það virðist eigi heldur geta staðizt tímans vegna, að Hallur faðir herra Þórðar hafi verið son Kleppjárns sonar Halls Kleppjárnssonar á Hrafnagili, því Kleppjárn sá var ungur 1212, er Hallur faðir hans var veginn, en Hallur faðir herra Þórðar var víst orðinn fulltíða maður um 1230.

2) Í hinni prentuðu sögu af Guðmundi biskupi góða er sá, er vísuna gjörði um Hall, nefndur Einar Þorsteinsson, þar er og vísan dálítið öðruvísi, en varla rèttari en hèr.

3) Herra Þórður Hallsson á Möðruvöllum dó 1312, eins og hèr síðar segir. Um Lopt son hans, konu Lopts og börn, sjá Þingeyjarþing. Þar er sagt, eins og líka stendur í ættartölum sumum, að kona Lopts hafi verið Málmfríður, dóttir Árna í Aski í Noregi og Ásu; hefir Loptur verið látinn heita eptir

Helga Loptssonar og Ásbjargar systur Staða-Árna biskups; var Þórður mesti höfðingi og skyrraði

---

móður-föður-föður sínum Lopti Svartssyni, og hans dóttur-dóttur-son var Loptur ríki Guttormsson á Möðruvöllum; en Ingiríður dóttir Lopts og Málmfríðar lèt bæði heita Málmfríði og Ásu, eptir móður og ömmu sinni. Lopts nafnið hefir þannig komið inn í Möðruvellinga ættina frá forföður konu herra Þórðar Hallssonar, en Málmfríðar og Ásu nafnið frá Noregi með konu Lopts Þórðarsonar. Enn fremur er getið frúr Málmfríðar á Möðruvöllum eptir 1320 í Lárentíusar biskups sögu, er sýnir, að hún og Loptur Þórðarson hafa þá verið þar samtíða (eins og vonlegt var). Foreldri Málmfríðar, Árni og Ása, voru bæði í Noregi og getur Árna í brjefum rjett eptir 1300 (sjá Þingeyjarþing). Það getur þannig enginn vafi verið á því, að ætt þessi sè með öllu rètt rakin þannig, sem hèr er gjört. Að vísu stendur í Auðunns biskups máldaga frá 1318 fyrir Urðakirkju, að Ása kona Lopts Þórðarsonar hafi gefið í testamentum sitt tabulas fyrir altari, en sè enn ógoldið; og þetta er orðrètt tekið upp í Pèturs biskups máldaga frá 1394, nema hvar þar er sleppt föðurnafni Lopts; þetta hefir án efa gefið tilefni til þess, að sumir hafa talið móður Lopts Þórðarsonar á Möðruvöllum (og þá konu Þórðar) Málmfríði Árnadóttur frá Aski; en þetta veikir samt ekkert það, sem áður er sagt, því fyrst og fremst er það með öllu óvíst, um hvaða Lopt Þórðarson máldagarnir hèr eru að tala: í annan stað er sagt í Sturlungu, að herra Þórður hafi átt Guðnýju, dóttur Helga Loptssonar, og það er auðsætt, að Loptur Þórðarson hefir verið son hennar, og látinn, sem sagt, heita í móðurætt sína, og enn fremur virðist það mjög ólíklegt, að Ása, er á að hafa dáið fyrir 1318, hafi verið móðir barna Lopts á Möðruvöllum Þórðarsonar, síra Halldórs og systkina hans, er lifðu fram yfir 1400. En vildu menn nú samt endilega álíta, sem menn þó enga næga heimild hafa til, að í máldögunum væri átt við Lopt Þórðarson á Möðruvöllnm, yrðu menn, svo allt gæti komizt heim, að álíta, að í Auðunnar biskups máldaga hafi af vangáti verið skrifað, «Ása m. (ɔ: móðir) konu Lopts Þórðarsonar», og að þetta síðan í hugsunarleysi hafi verið ó-

vandræðum eptir megni, mun og hafa haft völd um Eyjafjörð.

2. Valgerður átti Sigurð á Seltjörn, son Sighvats auðga og Vilborgar dóttur Þorgeirs í Holti undir Eyjafjöllum: þeirra son Hallur í Dal undir Eyjafjöllum.

Þessir voru og höfðingjar í Eyjafirði um aldamótin 1300 og seinna, og meina eg, að nokkrir þeirra hafi verið þar valdamenn:

1. **Þorvaldur** í Auðbrekku, son Geirs hins auðga Þorvaldssonar: Solveigarmál reis af konu hans.
2. **Vermundur Kögur**, sem Svalbarðsætt er frá komin, mun og hafa verið í Eyjafirði,
3. Herra **Þórður Hallsson** á Möðruvöllum í Eyjafirði dó 1312.
4. Herra **Sighvatur Hálfdánarson** á Grund, er líkast, að hann hafi búið þar eptir að dæmdur var Oddastaður af þeim frændum.
5. Herra **Eiríkur Sveinbjarnarson**[1], er Hákon konungur sló til riddara 1316, mun og fyr hafa verið þar valdamaður, en þess er getið, að hann hafi haft konungs sýslu fyrir norðan 1323, er hann ef til vill hefir haldið til þess að hann dó 1340; sjá um hann við Ísafjarðarsýslu. Þá var sýsla konungs og hirðstjórn hið sama, og leng ifram eptir, og mætti því telja alla hirðstjórana þá sýslumenn.

---

breytt tekið upp í Pèturs biskups máldaga, er einstaka sinnum á sèr stað í hinum yngri máldögum, að þar er sumt tekið upp í hugsunarleysi úr hinum eldri ranglega, en við þetta yrði það skiljanlegt, að Ása þessi skuli vera kennd við Lopt Þórðarson en ekki, eins og þá ætíð tíðkaðist, við föður sinn, og hefir það komið til af því, að biskup eigi hefir vitað, hvers dóttir hún var, þar hún var norsk, og eins verður það skiljanlegra, þótt svo lengi drægist fyrir Hólabiskupum, að sjá um, að heitið yrði efnt, þar hlutaðeigendur, er áttu að efna það, voru í Norvegi.

Herra Þórður átti laundóttur þá, er Rannveig hèt; hana átti Þorsteinn Geirsson frá Auðbrekku, er verið hefir bróðir Þorvaldar Geirssonar, er hèr síðar er nefndur.

1) Um herra Eirík Sveinbjarnarson sjá Þingeyjarþing.

6. **Erlendur**[1] **Hauksson**, er bjó á Upsum 1319, var herraður og hafði konungs sýslu norðanlands og umboð föður síns

1) Um herra Erlend Hauksson og Hauk lögmann Erlendsson sjá lögmannatal Jóns Sigurðssonar og rit Dr. Jóns skólameistara Þorkelssonar, «um nokkur blöð úr Hauksbók». Það sem hèr er sagt um ætt Steinunnar konu Hauks lögmanns, er ekki rètt; faðir hennar var Óli son Svarthöfða Dugfússonar og Herdísar Oddsdóttur, systur Rafns Oddssonar; var Óli bróðir Björns, föður Gissurar Galla, svo þeir Haukur og Gissur hafa verið bræðrasynir; en móðir Steinunnar var Salgerður Jónsdóttir frá Ási, Sigurðssonar: var sá Sigurður bróðir Páls biskups og sonur Jóns Loptssonar, Sæmundssonar prests fróða. Móðir Hauks lögmanns var Jórunn, er í móðurætt var komin af Gesti spaka Oddleifssyni frá Haga á Barðaströnd; en faðir Hauks lögmanns var herra Erlendur sterki son Ólafs Totts. Ólafur Tottur var í Örlygsstaðabardaga með Gissuri jarli og móti Sturlungum, og eins var hann í Skálholti seinna með Gissuri og móti Úrækju Snorrasyni. Það virðist varla geta verið vafi á því, að hann sè sami maðurinn og Ólafur, sonur Hauks prests í Haga Þorgilssonar, bæði er það samkvæmt tímanum, og eins benda ættarnöfnin til þess fyllilega. Að vísu flýði Haukur prestur með börnum sínum, Oddi, Ólafi, Páli og Halldóru til Þórðar Sturlusonar, þegar Úrækja tók bú hans og Hagaland af honum, og hefir Ólafur án efa síðan verið með Þórði, meðan Þórður lifði, en er Þórður dó, var ekkert óeðlilegt í því, þótt hann þá gæfi sig í lið með Gissuri jarli, sem þeim höfðingja, er hann hefir treyst bezt; annars lýsa viðskipti hans við Sturlu Sighvatsson í Örlygsstaðabardaga miklu fremur góðum hug til Sturlu, en illum; það virðist og sem hann eigi hafi fengið auknafnið «T o t t u r» fyrri en hann kom í flokk Gissurar jarls. Börn Hauks lögmanns voru þau Erlendur lögmaður og Jórunn abbadís, hafa þau bæði heitið eptir foreldrum hans, eins virðist Teitur munkur Hauksson, er dó 1371, að hafa verið son Hauks lögmanns; það var venja heldri manna á þeim tímum, að koma börnum sínum í klaustur, ef þeir eigi gátu komið þeim upp til manns á annan hátt, er þeim líkaði; líka eru nefndir í annálum um 1200 og þar fyrir Teitur Hauksson og Haukur

við lögmannsdæmi. Faðir hans var Haukur lögmaður Erlendsson lögmanns sterka Ólafssonar, er Árna biskups saga um getur. Kona Hauks var Steinunn dóttir Atla Sveinbjarnarsonar í Súðavík, en Atli var bróðir Rafns hirðstjóra. Börn Hauks lögmanns voru: Erlendur áður

---

Teitsson, er víst munu hafa verið forfeður Hauks lögmanns eða í ætt við hann, svo Teits nafnið hefir verið títt í þeirri ætt. En auk þessara barna, Erlendar, Jórunnar og Teits og ef til vill Guðna munks, er dó 1378, virðist Haukur lögmaður enn að hafa átt Pál fyrir son og sá Páll aptur Teit fyrir son, því í einum stað á sjálfu handritinu af Hauksbókinni kvað standa með hendi frá 14. eða 15. öld, «Teitur Pálsson á þessa bók, ef hann skal óræntur vera». Menn mega sem sè eigi gleyma því, að á dögum Hauks lögmanns voru dánarbú eigi seld við opinbert uppboð, heldur skiptu erfingjar þeim sjálfir millum sín, og fèllu þau þannig til þeirra að erfðum. Það liggur því beinlínis næst fyrir að álíta, að Teitur þessi Pálsson hafi fengið handritið að erfðum; en að álíta, að hann hafi fengið það á annan hátt en að erfðum, einkum þar eð handrit þetta þar að auki varð að vera hinn mesti menjagripur í ættinni, væri eintóm getgáta, er sannast yrði, ættu menn að trúa því. Þegar menn nú auk þessa gæta þess, að um miðja 14. öld var uppi hèr á landi maktarmaður, að nafni Teitur Pálsson, er hafði konungs erindi á hendi á alþingi 1375, og að hann vel tímans vegna gat verið sonarson Hauks lögmanns, eins og líka nöfnin Páll og Teitur eru, sem fyr greint, nöfn í Hauksættinni, þá virðist það vafalaust, að Haukur lögmaður enn hafi átt þann son, er Páll hafi heitið, þótt þess sè eigi getið, og að hann hafi látið hann heita eptir Páli afabróður sínum, er líklega hefir dáið barnlaus, og Páll aptur fyr nefndan Teit fyrir son, er hann hefir látið heita í höfuðið á Teiti munki bróður sínum; það var mjög títt fyrrum, eins og að nokkru leyti viðgengst enn, að láta heita eptir frændum sínum, er barnlausir dóu. Það gæti og vel staðizt tímans vegna, að Gunnlaugur Teitsson, er uppi var um 1400, og sem Espólín heldur að hafi verið faðir Teits ríka í Bjarnanesi, hafi verið sonur þessa Teits Pálssonar.

nefndur og Jórunn, er gjörðist abbadís að Kirkjubæ 1343. Haukur varð lögmaður 1295 og hèlt við og við lögsögn til þess að hann dó 1334. Hann var valdamaður syðra og um Borgarfjörð, fræðimaður mikill, og hefir gjört Hauksbók (það er Landnáma umbætt) og fleira. Erlendur son hans meinast að hafa haft völd þar nyrðra.

## Magnús Brandsson[1].

*Faðir:* Brandur Eiríksson Einarssonar, Guðmundarsonar Dýra, Þorvaldssonar auðga, Ketilssonar Fljóta.

*Börn:* A. Arnþrúður, er átti Þorstein lögmann og hirðstjóra Eyjólfsson.

B. Solveig átti Sigurð, er meinast son Björns Sæmundssonar á Einarsstöðum. Sigurður þessi nefnist víðast Guðmundsson, og er óglöggt um ætt hans. Sigurður Guðmundsson telst lögmaður 1358 og aptur 1375—78, og hafa dáið 1381, hann telst höfðingi og valdamaður nyrðra. Dóttir hans meinast Þórdís, er fylgdi Þorkeli presti Guðbjartssyni í Laufási og var móðir:

1. Ásgríms, föður Jóns sýslumanns, sjá hèr síðar.
2. Magnúsar sýslumanns í Skriðu og Svalbarði.
3. Þorvalds, er átti Halldóru Narfadóttur Ketilssonar.
4. Guðni telst og son þeirra.

C. Eiríkur ríki á Möðruvöllum átti Ingiríði Loptsdóttur Þórðarsonar og Málmfríðar dóttur Árna í Aski í Noregi og Ásu. Börn þeirra:

1. Ragndís.
2. Ása.
3. Ingileif hèlt við síra Steinmóð.
4. Málmfríður átti Björn Brynjólfsson; þeirra dóttir:
   a. Sigríður, sem Gunnlaugur Magnússon átti.
   b. Málmfríður.
   c. Ólafur; honum lagði faðir hans Björn 1392

---

1) Sjá um Magnús Brandsson Þingeyjarþing, og verður það sem hèr er sagt, að lagast eptir því, sem þar stendur.

hvorutveggi Akra og fleiri jarðir til móts við systur sínar Málmfríði og Sigríði. Ólafur var faðir Þorsteins lögmanns og hirðstjóra.

5. Margrèt átti Benidikt Brynjólfsson, bjuggu á Sjávarborg, þeirra son Magnús, sjá Húnavatnsþing.
6. Sophía átti Guttorm á Möðruvöllum, son Örnólfs í Stóraskógi; þeirra synir:
   a. Jón dó barnlaus.
   b. Loptur ríki, sjá hèr síðar.

Eiríkur hefir verið orðinn maktarmaður eða haft völd í Vaðlaþingi 1377, og var einn í tölu þeirra, er þá voru teknir eiðar af Noregs konungi til handa. Hann dó 1381.

Magnús bjó á Svalbarði og er talinn með mestu höfðingjum norðanlands; hann meinast að hafa haldið sýslu í Vaðlaþingi um hríð; hann var einn af þeim, er stóð á móti Ormi biskupi, var honum því utan stefnt 1351 og líka Sigurði mági hans; fóru þeir utan og komu inn árið eptir með heilu og höldnu. Margir fleiri höfðingjar voru þá og nyrðra. Ásgrímur Guðbjartsson var í miklum metum. Þorsteinn Eyjólfsson áður nefndur gjörðist mesti maður.

### Rafn Bótólfsson.

*Faðir:* Bótólfur[1] Andrèsson, er var hirðstjóri 1341—43.

---

1) Bótólfur var bróðir Smiðs hirðstjóra Andrèssonar, er fèll á Grund í Eyjafirði 1362; menn hafa haldið, að þeir hafi verið útlendir, en eg held, að það sè ekki byggt á neinu, og að eins sennilegt sè, að þeir hafi verið af ætt Oddaverja eða Andrèsar Sæmundssonar. Í einum annál er Smiður nefndur Jón Smiður Andrèsson, og í öðrum er þess getið, að Smiður hafi verið skírnarnafn hans; það virðist nokkuð ósennilegt, að til þessa hefði verið tekið, ef hann hefði verið útlendur, því áþekk auka-skírnarnöfn voru þá eigi óvanaleg erlendis, en hèr á landi víst með öllu ótíðkanleg.

*Móðir:* Steinunn, dóttir Rafns í Glaumbæ Jónssonar, sjá Hegranessþing.
*Kona:* Ingibjörg, dóttir Þorsteins lögmanns og hirðstjóra Eyjólfssonar.
*Barn:* Steinunn[1] átti Þorgrím Sölvason; þau fóru til Grænlands; þar komst yfir hana maður sá, er Kolgrímur hèt, og kallað með fjölkynngi; var hann því brenndur, en hún varð eigi með sama sinni og áður.

Rafn gjörðist höfðingi mikill, og held eg, að hann hafi haft völd, helzt í Vaðlaþingi; hann varð lögmaður 1381 og bjó í Lönguhlíð[2] í Hörgárdal. Sá atburður varð 1390, að skriða hljóp á bæinn í Lönguhlíð; dó þar inni Rafn lögmaður Bótólfsson, kona hans og 10 menn aðrir, en dóttir hans Steinunn, er fór til Grænlands, var eigi þar nálæg.

**Sumarliði Þorsteinsson[3]**

son Þorsteins lögmanns Eyjólfssonar var og maktarmaður 1391, hans getur og 1394.

---

1) Fyrri maður Steinunnar hèt Arngrímur Þórðarson, hefir hann verið ríkismaður og bjó á Marðarnúpi; hann dó 1392 og var skipt eptir hann árið eptir, eða 1393; þau Steinunn áttu 3 börn: Rafn, Ólöfu og Ingibjörgu; skiptist Rafni 2 hndr. hundraða og 5 hndr., þar í talinn hálfur tólfti tugur hundraða, er móðir hans gaf honum, en hluti «píkunnar» hvorrar var hálfur sjöundi tugur hundraða, allt að frátöldum skuldum. Seinni maður Steinunnar var Þorgrímur Sölfason, er hèr er nefndur; annálar segja og, er þeir geta þessa viðburðar um Steinunni og Kolgrím, er við bar 1407, að Þorgrímur hafi þá átt hana, er bendir til þess, að hún hafi áður verið gipt; Þorgrímur lifði 1417, því þá kvittaði hann Ólaf Ormsson fyrir andvirði Neðri-Mýra í Höskuldsstaða kirkjusókn; það væri eigi óhugsandi, að Þorgrímur hafi verið sonur Sölfa prests Brandssonar, er var ríkismaður í Húnavatnssýslu á seinni hluta 14. aldar.

2) hinni ytri; eptir þennan atburð var jörð sú kölluð Skriða.

3) Um Sumarliða Þorsteinsson, sjá Tímarit mitt 1. B. bls. 46, og eins Árbækurnar; þar er sagt við árið 1394, að Sumarliði hafi kvittað Benidikt Brynjólfsson um sauðarverð, en á að

### Arnfinnur Þorsteinsson[1]

bróðir Sumarliða meinast og að hafa verið valdamaður norðanlands, og helzt í Vaðlaþingi um aldamótin 1400, og þar eptir, en óvíst er, hverjar sýslur hann hefir haldið eða á hverju ári. Hans er getið 1388, 1410 og 1419, þá kallar hann sig hirðmann konungs.

### Eyjólfur Arnfinnsson[2]

son áður nefnds Arnfinns; hann hefir og líklega haft völd af konungi hèr á landi á fyrsta fjórðungi fimmtándu aldar, en óvíst nær eða hvar, þó líklegast í sínum átthögum nyrðra. 1463 á Grýtubakka í Höfðahverfi gjörði Oddur bóndi Þorkelsson sátt og samning við Eyjólf bónda Arnfinnsson um allan arf, sem fallið hafði Eyjólfi eptir Guðrúnu systur sína. Lítur svo út, sem bæði Oddur og Eyjólfur hafi verið valdamenn í Norðurlandi og einkum í Vaðla og Þingeyjar þingi. (Sjá um konu hans og börn við Ísafjarðarsýslu).

### Brandur Halldórsson[3].

*Faðir:* Halldór meinast að hafa búið á Barði í Fljótum, verið maktarmaður og verið Ásgrímsson[4].
*Kona:* Ragna dóttir Rafns lögmanns Guðmundssonar.
*Börn:* A. Rafn lögmaður, sjá Húnavatnssýslu.

---

vera Sauðárverð, það er að skilja, um verð fyrir jörðina Sauðá, er Sumarliði hafði selt honum árinu áður.

1) Börn Arnfinns Þorsteinssonar voru:
 a. Jón.
 b. Eyjólfur riddari, er síðar getur.
 c. Steinunn, er Jón Finnbogason átti, sjá Þingeyjarþing.
 d. Guðrún, er átti Oddur Þorkelsson; þau hafa eigi átt börn.

Arnfinnur kemur víða fyrir í brèfum.

2) Sjá um Eyjólf riddara Þingeyjarþing.

3) Sjá um Brand Halldórsson Tímarit mitt 1. B. bls. 50.

4) Á að vera Arngeirsson.

B. Halldór átti Helgu Einarsdóttur[1]. Börn:
1. Rafn.
2. Ólafur[2].
C. Snjólfur.

1417 dæmdi Rafn[3] lögmaður síra Magnúsi

1) Einar faðir Helgu var Bessason, sjá Þingeyjarþing; hún var tvígipt, og var fyrri maður hennar Magnús, og þeirra son Sturla, faðir fyrri konu Þorleifs Grímssonar, en Magnús þessi var son Runólfs Sturlusonar, og hefir þeirra fyr verið getið; Magnús er bæði hjá Jóni presti Ólafssyni og fleirum ranglega kallaður Jónsson, sjá Þingeyjarþing.

2) Ólafur gaf próventu sína Sturlu Magnússyni, hálfbróður sínum. Enn voru börn Halldórs og Helgu:

3. Margrèt kona Finnboga Jónssonar, er var bróðir Arnfinns sýslumanns; barna þeirra hefir fyr verið getið. Jón son þeirra átti Sigríði Einarsdóttur, og voru þeirra börn:
   a. Finnbogi, hans börn með Kolþernu Eyjólfsdóttur:
      α. Pètur.
      β. Eyjólfur.
   b. Margrèt atti Pètur Þorsteinsson; þeirra börn:
      α. Jón.
      β. Pètur.
      γ. Magnús.
      δ. Finnbogi.
   c. Guðrún átti Pálma Sæmundsson.
   d. Ása.
4. Ingibjörg Halldórsdóttir.
5. Magnús Halldórsson prestur, laungetinn, hans son: Einar prestur Magnússon.

3) Ár 1352 seldi Ormur biskup síra Böðvari Þorsteinssyni hálft Barð í Fljótum, Saurbæ og hálfa Dali, en síra Böðvar lèt fyrir það Lambanes og Hvanneyri, gaf biskup honum ofan á í misskakka jarðanna 20 hndr. Síra Böðvar hefir verið merkasti klerkur í sinni tíð, og kemur víðar fyrir; hefir hann án efa átt hina hálfa Barðseignina, eða rèttara: hún verið kirkjueign. Seinna eða 1416 vitna Jón Ketils-

Böðvarssyni Barð, síra Magnús seldi það sama ár Brandi Halldórssyni, er borgaði verðið Árna biskupi 1418. 1464 erfði það Halldór son hans og gaf það Rafni syni sínum 1469[1]. Biskup Gottskálk

---

son og Eldjárn Stúfsson, að Þórður Örnúlfsson hafi afhent Finni Gamlasyni í umboði Valgerðar Vilhjálmsdóttur, konu hans, Barð í Fljótum og þar með Reyki og Grilli, Steinavöllu og Illugastaði, Nes og Yztamó, Móskóga og Laugaland, og þar með allan hálfan reka fyrir Litlabakka, hvals og viðar og flutninga merkigarðanna á milli, Laugalands og Stærrabakka — allar þessar jarðir í Barðskirkjusókn — því að hann hafi sagzt eigi vita annað sannara, en að allar þessar jarðir hefðu fallið í erfð eptir Margrèti Þorvaldsdóttur nefndri Valgerði. Maður Margrètar þessarar hèt Jón, og bjuggu þau á Núpi í Núpsdal, en faðir hennar var Þorvaldur Vasi Ögmundsson á Bakka í Yxnadal, bróðir Böðvars súbdjákna Ögmundssonar; Margrèt átti og bróður, er Jón hèt, keypti hann Laugaland í Fljótum, en hefir eigi átt skilgetna afkomendur, og Margrèt systir hans erft hann. Margrèt gjörði testamenti sitt 1400, og hefir dáið skömmu seinna. Finnur Gamlason bjó síðan nokkur ár á Barði, en síðan kærði upp á Barð Magnús prestur Böðvarsson, og felldi Rafn lögmaður Guðmundsson 1417 þann úrskurð millum hans og Finns, að Magnús prestur skyldi taka Barð til halds og eigu, þar eð sannað hefði verið fyrir sèr, að Þóra Magnúsdóttir, móðir síra Magnúsar, hefði lifað Svein Magnússon bróður sinn — Sveinn var um tíma ráðsmaður á Möðruvöllum í Hörgárdal — en Rannveig, móðir Sveins, hafði próventað sig til hans, og gefið með sèr eignarhlutann í Barði með samþykki sona sinna, síra Magnúsar og síra Halls, hefðu þeir og afhent Sveini bróður sínum jörðina, og hann haft þar á búskap, er hann dó. Af þessu virðist auðsætt, að Böðvar prestur Þorsteinsson, Rannveig eða maður hennar Magnús, Margrèt Þorvaldsdóttir og Valgerður Vilhjálmsdóttir hafa verið mjög skyld, en hvernig það hefir verið, er eigi gott að sjá.

1) Halldór gaf Rafni syni sínum 1479 (ekki 1469) hálft Barð, og Rafn gaf það aptur í próventu með sèr 1494 auk annars

vildi taka Barð í kirkjuportíón, en Halldór fram bauð í hana peninga 1486. 1494 gefur Rafn Halldórsson Barð Finnboga lögmanni í próventu. Jón Finnbogason lánaði Barð og fleiri jarðir Gottskálki biskupi, og átti rentan að ganga í kirkjuportíón 1505.

Brandur Halldórsson hefir verið dáinn 1464, en þá lifði Ragna kona hans, sem sjá má af vitnisburði, er þá fram fór um kirkjufè á Barði. Ekki er ólíklegt, að Brandur bóndi Halldórsson hafi haft sýsluvöld um tíma, annaðhvort í Hegranesseða Vaðlaþingi, nálægt 1430 eða fyr. Orðið bóndi er líklegt að eigi hefði verið gefið honum í þeirri tíð, ef hann eigi hefði verið valdsmaður, því sú nafnbót var þá við þá höfð. 1427

---

fjár mági sínum Finnboga Jónssyni (ekki Finnboga lögmanni); sonur Finnboga Jón eignaðist Barð síðan, en það var sölsað undir Hólakirkju af Gottskálki biskupi og gjört að beneficio; af örfum Jóns keypti Jón lögmaður Jónsson ákærur þeirra til Barðs, og fèkk sèr það dæmt, en gaf það síðan til beneficiums eptir tilmælum höfuðsmannsins. 1481 hafði Ólafur biskup Rögnvaldsson stefnt þeim bræðrum, Rafni, Halldóri og Snjólfi út af vantandi portíón kirkjunnar á Barði, er þeir allir í sameiningu höfðu tekið að sèr að ábyrgjast, og yrði eigi öll portíón kirkjunnar, og sektir, er þeir voru dæmdir í, goldin biskupi innan ákveðins tíma, skyldi svo mikið af jörðinni Barði, sem á brysti, verða eign kirkjunnar þar; en það er auðsætt, að þeir eigi hafa haldið þennan dóm, því 1488 stefndi biskup Halldóri, og lèt dæma hann meðal annars skyldan að halda dóminn, og fallinn í bann og skyldan að taka lausn og skript af biskupi, en 1486 hafði Halldór framboðið þó næga peninga í portíónina (munu þessi ártöl eigi eiga að vera 1471, 1478 og 1476?). Þrátt fyrir þessa dóma Ólafs biskups hefir þó Halldór haldið Barði. Jón Finnbogason hafði, eins og hèr stendur, lánað Gottskálk biskupi Barð og fleiri jarðir, og átti stórfè hjá biskupi, en með því portíón Barðskirkju var þó orðin meiri, tók biskup Barð, en Jón mátti samt innleysa það, ef hann gæti eða vildi; en það er auðsætt, að hann eigi hefir gjört það.

getur Brands, og 1424 tóku Enskir hann til fanga og lètu hann leysa sig með 4 lestum fiska[1]. 1464 fram fóru skipti á arfi eptir Brand, sem fyr sagt, millum sona hans; hlaut Rafn Skriðu í Reykjadal fyrir 100 hndr., Halldór Brandsson hlaut Barð í Fljótum 60 hndr., Hóla og Akra í Barðsþingum 60 hndr.[2]; Snjólfur hlaut Ósland 60 hndr, Syðribrekku 20 hndr. og Hól 20 hndr.; liggja þessar 3 jarðir í Miklabæjarþingum í Óslandshlíð. Solveig[3] hlaut 50 hndr. í jörðum. Allir erfingjar skyldu borga Barðskirkju portíón að tiltölu, til þess Halldór tók við Barði af föður sínum; hann einn úr því; þar um varð misklíð.

### Árni Einarsson[4].

*Faðir:* Einar prestur á Breiðabólsstað í Vesturhópi officialis,

---

1) 1421 er sagt í annálum, að Geir Árnason hafi verið höggvinn fyrir áverka, er hann á alþingi hafði veitt Brandi Halldórssyni.

2) Í brèfinu stendur tvær 20 hndr. jarðir, Hól og Akra í Barðsþingum; en Snjólfur fèkk Ósland 60 hndr., þar til Syðribrekkur og Hól 20 hndr., er allar þrjár liggja í Miklabæjarþingum og þar til 20 hndr. í Illugastöðum í Holtsþingum.

3) Af skiptabrèfinu sèst, að þeir bræður hafa átt systur, en þar er engin þeirra nafngreind, og eigi getið þess, hvað eða hverjar jarðir hver þeirra fèkk, en þær áttu að fá að tiltölu við bræðurna. Þessi skipti samþykkti Ragna Rafnsdóttir, móðir þeirra, og Helga Einarsdóttir, kona Halldórs Brandssonar. Af skiptabrèfinu sèst, að Rafn lögmaður Brandsson hefir búið nokkur ár á Barði, áður en skiptin fram fóru, og hefir því Brandur faðir þeirra verið dáinn nokkru fyrir 1464.

4) Það virðist sem Árni Einarsson, faðir Þorleifs, hafi verið tvígiptur, og að hann, er fyrri kona hans dó, hafi flutt sig austur í Fljótshlíð, og átt þar Ragnheiði nokkra Sæmundsdóttur, er fyr hefir verið gipt Gunnari nokkrum Eyjólfssyni og með honum átt börn; en þau Árni og Ragnheiður hafa engin börn átt saman, því 1406 framfóru skipti í Odda á Rangárvöllum eptir Gunnar Eyjólfsson millum síra Vigfúsar Þorbjarnarsonar af einni hálfu — hans getur í annálum, og hefir

dó 1393, 89 ára; hann var son Hafliða prests Steinssonar á Breiðabólsstað í Vesturhópi.

*Kona:* Guðný dóttir Hákonar, er fæddist 1324, en dó 1381, maktarmanns, sonar Gissurar Galla í Víðidalstungu, Björnssonar Drumbs í Hjarðarholti, Svarthöfðasonar sama staðar, Dugfússonar, Þórarinssonar frá Snóksdal.

*Börn:* A. Þorleifur í Vatnsfirði, sjá Ísafjarðarsýslu.

B. Ásgeir[1] átti Guðfinnu dóttur Þorgeirs í Ögri[2];

---

hann þá haldið Oddastað, er þetta fram fór — Þorleifs Árnasonar af annari, og Jóhannesar Arviðssonar (mun það ekki = Jóns Arnfinnssonar?) í umboði Ingunnar Gunnarsdóttur, konu sinnar, og Guðrúnar systur hennar, af þriðju; hafði arfurinn í fyrstu fallið til erfða Árna Einarssyni og Ragnheiði Sæmundardóttur, en síðan Þorleifi eptir föður sinn, en síra Þorsteini, Bjarna og áður nefndum systrum eptir Ragnheiði móður sína; fèkk Þorleifur allan helming fjárins, en hinn helmingurinn skiptist millum fyrnefndra barna Gunnars þannig, að með því Bjarni var dáinn, en hafði eptir látið sèr dóttur, er og var dáin, en hún var dóttur-dóttir síra Vigfúsar — svo Bjarni hefir átt dóttur hans — þá fèkk síra Vigfús þann hluta, er Bjarna hafði borið; síra Þorsteins hluta, er og var dáinn, og engin arfgeng börn hefir átt, fengu þær systur Ingunn og Guðrún, en Jóhannes skyldi sanna, að síra Þorsteinn hefði lifað Bjarna, annars skyldi síra Vigfús fá og sinn hluta þar af. Jarðir þær, er til skipta komu, voru Auðbrekka, Steinstaðir og Kirkjulækur í Fljótshlíð, en Kirkjulæk hafði Árni fengið 1399 hjá Birni Jórsalafara fyrir jarðir í Vesturhópi og Víðidal; Þorleifur fèkk Auðbrekku, þær systur Ingunn og Guðrún Steinstaði, og síra Vigfús Kirkjulæk.

1) Ásgeir, faðir Jóns sýslumanns Ásgeirssonar, var að vísu Árnason, en engan veginn son þessa Árna Einarssonar, sem að nokkru leyti sèst af hinu fyrsagða; auk þessa átti Guðni Jónsson Ásgeirssonar laundóttur Björns ríka Þorleifssonar, og hefðu þá hjón þau verið þrímenningar, svo þau eigi hefðu mátt eigast.

2) Kona Ásgeirs hèt Guðfinna Þorgeirsdóttir, en að faðir hennar hafi verið á Ögri, tel eg óvíst.

þeirra son: Jón sýslumaður (sjá Ísafjarðarsýslu).

Árni var maktarmaður og bjó á Auðbrekku 1380; er ekki ólíklegt, að hann hafi haft nokkur völd helzt í Dalaþingi. Hvort þessi Árni Einarsson er sá, sem næst Höskuldi Runólfssyni hefir verið í skiptum eptir Lopt ríka 1437 læt eg ósagt[1], en þá hefir hann verið orðinn mjög gamall maður, en 1415 lifði Árni.

**Runólfur**[2]

hèt maður, hans synir voru: Páll, er fyrir og eptir 1400 var

---

1) Með því Árni Einarsson, faðir Þorleifs, var dáinn 1406 getur það eigi hafa verið hann, sem var í skiptunum eptir Lopt ríka 1436 eða 1437, heldur hefur það verið Árni Einarsson, faðir Ólafar, er fyr hefir verið nefndur; eins hlýtur það að vera rangt, er á eptir kemur, að Arni, faðir Þorleifs, hafi lifað 1415.

2) Sjá um Runólf þenna Tímarit mitt 1. B. bls. 46 og eins Pál son hans. Kona Höskuldar hèt Guðný Þorsteinsdóttir; var faðir hennar Þorsteinn Svartur Hallsson: hann átti hálfa Hnappstaði, en hefir eigi fyrst haft til umráða kirkjuhlutann, en sökum þess að hann átti hálfa jörðina, fengu þeir síra Þórður Þórðarson og síra Steinmóður Þorsteinsson, er þá voru officiales Hólabiskupsdæmis, honum 1399 kirkjuhelminginn í Hnappstöðum til meðferðar, og jörðina Húnstaði og þar með allt lausagóz kirkjunnar þannig, að hann skyldi hafa greint góz sèr til nytja og eignast ávöxtu af, en svara öllum skyldum fyrir kirkjuna, og standa í ábyrgð um hana og góz hennar. Þorsteinn Svartur var einn af þeim þremur, er síra Halldór Loptsson setti að annast um, að testamenti sínu yrði framgengt. Þau Höskuldur og Guðný áttu bæði Hnappstaði og Núpufell, og án efa margar fleiri jarðir; fyrir Hvol í Vesturhópi fèkk Höskuldur hjá Jóni Sighvatssyni Tungufell, er hann aptur fèkk Arnfinni Þorsteinssyni fyrir jarðir í Fljótum. Börn þeirra Höskuldar og Guðnýjar voru auk Runólfs, sem síðar er nefndur:

sýslumaður í Múlaþingi, og Höskuldur í Eyjafirði, sem eg hygg að opt hafi verið þar umboðsmaður. 1404 seldi hann jörðina

---

a. Árni.
b. Þorsteinn.
c. Margrèt að öllum líkindum, kona Finnboga gamla í Ási í Kelduhverfi Jónssonar (sjá Þingeyjarþing).

Eptir öðrum eptirritum, er eg held að sèu rèttari, skuldbatt Runólfur Höskuldsson sig 1471, um leið og hann fèkk biskupi jarðirnar Skollatungu, Brattavöllu og Hornbrekku, að lúka honum 15 málnytukúgildum og 25 hndr. í fríðum og fríðvirðum peningum, og seinna á sama ári, er hann próventaði sig til biskups og fèkk honum Bægisá, hèt hann honum enn fremur 10 málnytukúgildum og 20 hndr. í fríðum og fríðvirðum peningum. Af eiði þeim, er Runólfur sór biskupi árið eptir eða 1472, sèst, að hann hefir átt nokkrar jarðir eptir. Í áminnztum eiði lofaði hann líka meðal annars biskupi, að lúka Eyjólfi Einarssyni (ɔ: lögmanni) aptur alla þá peninga, er hann hafði gripið frá honum, þá til væru, eða aðra jafngóða, hið fyrsta, er hann gæti; en af þessu virðist það auðsætt, að það hlýtur að hafa verið löngu fyrir 1520, er Eyjólfur tók upp fè hans á Bakka í Yxnadal; af ágripi því, er eg hefi af skjali því, er um fjárupptektina hljóðar, sèst og eigi annað, en að það sè vitnisburður Halls nokkurs Ásgrímssonar um fjárupptektina, dagsettur 1520, en þar af sèst ekki, hve nær fjárupptektin hafi fram farið. Það er og hætt við því, að það, sem hèr er sagt, að Runólfur hafi lifað 1510 og þá verið lögrèttumaður, sè tekið eptir árbókunum við árið 1510, en Runólfur sá, er þar er nefndur — hvort sem það er þessi Runólfur eða annar — átti þá heima fyrir sunnan, og er án efa hinn sami, er verið hafði sýslumaður í Borgarfjarðar- og Mýrasýslum. Fyrnefndur Runólfur Höskuldsson Runólfssonar, átti son, er Höskuldur hèt. 1507 ákærði Gottskálk biskup hann fyrir það: 1. að Höskuldur hefði eigi lúkt tíund af því gózi fríðu og ófríðu, er hann hefði og í mörg ár hefði haft meðferðis vegna Einars Eyjólfssonar — líklega sonar fyrnefnds Eyjólfs — með Möðrufelli, 2. að hann eigi hefði gjört rètta tíund af sjálfs síns peningum og konu sinnar, síðan hann

Hvol. 1405 keypti hann Grísará. 1415 var hann vottur að kaupgjörningi. 1421 seldi hann Arnfinni Þorsteinssyni jarðir. 1428 vottar hann um afhending Sjávarborgar til Jóns biskups. 1436 eða 1437 var hann fyrirliði skipta eptir Lopt ríka. 1439 vottar hann um afhendingu Bægisár til Einars ábóta. Runólfur hèt son Höskuldar, er átti Ingibjörgu Einarsdóttur; hún klagaði 1470 fyrir Ólafi biskupi Rögnvaldssyni, að hann lengi hefði legið í hórdómi, getið 5 börn með Halldóru Þórðardóttur og hið 6. með Þórdísi Guðmundsdóttur, en sig að

---

giptist, 3. að hann ekki hefði reikningskap staðið, og eigi leigur og landskuldir goldið af þeim umboðum, er hann hafði Hóladómkirkju vegna fyrir norðan: fyrir allt þetta var hann dæmdur til mjög mikilla fjárútláta, fallinn í bann og skyldur að taka skript og lausn af biskupi.

Árni fyr nefndur Höskuldsson fèkk eptir foreldri sín Hnappstaði og Núpufell, en sökum skulda hans við kirkjurnar þar, lèt Ólafur biskup 1479 og 1480 meðal annars dæma báðar jarðirnar af honum og sína undir hvora kirkjuna, nema hann gildi fèð innan ákveðins tíma, en með því Árni ekki hlýddi dóminum, lèt biskup 1488 aptur dóm ganga yfir honum, er dæmdi hann í stórsektir, og skyldan að halda fyrra dóminn, fallinn í bann og skyldan að taka skript og lausn af biskupinum, eins og jarðirnar voru dæmdar sín undir hvora kirkju, og teknar af honum. Árni var 1481 nefndur í dóm um peninga Bjarna Ólasonar og 1484 gjörði hann í Núpufelli testamenti sitt og lúkti þá hálfa jörðina Gilsá Núpufellskirkju upp í skuldir sínar til hennar, en hálfa gaf hann hana Indriða syni sínum, en með þeim skilmála, að Höskuldur sonur sinn skyldi mega innleysa hana alla, ef hann vildi, með þeim peningum, er góðum mönnum þætti hún verð. Þess er getið í árbókunum, að Ólafur biskup hafi lofað Höskuldi syni Árna að innleysa Núpufell með þeim kjörum, er þar eru nefnd, en það er óvíst, að hann hafi gjört það, enda mun hann eða hans eigi lengi hafa notið þess: lèt biskup og dæma af honum stórfè og þar á meðal jörðina Blængshól, bæði 1491 og 1492 fyrir þær sakir, er þar eru nefndar.

Þorsteinn fyrnefndur Höskuldsson gipti á Myrká 1451

öllu smáð og afrækt, svo hún hefði enga skyldu af honum fengið, hvorki í samvistum eða mat fyrir sig og börn sín minnkunarlaust, og bað biskup að rètta hluta sinn. Biskup kallaði Runólf fyrir prestastefnu í Viðvík 1471 og sættist við hann með því móti, að Runólfur skyldi lúka biskupi og Hólakirkju til æfinlegrar eignar jarðirnar Skollatungu, Brattavöll og Hornbrekku og þar með 50 málnytukúgildi og 25 hndr. í fríðvirtum peningi fyrir alla hans hórdóma með Halldóru og Þórdísi. Skömmu þar eptir var Runólfur staddur á Hólum og gaf þá Hólabiskupi með sèr í próventu jörðina Bægisá með 10 málnytukúgildum og 15 hndr. í öðrum peningum. Kvittaði Ólafur biskup hann þá fyrir öll sín afbrot o. s. frv. Skömmu þar eptir komst Runólfur burt og kvað sjer hafa verið þröngvað til alls þessa, en biskup lèt fanga hann og 12 presta dæma hann undir náð og vald biskups: óvissar eru þar um málalyktir, en 1510 telst Runólfur lögrèttumaður og 1520 tók Eyjólfur Einarsson upp fè fyrir honum á Bakka í Yxnadal; hefir Runólfur í fyrstu verið auðugur maður og máske haft umboð nokkurt, en er hann var orðinn gamall, hefir hann líklega goldið sonar síns að biskups undirlagi. Runólfur átti son þann, er Höskuldur hèt. Hann varð gildur bóndi í Eyjafirði og stórbokki; hafði hann tekið, bundið og meitt smalamann staðarins í Miklagarði, líklega út af beitingum. Þá var Gottskálk orðinn yfirmaður Hólabiskupsdæmis, og lèt dæma Höskuldi þessum miklar fèsektir. Aptur 1507 lèt biskup dæma Höskuld í sekt fyrir tíundargjald. Sèst af þessu, að ættleggur þessi í fyrstu hefir verið auðugur og haft máske áður einhver umboð, en biskupar niðurþrykkt honum með sönnum og ósönnum sakargiptum og fjárupptektum.

---

Guðmundi Sigurðssyni dóttur sína Guðnýju; hafði Guðmundur til kaups við hana tuttugu tíu hundruð (200 hndr.) þar í talin jörðin Bessastaðir í Fljótsdal, Þísastaðir, Skriða, Fagridalur og Ásmundarstaðir; þar á móti gaf Þorsteinn í mála Guðnýjar dóttur sinnar og móðurarf hennar meðal annars Kropp og Grísará og kjöri hana málakónu í garð Guðmundar; var málinn allur með gjöf Guðmundar 1½ hndr. hundraða.

## B.
## Sýslumenn.
### Rafn Guðmundsson.

Um ætt hans er ritað við Þingeyjarþing. 1391 var Rafn orðinn fulltíða maður; dulið er, hvert ár hann hefir tekið Vaðlasýslu, en lögmaður var hann orðinn 1409 norðan og vestan, og Vaðlasýslu hefir hann, ef til vill, þá verið búinn að fá, en víst er, að hann hèlt hana 1410, því þá lætur hann 6 manna dóm ganga millum Þorleifs bónda Árnasonar og Þorkells bónda Bergþórssonar að Hrafnagili um arf eptir Þorkel Bergsson og Guðrúnu Þorgilsdóttur. Getið er og um dóma Rafns Guðmundssonar 1416 á Torfustöðum í Miðfirði um arf eptir Helga Jónsson Hákonarsonar; dæmdist hálf Víðidalstunga Þorleifi Marteinssyni eptir Margrèti dóttur sína, en hálf Þorleifi Árnasyni eptir Guðnýju (móður sína) systur Helga[1]. 1417 dæmdi hann um Barð í Fljótum, er eg meina hans lögmanns dóm, en 1420 að Hrafnagili, og hygg eg það hans sýslumanns dóm. Aptur hefir Rafn sem lögmaður látið 12 manna dóm ganga að Þorkellshóli 1426 og annan um arftökur 1427, einnig 12 manna dóm við Vallnalaug 1428, en eigi er eg viss, hvort hann dæmdi um vogrekið á Slèttu sem sýslumaður eða lögmaður 1431. Vegna þessa dóms bannfærði Jón biskup Vilhjálmsson Rafn, þótt hann dæmdi eptir lögbók Íslendinga, því biskup vildi sèr það helga, fyrst það bar upp á Hóla kirkjujörð. Rafn skeytti eigi bannfærslu bisups, en dó árið eptir, 1432, í banni. Margrèt kona Rafns lögmanns gaf þá biskupi jörðina að Hólum í Laxárdal í testamentisgjöf bónda síns, fyrir sál hans. Biskup gaf þá kvitta sálu og líkama Rafns af gjörðu forboði, lèt syngja 30 sálumessur heima á Hólum, og 2 sálumessur skyldi hver prestur í Hólabiskupsdæmi syngja fyrir sál Rafns og það til annars árs jafnlengdar. Rafn tjáist af sagnariturum að hafa verið rèttdæmur og einarður og margt vel um hann. Hvort hann hefir haldið Þingeyjarþing er eigi fullvíst, þótt það sè sumra meining; samt er það líklegt, þar

---

1) Þetta er skakkt (sjá Þingeyjarþing), að Þorleifur hafi fengið að erfð hálfa Víðidalstungu, og eins að Guðný, dóttir Jóns Hákonarsonar, hafi verið móðir hans.

hann bjó á Skriðu í Reykjadal og var meðal höfðingja norðanlands. Eigi hefir Rafn sífellt haft Eyjafjarðarsýslu og varla lengur en til 1417, nema hann hafi haldið hana með köflum. 1432 að Hálsi í Fnjóskadal lèt Rafn 12 manna dóm ganga um, að fè Halldóru þorsteinsdóttur væri löggefið Lopti ríka[1].

## Loptur ríki Guttormsson.

*Faðir:* Guttormur, er um hríð bjó á Staðarfelli og síðar í Stóraskógi í Breiðafjarðardölum. Kirkju-Þorsteinn í Snóksdal veitti honum sár það, er hann leiddi til bana 1381, þá er þeir Þorsteinn deildu um veiði í Miðá[2]. Faðir Guttorms var Örnúlfur í Stóraskógi Jónsson; kona hans var húsfrú Herdís. Þau seldu hálft Staðarfell Guttormi syni sínum á 6. ríkisári Hákonar Noregs konungs, en 4 vetrum síðar var kaupið brèfað í Hjarðarholti.

---

1) Þetta er úrskurður Rafns sem lögmanns; þar segir hann, að ár 1432 miðvikudaginn næstan fyrir Lárentiusarmessu á Hálsi í Fnjóskadal á almennilegu þingi hafi komið fyrir sig Loptur Guttormsson og krafið sig úrskurðar á, hvort sú gjöf væri lögleg eða eigi, að Halldóra Þorsteinsdóttir hefði gefið og handlagt sèr alla peninga þá, er henni fèllu til erfða eptir föður-systurson sinn, Sturlu Bárðarson; hafi þetta og verið dæmt til sín af 12 skynsömum mönnum; úrskurðaði hann, af ástæðum þeim, er þar eru nefndar, að gjöfin ætti að haldast, svo lengi Halldóra lifði, en síðan skyldi fara eptir því sem lögmálið gjörði ráð fyrir, og skyldi Halldóra hafa framfæri á þessum peningum til matar og klæða. Úrskurður þessi er felldur um vorið í marzmánuði 1432, en Rafn dó um sumarið eða veturinn eptir.

2) Þessi sögn, er víða stendur, er með öllu röng, því á öðru stjórnarári Ólafs konungs eða 1382 seldi Örnólfur Jónsson syni sínum Guttormi hálft Staðarfell og kvittaði hann fyrir verðinu 1384. Guttormur sá Ormsson, er sagt er í annálum að veginn hafi verið 1381 í Snóksdal, var án efa son Orms lögmanns Snorrasonar.

*Móðir*: Sophía dóttir Eiríks ríka á Möðruvöllum Magnússonar á Svalbarða Brandssonar[1].

*Kona:* Ingibjörg, dóttir Páls á Eyðum, er var um hríð í hirðstjóra stað, Þorvarðssonar[2].

*Börn:* A. Þorvarður, sjá hèr síðar.
B. Eiríkur, sjá hèr síðar.
C. Ólöf, sjá Dalasýslu.
D. Sophía, sjá Ísafjarðarsýslu.

*Hjábörn* Lopts með Kristínu Oddsdóttur (mælt er að þau Loptur hafi verið þrímenningar að skyldleika og hafi því eigi mátt eigast):

E. Ólafur átti Guðrúnu dóttur Rafns lögmanns Guðmundssonar, sjá hèr að framan; þeirra börn:
1. Margrèt giptist Hvassafells-Bjarna 1471; hann komst í mál við Ólaf biskup Rögnvaldsson um 1480.
2. Jón sýslumaður, sjá Árnessýslu.
3. Þorgeir[3] í Ögri átti Ólöfu dóttur síra Þórarins á Ósi Sigurðssonar; börn:
a. Guðfinna, kona Ásgeirs Árnasonar, sjá að framan.
b. Erlingur, faðir Jóns undir Múla, föður Ingibjargar og Ingu, er átti Glaumbæjar-Teitur, sjá Barðastrandarsýslu.

---

1) Um ætt Sophíu, sjá Þingeyjarþing.

2) Sjá um ætt Páls Þorvarðarsonar Tímarit mitt 3. B. bls. 49.

3) Þótt í sumum ættartölum sè svo rakið, að Þorgeir faðir Erlings föður Jóns undir Skálmarnessmúla, hafi verið sonur Ólafs Loptssonar, þá er það víst með öllu skakkt; eins getur Þorgeir faðir Guðfinnu konu Ásgeirs eigi hafa verið sonur Ólafs Loptssonar, því Ásgeir var samtíða Þorleifi Árnasyni, þótt eigi væri hann bróðir hans, og þeir skiptust jörðum á, en Þorleifur var faðir Björns ríka er átti Ólöfu dóttur Lopts ríka, systur Ólafs. Ásgeir var því uppi um sömu mundir og Loptur ríki, er eptir því, sem hèr segir, hefði átt að vera langafi Guðfinnu, konu Ásgeirs.

F. Skúli, sjá Húnavatnsþing.
G. Ormur, sjá Snæfellsnessýslu.
H. Sumarliði, sjá Hegranessþing.
I. Þorsteinn Hökulangur, er enn af sumum talinn launson Lopts.

Loptur[1] fór utan ungur, gjörðist konungsmaður og riddari, hafði hann hvítan fálka í skjaldarmerki sínu í bláum feldi. Mælt er, að Loptur, er hann kom inn, hafi hefnt föður síns, en óljóst með hverju móti. Þar eptir tók hann Kristínu Oddsdóttur[2] fyrir fylgikonu; hún var ríkra manna; gipti hann

---

1) Um Lopt ríka ganga ýmsar sögur, sumar víst sannar, en sumar ósannar. Áður en hann kvæntist, hefir hann í nokkur ár staðið fyrir búi ríkrar ekkju á Austurlandi, er hèt Guðrún Haraldsdóttir, án efa af ætt Oddverja; það þótti þá upphefðar vegur, að vera sveinar ríkismanna og hafa reikninga þeirra á hendi, og eins að standa fyrir búum ríkismanna ekkna, enda vöndust þeir með því að sjá um stórbú fyrir sjálfa sig síðar, og fengu þar að auki stórgjafir hjá þeim, er þeir fóru frá þeim, ef þeim hafði líkað vel við þá; þannig var það með Ólaf yngra Tóna, að hann í nokkur ár stóð fyrir búi Ólafar Loptsdóttur og hafði reikninga hennar á hendi, en er hann fór frá henni, gaf hún honum í þjónustulaun Rauðamel, er þá var höfuðból, og þar bjó Ólafur síðan, eins gaf hún Jóni Erlingssyni Skálmarnessmúla í þjónustulaun. Þegar Loptur fór frá Guðrúnu, gaf hún honum í þjónustulaun jörðina Efradal (er nú kallast Stóridalur) undir Eyjafjöllum. Það virðist nú auðsætt, að hafi Loptur siglt og þjónað konungi, hefir það verið eptir að hann kom frá Guðrúnu. Sögnin um það, að hann hafi hefnt föður síns, er hann kom inn, er án efa getgáta tóm, byggð á því, að faðir hans hafi verið veginn, er menn engan fót hafa fyrir að verið hafi.

2) Það er ólíklegt, að þau Loptur og Kristín hafi verið svo skyld sem hèr er sagt, eður að hann hafi haldið fast við hana, eptir að hann giptist Ingibjörgu, því hefði hann þannig legið í hórdómi og það með kvennmanni svo skyldum sèr, þá mundu biskuparnir hafa notað sèr þvílíkt til að pína fè út af honum, en það finnst hvergi, að þeir hafi lagt nokkrar slíkar fjárpint-

hana síðan þeim helzta sveini sínum, er hún kaus sèr; átti hún til giptingar 2 hndr. hundraða. Sjálfur giptist og Loptur þar eptir Ingibjörgu, hèlt þó við Kristínu eptir sem áður, og orkti til hennar háttalykil. Sveinn Lopts sá, er fèkk Kristínar, hèt Höskuldur[1] og átti 2 hndr. hundraða til konumundar, útvegaði Loptur honum sýsluvöld þar eptir. Þá er plágan mikla kom til Íslands 1402, varð hinn mesti mannfellir; þá var Loptur orðinn höfðingi mikill, og eg meina valdamaður, en óljóst í hverjum sýslum; mun hann þá hafa náð töluverðum eignum, bæði í fasta og lausa gózi, átti hann og eigi all-lítið arfafè eptir foreldri sín og Jón bróður sinn, sem dó í sömu plágu; gjörðist hann því hinn auðugasti maður og fèkk þar af viðurnafnið Ríki. Jafnvel þó orðið «ríki» þýddi í gamla daga sama og sá, er hafði mikil völd, meina eg það á þessum stað liti til auðs Lopts, því ekki hafði hann völd fremur mörgum öðrum; þó er mín meining, að hann hafi við og við haft sýsluvöld hèr og hvar, en eigi verður það með fullum rökum sannað; líkast er til, að hann hafi haft Vaðlaþing, þá er hann var nyrðra, máske stundum sem umboðsmaður Rafns lögmanns Guðmundssonar, og fyrstur er hann dómsmanna talinn 1420, þá er Rafn lèt dóm ganga að Hrafnagili; en á seinni árum Lopts meina eg að hann hafi haldið Vaðlaþing, þá er hann var meira nyrðra að staðaldri. Þess er getið, að 1430 veitti

---

ingar á hann, heldur var hann einlægt í mestu metum og kærleikum hjá þeim; þannig veittu þeir bæði honum sjálfum ýms umboð og líka öðrum fyrir bænarstað hans og konu hans, eins nefnir Jón biskup Vilhjálmsson hann, er hann minnist á hann, sinn elskulega vin; það virðist og sem flestir, ef eigi allir launsynir hans hafi verið eldri, en skilgetnu börnin; Sophia dóttir hans var eigi komin af ómagaaldri, er hann dó. 1388 keypti Arnfinnur Þorsteinsson að Kristínu Oddsdóttur erfðahluta hennar í jörðunni Hálsi í Svarfaðardal, og árinu áður að bróður hennar Helga Oddssyni erfðahluta hans í sömu jörðu; þetta virðist lýsa því, að Kristín eigi hafi verið rík, áður en hún komst í kunningskap við Lopt, en það má vel vera, að Loptur hafi gefið henni talsvert fè til giptingar.

1) Um Höskuld þennan veit eg ekkert.

Jón biskup Vilhjálmsson Lopti Sauðaness stað um 3 ár, en Laufás Helga Bjarnasyni[1] fyrir bón Lopts og Ingibjargar konu hans, og að Loptur gjörðist Hóla ráðsmaður 1432, einnig á útbúum staðarins um Fljót og Skaga; en Loptur skyldi leggja 10 hndr. fyrir kostnað, er hann og menn hans gjörðu; þótti þá svoddan ráðsmennska hverju embætti í sýslum æðri. Um spásögn Lopts, þá er hann var á Skarði nálægt 1413, og barneign Ólafar dóttur hans, sjá Dalasýslu. Loptur hafði fyrir sagt, að Illugi, þá drengur, er var í prikaleik við önnur ungmenni og sló í fót Lopts, mundi gjöra sèr fleira til móðs áður lyki. Ekki er þess getið, að Loptur væri viðriðinn mál Jóns biskups Geirrekssonar og Þorvarðar sonar síns. Loptur varð eigi mjög gamall, andaðist hann á ferð í litlu og slæmu koti. Hann hafði það í venju, að ríða millum stórbúa sinna með 18 og stundum fleiri sveina; er mælt, að hann hafi átt 80 stórgarða. Loptur hafði gefið frillusonum sínum 9 hndr. hundraða, en ektabörn hans fengu í sinn hlut: þeir bræður Þorvarður og Eiríkur hvor 13 hndr. hundraða[2] í jörðum, Ólöf og Sophía hálft áttunda hndr. hundraða hvor; tjáist þó Sophía hafa orðið varhluta í skiptum. 20 fjórðungar smjörs voru lagðir í hundrað hvert, og fèkk hvor bræðranna þar í 76 hndr., en hvor systir 38 hndr. Í virðingargózi komu 2 hndr. hundraða í bróðurhlut; var það sumt á Möðruvöllum, sumt á Sjávarborg, sumt í Hlíð, sumt á Másstöðum, stórbúum hans; en Skarð á Skarðsströnd hafði hann þá afhent dóttur sinni Ólöfu, er þá bjó þar. Er eigi ólíklegt, að hann hafi um tíma haft nokkur sýsluvöld þar, er stórbú hans voru. Loptur dó 1436 og Ingibjörg kona hans sama ár, sjá skiptabrèf Lopts.

---

1) Helga Bjarnarsyni er víst rèttara.

2) Það sem hèr er sagt um það, hve mörg hundruð í jörðum hvert af hinum skilgetnu börnum Lopts hafi fengið í erfðahluta sinn, er auðsjáanlega tekið úr Árbókunum, en það, sem stendur í skiptabrèfi Lopts hèr seinna, er án efa hið rètta. Að Sophía hafi orðið út undan í skiptunum, er víst engin ástæða til að halda; eins og áður hefir verið getið, var Sophía á ómaga aldri, er foreldri hennar dóu, og þótti þá eigi farið sem rèlegast með eigur hennar (sjá Þingeyjarþing).

SKIPTABRÈF EPTIR LOPT RÍKA

Öllum góðum mönnum, sem þetta brèf sjá eða heyra, senda Höskuldur Runólfsson, Árni Einarsson, Ólafur Loptsson, Magnús Jónsson, Þorsteinn Höskuldsson og Einar Árnason kveðju guðs og sína, kunnigt gjörandi, að árum eptir guðs burð MCCCCXXXVII (aðrir 1436) á Möðruvöllum í Eyjafirði vorum vèr í dóm nefndir af Þorvarði Loptssyni og Ólöfu Loptsdóttur, að virða peninga og skipta á milli þeirra allra saman, Þorvarðs, Eiríks, Sophíu og Ólafar, eptir Lopt bónda Guttormsson og Ingibjörgu Pálsdóttur móður þeirra. Handlögðu þau Þorvarður og Ólöf, að halda það lagaskipti, sem vèr fyrgreindir menn skiptum þeirra á millum. Reiknuðust svo miklar fasteignir, að Þorvarður hlaut í sitt hlutskipti hálft tólfta hundrað hundraða, Eiríkur bróðir hans hlaut annað jafnmikið, en Ólöfu í sinn hlut fimm hundruð hundraða og níutíu hundruð, þar til Sophíu annað jafn mikið. Svo mikið virðingarfè virtist á Möðruvöllum í Eyjafirði, í Hlíð, á Sjávarborg, á Másstöðum í Vatnsdal, að Þorvarður hlaut tvö hundruð huudraða og hálfan þriðja tug hundraða í sitt hlutskipti, Eiríkur bróðir hans eins mikið, en Ólöf hlaut eitt hundrað hundraða í virðingargózi og hálft þrettánda hundrað, en Sophía annað jafn mikið. Hlotnaðist svo mikið í smjörum, virt til kúgilda, XX fjórðungar fyrir hvert hundrað. Þorvarður hlaut þar af sjötíu hundruð og tólf hundruð, Eiríkur bróðir hans jafn mikið, Ólöf XXX hundruð og VI hundruð, þar til Sophía annað jafn mikið o. s. frv.

### Þorvarður Loptsson.

*Faðir*: Loptur ríki Guttormsson, nýnefndur.
*Móðir*: Ingibjörg Pálsdóttir.
*Kona*: Margrèt dóttir Vigfúsar hirðstjóra Ívarssonar Hólms[1];

---

1) Faðir Vigfúsar Hólms var Ívar Hólmur Vigfússon, hans faðir Vigfús Hólmur Ívarsson, og hans faðir Ívar Hólmur Jónsson — hann kallast í Árbókunum við árið 1307 ranglega Vigfússon —, er átti Ástu Klængsdóttur Teitssonar, en Teitur var hálfbróðir Gissurar jarls. Kona Vigfúsar Hólms yngra og móðir Margrètar var Guðríður Ingimundardóttir. Í Árbókunum stend-

þau giptust að Brautarholti á Kjalarnesi, eptir sumra sögn 1436, en eptir annara ritum 1433, er eg held rèttara. Margrèt dó 1486.

---

ur, að 1405 hafi komið út með hirðstjórn Ívar Hólmur Vigfússon og kona hans Guðríður, og hafi bæði verið 15 vetra, og sumstaðar annarstaðar stendur eins; en þetta er með öllu skakkt, og hitt án efa rètt, er stendur í annálum Á. M., að 1403 hafi Vigfús komið út með hirðstjórn og Guðríður Ingimundardóttir kvinna hans norsk, 15 vetra gömul; því eins og það er óhugsandi, að maður 15 vetra gamall hafi verið gjörður að hirðstjóra, eins er engin ástæða til að álíta, að orðin 15 vetra gömul svari nema til Guðríðar einnar. Vigfús var hirðstjóri bæði undan og eptir, og getur hans sem hirðstjóra fyrst í annálum 1390, en Ívars Hólms Vigfússonar föður hans 1351, og kom hann þá út með sýsluvöld. Eptir brèfi nokkru, gjörðu á Englandi, hefir kona Ívars og móðir Vigfúsar heitið Margrèt; er það án efa hústrú Margrèt Össurardóttir, er getur í íslenzkum annálum, og sem gaf Brautarholtskirkju skóg uppi í Skorradal, er við hana er kenndur; kona Vigfúsar nefnist þar Guðríður og börn þeirra Ívar (án efa, sem fyr sagt, faðir Bjarna fyrra manns Sophíu, systur Þorvarðar) Eðmundur (= Guðmundur?), Erlendur, Þorlákur, Setzelja, Úlfríður, Margrèt og Ingiríður; barna þessara hef eg eigi annarstaðar sèð getið, utan Ívars og Margrètar, og Þorlákur mun án efa vera sá Þorlákur Vigfússon, er í deilum átti við Jón nokkurn Ófeigsson út af eigum Guðrúnar eða Guðríðar Sæmundsdóttur konu Jóns, en seinast, er Vigfús sigldi burt af landinu, beiddi hann konu sína fyrir hana og kallar hana frændstúlku sína, því hún ætti fè hjá sèr. Þorvarður og Margrèt giptust í Brautarholti 1436 (ekki 1433), sunnudaginn fyrstan í vetri; var hústrú Guðríður, móðir Margrètar, hennar giptingarmaður; taldi Þorvarður sèr garðinn að Eyðum í Fljótsdalshèraði og þar til 6 hndr. hundraða í jarðagózi og 4 hndr. hundraða í lausagózi; hèr í mót hafði hústrú Margrèt jörðina Hlíðarenda í Fljótshlíð, og þær jarðir, er þar til lágu, fyrir 3 hndr. hundraða, 1 hndr. hundraða kúgilda og 3 hndr. hundraða í virðingargózi og sæmilegum gripum; gaf Þorvarður henni 60 hndr. í tilgjöf og 1 hndr. hundraða í bekkj-

*Börn:* 1. Ingibjörg, er átti Páll á Möðruvöllum, son Brands lögmanns Jónssonar (sjá hèr síðar).
2. Ragnhildur, er átti Bjarni sýslumaður Marteinsson, sjá Múlasýslu.
3. Guðríður átti Erlend sýslumann Erlendsson frá Kolbeinsstöðum (sjá Rangárþing).

Þorvarður mannaðist vel og var fyrir austan um hríð; gjörðist mikil vinátta með þeim Teiti sýslumanni Gunnlaugssyni í Bjarnanesi og Þorvarði. Er það meining sumra, að Þorvarður þá hafi haft sýslu eystra, helzt í Skaptárþingi, þó er engin vissa þar fyrir. Þá er Jón biskup Geirreksson kom hingað 1430, fylgdu honum margir írskir sveinar, óspektarmenn og meingjörðasamir: þeir tóku suma til fanga og fóru óvirðulega með ríka menn og velborna, fyrir litlar tilgjörðir eða grunsemdir, eða ef þeir þoldu þeim eigi óspektir og yfirgang. Teitur ríki í Bjarnanesi og Þorvarður Loptsson settu sig móti óspektum þeirra og ránum; gátu sveinar biskups fangað þá báða 1432 og flutt til Skálholts í járnum og sett þar í myrkvastofu, lètu þá berja fisk og gjöra hin auðvirðilegustu verk með bríxlyrðum og spotti. Um haustið slapp Þorvarður úr varðhaldinu, eigi getur með hverjum atburðum, en Teitur sat allan veturinn fram á páska 1433. Tveir staðarmenn, sem hans skyldu gæta, urðu þá drukknir og týndu lyklunum að fjötrunum; kona nokkur á staðnum fann þá og færði Teiti, slapp hann þá um nóttina, tók með sèr konuna og gat komizt loks austur í Hornafjörð (konunni gaf hann seinna 20 hndr. jörð og gipti hana ríkum manni). Þorvarður hafði

---

argjöf og 60 hndr. í morgungjöf: var hústrú Margrèt tilskilin málakona, var málinn allur 9 hndr. hundraða: en 1439 lögðu þau Þorvarður og hústrú Margrèt með sèr helmingafèlag að fengnu fè og ófengnu, föstu og lausu, og gáfu hvort öðru, því er lengur lifði, fjórðungsgjöf úr sínum helmingi; þetta helmingafèlag og fjórðungsgjöf úrskurðaði Helgi lögmaður Guðnason nýta og mynduga. Þorvarður hafði 4 stórbú, eitt á Eyðum í Fljótsdalshèraði, annað á Möðruvöllum í Eyjafirði, þriðja á Strönd í Selvogi og fjórða á Hlíðarenda í Fljótshlíð, og reið millum þeirra með sveinum sínum.

flúið norður í Eyjafjörð: sendu þeir um vorið boð sín á millum, að hefna þessarar svívirðu, og mæltu mót með sèr. Magnús kæmeistari í Skálholti, er sumir kölluðu son Jóns biskups Geirrekssonar, var þá fyrir biskups mönnum; hann hafði beðið Margrètar Vigfúsdóttur, og var honum neitað; fèkk Magnús sèr þá lið, bæði biskups menn og fleiri lausingja, fór suður að Kirkjubóli á Miðnesi, þar sem júnkeri Ívar Hólmur og Margrèt systir hans bjuggu, og báru eld að húsum. Ívar Hólmur gekk út, og var þegar skotinn til dauðs, en þeir hugðu að brenna inni Margrèti; en hún fèkk með skærum sínum grafið holu gegnum ofnhúsið í baðstofunni, gat rifið svo stóra holu, að hún komst þar út um nóttina, og flúði: hitti hún þrèvett tryppi og forðaði sèr á því um hríð, til þess er hún fèkk betri fararbeina norður að Möðruvöllum til Þorvarðar, eggjaði hann hefnda, og kvaðst engan vilja eiga annan en þann, er hefndi bróður síns og fjörráða við sig. Um þetta leyti slapp og Teitur, sem áður er sagt; en þá er Magnús frètti allt þetta, vissi hann sèr hefnda von, fór því um sumarið utan með fyrstu skipum, og er hann úr sögunni. Þeir Teitur og Þorvarður höfðu mælt mót með sèr á Skálholtshamri, kom Teitur að austan og Þorvarður að norðan á sjálfa Þorláksmessu, því þeir vissu, að biskup mundi þá heima vera, og er biskup frètti það, mælti hann, að það gilti líf sitt og sinna manna, gekk til kirkju með öllum klerkum sínum og sveinum, lèt læsa öllum dyrum á kirkjunni og staðnum, skrýddist biskup og prestar hans, tók í hönd sèr kaleik og patínu, helgaði oblátu og hèlt á við altarið og kennidómur hans allur kringum hann, hóf síðan upp messu. En er Teitur kom heim með flokkinn, gáfu Norðlendingar sig í ljós, var hvortveggja flokkurinn vopnaður. Báru þeir stór trè og viðu undir undirstokka kirkjunnar, svo hún hallaðist, greiddu þá inngöngu nær 50 hinir öruggustu, gengu snúðugt að altarinu og tóku biskup fanginn, drógu hann óþyrmilega út í stöpulinn, biðu þar meðan hann fèkk sèr svaladrykk, færðu hann síðan til tjalda, lètu hann síðan í poka, bundu stein við og drekktu honum í Brúará. Sveina biskups drápu þeir, hvar þeir náðu, bæði í kirkjunni og annarstaðar, og voru þeir dysjaðir í Íragerði. Þetta bar til, sem áður sagt, 1433 á Þorláksmessu um sumarið. Eptir

þetta stórvirki fór hver heim til sín, og urðu engar hefndir þar fyrir, var og Jón biskup illa kynntur, þó Eiríkur konungur hèldi í hönd með honum. Því get eg þessa, að þvílíkt hefir hvorki áður nè síðar við borið á Íslandi (les hèr um greinilegri sögn í Árb. 2. þ. bls. 30—32). Þetta ár giptist Þorvarður, sem áður er sagt; meinast hann að hafa tekið Vaðlaþing eptir föður sinn nálægt 1436. Getið er þess, að Þorvarður og Margrèt gjörðu með sèr helmingafèlag, og skyldi hún eiga fjórðungsgjöf úr fè hans, ef hún lifði hann. Þorvarður varð eigi gamall og dó 1446 aðrir 1447[1]; var allt hans

1) 1446 á Jónsdag postula um vorið á Möðruvöllum í Eyjafirði gengu lagaskipti á með hústrú Margrèti og dætrum hennar um arf og peninga eptir Þorvarð Loptsson; var Eiríkur Loptsson fyrir barnanna hönd, var þá öllum peningum skipt í helminga, föstum og lausum, fríðum og ófríðum, annar helmingur til eignar börnum Þorvarðar skilgetnum, en annar helmingur hústrú Margrèti til eignar; reiknaðist jarðagóz það, er börn Þorvarðar fengu 10 hndr. hundraða og 40 hndr., voru þar í reiknaðir hálfir Möðruvellir, Vatnsendi, Jökull, Halldórsstaðir, Tjarnir, Torfufell, Villingadalir tveir, hálfur Leyningur, Skáldstaðir, Brekka. Nes, allar í Eyjafirði: á Svalbarðsströnd 3 jarðir, Sigluvík, Geldingsá, Halland, item jarðagóz á Austfjörðum, 5 hndr. hundraða og 47 hndr. Item í annari grein reiknaðist hústrú Margrèti í sitt hlutskipti hálfir Möðruvellir, Ánastaðir, Öxnafell, Rúgstaðir, Bringa, Þrömur, Garðsá, Hólar tvennir, Svertingsstaðir, Brekka, Þórustaðir, Kaupangur, Hafurstaðir, — er þannig ritað — Leifsstaðir, allar í Eyjafirði: Veigastaðir á Svalbarðsströnd, Veturliðastaðir í Fnjóskadal, Ytri-Tunga í Bárðardal, Ásláksstaðir í Kræklingahlíð, Egilsá og Þorbrandsstaðir í Norðurárdal í Skagafirði; item jarðagóz sunnanlands, Hlíðarenda eignir. er reiknuðust fyrir 3 hndr. hundraða og 50 hndr., 20 hndr. í Reykjum, 14 hndr. í Núpum í Ölvesi, 12 hndr. í Munaðarnesi í Borgarfirði; reiknaðist þetta jarðagóz 10 hndr. hundraða og 11 hndr., lögðust hèr til 29 kúgildi til jafnaðar við það jarðagóz. er börn Þorvarðar hlutu í sitt hlutskipti. Item reiknaðist hèr til fríðir peningar, kúgildi, hestar, hross, alls 9 hndr. hundraða og 60 hndr., item virðingar-

lausafè þá 13 hndr. hundraða og 20 hndr. betur, en jarðir allar að auk. Margrèt fèkk alls 10 hndr. hundraða og 11 hndr. og 29 kúgildi, bjó hún þar eptir á Möðruvöllum lengi, ól upp dætur sínar og gipti þær allar í einu 1460. Á sínum elliárum virðist sem Margrèt hafi lagt af sèr búskap við dótturmann sinn Pál Brandsson. Að Þorvarður hafi verið yfirgangsmaður, sèst af því, að hirðmaður Christophers konungs, Pètur Pètursson íslenzkur maður, klagaði, að Þorvarður Loptsson meðan hann lifði og síðan hústrú Margrèt kona hans hèldi fyrir sèr með ofríki 9 jörðum; gaf konungur honum brèf sitt til allra yfirvaldsmanna á Íslandi 1447, að Pètur mætti jarðirnar að sèr taka, ef hústrú Margrèt sýndi ekki löglegt skilríki, er leggja skyldi undir 6 manna dóm, innan mánaðar að heyrðu brèfinu, fyrir eign sinni eða dætra sinna á tèðum jörðum. Má ætla, að kotungum hafi þá verið örðugt að ná rètti sínum, er konungs hirðmanni veitti það bágt. Eigi er ritað, hver lok urðu þessa máls.

## Eiríkur sljó eða slógnefur.

*Faðir:* Loptur ríki Guttormsson (sjá að framan).
*Móðir:* Ingibjörg Pálsdóttir.
*Kona:* Guðný dóttir Þorleifs Árnasonar (sjá Ísafjarðarsýslu).
*Börn:* A. Þorvarður, aðili Krossreiðar, er hann varð útlægur fyrir; ekki getur konu hans nè barna.

---

góz í gulli og silfri 3 hndr. hundraða, 20 hndr. í dýrum klæðnaði, 1 hndr. hundraða í reflum og borðbúnaði, sængurklæðum, kötlum, tygjum, harðneskjum og öðru þarflegu gózi, og hèr að auk 80 hndr. í virðingargózi. Í Austfjörðum reiknuðust þessir peningar fríðir og ófríðir og virðingargóz 6½ hndr. hundraða og 5 og hálfur tugur hundraða í hvorn helming fyrgreindra manna: hústrú Margrètar Vigfúsdóttur og barna Þorvarðar Loptssonar bónda hennar. Þetta verður í helming 31 hndr. hundraða og 75 hndr.; en það virðist sem hústrú Margrèt hafi fallið frá fjórðungsgjöfinni, er til skiptanna kom, því eptir skiptabrèfinu hefir jörðum þeim, er hún kjöri sèr, verið skipt erfingjunum.

B. Ragnheiður[1] var gipt Magnúsi bónda Jónssyni, er veginn var á Krossi í Landeyjum nálægt 1474, rèttara mun 1471.

C. Þóroddur[2] faðir Guðrúnar, móður Steins og Þorvarðar.

*Launbörn* Eiríks teljast þessi:

D. Sumarliði, hann festi 1468 Guðrúnu Árnadóttur í Kalmannstungu; 1470 seldi hann Kollabæ[3]. Sum-

---

1) Þótt í mörgum ættartölum standi, sem hèr, að Ragnheiður Eiríksdóttir, er átti Magnús á Krossi, hafi verið dóttir Eiríks Loptssonar, þá er það víst eigi rètt, heldur er hitt sennilegra — þó eigi víst —, er stendur í nokkrum ættartölubókum, að hún hafi verið af Sumarliðaætt, er svo nefndist og var fyrir suðaustan, því hún giptist aptur Þorsteini syni Helga lögmanns Guðnasonar, og þeirra son var Eiríkur á Keldum, faðir Steinunnar, er Þorleifur lögmaður Pálsson átti; hefði Ragnheiður nú verið dóttir Eiríks Slónefs, hefðu þau hjónin Þorleifur lögmaður og Steinunn verið þrímenningar og því eigi mátt eigast, þar eð móðir hans var Solveig Björnsdóttir og hennar móðir Ólöf ríka, systir Eiríks Loptssonar. Auk þessa erfðu Guðnýju Þorleifsdóttur systkin hennar, er lýsir því, að hún ekki hefir átt skilgetið arfgengt afkvæmi.

2) Þóroddur þessi hefir án efa verið óskilgetinn, frá honum verður nú eigi rakið.

3) Það sem hèr stendur um sölu Sumarliða á Kollabæ og Stóradal, er eigi með öllu rètt. Eins og áður er sagt, hafði Loptur Guttormsson fengið í þjónustulaun hjá Guðrúnu Haraldsdóttur Efradal eða Stóradal, og hann seldi aptur Sumarliði Þorleifi Björnssyni; nú var Efridalur 1475 dæmdur af Þorleifi Helga Teitssyni, því Helgi hafði fengið hann sèr dæmdan af Guðrúnu; en ef Efridalur gengi af Lopti, átti hann að fá það, er fyrir kæmi, og hafði Kollabær verið virtur upp í verðið fyrir Efradal; þess vegna var Þorleifi, um leið og Efridalur var dæmdur af honum, dæmdur aðgangur að Kollabæ, og hann fèkk því sama árið eða 1475 sèr dæmdan Kollabæ, því Guðmundur nokkur Eiríksson, er þá hèlt hann, gat eigi sýnt næg skilríki fyrir honum.

arliði var laungetinn; nálægt 1473 lýsti hann Svein son sinn lögarfa eptir Eirík Loptsson föðurföður sinn og 1479 galt Sumarliði Þorleifi hirðstjóra Stóradal undir Eyjafjöllum. Sýnist þá sem hann hafi haft sýslu af Þorleifi. Börn Sumarliða:

1. Sveinn átti Guðríði dóttur Finnboga lögmanns 1485, þeirra dóttir Guðrún, dó ógipt barnlaus. Sveinn dó 1494. 1496 seldi Guðríður Finnboga föður sínum Grund í Eyjafirði.
2. Síra Eiríkur í Saurbæ, sem klagaði upp á þau góz, er Guðrún Sveinsdóttir erfði eptir föður sinn, bróður síra Eiríks, en Guðríður Finnbogadóttir erfði síðan eptir dóttur sína Guðrúnu Sveinsdóttur. Í þeim málum fór Eiríkur prestur utan og afflutti mjög Finnboga lögmann, svo hann missti lögmannsembættið.

E. Guðrún fór utan ung til Noregs, hèlt þar við hana Gottskálk Nikulásson[1], er síðar varð biskup á Hólum; þeirra börn:

1. Oddur lögmaður, og nokkrir segja
2. Guðrún, er Gissur biskup ætlaði að eiga, hafi verið þeirra dóttir. En eptir það að Gottskálk biskup settist að Hólum, hèlt hann við Valgerði Jónsdóttur frá Mannskaðahóli, því telja sumir Odd og Guðrúnu hennar börn[2].

Eiríkur bjó á Grund í Eyjafirði og var ríkur höfðingi, en óvíst er, hvort hann hefir haft völd. Hann var óhlutdeilinn. Hann stóð fyrir giptingarskilmálum Margrètar Ólafsdóttur, þá

---

1) Gottskálk biskup Nikulásson var bróðurson Ólafs biskups Rögnvaldssonar; áður en hann varð biskup, hafði hann verið prestur hèr á landi, og stundum í förum. Fylgikonur hans voru fyrst, eins og hèr er sagt, Guðrún og síðan, líklega eptir að Guðrún var dáin, Valgerður.

2) Kristín var enn dóttir Gottskálks biskups, hana átti fyr Þorvarður lögmaður Erlendsson, en seinni maður hennar var Jón sýslumaður Einarsson á Geitiskarði.

er hún 1471 giptist Hvassafells-Bjarna og kaus hana málakonu. Hann var utanlands, þá er Krossreiðarmálið tilfèll.

### Brandur Jónsson[1].

*Faðir:* Síra Jón á Grenjaðarstað officialis Pálssonar.
*Móðir:* Þórunn dóttir Finnboga gamla í Ási.
*Börn:* A. Páll á Möðruvöllum sýslumaður (sjá hèr síðar).
B. Steinn átti Þórunni Skúladóttur Loptssonar ríka (sjá Húnavatnsþing). Börn:
1. Solveig[2] átti Einar Brynjólfsson á Stórhóli; þeirra börn:
a. Sigríður.
b. Málmfríður.
2. Guðný átti Arnfinn[3] í Auðbrekku; börn:
a. Oddur[4].
b. Guðmundur.

---

1) Föðurætt Brands lögmanns er án efa með öllu óviss; að vísu kvað Árni Magnússon hafa skrifað, að hann hafi verið son Jóns Arnfinnssonar riddara, eins og eg hefi getið um í Tímariti mínu: en bæði hefir Hannes biskup efast um þetta, og eins gæti það þá eigi staðizt, að þeir bræður Arnfinnur sýslumaður Jónsson og Finnbogi hefðu verið synir Jóns Finnbogasonar og Steinunnar Arnfinnsdóttur, sem eg þó held, að rètt sè: eg held það og með öllu óvíst, að Brandur lögmaður hafi átt nokkurn bróður, er Finnbogi hafi heitið.

2) Kona Einars Brynjólfssonar var Solveig Grímsdóttir, sjá Þingeyjarþing.

3) Sjá um Arnfinn þennan hèr síðar. Þau dóu bæði í plágunni 1495.

4) Oddur Arnfinnsson stóð reikningsskap af Bakkakirkju í Öxnadal Jóni biskupi Arasyni, hans börn:
a. Jón.
b. Þorgrímur.
Þeir seldu síra Birni Gíslasyni Bakka.
c. Halldór átti Guðrúnu Gunnarsdóttur Gíslasonar.
d. Guðmundur, hans son Arnfinnur í Bæ við Hrútafjörð.

3. Þorgerður.
4. Örnólfur laungetinn, hans son Þorvarður.

C. Guðrún barnamóðir síra Guðmundar Skúlasonar Loptssonar ríka (sjá Húnavatnsþing).

D. Þorleifur (aðrir Þorbjörn) faðir Jóns (sjá Borgarfjarðarsýslu).

E. Sigmundur[1].

F. Steinunn.

Brandur tjáist að hafa búið á Hofi á Höfðaströnd, og verið maður trúrækinn, góðgjarn og rèttdæmur. 1433 átti hann í máli við Magnús Benediktsson um kirkjufè á Hofi. Nálægt 1450 mun hann hafa haldið Vaðlaþing og þar eptir. Dómur hans finnst á Lönguhlíð í Hörgárdal 1456 (aðrir 1455) um ættleiðing Sigurðar príors á Möðruvöllum. Áður hafði Brandur farið utan, en hvort hann þá hefir sleppt sýslunni eða haldið umboðsmann, er óljóst. Brandur gjörðist lögmaður nálægt 1454 norðan og vestan, og er mælt, að hann hafi sýslunni haldið til 1479 eða nálægt þeim tíma: voru þá börn hans orðin roskin og gipt, sjálfur var hann enn að Hofi á Höfðaströnd. 1463 lèt hann dæma biskupi alla skatta og skyldur um Skagafjörð. 1464 (aðrir 1467) fèkk Björn hirðstjóri Þorleifsson Brandi Bæ í Súgandafirði í lögmannskaup: þá jörð gaf hann Sigmundi launsyni sínum. Orsökin til þess, að Brandur vildi eigi vera lengur við lögsögu, segir Björn á Skarðsá hafi verið sú, að nábúi Brands hafi orðið fyrir illmæli, hitti Brand og sagði honum frá, þá er Brandur gekk til kirkju, og spurði hann ráða. Brandur, er var í guðrækilegum hugsunum, svaraði: «hvað viltu gjöra honum? skerðu úr honum tunguna». Maðurinn gjörði svo, en Brandi þótti svo illt þetta athugalausa svar sitt, að ekki fèkkst af honum lengur að vera við lögsögu; kom þó bótum fyrir manninn, sagði Finnboga bróður sinn hafa nóg vit til lögsagnar o. s. frv. Líkast er, að Brandur hafi sleppt Vaðlasýslu til Páls sonar síns eða haft hann

---

e. Helgi er af sumum enn talinn son Odds, hans dóttir Ingibjörg kona Jessa í Ketu á Skaga.

1) Sigmundi gaf faðir hans Brandur Jónsson Bæ í Súgandafirði.

áður fyrir umboðsmann sinn. Marga dóma lèt Brandur ganga og þóttu flestir rèttir. Brandur hèlt Hegranesþing að og meina fyrst í umboði Torfa Arasonar, svo sjálfur að veitingu til 1460, að hann sleppti því til Ólafs biskups, og máske um það leyti haldið Vaðlaþing. Þá bjó hann í Lögmannshlíð. Um 1480 flutti hann að Mýrum í Dýrafirði og dó þar 1490 eða seinna. 1468 lèt hann dóm ganga um rètt og ráðspjöll Guðrúnar Erlingsdóttur. Það ár var og heitdagur af honum settur.

### Páll Brandsson.

***Faðir:*** Brandur lögmaður Jónsson nýnefndur.

***Kona:*** Ingibjörg dóttir Þorvarðar á Möðruvöllum Loptssonar ríka og Margrètar dóttur Vigfúsar hirðstjóra Ívarssonar Hólms. Þau Ingibjörg og Páll giptust á Möðruvöllum 1460, undir eins og Ragnhildur og Guðríður dætur Þorvarðar og Margrètar.

***Börn:*** A. Benedikt.
B. Bjarni.
C. Grímur laungetinn (sjá um hann Þingeyjarþing).

Þá er Páll var ungur, mannaðist hann vel og þótti einhver hinn helzti af uppvaxandi mönnum, fèkk því nefnt giptumál með miklum auð og átti með konu sinni áður tèða tvo syni. Líkast er, að Brandur lögmaður hafi afstaðið Vaðlasýslu til sonar síns Páls, er bjó á Möðruvöllum, og hafi Páll því haft þá sýslu um hríð nálægt 1460 og um 1489, þá er hann eptir dómi Höskuldar Árnasonar hafði sem sýslumaður að sèr tekið hálfa peninga Hvassafells-Bjarna. Þessi Höskuldur mun hafa verið lögsagnari þar í sýslunni. Páll var mikill höfðingi og vildi fyrir frændsemis og tengdasakir viðhjálpa Bjarna Ólafssyni á Hvassafelli. Ólafur faðir Bjarna var Bjarnason og ættingi Páls[1] bónda, en Margrèt kona Hvassafells-Bjarna og Ingibjörg, kona Páls, voru bræðradætur[2]. Hvassafells-Bjarni giptist 1471, en áður hafði hann átt dóttur, er Randíður hèt; komst það orð á, að hún hefði sèzt nakin hjá honum í sæng-

---

1) Hvernig þeir Ólafur og Páll hafi verið skyldir, veit eg ekki.
2) Margrèt gaf Ingibjörgu fjórðungsgjöf úr fè sínu.

inni og fleira þess háttar. Bjarni var auðugur, en Ólafur biskup Rögnvaldsson sat þá að Hólum og var mjög fègjarn. Honum þótti vel bera veiði í hendur. og lèt fanga Bjarna og setja í járn hèr um bil 1480; óljóst er, hverjar aðrar pintingar Bjarni leið. Loks varð Bjarna þröngvað til að meðganga, að hann hefði haft samræði við dóttur sína Randíði, og að það hefði verið svo opt, að hann myndi það eigi. Gekk hann undir skriptir og lausn við biskup og var síðan laus látinn; Randíður vildi ekkert meðganga og bar sig undan með tylftareiði fyrir Rafni lögmanni Brandssyni, í hvers skjóli hún þá var. Hèlt Rafn þá í hönd með þeim Bjarna og Randíði, og var hann því bannsunginn af biskupi. Fleira bar þeim og til sundurlyndis; biskup bannfærði á ný Hvassafells-Bjarna fyrir það, að hann eigi hèlt skript þá, er biskup setti honum, lèt biskup og dæma fè hans hálft undir Hólakirkju 1484, en náði því eigi að heldur, því eptir fráfall Rafns lögmanns var Hvassafells-Bjarni undir skjóli Páls bónda Brandssonar; hafði þó Páll um það leyti eigi sýslu í Vaðlaþingi, en varði fè Bjarna, til þess Ólafur biskup gat komið 1492 hirðstjóranum Ambrosius Illiqvod inn í málið. Vildi þó Páll bóndi með mannfjölda (110 vopnuðum mönnum) og mörgum hugmóðsorðum verja fè Bjarna, en fèkk ekki aðgjört. Náðu þeir þá tvennum 80 hndr. í jörðum, en litlu lausafè. 1468 stóð Páll fyrir sáttmála við Ólaf biskup Rögnvaldsson vegna Jóns prests Pálssonar afa síns[1]. 1494 kom plágan mikla og gjörðist mannfall mikið; þá dó Ingibjörg á Möðruvöllum, kona Páls Brandssonar, og nokkru seinna synir þeirra skilgetnir, Benedikt og Bjarni: erfði þá Páll sonu sína, en dó sama haustið 1494, því þá lagði Grímur launson Páls lög og dóm fyrir fè Páls vegna ektaborinna sona sinna, urðu þar af miklar og langvinnar erfðaþrætur (sjá Þingeyjarþing). Á þessum árum hafa verið í Vaðlaþingi miklu fleiri sýslumenn, en hèr greinir, máske sumir þeirra eigi annað en umboðsmenn þeirra, er sýsluna hèldu, t. a. m. Höskuldur Runólfsson, Runólfur Höskuldsson og Árni

1) Eins og áður hefir verið sagt, var ekki Páll sonarsonur síra Jóns Pálssonar.

Höskuldsson, er Ólafur biskup fèfletti með fyrirbornum kirkjureikningum og fleiri ríkismenn.

### Rafn lögmaður Brandsson hinn fyrri.

(Sjá um hann við Húnavatnsþing). Hann meina eg að hafi haldið Vaðlaþing um hríð nálægt 1470. Þó er þar fyrir eigi fullvissa, hefir hann kann ske haldið hana hálfa; og þó eigi í sífellu, heldur nokkur ár í senn eptir 1479.

### Jón Sigmundsson.

(Sjá um hann við Húnavatnsþing). Hann hefir tekið Vaðlaþing nálægt 1480, því 1481 lætur hann dóm ganga í Saurbæ í Eyjafirði um það, hver vera skyldi afhendingamaður á peningum Hvassafells-Bjarna. Dæmdu þeir, að Margrèt kona hans, skyldi fyrst hafa mála sinn, svo skyldi sýslumaður annast aðra peninga Bjarna. En um þetta leyti hefir Jón sleppt sýslunni, og ef til vill eigi haft hana nema þetta eina ár; því Magnús hèlt hana næstum missiri eptir. Þar eptir heimti Jón saman biskupstíundir af Vaðlaþingi eptir það að hann tók Húnavatnsþing, hafði þó eigi utan Svarfaðardalstíunda umboð árin 1496, 1497, 1498 og 1499, sem kvittun Guðmundar officialis sýnir, útgefin 1499 fyrir 4 ár. Hann hefir og varla haft utan hálfa Vaðlasýslu 1481, eða ekki verið utan umboðsmaður Finnboga lögmanns.

### Finnbogi lögmaður.

Sjá um hann við Þingeyjarþing. Hann hefir haldið Vaðlasýslu annaðhvort hálfa eða alla 1481, því hann lætur þar þá 12 manna dóm ganga sem konungsumboðsmaður (sjá hèr síðar).

### Magnús Þorkelsson[1].

*Faðir:* Síra Þorkell í Laufási Guðbjartsson, prests sama staðar, Ásgrímssonar, Guðbjartssonar, Vermundarsonar Kögurs. Ættin er þannig talin ofan eptir frá Þorsteini syni Egils Skallagrímssonar: Helga væna var

1) Um föður- og móðurætt Magnúsar Þorkelssonar, sjá Þingeyjarþing.

gipt Þorkeli í Hraundal Hallkelssyni og Þuríðar Dyllu; þeirra son: Haukur faðir Steins, faðir Vermundar, föður Loðins, föður Vermundar Kögurs. Oddur Þorkelsson mun hafa verið bróðir Magnúsar og lögrèttumaður, átti hann Guðrúnu systur Eyjólfs riddara Arnfinnssonar á Grýtubakka.

*Móðir*: Þórdís Sigurðardóttir, lögmanns frá Svalbarða Guðmundssonar, en móðir Þórdísar var Solveig, dóttir Magnúsar á Svalbarða Brandssonar, Eiríkssonar, Einarssonar, Guðmundarsonar Dýra.

*Kona*: Kristín dóttir Eyjólfs riddara Arnfinnssonar.

*Börn*: A. Jón á Svalbarða átti fyr Ragnheiði «á rauðum sokkum», dóttur Pèturs Loptssonar Ormssonar Loptssonar ríka (sjá Strandasýslu).

B. Árni.

Magnús mannaðist vel og bjó á Skriðu í Reykjadal, og hafði umboð föður síns yfir Laufásstað, en afhenti hann föður sínum og tók kvittun fyrir umboðið 1478, en 1479 fær Magnús aptur nefnt umboð hjá föður sínum. Um þetta leyti voru skærur þeirra Magnúsar og Rafns lögmanns Brandssonar út af arfaþrætum; sóttu þeir hvor annan með vopnum á Bakkagötum fram í skóg einn, þar um vitnuðu síra Jón Ólafsson og Tómas Guðmundsson á Grýtubakka 1480 fimmtudaginn í páskaviku, að Rafn og hans menn hefðu fyr höggvið að Magnúsi, og 1481 lætur Finnbogi sýslumaður Jónsson þar um ganga 12 manna dóm, konungdómsins vegna, en Magnús varði sig með því, að hann hefði átt hendur sínar að verja. Sýnist sem Finnbogi hafi þá haft Vaðlaþing líklega hálft móti Jóni Sigmundssyni, eða Jón hefir þá eigi verið annað en umboðsmaður Finnboga, sem hafði konungsjarðir í Vaðlasýslu að vísu 1488 (sjá Þingeyjarþing). Ritað er, að Diðrik Píning hafi 1482 skipað Magnúsi Vaðlaþing; skyldi hann sjálfur stefna málum fyrir sig og eignast öll 6 marka mál og þar fyrir innan, hafa fullmakt til að setja umboðsmenn fyrir sig, en skila skattinum til Bessastaða. Sýslubrèfið er skrifað í Grundarfirði miðvikudaginn fyrir Ólafsmessu seinni 1482. Óviss er eg, hversu lengi Magnús hèlt sýsluna, en eigi finn eg þar annan sýslumann talinn en hann, til 1489. Þá hygg eg að hann

hafi sleppt hálfri sýslunni við Þorvarð Erlendsson eða allri, eða Þorvarður hefir þá verið umboðsmaður Magnúsar. Eins er eg í óvissu um, hve nær Magnús dó; en mikilmenni og auðugur var hann. Fyrir 1480 var Magnús í sökum við Scholasticu Magnúsdóttur og Einar Grímsson, sem gáfu honum upp þá sök sama ár. 1477 seldi Árni Þorsteinsson með samþykki konu sinnar Þorbjargar Eyjólfsdóttur svila sínum Magnúsi Þorkelssyni og Kristínu Eyjólfsdóttur konu hans jörðina Grenivík. 1482 sættist Magnús við Guðna bróður Kristínar konu sinnar um það, að Guðni hafði í sezt fè Kristínar systur sinnar, er hún hafði erft eptir föður sinn Eyjólf Arnfinnsson. 1483, þegar síra Þorkell dó, var Magnús sem umboðsmaður barna sinna, er höfðu að þriðjungi erft Þorkel prest, ákærður um fè Laufásskirkju; skyldi hann gjalda í kirkjuspjöll 19 hndr., en 35 hndr. í álag staðarins. Eptir það að Magnús hafði sleppt sýslu, var hann optast fyrstur dómsmaður Finnboga lögmanns 1533 og 1534, og líka í Þingeyjarþingi með Grími sýslumanni Pálssyni 1511 og optar.

## Þorvarður Erlendsson.

(Sjá um hann Árnesþing). Vaðlasýslu hefir Þorvarður haldið 1489, annaðhvort hálfa eða alla, því þá finn eg að hann sem valdsmaður hefir þar látið dóm ganga. Óvíst er, hvað lengi hann hefir haft þar sýsluvöld, þó líklegt sè, að það hafi verið til 1503, þegar hann tók Árnessýslu, en varla hefir hann þá haft utan hálfa Vaðlasýslu, því þar voru fleiri valdamenn á þeim tíma, eða verið umboðsmaður (máske ekki utan það eina ár), því þar eptir gjörðist hann lögmaður og fór á Suðurland.

## Arnfinnur Jónsson.

Hann hygg eg að verið hafi af ætt Eyjólfs riddara Arnfinnssonar, og að þessi Arnfinnur Jónsson sè sá, sem átti Guðnýju dóttur Steins Brandssonar lögmanns Jónssonar og börn Odd og Guðmund (sjá hèr að framan[1]). Arnfinnur Jónsson er

---

1) Og sömuleiðis Þingeyjarþing.
Börn Arnfinns Guðmundssonar, er áður var nefndur, voru:

konungs umboðsmaður í Vaðlaþingi 1492, því það ár á Vatnsenda í Ólafsfirði gefur hann Hákon Jónsson og Þorstein son hans kvitta um allar þær sakir, sem þeir við hann og konungdóminn brotlegir sèu. Aptur árið 1494 fimmtudaginn næstan eptir purificationem Mariæ í Neðri-Lönguhlíð í Hörgárdal var víglýsing, leidd með 5 vottum svarin fyrir konungs umboðsmanni í Vaðlaþingi, Arnfinni Jónssyni, að Jón Jónsson hefði ófyrirsynju í hel slegið Orm heitinn, þriðjudag næstan fyrir Pálsmessu, og spurðist lát Orms þann sama dag. Þennan Arnfinn álíta menn settan af Ambrosius Illiqvod hirðstjóra yfir Vaðlaþing. Ekki er hans þó getið í Spjaldhagadómi 1492, miðvikudaginn næstan fyrir Mikaelismessu, á þriggja hreppa þingi því, sem Ambrosius og Ólafur biskup á Hólum skiptu með sèr eignum Hvassafells-Bjarna. Undir þann gjörning voru einasta skrifaðir 12 prestar, og brèfið dagsett á Munkaþverá, föstudaginn næstan fyrir Mikaelismessu. Sýnist þar af, að málið hafi verið svo óvinsælt, að aðrir konungs valdamenn, en Ambrosius af leikmönnum, hafi ekki viljað gefa sig í það. Hvort Arnfinnur hefir haft alla sýsluna eða hvað lengi, er óljóst, þó eg geti til, að hann hafi eigi haft hana utan hálfa lengst af, en frá sýsluvöldum hefir hann verið 1507 eða 1508[1]. Arnfinnur hefir verið roskinn maður, þá er hann tók sýsluvöld í Vaðlaþingi, því 1480 var hann einn af þeim, er Þorleifur hirðstjóri Björnsson nefndi í dóm að Lundi í Reykjadal um arf þess barns, er útlægur maður getur með konu sinni.

### Finnbogi lögmaður Jónsson.

(Sjá um hann við Þingeyjarþing). Það er lærðra manna meining, að Finnbogi hafi um þessar mundir haldið Vaðlasýslu

---

a. Sigurður á Felli í Kollafirði, faðir síra Arnfinns á Stað í Hrútafirði.

b. Guðrún átti Bjarna Jónsson.

c. Jón í Bjarnastaðahlíð, átti fyr Guðrúnu Rafnsdóttur síðan Margrèti Eiríksdóttur; frá Jóni eru góðar ættir.

1) Arnfinnur dó, sem fyr sagt, 1495.

að minnsta kosti hálfa, og færa það til líkinda, að vinskapur mikill hafi verið með Finnboga og höfuðsmönnunum Pètri Truels og Benedikt Herstein; en ekki hef eg fundið nokkra sýslumannsdóma Finnboga í Vaðlaþingi, kann þó tèð gáta vera sönn, en hans lögmannsdóma geta menn marga fundið.

## Þorsteinn Finnbogason.

(Sjá um hann við Þingeyjarsýslu). Ljóst er það, að Þorsteinn hefir haldið Vaðlasýslu, því þá Vigfús Erlendsson gjörðist hirðstjóri, hefir hann 1507 útgefið Þorsteini veitingarbrèf fyrir tèðri sýslu, en það er líkast, að hann hafi eigi haldið alla sýsluna utan það eina ár, en þar eptir hálfa um hríð móts við Jón Ásgrímsson. Óljóst er og, hve nær Þorsteinn hefir algjörlega sýslunni sleppt.

## Jón Ásgrímsson.

***Faðir:*** Ásgrímur son síra Þorkels í Laufási Guðbjartssonar prests sama staðar. Móðir Ásgríms var Þórdís[1] dóttir Sigurðar lögmanns Guðmundssonar.

***Kona:*** Ólöf Jónsdóttir.

***Barn:*** Ásgrímur faðir Jóns á Fjalli.

Þessi Jón hefir eptir veitingarbrèfi Vigfúsar hirðstjóra Erlendssonar fengið Vaðlaþing (eg meina hálft) 1508; en Jón Espólín fróði tjáir hann þar fyr hafa verið umboðsmann, og meinar hann og eigi hafa verið utan umboðsmann Þorsteins, en eg meina, að hann hafi fengið veiting fyrir hálfri sýslunni um hríð, og má ske verið umboðsmaður Þorsteins fyrir hinum helmingnum, en ekki fengið alla sýsluna. 1505 kallast Jón fullmektugur í Vaðlaþingi, þá hann með samþykki Ólafar Jónsdóttur konu sinnar seldi Helgu Ásgrímsdóttur Sílastaði og Bitru í Kræklingahlíð. Brèfið er dagsett á Espihóli mánudaginn eptir Maríukertamessu; einn kaupvottanna er Jón sýslumaður Björnsson. (Líklegt er, að þessi Helga hafi verið systir Jóns). Aptur lætur Jón 12 manna dóm ganga að Spjaldhaga þriðjudaginn eptir Allraheilagramessu 1516, hvar Þorleifi Grímssyni og Sigríði Sturludóttur konu hans dæmist jörðin

---

1) Sjá um ætt Þórdísar Þingeyjarþing.

Syðri-Garður í Mýra kirkjusókn í Dýrafirði, eptir gjöf Sturlu heitins og samþykki Jóns Sturlusonar bróður hennar. Í dómi, skrifuðum á Möðruvöllum í Eyjafirði miðvikudaginn næstan eptir Marteinsmessu 1516, segist Jón vera konungs umboðsmaður í Vaðlaþingi. Af þessu er ljóst, að Jón hefir fyrst verið umboðsmaður, og að hann er orðinn það 1505, og að hann svo hefir fengið veiting fyrir hálfri sýslunni, en verið líklega jafnframt umboðsmaður. Veitingu hafði hann enn 1516.

### Jón biskup Arason.

(Sjá um hann Hegranessýslu). Að Jón hafi verið orðinn sýslumaður í Vaðlaþingi 1518, sannast af dómi Gottskálks biskups nefnt ár, er hann lèt ganga að Víðivöllum í Skagafirði fimmtudaginn næstan fyrir Jónsmessu Baptistæ um kirkjuforsómun Einars Brynjólfssonar á Espihóli í 2 ár; kallast Jón Arason í dóminum beneficíaríus Hrafnagils og konungs umboðsmaður norðan Yxnadalsheiði. 1526 nefnir Jón biskup 12 menn í dóm á Spjaldhaga í Eyjafirði yfir klögun Páls Grímssonar, að Páll Þórólfsson hafi gripið hálfa jörðina Björk í Kinn, yrkt hana og á setið, o. s. frv., er þá Jón konungs valdamaður. Sem sýslumaður í Vaðlaþingi var hann fyrir skiptum eptir Grím Pálsson. Skiptabrèfið er svo hljóðandi:

«Það gjörum vèr Ormur Jónsson, Bessi Þorláksson, Símon «Þorsteinsson, Jón Þorláksson, Þorleifur Þorleifsson, Sæmund«ur Símonarson, Pètur Tómasson, Þorsteinn Þorláksson, Þor«steinn Símonarson, Þorvarður Arason, Gunnsteinn Oddsson, «og Bjarni Jónsson, góðum mönnum kunnigt með þessu voru «opnu brèfi: að árum eptir Krists burð MDXXVII á Spjald«haga í Eyjafirði, föstudaginn næstan eptir Michaelsmessu, vor«um vèr til dóms nefndir af verðigum herra biskupi Jóni Ara«syni, er þá hafði konunglegt umboð og sýslu í Vaðlaþingi, að «gjöra lagaskipti á arfi og peningum eptir Grím heitinn Páls«son fráfallinn. Voru lögarfar Gríms heitins, börn hans skil«getin, Þorleifur, Páll, Benidikt, Guðný, Solveig, Ingibjörg; «höfðu þeir fyrri bræður Þorleifur og Páll, og bændur þeirra «fyrnefndu kvenna, allir fyrgreindir arf til rèttra arfaskipta «undir vora skoðun og skipti, og lofuðu með handsölum við «Jón biskup, oss áheyrendum, að þeir skyldu sín á millum

«halda og hafa sem lögsagðan dóm um aldur og æfi það skipti, «sem vèr á gjörðum þeirra á millum. En með því þar kom «eigi fram fyrir oss, og eigi vissum vèr, að nokkur lagaskipti «hefðu á fallið með Þorleifi Grímssyni og Grími heitnum Páls- «syni um þá peninga, sem greindum Þorleifi og Benidikt Gríms «sonum, fèllu til arfs eptir Pál heitinn Brandsson, föðurföður «sinn, en sögðum Grími hafði fallið til arfur eptir Benidikt «Grímsson, son sinn. Kom þar eigi fram fyrir oss nokkur «reikningsskapur á þeim lausagózum, sem í sagðan arf hafði «fallið eptir Pál Brandsson; því samanreiknuðum vèr eptir »kunnugustu manna skoðun og eptir því, sem fyrnefndir erf- «ingjar framtöldu og þeir lýstu sèr samþykkilegast verða. að «greindur arfur eptir Pál heitinn Brandsson mundi verið hafa «í jarðagózi XXI hndr. hundraða og LXXX hndr. en lausa- «gózi V hndr. hundraða. Þar í fyrstu skiptum vèr Þorleifi «Grímssyni sinn helming sagðra peninga, og því voru þeir pen- «ingar, sem börnum Gríms höfðu til arfs fallið eptir hann «XIII (13) hndr. hundraða og XL hndr. og skiptust hvorum þeirra «bræðra Þorleifi og Páli af arfi Gríms III hndr. hundraða og «LXXXV hndr. og þrjú ærgildi, en hverri þeirra þriggja systra «skiptist af arfi Gríms I hndr. hundraða tíutíu og tvö hundruð «og fimm ærgildi: var þá óskipt 20 álnum millum áðurgreindra «systkina. Reiknaðist, að Páll hefði uppborið IV hndr. hundr- «aða og LX hndr. af þeim peningum, sem Grímur hafði átt: «var það fyrst Einarstaðir í Reykjadal og Hof á Höfðaströnd «með þessum útjörðum: Hrauni stærra, Brekkum minni, Svína- «völlum, Ísólfstöðum á Tjörnesi, hálf Björg í Kinn, hálfir Hall- «bjarnarstaðir í Reykjadal, Daðastaðir, Skógar í Fnjóskadal og «þar til lausafè. Skiptust Guðnýju Grímsdóttur í sinn part «þeir peningar, sem hún hafði uppborið, var þar til reiknað «hálfur Mannskapshóll á Höfðaströnd, Grillir, Þverá, Reykjar- «hóll í Fljótum og þar til lausagóz. En Solveigu Grímsdóttur «í sinn hlut skiptust þeir peningar, sem hún hafði uppborið, «sem var Garðsá í Eyjafirði með 2 eyðijörðum, er Þremur «heita, fyrir 60 hndr., Höll, Brekka, Svertingstaðir XXX hndr. «og þar til lausagóz. Ingibjörgu Grímsdóttur skiptust í sinn «arf af greindum arfi þessar jarðir: Gil og Mælifellsá í Skaga- «firði, Stafnshóll, Stafn og Gil í Svartárdal, þar til lausagóz svo

«mikið hverri þeirra systra, sem (að?) hver þeirra hafi sinn fulla «hlut, sem skrifað stendur. En Páll Grímsson skyldi aptur leggja «greindum systrum sínum svo mikið, sem tala rennur til, að hann «hafi meira haft, en svo mikið komi á hvers hlut, sem fyr skrifað «stendur. En Möðruvelli í Eyjafirði og Silfrastaði í Skagafirði «og alla aðra fasta peninga og lausa, sem óskiptir voru og fall-«ið höfðu í arf eptir Pál Brandsson og Grím Pálsson, dæmdum «vèr og skiptum til arfs og eignar Þorleifi Grímssyni. Kunni «greindur Þorleifur eða aðrir erfingjar Gríms nokkra þá pen-«inga að sækja eða kæra af öðrum mönnum, sem af greindum «arfi tilkoma, þá sem þeir eigi hafa nú að halda, þá skal það «koma til rèttra skipta þeirra á millum, svo og skulu þeir allir «skuldum gegna að jafnaði þeim, sem hèr til hafa komið, eða «rèttilega kunna upp á að kærast, svo kirkjugózi sem öðru «vitafè. Reiknaði fyrgreindur biskup Jón í áðurgreindum pen-«ingum eptir gömlum registrum ekki minna en VI hndr. hundr-«aða. Samþykkja fyrgreindur herra og áðurgreindir erfingjar «og umboðsmenn þenna vorn dóm og lagaskipti greindra syst-«kina á milli, og með því vèr biskup Jón tilkölluðum með oss «ærlegar persónur kirkjunnar og svarna lögrèttumenn landsins «að gjöra þessi skipti greindra systkina á milli, og að guðs «nafni tilkölluðu, samþykktum vèr þenna dóm og lagaskipti «greindra systkina á millum, og setjum vort secreterum með «fyrgreindra manna innsiglum fyrir þetta gjörningsbrèf, hvert «skrifað var á sama ári, degi síðar, en fyr segir».

Menn meina, að Jón biskup hafi sleppt Vaðlaþingi við Ara son sinn 1529, þegar Ari var um 20 vetra. Það er sagt, að biskup Jón fèkk sèr veitta Hegranessýslu, þegar hann út kom með biskupstign 1525, en óvíst er, hvort eða hvenær hann hefir þeirri sýslu sleppt. 1533 eða 1535 selur biskup Jón Bessa bónda Þorlákssyni fimm jarðir í Lundarbrekku kirkju-sókn og aðrar þrjár jarðir fyrir hálfa Ánastaði, Skarð, 5 hndr. í Kárastöðum á Vatnsnesi og hálft Samtún í Kræklingahlíð. Mörg önnur jarðaskipti hafði hann. Var hann þannig bæði biskup og sýslumaður, en við sýslumannsembætti hafði hann optast umboðsmenn sína, meðal hverra voru í Vaðlaþingi Ari son hans og tèður Bessi Þorláksson.

## Ari Jónsson[1].

*Faðir:* Jón biskup Arason.

*Móðir:* Helga Sigurðardóttir, sjá Hegranessýslu.

*Kona:* Halldóra, dóttir Þorleifs á Möðruvöllum Grímssonar, Pálssonar Brandssonar lögmanns; þau Ari og Halldóra giptust 1536[2]; var þeirra kaupmálabrèf dagsett sama ár á Möðruvöllum í Eyjafirði, fimmtudaginn næstan fyrir Luc. evang.; taldi Ari sèr þá 2 hndr. hundraða í lausafè og 4 hndr. hundraða í föstu: voru þar í Holtastaðir, Möðrufell og Núpufell, hvort 1 hndr. hundraða; en Eyrarland 1 hndr. hundraða gaf hann Halldóru konu sinni í fjórðungsgjöf. Halldóru voru og talin 3 hndr. hundraða. Halldóra varð eigi langlíf; hún dó um eða eptir 1540.

*Börn:* A. Helga, er giptist Staðarhóls-Páli 1558 (sjá Ísafjarðarsýslu). Ari hafði ánafnað henni fjórðungsgjöf úr fè sínu, fèkk hún þar af nokkuð og sinn móðurarf, svo hún við giptingu sína var auðugri en Páll; þó bættist seinna við hana Möðruvallaarfurinn eptir Þorleif Grímsson.

B. Þórunn átti lögsagnara Sigurð Þorbergsson sýslumanns Bessasonar (sjá Hegranessþing).

C. Elín laungetin með Þórunni[3] ríku, dó ung.

Það er víst, að Ari var 1528 orðinn umboðsmaður föður síns í Vaðlaþingi, en á alþingi 1529 gat Jón biskup með brèfi sínu, er hann þá sendi til alþingis, komið því svo fyrir, að Ari var kosinn til lögmanns norðan og vestan, þar lögmaður skyldi vera í Norðlendingafjórðungi búsettur, auðugur og vel fær til yfirreiða, ef þyrfti, o. s. frv. Helztu menn norðanlands voru þá og miklir vinir biskups, sem drógu taum Ara. Flestir vildu hafa Þorleif Pálsson á Skarði fyrir lögmann, en hann afsakaði sig frá því, þar hann vissi, að Jón biskup og Ari

1) Sjá um Ara lögmann Jónsson lögmannatal Jóns Sigurðssonar.

2) Í eptirriti af kaupmálabrèfi þeirra, er eg hefi sèð, stendur, að þau hafi gipzt á Möðruvöllum 1530, og það er víst rèttara.

3) Sjá um Þórunni hèr síðar.

sóttu eptir því. Nokkrir hafa skrifað, að kaupmáli Halldóru og Ara hafi framfarið 1530 og kaupmálabrèfið hafi verið fullgjört sama ár í Miklagarði, fimmtudaginn næstan fyrir Marteinsmessu, vitum vèr eigi, hvort ártalið er rèttara. Þá er Ari gjörðist lögmaður, tók hann sèr umboðsmenn, sem öðru hverju gjörðu sýslumannsverk, meðal þeirra var Einar á Espihóli, sem lèt dóm ganga 1531. Sjálfur lèt Ari þá 1531 tólf manna dóm ganga á alþingi um ólöglega lausamennsku, landprang, varningskaup, óspilun fátækra, o. s. frv.; var þá Einar þar einn dómsmanna. 1543 lætur Ari lögmaður og sýslumaður í Vaðlaþingi 12 manna dóm ganga á Einarsstöðum í Kræklingahlíð um tíundargjörð. 1544, laugardaginn fyrstan í vetri, lætur Ari Jónsson sýslumaður í Vaðlaþingi 12 manna dóm ganga á Spjaldhaga í Eyjafirði um hýsingu fátækra o. s. frv.; voru dómsmenn, Jón Magnússon (á Svalbarða), Einar Brynjólfsson, Árni Pètursson (Loptssonar), Magnús Brynjólfsson (bróðir Einars), Jón Þorláksson, Þorsteinn Einarsson, Gottskálk Jónsson, Teitur Magnússon, Árni Ólafsson, Eyvindur Magnússon og Jón Gunnlaugsson (aðrir: Gunnsteinsson). 1545 miðvikudaginn næsta eptir vor-krossmessu á Einarsstöðum í Kræklingahlíð lætur Ari sýslumaður 12 manna dóm ganga um sauða og annara peninga þjófnaðar rikti 15 manna; var þeim tildæmdur sjöttareiður; er ritað, að 11 þeirra hafi fallið á eiðnum og verið hengdir í Gálgagjá 1546. 1541, þá er þeir feðgar frèttu um föngun Ögmundar biskups og voru á alþingisferð, komnir að Kalmannstungu, er sagt, að Ari hafi sagt af sèr lögsögn, en það mun þó rèttara, að þeir hafi borið annað fyrir, að þeir eigi gætu til þings komið. Ekki lèt hirðstjórinn dæma Ara frá embættinu, en reiddist því, að hann vanrækti skyldu sína, og skipaði því að velja annan lögmann; höfuðsmaður og þingmenn kusu þá Þorleif, en hann áskildi, að Daði væri sinn styrktarmaður, og að hann mætti sleppa embættinu, þá er hann yrði vanmáttugur; var hann lögmaður til 1548, að Ormur Sturluson varð lögmaður; en 1549 þrengdi Ari sèr aptur í lögmannsembættið, sagði þó eigi lög, því honum var mótmælt, var því Ormur við. Áður talinn dómur Ara 1545 meinast hans síðasti sem sýslumanns: hefir hann þar eptir sleppt Vaðlaþingi við Ísleif mág sinn, sem þar var orðinn sýslumað-

ur 1546, enda var þá Halldóra dáin, kona Ara, er hafði latt hann allra stórráða; Helga móðir Ara hvatti hann þar á móti til að fylgja föður sínum, hófust og þar eptir stórræði og yfirreiðir Ara, svo hann hafði öðru að gegna, en þinga við kotunga. Þó Ari greiddi síðar (1550) sýslugjald Lárusi Múla höfuðsmanni og kastaði því í nasir honum, var Ari það ár þó eigi sýslumaður, heldur hefir fært það gjald fyrir annan. Þó þetta sè nú svona sagt, þykir mèr þó líklegast, að Ari hafi aldrei frásagt sèr Vaðlasýslu, heldur haldið henni frá því, er faðir hans yfirlèt honum hana, til þess er Ari dó, en yfirlátið hana Ísleifi mági sínum nálægt 1538, til þess Ísleifur dó 1549, en tekið þá fyrir umboðsmann Þorberg Bessason. Um yfirreiðir Ara, föngun Marteins biskups og Árna prests, Sauðafellsför og föngun hans, ásamt föður sínum og síra Birni, bróður sínum, aftöku þeirra í Skálholti 1550, má lesa í Árbókunum, eins um þeirra mikla góz, sem á Oddeyri var dæmt undir konung fyrir landráð þeirra, yfirgang og óhlýðni móti sínum rètta konungi. Sagnaritarar gefa þann vitnisburð Ara, að hann hafi verið maður vel viti borinn, lærður á latínska og þjóðverska tungu, lögspakur, sagnafróður, örlátur og vinfastur, en stríður og stórlyndur, þá er illu var að skipta, drambsamur, hèraðsríkur og fjárgæzlumaður, harðgjör og stórmennskufullur. Að líkama atgjörvi var hann með hærri meðalmönnum, fríður sýnum, vel limaður, og hinn fimasti á margar íþróttir, er þá tíðkuðust. Ari bjó á Möðrufelli í Eyjafirði, og fèll það ásamt hans öðrum miklu eignum undir konung; en eptir Friðriks konungs III. brèfi til höfuðsmanns Henriks Bjelke, var þar settur sjúkra manna spítali 12. maí 1652, sem enn viðvarir. 1550, 7. nóvember, var Ari hálshögginn í Skálholti og var mörgum harmdauði. Þórunn systir hans veitti jafnan stórar ölmusur á hans og þeirra feðga árstíðardag.

## Ísleifur Sigurðarson.

*Faðir:* Sigurður sýslumaður Finnbogason (sjá Hegranessþing).

*Móðir:* Margrèt, dóttir Þorvarðar Bjarnasonar sýslumanns Marteinssonar.

*Kona:* Þórunn dóttir Jóns biskups Arasonar og Helgu Sigurðardóttur; þau giptust á Hólum í Hjaltadal 1533, sunnu-

daginn næsta eptir páskaviku; fjárskilmálar millum þeirra voru, að Þórunn skyldi eignast jörðina Grund í Eyjafirði að Ísleifi fráföllnum, ef þau eigi ættu börn skilgetin, en gjalda rèttum erfingjum Ísleifs svo mikla peninga af sínum peningum, sem jörðin er verð, að auk kirkjueigna, sem Grundarkirkja á. Biskup Jón, giptingarmaður og erfingi Þórunnar, samþykkti þetta. Taldi Ísleifur sèr til kaups við Þórunni 3 hndr. hundraða, og lofaði biskup Jón, að Þórunn skyldi hafa svo mikla peninga til kaups við Ísleif, gaf Ísleifur Þórunni í tilgjöf 60 hndr.; kaupvottar: bróðir Helgi, með guðs náð ábóti á Þingeyrum, bróðir Jón, príor á Möðruvöllum, Tómas Eiríksson, Ólafur Hjaltason prestur, Grímur Jónsson, Einar Brynjólfsson, Magnús Björnsson, Jón Þorláksson o. s. frv., leikmenn. Á þessu sama ári virðist Björn prestur á Melstað og Steinunn Jónsdóttir að hafa bundið sitt fylgilag fyrir milligöngu síra Sigurður á Grenjaðarstað, af eptirfylgjandi fjárskilmálabrèfi:

«Það gjörum vèr Sigurður Jónsson, Tómas Einarsson, Jón «Ólafsson prestar, Auðunn Sigurðsson og Sæmundur Símonar«son góðum mönnum kunnigt með þessu voru opnu brèfi, að «árum eptir guðs burð 1533 in die Marci evangelistæ á Grenj«aðarstað í Reykjadal vorum vèr íhjá, sáum og heyrðum á, að «svo orðinn gjörningur og skildagi var uppsagður og yfirlýstur, «að Jón bóndi Magnússon og kona hans Ragnheiður Pèturs«dóttir höfðu gefið Steinunni dóttur sinni 1 hndr. hundraða, að «tilskildri jörðunni Ljósavatni í Bárðardal. Svo gaf og Björn «prestur Jónsson greindri Steinunni Jónsdóttur 1 hndr. hundr«aða að tilskildum þessum jörðum: Barkastöðum í Miðfirði, «Æsustöðum í Langadal og Kúastöðum í Svartárdal, og þar «til 20 málnytukúgildi, með því skilyrði, að greind Steinunn «skyldi sèr þjóna með dyggð, trú og æru, og þeir peningar «fyr sagðir skyldu falla til þeirra afkvæmis og barna, ef þess «yrði auðið. Fór allur þessi gjörningur fram með handsölum «millum síra Bjarnar Jónssonar og Jóns Magnússonar. Sam«þykkti virðulegur herra biskup Jón þessa gjöf síra Bjarnar

«sonar síns, í þann tíma, og til sanninda hèr um, setjum vèr «o. s. frv.»

Börn áttu þau Ísleifur og Þórunn engin, því lèt Þórunn kveða til Ísleifs í vikivaka:

«Í Eyjafirði upp á Grund,
á þeim garði fríða,
þar hefir bóndi búið um stund,
sem börn kann eigi að smíða»,

Ísleifur svaraði: «Guð ræður því kona mín».

Af þeim dómi, sem Ísleifur lèt ganga að Hrafnagili í Eyjafirði 1539, sýnist sem Ísleifur hafi haft sýslu í Eyjafirði, en ef til vill, eigi utan hálfa eða í umboði Ara. 1542 fór Ísleifur utan vegna Jóns biskups tengdaföður síns, á fund Kristjáns konungs 3. til að vinna honum hollustueið biskupsins vegna. 1546 gefur Ingibjörg Sigurðardóttir Ísleifi bróður sínum umboð yfir öllum þeim peningum, sem börnum hennar hefðu til erfða fallið eptir föður sinn Bjarna heitinn Torfason og Helgu heitina Guðmundsdóttur, ömmu sína, og þetta samþykkti Jón Skúlason seinni maður Ingibjargar (sjá Hegranessþing). 1546 er Ísleifur sýslumaður í Eyjafirði, því þá gefur hann Eyvind Magnússon kvittan um allar sakir til konungs, sem hann hefði mátt brotlegur verða í viðskiptum þeirra Sveins heitins Jónssonar, hvort sem það eru blök eða rèttaryrði, og segir, að Eyvindur hafi svarið fyrir sèr, að hann hafi eigi í hel slegið tèðan Svein; kallast Ísleifur þar konungsumboðsmaður í Vaðlaþingi. 1548 í árslokin eða 1549 um páska hefir Ísleifur andast, því 1549 lætur Þorbergur mágur Ísleifs, þá konungs umboðsmaður í Vaðlaþingi, dóm ganga um gjöf Ísleifs og arf eptir hann. Það hyggja menn, að Ísleifur hafi haldið Vaðlaþing þá, er hann dó. Við og við hefir hann haft þar sýsluvöld, líkast til skiptis við Einar Brynjólfsson í umboði Ara og fyr Jóns biskups. — Ísleifur var höfðingi og skartsmaður mikill; — því sagði Þórunn: Rafn minn var höfðingi mestur, Ísleifur minn skartsmaður mestur, en Þorsteinn minn heimsmaður mestur.

### Frá Þórunni dóttur Jóns biskups.

Hún giptist 14 vetra 1526 Rafni lögmanni Brandssyni, missti

hann 17 vetra 1529; var sagt, að þau hefðu átt börn saman, sem eigi hefðu hlotið skírn[1]; náði þó Jón biskup miklu af fè Rafns í því skyni. Fór Þórunn þá heim til föður síns. Þorsteinn son Guðmundar Andrèssonar (sjá Strandasýslu) var þá sveinn á Hólum, og var mælt, að hann ætti vingott við Þórunni, og komst orð á þetta, svo Ari bróðir Þórunnar sótti eptir lífi Þorsteins, sem flúði í Hólakirkju, en af frækleik sínum og fyrir tilstilli Þórunnar og Solveigar abbadísar, frændkonu sinnar, er sendi honum hest, komst hann burt. Sagt var, að Þórunn hefði átt 2 börn milli manna, sem dáið hefðu. 1533 giptist hún Ísleifi sýslumanni, hefir hún þá haft einn um tvítugt. 1548 dó Ísleifur, þá hefir Þórunn verið 36 vetra. 1553 giptist Þórunn Þorsteini unnusta sínum forna; hefir hún þá verið 41 árs. Unnust þau og voru saman um hríð, til þess er Þorsteinn dó um 1573. Þórunn bjó á Grund eptir það að hún giptist Ísleifi og til þess hún dó 13. desember 1593; hafði hún þá einn vetur hins níunda tugar. Þórunn ól upp Helgu Aradóttur, eptir dauða Ara lögmanns, þar til hún giptist 1558. Marga aðra ættingja sína ól hún upp. Mjög var hún föst við hinn forna siðinn, gaf miklar ölmusur, einkum á árstíðardegi föður síns og bræðra sinna, er hálshöggnir voru 1550. Hún var haldin heimskona mikil og hörð í skapi. Miklar gjafir gaf hún ýmsum í föstu og lausu, skyldum og óskyldum, þar á meðal þessar:

| | | |
|---|---|---|
| Birni presti Tómassyni . . . . . . . . | 60 hndr. | 1551. |
| Síra Sigurði bróður sínum Fjósatungu . . | 60 — | 1553. |
| Oddi Þorsteinssyni til útlausnar . . . . | 40 — | 1554. |
| Ólöfu Þorsteinsdóttur systur hans til giptingar | 30 — | 1555. |
| Sigurði Bjarnasyni til giptingar . . . . | 10 — | 1558. |
| Guðrúnu Magnúsdóttur bróðurdóttur sinni í Leyningi . . . . . . . . . . . | 20 — | 1574. |
| Sömu Grund í Svarfaðardal með Garðshorni | 80 — | s. á. |
| Sömu . . . . . . . . . . . . . . . | 40 — | s. á. |
| Það var á Grenjaðarstað á haustkrossmessu. | | |
| Fátækum . . . . . . . . . . . . . . | 60 — | |

1) Það var einmitt útbreitt, að barnið hefði hlotið skírn, en aðrir efuðust um það, og jafnvel, hvort hún hefði barn átt.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Þuríði Þorbergsdóttur Kross . . . . . . | 20 hndr. | | |
| og spennur. silfurlinda, pilsspennur . . . | 10 — | | |
| Ísleifi yngra Þorbergssyni til giptingar . . | 20 — | 1554. |
| Helgu Bjarnadóttur Pálssonar á Karlsá . | 20 — | 1582. |
| Sömu Helgu 10 kúgildi, spennur góðar með víravirki, 8 pör nisti forgyllt fyrir 2 hndr. og pilsspennu og skildi. | | |
| Jóni Sigurðssyni Hof á Höfðaströnd . . | 80 — | |
| Sama Brekku . . . . . . . . . . . . | 30 — | |
| og Þrastastaði kirkjueign á Hofi . . . . | 40 — | |
| Sama Svínavelli . . . . . . . . . . | 20 — | |
| Hèrtil gaf hún honum víravirkislinda fyrir | 10 — | |
| og skinnastakk fyrir góð . . . . . . . . | 5 — | |
| Hèr fyrir uppbar hún Öngulstaði og Björk | | 1575. |
| Þorleifi Sigurðssyni 7 kúgildi og gott tjald. | | |
| Þorbergi litla Ásmundssyni Jökul . . . | 20 — | |
| Þorsteini bróður hans 10 dali og . . . | 7 — | |
| Þuríði Vernharðsdóttur . . . . . . . . | 5 — | |
| Þuríði Þorbergsdóttur 7 kúgildi og 5 vættir smjörs. | | |
| Jóni Sigurðssyni 7 kúgildi. | | |
| Ara Sigurðssyni 7 kúgildi. | | |
| Helgu Ásmundsdóttur 10 kúgildi. | | |

Einnig var Þorleifi Grímssyni goldið vegna Þorsteins Guðmundssonar af peningum Þórunnar 20 hundruð í lausafè í rèttarfar 1552.

Um þessar gjafir Þórunnar lèt Benidikt bóndi Halldórsson dóm ganga á Spjaldhaga 5. október 1594; gengu margar gjafir Þórunnar til baka, þegar þeir bræður Jón og Magnús Björnssynir átöldu þær. Báru þeir þar fram, að Þórunn hefði aldrei tíundað meira í lausafè en 2 hndr. hundraða og 100 hndr., og þar út í hefðu verið 60 hndr. í erfðagózi. Var álitið, að hún hefði þar úr mátt gefa tíundargjöf, en úr þeim 2 hndr. hundraða og 20 hndr., sem henni höfðu aflazt, hefði hún mátt gefa 65 hndr. í fjórðungsgjöf. Þeir bræður báru og fram, að Þórunn hefði átt 4 hndr. hundraða, þegar hún giptist Þorsteini Guðmundssyni, en hvergi nærri aptur fengið mála sinn, en Þorsteinn hefði goldið af hennar fè Þorleifi Grímssyni 20 hndr. og til útlausnar fyrir Odd son sinn 40 hndr., og þar

með haft margan kostnað fyrir börnum hans og barnabörnum. Jón Sigurðsson greiddi Jóni og Magnúsi Björnssonum til baka hálft Hof á Höfðaströnd, silfurlinda, silfurskeið og gullpeninga þá, sem þórunn hafði fengið eða goldið Jóni: lofuðu þeir báðir Jóni aptur einhverri 20 hndr. jörð, sem Þórunn hefði átt; komst svo allt Hof aptur í þá ætt. Líkt gekk með aðrar gjafir Þórunnar; þó var nokkur miðlun á gjörð. Pètur Pálsson sótti jafnframt þeim Björnssonum eptir arfi Þórunnar, en hann var þar frá dæmdur. Þórunn hafði auðgazt af fè sinna fyrri manna, því Hof og fleira fèkk hún eptir Rafn og 1541 gaf Ísleifur Þórunni Jónsdóttur, konu sinni, allar löggjafir, sem hann mátti að lögum gefa, ef hún lifði honum lengur, og sömuleiðis hún honum, ef hann lifði henni lengur: samþykkti Jón biskup þetta. Ingibjörg systir Ísleifs sótti eptir að fá Grund, en náði ekki, því hún kom upp í tilgjöf og löggjafir Ísleifs til þórunnar. 1545 lofaði Jón biskup að kaupa handa Ísleifi Veturliðastaði. Herramennirnir lögðu Þórunni Grund og Garðshorn í Svarfaðardal, og 1551 kvittaði sína Sigurður Jónsson Þórunni fyrir skuld til Grundarkirkju. 1574 lýsti Þórunn, að hún hefði engum löggjafir gefið, nema Ísleifi bónda sínum. Langvinnt og margbrotið málastapp varð um arf eptir Þórunni, sem hèr er of langt að ritfæra. En áður skrifað fè sýnir auð þórunnar, átti hún þó töluvert jarðagóz, þá er hún dó, og var arfstilkall Jóns sýslumanns Björnssonar álitið fylgismál að sumu leyti.

Dómur: Öllum mönnum, sem þetta brèf sjá eða heyra senda Árni Pètursson, Jón Þorleifsson, Þorsteinn Símonarson, Brynjólfur Jónsson, Þorvaldur Árnason, Jón Jónsson, Þorsteinn Böðvarsson, Tumi Jakobsson, Jón Jónsson, Sæmundur Þorleiksson og Jón Sigmundsson kveðju Guðs og sína kunnugt gjörandi, að: Anno 1539, þriðjudaginn næstan fyrir dýradag um vorið á Hrafnagili í Eyjafirði, vorum vèr í dóm nefndir af heiðarlegum manni Ísleifi Sigurðssyni, sem þá hafði konungssýslu og umboð, að skoða og fullnaðardómsatkvæði á að leggja þá ákæru, er Ísleifur kærði til Bjarna Sturlusonar, að hann hefði riðið heim á sinn garð Grund í Eyjafirði, slegið og sært sinn mann Böðvar Þórðarson, fyrir utan nokkra sök o. s. frv.

### Einar Brynjólfsson.

*Faðir:* Brynjólfur Magnússon, Benediktssonar, Brynjólfssonar.
*Kona:* Solveig dóttir Gríms Pálssonar á Möðruvöllum.
Önnur kvinna Einars Solveig Steinsdóttir[1].
*Börn:* A. Jón á Espihóli átti Málfríði dóttur Bjarna sýslumanns Erlendssonar. 1587 veitti Jóhann Bucholt Jóni Skriðuklaustur. Jón varð skammlífur, og giptist Málfríður þá aptur Einari Ásmundssyni, þeirra börn:
1. Bjarni.
2. Sigríður átti síra Þorstein í Múla Illugason þeirra börn:
   a. Jón í Skriðu.
   b. Guðríður.

B, Sigríður[2] fyrri kona Nikulásar klausturhaldara á Múnkaþverá, Þorsteinssonar, Finnbogasonar lögmanns, börn:
1. Hallgrímur sótti um Munkaþverárklaustur eptir föður sinn, en fèkk það eigi, 1597. Skrifað er, að hann hafi átt dóttur síra Jóns Loptssonar á Skinnastöðum, verið lánlítill og drukknað í Mývatni.
2. Þorsteinn, giptist eigi.
3. Solveig átti fyrr Eirík Egilsson; börn: Jón á

---

1) Að Einar hafi átt Solveigu Steinsdóttur, er ekki rètt. Þau Jón og Málmfríður áttu 2 börn:
a. Sigríður átti síra Þorstein Illugason í Múla, eins og hèr að ofan er sagt, þeirra börn:
   α. Jón átti Guðríði Árnadóttur frá Grýtubakka.
   β. Guðríður átti Björn Magnússon á Laxamýri.
b. Ólöf átti Martein Magnússon lögrèttumann í Múlasýslum, þeirra börn:
   α. Sigurður.
   β. Bjarni.

2) Sjá um börn Sigríðar Einarsdóttur og Nikulásar Þorsteinssonar Þingeyjarþing.

Núpi, o. s. frv„ svo átti hún Jón Einarsson í Bólstaðarhlíð, þau voru barnlaus.

4. Katrín lèt fallerast með Guðmundi Illugasyni, giptist síðan Sigurði halta Jónssyni í Lóni.
5. Einar átti Kristrúnu (aðrir Kristínu) dóttur síra Jóns Loptssonar á Skinnastöðum; þeirra börn:
   a. Jón í Hafrafellstungu átti Guðrúnu Jónsdóttur frá Draflastöðum; þeirra börn:
      α. Síra Þórarinn á Hrafnagili.
      β. Ólöf.
   b. Nikulás í Reykjahlíð, tvígiptur, átti mörg börn.
   c. Hallgrímur.
   d. Sigríður.
   e. Kristín.
   f. Guðrún.
   g. Guðlaug.
6. Ólöf átti fyrst Eirík Eyjólfsson; þeirra börn:
   a. Magnús á Kirkjubæ.
   b. Eyjólfur í Múla.
   c. Ingibjörg.

      Síðar átti Ólöf Jón Grímsson; börn:
   d. Eiríkur á Kirkjulæk.
7. Grímur átti Guðrúnu dóttur Jóns prests á Skinnastöðum Loptssonar.

C. Málmfríður.

Einar Brynjólfsson bjó á Espihóli, var lögrèttumaður og stórbóndi; hann var og opt lögsagnari í Vaðlaþingi. Hann lèt 1531 næsta föstudag eptir vor-krossmessu ganga 6 manna dóm að Saurbæ í Eyjafirði, og segist hafa konungssýslu í Vaðlaþingi í umboði Ara um arf þann, er Jón Jónsson kallaði sèr fallið hafa til umboðs eptir Hallottu heitina Jónsdóttur[1], en Þorvaldur Árnason reiknaði sèr þennan arf eptir systurdóttur sína Hallottu til móts við sonu Ólafar Jónsdóttur; dæmdist þá arfurinn Þorvaldi Árnasyni og Sigurði Sturlusyni. Einar er og

1) Hallotta var kona Jóns.

dómsmaður í flestum dómum Ara, Ísleifs sýslumanns Sigurðssonar, Þorbergs sýslumanns Bessasonar og Þorleifs sýslumanns Grímssonar. 1555, miðvikudaginn eptir Pètursmessu og Páls á alþingi, lætur Einar bóndi Brynjólfsson í umboði Ara lögmanns með 20 öðrum mönnum dóm ganga um það, 1. hvern krapt skikkun og skipun Ólafs erkibiskups í Þrándheimi skuli hafa, þar hann skipaði biskupunum Ögmundi og Jóni að uppbera og að sèr taka krúnunnar rentu af landinu hvorum í sínu biskupsdæmi, 2. þar Christjern hertogi og Christopher greifi í Oldenborg og Delmenhorst beföluðu Diðrik og herra Marcúsi Meier konungsins rentu að uppbera, og hirðstjóra yfir landinu, en hvorugur þeirra herra voru útvaldir eða hylltir Danmerkur eða Noregs konungar. Dæmdu þeir Erlendur lögmaður og Einar bóndi fullmektugur Ara lögmanns, með þeirra dómsmönnum biskupana rèttilega hèr til skipaða, þar til guð gæfi rèttan konung yfir Noregsríki, því Noregskonungum hefðu Íslendingar hollustu svarið, þar hjá dæmdu þeir fullveðja sýslumenn skylduga, að geyma skattana undir umsjón biskupanna til næsta Öxarárþings. Hèr af sèst, að biskupar hafa haft ásamt öll umráð landsins og einkum Ögmundur biskup 1534—1535—1536 og fyr sem hirðstjórafullmektugur. 1518 var Einar ásakaður fyrir að hafa vanrækt kirkju í 2 ár. Nokkrar ættartölur segja, að Solveig Steinsdóttir Brandssonar lögmanns Jónssonar hafi verið kona nefnds Einars Brynjólfssonar, og að þeirra börn hafi verið Sigríður og Málmfríður (sjá hèr að framan) og vitum vèr eigi, hvort sannara er, og Jón son Solveigar Grímsdóttur og Einars. Einar var einn í Oddeyrardómi.

### Jón Magnússon.

***Faðir***: Magnús sýslumaður Þorkelsson (sjá að framan).
***Móðir:*** Kristín dóttir Eyjólfs riddara Arnfinnssonar.
***Kona fyrri:*** Ragnheiður Pètursdóttir (sjá Strandasýslu)
***Börn***: A. Sigurður (sjá Hegranesþing).
B. Magnús (sjá Barðastrandarsýslu).
C. Páll (sjá Ísafjarðarsýslu).
D. Jón (sjá Snæfellsnessýslu).
E. Steinunn (sjá Strandasýslu).

F. Þórdís[1].

G. Solveig (sjá Strandasýslu).

*Kona seinni:* Guðný dóttir Gríms á Möðruvöllum Pálssonar Brandssonar lögmanns, barnlaus.

Jón bjó á Svalbarða á Svalbarðsströnd, höfðingi auðugur, vitur og var haldinn fjölkunnugur; hann var lögrèttumaður og stundum umboðsmaður sýslumanna, að því menn meina, einkum í Vaðlaþingi og Þingeyjarþingi; en eigi veit eg að hann hafi haft sýsluveitingu. Víða kemur hann fyrir við gjörninga, sem hèr er of langt að telja. Jón tók krankleika í elli sinni, er þá gekk víða, og kölluð var «sárasótt», hann vildi eigi láta lækna sig og dó af þeirri veiki eptir 1560.

**Þorbergur Bessason.**

(Sjá um hann við Hegranesþing). Hann var fyrst sem umboðsmaður í Vaðlaþingi lítið eitt, hèlt það þar eptir 1548 til 1550. Guðmundur lögrèttumaður Nikulásson var umboðsmaður Þorbergs 1549 og 1550. 1549 lèt hann dóm ganga á Spjaldhaga um mála og tilgjöf Þórunnar Jónsdóttur á Grund. Síðan gjörðist Þorbergur umboðsmaður Odds lögmanns Gottskálkssonar í Hegranessýslu og tók að veiting eptir hann að minnsta kosti nefnda hálfa sýslu; meinast hann að hafa haldið þeirri veiting nálægt 9 árum eða til 1565. Eptir það getur hans eigi við sýsluvöld, en lifði þó lengi þar eptir og var ágætismaður.

---

1) Þórdís átti Þorgrím í Lögmannshlíð Þorleifsson Þorgrímssonar á Núpum Þórðarsonar, þeirra börn:

a. Sigríður kona Jóns sonar Jóns Grímssonar og Þóru Tómasdóttur, bjuggu á Sjávarborg,

b. Hildur átti síra Teit í Gufudal.

c. Sesselja átti Halldór Sigurðsson úr Eyjafirði.

d. Guðrún átti Jón Illugason, eitt þeirra barn: Þórdís, kona Nikulásar Einarssonar, sjá Þingeyjarþing.

Launbörn Jóns Magnússonar.

α. Kolbeinn, sjá um hann Þingeyjarþing.

β. Guðrún átti Bjarna Björnsson og börn.

### Þorleifur Grímsson.

*Faðir*: Grímur sýslumaður í Þingeyjarþingi, son Páls sýslumanns Brandssonar lögmanns.

*Móðir*: Helga dóttir Narfa á Narfeyri, sonar Þorvalds Þorkelssonar, þær voru systur Helga og Anna, kona Guðlaugs Loptssonar, (sjá Strandasýslu) og Valgerður kona Sigurðar sýslumanns Daðasonar (sjá Húnavatnsþing).

*Kona fyrri*: Sigríður, dóttir Sturlu Magnússonar, systir Jóns Sturlusonar, er átti Guðnýju systur Þorleifs, og Þorgerðar konu Þorsteins í Hjörtsey. Sturla meinast son Magnúsar Jónssonar[1] og Helgu Einarsdóttur[2] frá Djúpadal, Árnasonar Dalskeggs, (sem fylgdi Þorvarði Loptssyni, þá er Jón biskup Geirreksson var tekinn), Magnússonar. Eyjólfur lögmaður og Bessi sýslumaður meinast og synir Einars í Djúpadal.

*Börn*: A. Halldóra átti Ara lögmann.

B. Þorbjörg átti Orm lögmann Sturluson; voru bæði 19 vetra, (sjá Snæfellsnessýslu). Þau giptust 1535 segja sumir. En þau Þorleifur og Sigríður giptust 1515.

*Kona seinni* Þorleifs: Solveig[3] Hallsdóttir, systir síra Egils í Saurbæ.

---

1) Þótt Magnús, faðir Sturlu, kallist í ættartölum Jónsson, þá er það án efa miður rètt, heldur var faðir hans Runólfur Sturluson, sem fyr sagt.

2) Einar faðir Helgu var Bessason, en ekki Árnason, og bróðir Helgu var víst Bessi Einarsson, er því eigi var bróðir Eyjólfs lögmanns, en þau systkini hafa þó verið náskyld honum, sjá Þingeyjarþing.

3) Þær Solveig og Sigríður voru fjórmenningar, vildi því Ormur lögmaður Sturluson telja börn Solveigar óarfgeng eptir föður sinn, Þorleif, þar eð þau hefðu verið getin í meinum, en þannig rakti hann ætt þeirra saman, Sigríðar megin: 1. Sigríður, 2. Sturla Magnússon, faðir Sigríðar, 3. Helga móðir Sturlu og 4. Ingibjörg Jónsdóttir, móðir Helgu; en Solveigar megin: 1. Solveig, 2. Þuríður, móðir Solveigar, 3. Solveig,

*Börn*: C. Grímur átti Guðbjörgu Erlendsdóttur (sjá síðar).

D. Þuríður giptist 1542 Árna syni Pèturs Loptssonar (sjá Strandasýslu), taldi Árni sèr þá 2 hndr. hundraða, en Þorleifur taldi dóttur sinni 1 hndr. hundraða. Hún var seinni kona Árna. Guðrún var þeirra dóttir og átti Eirík sýslumann í Múlaþingi. Þuríður giptist, að Árna dánum, 1559 Eiríki Snjólfssyni og varð hans seinni kona. Taldi Eiríkur sèr þá 4 hndr. hundraða, en Þorleifur taldi dóttur sinni 1 hndr. hundraða og 100 hundruð; þeirra börn:

1. Halldóra átti Magnús son Björns officialis á Melstað; þeirra börn sjá Strandasýslu.
2. Ólöf átti Magnús Vigfússon á Eyðum (sjá Þingeyjarþing); börn:
   a. Árni sýslumaður á Eyðum (sjá Múlaþing).
   b. Þorbjörg átti Jón lögmann Sigurðsson (sjá Húnavatnsþing).
   c. Eiríkur undir Ási átti Þórunni Einarsdóttur og börn.
   d. Þorsteinn átti Ólöfu Gísladóttur frá Staðarfelli Jónssonar.
   e. Helga[2].

Þuríður lifði 1592.

E. Sigríður fyrri kona Eggerts lögmanns Hannessonar; þeirra börn dóu.

---

móðir Þuríðar og 4. Margrèt Jónsdóttir, móðir Solveigar og systir Ingibjargar Jónsdóttur.

1) Það, sem hèr stendur, er með öllu rètt, að Árni var fyrri maður Þuríðar, en ekki seinni maður hennar, þótt ættartölur flestar segi hið gagnstæða; þeirra son var og síra Ólafur, er fyr hefir verið nefndur, faðir síra Halls digra, er síra Halldór Hallsson var í beinan karllegg kominn af.

2) Helga átti Finn Gíslason Tómassonar.

f. Sesselja var enn dóttir Ólafar og Magnúsar, hennar maður síra Sigurður Ólafsson á Refstað.

F. Hallotta átti Brand á Silfrastöðum Ormsson; þeirra börn:
1. Tómas á Bægisá.
2. Solveig móðir Orms á Hafgrímsstöðum.

G. Þorgerður[1] laungetin átti Sigurð son Jóns príors á Möðruvöllum. Börn:
1. Síra Jón í Laufási.
2. Finnbogi.
3. Ísleifur.
4. Sigríður.

H. Þórður bjó á Brekkum í Skagafirði, var laungetinn, átti Steinunni Ólafsdóttur í Stóradal[2]. Börn:
1. Gottskálk átti laundóttur, er hèt Philippía.
2. Þorleifur (Galdra-Leifi); hans börn:
   a. Þórður faðir Þórdísar á Fæti.
   b. Þórunn.

I. Guðrún laungetin kona Ólafs, sem var sveinn hjá Ísleifi á Grund og Þórunni; hann fór með fimmta mann á náttarþeli til Möðruvalla og sótti þessa Guðrúnu og hafði hana til Grundar, þó með vilja hennar; þar út af varð misklíð; þó fèkk hann um síðir að eiga hana. Hún var amma Guðrúnar Hjálmsdóttur á Stað í Grindavík.

K. Halldóra[3] laungetin átti Gunnlaug Ormsson í Leyningi. Börn:
1. Halldóra átti Pètur Gunnarsson (sjá Hegranesþing); þeirra börn:

---

1) Sjá um Þorgerði Þingeyjarþing; enn telja sumir dóttur Þorgerðar og Sigurðar;
5. Filippíu, konu síra Jóns siðamanns Björnssonar í Grímstungum.

2) Það er að skilja í Hèraðsdal í Skagafirði. Ólafur var Ormsson.

3) Að vísu hèt kona Gunnlaugs Halldóra Þorleifsdóttir, en hún getur eigi hafa verið dóttir Þorleifs Grímssonar, því hann hefði þá átt móðursystur sína, er víst eigi hefði verið leyfilegt.

a. Einar á Víðivöllum.
b. Síra Magnús á Kálfafelli.
c. Björn.
d. Gunnar.
e. Guðrún.

L. Guðrún[1] laungetin átti síra Magnús á Höskuldsstöðum.

M. Þóra[2] tjáist af sumum að hafa átt Sigurð Þorleifsson.

N. Þorgrímur Þorleifsson í Lönguhlíð meinast af sumum son þessa Þorleifs.

Þorleifur giptist ungur og átti Sigríði Sturludóttur, sem fyr sagt, og 2 dætur með henni; fór svo utan um 1519 og dvaldi þar í 7 ár; er mælt, að honum hafi þá verið kennt sitt barn á hverju ári; þegar hann kom inn um 1526, giptist hann seinni konu sinni Solveigu; þau voru sögð kunnug, áður en Þorleifur fór utan. Eigi voru þá gjörðir fjárskilmálar þeirra á millum, því hún var snauð, en Þorleifur hafði þá fè til hlítar[3]. 1527 (aðrir segja 1526) dó Grímur faðir Þorleifs og

1) Það er eins um Guðrúnu konu síra Magnúsar á Höskuldstöðum, að hún var Þorleifsdóttir, en ekki Þorleifs Grímssonar, heldur dóttir Þorleifs lögmanns Pálssonar, og var síra Magnús seinni maður hennar.

2) Að Þóra hafi átt Sigurð Þorleifsson, er víst ritvilla og á að vera Sigurð Þorbergsson, sem sè, Bessasonar Hrólfssonar Þorsteinssonar, því sumar ættartölur telja svo, en aðrar þar á móti segja, að Sigurður hafi átt Þóru dóttur Ara lögmanns Jónssonar, og það er með öllu rètt; eg tel það og með öllu óvíst, að Þorleifur hafi átt nokkra dóttur, er Þóra hèt.

3) Þorleifur hefir misst fyrri konu sína Sigríði snemma, og búið síðan lengi ógiptur saman við Solveigu, og átt mörg börn með henni, unz hann loksins átti hana; þetta sèst meðal annars af því, að hefði Grímur og önnur börn hans með Solveigu verið hórgetin, hefðu þau eigi tekið arf eptir hann; en þá er Þorleifur giptist Solveigu, sem var 1553, var Grímur son þeirra orðinn fulltíða maður; fjárskilmálar framfóru eigi millum þeirra, fyrri en þau giptust.

erfði Þorleifur þá mikinn auð bæði í löndum og lausum eyri (sjá hèr að framan). Grími unni Þorleifur mest af börnum sínum og gaf honum 1526 þessar jarðir auk skipta: Hóla í Eyjafirði, Vatnsenda, Jökul, Halldórsstaði, Tjarnir, Torfufell, báða Villingadali, Jórunnarstaði, Skáldstaði, Kolgrímsstaði, Oddstaði 12 hndr., Skinnalón 5 hndr., Grjótnes 5 hndr., allar þessar jarðir með öllum gögnum og gæðum. Þorleifur átti mörg börn, alls 26 eða 27, voru flest laungetin: með Solveigu átti hann 12 börn; komust þar af á legg: Grímur, Sigríður, Þuríður, Hallotta o. s. frv. 1550, þá er Ólafur prestur Hjaltason, er seinna varð biskup, mætti hrakförum af Jóni biskupi og hans mönnum og flúði með annan mann suður á fjöll, en Þorleifur Grímsson fór til alþingis, tók hann Ólaf prest að sèr og reið með honum suður að Straumi nærri Vatnsleysuströnd, kom honum þar í skip, svo prestur komst til Danmerkur. Er ekki ólíklegt, að Christiani höfuðsmanns fullmektugum eða höfuðsmanni, hafi þetta borizt, og til þægðar þar fyrir veitt Þorleifi Vaðlaþing 1550. 1551, þá er Oddeyrardómur fram fór, var Þorleifur Grímsson sýslumaður í Vaðlaþingi og sór konungi hollustueið, og honum skrifaði konungur Kristján III. ásamt öðrum höfðingjum það ár. Sama ár dæmir Þorleifur Grímsson um gjafir Ara lögmanns til Helgu dóttur sinnar. 1551, mánudaginn næstan eptir páskaviku að Spjaldhaga, lætur Þorleifur ganga 12 manna dóm, og dæma þeir Orm lögmann Sturluson rèttan og löglegan umboðsmann Munkaþverárklausturs eptir konungsins náðar- og veitingarbrèfi. 1552, föstudaginn næsta eptir Urbanimessu að Hrafnagili í Eyjafirði, lætur Þorleifur Grímsson sýslumaður í Vaðlaþingi 12 manna dóm ganga um fjórðungsgjöf, er Ari lögmaður gaf Helgu dóttur sinni, að sú gjöf skyldi haldast. Sama ár gefur Þorleifur bóndi Grímsson Þorstein Guðmundsson kvittan fyrir það legorð, sem nefndur Þorleifur átti rètt á og hústrú Þórunn hafði um talað við Grím bónda Þorleifsson og gjörir sátt við Þorstein, nær hann gjaldi sèr 20 hndr., kvittaði og Þorstein þar fyrir; brèfið er dagsett á Möðruvöllum í Eyjafirði mánudaginn eptir vorkrossmessu. 1553 tók Þorleifur Grímsson Grím son sinn fyrir umboðsmann, og voru þeir því báðir þar eptir fyrir Vaðlaþingi, meðan þeir lifðu. Þorleifur var

höfðingi mikill og stórauðugur; hann var haldinn vitur maður. Lítið var honum gefið um giptingu Helgu Aradóttur og Staðarhóls-Páls; skárust þar þá aðrir í það mál (sjá Ísafjarðarsýslu). Þorleifur dó á Möðruvöllum 1560; hann gjörði fyrst fjárskilmála við Solveigu konu sína 1553, og sýnist sem hann hafi unnt henni. Út af auði Þorleifs var mikill ágreiningur. Þó skipti Ormur lögmaður Sturluson þeim arfi eptir höfuðsmanns skipun og Ólafs biskups með fleiri mönnum; þau skipti voru þó seinna upp rifin.

## GJAFABRÈF ÞORLEIFS TIL GRÍMS SONAR SÍNS.

Það gjörum vèr, Tómas Jónsson, Steingrímur Bessason prestar, Gunnar Árnason, Kolbeinn Indriðason og Jón Þórðarson, góðum mönnum kunnugt með þessu voru opnu brèfi, að þá er liðið var frá guðs burði 1546 ár, á Möðruvöllum í Eyjafirði, vorum vèr í hjá, sáum og heyrðum á, að Þorleifur bóndi Grímsson gaf Grími syni sínum til æfinlegrar eignar jörðina Hóla í Eyjafirði og þar með 40 málnytukúgildi, og þessar jarðir með 6 kúgildum hverja: Vatnsenda, Jökul, Halldórsstaði, Tjarnir, Torfufell, Villingadali tvo, Jórunnarstaði, Skáldstaði, Kolgrímastaði og 3 jarðir norður á Melrakkaslèttu, Oddstaði 12 hndr., Skinnalón 5 hndr., Grjótnes 5 hndr., liggjandi í Presthóla kirkjusókn, með öllum þeim gögnum og gæðum, sem þessum jörðum fylgt hafa, að rekum öllum meðskildum, það allt, sem kirkjan og klaustrið hafa átt, og Jón biskup hefir selt nefndum Þorleifi Grímssyni, sem brèf þar um gjört vottar. Lýsti Þorleifur því fyrir oss, að þessi gjöf skyldi vera upp í hans löggjafir. Fór þetta fram miðvikudaginn næsta fyrir uppstigningardag um vorið. Brèfið er skrifað sama ár og dag sem áður er sagt.

## ODDEYRARDÓMUR EÐA HYLLINGARBRÈF Á ODDEYRI ÁR 1551[1]

skrifað mánudaginn næsta eptir St. Barnab. apostoli; eru þar

1) Dómur sá, er framfór á Oddeyri, og herramennirnir dönsku útnefndu, og sem dæmdi eignir þeirra feðga, Jóns biskups og sona hans Ara lögmanns og síra Björns, fallnar undir konung,

í nefndir 24 beztu menn í Norðlendingafjórðungi: 1. Ólafur biskup Hjaltason, 2. Tómas Eiríksson ábóti, 3. Sigurður Jónsson

---

er allt annað, en hyllingareiður sá, er Norðlendingar þar þá sóru konungi ; í dóminum sátu: 1. Ormur Sturluson, lögmaður norðan og vestan á Íslandi, 2. Þorsteinn Finnbogason, 3. Ormur Jónsson, 4. Gísli Jónsson, 5. Fúsi Þorsteinsson, 6. Nikulás Þorsteinsson, 7. Einar Brynjólfsson, 8. Þormóður Arason, 9. Þorsteinn Símonarson, 10. Björn Þorvaldsson, 11. Jón Grímsson, 12. Ásgrímur Jónsson, 13. Brynjólfur Jónsson, 14. Hallur Egilsson, 15. Þorsteinn Jónsson, 16. Tumi Þorgrímsson, 17. Jón Gíslason. 18. Einar Sigurðsson, 19. Eyjólfur Arngrímsson, 20. Eyvindur Arnfinnsson, 21. Magnús Björnsson, 22. Oddur Ásmundsson. Þetta er ritað eptir gamalli dóma- og brèfabók. Í dóminum hafa án efa setið 24 menn, og er þá hèr sleppt úr tveimur mönnum; hafa það, ef til vill, verið Gísli Hákonarson og einhver annar, er eiðinn vann, en enginn náskyldur eða nátengdur þeim feðgum hafa verið í dóminum, sem von var, þótt þeir, sem aðrir, særu konungi hyllingareiðinn. Eyvindur Arnfinnsson er, ef til vill, skakkt skrifað fyrir Eyvindur Gunnarsson, (sjá hyllingareiðinn). Eyvindur Gunnarsson var í dómi Stígs Höskuldssonar 1543. Hyllingareiðurinn byrjar þannig eptir sömu bók:

Vèr eptirskrifaðir menn, herra Ólafur Hjaltason fullmektugur biskup og superattendens í Hólabiskupsdæmi eptir míns högbornasta herra konungsins majestat og náð, fullmektar jáyrði og samþykki almúgans á Íslandi lærðra og leikra, herra Thúmás ábóti á Munkaþverá Eireksson, Sigurður Jónsson officíalis og beneficíatus Grenjaðarstaðar, síra Björn Gíslason forstandari Möðruvalla klausturs, Gottskálk Jónsson officíalis, síra Torfi Jónsson í Saurbæ, Jón Matthíasson á Breiðabólsstað, Loptur Pètursson í Víðidalstungu, Högni Pètursson á Höskuldsstöðum, Magnús Guðmundsson í Guðdölum, Guðmundur Björnsson í Fagranesi, Sturli Einarsson á Mælifelli, sóknarprestar í sama biskupsdæmi, Ormur Sturluson, lögmaður norðan og vestan á Íslandi, Þorsteinn Finnbogason, Þorleifur Grímsson, Páll Grímsson, Þormóður Arason sýslumaður, Jón Magnússon, Ormur Jónsson, Einar Brynjólfsson, Magnús Björns-

officíalis á Grenjaðarsað, 4. Gottskálk Jónsson, 5. Torfi Jónsson, 6. Jón Mattíasson, 7. Loptur Pètursson prestur, 8. Ormur Sturluson lögmaður, 9. Þorsteinn Finnbogason, 10. Þorleifur Grímsson, 11. Páll Grímsson, 12. Þormóður Arason, sýslumenn, 13. Jón Magnússon (á Svalbarða), 14. Ormur Jónsson (á Draflastöðum), 15. Einar Brynjólfsson (á Espihóli), 16. Magnús Björnsson (á Reykjum), 17. Gísli Hákonarson (á Hafgrímsstöðum), 18. Gísli Jónsson, 19. Þorbergur Bessason, 20. Eyvindur Gunnarsson, 21. Hallur Eyjólfsson, 22. Nikulás Þorsteinsson, 23. Vigfús Þorsteinsson, 24. Grímur Þorleifsson, 25. Magnús Jónsson (frá Svalbarði), 26. Brynjólfur Jónsson, 27. Pètur Einarsson, 28. Þórður Pètursson, 29. Þorgrímur Guðmundsson, 30. Tumi Þorgrímsson, svarnir lögrèttumenn. Sumir af þessum höfðu þá sýslur bæði eptir og áður; en þá virðist sem Hegranesþing hafi engum verið veitt. Espólín fróði telur eigi Pál Grímsson með Oddeyrarmönnum, en annað handrit, sem eg hefi, telur hann með sýslumönnum þar; máske að hann það ár hafi verið sýslumaður í Hegranesþingi.

KAUPMÁLABRÈF[1] ÞORLEIFS OG SOLVEIGAR HALLSDÓTTUR, dagsett næsta sunnudag eptir geisladag 1553 á Möðruvöllum:

Þorleifur bóndi hafði til kaups við Solveigu 2 hndr.

---

son, Gísli Hákonarson, Gísli Jónsson, Þorbergur Bessason, Eyvindur Gunnarsson, Hallur Egilsson, svarnir lögrèttumenn, Nikulás Þorsteinsson, Fúsi Þorsteinsson, Grímur Þorleifsson, Magnús Jónsson, Brynjólfur Jónsson, Pètur Einarsson, Þórður Pètursson, Þorgrímur Guðmundsson, Tumi Þorgrímsson, hèr með allir frómustu menn lærðir og leikir, með öllum almúga, búöndum fyrir norðan og vestan á Íslandi í Hólabiskupsdæmi, gjörum öllum viturligt, o. s. frv. Eiðinn hafa án efa unnið þrennar tylftir manna, ein tylftin geistlegra, og hinar tvær veraldlegra; en hinir veraldlegu eru hèr að eins tuttugu og þrír og því einum sleppt af vanvara. Hèr er Páll Grímsson talinn meðal sýslumannanna og hefir hann þá verið sýslumaður í Hegranesþingi.

1) Eptirrit af kaupmálabrèfinu hljóðar þannig:

In nomine domini amen, var svofelldur kaupmáli lýstur og

hundraða, en Solveig til kaups við Þorleif bónda sinn 1 hndr. hundraða. Jörðina Eyvindarstaði í Möðruvalla kirkjusókn gaf Þorleifur Solveigu í sín þjónustulaun, þar til höfðu henni til erfða fallið 60 hndr. Önnur 60 hndr. gaf Þorleifur úr þeim 2 hndr. hundraða í tilgjöf, svo máli Solveigar reiknaðist í garð Þorleifs 2 hndr. hundraða. Samþykkti þetta Grímur, hans löglegur erfingi. Festingarvottar: Bessi Björnsson, Geirmundur Jónsson, Þorsteinn Hallsson, prestar, Jón Magnússon, Einar Brynjólfsson, Teitur Magnússon, leikmenn.

SKIPTABRÉF EPTIR ÞORLEIF GRÍMSSON[1].

Höfuðsmaður Páll Stígsson og Ólafur biskup Hjaltason

---

staðfestur millum ærlegs manns Þorleifs bónda Grímssonar og hans ærlegrar kvinnu Solveigar Hallsdóttur á þeirra brúðkaupsdegi, sunnudaginn næsta eptir geisladag um veturinn á Möðruvöllum í Eyjafirði, þá er liðið var frá guðs burði 1553 ár, að áðurnefndur Þorleifur Grímsson hafði til kaups við áðurnefnda Solveigu Hallsdóttur 2 hndr. hundraða. Hèr í móti hafði Solveig til kaups við bónda sinn Þorleif 1 hndr. hundraða, jörðina Eyvindarstaði, er liggur í Möðruvalla kirkjusókn. Meðkenndist Þorleifur, að hann hefði gefið henni þessa jörð í sín þjónustulaun, þar til skyldi hún hafa önnur 60 hndr., sem (ɔ: henni) hafði til afla fallið og í erfðir. Gaf þráttnefndur Þorleifur Grímsson optnefndri Solveigu Hallsdóttur 60 hndr í tilgjöf úr þeim 2 hndr. hundraða: reiknaðist þá málinn Solveigar 1½ hndr. hundraða í garð Þorleifs Grímssonar, Samþykkti þessa gjöf og gjörning Grímur sonur þeirra, er var þeirra löglegur erfingi. Voru þessir festingarvottar og brúðlaupsvitni: Geirmundur Jónsson, Þorsteinn Hallsson prestar, Jón Magnússon, Einar Brynjólfsson, Teitur Magnússon, leikmenn o. s. frv.

1) Eptir að síra Ólafur Hjaltason var orðinn biskup á Hólum lèt hann prestadóm ganga um það, að fjórmennings frændsemi eða mægðir mættu ekkert afl hafa síðan kirkjuordinantia Christjans III. hefði verið lögtekin á alþingi, og 1554 á Spjaldhaga í Eyjafirði nefndi Eggert lögmaður 24 menn í dóm eptir beiðni Fúsa Þorsteinssonar til að dæma um, hvort þau börn skyldu skilgetin og rèttilega til arfs komin vera eptir föður

útnefna að Möðruvöllum í Eyjafirði 1560 fimmtudaginn næsta eptir Bartholomæimessu, Lopt Narfason, Guðmund Skíðason.

---

sinn og móður og aðra þeirra frændur, sem að faðir þeirra og móðir hefðu sinn ektaskap til samans bundið, eða þar eptir binda vildu, og fjórmenningar væru kallaðir að frændsemi og mægðum, jafnlangt framkomin frá systkinum að telja; sagði lögmaður, að það væri mjög almennt, einkum fyrir norðan og vestan, að menn vildu eigi telja börn þessara manna arfgeng, og til að fyrirbyggja þennan ágreining framvegis, beiddi Vigfús lögmanninn hèr yfir dóm að segja og ljósa grein á að gjöra með fullu dómsatkvæði, er gilt gæti síðan sem lög í landinu. Dæmdu dómsmenn með fullu dómsatkvæði, að börn þeirra manna, er í slíkum ætthring hefðu sinn ektaskap til samans bundið, síðan það var samþykkt í lögrèttu (ɔ: síðan kirkjuordinantian var þar lögtekin) eður þar eptir kynnu að samanbinda, löglega til arfs komin eptfr föður sinn og móður og aðra sína frændur. Þennan dóm samþykkti lögmaður. Þessi dómur var síðan árið eptir staðfestur í lögrèttu af fógeta Knúti Steinssyni og báðum biskupum landsins, og á hann lagður fullnaðarúrskurður Eggerts lögmanns.

1558 um haustið í Spjaldhaga útnefndi aptur velborinn herra Eggert Hannesson, er til var skipaður og skikkaður af vorum náðugasta högbornasta herra konginum og þar með samþykktur í almennilegri lögrèttu af öllum dugandis mönnum þeim, er þar þá voru samankomnir úr tveimur landsins fjórðungum fyrir norðan og vestan, að hann skyldi vera lögmann yfir, 12 menn í dóm, þar af 8 lögrèttumenn, út af ágreiningi þeim, er var á millum Orms Sturlusonar og Eiríks Snjólfssonar. Kærði Eiríkur, að Ormur hefði ólöglega í sezt og að sèr tekið garðinn Möðruvelli í Eyjafirði og þar með önnur góz meiri, er átt hefði Þorleifur heitinn Grímsson, en hann taldi þau fallin til erfða konu sinni Þuríði Þorleifsdóttur eptir Þorleif föður sinn og öðrum þeim, er henni jafnframt stæðu; þar á móti áleit Ormur, að hvorki Þuríður nè önnur börn þau, er Þorleifur hefði átt með Solveigu Hallsdóttur, ættu að taka arf eptir hann, þar eð fjórmennings mægðir hefðu verið millum þeirra. Dómsmenn kváðust eigi geta breytt fyrra dóminum, heldur kváðust

Geirmund Jónsson, Þórarinn Jónsson, Snorra Jónsson, presta, Orm Jónsson, Þorstein Símonarson, Magnús Gunnsteinsson,

---

þeir samþykkja hann, enda hefði Ormur eigi sannað, að fjórmenningsmægðir hefðu verið millum þerrra Þorleifs og Solveigar; löstuðu þeir mjög framgangsmáta og lögleysur Orms, að hafa þrengt sèr inn á Möðruvelli og sezt í arfinn án dóms og laga, og það þótt Guðbjörg Erlendsdóttir hefði lagt lög og dóm fyrir Möðruvelli.

Síðan framfóru 1560 skipti þau, sem hèr að ofan er getið. En þrátt fyrir skipti þessi útnefndi við Vallnalaug í Skagafirði 1568 Ormur Sturluson, er þá var lögmaður norðan og vestan, 12 manna dóm út af klögu Guðmundar Nikulássonar í umboði Orms til Brands Ormssonar, að hann hèldi garðinum Silfrastöðum og fleiri jörðum vegna kvinnu sinnar Hallottu, en sem Ormur áleit að konu sinni Þorbjörgu hefði fallið til arfs eptir Þorleif Grímsson föður hennar; hafði Brandur lagt þar þetta mál vinsamlega til laga. Guðmundur sannaði nú, að þær Solveig og Sigríður kona Þorleifs hefðu verið fjórmenningar og börn Þorleifs með Solveigu hefðu verið fædd, áður en ordinantian hafði verið lögtekin hèr á landi. Sökum þessa og þar eð stæði í Magnúsarbrèfi: að erfðir þær, er til hafa fallið, um jarðabrigði, vígaferli og öll önnur mál, undir hverjum lögum sem þau urðu, þá skuli öll undir þeim vera, sem þá gengu lög í landi, er það mál gjörðist, ef eigi hefir áður lögleg skipan á komið; dæmdu þeir Þorbjörgu, konu Orms lögmanns, einasta löglegan erfingja Þorleifs Grímssonar, föður síns, og hennar löglegan svaramann rèttilega mega að sèr taka öll þau góz, föst og laus, sem Brandur meðtók vegna konu sinnar Hallottu í arf eptir Þorleif Grímsson, en þann úrskurð, er Brandur vændist að lægi á Möðruvöllum í Eyjafirði fyrir þeim tylftardómi, er Eggert Hannesson hafði á Spjaldhaga útnefnt og látið dæma um skilgetningu og arftöku Hallottu og hennar samborinna systkina eptir Þorleif — fyrir dómsmennina kom fram að eins útskript af dóminum með einu innsigli fyrir — á konungs náð, og Jón Marteinsson skyldan að láta hann í ljósi við Orm lögmann.

Magnús Jónsson og Halldór Þorsteinsson[1], lögrèttumenn, Hjálm Sveinsson og Teit Magnússon til að skipta fè Þorleifs heitins Grímssonar[2] o. s. frv. Afreiknuðu þeir í fyrstu allar löglegar skuldir, sumsè prófentumannaskuldir, er reiknuðust 93 hndr., hvað þeir reiknuðu í sömu skuldir 85 kúgildi með Hólum og Hólajörðum, og þar til 8 kúgildi í Pálmholti; skyldi þá peninga eignast og prófentumennina annast sá erfingi, sem jörðin Möðruvellir skiptist, sem var Einar Grímsson; þar næst[3] var skipt Einari Grímssyni og Þórunni Grímsdóttur þeirri gjöf, er Þorleifur bóndi gaf syni sínum Grími heitnum, sumsè Hóla 60 hndr., Torfufell með Villingadal 60 hndr., Leifstaði 20 hndr.[4] Ormi bónda Jónssyni skiptust 7 kúgildi framtals, síra Halldóri Benediktssyni 1 kúgildi[5]; skyldi Jón Marteinsson, umboðsmaður greindra barna, útgreiða þessa peninga af óskiptum peningum Þorleifs. Reiknaðist Ormur Sturluson, vegna kvinnu sinnar Þorbjargar Þorleifsdóttur, að hafa uppborið 5 hndr. hundraða og 86 hndr. Skiptust Einari Grímssyni og Þórunni Grímsdóttur, systur hans, í heimanfylgju Gríms heitins Þorleifssonar Möðruvellir 1 hndr. hundraða og 40 hndr., að auk þess þriðjungs, sem kirkjan á í heimalandi, Kirkjuvogur 60 hndr., Varðgjá 40 hndr., Eyrarland 20 hndr., Finnastaðir 30 hndr., Kerhóll 30 hndr., Ánastaðir 12 hndr., Drafla-

---

1) Á að vera Þorláksson.

2) Þetta er útdráttur af skiptabrèfinu: í eptirriti af því stendur hèr: «og Grím son hans (þeirra sálir að Guð náði) eptir þeim dómi, sem dæmdur var í Spjaldhaga miðvikudaginn næsta fyrir».

3) Þetta er eigi nákvæmt; í skiptabrèfinu stendur: «þarnæst skiptum vær í þá gjöf, sem Þorleifur heitinn hafði gefið syni sínum Grími, með jáyrði og samþykki dóttur hans, Þorbjargar, og lögleg var dæmd á áðurnefndum Spjaldhaga, í hvað vær skiptum Hóla fyrir 100 hndr.» o. s. frv.

4) Hèr er við bætt í skiptabrèfinu: «hverja gjöf að Einar Grímsson og Þórunn Grímsdóttir erfðu eptir föður sinn».

5) Vantar inn í: «síra Ólafi Árnasyni 1 kúgildi. Skyldi Jón Marteinsson, umboðsmaður fyrgreindra barna, útgreiða þessar skuldir af peningum Þorleifs heitins óskiptum».

staðir 16 hndr.[1], Oddstaðir 12 hndr., Skinnalón 5 hndr., Grjótnes 5 hndr., þær þrjár jarðir liggja á Slèttu, Skógar í Fnjóskadal 20 hndr., í Pálmholti í Hörgárdal 12 hndr. Item kúgildi með Möðruvöllum og tèðum jörðum 38. Item í stofutjöldum og öðru innanstokks 20 hndr. Þuríður Þorleifsdóttir hafði fengið í sína heimanfylgju 2 hndr. hundraða[2]; skiptust þar til Rúgstaðir 40 hndr., Bringa 20 hndr. Sigríði[3] heitinni Þorleifsdóttur bar í sína heimanfylgu: Vatnsenda 20 hndr., Jökul 20 hndr., Halldórsstaði 20 hndr., Tjarnir 40 hndr., Jórunnarstaði 40 hndr., Kolgrímastaði 20 hndr., Yxnafell 40 hndr., Fífilgerði 20 hndr., Krókstaði 20 hndr. Hallottu skiptist: Silfrastaðir 1 hndr. hundraða, Egilsá 20 hndr., Hökustaðir 20 hndr., Borgargerði 12 hndr., Skáldstaðir 30 hndr., þar með 17 kúgildi. Item með garðinum heima 12 kúgildi. Stóðu þá óskiptar: Auðbrekka með Brakanda 1 hndr. hundraða, Fornhagi 50 hndr., Miðbakki 10 hndr.; voru þær jarðir settar í varðveizlu Jóns Marteinssonar, þar til Páll Jónsson gæti, vegna sinnar kvinnu Helgu og hennar systur Þóru, sýnt, hvað mikið þær vantaði við önnur skilgetin börn Þorleifs. Item í móti útlenzkum skuldum skyldi Jón Marteinsson varðveita 11[5] kúgildi, þar til Þýzkir sig með lögum tilleiddu. Um jörðina Kaupang[6] lögðu umboðsmenn áðurgreindra erfingja fyrskrifaða jörð Kaupang sinn hluta þar í Þorbjörgu Þorleifsdóttur, svo framt þeir með lögum mættu, með því fororði, ef hún vildi eða þyrfti selja, þá skyldi hún nefndum umboðsmönnum fyrst

---

1) Í eptirritinu stendur: 13 hndr.

2) Í eptirritinu stendur: 1½ hndr. hundraða.

3) Í eptirritinu stendur: «Item skiptum vær í þann part, er Sigríði heitinni Þorleifsdóttur tilheyrði í sína heimanfylgju, Vatnsenda» o. s. frv.

4) Í eptirritinu stendur: 30 hndr.

5) Í eptirritinu stendur: 6.

6) Í eptirritinu stendur þannig: «En jörðina Kaupang fyrir bón höfuðsmannsins og biskupsins, herra Ólafs, og allra vorra, sem í gjörðinni vorum, lögðu umboðsmennirnir áðurgreindra erfingja þeirra, sem hjá voru, svo framt þeir mættu það með lögum, Þorbjörgu Þorleifsdóttur, með því fororði» o. s. frv.

bjóða að kaupa. En ef þessi góz kynnu af erfingjum að ganga með rèttum lögum, þá skerði fyrir hverjum, sem tala rennur til. Samþykkti höfuðsmaður Páll Stígsson og biskup Ólafur Hjaltason. Skrifað á Hólum í Hjaltadal 2. sept. á sama ári[1].

---

1) Þessi skipti gengu aptur samkvæmt brèfi konungs 30. d. marzmánaðar 1569, gefnu Ormi Sturlusyni, og síðan gjörð ný skipti millum erfingjanna, og skyldu fyrri konu börnin fá helminginn, en seinni konu börnin fá hinn helminginn. Brèf þau, er lúta að þessum seinni skiptum, eru þessi, og virðast þau í mörgu tilliti ekki ófróðleg:

*1. Sáttargjörð erfingjanna upp á síðari skiptin.*

Öllum og sèrhverjum, hvers yfirvalds, virðingar, hæðar, heiðurs, stèttar og veru, þeir eru, andlegrar eða veraldlegrar, tignir eða ótignir, þeim þetta vort brèf eða þar af trúverðuga handskript sjá, lesa eða heyra kann og má opinberast fyr eða seinna, segjum vèr allir eptirskrifaðir menn: Christofor Valchendorf til Glorups, kongl. majest. befalningsmann yfir allt Ísland, Gísli Jónsson, superintendent yfir Skálholts biskupsdæmi, Eggert Hannesson, Erasmus Villaðsson, prestur í Odda, Níels Ólufsson, Jón Jónsson, Gísli Sveinsson, Magnús Jónsson, vora kærlega kveðju, hèr með kunngjörandi, að þá liðið var frá guðs burði 1569, þann 5. dag júlí á Kongsnesinu á Bessastöðum, vorum vèr til samans komnir, eitt óbrigðanlegt eignarskipti að gjöra á öllum þeim peningum, gózum og eignum, föstum og lausum, fríðum og ófríðum, kvikum og dauðum, sem að erfingjum Þorleifs heitins Grímssonar hafði til erfða fallið eptir greindan Þorleif, sem að voru af þeim eina parti: Ormur Sturluson vegna sinnar kvinnu Þorbjargar Þorleifsdóttur, Páll Jónsson og Sigurður Þorbergsson vegna sinna kvenna, Helgu og Þóru Ara dætra, þeim báðum systrum eptir sína móður Halldóru Þorleifsdóttur, samborna systur Þorbjargar, kvinnu fyrnefnds Orms Sturlusonar, hverjar dætur Þorleifur Grímsson hafði átt með sinni fyrri konu, Sigríði Sturludóttur; en af þeim öðrum parti: Jóns Marteinssonar vegna hans stjúpsonar Einars Grímssonar, sonar-sonar Þorleifs, eg Eggert

DÓMUR UM GJÖF ARA LÖGMANNS JÓNSSONAR TIL HELGU DÓTTUR SINNAR.

Eg Páll Hvítfeld K. M. höfuðsmann yfir allt Ísland, Jacupp Hvide til Randkild í Fyn og Ólaf Kalippson höfuðs-

---

Hannesson með sampykki beggja partanna í þessari sundurgreiningu vegna minnar kvinnu, Sigríðar heitinnar Þorleifsdóttur, Brands Ormssonar vegna sinnar kvinnu, Hallottu Þorleifsdóttur, og vær allir fyrskrifaðir menn fyrir hönd þuríðar Þorleifsdóttur, hver börn, Grím, Sigríði, Hallottu og Þuríði, Þorleifur Grímsson hafði átt með sinni seinni kvinnu, Solveigu Hallsdóttur, eptir kngs. majest. brèfi, sem þar kom fram fyrir oss, þann 30. marz á sama ári útgefið, og svo var látandi: höfum vèr með beggja partanna sampykki og vilja þá um fyrnefnds Þorleifs Grímssonar arf svo látið forlíka og vinsamlega samandraga, að allt fyrnefnt þorleifs Grímssonar góz skal sundurgreinast og skiptast í tvo parta, þann eina part skulu halda fyrri börn þorleifs Grímssonar með allri inntekt og ávexti og öllum öðrum nytkum, sem er uppborið af sama gózi eptir hans dauða og afgang og það á að skiptast á millum þeirra eptir íslenzkum lögum; þann annan part skulu hafa þau síðari börn Þorleifs Grímssonar í hinn sama máta með allri inntekt og ávexti og það skiptast þeirra á millum eptir lögum o. s. frv.

## 2. *Síðari arfaskiptin.*

Í nafni heilagrar þrenningar meðkennumst vèr allir eptirskrifaðir menn fyrir oss sjálfa og alla vora erfingja og eiginlega eptirkomendur og afkvæmi alna og óborna um aldur og æfi; af þeim eina parti Ormur Sturluson, lögmaður fyrir norðan og vestan minnar kvinnu Þorbjargar Þorleifsdóttur vegna; af öðrum parti Jón Marteinsson míns stjúpsonar Einars Grímssonar, Eggert Hannesson minnar sálugu kvinnu Sigríðar Þorleifsdóttur, Brandur Ormsson minnar kvinnu Hallottu Þorleifsdóttur þar með Eireks Snjólfssonar og hans kvinnu Þuríðar Þorleifsdóttur vegna, að vèr höfum með sampykki og sáttsamlegum vilja svoddan eignarskipti gjört vor á millum á öll-

maður upp á kongsins skip fyrir norðan og Jon Simonson lögmann upp á Agedis síðu, gjörum góðum mönnum kunnugt

---

um peningum Þorleifs heitins Grímssonar, föstum og lausum, fríðum og ófríðum, kvikum og dauðum, sem hèr eptir stendur: Í fyrstu skiptist mèr, Ormi Sturlusyni, með rèttu hlutfalli móts við aðra erfingja Þorleifs heitins, hálfur Kirkjuvogur fyrir 35 hndr., hálfir Silfrastaðir fyrir 60 hndr., Bringa 20 hndr., Finnastaðir 30 hndr., Árnastaðir 16 hndr., Rúgstaðir 50 hndr., Eyvindarstaðir 40 hndr., Vatnsendi 20 hndr., Seljahlíð 20 hndr., Leifstaðir 20 hndr., Krókstaðir 20 hndr., Skáldstaðir 30 hndr., Kaupang 30 hndr., Auðbrekka 50 hndr., Egilsá 30 hndr., Hökustaðir 20 hndr., Skinnalón 6 hndr., Nes 20 hndr., Oddstaðir 12 hndr., Pálmholt 16 hndr., Veigastaðir 29 hndr., Öxnafell 40 hndr. Í annan máta hlotnaðist oss áðurgreindum mönnum í vort eignarskipti að öðrum parti móts við fyrgreinda menn af peningum Þorleifs: Hólar fyrir 100 hndr., hálfur Kirkjuvogur fyrir 30 hndr., hálfir Silfrastaðir fyrir 60 hndr., Ánastaðir fyrir 40 hndr., Jórunnarstaðir 40 hndr., Kerhóll 30 hndr., Draflastaðir 16 hndr., Torfufell 50 hndr., Tjarnir 40 hndr., Jökull 20 hndr., Villingadalur 10 hndr., Kolgrímastaðir 20 hndr., Varðgjá 40 hndr., Eyrarland 20 hndr., Fífilgerði 20 hndr., Halldórsstaðir 30 hndr., Kaupang 30 hndr., Fornhagi með Úlfá 50 hndr., Skógar 20 hndr., Miðbakki 10 hndr., Borgargerði 20 hndr., Grjótnes 6 hndr., Holt 20 hndr., Veigastaðir 29 hndr., Villingadalur 10 hndr. og þar til 5 hndr. úr skiptum Orms og Þorbjargar. Höfum vèr allir fyrskrifaðir menn þennan gjörning, skipti og sundurgreiningu gjört vor á meðal af glöðum sjálfræðis vilja eptir skoðun og ávísun kongl. majestat. í brèfi, þann 30. marz á sama ári útgefnu, og öllum til samþykkis og forlíkunar, hver skipti að vèr viljum að haldist óbrigðanleg af oss, og öllum vorum eptirkomendum æfinlega hèr eptir, sem fyr skrifað stendur; og til meiri staðfestu og fullkomlegs vitnisburðar hèr um, að vèr höfum þessi skipti gjört í návist og viðveru þess heiðarlega og velbyrðiga herra Christofors Valchendorfs til Glorupe, kongl. majest. befalningsmanns yfir allt Ísland, og annara ærlegra

með þessu voru opnu brèfi, að vèr höfum setið á skiptum við Grím Þorleifsson upp á hans systur-dóttur vegna um þá gjöf,

---

manna, sem var herra Gísli Jónsson, superintendent yfir Skálholts biskupsdæmi, Eggert Hannesson, Erasmus Vilhaðsson, prestur í Odda, Níels Ólufsson, Jón Jónsson, Gísli Sveinsson, Magnús Jónsson, hvorir að settu sín innsigli með vorum fyrskrifaðra manna innsiglum fyrir þetta brèf, hvort að gjört var og skrifað á Kongsnesi á Bessastöðum, árum eptir guðs burð 1569, þann 5. dag júlí.

Eg Ormur Sturluson meðkennumst, að eg vil svo halda, sem þetta brèf útvísar.

Christofor Valchendorf til Glorupe, egen hand.

### 3. *Enn þá framar um þessi skipti.*

Þetta eptirnefnt góz höfum vær lagt á þennan hlut, að stendur í millum Orms Sturlusonar og hans samerfingja, fyrri börn Þorleifs Grímssonar. Það annað og um Jón Marteinsson og hans meðerfingja Þorleifs Grímssonar, þau síðari börn upp á aðra síðu og skipt gózinu í tvo parta jafnt að verðaurum eptir hundraðatölu að reikna eptir kongl. majest. forlíkun, anno 1569 4. dag júlí: Möðruvellir 1 hndr. hundraða 35 hndr., Kirkjuvogur 35 hndr., Hólar 50 hndr., hálfir Silfrastaðir 60 hndr., Björk 20 hndr., Arnarstaðir 40 hndr., Kerhóll 30 hndr., Draflastaðir 16 hndr., Torfufell 50 hndr., Tjarnir 40 hndr., Jökull 20 hndr., annar Villingadalur 10 hndr., Kolgrímastaðir 20 hndr., Varðgjá 40 hndr., Eyrarland 20 hndr., Fífilgerði 20 hndr., Halldórsstaðir 30 hndr., Kaupang 30 hndr., Fornhagi með Úlfá 50 hndr., Skógar 20 hndr., Miðbakki 10 hndr., Borgargerði 20 hndr., Grjótnes 6 hndr., Holt 20 hndr., Veigastaðir 29 hndr., Villingadalur 10 hndr.; summa: 7 hndr. hundraða 31 hndr.

Christofor Valchendorf til Glorupe, egen hand.
Henrik Kragh. Gísli Jónsson, eigen hönd.
Páll Vigfússon. Erasmus Vilhaðsson.
Níels Ólufsson skrifari. Magnús Jónsson.
Gísli Sveinsson. Jón Jónsson, mín egen hönd.

er Ari heitinn Jónsson skyldi gefa sinni dóttur Helgu, er var Einarsstaðir og allir þeir peningar, er lágu fyrir norðan Vöðlu-

---

*4. Skiptabrèf í millum seinni barna Þorleifs Grímssonar.*

Öllum góðum mönnum, sem þetta brèf sjá eða heyra, sendum vèr Björn Gíslason, Guðmundur Skíðason, Böðvar Jónsson, prestar Hóla biskupsdæmis, Páll bóndi Jónsson, Tyrfingur Halldórsson og Halldór Þorláksson, leikmenn, kveðju guðs og vora, kunnugt gjörandi, að þá er liðið var frá holdgan Jesú Kristí 1569 ár, á Skriðu í Hörgárdal á almennilegu hèraðsþingi, vorum vèr til skipta nefndir af velbyrðugum herra Ormi Sturlusyni, lögmanni norðan og vestan á Íslandi, lögleg arfa- og eignaskipti að gjöra á milli barna Þorleifs heitins Grímssonar, þeirra, sem hann átti með sinni seinni kvinnu, að nafni Solveigu Hallsdóttur, því þeim hafði á Bessastöðum skipzt allir hálfir peningar síns föður Þorleifs Grímssonar áður á sama sumri eptir vors náðuga herra kongs Friðriks innsigluðu brèfi, hvert fyrir oss þar var upplesið, og svo það brèt innsiglað, sem gjörðist á Bessastöðum um alla peninga áðurgreinds Þorleifs; því eptir áðurgreindum brèfum, að guðs nafni tilkölluðu, gjörðum vèr svofelld eigna- og arfaskipti með áðurgreindum eptirkomendum Þorleifs Grímssonar, sem hèr segir:

Í fyrstu skiptum vèr Einari Grímssyni, sonarsyni optnefnds Þorleifs eptir fyrstu erfð, jöfnum hlut við dóttur Þorleifs, þar svo stendur, slíkan hlut skal taka sonarson af arfi, sem dóttir, ef hann er til, því hans faðir Grímur andaðist fyr en Þorleifur, og skiptum Einari Grímssyni Hólum fyrir 100 hndr., Jórunnarstöðum 40 hndr., Kolgrímastöðum 20 hndr., Villingadal neðra 10 hndr., í Kerhóli 10 hndr., í Jökli 5 hndr. Í annari grein, því fyrir oss var framborið, að Þorleifur Grímsson hafði sjálfur gipt, og af arfi leyst með heimanfylgju, sína dóttur Sigríði, síðan hafði hún fráfallið og hana erft hennar barn, og síðan hafði það barn erft þess faðir Eggert Hannesson, og því fyrir þá grein skiptum vèr Eggert, svo sem fyrir hennar áðursagða heimanfylgju, hálfum Kirkjuvogi í Höfnum fyrir sunnan land á Rosmhvalanesi 35 hndr., hálfum Kaupangi í Eyjafirði 30 hndr., í Fífilgerði 20 hndr., Eyrarlandi 20 hndr., í Veigastöð-

heiði; leiddi Grímur eiða að á alþingi, að Ari hefði þá gjöf gefið, hvar fyrir og Páll Hvítfeld dóms á beiddist kongl.

---

um 29 hndr., Úlfá 10 hndr., Kerhóli 10 hndr., í Jökli 5 hndr., Skógum 20 hndr., Grjótnes 5 hndr. Item skiptum vèr Þuríði Þorleifsdóttur í sitt eignarskipti jörðina Arnarstaði í Eyjafirði fyrir 50 hndr.; hafði hennar faðir þá jörð fyrir 30 árum henni gefið, Torfufell fyrir 50 hndr., Tjarnir fyrir 40 hndr., Halldórsstaði fyrir 20 hndr., Villingadal fremra fyrir 10 hndr., í Jökli 5 hndr. og í Kerhóli 10 hndr. Item Hallottu í sitt eignarskipti jörðina hálfa Silfrastaði í Skagafirði fyrir 60 hndr., Borgargerði 12 hndr., Fornhagi fyrir 40 hndr., Miðbakki fyrir 10 hndr., Varðgjá fyrir 40 hndr., Draflastöðum í Sölfadal 16 hndr., úr skiptum Orms og Þorbjargar 5 hndr. af þeim peningum, er Þorbjörg hafði fengið eptir sinn föður Þorleif Grímsson, og í Jökli 5 hndr. Voru við þessi vor skipti löglegir umboðsmenn áðurgreindra arfa; samþykkti og staðfesti þessi öll áðurskrifuð skipti með oss Ormur Sturluson lögmaður, því settum vèr áðurskrifaðir menn vor innsigli fyrir þetta vort skiptabrèf, hvert gjört var í sama stað degi síðar en fyr segir.

Af þessu brèfi er til útdráttur, auðsjáanlega gjörður af Eggerti lögmanni, og neðan við hann hefir hann skrifað athugasemd svo látandi:

NB. Þetta eptirskrifað hefi eg Eggert Hannesson að tala til Jóns Marteinssonar og hans kvinnu fyrir minn part, það hann hefir eigi neitt það framlagt í fyrskrifuðum skiptum og hvorki fyr nè síðar, sem var í Hólum og á Möðruvöllum, það hans kvinna þar meðtók og þar var eptir þá feðga fráfallna, sem eru allir dauðir peningar, hverir sem helzt þeir hafa verið, ekki hesta nè hross, uxa nè geldinga, og eigi heldur af neinum kúgildum, hvorki af þeim, sem voru heima á garðinum, nè á leigustöðum, og eigi heldur hvað háfa peninga að hann hefir meðferðis haft í fasteign, meðan hún sat í þeim.

majest. vegna, hvort opt nefndur Ari hefði mátt svo mikla peninga gefa að lögum. Dæmdu 12 dómsmenn, er til voru nefndir, að Ari eigi hefði mátt gefa meira en fjórðungsgjöf, og skiptum vèr því Helgu í sína gjöf: fyrst Einarsstöðum, er

---

### 5. *Sátt erfingja Þorleifs Grímssonar um brèf og gjörninga þeirra á millum.*

Saa ere Ormer Storlofssen, Eggert Hannessen, Joen Mortenssen och Povell Jonssen forligthe ath the brefve, domme eller vidnesbyrthe, som the emod hver andre taget hafve i thenne langvarendes thrette, skulle vere döde och magtheslöse i alle maade, och efterthi at samme brefve paa ingen Side ere nu till stede, hafve the forplichtedt thennem samftligen paa Troe och ehre, at naar the forsamblis igien at the ville tha paa alle sider, hver thage samme brefve med sig och tha thend eene, at lade thend anden see disse brefve och saa strax at brende, och thennem till inthet at giöre paa thet, at the skulle iche före nogen ny thrette efter thenne dag udi nogen maade, mens Povell Joenssen skall ubehindret beholde thet breff paa Mödrevelle, som kaldes kaupmalebreff, hvilchet han och hans arfvinger bör at hafve och beholde efter lougen. Findes ther nogen af parterne at beholde nogen af brefvene hos sig, hvor af nogen thrette i thenne Sag paa ny kunde her efter komme, tha skall thend iche holdes for nogen sandrue mand therefter, om hand thet giör meth ville och videnskab, och till vyndesbyrth hafve thenne saft (= sætt) meth theres egen hænder underskrefvet, at ther som thend eene hafver talt noget om thend anden andet end goth for Kongl. Maiest. eller andre, thet skall och hermed forlugt och fordraget vere och thend eene herefter at giöre thend anden alt goth och gaufn och holde thend handfesting, som the hver andre ther paa giort hafver, som erlig mend bör at holde ved theres troe och ehre, som the lofvet hafvet.

Actum Bessestad Anno 1569.

virðir voru til leigu 3 hndr., þar með 17 kýr, 11 ásauðarkúgildi, 5 kvígum veturgömlum, 1 naut fjögra vetra, 4 nautum veturgömlum, 4 kálfum, 5 sauðum, og þessar jarðir og kúgildi: með Glaumbæ 5 kúgildi, jörð leigð 2 hndr., með Björgum 5 kúgildi, jörð leigð 1 hndr. og 20 ál., með Fljótabakka 6 kúgildi, jörð leigð 1 hndr., Ingveldarstaðir 5 kúgildi, jörð leigð 1 hndr., Kvígyndisdal 5 kúgildi, jörð leigð 1 hndr., Hólar 5 kúgildi, jörð leigð 1 hndr. og 20 ál., Narfastaði 6 kúgildi, jörð leigð 2 hndr. Til staðfestu vor signet. Að Bessastöðum fimmtudaginn næsta eptir visitationem Mariæ 1553. [Þetta eptir Arn. Magn.]. Hèr af má sjá, hvað Helga fèkk í arf eptir föður sinn Ara.

### Grímur Þorleifsson.

*Faðir*: Þorleifur á Möðruvöllum Grímsson.
*Móðir*: Solveig Hallsdóttir.
*Kona*: Guðbjörg dóttir Erlendar lögmanns á Strönd Þorvarðarsonar; þau giptust 1550.
*Börn*: A. Guðrún (aðrir Þórunn)[1] dó undir græðslu barnlaus.
B. Einar átti Þuríði, dóttur Magnúsar í Stóradal Árnasonar (sjá Strandasýslu). Börn:
1. Grímur á Teigi átti Guðrúnu, dóttur síra Torfa á Gilsbakka; þeirra börn:
a. Oddný[2] átti Gísla á Skarði á Landi, son Bjarna Sigurðssonar; þeirra börn:
α. Bjarni lögrèttumaður.
β. Helga.
b. Ingiríður, aðrir Guðríður.
c. Ingimundur[3] (með Katrínu, aðrir Guðrúnu

---

1) Hún hèt Þórunn; aðrir segja, að hún hafi dáið af hræðslu.

2) Grímur í Teigi átti ekki barn með Guðrúnu Torfadóttur, er uppkæmist; en Jón Magnússon telur barn hans með Solveigu nokkurri, Oddnýu, en hún hefir líklega dáið barnlaus, því sú Oddný Grímsdóttir, er átti Gísla á Skarði, hefir líkast til verið af annari ætt; erfði og Grímur Ingimundarson afa sinn, sem hèr segir síðar.

3) Ingimundur var kallaður Tóumundi.

Ingimundardóttur) laungetinn, átti Þórelfu aðrir Úlfheiði, dóttur Vigfúsar Jónssonar á Bjarnastöðum í Selvogi; börn:

α. Síra Grímur í Selvogi.

β. Jón í Herdísarvík.

γ. Ingibjörg átti Gunnar í Bolholti lögrèttumann.

Grímur Einarsson taldi sèr til giptingar 1 hndr. hundraða og 20 hndr. í jörðum og 100 hndr. í lausafè. Síra Jón Ólafsson[1] skrifar, að þau Grímur og Guðrún hafi átt eitt barn, sem dó ungt, líkast eptir Guðrúnar dauða, og hafi Grímur Einarsson erft það. Þar eð Ingimundur, launson Gríms, var giptur og átti ungt ektabarn, Grím, hafi það barn eins árs erft Grím Einarsson, afa sinn; barnið dó þar eptir og Ingimundur erfði það; ef þetta er rètt, hefir Ingimundur átt hin börn sín seinna, og látið eitt þeirra heita Grím, sem varð prestur í Selvogi 1673, en dó 1676, líklega barnlaus; en systkin hans voru: 1. Jón í Herdísarvík, er átti fyrir dóttur Guðrúnu seinni konu Jóns í Selvogi, 2. Ingibjörg, er giptist Gunnari lögrèttumanni í Bolholti Philippussyni, og var móðir síra Philippusar, (sem fæddist 1695, fèkk Kálfholt 1718, dó 1779), föður Rannveigar, konu Bjarna kaupmanns og riddara Sigurðssonar[2].

2. Þórunn Einarsdóttir átti Pál son Magnúsar Hjaltasonar; þeirra börn:

a. Björn átti Elínu Jónsdóttur[3] í Teigi; börn:

---

1) Það sem síra Jón Ólafsson skrifar um þetta, er án efa með öllu rètt; þau 3 börn Ingimundar, er hèr eru nefnd, hafa öll fæðzt, eptir að Grímur faðir hans var dáinn.

2) Enn voru börn Ingimundar: 3. Björn og 4. Solveig.

3) Björn bjó í Teigi og átti dóttur síra Jóns Sigurðssonar á Breiðabólstað eystra, sonar síra Einars í Eydölum.

α. Jón[1].

β. Hjalti[2].

γ. Páll[3].

δ. Ragnhildur[4].

ε. Guðrún[5].

ζ. Ingunn[6].

η. Ingibjörg[7].

ϑ. Kristín[8].

b. Hjalti Pálsson átti Dómhildi dóttur Orms í Eyjum; börn:

α. Þórunn, kona Sigurðar Pálssonar.

Seinni kona Hjalta var Elín Eiríksdóttir[9]; börn:

β. Síra Jón í Laufási[10].

γ. Dómhildur[11].

c. Jón Pálsson í Selvogi átti Guðríði Gísladóttur; börn:

---

1) Jón átti Solveigu Guðmundsdóttur.

2) Hjalti átti Ragnheiði Halldórsdóttur.

3) Páll átti dóttur Jóns í Hróarsholti.

4) Ragnhildi átti Magnús Einarsson í Njarðvík.

5) Guðrúnu átti Jón Guðmundsson á Rauðalæk.

6) Ingunni átti Gísli Guðmundsson.

7) Ingibjörgu átti Magnús Guðmundsson.

8) Kristínu átti Guðmundur Jónsson.

9) Faðir Elínar var Eiríkur Sigvaldason, Elín giptist aptur síra Gunnlaugi í Saurbæ í Eyjafirði, og var þriðja kona hans.

10) Síra Jón Hjaltason var fyrst konrektor á Hólum, vígðist svo kapellán til stjúpföður síns síra Gunnlaugs og fèkk Saurbæjar prestakall eptir hann; því brauði þjónaði hann til dauðadags. Kona hans hèt Helga Jónsdóttir, eitt af þeirra börnum var Þórunn, móðir síra Jóns Þorgrímssonar föður Þórunnar konu síra Gunnars á Upsum Hallgrímssonar.

11) Dómhildur Hjaltadóttir var móðir síra Hjalta í Vatnsfirði, hans dótturson var Björn lögmaður Markússon (sjá Hegranesþing); eins var síra Þorbergur á Eyri við Skutulsfjörð dótturson síra Hjalta í Vatnsfirði.

α. Guðrún.
β. Jón lögrèttumaður, barnlaus.
d. Þórunn átti Hallgrím Magnússon; börn:
α. Einar.
β. Jón.
γ. Hólmfríður.
3. Solveig Einarsdóttir átti 1607 Ólaf Árnason í Fljótshlíð; þau giptust í Holti og báru prestar vaxljós undan brúðurinni í tvö kvöld; börn:
a. Einar í Gunnarsholti átti Ragnheiði Bjarnadóttur; börn:
α. Grímur.
β. Salvör.
γ. Hólmfríður.
δ. Guðrún.
C. Tómas hèt launson Gríms Þorleifssonar.

Grímur Þorleifsson kvæntist, sem áður er sagt, um eða fyrir 1550, sókti um Munkaþverárklaustur, þá er Ormur missti það 1553 eða 1554, gjörðist og nálægt þeim tíma umboðsmaður föður síns í sýslumannsverkum, því 1553 föstudaginn næsta eptir Pálsmessu um veturinn á 3 hreppa þingi lætur Grímur Þorleifsson, umboðsmaður föður síns og klausturhaldari, dóm ganga á Spjaldhaga í Eyjafirði um klögun Þorleifs bónda Grímssonar, að Grímur heitinn Pálsson hafi burt fengið þær jarðir, sem Þorleifur hèlt sína eign og sinna systkina, með samningi við Vigfús Erlendsson o. s. frv., eptir Möðruvalla rèttarbót, o. s. frv. Dæma þeir dómsmenn jarðirnar löglega eign Þorleifs Grímssonar og hans systkina. Þetta sama ár uppátalar Grímur jarðir þær, sem Ari gaf Helgu dóttur sinni. Af gjöfum föður síns hefir Grímur orðið auðugur. Hvort Grímur bjó nokkurntíma á Munkaþverárklaustri, er óvíst, en sýslu konungs í Vaðlaþingi hafði hann ásamt Þorleifi föður sínum, meðan hann lifði. Grímur varð eigi gamall maður og dó á Hólum í Eyjafirði sama ár, og Þorleifur faðir hans, 1560. Um arfaþrætur eptir þá feðga, sjá Ísafjarðarsýslu og Snæfellsnessýslu, sem og hèr eptir við Jón Marteinsson. Grímur bjó lengst á Hólum í Eyjafirði.

### Ormur á Draflastöðum.

Hann var son Jóns Kolls Oddssonar og var settur lögsagnari eptir þá feðga 1560 (sjá um ætt hans Dalasýslu). Hann var stundum lögsagnari í Vaðlaþingi.

### Jón Marteinsson.

*Faðir:* Marteinn biskup Einarsson, prófasts á Staðastað Snorrasonar. Síra Einar var kallaður Ölduhryggjarskáld.
*Móðir:* Ingibjörg, almúgamanns dóttir úr Staðarsveit.
*Kona:* Guðbjörg Erlendsdóttir, ekkja Gríms Þorleifssonar; hún dó 1594.
*Barn:* Solveig giptist Hákoni sýslumanni í Nesi við Seltjörn Björnssyni, sjá Gullbringusýslu.

Þá er þeir Þorleifur á Möðruvöllum og son hans Grímur dóu 1560, tók Jón Marteinsson Vaðlaþing, og gjörðist umsjónarmaður Guðbjargar og barna hennar, var og við skipti þau, er gjörð voru á Möðruvöllum 1560, og liðsinnandi Guðbjörgu. Að því búnu komu þeir Staðarhóls-Páll og Ormur Sturluson til Möðruvalla, lýstu eign sinni á allt fè það, sem þar stæði saman, og vildu setjast á staðinn. Guðbjörg fèkk marga menn og varði Möðruvelli; er sagt, að henni hafi tekizt það fram yfir þing; þó mátti Guðbjörg loks sleppa Möðruvöllum og flutti að Hólum í Eyjafirði. Þeir Páll og Ormur sögðu öll seinni konu börn Þorleifs Grímssonar getin í meinum og eigi arfgeng. Sátu þeir nærri 2 ár á Möðruvöllum, eyddu og spenntu þar öllu og skiptu á millum sín eptir eigin vild, og höfðu að engu hin fyrri skipti. Solveig Hallsdóttir var og nauðulega stödd; þá sendi hún 5 menn í brennisteinsnámur þeirra Þorsteins sona og fèkk 60 tunnur, sem hún sjálf seldi á Eyri. Þá[1] er Jón Marteinsson fann yfirgang þeirra Páls, beiddist hann dóms um þetta arfamál; var þá dæmt af þrennum tylftum á alþingi, að öll börn Þorleifs og Solveigar skyldu vera arfgeng. Jón Marteinsson keypti þá fyrir 70 dali af höfuðsmanni Páli Stígssyni, að útvega staðfestingu konungs upp á dóminn, sem og kom árið eptir. Jón sýslumaður Marteinsson giptist um þessar mundir Guðbjörgu, sem

1) Sjá hèr um hið fyrsagða.

bjó á Hólum í Eyjafirði í 2 ár. Þá er staðfesting konungs kom upp á alþingismannadóminn, um rètt seinni konu barna Þorleifs, sáu þeir Páll og Ormur hlut sinn óvænni og fluttu frá Möðruvöllum, en Jón sýslumaður Marteinsson tók þá Möðruvelli og aðrar eignir eptir skiptabrèfinu, er gjört var 1560; hèlt hann þeim eignum um hríð og sat yfir hlut annara höfðingja í Vaðlasýslu. Jón sýslumaður Marteinsson tók Vaðlasýslu, sem áður er sagt, 1560; hann tók sèr strax fyrir umboðsmann Benedikt bónda Halldórsson og stöku sinnum Þorberg Bessason og fleiri, en lèt mjög sjaldan sjálfur dóm ganga. Jón var hinn mesti yfirlætis- og skrautmaður; það er sagt, að þegar Jón eitt sinn reið á Eyjafjarðarárbökkum, hafi bændur í Eyjafirði metið hann með hesti reiðtygjuðum og búningi fyrir 3 hndr. hundraða[1], sem þá samsvaraði 1440 spesíum; hann var þá og maður auðugur, meðan hann hafði til meðferðar fè stjúpbarna sinna. Eptir að þeir Ormur og Páll eigi lengur hèldust við á Möðruvöllum, flutti Páll að Einarsstöðum og svo að Staðarhóli, en Ormur var þá nokkur ár hjá frændum sínum og vinum, hafði hann þá enn sóað fè sínu og komizt á rekning. Var hann þá lestreki hjá klausturhaldara Nikulási á Munkaþverá Þorsteinssyni, þaðan fór hann til Bjarna sýslumanns Erlendssonar í Múlaþingi; Bjarni átti Guðríði dóttur Þorsteins sýslumanns Finnbogasonar lögmanns, en móðir Orms var Guðlaug systir Þorsteins sýslumanns; bjargaði því Guðríður Ormi frænda sínum og kom honum utan. Eptir erfiða hrakför komst Ormur á fund konungs; gaf konungur honum enn lögmannsembættið og Möðruvallaklaustur; kom Ormur inn 1568 og gjörðist þá umfangsmikill; lèt hann þá tvo menn við Vallnalaug sverja sifjaspell millum Þorleifs heitins Grímssonar og Solveigar Hallsdóttur og taldi þeirra börn óarfgeng, en áður hafði Eggert lögmaður dæmt þeirra börn arfgeng. Brandur hafði fengið til ekta Hallottu Þorsteinsdóttur og með henni Silfrastaði, þá lèt Ormur dæma sèr, því hann þorði eigi að ráðast á Jón sýslumann Marteinsson. Nú tóku þeir Eggert lögmaður og Jón Marteinsson sig upp á móti Ormi, en Staðarhóls-Páll veitti Ormi fulltingi. Eggert lögmaður kvað Orm

1) **Aðrir segja 1 hndr. hnndraða.**

með rógmælum hafa komizt til lögmannsembættisins, en ókosinn af landsmönnum, eptir fornri venju, tjáði dóm hans ónýtan um tèða fjórmennings meinbugi, þar konungur einn ætti yfir sínum lögmannsdómum að dæma, og hann kvaðst hafa látið sinn dóm ganga um fjórmennings skyldmenni eptir konungsins rèttarbót innsendri í landið; Ormur kvað hana þá eigi komna verið, þegar þau Þorleifur og Solveig hefðu sinn hjúskap bundið, og börn þeirra hefðu verið borin. Í þessari og margri annari misklíð gekk þeirra á millum, svo Ormur kom eigi fram lögsögninni og stefndi því Eggerti lögmanni fyrir konung, þar eð hann náði eigi heldur Barðastrandarsýslu, sem hann átti að hafa í lögmanns kaup; einnig stefndu þeir Ormur og Páll Möðruvalla-arfamálinu fram fyrir konung og hans ríkisráð og Jóni Marteinssyni þar til viðtals og forsvars á hans haldi á arfinum. Eggert, sem var hniginn að aldri, fór hvergi, en gaf Jóni Marteinssyni fullmakt, að gegna málum, að því er þau hann áhrærðu. Jón Marteinsson var þá á lèttasta aldri, og tók Jón frá Svalbarða, er þá bjó á Vindheimum, fyrir svein sinn, en fyrir smásvein tók hann Tómas, launson Gríms Þorleifssonar, og fór utan á Akureyrarskipi. Ormur og Páll fóru og utan á Hjalteyri. Túlkuðu hvorirtveggja mál sitt fyrir konungi: varð þá á sá samningur, að hálft fè Þorleifs skyldi falla til hans fyrri barna, en hálft til barna Þorleifs með Solveigu Hallsdóttur, og Möðruvellir skyldu auk skipta falla til Helgu Aradóttur, konu Staðarhóls-Páls. Jón Marteinsson hafði gefið höfuðsmanninum til málafylgis keðju ágæta, er metin var fyrir 12 hndr., og hafði Marteinn sent Jóni hana. Árið 1569 komu þessir menn inn, ásamt fleirum höfðingjum. Voru þá loks gjörð skipti á Bessastöðum 4. júlí á Möðruvalla-arfi af Christopher Walkendorph höfuðsmanni, Gísla biskupi Jónssyni, Páli lögmanni Vigfússyni, Erasmusi Villaðssyni, Níels Ólafssyni skrifara, Magnúsi Jónssyni (frá Ögri) og Jóni Jónssyni (bróður Magnúsar) samt Gísla Sveinssyni (frá Miðfelli). Voru Möðruvellir teknir af óskiptu til Staðarhóls-Páls, og síðan skipt öðru í tvo helminga að fráteknum löggjöfum; komu af jarðagózi í hvorn helming 5 hndr. hundraða 61 hndr. Urðu það málslokin. Nú klöguðu þeir Ormur og Páll upp á afgjald af Möðruvalla-arfi í þau 9 ár, sem Jón Marteinsson hefði haft

fèð undir höndum; spenntu þeir afgjaldið mjög hátt, til 9 hndr. hundraða, en höfuðsmaðurinn þaggaði það niður, svo þeir fengu ekkert hjá Jóni. Nú mátti Jón sleppa Möðruvöllum við Pál og flytja þaðan; undi hann því illa, en hèlt við sýsluna um hríð, þó Benedikt Halldórsson lèti ganga flesta dóma. Óvild var á millum Jóns sýslumanns og Orms lögmanns, svo Jón klagaði Orm á alþingi fyrir það, að Ormur hefði hlaupið inn í sitt embætti (líkast með dómi þeim, er Ormur lèt ganga á Spjaldhaga 1571). Það lítur svo út sem Jón Marteinsson hafi afstaðið við Benedikt Halldórsson hálfri Vaðlasýslu 1569, en þá hafi og Jón fengið konungsjarða umboð í Eyjafirði, og þar með sè meint það lèni, er hann hafi þá af konungi fengið. Ekki er fullvíst, nær Jón Marteinsson sleppti til fulls Vaðlaþingi, þó eg meini, að það hafi verið árið 1573. Þá er stjúpbörn Jóns uxu upp, varð Jón að afhenda þeim fè sitt. Sneiddist þá um auð Jóns sýslumanns, með því að hann hafði eigi vel áhaldið, en lifað mjög ríkmannlega. Nálægt þessum tíma, svo sem 1574, hefur Jón sýslumaður Marteinsson flutt á Suðurland, og þar eptir tekið hálfa Árnessýslu og Vestmannaeyja, sem þá fylgdust að, (en Þormóður í Bræðratungu Ásmundsson mun þá hafa haldið hana hálfa, til þess Gísli Þórðarson viðtók) þó er það eigi fullvíst, því eigi finn eg dóma Jóns fyr en 1591 í þessari sýslu, en 1575 lætur hann dóm ganga að Lambey, um mannslagið, sem varð í Vestmannaeyjum; sýnist því líklegt, að hann hafi þá haldið Vestmannaeyjasýslu út af fyrir sig, ef hin meiningin bregzt. 1591—1592—1593 finnast dómar hans í Árnessýslu, höfðu þó aðrir sýsluna þessi árin jafnframt honum, þar á er mín fyrri meining byggð. Eigi hygg eg, að hann hafi haldið Rangárþing, þótt hann þingaði í Lambey um áðurgreint vígsmál. 1592 seldi húsfrú Guðbjörg Erlendsdóttir með samþykki Jóns Marteinssonar, bónda síns, Hákoni í Nesi, dótturmanni sínum, Götu í Selvogi. 1595 var Jón Marteinsson dæmdur skyldur að gjalda fè Hólakirkju í Eyjafirði, er þá tilheyrði börnum Einars Grímssonar; hefur Einar þá dáinn verið. 1603 9. marz lèt Jón dóm ganga að Vatnsleysu um þá, er skera niður annara manna pening. 1603 nefnir Jón 6 menn í dóm á Stokkseyri á Eyrarbakka 17. maí, um skyldu að fylgja líki til kirkju og um legkaup. Skömmu þar

eptir mun Jón hafa dáið. Af þessu sèst, að Jón hefur haldið Árnesþing eigi allfá ár, en eg meina, að hann optast hafi ei haft það útan hálft. Jón hefur verið höfðingi og yfirlætismaður mikill, einkum meðan hann hafði undir höndum Möðruvallaauð hinn mikla; hann hefur og verið harðgjör, sem sjá má af Möðruvalla málum. Sagt er, að hann seinast hafi orðið fèlaus og viljað selja konungi brennistein úr jörðu sinni til að komast úr skuldum. Það er ritað, að 1599 hafi gengið dómur um skuldaheimtur af honum.

### Benedikt ríki Halldórsson.

*Faðir:* Síra Halldór prestur á Helgastöðum í Reykjadal, launsonur Benedikts Grímssonar sýslumanns, Pálssonar sýslumanns, Brandssonar lögmanns. Síra Halldór varð prestur á Hálsi 1540, á Helgastöðum 1560, dó 1578.

*Móðir:* Þórunn[1], er kölluð var hin ríka, Jónsdóttir. Þessi Þórunn átti fyrst[2] laundóttur með Ara lögmanni, syni Jóns biskups, sem hèt Elín, þar eptir hèlt við hana síra Torfi í Saurbæ Jónsson, Finnbogasonar lögmanns; þeirra dóttir Málmfríður, sem átti síra Björn Gíslason officíalis. Björn officíalis Gíslason, bróðir Árna sýslumanns á Hlíðarenda, tók Möðruvallaklaustur eptir Jón príor Finnbogason 1547 sem ráðsmaður Jóns biskups Arasonar. 1551 veitti höfuðsmaðurinn honum það fyrir 12 dali species hið fyrsta ár, annað árið 20 dali species, þriðja árið 30 dali species, og úr því fyrir 60 dali species; hèlt hann því til þess um 1566, þá tók síra Halldór það fyrir 100 dali species, og hèlt hann því í 4 ár, 1570[3] Ormur lögmaður. 1571 tók það Benedikt sýslumaður son síra Halldórs, 1605 tók það

1) Bróðir Þórunnar var síra Þorsteinn, faðir Ólafs, föður síra Þorsteins, föður Gunnlaugs.

2) Síra Jón Ólafsson segir, að fyrst hafi Þórunn átt barn með síra Halldóri, síðan annað með síra Torfa Jónssyni, og síðast hafi hún átt hið þriðja með Ara lögmanni.

3) Ormi var veitt klaustrið af konungi 1569, en missti það árið eptir eður 1570.

Ólafur Jónsson. Seinast hèlt Þórunn við síra Halldór; þeirra börn:

1. Kristín átti Jón Magnússon[1] í Möðrufelli; þeirra börn:
   a. Jón á Kjallaksstöðum.
   b. Jón annar.
2. Benedikt sýslumaður fyrnefndur[2]. Áður hèlt Halldór prestur við Vigdísi Þorsteinsdóttur.
3. Jón faðir Halldórs föður Sesselju konu Guðbrandar Einarssonar.
4. Guðrún átti Þórarinn Philippusson á Dálkstöðum; son hennar: Philippus á Svínavatni.

Síra Halldór átti fyrir og um 1565 Helgu Illugadóttur; hún klagaði hann fyrir breytni hans við sig, og meinti að það mundi valda, að hann hèldi við Ragnheiði nokkra (sjá Þingeyrarþing). Seinast giptist Halldór prestur Katrínu, þeirra synir 2 Jónar.

*Kona:* Valgerður Björnsdóttir[3] Þorvaldssonar, Árnasonar, á Æsustöðum. Þau Benedikt giptust 1557, en Valgerður dó á Möðruvöllum 1614, hjá Ólafi dótturmanni sínum.

*Börn:* A. Björn sýslumaður (sjá hèr síðar).
B. Arnfríður átti Daða bónda á Skarði Bjarnason, Oddsonar, Tómassonar, Oddsonar (sjá Dalasýslu).
C. Elín átti Þorleif í Búðardal Bjarnason, bróður Daða, (sjá Dalasýslu).
D. Þórunn átti Ólaf klausturhaldara á Möðruvöllum, son Jóns Rebba í Búðardal, þeirra börn:
   1. Halldór lögmaður (sjá Hegranesþing),
   2. Þorvaldur átti Halldóru yngri Jónsdóttur[4];

---

1) Jón Magnússon var son Magnúsar Björnssonar á Reykjum í Skagafirði.

2) Það virðist sem Benedikt ríki eigi hafi verið sammæðra við önnur börn síra Halldórs.

3) Herdís, laundóttir Gísla Hákonarsonar, var móðir Valgerðar og kona Björns. Björn átti Æsustaði.

4) Faðir Halldóru konu Þorvaldar var Jón Björnsson Jóns-

þeirra börn:
a. Jón[1].
b. Benedikt[2].
c. Björn[3].
d. Daði[4].
e. Ólafur[5].
f. Guðrún[6].
g. Þórunn[7].

E. Þórunn yngri, kona Þórðar á Marðarnúpi Þorlákssonar. Þeirra son Hallgrímur lærði hèr, fór svo utan

---

sonar biskups Arasonar, en Halldór lögmaður átti systur hennar Halldóru eldri. Þorvaldur bjó í Auðbrekku, átti Laugaland og fleiri jarðir, hann varð ekki gamall, og dó á alþingisferð suður.

1) Jón bjó í Auðbrekku, átti Guðrúnu dóttur Pjeturs Árnasonar úr Hvammssveit og Margrètar Halldórsdóttur.

2) Benedikt átti Ástríði dóttur síra Torfa Þorsteinssonar, barnlaus.

3) Björn átti Guðrúnu Örnúlfsdóttur.

4) Daði átti Steinunni dóttur Pjeturs á Ballará Einarssonar.

5) Ólafur átti Guðrúnu Einarsdóttur frá Lækjamóti Rafnssonar.

6) Guðrún átti síra Stefán Ólafsson á Vallanesi.

7) Þórunn átti síra Erlend Ólafsson á Melstað.

3. Sigfús hèt launson Ólafs klausturhaldara Jónssonar, hálfbróðir þeirra Halldórs lögmanns og Þorvaldar; hann átti Þórunni dóttur síra Jóns í Miklagarði, sonar Þórðar Trèfóts, er Trèfóts ætt er frá komin; eg hefi sèð í ættartölu Þórð Trefót kallaðan ábóta son, og í annari son síra Pèturs Pálssonar, og er þetta án efa rètt; bæði varð síra Pètur ábóti síðast, og líka átti hann son, er Þórður hèt, sem hann ættleiddi með öðrum fleiri börnum sínum; og loksins kemur þetta með öllu heim við tímann, er þeir báðir lifðu á; eitt af börnum Sigfúsar og Þórunnar var Helga, er átti síra Þorlák í Glæsibæ Sigfússon.

til lærdóms, kom inn aptur og dó fljótlega í biskupsveizlu í Hvammi í Laxárdal.

Um Guðríði systur síra Halldórs Benediktssonar, sjá Þingeyjarþing.

Benedikt hefur orðið umboðsmaður Jóns sýslumanns Marteinssonar í Vaðlaþingi næst eptir Þorberg Bessason um 1568, þá er Jón fór utan; sýnist og að hann um það leyti hafi tekið hálfa Vaðlasýslu, því 1569, á Spjaldhaga í Eyjafirði þriggja hreppa þingi, voru í dóm nefndir af Benedikt bónda Halldórssyni, er þá hafði konungsins umboð í Vaðlaþingi, Þorbergur Bessason, Magnús Árnason, Hjálmar Sveinsson, Árni Jónsson, lögrjettumenn, Sigurður Þorbergsson, Sigfús Björnsson um refsingu óráðvandra stráka. 1571 veitti Jóhann Bucholt Benedikt Halldórssyni, Möðruvallaklaustur, er Guðmundur Nikulásson á Laxamýri í umboði Orms lögmanns Sturlusonar eptir skipun höfuðsmanns í viðurvist 4 presta og 2 leikmanna þá afhenti Benedikt. Þetta fram fór 13. júlí nefnt ár.

1571, 19. maí að Saurbæ í Eyjafirði, lèt Benedikt Halldórsson sýslumaður í Vöðluþingi dóm ganga um það, að konungur bauð að skipta öllu fè Þorleifs Grímssonar í 2 jafna parta, skyldu fyrri konu börn hans taka annan helming, en seinni konu börn hans hinn helminginn; voru tèð helmingaskipti gjörð á Bessastöðum, sem áður er sagt, 1569, en skipti milli seinni konu barna Þorleifs voru litlu þar eptir gjörð á Skriðu í Hörgárdal á þeim helmingi arfsins, er þeim til fèll. Hafði þá Eiríki Snjólfssyni vegna Þuríðar Þorleifsdóttur konu sinnar skipzt Torfufell og Fremri-Villingadalur, sem samarfar vildu átelja; dæmdu dómsmenn, að Eiríkur skyldi halda tèðum jörðum eptir þarum gjörðu skiptabrèfi að Skriðu. — 1574 á Spjaldhaga lætur Benedikt með Guðbrandi biskupi dóm ganga um handsalaða trúlofun Þorkels Steinssonar og Halldóru Þórarinsdóttur. 1581 lèt Benedikt dóm gánga (sjá Árb. 4. þátt bls. 42). 1581, 18. október að Helgastöðum lèt Vigfús Þorsteinsson sýslumaður í Þingeyjarþingi 6 manna dóm ganga um umboð Halldórs prests Benediktssonar vanfærs og aldraðs manns, að það skyldu hafa Jónar 2 synir hans, en vilji Benedikt bróðir þeirra, eða aðrir nánustu frændur hrinda þeim frá arfi, sakir hjónabands Halldórs prests og Katrínar, skyldu þeir leiða 2 votta með svörðum eiðum innan mánaðar heima á Helgastöð-

um, að heyrðum dómnum, að meinbugir milli Halldórs prests og Katrínar hefðu verið haldnir sannir og svo stórir, að hindruðu arftöku og skildgetningu þeirra Jóna; að þeim vitnum leiddum, dæmdu þeir lögarfa Halldórs prests þá, er sig leiddu til þess að lögum, en leiddust engin vitni, dæmdu þeir Jónana lögarfa föður síns og skylda hann fram að færa; en árið eptir, 1582 30. apríl, á Helgastöðum dæmdi Vigfús Benedikt Halldórssyni umboð föður síns, því Jónarnir hefðu ei fè fyrir hann að leggja. 1593 á Spjaldhaga, föstudaginn næstan eptir páskaviku, nefndi Benedikt menn í dóm, er dæmdu Jóni og Magnúsi Björnssonum umboð Þórunnar á Grund. 1594 á Spjaldhaga um gjafir Þórunnar á Grund. 1595 gekk helmingadómur Guðbrandar biskups og Benedikts að Hrafnagili um peninga Grundarkirkju, eptir brèfi síra Sigurðar, er Jón Björnsson skyldi útheimta. 1595 lèt Benedikt dóm ganga á Skriðu (Árb. 4. þátt bls. 79). Sama ár, mánudaginn næstan eptir Krossmessu, tekur Guðmundur Illugason eptir skipun húsbónda síns Björns Benediktssonar eið af Guðrúnu Árnadóttur Gíslasonar, og sór hún fyrir alla menn, nema Jón sýslumann Björnsson á Grund bónda sinn. Undir eins tekur hann eið af Kristínu, dóttur Guðrúnar og Jóns sýslumanns, sór hún fyrir alla menn nema Björn son Magnúsar Björnssonar, þau voru svo skyld að saknæmt þótti; en fengu uppgjöf. Faðir nefnds Björns í Bólstaðarhlíð, Magnús, var bróðir Jóns sýslumanns að Grund, föður Kristínar (Kristín átti seinna Daða Árnason). Guðmundur Illugason var stundum þar eptir umboðsmaður. 1596 13. maí (sjá Árb. 4. þátt bls. 80) og enn 1595 um höfuðhögg o. s. frv. (Árb. 4. bls. 80). 1596 í annari viku föstu hefur Benedikt skrifað dótturmanni sínum Daða á Skarði á Skarðsströnd; sèst af því brèfi, að Benedikt hefur árlega orðið að gjalda eptir lèni sín 3 stórhundruð ríkisdali. Benedikt sýslumaður tók Björn son sinn fyrir umboðsmann nálægt 1590 eða fyr. Benedikt hèlt og stórmannlega brúðkaup Björns sonar síns og Elínar Pálsdóttur 1586 á Möðruvöllum. Björn á Skarðsá getur þess, að harða árið 1601 hafi Benedikt riðið til þings suður Holtavörðuheiði vegna ófærðar, var hann þá og mjög hniginn að aldri; í þeirri þingferð meinast að hann hafi frá sagt sèr Vaðlaþing og útvegað Birni syni sínum veitingu

fyrir því. Benedikt hafði lèni mikil og var hinn fyrsti í Vaðlaþingi, sem undir eins hafði sýslu og klaustur. Hann var fjárgæzlumaður og gjörðist auðugur mjög, hèlt Möðruvallaklaustur 35 ár og Vaðlaþing nærfellt eins lengi. Hann dó á Möðruvallaklaustri, eptir því sem Björn á Skarðsá ritar, árið 1605, en Finnur biskup tjáir hann hafa dáið 1608; en hið fyrra meina eg rèttara. Benedikt var meðalmaður vexti og meðalfríður sýnum; hann kallar sig sjálfur í ritum sínum bónda (að vitni Jóns sýslumanns Jakobssonar). Hann var stórættaður, skynsamur, lögvitur, rèttdæmur, siðavandur, og einhver hinn mesti hamingjumaður. Mikið fè erfði hann eptir föður sinn og móður, hvað hann jók stórum með forsjálni, aðgæzlu og jafnlyndi, sem og skynsamlegri sparsemi. Hann var stjórnsamur í sýslu sinni og hafði góðan þokka yfir- og undirmanna sinna, er bæði virtu hann og elskuðu.

### Erlendur Þorvaldsson eða Þorvarðsson.

Óglöggt veit eg, hverra manna hann hefur verið, en hafi það verið Erlendur Þorvarðsson á Suðurreykjum, er ætt hans þessi:

*Faðir:* Þorvarður á Suðurreykjum son Þórólfs, er nefnist prestur, Eyjólfssonar á Hjalla Jónssonar.

*Móðir:* Vilborg dóttir Gísla biskups Jónssonar.

*Kona fyrri:* Katrín dóttir síra Einars Þórðarsonar og Guðrúnar Marteinsdóttur biskups.

*Börn:* A. Þórður á Suðurreykjum.
B. Þorvarður á Hvítanesi.
C. Einar í Kjalardal.
D. Ólöf.
E. Vilborg.
F. Guðrún.
G. Arnbjörg.

*Kona seinni:*

*Börn:* H. Helga.
I. Guðrún.
K. Magnús.
L. Guðný.

Í dómabók einni hef eg fundið svoleiðis: 1590 föstudaginn fyrir Dýradag um vorið að Lönguhlíð voru nefndir 3 lögrèttu-

menn í dóm o. s. frv. af heiðarlegum manni Erlendi Þorvaldssyni (aðrir Þorvarðssyni), er þá hafði konungssýslu í Vaðlaþingi, um heimsókn Bjarna Arngrímssonar til Hóla í Yxnadal, og þar bundið Odd Sigurðsson með reipi, kúgað af honum peninga, og gripið þar annað góz o. s. frv.[1] Hafi tèður Erlendur verið annað en umboðsmaður Benedikts, hefur hann annaðhvort eigi haft utan hálfa sýsluna eða verið þar mjög stuttan tíma sýslumaður.

### Björn Benediktsson.

*Faðir:* Benedikt ríki sýslumaður (sjá hèr að framan).

*Móðir:* Valgerður Björnsdóttir.

*Kona:* Elín dóttir Staðarhóls-Páls og Helgu Aradóttur lögmanns; þau giptust á Möðruvöllum í Hörgárdal, sunnudaginn næstan eptir tveggja postula messu 1586, gaf þá Benedikt bóndi syni sínum Birni jarðirnar: Kristnes 100 hndr., Kropp 40 hndr., Hjálmstaði 30 hndr., Klúkur 12 hndr., Hól í Kræklingahlíð 20 hndr., Eyrarland 20 hndr., Vatnsenda 20 hndr. (til samans 2 hndr. hundraða og 2 hndr.), þar með 80 kúgildi og 40 hndr. í smjörum, en sjálfur átti Björn þá 1 hndr. hundraða, svo hans fè var 4 hndr. hundraða. Þar á móti gáfu þau Páll Jónsson og Helga dóttur sinni Elínu hálfa Möðruvelli í Eyjafirði fyrir 1 hndr. hundraða, og Reykhóla með því kirkjunni fylgir fyrir 1 hndr. hund-

---

1) Eg á tvær dómabækur, er dómur þessi stendur í; sýslumaður sá, er útnefndi dómsmennina, nefnist í annari þeirra Þorvarður Erlendsson, en í hinni, sem er óáreiðanlegri, Þorvaldur Erlendsson, en ártalið er í báðum 1590; en það getur varla verið öðruvísi, en að ártalið sè misskrifað og eigi að vera 1490, og að Þorvarður lögmaður Erlendsson, er um þær mundir sat á Möðruvöllum í Eyjafirði, hafi þá haft sýslu í Vaðlaþingi; þrír af dómsmönnunum voru og Steinn Brandsson, Sturla Magnússon og Höskuldur Árnason, er allir voru uppi 1490, og hafi hann þar þá látið dóm ganga. Bogi sýnir og hèr að framan, að Þorvarður hafi verið valdsmaður í Vaðlaþingi 1489.

raða. Þessa gjöf um Reykhóla dæmdu lögmenn Jón Jónsson og Þórður Guðmundsson á alþingi 1. júlí 1588 mynduga að vera og eins kaupmálabrèf þeirra Björns og Elínar. Elín dó 1638, 67 ára.

*Börn*: A. Magnús sýslumaður í Vaðlaþingi 1618, og seinna lögmaður N. og V. (sjá hèr síðar).

B. Sigríður átti Pál Guðbrandsson sýslumann í Húnaþingi, þau giptust 1605, hún dó á Márstöðum 1633 (sjá Húnavatnsþing).

C. Guðrún húsfrú Gísla biskups Oddssonar í Skálholti, sem þá gjörðist prestur að Holti undir Eyjafjöllum. Hún giptist á Munkaþverá 1622, en dó af barnsburði í Skálholti 1633, barnlaus.[1]

Björn fór utan úngur, var í þjónustu hjá Arild Hvitfeld og svo um hríð umboðsmaður á Bessastöðum, þar eptir umboðsmaður hjá föður sínum eptir 1580. 1592 skipaði höfuðsmaðurinn Hinrik Krag Birni að semja misklið millum Guðbrandar biskups og Jóns Ólafssonar í Dal, og afgjöra með dómi, ef eigi tækist öðruvísi; útnefndi því Björn í dóm, að Ökrum, Ísleif Þorbergsson, Ara Guðmundsson o. s. frv.; mætti eigi Jón Ólafsson, en hafði þó af höfuðsmanni óskað þings. 1596, laugardaginn næstan eptir Bartholomæimessu að Spjaldhaga, lèt Björn Benediktsson í umboði föður síns dóm ganga um umboð Björns nokkurs Jónssonar. Sama ár og á sama stað lèt Björn í umboði föður síns dóm ganga um peninga kirkjunnar á Hólum í Eyjafirði. 1597 lætur hann dóm ganga um lambarekstur til afrèttar og um fjallgöngur, o. fl., og 1599 á Spjaldhaga um illyrðin «sveitarskömm» og «hvolpaþjóf», dæmdist fyrra orðið hálfrèttisorð og hið síðara fullrèttisorð. 1600 4. ágúst kaupir hann jörðina Steindyr í Höfðahverfi 13 hndr. fyrir 20 hndr., þar af voru 11 hndr. og 40 ál. lúkt í nautum og geldum sauðum, þar til 12 vættir smjörs, og 3 vættir fiska, brèfið skrifað á Stórhamri í Eyjafirði s. á. 24. nóvember, vottar Bjarni prestur Ólafsson, Hálfdán Þorgeirsson, Guðmundur Illugason, (þetta eptir kálfskinnsbrèfi). Harðindisárið 1601, er

---

1) D. Björn, var fæddur vitlítill og var vaktaður alla æfi, komst yfir fertugt.

Benedikt sýslumaður reið Holtavörðuheiði til alþingis, varð Björn virkilegur konungs umboðsmaður í Vaðlaþingi, og þá var honum veitt Munkaþverárklaustur af hinum gamla höfuðsmanni Jóhanni Bucholt; gjörði Bucholt það að bón Benedikts sýslumanns (sjá þar um rit Jóns sýslumanns Magnússonar). 1601 lèt hann ómaga dóm ganga að Spjaldhaga. 1603 lætur Björn með 6 mönnum dóm ganga um 3 hndr. í Brekku. 1604, 15. júní að Lönguhlíð í Hörgárdal, lætur Björn sýslumaður dóm ganga um kú, er Ólaf Jónsson og Jón Þórðarson ágreindi, hvors væri; dæmdist Jóni kýrin. Sama ár lætur Ólafur Jónsson, umboðsmaður Björns, dóm ganga að Grund í Svarfaðardal um borgun á lánshesti. 1605 helmingadóm að Spjaldhaga (Árb. 4. þ. bls. 103). 1607 lèt Björn sýslumaður dóm ganga um Ás í Glæsibæjarhreppi. 1609 gekk helmingadómur Guðbrands biskups og Björns sýslumanns um Lögmannshlíðar kirkju; sama ár lèt Björn sýslumaður ganga dóm um Á í Kræklingahlíð, sem Guðbrandur biskup upp á klagaði kirkjunnar vegna. Dæmdist Jón (fyr sýslumaður) Vigfússon og systir hans Þorbjörg skyldug að hafa umboðsmann innan fjórðungs, þar er jörðin lá í Norðlendingafjórðungi. 1615, 25. september, lætur hann dóm ganga að Spjaldhaga um 7 kúgildi, er Guðmundur Illugason átti að heimta af Þorláki Erlendssyni, er þau hafði óafhent eptirskilið á Öngulstöðum; dæmdist Þorlákur skyldur að svara til kúgildanna. Marga fleiri dóma lèt Björn ganga, meðan hann hèlt Vaðlaþing, sem hèr er óþarft að telja. 1617, 21. ágúst, dó Björn sýslumaður á Múnkaþverá; hann var höfðingi mikill sem faðir hans, vel að sèr um flesta hluti, lögvitur og var í lögmanns kjörum ásamt Jóni eldra og Ara Magnús sonum, sem og Jóni Sigurðssyni 1606, þá er Þórður Guðmundsson lèt af lögsögn. Björn var maður lítilátur, stilltur, og vel auðugur. Hann seldi Ara sýslumanni Magnússyni Reykhóla 1601 fyrir 1 hndr. hundraða í jörðum, sem voru bændaeignir norðanlands; var Björn aðgætinn með fè sitt og auðgaðist, hafði hann og erft stórfè eptir foreldra sína. Eigi varð hann maður gamall, en hófsmaður um flest var hann kallaður og með helztu sýslsumönnum metinn, hvorki var hann sundurgjörðar- eða starfsmaður mikill.

## Magnús Björnsson.

*Faðir*: Björn sýslumaður Benediktsson, sjá hèr að framan.

*Móðir*: Elín dóttir Staðarhóls-Páls.

*Kona:* Guðrún Gísladóttir lögmanns Þórðarsonar lögmanns Guðmundssonar; móðir hennar var Ingibjörg, dóttir Árna sýslumanns á Hlíðarenda Gíslasonar. Guðrún dó 1671 á Eyrarlandi, en var jarðsett á Möðruvöllum.

*Börn:* er til aldurs komu, voru þessi:

A. Gísli sýslumaður (sjá Múlasýslu og Rangárþing); hann var fæddur 1621.

B. Helga giptist á Möðruvöllum, haustið 1639, Hákoni sýslumanni í Árness- og Rangárþingi.

C. Björn Munkaþverár, klausturhaldari og sýslumaður í Húnavatns- og Vaðlaþingi.

D. Solveig, fædd 1631, giptist á Munkaþverá 1647 Þorkeli sýslumanni í Þverár- og Húnavatnsþingi, hún varð ekkja 1662 og fór þá til Hóla í Eyjafirði, en dó 1710 í Haga hjá Ara syni sínum.

E. Jórunn giptist 1641 Jóni sýslumanni á Ströndum Magnússyni, Arasonar sjá Strandasýslu.

Magnús fór utan innan tvítugs til lærdómsiðkana, og dvaldi þar nokkur ár, en er hann kom inn, gjörðist hann umboðsmaður föður síns, og var framkvæmdarmaður mikill. Fyrir Vaðlaþingi og Múnkaþverárklaustri stóð hann, þá er faðir hans dó 1617, og fèkk 1618 veitingu fyrir hvorutveggja, og hèlt hann klaustrinu, meðan hann lifði, en sýslunni sleppti hann 1639. 1619 gekk helmingadómur hans (Árb. 5. þ. bls. 6). 1620 var hann ásamt Ara Magnússyni, Jóni Magnússyni, bróður Ara, og Halldóri Ólafssyni í lögmannskjörum, þegar hlutfallið kom yfir Halldór. Sama ár lætur Magnús ganga dóm að Spjaldhaga með 6 mönnum um tilkall síra Þorbergs Ásmundssonar til jarðarinnar Jökuls í Eyjafirði; var því til lögmanns frávísað, þar framlögð var handskript vottalaus og utan innsiglis. Þetta ár 1620 á alþingi sór Magnús sinn hollustueið Kristjáni 4. ásamt fleirum sýslumönnum fyrir höfuðsmanni Holgeiri Rosenkranz. 1620 lèt Magnús Björnsson dóm ganga um jörðina Jökul. Eptir konungs skipun fóru þetta ár utan upp á taxtann Jón eldri Magnússon, Þorsteinn Magnússon í

Þykkvabæ, Hinrik Gíslason á Hólmi og Daði Árnason sýslumaður; dó Daði í þeirri ferð utanlands. Magnús sýslumaður Björnsson kom því til leiðar við Halldór lögmann Ólafsson, að Jóni eldra Magnússyni var af almúga til dæmdur á Spjaldbaga 1621 ferðakostnaður (sjá Árb. 5. þ. bls. 14.—15.). — 1625, 2. júlí, lèt Magnús dóm ganga að Saurbæ í Eyjafirði um framfæri Hallóttu Jónsdóttur, dæmdist hún á framfæri þeirra Benediktsdætra, Elínar, Arnfríðar og Þórunnar. Sama ár gekk hinn fyrsti galdramanns dómur yfir Jóni Rögnvaldssyni (Árb. 5. þ. bls. 27—28). 1627 lèt Magnús sýslumaður dóm ganga að Saurbæ um sauðaþjófnaðar orð á Jóni Guðmundssyni og Gísla. 1635 lèt sýslumaður Magnús hengja þjóf í Eyjafirði. Það ár áttu þeir Hallur harði og Jón Ísleifsson í máli út af Fagraskógi, því var stefnt til alþingis. 1637 stóð yfir mál Magnúsar sýslumanns og Kolbeins (Árb. 5. þ. bls. 83). Þetta ár var aftekinn Guðmundur Jónsson, (annáll Björns á Skarðsá við 1637) á Spjaldhaga, þar var við Jens Söfrensson. Mörg önnur voru dómara verk Magnúsar sýslumanns. Hann er fyrstur talinn meðal dómsmanna á alþingi 1637 og 1638. 1639 var Magnús tekinn fyrir lögmann N. og V. eptir Halldór lögmann, rèði höfuðsmaður Pros Mundt því mest, vildu sumir heldur taka Guðmund sýslumann Hákonarson á Þingeyrum, því hann var margra hugljúfi. 1639 tók Magnús lögmaður Hall Bjarnason í Möðrufelli fyrir umboðsmann sinn við sýslumanns verk, en árið eptir útvegaði Magnús lögmaður Birni Pálssyni, fóstursyni sínum, sýsluna. 1640 var á alþingi upplesið konungsbrèf fyrir lögmanns embætti Magnúsar Björnssonar, dagsett 12. nóvember 1639. 1648 reið Magnús lögmaður af alþingi til Bessastaða og síðan í Skálholt með umboðsmanni Jens Söfrenssyni með fleiri valdamönnum eptir skipun höfuðsmannsins, til að semja millum Brynjólfs biskups og erfingja Gísla biskups Oddssonar um peninga Skálholtskirkju og útsvar staðarins. Af brennisteini var gnægð á Íslandi, keyptu hann útlendir kaupmenn opt með góðu verði, einkum Hamborgarmenn, því bauð konungur 1561, að brennisteinn mætti eigi svoleiðis útflytjast, var þar eptir brennisteinsverkið leigt til Stepanum Lassium o. s. frv., og 1598 var Akureyrarhöfn burt leigð með 100 jóakimsdölum, er borgast átti með brennisteini eða peningum. 1647

tóku þeir Magnús lögmaður Björnsson og Gísli son hans til leigu brennisteinsverkið á Íslandi fyrir 100 rd. árlegt afgjald. 1652, þá er settur var spítali í Möðrufelli, gaf Magnús lögmaður þangað 3 hndr. því til styrktar. 1661 var Magnús lögmaður þrotinn að heilsu og reið eigi það ár til þings, gegndi Árni lögmaður þar þá öllum málum. Árið eptir 1662 sagði Magnús af sèr lögmannsembætti og dó sama ár á Munkaþverá, 6. desember, og er grafinn á Möðruvöllum í Eyjafirði. Magnús hèlt Múnkaþverárklaustur 45 ár, en Vaðlasýslu frá því, er hann fèkk sèr hana veitta, til þess, er hann sleppti henni, 21 ár, að því ótöldu, sem hann var umboðsmaður föður síns; lögmaður var Magnús í 23 ár. Magnús var einhver hinn mesti höfðingi, skrautmenni mikið, skáld gott, og vel að sèr gjör um flest, hann tók marga unga menn til menningar, urðu flestir að mönnum, er hjá honum uppólust. Magnús þótti harður og keppinn maður, ef í þrætur kom. Fjárgæzlumaður var hann mikill og hinn auðugasti maður, hans lausafè, auk þess sem Guðrún húsfrú hans til sín tók, var alls upp á 12 hndr. hundraða 65 hndr. En af jarðagózi skiptust Gísla syni hans 4 hndr. hundraða 85 hndr., Birni 4 hndr. hundr. og 71 hndr., Helgu 2 hndr., hundraða og 30 hndr., Jórunni 2 hndr. hundraða og 30 hndr., Solveigu 2 hndr. hundraða og 30 hndr., húsfrú Guðrúnar tilgjöf 68 hndr. Var því alls hans jarðagóz 16 hndr. hundraða og 74 hndr. fyrir utan erfðafè Guðrúnar.

### Hallur Bjarnason.

*Faðir:* Bjarni, höfðingsmaður í Skriðu í Hörgárdal, sonur Páls sýslumanns Grímssonar (sjá Húnavatnsþing).

*Móðir:* Halldóra Björnsdóttir.[1]

*Kona fyrri:* Herdís Jónsdóttir Arnfinnssonar.[2]

*Börn:* A. Síra Bjarni á Grund í Eyjafirði, átti Sigríði Ólafsdóttur frá Núpufelli; börn:

---

1) Halldóra var dóttir síra Björns á Melstað Jónssonar biskups Arasonar.

2) Jón Arnfinnsson, faðir Herdísar, bjó í Bjarnastaðahlíð; Arnfinnur faðir Jóns var Guðmundsson Oddssonar Arnfinnsonar sýslumanns Jónssonar, er að framan hefur verið getið.

1. Jón átti Ingibjörgu Oddsdóttur frá Flatey norður, barnlaus, svo þórunni Jónasdóttur frá Lóni, börn:
   a. Ingibjörg.
   b. Margrèt.
   c. Þórunn.[1]
   d. Pètur.
2. Egill átti Signýju Guðnadóttur frá Dvergastöðum; börn:
   a. Árni lögrèttumaður, sem átti Þuríði Hálfdánsdóttur og börn.[2]
   b. Þórunn.
   c. Sigríður.
3. Guðrún átti síra Þorstein Þórarinsson í Miðdalaþingum; börn:
   a. þórður.
   b. Páll á Skeljabrekku, giptist og átti börn.
4. Herdís átti þorvald Gunnlaugsson í Hrísey, og var hans þriðja kona, þau áttu börn.
5. þuríður Bjarnadóttir átti Sigurð son Hrólfs sýslumanns (sjá Þingeyjarþing).

B. Teitur gullsmiður á Saxhóli, drukknaði 1689, hann átti Ragnhildi Vigfúsdóttur prests á Setbergi Illugasonar; börn:
1. Herdís átti Arnór Jónsson, þeirra börn:
   a. Helga.
   b. Hallur.
   c. Halldóra.
   d. Arnór.
   e. Jón.
2. Rósa átti þorstein Þorvaldsson á Sandi, börn:
   a. Ragnhildur.
   b. Teitur.
   c. Jón.

---

1) aðrir Þórarinn.

2) eitt af börnum Árna og Þuríðar var Katrín móðir Valgerðar móður Þuríðar, konu síra Jóns í Reykjahlíð Þorsteinssonar.

3. Elísabet átti Þorlák í Efrilá Gislason, börn:
   a. Gísli.
   b. Þórunn.
   c. Ragnhildur.
4. Hallur drukknaði við Hellna.
5. Helga.
6. Bergljót.[1]

C. Páll; eptir hèr í landi afstaðinn skólalærdóm fór Páll utan til frekari lærdómsiðkana og gjörðist þar heyrari við latínuskóla, hann sneri Lilju á latínsk vers. Þar eptir varð hann bókavörður í Hringstað fyrir Sefelds bókasafni, en árið 1659 þá er Carl Gustav að óvörum tók undir sig mikinn hluta Danmerkur, tók hann nefnt bókasafn og gaf burt, hafði þá Páll ekkert embætti, er hann gæti lifað við, en svo vildi til, að presturinn í Harestað dó, er Páll þegar frètti, kom hann sèr þá fyrir Carl konung, og er mælt, að hann hafi ávarpað hann þessum orðum: valeat rex Daniæ, salve tu rex Sveciæ! og með hið sama sagt honum frá ástandi sínu djarfmannlega en þó siðsamlega, sem og að Harastaðar prestur hefði næstu nótt dáið, og bað Carl konung að veita sèr það prestakall. Þá er konungur hafði komizt eptir, að þessi sögn hans væri sönn, veitti hann honum nefnt prestakall, og lèt herbiskup sinn Kling vígja hann. Seinna fèkk hann þar upp á staðfestingu Friðriks 3. Danakonungs.

D. Jón silfursmiður dó utanlands. Launson hans Rafn sigldi.

E. Guðmundur tinsmiður, dó og erlendis.

F. Halldóra eldri átti Þorstein Guðmundsson frá Grenjaðarstað; börn:
1. Guðmundur á Granastöðum í Kinn.
2. Kristín átti síra Ólaf Jónsson á Stað í Kinn; barnl.

---

1) 7. Páll var enn sonur Teits gullsmiðs, hann var conrector í Skálholti, dó utanlands.

G. Guðrún átti síra Odd Bjarnason á Stað í Kinn; börn:
1. síra Gísli í Grímsey.
2. Hallur[1].

*Kona seinni:* Guðrún Hallsdóttur frá Höfða, börn:

H. Bergljót átti síra Magnús í Nesi Benediktsson, þeirra dætur dóu 1707.

I. Halldór, lögrèttumaður í Núpufelli, átti Sigríði Guðmundsdóttur; þeirra börn:
1. Sigríður átti Jón Björnsson Pèturssonar, þeirra dóttir Herdís.
2. Guðrún átti Jón smið Jónsson[2], þeirra börn:
a. Jón[3].
b. Páll[4].

---

1) 3. Guðlaug var enn dóttir Guðrúnar og síra Odds, hennar maður hèt Björn, hans faðir Björn Kolbeinsson; sonur Guðlaugar og Björns var Grímur faðir síra Einars á Hnappstöðum í Stíflu.

2) Jón þessi maður Guðrúnar bjó á Melum í Svarfaðardal, og var son Jóns Oddssonar sterka Bjarnasonar Smíða-Sturlusonar (sjá Þingeyjarþing).

3) Jón þessi bjó á Tungu í Fljótum og var smiður mikill, hann átti Ingiríði Eiríksdóttur frá Stótubrekku, meðal barna þeirra voru:
a. Helga, er átti Jón Þorláksson Benediktssonar af ætt Guðbrandar biskups, þeirra son var síra Þorlákur í Húsavík.
b. Guðrún kona síra Pèturs Björnssonar á Tjörn á Vatnsnesi, sjá Tímarit mitt 1. B. bls. 14.
c. síra Sveinn á Hnappstöðum, hans son Torfi á Klúkum mjög margfróður maður, barnlaus.
d. Guðrún önnur átti Ara á Mói, þeirra dóttir Guðrún, móðir Ólafar fyrri konu Níelsar kaupmanns Havsteins, bróður Pèturs amtmanns Havsteins.

4) Páll bjó á Brattavöllum, hans son síra Halldór á Hnappstöðum, hans dóttir Guðríður, frú Sigurðar biskups Stefánssonar, er var seinasti biskup á Hólum.

c. Bessi[1].
d. Pètur[2].
e. Helga.
f. Gunnvör.
g. Ingibjörg.

K. Halldóra yngri átti Guðmund Guðmundsson, börn:
1. Guðmundur átti Þórunni Þorvaldsdóttur, börn:
a. Guðmundur í Kaupangi.
b. Þorvaldur.
c. Halldór.
d. Páll.
e. Sigríður.
f. Guðrún. Þau dóu öll börn, nema Guðmundur.
2. Páll, 3. Jón; dóu báðir i stórubólu 1707.

L. Ragnhildur átti Hjalta Björnsson Pálssonar í Teigi, börn:

---

1. Bessi átti Þuríði systur Jóns sýslumanns í Grenivík.

2. Pètur átti Margrèti Illugadóttur frá Urðum, meðal barna þeirra voru.

a. Jón Pètursson læknir í Norðlendingafjórðungi, hann bjó í Viðvík, en dó haustið 1801 í Reykholti á suðurleið til konferentsráðs Magnúsar Stephensens, er sent hafði til hans til að lækna sig. Jón var fæddur 1733. Launson hans hèt:
α. Jón, hans börn meðal annara fleiri.
1. Jóhannes í Hofstaðaseli, merkisbóndi.
2. Guðmundur faðir Jóhannesar sýslumanns, sjá Strandasýslu.

b. Pètur Pètursson á Skeiði í Svarfaðardal, hans börn voru þau:
1. Pètur á Tyrfingsstöðum, og
2. Guðrún, er átti Einar umboðsmann Guðmundsson á Hraunum í Fljótum, þeirra synir voru þeir:
α. Baldvin, Cand. júris, dó í Kaupmannahöfn.
β. Guðmundur, faðir Einars á Hraunum alþingismanns.

1. Steinunn átti Jón Jónsson á Glerá, aðrir Þrúgsá, börn:
   a. Guðrún.
   b. Halldóra.
   c. Sigríður.
   d. Ingibjörg.
   e. Jón.
   f. Arnbjörg,
   g. Ragnhildur.
2. Guðrún, seinni kona Þórðar Magnússonar á Felli í Kinn; börn:
   a. Hjalti.
   b. Magnús.
   c. Helgi.
   d. Helga.
   e. Bergljót.

M. Björn lögrèttumaður á Hvassafelli átti fyr Guðrúnu Björnsdóttur; börn:

1. Björn lögrèttumaður átti Sigríði Ólafsdóttur Gottskálkssonar, þeirra börn:
   a. Ólafur lögrèttumaður átti Steinunni Marteinsdóttur prentara[1].
   b. Guðrún átti Þorstein á Ánastöðum Einarsson, börn:
      α. Jón.
      β. Guðný.
2. Guðrún.

   Síðan átti Björn Hallsson Þóreyu Grímsdóttur frá Lundi í Fnjóskadal, þeirra börn:
3. Guðný átti síra Þorlák í Miklagarði Grímsson:
   a. Hallur.
   b. Skúli.

---

1) Launson Ólafs hèt Jón, hans son Þórarinn í Hafnarfirði, er átti Katrínu dóttur síra Ólafs Jónssonar á Kvíabekk, þeirra son Jakob, er var seinni maður Hildar dóttur síra Jóns Jónssonar á Grenjaðarstað, þeirra son Eðvald, er læknir var á Akureyri og nú er í Kaupmannahöfn.

c. Guðrún.
d. Guðbrandur.
e. Grímur.

4. Þorey átti Guðmund lögrèttumann í Hleiðargarði Ólafsson, þeirra börn:
   a. Björg átti Hallgrím Hallgrímsson.
   b. Ingibjörg.
   c. Sigríður.
   d. Grímur.
   e. Síra Jón á Þóroddstað[1].

N. Magnús á Gilsbakka í Eyjafirði, er átti í Tindalamálinu, átti Guðrúnu Einarsdóttur, börn:
   1. Hallgrímur, 2. Magnús, og fleiri.

O. Herdís giptist eigi.

Hallur bjó lengi í Möðrufelli og var kallaður Harði-Hallur, segja menn, að það væri sann-nefni; hann var og lögrèttumaður, svaðamenni var hann, en duglegur og skarpvitur. Þá er Magnús Björnsson varð lögmaður, setti hann Hall fyrir umboðsmann sinn um rúman missiristíma. 1639 16. júlí lèt Hallur ganga dóm að Spjaldhaga með 6 mönnum um ósið í klæðaburði. Fleiri dóma lèt Hallur þá ganga, og voru nokkrir menn líflátnir eptir þeim, þar á meðal kona nokkur, honum skyld, sem átti barn í meinum, og hrapaði Hallur að lífláti hennar, áður en hún var heil orðin, því kveður Ásmundur í Hervararrímum:

«Stendur innlendum virðum ver,
að vinna á kvinnu skyldri sèr,
einkum krenking ef hún ber,
áður og þjáð í súta hver».
«Gírugan íring blóðs með bann,
ber að varast sèrhvern mann,

---

1) Síra Jón Guðmundsson á Þóroddstað var hálfbróðir þessara systkina, og samfeðra þeim, en móðir hans hèt Halldóra Brandsdóttir, síra Jón var tvígiptur og hèt seinni kona hans Guðrún Ingimundardóttir, þeirra son var fyrnefndur síra Ólafur á Kvíabekk.

þó vetur lètist vera hann,
vamma gamall sýslumann».

Þetta ár 1635 var Hallur hniginn að aldri, en ætíð illa þokkaður vegna harðlyndis síns. Hann var maður vel við efni, en úr þeim varð lítið vegna barnafjölda hans. Magnúsi lögmanni þótti hann um of eptirgangssamur og harður um sakferli, veik honum því frá lögsögn, en setti aptur Björn Pálsson fósturson sinn og útvegaði honum 1640 Dalaþing. Nokkrum árum þar eptir dó Hállur, við útför hans var staddur Magnús lögmaður, er þá sagt, að hann hafi ölvaður kveðið til ekkju hans vísu þessa:

«Kroppurinn leggst í kistu af trè,
kann ei lengur bramla,
en hvar ætlarðu að sálin sè,
seima þöllin gamla».

Sagt er, að Hallur hafi engum orðið harmdauður. Hann var á alþingi sem Vaðlasýslumaður 1640, en 1641 var hann frá sýslu, það ár dæmdi Björn sýslumaður Pálsson Hall í bætur fyrir drykkjuyrði gefin Benedikt sýslumanni Halldórssyni.

## Ólafur Jónsson.

*Faðir*: Síra Jón í Laufási son Sigurðar[1] príors og klausturhaldara á Möðruvöllum.

*Móðir:* Halldóra Þorbergsdóttir[2] sýslumanns.

*Kona fyrri:* Þuríður Bjarnadóttir, barnlaus.

*Kona seinni:* Halldóra eldri, dóttir Árna á Grýtubakka, Magnússonar Árnasonar, Pèturssonar, Loptsonar Ormsonar.

*Börn:* A. Jón átti Guðrúnu dóttur síra Sigurðar í Saurbæ Einarssonar, þeirra börn:

1. Ólafur.
2. Árni.
3. Halldóra.

---

1) Þetta hefur misskrifazt og á að vera síra Jón í Laufási, son Sigurðar Jónssonar príors á Möðruvöllum Finnbogasonar lögmanns, (sjá Þingeyjarþing).

2) Faðir Halldóru var Þorbergur sýslumaður Bessason.

4. Sigríður.

B. Sigríður átti síra Jón Möðruvalla prest Guðmundsson, bjuggu á Rúgstöðum, þeirra börn:
1. Jón Rugmann, sagnaritari í Svíaríki, dó þar.
2. Halldóra.
3. Guðmundur.
4. Jón[1].

C. Halldóra[2] átti Gunnlaug lögrèttumann í Miklagarði Egilsson, þeirra börn:
1. síra Jón.
2. Ólafur.
3. Jón lögrèttumaður.

D. Jón yngri[3] í Gilhaga átti Þorbjörgu Ólafsdóttur, börn:
1. Ólafur.
2. Halldóra eldri.
3. Halldóra yngri.

E. Þuríður átti síra Jón Egilsson á Völlum; börn:
1. síra Árni.
2. Solveig.

F. Sigríður yngri átti síra Bjarna Hallsson; börn:
1. Jón.
2. Egill.
3. Guðrún.
4. Herdís.

Ólafur bjó í Núpufelli, skýr maður og stundum umboðsmaður Magnúsar lögmanns Björnssonar. Hann lèt meðal annars dóm ganga að Spjaldhaga 1621, 12. október, um tilkall Oddnýjar til jarðarinnar Hallgilstaða. 1604 var hann umboðsmaður Björns Benediktssonar, og lèt að Grund í Svarfaðardal dóm ganga um borgun og lán á hesti.

---

1) 5. Halldóra önnur, er átti með konungsleyfi Einar Einarsson Skúlasonar.

2) Halldóra er án efa misritað fyrir Guðrún.

3) Jón bjó lengi á Ánastöðum, og var því kallaður Ánastaða-Jón, áður en hann flutti sig að Gilhaga; hann var og kallaður Rauðskeggur. Faðir Þorbjargar konu hans var Ólafur Markússon í Hèraðsdal.

### Björn Pálsson.

*Faðir:* Páll sýslumaður Guðbrandsson, sjá Húnavatnsþing.
*Móðir:* Sigríður Björnsdóttir sýslumanns Benediktssonar.
*Kona:* Ragnheiður, dóttir Magnúsar sýslumanns Arasonar Magnússonar (sjá Barðastrandarsýslu), hún dó 1725.
*Börn:* A. Páll,
B. Páll annar,
C. Sigurður; dóu allir börn.
D. Magnús giptist 1696 Sigríði eldri, dóttur Jóns Hólabiskups Vigfússonar; þau bjuggu á Eyrarlandi, Espihóli og Stokkahlöðum. Börn:
1. síra Björn á Grenjaðarstað, fæddur 1701, dó 1756, átti fyrst Margrèti Ólafsdóttur prests Guðmundssonar; börn:
a. Anna átti Lárus Hannesson Scheving, sjá síðar; svo átti síra Björn Margrèti Einarsdóttur frá Görðum, barnlaus, og seinast Elíni dóttur Benidikts lögm. Þorsteinssonar; börn:
b. síra Magnús á Helgastöðum; giptist.
c. síra Vigfús á Skinnastöðum, átti börn.
d. síra Benidikt kapellán á Breiðabólstað.
e. Einar prestur á Klifstað.
f. Þórunn[1].
g. Þuríður.
2. Ragnheiður fyrri kona síra Stepháns Ólafssonar á Höskuldstöðum, þeirra börn:
a. Ólafur stiptamtmaður[2].

---

1) Þórunn var miðkona síra Magnúsar Jónssonar í Saurbæ; þeirra dóttir Elín, er átti síra Sigurð í Goðdölum.

2) Ólafur stiptamtmaður átti 1761 Sigríði dóttur Magnúsar amtmanns Gíslasonar, dó 1812, 81 árs, þeirra börn:
a. Magnús konferenzráð í Viðey, dómstjóri í yfirdóminum.
b. Stefán amtmaður á Hvítárvöllum.
c. Björn jústizráð á Esjubergi, dómsmálaskrifari í yfirdóminum.
d. Þórunn fyrri kona Hannesar biskups Finnssonar.
e. Ragnheiður kona Jónasar Vigfússonar Schevings á Leirá.

b. Sigríður eldri[1].
c. Margrèt[2].
d. Elín[3].
e. Anna[4].
f. Sigríður yngri[5].

3. Helga átti 1731 Jón á Eyrarlandi, son Björns sýslumanns á Bustarfelli Pèturssonar, börn:
a. síra Magnús[6] í Miklagarði, dó 1807.
b. Vigfús sýslumaður í Þingeyjarþingi.
c. Elísabet[7].
d. Guðrún[8].

---

1) Sigríður eldri, kona síra Kristjáns Jóhanssonar í Stafholti.

2) Margrèt fyrsta kona síra Magnúsar Jónssonar í Saurbæ, sjá að framan.

3) Elín átti síra Bjarna Jónsson á Breiðabólstað í Vesturhópi.

4) Anna kona Vigfúsar sýslumanns Hanssonar Schevings.

5) Sigríður yngri átti fyr Þórarinn sýslumann Jónsson, síðan Jón sýslumann Jakobsson.

6) síra Magnús prestur fyrst í Miklagarði, svo Saurbæ í Eyjafirði, átti fyrst Margrèti Stefánsdóttur, systur Ólafs stiptamtmanns, sjá hèr að framan, barnlaus, síðan átti hann Þórunni Björnsdóttur, sjá að framan, og seinast Guðnýju Guðnadóttur, sýslumanns, sjá Gullbringusýslu.

7) Elísabet átti síra Jón Jónsson í Glæsibæ, svo Myrká, þeirra sonarson var síra Jón Halldórsson í Stórholti.

8) Guðrún fyrri kona síra Jóns Sigurðarsonar í Garði, hann var bróðir Guðrúnar, seinni konu Björns sýslumanns Tómassonar (sjá Þingeyjarþing), þeirra börn:

a. Sigríður fyrri kona síra Jónasar, er seinast var prestur í Reykholti, Jónssonar, þeirra son: Jón í Vík í Hèðinsfirði.
b. Þórdís seinni kona síra Jónasar fyrnefnds, þeirra son, meðal margra annara barna, Þórður dómstjóri í yfirdóminum, sjá hèr síðar.
c. síra Sigurður í Goðdölum átti Elíni dóttur síra Magn-

e. Brynjólfur[1].
f. Ragnheiður[2].
g. Sigríður[3].
h. Björn lyfsali[4].
4. Þorsteinn sýslumaður í Rangárþingi átti Valgerði frá Skarði Bjarnadóttur ríka, dóttir: Sigríður.

E. Sigríður Björnsdóttir átti síra Jón Torfason[5], börn:
1. Ólafur á Ölvaðsholti átti Sólborgu Magnúsdóttur, börn:
a. Magnús.
b. Páll.
c. Sigríður.
d. Vilborg.
2. Rannveig fyrri kona síra Philippusar Gunnarssonar, bl.
3. Björn undir Núpi í Dýrafirði átti Guðrúnu Magnúsdóttur Níelssonar, þeirra börn:
a. Magnús undir Núpi.
b. Jón í Hjarðardal.
c. Sigríður.
d. Margrèt.
e. Herdís.

F. Hólmfríður átti Arngrím sýslumann Hrólfsson, sjá Þingeyjarþing.

G. Þrúður Björnsdóttir átti Hákon sýslumann Hannesson; sjá Rangárþing.

---

úsar í Saurbæ, sjá hèr að framan, þeirra son síra Magnús græni.

1) Brynjólfur, garðyrkjumaður, dó erlendis.

2) Ragnheiður giptist ekki, fèkk fásinnu.

3) Sigríður dó ógipt barnlaus.

4) Björn lyfsali átti Guðfinnu Guðlaugsdóttur frá Görðum, dó barnlaus 1799.

5) síra Jón Torfason Gissurarsonar á Breiðabólstað, honum testamenteraði Brynjólfur biskup eignir sínar, þau hjón dóu bæði 1716.

H. Ingibjörg átti síra Ólaf á Kirkjubæ Ásmundsson, börn:
1. Björn átti Ragnheiði eða Ragnhildi Björnsdóttur sýslumanns Pètursssonar, þeirra börn:
   a. Ingibjörg.
   b. Guðrún.
2. Ragnheiður fyrri kona síra Brynjólfs á Kirkjubæ Halldórssonar, þeirra börn:
   a. síra Ólafur í Kirkjubæ.
   b. síra Halldór í Laugardælum.
   c. síra Eiríkur í Miðdal.

I. Elín átti síra Jón Jónsson í Saurbæ í Eyjafirði, barnlaus.

K. Anna átti síra Hjalta Jónsson, barnlaus.

L. Jón hafði fásinnu, drukknaði í kíl millum Hrafnagils og Espihóls, þá til heimilis hjá Magnúsi bróður sínum. Svo kvað síra Jón Guðmundsson í Stærraárskógi.

«Tel eg fyrst tvo Pála,
með tign í himinn stígna,
Sigurð í sama lagi,
sól fyrir lambsins stóli.
Magnús og Jón mun eg
með Sigríði umkveða,
Hólmfríður, Anna, Elín,
Ingibjörg, Þrúður syngja».

Björn var borinn á Þingeyrum í Húnavatnssýslu 1617, fjögra vetra missti hann föður sinn, tók þá við fjárhaldi hans og honum sjálfum til uppfósturs móðurbróðir hans Magnús Björnsson, er seinna varð lögmaður, og ólst Björn upp hjá þeim hjónum á Munkaþverá í 14 vetur, og mannaðist vel að lærdómi og listum, þó var hann enn fáa vetur við lærdómsiðkanir, þar eptir setti hann bú á Espihóli í Eyjafirði og bjó ógiptur um hríð. Seinast á árinu 1639 tók Magnús lögmaður hann fyrir lögsagnara, og árið eptir fèkk hann veitingu fyrir Vaðlaþingi. 1641 lætur Björn dóm ganga í Saurbæ um ágreining millum Jóns Ólafssonar og Bjarna Jónssonar út af hrísburtflutningi og fleiru, og sama ár út af drykkjuyrðum Halls Bjarnasonar við

Benedikt Halldórsson. 1642 að Spjaldhaga 2. júní lèt hann dóm ganga um það, hvort Ólöf Tómasdóttir ætti eigi skilmála sinn allan að Gísla Jónssyni tengdaföður sínum, þar málafèð hafði eyðzt fyrir hennar afdauða manni, en Gísli faðir mannsins hafði eigi afgreitt það lausafè, er hann hafði lofað syni sínum á giptingardegi. Var Ólöfu dæmt allt eptirlátið fè síns afdauða ektamanns Jóns Gíslasonar, en það er á brestur til málans lúkningar, var Gísli skyldaður að lúka, nema hann gæti að lögum sig þar undanfært. 1654 27. apríl lèt hann dóm ganga um hrossabeit, og þeirra ítölu í haga. Þvílíkir dómar hafa opt gengið í Norðurlandi. Þar fullvíst er um valda ár Björns sýslumanns Pálssonar, sleppi eg að geta fleiri dóma hans. Ragnheiður, dóttir Magnúsar sýslumanns Arasonar á Reykhólum var fædd 1631, hún missti föður sinn 4 vetra, en 11 vetra fluttist hún frá Reykhólum með Þórunni móður sinni norður að Skútustöðum, giptist svo hálf þrítug, árið 1655 eða 1656, sýslumanni Birni á Espihóli. Síra Jón Guðmundsson segir í kvæði sínu, að þau hafi gipzt 1655, og því trúi eg sem hann þar um segir. Mælt er að Björn sýslumaður hafi verið rægður við fógetann Jóhann Pètursson Klein, sem var fullmektugur Hinriks Bjelkes hirðstjóra, og að frumkvöðull þess hafi verið Jón Eggertsson frá Ökrum í Skagafirði. Vegna þeirrar óvildar frá sagði sèr Björn Vaðlaþing í árslokin 1669, reið og eigi til alþingis það ár, og losaðist algjörlega frá sýslunni 1670, þá er Björn sýslumaður Magnússon tók hana. Þar eptir bjó Björn Pálsson embættislaus á Espihóli, til þess að hann dó í maí 1680, en Ragnheiður kona hans dó 1. febrúar sama ár, voru þau bæði jörðuð í kirkjunni á Möðruvöllum í Eyjafirði; höfðu þau verið í hjónabandi til samans yfir 25 ár, svo kveður síra Jón Guðmundsson:

«Með dyggða hag og hegðun,
hamingjusöm til samans,
höfðings hjónin lifðu
í hugást fimm tuttugu
ár og á missiri,
eina af stríðs og kveinan,
rèðu reisa bæði
úr rýrð á fjallið dýrðar,

Anno Kristí inni
ein þúsundin hreina,
hundruð sex úr hendi
hneig og átta týgir,
hèr sem eptir hjónum,
hirðir sálna virðist
leiða í himna hæðir
og hlífa að eilífu».

Skáldið telur Björn sýslumann Pálsson mótlætismann á sínum seinni árum; er mèr óljóst, í hverju það var, utan ef hann meinar málaferli þau, er hann átti í við Jón Eggertsson, og byrjuðu, eptir að Björn hafði sleppt Vaðlaþingi, (um mál þau getur lesarinn ánægjanlega fræðzt af lögþingisbókunum 1674—75 og fl., sjá og Hegranessþing). 6 ár vöruðu mál þeirra Jóns Eggertssonar og Björns sýslumanns. Björn sýslumaður hafði þrjá vetur hins sjöunda tugar er hann lèzt, en Ragnheiður níu vetur hins fimmta tugar; urðu þau bæði um hríð á seinustu árum sínum þrotin að heilsu. Björn sýslumaður var ágætismaður; hann hýsti bæ sinn á Espihóli vel og rambyggilega, svo menjar þess sáust meir en 100 árum þar eptir. Hann var starfsamur atorkumaður; hamingjudrjúgur og mesti nytsemdarmaður. Síra Þórarinn Jónsson á Hrafnagili hefur orkt kvæði eptir hann, og segir frá fæðingu hans, uppvexti, hjónabandi 25 ár, sýsluvöldum 30 ár; kveðst um hríð hafa verið hans sóknarprestur, og hrósar honum mjög; þar á meðal er þetta:

«Engan veginn eins sem ber,
áfram verða taldar hèr
mætra hjóna manndyggðer,
mekt og gæða prýði.
Voru hyggin, vitur, fróð,
vafin heiðri, dáðagóð,
hrelldum bættu margan móð,
mettuðu auma lýði,
hógvær, spök, í hófi kát og lítillát,
lofleg allar tíðer».

## Björn Magnússon.

(Sjá um hann við Húnavatnsþing). Björn giptist á Þingeyrum 1655 Helgu dóttur Guðmundar sýslumanns Hákonarsonar, áður hafði hennar beðið Gísli son Þorláks biskups, þá er úr utanferð kom 1653; þótti hann eigi auðugur nóg og var synjað ráðsins; vildi þá Gísli ekkert þiggja um morguninn, er hann ætlaði af stað; en er hann steig á bak hesti sínum, var honum færður bikar, sem þá var siður við meiri menn, og kallaður hestabikar; við honum tók Gísli og kvað:

«Samt er eg glaður í geði,
þótt góð mèr þykist fljóðin,
ráði sú rík er af auði,
rètt er að yðrist eptir;
guð hefur gnægð af góðu,
gleð eg mig æ þar meður,
oss mun auðið að bíða,
annars jafngóðs svanna».

Er mælt að hann hafi þá fleygt niður bikarnum og riðið burt. Björn hafði fengið sýslu um 1660, er líkast það hafi verið hálf Norðursýsla eða með Þorkeli mági sínum, en vonarbrèf fyrir Múnkaþverárklaustri eptir föður sinn hafði hann fengið 1656. Hann tók Húnavatnssýslu eptir Þorkel sýslumann 1662, en afstóð henni hálfri til Guðbrandar Þorlákssonar 1665 og sleppti henni algjörlega 1670, þá er hann fèkk Vaðlasýslu, eða árinu fyr. 1673 1. apríl að Saurbæ í Eyjafirði nefnist hann þar sýslumaður og samþykkir gjaldalúkningu til Hólakirkju í Eyjafirði. 1676 lèt Björn ganga framfærsludóm að Hrafnagili, Steinunnar Guðbrandsdóttur, sem dæmdist á þremenning sinn Markús Ólafsson á Breið. 1676 stefndi Björn sýslumaður Magnússon Ara Þorkelssyni til alþingis fyrir galdur, varð ekkert úr því máli. 1677, 18. apríl á Öngulstöðum, lèt hann dóm ganga um fjárrekstur á Bleiksmýrardal. Sama ár 24. apríl að Skriðu í Hörgárdal um greiðslu á skatti og gjaftolli Gísla Bjarnasonar, sem fyrir einfalt frillulífisbrot hafði misst prestskap; kom málið undir Þorleif lögmann Kortsson, sem eigi vildi þar um dæma, fyrri enn hann vissi meiningu biskups og klerka þar um. Undir eins og Björn Magnússon tók Vaðlasýslu, fór Jón Eggertsson að áreita hann með mart,

og ásamt öðru vildi fleka af honum jörðina Syðri-Bægisá. Dæmdu loks lögmenn 1679 tèða jörð frá Jóni Eggertssyni til Björns sýslumanns Magnússonar. 1680 var stapp um galdrastafi með hendi Jóns Eggertssonar (Árb. 6. hluta bls. 97). 1684 lèt Heidemann dæma klaustur og sýslu af Birni Magnússyni fyrir skuldir; þá sigldi Björn, og gaf konungur honum hvorttveggja aptur 1685. 1686 lèt Björn dæma um útsiglingu Magnúsar Benidiktssonar með Hollenzkum. 1688 gekk ómaga framfærisdómur Björns sýslumanns. 1688 dó Helga Guðmundsdóttir kona Björns Magnússonar. 1689 kom tindalamálið til alþingis og 1690 var Björn Hallsson, er grunaður var, dæmdur að fría sig þar frá með lýrittar eiði hinum meira. 1691 var af lögmönnum Birni Magnússyni skipað á ný að tilhalda eiðvættum til lýrittar eiðs hins meira um hyggju sína í tindala málinu; um þetta var enn rætt í lögrèttu 1692—93. Þetta ár 1693 fèkk Björn sýslumaður Magnússon frænda sinn Magnús Björnsson á Espihóli fyrir sinn umboðsmann yfir sýslunni, en Múnkaþverárklaustur hafði Björn misst 1688, var það þá veitt Sveini syni síra Torfa í Gaulverjabæ. Björn sýslumaður kom eigi út 1695, var þá Vaðlasýsla af honum tekin og veitt Lárusi Scheving. 1696, á hingað sigling til landsins, dó Björn sýslumaður Magnússon og var grafinn að Vallanesi, sjá um hann meira við Húnavatnsþing.

## Jón Illugason.

*Faðir:* Illugi[1] Hólaráðsmaður, er dó 1637, Jónsson Illugasonar í Reykjahlíð.

*Móðir:* Halldóra, dóttir Skúla Einarssonar og Steinunnar laundóttur Guðbrandar biskups.

*Kona:* Margrèt dóttir síra Guðmundar Erlendssonar á Undirfelli[2].

---

1) Illugi var bróðir Guðmundar á Laugum, sjá Þingeyjarþing.

2) síra Guðmundur Erlendsson, faðir Margrètar, var prestur á Felli í Skagafirði og skáld mikið, faðir hans var Erlendur prestur Guðmundsson, er þar var prestur á undan syni sínum.

*Börn*: A. síra Jón á Undirfelli (dó 1744) og Garpsdal, átti Þóreyju, dóttur síra Bjarna[1] á Bakka, hann var og á Hvanneyri, Vesturhópshólum, Tjörn og Nesi í Aðalreykjadal, en eigi utan 2 ár í Garpsdal[2]; hann var kallaður síra Jón Brúnklukka; dætur hans voru:

1. Guðrún laungetin átti Jón[3] á Vatnsnesi, launson síra Björns á Staðarbakka Þorsteinssonar; dóttir:
   a. Margrèt[4] kona Jóns Árnasonar.
2. Margrèt skilgetin, varð síðasta kona Steindórs sýslumanns Helgasonar (sjá Hnappadalssýslu).

B. síra Benidikt í Bjarnanesi, dó 1744, átti Rannveigu dóttur Sigurðar lögrèttumanns Jónssonar í Ási, þeirra börn dóu.

C. Illugi lögrèttumaður í Nesi í Þingeyjarþingi, snikkari, átti Þorgerði, dóttur síra Sigurðar á Þönglabakka Gunnlaugssonar; þeirra börn:

---

1) síra Bjarni á Þönglabakka var kominn af Þórði Trèfót.

2) sjá um brauð þau, er síra Jón þjónaði, Prestatalið.

3) Jón Björnsson bjó í Vik á Vatnsnesi, bæði Jón og Guðrún voru hórgetin, og gaf síra Jón þau saman, er sagt, að hann hafi þá mælt fram vísu, við enda hjónavígslunnar, heldur veraldlega: «Margt er orðið með þeim líkt» o. s. frv.

4) Margrèt var fyrri kona Jóns Árnasonar í Bólstaðarhlíð, hann var skólaráðsmaður (oeconomus) á Hólum; þeirra börn:

α. síra Björn í Bólstaðarhlíð, hans fyrri kona Ingibjörg Ólafsdóttir, systir Ólafs Ólafssonar, lectors í Tunsbergi í Norvegi og stórþingsmanns, Þuríðar konu Benidikts yfirdómara Gröndals, Hólmfríðar konu Jóns sýslumanns á Bæ við Hrútafjörð, og Ingunnar, konu Magnúsar Pèturssonar frá Vallholti í Skagafirði.

Börn síra Björns og Ingibjargar voru:

a. Margrèt, hennar fyrri maður síra Arnór á Bergstöðum, son Árna biskups Þórarinssonar, seinni maður Þorsteinn Ólafsson frá Vindhæli.

b. Elísabet, kona síra Jons Pèturssonar frá Steinnesi.

1. síra Skúli á Möðruvöllum átti Helgu Tómasdóttur; börn:
   a. síra Tómas[1] á Grenjaðarstað.
   b. Þuríður.
   c. Jón.
2. Sigurður laungetinn; hans börn:
   a. síra Jón á Þæfusteini.
   b. Magnús Lund.
   c. Illugi.
3. Margrèt; átti Pètur[2] Jónsson smiður; þeirra börn:
   a. Jón læknir, dó 1801.
   b. Pètur.

---

c. Guðrún seinni kona síra Jónasar Benidiktssonar á Höskuldsstöðum.

d. Ingibjörg eldri, seinni kona Sigurðar sýslumanns Snorrasonar, (sjá Húnavatnssýslu), svo átti hún síra Benidikt Jónasson á Melum Benidiktssonar, urðu þeir feðgar þannig svilar.

e. Þóra fyrri kona síra Böðvars Þorvaldssonar.

f. Kristín seinasta kona síra Þorvaldar Böðvarssonar, föður síra Böðvars, þeir feðgar þannig líka svilar.

g. Ingibjörg yngri, fyrst seinni kona Guðmundar Jónssonar á Mælifellsá, síðan giptist hún aptur.

h. Þórunn kona síra Gunnlaugs consistarialassessors og dómkirkjuprests í Reykjavík.

Seinni kona síra Björns var Valgerður Klemensdóttir barnlaus.

β. Jón í Kálfárdal, faðir Þorkels í Sólheimum í Sæmundarhlíð, föður skólameistara Dr. Jóns Þorkelssonar og Margrètar Þorkelsdóttur, móður síra Þorkels Bjarnasonar á Reynivöllum.

b. Oddur, son Jóns Björnssonar og Guðrúnar; hans kona Guðrún Sigmundsdóttir.

1) síra Tómas átti Álfheiði systur Magisters Hálfdáns Einarssonar á Hólum.

2) sjá um Pètur hèr að framan.

c. Jórunn.
4. Jón[1].
5. Halldóra.
6. Helga.
D. Erlendur á Urðum.
E. Guðrún átti síra Jón Þorvaldsson; börn:
1. Halldóra átti Árna í Bólstaðarhlíð Þorsteinsson[2] börn:
a. Jón ökonomus[3]:
b. Halldóra[4].
c. Einar[5].
d. Steinunn.
2. Guðrún yngri átti Einar Nikulásson Einarssonar biskups; börn:
a. Ragnheiður[6] á Reynistað.
b. Erlendur[7].

---

1) Jón sigldi, varð skólameistari á Falstur.

2) síra Jón Þorvaldsson (eldri), maður Guðrúnar, var prestur á Miklabæ í Blönduhlíð.

3) sjá um Jón Árnason að framan, hans seinni kona Elísabet Benidiktsdóttir lögmanns Þorsteinssonar. Laundóttir Jóns Árnasonar með Margrèti Ásgrímsdóttur hèt Margrèt, hún giptist síra Jónatan Sigurðssyni, annað launbarn Jóns Árnasonar hèt Bjarni.

4) Halldóra átti síra Jón Björnsson á Auðkúlu.

5) Einar er sagður af sumum seinni konu barn Árna Þorsteinssonar.

6) Ragnheiður var kona Halldórs Vidalíns, sonar Bjarna sýslumanns Halldórssonar, (sjá Húnavatnssýslu).

7) Hafi Ragnheiður átt nokkurn bróður, er Erlendur hefur heitið, þá hefur hann dáið barn.

Enn voru börn Guðrúnar eldri og síra Jóns Þorvaldssonar.
3. Einar í Viðvík, ráðsmaður á Hólum, átti fyr Helgu dóttur Steins biskups, barnlaus, svo Björgu Bjarnadóttur, systur Eiríks í Djúpadal.
4. Málmfríður, kona Gríms lögsagnara Grímssonar, sjá Húnavatnssýslu.

F. Guðrún átti fyr Sigfús Skálholtsráðsmann Þórðarson; þau voru barnlaus; hann varð bráðkvaddur 1702, svo átti Guðrún Arngrím Bjarnason, þau og barnlaus.

Jón Illugason var um tíma Hólastaðar ráðsmaður, og síðan umboðsmaður í Svarfaðardal fyrir Hólastað; hann bjó á Urðum í Svarfaðardal og gjörðist lögrèttumaður; hann var og umboðsmaður Björns sýslumanns Magnússonar í hans utanferð 1684, og optar fyrir hans embættisverkum í Vaðlaþingi.

## Magnús Björnsson.

(Sjá um hann að framan). Hann var stórbóndi og bjó á Espihóli eptir föður sinn, var og haldinn vitur maður. Hann var lögsagnari Björns sýslumanns Magnússonar stundum, en einkum þá er Björn fór utan 1693 var hann alshendis fyrir sýslunni, til þess hún var af Birni tekin 1695, því Magnús vildi eigi á alþingi standa fyrir skuldum Björns sýslumanns.

## Lárus Hansson Scheving.

*Faðir*: Hans, dó 1701 71 árs, sorinskrifari í Björgvín í Noregi; hans faðir Lárus Scheving prófastur í Scheving á Sjálandi; sá Lárus var Hansson og átti 8 bræður og 4 systur; einn þeirra er sagt að verið hafi ritari (secreteri) í einhverju stjórnarráðinu, en margir hinna urðu prestar.

*Móðir:* Margrèt Pètursdóttir Gam, norsk að ætt, dó á Möðruvöllum 84 ára gömul, 9. marz 1716.

*Kona fyrri:* Þórunn, dóttir Þorleifs lögmanns Kortssonar

---

5. Steinunn átti fyr síra Jón Magnússon á Mælifelli, síðan síra Grímólf Illugason, og var hans þriðja kona, þau barnlaus.

   Enn teljast börn Jóns Illugasonar:

G. Eggert (Hlaupa-Eggert) átti eitt launbarn, er dó ungt.

H. Jórunn telst og af sumum, er átti Jón Brandsson á Kroppi.

hún dó 13. nóvember 1696, 41 árs gömul, en giptist 1692.

*Börn:* A. Hannes sýslumaður, sjá hèr síðar.

B. Jón dó 1707, 11 ára gamall.

C. stúlka, dó kornung.

*Kona seinni:* Sophía, dóttir Daða sýslumanns í Kjósarsýslu, þau giptust 1700; hún dó á Möðruvallaklausti, 23. ágúst 1737, 58 ára gömul.

*Börn:* D. Hans Scheving, dó 82 ára 1782, átti Guðrúnu, dóttur Vigfúsar á Hofi á Höfðaströnd, er dó 1707, 36 ára gamall, Gíslasonar Vigfússonar, frá Bræðratungu, Gíslasonar lögmanns. Guðrún var fædd 1701, og giptist 1729, og dó 1767 nóttina millum 3. og 4. desember, 66 ára gömul, nafnfræg að góðsemd og ágæti; börn:

1. Davíð, sýslumaður í Barðastrandarsýslu.
2. Vigfús sýslumaður í Hegranesþingi.
3. Hannes Scheving, lítinn tíma klausturhaldari á Möðruvöllum, átti Rannveigu, dóttur Marteins Björnssonar; þeirra börn:
   a. Marteinn.
   b. Guðrún.
   c. Hans.
4. Þórunn átti síra Jón Magnússon á Staðastað; þeirra börn:
   a. Helga[1].
   b. Árni galinn.
   c. síra Hallgrímur[2].

E. síra Björn á Eyjadalsá, dó 1760, átti Sigríði Jónsdóttur Gíslasonar í Saurbæ 1736; þeirra börn:

---

1) Helga átti Stefán Vigfússon Scheving á Ingjaldshóli.

2) síra Hallgrímur í Görðum á Akranesi átti fyrst Oddnýju dóttur Skúla landfógeta Magnússonar, þeirra son hèt Guðmundur, hann giptist, en börn hans komust eigi upp. Síðan giptist síra Hallgrímur aptur Guðrúnu Egilsdóttur systur skólameistara Dr. Sveinbjarnar Egilssonar, meðal barna þeirra var síra Sveinbjörn Hallgrímsson og Egill bóndi í Vogum.

1. Sophía kona síra Magnúsar á Tjörn Einarssonar; börn:
   a. síra Gísli.
   b. Þorsteinn.
   c. Björn.
   d. Guðrún.
   e. Einar.
   f. Magnús.
2. Jón Bjarnarson, sigldi og giptist utanlands[1].
3. Ingibjörg.

   Seinni kona síra Björns, Björg Árnadóttir[2].

   Laundóttir síra Björns með Sigríði:
4. Elísabet átti Jón Jónsson, ættingja Egils í Hjörtsey; börn:
   a. Þorbjörg.
   b. Þórarinn.
   c. Þórhalla.
   d. Sigríður.

F. Anna Margrèt, átti Gísla skólagenginn, son síra Þórðar á Staðastað Jónssonar, barnlaus.

G. Davíð, drukknaði á Hríseyjarsundi 1722 um tvítugt, barnlaus.

Lárus Scheving kom hingað frá Danmörku, og gjörðist ritari og fullmektugur Jóhans Pèturssonar Kleins á Bessastöðum, og lögsagnari í Gullbringusýslu, sem sjá má af vitnisburði þeim, er Jón sýslumaður Eyjólfsson tók á Kálfatjarnar leiðarþingi 3. nóvember 1692 áhrærandi ehrlega kynning þess göfuga manns, Mr. Lárusar Hanssonar Schevings. Lárus Gottrúp, er áður hafði með sömu kjörum verið á Bessastöðum hjá höfuðsmanns umboðsmanni, en nú var orðinn Þingeyrarklaustursháldari og sýslumaður Húnvetninga, hafði ætlað sèr til konu

---

3. d. Lárus Sneefæld copíisti í Rentukammerinu, dó voveiflega í Kaupmannahöfn 1786.

1) Jón varð skólahaldari á Amager.

2) Barn síra Björns og Bjargar; var:
Kristbjörg kona Þorsteins í Hvammi sonar síra Guðmundar á Barði Sigurðssonar.

Þórunni dóttur Þorleifs lögmanns Kortssonar, var hún þá komin yfir þrítugt. Gottrúp var umsvifamikill og sinnti henni lítið, en Scheving varð hjaldrjúgt við hana og urðu með þeim launfundir, svo að hann náði fullum ástum hennar, og giptist henni 1692 eða fyr. Flestum þótti, að Þórunn væri í þessu misvitur, því Lárus Gottrúp þótti þá meiri maður, lagði hann fjandskap á Lárus Scheving og vildi ófrægja hann, en fèkk eigi aðgjört; þess vegna tók Jón sýslumaður Eyjólfsson hjá Gullbringusýslu búum vitnisburð hans. Lárus Scheving var með Þórunni sína á Bessastöðum, þangað til fógetinn fèkk honum Möðruvallaklaustur, er verið hefur 1694 eða nokkru fyr. 3. dag maímánaðar 1701 fèkk Lárus Scheving staðfestingu konungs á þessari veitingu. Dóm þann, er hann lèt ganga í Skriðu í Hörgárdal 1695, meina eg að hann hafi látið ganga í umboði Magnúsar Björnssonar á Espihóli, er þá var umboðsmaður Björns sýslumanns Magnússonar; en 1696 var sýslan veitt klausturhaldara Scheving. Árið fyrir var að sönnu í orði, að hún yrði tekin af Birni sýslumanni Magnússyni, þá er umboðsmaður hans Magnús Björnsson veigraði sèr við að svara til hans dæmdu skulda. 1696 missti Lárus Scheving Þórunni konu sína; viðvaraði þó óvild Gottrúps og hans lengi þar eptir, og varð aldrei þelalaust. 1698 lèt Lárus Scheving ganga framfærisdóm á Spjaldhaga, var móðir dæmd á frilluborinn son, þar ektaborin börn eigi höfðu fè til framfæris henni. 1699 lætur hann dóm ganga að Hrafnagili um, að Hildur Guðmundsdóttir og barn hennar megi eiga frjálsa umferð, hvort í annars sveit; og sama ár um klögun síra Sigfúsar Þorlákssonar yfir 4 mönnum, er neitað höfðu að bera stefnuvitni prestsins, var hver þeirra dæmdur í einnar merkur sekt. 1700, 4. maí á Grund í Svarfaðardal, lætur hann dóm ganga um hegningu þá, er hreppstjóri Erlendur Jónsson á Sökku lèt leggja á 2 illa kynntar stelpur, Sigríði og Guðrúnu. Fyrir þetta skyldi Erlendur lúka 12 álnir til spítala. 14. nóvember 1704 tók Lárus Scheving fyrst próf að Saurbæ um stórmæli Magnúsar Benidiktssonar; um það dæmdi Páll vísilögmaður Vídalín að Saurbæ 1705, millum 23. og 28. apríl, og Halldór sýslumaður Einarsson eptir skipun amtmanns í september sama ár að Saurbæ, en 1706, 20. júlí, dæmdi Páll vísilögmaður Vídalín

Magnús útlægan, hafði Lárus sýslumaður Scheving flutt þetta ár til lögþingis sem fanga bæði Magnús Benidiktsson og Jón Hálfdánarson og vildi vera af með þá, (sjá fremur um Magnús Benidiktsson Húnavatnsþing). Eptir þetta voru til yfirvaldanna innsendar ýmislegar klaganir yfir Lárusi sýslumanni Scheving, var sýslumaður Halldór Einarsson í þeim flestum settur dómari; þær voru ýmislegar og margbrotnar; á sumar var sætzt, úr sumum varð ekkert, en nokkrum framfylgt með kappi, í þeim málum fór Lárus Scheving utan 1709, og vann þá flest sín mál; þá var það, er hæstirèttur dæmdi Magnús Benidiktsson til erfiðis í járnum á Brimarhólmi, en sýslumanni Scheving 400 rd. af hans gózi, en Jón Hálfdánarson var þá dæmdur útlægur af Íslandi. Sýslumaður Lárus Scheving hafði tekið sèr fyrir lögsagnara, meðan hann var í utanför sinni, og optar, Jón Þorkelsson, er hèlt manntalsþing 1709. 1711 á Hrafnagili, 11. og 12. maí, þingaði sýslumaður Lárus Scheving um fjölkynngis áburð, er Eiríkur Jónsson á Bergstöðum bar upp á Sigfús Þorláksson á Grund; var því skotið til lögmanna, er ályktuðu, að Eiríkur skyldi biðja Sigfús fyrirgefningar í lögrèttu 1712 og lúka honum 4 hndr. og 30 álnir í kostnað til alþingis. 1711 byrjaði málið um það háðungarfulla níðorðabrèf, er síra Jón Gíslason í Saurbæ eignaði Þórði Pálssyni í Möðrufelli, er sig eigi gat þar frá hreinsað og varð því fyrir útlátum. Nóttina millum 6. og 7. september 1712 brann Möðruvallaklaustur með miklu fè Lárusar sýslumanns Schevings; tók Benidikt sýslumaður Þorsteinsson þar um þingvitni 1713. 3. maí 1713 vann sýslumaður Lárus Scheving fyrir hæstarètti málið móti kaupmanni Kristjáni Davíðssyni, er hafði gefið út víxlbrèf, er reiðarar eigi vildu áður borga. Óþarft er að telja hèr allar dómaragjörðir Lárusar sýslumanns Schevings, því hans valdstjórnar ár eru allkunn orðin. Seinni kona hans, Sophía Daðadóttir, varð of gefin fyrir vínföng, og bar þeim það á milli, svo nærri lá við, að hann mundi skilja sig við hana, en Jón klaustursprestur Markússon og fleiri góðir menn gjörðu millum þeirra brèflegan sáttasamning 1716, gekk þar eptir til hlítar millum þeirra. 1715, þegar Oddur lögmaður Sigurðsson fór utan, setti hann Lárus sýslumann Scheving í sinn stað, að gegna stiptamtmanns verkum; hafði því Lárus Scheving þá

margt að annast, og tók son sinn Hannes sèr fyrir lögsagnara í Vaðlaþingi. Það ár varð Lárus fljótlega veikur, þá er hann stóð upp úr sæti sínu í Möðruvallaklausturskirkju, batnaði þó aptur. 1717 sókti hann til konungs um vonarbrèf handa syni sínum fyrir Vaðlasýslu, en konungur vildi eigi veita það. 1721 frá sagði Lárus Scheving sèr brèflega Vaðlasýslu, en hèlt Möðruvallaklaustri. 1722 kom Magnús Benidiktsson inn, látinn laus frá Brimarhólmi; sama ár 5. ágúst dó Lárus sýslumaður Scheving á Möðruvöllum, skorti hann þá 2 vetur á sextugt. Hann tjáist að hafa verið gjæflyndur og góðhjartaður, búþegn og forsjár-maður mikill, útvegasamur og auðigur vel; hafði hann keypt jarðagóz mikið, var margt af því fyr eign Björns sýslumanns Magnússonar; fastur og fègjöggur, en hamingjumaður mikill og vel virður af hinum heldri mönnum. Hans, son Lárusar og Sophíu, fékk Möðruvallaklaustur eptir föður sinn, var hann mikill maður að álitum og þreki, stilltur og óhlutdeilinn, en kallaður nokkuð einfaldur, hann var lengi klausturhaldari, til 1782. Hans klausturhaldari missti 1727 farmaskip sitt á Flateyjarsundi með 15 mönnum. Þau Lárus og Sophía höfðu gjört testamenti sín á milli, að það, er lengur lifði, skyldi eignast allar eigur hins; það samþykkti konungur 1694, ef þau eigi ættu lífserfingja, en þau áttu einn, sem fyr sagt.

### Hannes Lárusson Scheving.

***Faðir:*** Lárus Hansson Scheving, sýslumaður og klausturhaldari, sjá að framan.

***Móðir:*** Þórunn dóttir Þorleifs lögmanns Kortssonar.

***Kona:*** Jórunn dóttir Steins biskups á Hólum Jónssonar.

***Börn:*** A. Lárus[1] klausturhaldari að hálfu Munkaþverárklaustri, er hann fèkk 1762 og gaf í festu 136 rd. Hann fèkk og Fnjóskadals umboð; hann átti 1742 Önnu dóttur síra Björns Magnússonar á Grenjaðarstað; þeirra börn:

1. síra Stefán, kapellán í Presthólum 1776, fèkk það brauð 1794, dó 1826, átti fyrst Þorbjörgu

1) Lárus klausturhaldari bjó fyrst á Urðum, er hann átti og fleiri jarðir, en seinast á Garði í Aðaldal.

dóttur síra Stefáns Þorleifssonar prófasts Skaptasonar, þeirra dóttir

a. Anna[1] og 7 önnur að vísu.

Síðan átti síra Stefán Önnu Einarsdóttur, þau barnlaus[2].

2. síra Hannes á Helgastöðum, svo Grenjaðarstað, dó 1826, átti Snjálaugu, dóttur síra Hallgríms Eldjárnssonar; börn:
   a. Hallgrímur, Doctor í heimspeki og kennari við Bessastaðaskóla.
   b. Ólöf, seinni kona síra Stefáns á Sauðanesi.
3. Jórunn, dó 1783, átti síra Þorstein í Stærrárskógi Hallgrímsson prófasts Eldjárnssonar; þeirra börn:
   a. síra Stefán[3].

---

1) Börn síra Stefáns og Þorbjargar voru:
   a. Anna átti síra Björn Vigfússon; þeirra börn
      α. síra Stefán í Viðvík.
      β. Guðlaug kona síra Hjörleifs á Tjörn Guttormssonar.
   b. Þórdís kona síra Páls Árnasonar biskups Þórarinssonar.
   c. Kristín, seinni kona Guðmundar prentara Jónssonar Skagfjörðs.
   d. Þórunn átti Hákon Þorsteinsson á Grjótnesi.
   e. Þorbjörg átti fyr Eirík Grímsson á Skinnalóni, svo Björn Sigurðsson á Ketilsstöðum í Jökulsárhlíð.
   f. Árni í Húsey í Hróarstungu, var tvígiptur.
   g. Steinn drukknaði í Norðurá.

2) Sonur síra Stefáns og Önnu (hún var systurdóttir hans) var
   h. Einar norður á Langanesi, átti Ólöfu Pètursdóttur Jakobssonar og Kristlaugar Grímsdóttur.

3) síra Stefán á Völlum átti Guðrúnu Einarsdóttur; börn:
   α. Skapti Tímotheus, sèrlega skarpur maður og efnilegur, dó við háskólann í Kaupmannahöfn 1836.
   β. Jórunn s. k. síra Einars á Vallanesi Hjörleifssonar, barnlaus.
   γ. Ólöf átti Odd, son Guðmundar sýslumanns Pèturssonar.

b. síra Hallgrímur[1].
c. Anna[2].
d. síra Baldvin[3].
e. síra Kristján[4].

---

1) síra Hallgrímur kapellán, bjó á Hrauni í Yxnadal, drukknaði þar við veiðiskap, átti Rannveigu Jónasdóttur frá Hvassafelli; þeirra börn.

α. Þorsteinn átti Guðnýu Þórðardóttur frá Kjarna.
β. Jónas, merkisskáld, dó í Kaupmannahöfn barnlaus.
γ. Rannveig átti fyrst Tómas Ásmundsson frá Silfrastöðum, bjuggu á Steinstöðum í Yxnadal; þeirra börn:

a. Hallgrímur átti Dýrleifu Pálsdóttur frá Jórunnarstöðum, þeirra son er síra Tómas í Stærraárskógi, síðan átti hann Margrèti dóttur síra Einars Thorlacíusar í Saurbæ.
b. Kristín seinni kona síra Jóns Einarssonar Thorlacíusar í Saurbæ.

Seinni maður Rannveigar Hallgrímsdóttur var Stefán Jónsson, er lengi var alþingismaður Eyfirðinga.

2) Anna var kona síra Magnúsar í Steinnesi Árnasonar biskups Þórarinssonar, meðal barna þeirra voru:

α. Sigríður fyrri kona síra Jóns Halldórssonar í Stórholti.
β. Margrèt seinni kona fyr nefnds síra Jóns.
γ. Guðríður yfirsetukona, átti fyr Pètur Einarsson Hjaltesteð, og síðan Einar Guðmundsson frá Stardal.
δ. Helga átti fyr Björn Kortsson, þeirra son síra Jónas Bjarnarson í Selárdal, síðan átti hún Jón Einarsson, bróður Halldórs sýslumanns Einarssonar, barnlaus.

3) síra Baldvin á Upsum, átti fyr Filippíu dóttur Erlendar Hjálmarssonar, síðan Málmfríði, dóttur Jóns Ívarssonar og Rannveigar, dóttur síra Magnúsar Erlendssonar á Hrafnagili.

4) síra Kristján, seinast prestur á Völlum, átti fyrst Þorbjörgu Þórarinsdóttur frá Múla; síra Þórarinn var bróðir Benidikts yfirdómara Gröndals; þeirra son er síra Þórarinn í Vatnsfirði.

f. Rósa[1].
g. Sophía[2].
h. Jón[3].

4. Margrèt átti síra Einar Árnason á Sauðanesi; börn:

a. síra Stefán átti fyr Önnu Halldórsdóttur frá Reinistað; þeirra börn:
α. Einar[4].
β. Kristín.
λ. Sigríður[5].
svo átti síra Stefán Önnu Hannesdóttur; börn:

---

Önnur kona síra Kristjáns var Þorbjörg Bergsdóttir, og hin þriðja Guðrún Sigfúsdóttir frá Fagraskógi Eyjólfssonar.

1) Rósa seinni kona síra Jóns á Myrká Jónssonar, hann var ömmubróðir hennar.

2) Sophía var eptir seinni konu síra Þorsteins, Elíni Halldórsdóttur, er var fædd í Reykjahverfi af vænu og heldra almúgafólki, er bjó í Skörðum og Skógum, hèt móðir hennar Þuríður. Maður Sophíu hèt Rögnvaldur Rögnvaldsson, þeirra son Halldór faðir síra Sófóníasar í Goðdölum.

3) Jón dó ógiptur barnlaus.

4) Einar var stúdent, átti Ragnheiði, dóttur Benidikts á Víðimýri og Katrínar dóttur Jóns biskups Teitssonar. Benidikt Vídalín var bróðir Önnu móður Einars, en foreldri þeirra voru þau Halldór á Reynistað og Ragnheiður Einarsdóttir, sjá hèr að framan. Einar bjó fyrst á Víðimýri, er hann átti, svo keypti hann Reynistað, flutti sig þangað og varð Reynistaðarklausturs umboðsmaður; seinast gekk svo af honum, að hann seldi Víðimýri, og er hann dó, var Reynistaður seldur, keypti hann þá Jón prófastur Hallsson. Börn Einars og Ragnheiðar voru.

α. Stefán student, bjó í Krossanesi í Vallhólmi, átti Ingveldi, dóttur Jóns prófasts Hallssonar.
β. Katrín er átti Benidikt sýslumann Sveinsson, sjá Þingeyjarþing.

5) Kristín og Sigríður held eg að hafi dáið ungar; en systur Einars voru:

δ. Hannes.

ε. Snjálaug[1].

b. síra Jón[2] á Desjarmýri átti Margrèti Guðmundsdóttur.

c. Einar[3], skólagenginn.

d. Guðrún átti fyr síra Skapta[4] svo síra Stefán Þorsteinsson.

e. Anna seinni kona síra Stefáns Lárussonar.

f. Björn.

g. Margrèt[5].

B. Þórunn átti fyr Jón klausturhaldara á Reynistað Vigfússon frá Hofi á Höfðaströnd. Vigfús dó 1709 en Jón 1752; börn Þórunnar og Jóns:

1. Vigfús á Hofi á Kjalarnesi átti Sesselju Þórðardóttur; börn:

a. Kristín.

b. Jón.

---

a. Margrèt eldri átti síra Jón Guðmundsson á Skeggjastöðum.

b. Margrèt yngri átti launbarn með Þórði yfirdómstjóra Jónassyni, sjá hèr síðar.

1) Hannes og Snjálaug dóu bæði barnlaus.

2) síra Jón Einarsson var prestur á Hálsi í Hamarsfirði, svo Einholti.

3) Einar hætti við skólalærdóm, átti móti vilja allra sinna Þuríði nokkra, þau skildu síðan.

4) Guðrún var seinni kona síra Skapta Skaptasonar á Skeggjastöðum; þeirra börn:

a. Einar á Svínavatni, átti dóttur Björns á Hofi í Svarfaðardal Egilssonar.

b. Stefán var norður í Þingeyjarsýslu.

c. Jósep læknir á Hnausum í Húnavatnssýslu, mikill þrekmaður og framkvæmdamaður.

d. Margrèt, ógipt, barnlaus.

5) Björn og Margrèt hafa dáið ung.

Hálfdán hèt enn sonur síra Einars og Margrètar, hann átti Hólmfríði Þórarinsdóttur frá Hólum í Laxárdal, þau bjuggu á Oddstöðum.

2. Karítas átti Þorstein í Vatnsskarðshólum, Eyjólfsson; börn:
   a. Þorsteinn.
   b. Kristín.
   c. Ólöf.
   d. Þórunn.
   e. Guðrún.
   f. Karítas.
   g. Þórunn yngri.
   h. Guðrún yngri.
   í. Finnur.
3. Jón sigldi og varð garðari, svo skólahaldari á Amager.
4. Guðlaug.
   Seinna átti Þórunn síra Jón prófast Steingrímsson; börn:
5. Sigríður, kona síra Sigurðar á Heiði og síðan síra Markúsar Sigurðssonar.
6. Katrín átti síra Berg Jónsson á Prestbakka; þeirra börn:
   a. Þorbjörg.
   b. Ísleifur.
   c. Jón o. fl.
7. Jórunn átti síra Þórð Brynjólfsson, barnlaus.
8. Guðný átti síra Jón Jónsson; þeirra börn:
   a. Síra Jón Austmann í Vestmannaeyjum.
   b. Þórunn.
   c. Guðrún.
   d. Páll.
   e. Pálmi snikkari.
9. Helga átti síra Ólaf Pálsson á Eyvindarhólum.

C. Jón,
D. Þorleifur,
E. Margrèt, dóu ung.

Hannes var fæddur á Möðruvallaklaustri 27. júlí 1694, útskrifaður úr Hólaskóla 1712, varð heyrari þar við skólann 1715, og þá dómkirkjunnar ráðsmaður. Hann giptist á Hólum 2. október 1717, var Jórunn þá 18 vetra og ól barn (Þórunni) millum

kaups og festa; hann var þá 23 ára. Árinu fyr, 1716, gjörðist hann fullmektugur í Vaðlasýslu hjá föður sínum. 1717 fèkk faðir hans afsvar konungs, er hann sókti um vonarbrèf handa syni sínum Hannesi fyrir Vaðlaþingi; var hann fullmektugur föður síns til þess 1721, að faðir hans hafði frá sagt sèr sýslunni og amtmaður Fuhrmann setti hann þar fyrir sýslumann 21. júlí 1721, en konungsbrèf og staðfesting fèkk hann dagsetta 31. október 1722 fyrir sýslunni. Amtmaður Fuhrmann afhenti honum autoríseraðan prótókol 1721. Honum var tilslegið hálft Munkaþverárklaustur móts við þá veranda landþingisskrifara Jón Jónsson eptir festubrèfi Cornelii Wulfs 23. júlí 1722, máttu þeir til samans útleggja í festu 80 rd. fyrir utan skrifarapeninga. 1717 bjó Hannes sýslumaður á Stórubrekku, síðan 2 ár á Bakka í Yxnadal, svo 3 ár á Urðum í Svarfaðardal, en 1724 flutti hann að Munkaþverárklaustri; 1726 keypti hann af Birni bónda Magnússyni Espihól með Víðirgerði fyrir 100 hndr. og gaf þar fyrir Bakka í Yxnadal, Auðnir, Hraunhöfn og Bessahlaði, sem og 5 hndr. í peningum, eru það 100 hndr., og þar við jók hann Skjaldastöðum, kirkjujörð, 20 hundruðum. Að Espihóli ætlaði Hannes sýslumaður að flytja vorið 1726, en honum entist eigi líf þar til, því á sama vori (1726) 1. maí andaðist hann að Munkaþverá og var þar jarðaður 15. sama mánaðar. Hann var virkilegur sýslumaður í 4 ár, en hafði þó lögsögn í Vaðlaþingi í 9 ár með elsku og virðingu sýslubúa sinna og miklum metum yfirboðara sinna og annara góðra manna; því hann stundaði hið bezta, fór sem vægilegast og skynsamlegast í öll mál, og sætti allt það er sætta mátti. Marga hans dóma hefi eg í höndum, sem oflangt og óþarft er hèr að rita, og finnast nokkrir þeirra í 8. hluta Árbókanna. Mælt er, að Hannes sýslumaður hafi fyrirsagt, að sveinn sinn Stefán Einarsson mundi verða seinni maður Jórunnar konu sinnar; þó var Stefán manna ófríðastur sýnum, en skarpur og vel lærður. Eptir dauða Hannesar sýslumanns Lárussonar bjó ekkja hans Jórunn það ár á Munkaþverárklaustri, og var Stefán stúdent Einarsson með henni til forráða, og eins á Espihóli, þá er hún þangað flutti; bjó hún svo um hríð, 6 og hálft ár, á Espihóli ógipt, til þess Stefán vígðist til prests, þá giptist Jórunn honum 1733, var þeirra brúðkaup á Espihóli; síra Stefán

fèkk Laufás, og voru þau þar saman í 16 ár, til þess að hann dó, þá flutti Jórunn að Grund í Höfðahverfi og var þar í 21 ár með dætrum sínum, en andaðist þar 7. nóvember 1776, skorti hana 3 vetur á áttrætt. Jórunn var marg-dyggðauðig og guðhrædd höfðingskvinna. Börn hennar voru 9, þar af 2 piltar og 7 stúlkur. Af dætrum þeirra hjóna giptust.

1. Hildur Magnúsi Árnasyni, barnlaus.
2. Margrèt Þorgrími stúdent, syni síra Jóns á Hálsi.
3. Kristín síra Magnúsi syni síra Björns á Helgastöðum.
4. Guðlaug Ólafi silfursmið Jónssyni frá Selkoti undir Eyjafjöllum.
5. Guðrún, seinni kona síra Jóns Egilssonar í Laufási, barnlaus.

### Jón Pálsson Vídalín.

***Faðir***: Páll lögmaður Vídalín Jónsson, sjá Dalasýslu.
***Móðir***: Þorbjörg Magnúsdóttir.
***Kona:*** Helga Steinsdóttir biskups, þau giptust á Hólum veturinn 1725.
***Börn:*** Jón, fæddur 1726 dó 1767, var prestur í Laufási og átti Sigríði dóttur síra Magnúsar í Húsavík Einarssonar prests í Garði; barn:

1. Geir biskup Vídalín, fæddur 1762, dó 1821, átti Sigríði, dóttur síra Halldórs í Hítardal; þeirra son Árni.

Jón eldri Vídalín, lærði hèr á landi, fór svo utan til meiri lærdóms iðkana við háskólann í Kaupmannahöfn, og var þar nokkur ár, kom svo inn og varð heyrari við Hólaskóla í 2 ár, giptist Helgu seinna árið.

Þegar sýslumaður Hannes Scheving dó 1726, var Jón Vídalín eptir beiðni föður hans, Páls lögmanns, settur sýslumaður í Vaðlaþingi at amtmanni Fuhrmann um sumarið. Hann reið um haustið með Steini biskupi norður að Munkaþverá og auglýsti veitingarbrèf sitt að Grund í Eyjafirði. (Jón sýslumaður Jakobsson segir, að hann hafi stefnt 3 hreppa þing að Spjaldhaga og þar auglýst veitingu sína, tjáir hann hann hinn sein-

asta, er þar hafi þing átt við bændur). Vildi Jón frá Möðruvöllum ferðast til Hóla í Hjaltadal; var með honum Jón, son Þorláks prests í Miklagarði Grímssonar Sigurðssonar sýslumanns Hrólfssonar, mannvænlegur, um tvítugt, og annar skólasveinn, Þorlákur Londemann, son Torfa sýslumanns. 12. október riðu þeir frá Möðruvöllum í Hörgárdal til Myrkár og sama aptan upp á Hjaltadalsheiði; var veður dimmt og ískyggilegt, gjörði mikið frost og vestan fjúk um nóttina; þeirra var leitað, þá er upp lètti, og þeir eigi komu fram, fundust hestar þeirra með beizlum, en þeir eigi, þótt opt væri leitað, fyrri en um vorið eptir, við vörðu þá, er vestan til er á heiðinni, þóttust menn sjá vegsummerki, að Jón Þorláksson hefði lagt yfirhöfn Vídalíns ofan á hann og sveininn, og brotið hana vel að þeim allt um kring, en lagzt síðan skammt þar frá undir síðhempu sína. Voru þeir grafnir á Hólum. Engin dómaraverk hefi eg sèð eptir Jón Vídalín. Ekkja hans Helga Steinsdóttir, sem ól son sinn eptir andlát bónda síns, giptist seinna Einari Jónssyni[1], er lengi var Hólastaðarráðsmaður og bjó í Viðvík; ekki áttu þau börn, er lifðu. Eptir fráfall Jóns Pálssonar Vídalíns, sendi Páll lögmaður Vídalín, faðir Jóns, ritara sinn Arnór Jónsson, er um vorið skyldi reka Vaðlasýslu og gegna sýslumanns verkum sem lögsagnari; um það, er við bar í þessari hans þingaferð, veit eg ekkert markvert að ritfæra. Hann varð löngu seinna sýslumaður í Borgarfjarðarsýslu fyrir sunnan Hvítá (sjá Borgarfjarðarsýslu). Arnór var í mörgu ágætur maður og vel að sèr um margt, þótt hann eigi væri latínulærður.

### Jón Jónsson.

*Faðir:* Jón Fljótaráðsmaður, bjó á Hraunum og Tungu í Fljótum, hann var son síra Sveins á Barði í Fljótum Jónssonar bónda á Siglunesi; Jón Sveinsson var lengi krankur, dó 1707, 55 ára.

*Móðir:* Helga, dóttir Guttorms bónda á Hraunum í Fljótum Jónssonar og Málmfríðar dóttur Illuga Hólastaðarráðs-

1) sjá um Einar Jónsson hèr að framan.

manns Jónssonar á Einarsstöðum í Reykjadal, Illugasonar prests í Múla.

*Kona:* Guðrún, dó 1765, dóttir Þórarins Vigfússonar (aðrir Sigfússonar) Friðrikssonar; ritað er, að þessi Þórarinn hafi haldið hálft Munkaþverárklaustur í 22 ár og þá flutt sig á eignarjörð sína Grenivík. Móðir Guðrúnar var Ingibjörg dóttir sírar Markúsar í Laufási Geirssonar; hún giptist á Möðruvöllum 1685, dó 1707. Þórarinn Vigfússon[1] dó 1707 eða 1708.

*Börn:* A. Þórarinn sýslumaður, sjá hèr síðar.

B. Málmfríður, kona Sveins lögmanns á Munkaþverárklaustri Sveinssonar; þeirra börn.

1. Jón Sveinsson, landlæknir, barnlaus.
2. Jón yngri, sýslumaður í Múlaþingi, sjá þar um hann.
3. Ingigerður, kona síra Þorkels stiptprófasts Ólafssonar, hún dó 14. október 1775 af barnsförum, barn:
   a. síra Sölfi á Hjaltastöðum, giptist og átti börn:
4. Karítas átti Erlend, er hèlt hálft Munkaþverárklaustur, Hjálmarsson; þeirra börn:
   a. síra Páll.
   b. Filippía[2].
   c. Sigríður[3].
5. Ingibjörg átti Magnús prófast Erlendsson, börn[4]:

---

1) Friðrik var undirkaupmaður á Húsavík, danskur að kyni og af góðum ættum, Vigfús sonur hans bjó að Hóli í Kinn, var vitur maður og vel menntaður, kona hans hèt Sesselja, dóttir Þórarins á Víkingavatni, er var auðigur og ágætur maður.

2) hún var fyrri kona síra Baldvins á Upsum, sem fyr segir.

3) Sigríði átti Árni sonur Jóns læknis Pèturssonar.

4) Börn þeirra síra Magnúsar á Hrafnagili og konu hans Ingibjargar, er upp komust, voru:

a. Guðlaug, fyrsta kona Guðjóns Sigurðssonar, er eitt

a. Erlendur.
b. Guðlaug.
c. Jón.
6. Guðrún dó ógipt 1780 barnlaus.
7. Jón.
8. Vigfús.
9. Sölfi.
10. Helga.
11. Helga önnur dóu á unga aldri.

Jón er borinn á Hraunum í Fljótum 1682 eða 1683, skírður af síra Jóni Sveinssyni, er þá var kapellán á Barði. Uppólst Jón fyrst hjá síra Sveini á Barði, og eptir lát hans hjá foreldrum sínum, til þess að hann 12 vetra, 1695, var settur í Hólaskóla; þaðan var hann útskrifaður með góðum vitnisburði 1704 af skólameistara Jóni Árnasyni. Sama ár gjörðist Jón sveinn Björns biskups Þorleifssonar, en að ári liðnu 1705 var hann kallaður til djákna á Möðruvöllum af sýslumanni og klausturhaldara Lárusi Scheving: þar ávann hann sèr bezta þokka húsbónda síns bæði fyrir siðferði, lærdóm og útrèttingar í búskaparsökum, og sigldi með þessum húsbónda sínum 1708. Þá, er hann fyrir litlu var kominn til Kaupmannahafnar, tók hann við háskólann hið fyrsta lærdómspróf, og komst í stúdentatölu: gaf sig síðan þar við lærdómi, er hann gat, en þjónaði húsbónda sínum jafnframt í því, er hann vildi, og kom inn með honum næsta sumar eptir, og varð hjá honum sem fyr, en lagði sig þá mjög eptir bókmenntum, hvenær sem tækifæri gafst. 1712, 12. júlí, var hann af konungi útnefndur vísilandþingsskrifari Sigurðar Sigurðssonar að tilhlutun Lárusar

---

sinn var á Sjáfarborg, þeirra son var Pètur, organsleikari, kona hans var Guðrún, systir frú Kirstínar móður Lárusar yfirdómara, sjá Þingeyjarþing.

b. Rannveig átti Jón Ivarsson á Naustum hjá Akureyri.
c. Valgerður seinni kona síra Sigurðar Árnasonar á Hálsi.
d. Karítas átti Jósep Grímsson græðara á Stokkahlöðum.
e. Ingibjörg kona Jafets Diðrikssonar Reinholts.
f. Guðrún kona síra Hallgríms á Hrafnagili Hallgrímssonar Thorlacíusar prests í Miklagarði.

sýslumanns, er hann enn nú dvaldi hjá í 4 ár, og var hans önnur hönd í bústands- og brèfagjörðum. 1716 12. júní framfór trúlofun hans með Guðrúnu Þórarinsdóttur, en brúðkaup þeirra var haldið 29. september sama ár, bjó hann þar eptir í Grenivík. 1722, 18. júlí, var honum til slegið hálft Munkaþverárklaustur til móts við Hannes sýslumann Scheving, þar upp á fèkk hann staðfestingarbrèf konungs 23. maí 1723; af sínum parti gaf hann 40 rd. í festu. 29. marz gaf konungur honum brèf fyrir Vaðlaþingi, hefur hann sókt um sýsluna fyrra árið, og er ljóst, að eigi hefði Jón Vídalín fengið hana, þótt lifað hefði; leyfi konungs fèkk hann til að búa utan sýslu, sem sè í Grenivík. Marga dóma lèt hann ganga í sýslu sinni, er eg eigi hirði hèr að upp telja, en get þess, að 1735 18. október niður setti sýslumaður Jón, eptir beiðni Odds fyr lögmanns Sigurðssonar og boði amtmanns Lafrentz, jörðina Eyvindarstaði í Eyjafirði, áður 50 hndr. að dýrleika, með 1 hndr. og 20 ál. landskuld og 4 kúgildum, vegna þess að allur skógur var genginn undan jörðunni, svo að þar sást eigi skógarvitund í landi, en málnytu gagnleysi svo mikið, að 7 kúgildi gjörðu í 5 daga 1 fjórðung smjörs. Fyrir þessar og fleiri sakir skyldi jörðin framvegis eigi tíundast fyrir meira en 20 hndr. og eptir hana gjaldast 20 aurar, en með henni leigjast 4 kúgildi, eins og áður. 1736 19. október niðursetti hann eptir amtmanns skipun jörðina Litladal í Eyjafirði, 40 hndr. að fornu með 6 kúgildum og 2 hndr. landskuld frá manna minni, til 20 hndr. til tíundar vegna skriðna og skemmda á túni og engjum, sem og voru upp blásnar. Jón sýslumaður hafði fyrir umboðsmann sinn í Vaðlaþingi mág sinn, klausturhaldara Sölfa Tómásson á Munkaþverá, (hann átti Halldóru systur Jóns) og fleiri skýra menn til að niðursetja þrætur í sýslunni. Hann tjáist að hafa verið til settur að vera í stiptamtmanns stað í hvorumtveggja Consístoríalrèttinum hèr á landi; einnig var hann einn af þeim 4 sýslumönnum, sem tilsettir voru við lagaverkið, sem teljast Þorsteinn Sigurðsson, Sigurður Sigurðsson, Ormur Daðason og Jón Jónsson. Jón sýslumaður var og ásamt Cornelíusi Wulf landfógeta Commissaríus í prentsverks málinu millum Steins biskups og Þórðar biskups erfingja, þótt þeir sættust sjálfir. 1739 tók Jón sýslumaður son sinn Þórarinn fyrir

sinn lögsagnara, en 1747 frá sagði Jón sèr sýsluna, þá er hann hafði hana haldið í 20 ár með sóma og velþóknun yfirboðara og flestra sýslubúa. Sýslumaður Jón bjó þar eptir í Grenivík embættislaus, til þess að hann dó þar 24. maí 1762, áttræður að aldri, Guðrún kona hans dó 1765. 1762 voru Jóni tilslegnar Norðursýslujarðir með 35 og einum hálfum rd. í festu. Jón sýslumaður var bezti búhöldur og fyrirsjónarmaður, vel efnaður og hafði jafnan gnægð í búi, svo að hann miðlaði öðrum talsvert, iðjumaður var hann hinn mesti, annaðhvort við lærdómsmenntir, embætti sitt eða búsýslu; þótt hann eigi væri bráðskarpur, varð hann lærður maður af ástundun sinni, eins í lögvísi og guðfræði. Honum er eignuð útlegging yfir nýja testamentið, einnig útskýring yfir orðið skattur og þingfararkaup, útlegging yfir baróns Holbergs nattúrurètt; hófsmaður var hann um alla hluti, stilltur, aðgætinn og sundurgjörðalaus, fráleitur smjaðri og sjálfshrósi; á sjötugs aldri tók honum mjög að daprast sjón, sem fór í vöxt, svo að hann var á sínum seinustu árum eigi bóklæs, brjóstveiki leiddi hann loks til bana; hann er grafinn að Höfða í Höfðahverfi. Hann þótti með helztu sýslumönnum í sinni tíð.

## Þórarinn Jónsson.

*Faðir:* Jón sýslumaður Jónsson, nýnefndur.

*Móðir:* Guðrún Þórarinsdóttir Vigfússonar Friðrikssonar; Vigfús var danskur að kyni í aðra ætt, og átti 1663 í málum við Jón nokkurn Sigurðsson í Norðursýslu, sjá Hrólfs Sigurðssonar dómasafn[1].

*Kona:* Sigríður yngri, dóttir síra Stefáns á Höskuldstöðum Ólafssonar prófasts á Hrafnagili Guðmundssonar bónda á Siglunesi, bróður síra Sveins á Barði Jónssonar[2];

---

1) þetta dómasafn er ekki prentað, og eg hefi ekki sèð það.

2) Jón, faðir síra Sveins á Barði, var Guðmundsson; síra Sveinn orti á níræðisaldri erfiljóð eptir föður sinn, er byrja þannig

«Jón Guðmundsson í guði,
gengina er heimi frá».

Síra Sveinn á Barði átti tvo bræður, er Guðmundar hètu, var annar þeirra á Siglunesi og átti, sem hèr segir, Sigríði dóttur

kona Guðmundar var Sigríður, dóttir Ásgríms skálds á Höfða Magnússonar og Þóru, sem var Ásgríms fyrri kona; var Þóra dóttir Erlendar prests í Felli Guðmundssonar og systir skáldsins síra Guðmundar, sem eptir ýmsan hrakning frá Þingeyraklaustri, sem djákni, frá Glæsibæ, frá Möðruvallaklaustri og seinast frá Grímsey, lenti sem kapellán hjá föður sínum og fèkk staðinn eptir hann. Móðir Sigríðar var Ragnheiður Magnúsdóttir Björnssonar Pálssonar Guðbrandssonar. Föðurmóðir Sigríðar Stefánsdóttur var Anna dóttir síra Stefáns á Vallanesi Ólafssonar prófasts í Kirkjubæ Einarssonar prófasts í Eydölum, Sigurðssonar prests í Nesi og Grímsey. Síra Einar í Eydölum var fæddur 1539 að Hvammi í Aðalreykjadal, skírður af síra Sigurði Jónssyni á Grenjaðarstað, ólst upp við fátækt, fór í skóla 14 vetra og lærði latínu í 4 ár, vígðist til prests að Möðruvallaklaustri 18 vetra, færði mat úr selinu heim til klaustursins á sumrum og gjörði þar þá selráðskonuna ólètta, og átti hana síðan, var þeirra son Oddur biskup, getinn í Möðruvallaseli; síðan varð hann prestur við Mývatn, þar eptir að Nesi í Aðalreykjadal, og þar um hríð prófastur; lèt honum búskapur eigi vel, var og barnafjöldi ærinn. Þá er Oddur son hans varð biskup, tók hann föður sinn í Skálholt við 16. mann; árið eptir fèkk hann honum Hvamm í Norðurárdal og næsta ár Eydali eystra, og fèkk þar að auki honum umboð til að lifa af, kom og systkinum

---

Ásgríms skálds á Höfða Magnússonar, og Þóru, fyrri konu Ásgríms, Erlendsdóttur, þeirra son síra Ólafur Guðmundsson á Hrafnagili; en hinn Guðmundurinn bjó á Þórustöðum í Ólafsfirði, hans son var Sveinn Fljótaráðsmaður, faðir Guðrúnar, er Eiríkur Þorsteinsson á Brekku átti, sjá Tímarit mitt 1. hepti bls. 16. Seinni kona Ásgríms skálds var Þuríður, systir fyrnefndra bræðra; þeirra börn:

1. Erlendur.
2. Herdís.
3. Valgerður.

sínum til þeirrar menningar, sem hann gat. Síra Einars fyrri kona var Margrèt Helgadóttir, en seinni kona Ólöf Þórarinsdóttir, báðar af bændafólki og eigi auðigar. Síra Einar varð hinn kynsælasti maður, og næst Ormi sýslumanni í Eyjum var hann hinn fjölmennasti að afkomendum, þá er hann dó.

*Börn:* A. Stefán[1], skírður 25. ágúst 1754, varð vísilögmaður 1779, virkilegur 1782, amtmaður í norðuramtinu 1783, fèkk lausn frá lögmannsembætti 1789, settur í stiptamtmanns stað 1804 og aptur 1810, varð konferenzráð 1813, riddari af dannebroge 1815, dó 1823, átti Ragnheiði Vigfúsdóttur Schevings (sjá Hegranessþing):

---

1) Börn amtmanns Stefáns og Ragnheiðar voru:

1. Anna.
2. Þórarinn.
3. Sigríður.
4. Guðrún.
5. Ragnheiður dó ógipt tvítug.
6. Sigurður, las guðfræði við háskólann, veiktist og dó þar.
7. Vigfús varð kancelliskriteri, brjálaðist, kom aptur inn, varð í brjálsemi Þorvaldi Schovelín að bana, var svo fluttur út og honum komið á St. Hans spítala.
8. Þórarinn var um tíma við verzlun á Akureyri og Kúvíkum, var seinast í Skjaldavík, átti Katrínu, systur amtmanns Pèturs Havsteins; eitt af börnum þeirra
   Jakob, kaupmaður í Kúvíkum, á dóttur Óla Viborgs á Ófeigsfirði, er var merkisbóndi.
9. Anna Sigríður fyrri kona Páls amtmanns Þórðarsonar Melsteðs; launbarn hennar með Friðriki verzlunarmanni Möller á Akureyri
   Sigríður Anna kona síra Símonar á Þingvöllum Vormssonar Bekks.
10. Ólafur cand. med. bjó á Hofi í Möðruvalla-

B. Vigfús, skírður 21. maí 1756, varð (Candidatus) sýslumaður í Gullbringu- og Kjósarsýslum 1781, fèkk Rangárþing 1789, varð kansellíráð 1810, fèkk Vestmannaeyjar tillagðar Rangárþingi 1812, gegndi lögmanns verkum á alþingi forna 2 sumur, dó 1819, átti Steinunni Bjarnadóttur (sjá Rangárþing).

C. Gísli, skírður 12. nóvember 1758, varð prestur og prófastur að Odda á Rangárvöllum 1784, giptist

---

klausturssókn, átti Halldóru Þorláksdóttur frá Skriðu; Þorlákur var bróðir síra Gunnars Hallgrímssonar, föður síra Gunnars í Laufási.

11. Oddur lyfsali í Læknisnesi og Akureyri, átti fyrst Sólveigu Bogadóttur frá Staðarfelli, þeirra son, meðal annara fleiri barna: Stefán sýslumaður á Akureyri. Seinni kona Odds var Magðalena dóttir fyrnefnds Friðriks og konu hans Friðriku, dóttur Rasmusar Lynges, búðarmanns á Akureyri.
12. Lárus sýslumaður í Enni, sjá Skagafjarðarsýslu.
13. Guðrún, tvíburi við Lárus, átti Dr. philos. Gísla Brynjólfsson prest á Hólmum í Reyðarfirði, þeirra son:
    Gísli Brynjólfsson, kennari við háskólann í Kaupmannahöfn.
14. Jakob las lög, veiktist, kom inn og dó skömmu eptir.
15. Magnús bjó á Eyrarlandi, átti Geirþrúði, dóttur Tyrrestrups kaupmanns á Akureyri, eitt af börnum þeirra er:
    Jakobína kona síra Daníels Halldórssonar á Hólmum.
16. Margrèt giptist ekki.
17. Stefán átti Vilhelmínu dóttur Levers verzlunarmanns á Akureyri og fyrnefndrar Friðriku; var Lever hennar fyrri maður. Þau Stefán reistu bú á Espihóli.

1786 Jórunni dóttur Sigurðar landþingiskrifara Sigurðssonar; þeirra börn:

1. Sigríður kona etazráðs og landsyfirrèttarassessors Ísleifs Einarssonar; þeirra börn:
   a. Gísli[1].
   b. Jórunn[2].
2. Síra Sigurður, átti Guðrúnu, dóttur Vigfúsar kansellíráðs Þórarinssonar, þeirra börn:
   a. Vigfús[3].
   b. Gísli[4] og fleiri.

D. Síra Friðrik, skírður 13. júlí 1763; eptir afstaðinn lærdóm innanlands og utan vígðist hann til kapelláns að Breiðabólstað í Vesturhópi 1789 og fèkk það brauð eptir síra Bjarna. Síra Friðrik átti Hólmfríði, dóttur Jóns vísilögmanns Ólafssonar, þeirra börn:

1. Bjarni stúdent í Bæ við Hrútafjörð, átti fyr Önnu, dóttur Jóns sýslumanns í Strandasýslu Jónssonar, sjá Strandasýslu; þeirra börn:

---

1) Síra Gísli Ísleifsson í Kálfholti átti Sigríði Guðmundsdóttir; þeirra son, auk fleiri barna:

Síra Ísleifur í Arnarbæli, á Karítasi Markúsdóttur frá Odda.

2) hennar maður Páll Pálsson Melsteð, málaflutningsmaður við yfirdóminn, var hún hans fyrri kona.

3) Vigfús sýslumaður í Strandasýslu átti Ragnheiði dóttur Páls amtmanns Þórðarsonar Melsteðs.

4) síra Gísli seinast prestur í Stokkseyrarkalli átti Ingibjörgu systur Ragnheiðar.

Enn var sonur þeirra:

c. síra Stefán á Kálfatjörn, átti fyr Rannveigu, dóttur Sigurðar kaupmanns í Reykjavík Bjarnasonar riddara Sigurðssonar, barnlaus.
seinni kona hans er Steinunn systir Rannveigar, þau og svo barnlaus.
Síra Sigurður giptist aptur Sigríði Pálsdóttur, ekkju síra Þorsteins Helgasonar í Reykholti.

a. Friðrik[1].
b. Hólmfríður[2].
c. Jórunn[3].
d. Jón[4].
Svo Helgu Arnbjarnardóttur.
2. Jón stúdent í Víðidalstungu átti Kristínu, dóttur síra Jóns á Gilsbakka Jónssonar; börn:
a. Ragnheiður[5].
b. Páll Vídalín[6].
3. Elín.
4. Þorbjörg.
5. Sigríður.
6. Ragnheiður.

E. Magnús, skírður 21. febrúar 1767, var við lærdóm utan- og innanlands, gáfulítill; hann átti 1792 Ingibjörgu, dóttur Magisters Hálfdáns skólameistara Einarssonar, varð umsjónarmaður brennisteinsverksins á Húsavík, svo klausturhaldari á Munkaþverá eptir Erlend Hjálmarsson, hann dó 1804, en Ingibjörg, er var fædd 1768, dó 1820; þeirra börn:
1. Þórarinn Öfjörð sýslumaður, átti Rannveigu, dóttur kansellíráðs Vigfúsar Þórarinssonar, sjá Skaptárþing.
2. síra Páll á Sandfelli átti Önnu Benidiktsdóttur. Þeirra dóttir Oddný.

F. Ragnheiður, laundóttir Þórarins sýslumanns, giptist

1) dó í skóla.
2) hún átti Jón Eiríksson; þeirra börn:
Síra Stefán á Bergstöðum, og fleiri.
3) hennar maður Þorsteinn á Upsum.
4) síra Jón á Tjörn í Svarfaðardal, átti Hólmfríði Sigurðardóttur, sjá Húnaþing.
5) Ragnheiður átti síra Jón Sigurðsson á Breiðabólstað í Vesturhópi; þeirra dóttir
Kristín kona síra Þorvaldar Stefánssonar á Hvammi í Norðurárdal.
6) Páll Vídalín átti Elínborgu dóttur síra Friðriks í Akureyjum.

landfógeta Jóni Skúlasyni, er dó 1789, þeirra son Jón Vidöe drukknaði sama ár; bezta mannsefni. Móðir Ragnheiðar var Guðný Gunnlaugsdóttir Þorvaldssonar, af allgóðu bændafólki; Guðný átti svo annað launbarn með Tómasi Tómassyni, er hèt Jón; síðan giptist hún Jóni Jónssyni.

Þórarinn Jónsson var borinn í Grenivík í Þingeyjarsýslu 23. desember 1719, uppólst hann hjá föður sínum, sem að mestu kenndi honum venjulegan skólalærdóm; útskrifaður fór hann utan 1737 til Kaupmannahafnar háskóla, og lagði sig eptir lögvísi undir prófessors Höyers tilsögn, en 1739 kom hann inn aptur, kallaður af föður sínum sèr til aðstoðar. Það ár og þar eptir, svo lengi sem hann lifði, gjörði hann flest sýslumanns verk í Vaðlasýslu, og fórust þau honum vel. Þórarinn hafði komið snemma inn um vorið 1739, því 24. júlí fèkk hann skipun amtmanns Lafrens að dæma í Víðivallna brigðamáli, dæmdi hann þó eigi í því fyrri, en næsta ár eptir. 1740 dæmdi hann ónýtt gjafabrèf húsfrú Þrúðar á Víðivöllum til dætra Benidikts og Þorláks, þar hvorki voru vottar undir brèfinu, sem dagsett var 1728, eða nokkurn tíma þinglýst. 1747, þá er Jón sýslumaður sagði lausri Vaðlasýslu, sókti Þórarinn um hana og fèkk sèr hana veitta af konungi 20. febrúar 1748. 1751 var Þórarinn skikkaður af lögmanni Magnúsi Gíslasyni, amtmanns fullmektugum, að yfirlíta og úttaka Hólastól, hvaðan sýslumaður Skúli átti, eptir skýrslu Halldórs biskups, að hafa tekið við, svo hús hefðu hrörnað, meðan Skúli var umboðsmaður frá 1741 til 1746. Mætti Skúli eigi og eigi þeir sýslumenn, er fyr voru úttektarmenn. Þetta ár 1751 var Þórarinn ásamt Bjarna sýslumanni settur til að gjöra í Sunnefumáli Víums. Það ár bar og það stórmæli til í Eyjafirði, að þrír menn veittust að einum og drápu hann; dæmdi Þórarinn þeim öllum líflát með exi. Sýslumaður Þórarinn bjó ógiptur á Grund í Eyjafirði, var uppgangsmaður og auðigur, búsýslumaður mikill og hafði gnægt í búi; vildu þá margar stúlkur að sögn eiga hann, er mælt að hann hafi notað sèr sumra velvild að öðru en ektaskaparmálum. Þá var á Eyrarlandi Helga Magnúsdóttir Björnssonar sýslumanns Pálssonar, hafði hún tekið systurdóttur sína, Sigríði yngri Stefánsdóttur

í frændsemisskyni; þá er Þórarinn sýslumaður ferðaðist um sýsluna eða í kaupstað, gisti hann opt á Eyrarlandi. Helga hafði aðgætt, að Þórarinn og Sigríður litu hýrlega hvort til annars, og kannske um of. Helga var stórlynd og talaði djarflega þar um við Þórarinn, og að hann skyldi ekta Sigríði; ekki var Þórarinn fljótur til að játa því. Helga fèkk þá bróður sinn, síra Björn á Grenjaðarstað Magnússon, að túlka það mál og lèt Sigríði fara að Grenjaðarstað; gat hann því til leiðar komið, að Þórarinn sýslumaður giptist Sigríði 13. nóvember 1753, og farnaðist þeim vel, þó mátti hún láta allt liggja í því skauti sem hann vildi, meðan þau lifðu saman; hún var þá snauð að fè, en hann orðinn auðigur mjög. (Þetta um giptingu Þórarins er eptir sögn áreiðanlegra manna). Fyrir utan Vaðlaþing hafði Þórarinn ásamt Sveini lögmanni Sölfasyni Hólastóls fjárumboð 1761 og til þess Vigfús Scheving við tók 1762. Þórarinn sýslumaður fèkk og Norðursýslu jarða, Eyjafjarðar jarða og Eyjafjarðarsýslu jarða umboð, og Hólabiskupsstól tilheyrandi Hörgárdals og Svarfaðardals umboð; hann var sjálfur mesti útsjónar- og aflamaður, hafði og mikil víxli bæði á útlendum og innlendum vörum, og kunni vel með að fara; aflaðist honum því stórfè, og keypti töluvert jarðagóz. Eptirskrifaðar jarðir í Vaðlasýslu niður setti Þórarinn sýslumaður að tíund í sinni valdstjórnar tíð, sumar eptir amtmanna, sumar eptir eiganda og sumar eptir umboðsmanna beiðni.

| | Ár. | Dagar. | Jarðadýrleiki. fyr | nú |
|---|---|---|---|---|
| 1. Auðbrekka með hjáleigum | 1750 | 28. maí | 80 | 50 |
| 2. Áslákksstaðir með kotinu | 1751 | 28. oktbr. | 40 | 24 |
| 3. Arnarstaðir . . . . | 1743 | 29. apríl | 50 | 25 |
| 4. Æsustaðir . . . . | 1747 | 12. maí | 80 | 50 |
| 5. Bægisá syðri . . . | 1750 | 9. maí | 50 | 15 |
| 6. Stóra- og Litla- Brekka með hjáleigum . . . | 1752 | 10. maí | 68 | 60 |
| 7. Brekka í Svarfaðardal með Brekkulæk . . | 1760 | 30. maí | 40 | 24 |
| 8. Digurtunga . . . . | 1750 | 28. maí | 30 | 20 |
| 9. Dunhagi . . . . | 1750 | 28. maí | 40 | 25 |
| 10. Espihóll með Víðirgerði | 1752 | 13. marz | 100 | 50 |
| 11. Stóra Eyrarland með hjáleigunni Barði og Miðhúsum . . . . | 1749 | 5. oktbr. | 90 | 40 |

| | | Ár. | Dagar. | Jarðadýrleiki. fyr | nú |
|---|---|---|---|---|---|
| 12. | Fagriskógur . . . | 1752 | 10. maí | 30 | 22 |
| 13. | Fornhagi . . . . | 1750 | 28. maí | 30 | 20 |
| 14. | Stóragrundar hjáleigur Hólshús, Holt, Holtsel, Miðhús . . . . . | | | 60 | 30 |
| 15. | Grýtubakki . . . . | 1752 | 2. oktbr. | 40 | 20 |
| 16. | Gullbrekka . . . . | 1747 | 30. septbr. | 40 | 20 |
| 17. | Holt í Svarfaðardal . | 1754 | 12. júní | 60 | 35 |
| 18. | Hleinargarður . . . | 1745 | 23. oktbr. | 30 | 20 |
| 19. | Hagi . . . . . . | 1751 | 8. oktbr. | 30 | 16 |
| 20. | Hólar í Eyjafirði með hjáleigu . . . . | 1755 | 12. nóvbr. | 100 | 60 |
| 21. | Hof . . . . . . | 1751 | 27. oktbr. | 30 | 22 |
| 22. | Hlaðir, klausturjörð | 1762 | 17. maí | 30 | 20 |
| 23. | Hvammur . . . | 1756 | 3. oktbr. | 40 | 26 |
| 24. | Hjaltastaðir . . . . | 1753 | 6. apríl | 20 | 10 |
| 25. | Hvarf ytra . . . | 1752 | 10. júní | 30 | 15 |
| 26. | Holt með hjáleigum | 1751 | 4. júní | 40 | 24 |
| 27. | Hreiðarstaðir og Hreiðarstaðakot . . . . | 1751 | 4. júní | 60 | 25 |
| 28. | Jórunnarstaðir . . | 1751 | 21. oktbr. | 40 | 20 |
| 29. | Yxnafell . . . . | 1753 | 8. oktbr. | 40 | 24 |
| 30. | Kristnes . . . | 1746 | 23. júlí | 80 | 50 |
| 31. | Kotá . . . . | 1756 | 27. oktbr. | 20 | 10 |
| 32. | Langahlíð . . . . | 1752 | 9. maí | 30 | 25 |
| 33. | Leyningur . . . | 1742 | 24. júní | 60 | 30 |
| 34. | Möðruvellir . . . | 1755 | 9. oktbr. | 80 | 35 |
| 35. | Márstaðir syðri . . | 1760 | 30. maí | 30 | 15 |
| 36. | Márstaðir ytri . . | 1761 | 5. júní | 30 | 20 |
| 37. | Naust . . . . . | 1752 | 17. oktbr. | 40 | 20 |
| 38. | Neðstaland . . . | 1753 | 16. janúar | 24 | 12 |
| 39. | Ós . . . . . . . | 1747 | 27. maí | 40 | 20 |
| 40. | Rúgstaðir með Sámstöðum . . . . | 1750 | 30. oktbr. | 40 | 20 |
| 41. | Sakka með Ölduhrygg | 1751 | 12. oktbr. | 60 | 30 |
| 42. | Stóridalur, fyrir utan Ytri og Syðri Gerðar | 1744 | 20. oktbr. | 40 | 25 |
| 43. | Skáldstaðir . . | 1749 | 10. nóvbr. | 30 | 18 |
| 44. | Stokkahlaðir . . | 1752 | 17. oktbr. | 40 | 16 |
| 45. | Stórihamar með Háhamri . . . . | 1752 | 20. oktbr. | 60 | 22 |
| 46. | Svertingsstaðir . | 1732 | 4. oktbr. | 30 | 20 |
| 47. | Samtyni . . . . | 1761 | 5. maí | 40 | 20 |
| 48. | Torfufell og Hólsgerði | 1739 | 27. oktbr. | 50 | 24 |
| 49. | Tjarnir . . . . | 1753 | 18. oktbr. | 40 | 20 |

| | | Ár. | Dagar. | Jarðadýrleiki. fyr | nú |
|---|---|---|---|---|---|
| 50. | Urðir með Þorleifstöðum . . . . . | 1751 | 4. júní | 80 | 40 |
| 51. | Vindheimar . . | 1746 | 29. oktbr. | 45 | 24 |
| 52. | Þóroddstaðir . . . | 1752 | 9. oktbr. | 40 | 20 |
| 52. | Þverbrekka . . . | 1753 | 15. janúar | 30 | 20 |

Af þessum voru 25 jarðir eptir amtmanns skipun niðursettar á 20 ára tíma. Þá var hálf öld liðin frá því Árni Magnússon gjörði jarðabók sína, en skriður, vatnaágangur og ýms landbrot með mörgu fleiru ganga svo víða á jarðir, einkum við fjalllendi, að nú eru eigi líkar því sem fyr að högum og graslendi. Þegjandi geng eg fram hjá hinum mörgu dómum Þórarins sýslumanns, get heldur þess, að Þórarinn bjó allan sinn búskap, frá því hann kom inn og tók sýsluvöld, á Grund í Eyjafirði í 27 ár og dó þar 22. maí 1767 á 48. aldursári, en hjónabands 14., þá er hann hafði haldið Vaðlasýslu að konungsveitingu 19 ár, en í umboði föður síns 8 ár þar að auki; hann var jarðaður að Grund í Eyjafirði sunnan fram við kirkjudyr og yfir leiði hans lagður legsteinn af marmara 3¼ álnir á lengd, en 2¹/₁₀ á breidd, með þessu áristu grafletri:

hier hvílest
Í sællre von gleðelegrar upprisu
til síns hlutskeptes á himnum
Fyrrum Syslumaður yfer Vaðlasyslu
Sr. THORARIN JÓNSSON.

Sýslumaður Þórarinn var með hærri meðalmönnum að vexti, en umfram það þrekinn og gildur maður, kringluleitur í andliti og nokkuð samrjóður, skipti þó vel litum, skarpeygður og fríður sýnum, nefsljettur og að öllu velfarinn í andliti, reistur vel og höfðinglegur í framgöngu, skrautmenni í klæðaburði. Hann var maður flugskarpur, skynsamur og vel talandi; bráðlyndur en þó gætinn, trúfastur og góðhjartaður við auma og volaða. Sumir hèldu hann kvennhollan. Harður þótti Þórarinn sýslumaður í dómum sínum, en flestir stóðu þeir fyrir æðri rèttum, var þá og sú öld, að lögum var framfylgt vægðarlaust, stundum ef til vill um of. Í lögvísi og öðrum lærdómsgreinum, er hann þurfti, var hann eptir sögn þeirra, er til þekktu, í betra lagi, þar hann hafði skarpleik og góðan greindarkrapt þegið af náttúrunni, er hann æfði og

ræktaði með því að lesa góðar bækur, og þótt hann eigi væri utan 1 eða 2 vetur utanlands við lögfræðis iðkun, þótti hann, eptir nokkra ára tíma hèr í landi, maður vel að sèr í lögum. Sýslumönnum hèr var á þeim tímum eigi heldur boðið að taka reynslupróf í lögfræði; hafa og seinni tíma dæmi sýnt, að öllum hefur eigi orðið drjúgara í dómum, þótt reynslupróf tekið hafi, en hinum gömlu, er ekki tóku það, og má færa mörg dæmi uppá það. Í stuttu máli, Þórarinn var haldinn með hinum helztu sýslumönnum á sínum dögum, og þótti mikilmenni í flestu, en um hann má segja sem flesta, að enginn lifir, svo öllum líki.

### Vigfús Hansson Scheving.

Sjá um hann Hegraness þing. Þá er Þórarinn sýslumaður dó 1767, var Vigfús hèr í landi og hafði embætti á hendi; hann var þá settur sýslumaður í Vaðlaþingi, til þess er Jón sýslumaður Jakobsson við tók 1768; er eigi neitt markvert um hans lögsögn hèr að segja.

### Jón Jakobsson.

*Faðir:* Jakob, fæddur 1708, dó 1767, merkisbóndi við Búðir í Snæfellsnessýslu; hann var lögrèttumaður og góður læknir; vel að sèr í flestu af bændum að vera, auðigur, framkvæmdarsamur og fyrirsjónarmaður mikill. Faðir Jakobs var Eiríkur, lögrèttumaður frá 1714 til 1733; hann bjó og við Búðir, og átti Sophíu dóttur Jakobs sýslumanns í Þórnessþingi, og Marínar Eiríksdóttur frá Jótlandi. Faðir Eiríks bónda var Steindór, bóndi á Selhóli, sonur Jóns, er bjó á Borg og Nesi, og var Snæfellsnessýslumaður frá 1635 til 1640 (sjá Snæfellsnessýslu). Faðir Jóns sýslumanns var Ólafur bóndi í Nesi, son Þórðar frá Kirkjufelli Þórðarsonar prests Ásmundssonar[1] betra.

*Móðir:* Guðrún, dó 1784, dóttir síra Jóns á Staðastað, er dó 1735, Jónssonar prests, Loptsonar, Árnasonar, Loptsonar, Pèturssonar, Loptsonar; móðir Guðrúnar og kona síra Jóns á Staðastað var Kristín, er dó 1733,

---

1) Ásmundur prestur var bróðir Stefáns biskups.

71 árs, dóttir Ólafs bónda Vigfússonar, Eiríkssonar, Steindórssonar.

*Kona:* Sigríður yngri, þá ekkja eptir Þórarinn sýslumann Jónsson.

*Börn:* A. Jón Espólín, fæddur 22. október 1769, sjá Hegranessþing.

B. Margrèt, fyrri kona Björns sekrítera Ólafssonar stiptamtmanns Stefánssonar, hún var fædd 13. janúar 1773, þeirra börn:

1. Ólafur átti Önnu, dóttur Stefáns Schevings Arnarstapaumboðshaldara; börn:
   a. Helga.
   b. Stefán.
   c. Sigurður og
   d. Margrèt dóu.
   e. Hannes.
   f. Björn.
   g. Margrèt.
   h. Oddgeir.
2. Jón bóndi átti Guðrúnu; þeirra börn:
   a. Björn.
   b. Þorgrímur.
   c. Margrèt.
   d. Ragnheiður.
   e. Sigríður.
3. Jakob átti Steinunni Tómasdóttur söðlasmiðs; börn:
   a. Tómas.
   b. Guðrún.

C. Bent, fæddur 10. septbr. 1771, dó á 1. ári.

D. Jakob, fæddur 19. ágúst 1774, yfirmáta frábær unglingur að gáfum og allri atgjörfi, dó við Kaupmannahafnar háskóla 1794.

Launsonur Jóns sýslumanns með Rósu[1]:

---

1) Rósa var dóttir síra Halldórs Sigurðssonar á Staðarhrauni, hún átti seinna Jón Ólafsson, verzlunarþjón á Grundarfirði. Rósa dó 1805.

E. Síra Gísli, merkilegur maður, kom faðir hans honum til menningar, varð hann prestur í Noregi, og giptist sórenskrifara dóttur, áttu þau 3 börn.

Jón sýslumaður Jakobsson er borinn við Búðir 11. febr. 1738; 11 vetra fór hann að Staðastað í kennslu hjá síra Gísla Magnússyni, er síðar varð biskup á Hólum; 16 vetra fór hann í Skálholtsskóla, og útskrifaðist þaðan tvítugur 1758; síðan var hann heima hjá foreldrum sínum hálft annað ár. Síra Halldór Sigurðsson á Staðarhrauni átti þá dóttur, er Rósa hèt; hún var fríð sýnum og tilhaldsstúlka mikil, varð vel millum þeirra Jóns Jakobssonar og hennar, og átti Jón son með henni, er Gísli nefndist; var hann fæddur 1759, og varð seinna prestur í Noregi og átti þar dóttur sórenskrifara nokkurs, og með henni 3 börn eða fleiri. Nú var útsèð um prestskap Jóns, fór hann því utan til frekari lærdómsframa, og skyldi Rósa bíða hans, en nokkru seinna átti hún barn með Halldóri, föðurbróður Jóns, fór hún þá að mestu sem fangi að Ingjaldshóli, því of nákomnir þóttu barnsfeður hennar, þó fèkkst uppgjöf á broti hennar, og giptist hún þar eptir Jóni Ólafssyni, er lengi var við verzlun sem undirþjónn, og átti hún eina dóttur með honum, er Valgerður hèt; hún átti fyrst launbarn með Hannesi Daðasyni, en giptist síðan Sigurði Einarssyni og átti börn með honum. Rósa dó 1803, en Jón Ólafsson, bóndi hennar, varð blindur og dó 1810. Jón Jakobsson fór utan 1760, og tók þá 1. lærdómspróf, en um haustið árinu seinna tók hann með bezta vitnisburði próf í heimspeki. Hann dispúteraði á audítorío 1763, varð bachalaureus og lagði sig eptir lögvísi. Kofoð Ancher var hans prívat præceptor. Þrem missirum þar eptir sýktist hann þunglega og lá allan veturinn; fór inn hingað um vorið 1765 til föður síns, er gat læknað hann að heilu, var það mest gulusótt. Sumarið eptir reið hann til alþingis og vildi fá brauð nokkurt, en ekkert var laust; fór hann því utan með Stykkishólms skipi, og gekk í Rentukammerið sem volunteur þann vetur, fyrstur íslenzkra manna, stundaði þó jafnframt lögfræði; stóð svo, án þess hann tæki embættispróf, til þess er konungur veitti honum Vaðlasýslu 12. janúar 1768, kom hann inn um vorið með Búða skipi, var þá faðir hans andaður fyrir einum vetri; hann reið þá til alþing-

is og birti brèf sitt; þaðan ferðaðist hann norður til Eyjafjarðar, og birti það aptur á þriggja hreppa þingi. Sat hann um veturinn á Möðruvöllum í Hörgárdal samtíðis Sigríði Stefánsdóttur, ekkju Þórarins sýslumanns, fèll vel á með þeim og giptist hann henni 6. dag maí árið eptir; vígði Þorlákur prestur Þórarinsson þau saman. Í fardögum um vorið fóru þau að búa á Espihóli hinum nyrðra. Tók hann þar við örbæli, en keypti jörðina síðan af þeim er átti, hýsti þar svo sterklega og prýðilega, að enginn slíkur bær var þá í Norðurlandi, fyrir utan Hólastól; lèt hann setja túngarð um tún sitt, slètta það víða, og varði miklu til, hafði þó jafnan gnótt í búi, og græddi fè án allrar ásælni við aðra, sem honum var fjárstæð, og án alls ofsparnaðar; kál- og jarðeplagarða ræktaði hann, og vart mátti betur verja fè sínu, en hann gjörði. Hann gjörðist strax vandlátur og reglufastur embættismaður, alvarlegur á þingum og í öllum konungserindum, miskunsamur við nauðstadda, hjáhliðrunarlaus við hrekkvísa, framkvæmdarmaður mikill, svo honum var það að þakka, að fjársykinni varð útrýmt í Norðurlandi. Yfir höfuð var hann ágætismaður, sem yfirvald, húsfaðir og búmaður. Eptir 1783, þegar stjúpsonur hans Stefán Þórarinsson gjörðist amtmaður nyrðra, komu ýmsar greinir til sundurþykkis millum hans og Jóns sýslumanns, einkum smávandfýsni amtmanns, er sýslumaður Jón áleit óþarfa; báðir voru bráðlyndir og of nálægir hvor öðrum, var því eigi svo gott samlyndi þeirra, sem tengdum hæfði. Þá er Jón sýslumaður tók að gjörast aldraður og þungfær, tók hann 1799 Gunnlaug Briem fyrir lögsagnara, en hann varð 1800 matricúlcommissaríus, sjá um hann hèr á eptir; þá tók hann Ebeneser Þorsteinsson, sem þar eptir veik í þjónustu amtmanns Eiríksens og síðar var settur sýslumaður í Snæfellsnessýslu, og þar eptir í Ísafjarðarsýslu (sjá Ísafjarðarsýslu). Jóns sýslumanns þriðji lögsagnari var Sigurður Snorrason, er 1805 fèkk Húnavatnssýslu, sjá þar um hann. Umbeðna lausn frá embætti fèkk Jón sýslumaður árið 1805 17. apríl, hafði hann þá haldið sýsluna í 7 ár hins fjórða tugar; hann bjó þar eptir á Espihóli embættislaus, en öndverðan vetur 1807 sýktist hann af verkjum innvortis, lá hann næringarlítill allan veturinn, og andaðist að kvöldi hins 22. maímánað-

ar 1808, sjötíu ára gamall og rúmra þriggja mánaða, en hafði lifað í hjónabandi 9 vetur hins fjórða tugar: hann var jarðaður fyrir kirkjudyrum á Grund, móts við Þórarinn sýslumann, en Sigríður ekkja þeirra var seinna jörðuð millum þeirra. Jón sýslumaður Jakobsson var mikill vexti og mjög höfðinglegur, hèr um bil 69 þumlungar á hæð, breiðvaxinn og limagildur, nokkuð hár í sessi, en skammt lærið; kálfar og vöðvar miklir, rètt vaxinn, ekki fyrirtaks fríður, en sómdi sèr vel, glaðsvipa og þó svipmikill, skarpt augnabragð, ef honum mislíkaði, annars tillitið mjög hýrlegt, nefið nokkuð hátt, dökkt hárið, sjón skörp til elli, enginn var hann raddmaður, en í tali og lestri var rómurinn mikill og þó liðugur og málið skýrt. Hann var með gildustu mönnum að afli, en þó eigi á þann hátt sem faðir hans, var og ætíð veikur af giktsýki í öxlum og mjöðmum; hófsmaður var hann mikill í mataræði og settur í öllu látbragði, mataðist aldrei optar en tvímælt, mest við alþýðlegan kost; drakk opt thevatn, en stundum kaffi einusinni á dag, aldrei optar, nema gestir væru; hann var gefinn fyrir skraut á húsbúnaði og í viðtekt vina sinna. Hann var hreinlyndur, en nokkuð bráðlyndur, sem fyr sagt, þoldi og lítt ójöfnuð af yfirmönnum sínum, reyndi hann og einna fyrstur af sýslumönnum norðanlands óþarfa vandfýsni þeirra; hann var grandvarlega lastvar um alla menn og hinn tryggvasti vinur. Viðkvæmur var hann mjög í sinni, hneigðist til ölfanga af langvaranlegum sjúkdómi konu sinnar eitt ár, og fleiru öðru, sem honum þótti móti skapi sínu, þó drakk hann aldrei nema heima, var jafnan spakur og siðsamur, en þó nokkuð undarlegur; hann var góðhjartaður og vildi öllum gott (α). Hann setti á stofn í Eyjafirði föðurlausra barna og fátækra ekkna fjársjóðinn og gaf þar til sjálfur 30 rd. Hann uppól vel og siðsamlega marga unglinga, á yngri árum og mestalla sína æfi

(α) Eitt sinn, er hann kom til Magnúsar læknis, er þá var kominn í kör, lèt hann 10 spesíur undir kodda hans og hafði eigi orð um. Það hefur Ebeneser sýslumaður sagt mèr, að þá er Jón sýslumaður varð var við bágborin kjör einhvers, er hann gat eigi ráðið við, grúfði hann sig niður, andvarpaði og grèt. — B. B.

var hann hvers manns hugljúfi, og svo vinsæll af alþýðu, að margir mæltu, að eigi mundi koma jafngóður höfðingi í Eyjafjörð. Hann var lærdómselskari mikill og vel heima í mörgu, einkum búnaðarfræði, efnafræði, læknisfræði og fornfræðum. Gat nokkurnveginn skrifað frönsku og þýzku. Hinn lærði sýslumaður Magnús Ketilsson kallar Jón sýslumann Jakobsson mjög vel lærðan í mörgu. Jón sýslumaður var ritari góður, en nokkuð brotin höndin. Rit hans, er eg hefi sèð, eru einkum:

1. Um mjólkurmat, prentað í 11. bindi lærdómslista fèlagsins, 1791, í Kaupmannahöfn.
2. Æruminning Sveins lögmanns Sölfasonar, prentuð í Kaupmannahöfn 1791.
3. Toparchologia í Norðlendingafjórðungi, er góður leiðarvísir, sem sem hún nær, og víðast áreiðanleg (handrit), þar af hefi eg notað mikið til þessa uppkasts.
4. Annáll yfir tilburði og árfar, einkum norðanlands, frá því Sveinn lögmaður hætti, 1768 til 1794; margt í honum gott.
5. Disputatía hans í Kaupmannahöfn.
6. Æruminning Skúla fógeta Magnússonar; hana hefi eg ekki sèð, nè önnur rit hans, er vel geta verið fleiri, en eg hefi sèð eða heyrt getið.

Jón prestur Jónsson á Möðrufelli, skrumlaus maður og sem enginn vinur var Jóns sýslumanns, hefir sett honum þessa grafskript:

Hèr hvílir
JÓN JÓNSSON fyrrum
valdsmaður konungs í Vaðlaþingi,
borinn dag 11. febrúar anno 1738,
látinn dag 22. maí, anno 1808.
Hann var þjóðræmdur vísindavinur,
unni fósturjörð sinni og fólksheillum.
Norður-Ísland!
Reis minnisvarða, þeims rak á flótta
sauðhjarða sýki frá sveitum þínum.
Eyjafjörður!
Víst munu þínir vegfarendur lengi líta spor

embættis driftar hans og dugnaðar,
en fátækar ekkjur og föðurlaus börn
gráti þakklætis tárum yfir hans grafar beð,
er stofnaði sjóð til styrktar þörf þeirra.
Espihóll!
Súlur þínar og salakinni,
Umgerði túns og aldinreitar
munu risnu hans og ríkmennsku
lengi bera ljósust merki.
Deyr fè; deyja frændur; deyr sjálfur hið sama,
en orðstýr deyr aldrei, hveim er sèr góðan getur.
Setti J. J.

Þjóðskáldið Jón prestur Þorláksson orkti og sálm eptir Jón sýslumann, voru þeir þó eigi utan lítið eitt málkunnigir[1].

Þess skal loks getið, að Jón sýslumaður Jakobsson tók Munkaþverárklaustur 1775 eptir Svein lögmann með 15 rd. festu. 1780 var Jóni sýslumanni Jakobssyni veittur hinn minni silfur-heiðurspeningur Landhusholdnings-fèlagsins í Danmörku. 1783 sleppti hann Munkaþverárklaustri við Erlend stúdent Hjálmarsson. Jón sýslumaður hèlt aðra eins hreinskilna og góða sem sig, og varð því stundum svikinn.

## Sigurður Snorrason.

Sjá um hann við Húnavatnssýslu. Þá er Sigurður kom utanlands frá og var á Möðruvöllum, og Ebeneser Þorsteinsson lögsagnari Jóns sýslumanns Jakobssonar gekk í þjónustu amtmanns Eiríksens, mun Sigurður hafa orðið lögsagnari Jóns sýslumanns eða verið settur yfir sýsluna af amtmanni Stefáni Þórarinssyni og þjónað henni þangað til Gunnlaugur Briem tók við henni 1805; var Sigurður þá aptur settur yfir Húnavatnsþing, er hann árið 1805 fèkk konungsveitingu fyrir.

## Gunnlaugur Briem Guðbrandsson.

***Faðir***: síra Guðbrandur á Brjámslæk, dó 1779, son síra Sigurðar, er þar og var prestur og dó 1767, Þórðarsonar

1) Sálmur þessi er nú prentaður í Ljóðabók síra Jóns Þorlákssonar, síðari deild bls. 202—205.

á Laxamýri, Jónssonar bónda þar, Guðmundsonar[1] Nikulássonar.

***Móðir:*** Sigríður dóttir síra Jóns yngra á Gilsbakka Jónssonar, þar og prests, Eyjólfssonar prests á Lundi Jónssonar Hallssonar Jónssonar.

***Kona:*** Valgerður, dóttir Árna prófasts í Holti undir Eyjafjöllum Sigurðssonar prófasts samastaðar Jónssonar bónda Steingrímssonar bónda. Briem og Valgerður giptust 1800.

***Börn:*** A. Jóhann Gunnlaugur[2], fæddur 1801, prestur í Kústað á Jótlandi.
B. Kristján Jóhann var snikkari, fór til Parísar.
C. Kristjana Jóhanna[3] giptist skólakennara í Saxlandi.
D. Ólafur Eggert, timburmeistari[4].
E. Eggert Ólafur, lærði og sigldi[5].

---

1) Guðmundur bjó á Laugum og var Jónsson, sjá Tímarit mitt 4. B. bls. 2—4.

2) hann var seinast prestur í Gunslev á Falstri, dóttir hans átti prestinn Hans Ebbesen í Slangerup á Sjálandi.

3) maður Kristjönu var skólakennari Dr. Schytz í Bielefeldt í Westphalen.

4) bjó á Grund í Eyjafirði, átti Dómhildi Þorsteinsdóttur frá Stokkahlöðum; þeirra börn:

α. Valdimar, prestur í Hreppbólum, á Ólöfu, dóttur síra Jóhans föðurbróður síns.
β. Eggert, prestur á Höskuldstöðum, á Ragnhildi dóttur síra Þorsteins Einarssonar á Kálfafellsstað.
γ. Haraldur átti dóttur síra Þórarins á Hofi í Álptafirði Erlendssonar.
δ. Jóhann fór til Nýja-Íslands.
ε. Sigríður, kona síra Davíðs á Reistará Guðmundssonar.
ζ. Rannveig, kona Sigtryggs Jónassonar, nýlendustjóra í Nýja-Íslandi.
η. Ólafur trèsmiður.
ϑ. Jakob.

5) sjá um hann Ísafjarðarsýslu; kona hans Ingibjörg, dóttir Eiríks sýslumanns Sverrissonar; þeirra börn:

F. Jóhann Kristján[1] lærði.

G. Jóhanna Kristjana[2] giptist síra Gunnari í Laufási Gunnarssyni.

---

α. síra Eiríkur, kennari við prestaskólann, á Guðrúnu, dóttur Gísla læknis Hjálmarssonar.

β. Gunnlaugur á Friðriku dóttur Jóns Jakobs Claesens, ritara við sjóliðsins skipasmíðanefnd í Kaupmannahöfn.

γ. Valgerður.

δ. Kristín, kona Valgarðs Claesens, verzlunarstjóra á Sauðárkróki, bróður Friðriku.

ε. Ólafur, skólagenginn.

ζ. Halldór, giptur í Nýja-Íslandi.

η. Páll, við háskólann í Kaupmannahöfn.

ϑ. Elín.

ι. Sigurður.

ϰ. Sigríður.

λ. Eggert.

μ. Valdimar.

ν. Jóhann.

1) síra Jóhann, prófastur í Runa, á Sigríði dóttur Stefáns í Oddgeirshólum Steindórssonar; þeirra börn:

α. síra Steindór, kapellán hjá föður sínum, á Kamillu dóttur Halls, er var verzlunarmaður í Reykjavík.

β. Ólöf kona síra Valdimars í Hrepphólum.
Laundóttir síra Jóhans með Sigríði dóttur Eiríks sýslumanns Sverissonar, er síðar átti síra Pál Ingimundarson:

γ. Kristín kona Pèturs Bjarnasonar í Hákoti í Njarðvík.

2) síra Gunnar í Laufási var fyrri maður Jóhönnu, hann var son síra Gunnars Hallgrímssonar, er fyr hefir verið nefndur; þeirra börn.

α) Tryggvi, verzlunarstjóri Gránufèlagsins og alþingismaður, átti Halldóru, dóttur stjúpa síns, síra Þorsteins á Hálsi Pálssonar, og fyrri konu hans Valgerðar, dóttur síra Jóns í Reykjahlíð Þorsteinssonar.

β. Eggert, umboðsmaður, kaupmaður á Akureyri og alþingismaður, átti Elínu, dóttur Magnúsar Bjarnarsonar

Gunnlaugur sýslumaður Briem var fæddur á Brjámslæk 31. janúar 1773, og þar af tók hann viðurnefni sitt Briem. 7 vetra var hann tekinn til fósturs af síra Birni Halldórssyni, er lèt hann sigla á unga aldri 1788 til Kaupmannahafnar með Sigurði biskupi, til að læra þar handverk; þar lagði hann sig í 7 ár eptir bíldhöggvarasmíði á íþróttaskólanum, varð útskrifaður þaðan og fèkk skólans silfur-heiðurspening. Hjá frænda sínum, Jóni lærða Ólafssyni, nam hann nokkuð í latínu, en vel þýzku; 1797 tók hann danskt júridiskt examen í lögum, með vitnisburðinum «bekvem». 1799 kom hann inn eptir 11 ára utanveru. 1799—1800 var hann lögsagnari Jóns sýslumanns Jakobssonar, er fèll vel við hreinlyndi Briems, og hèlt honum fram eptir mætti, eignaðist Gunnlaugur þá og Valgerði, fósturdóttur og systurdóttur Jóns; 1800 varð hann með fleirum landcommissarius, og ferðaðist hann þar eptir um landið í 4 ár til að skrifa upp og virða jarðir. 1804 varð hann kammersekreteri og fèkk Vaðlasýslu 1805, fór hann þá utan, og aptur 1815, og varð kammerráð 1816. 1810 gegndi hann um stund amtmannsembætti nyrðra, og aptur 1833, þegar amtmaður Grímur sigldi. 1834, 17. febrúar, andaðist hann á 62. aldursári á heimili sínu Grund í Eyjafirði; hafði hann legið sjúkur á Möðruvöllum frá vetrarkomu til þess seint í janúar af tærandi sjúkdómi, þá brá lítið af honum, svo hann komst heim, en þar sló honum aptur niður og dó 11 dögum eptir heimkomu sína úr apoplexi. Gunnlaugur sýslumaður Briem bjó fyrst á Kjarna (1807) og síðan (1815) á Grund, en meðan hann var á embættisferðum sínum um Vestfjörðu, hèlt hann til með konu sinni á Arnarbæli á Fellsströnd að vísu í tvö ár. Gunnlaugur Briem var mjög ráðvandur, nokkuð stirðgáfaður og óviðfelldinn og eigi laus við að vera nokkuð tilgjörðarsamur;

---

Ólsens á Þingeyrum og Ingunar, dóttur Jóns kammerráðs á Melum við Hrútafjörð.

γ. Geirfinnur á Valgerði, dóttur síra Jóns Kristjánssonar á Breiðabólstað í Vesturhópi.

δ. Kristjana, seinasta kona Pèturs amtmanns Havsteins.

Seinni maður Jóhönnu var síra Þorsteinn Pálsson á Hálsi í Fnjóskadal.

náttúruvit hafði hann í betra lagi og stundaði að vanda embættisverk sín, sem bezt hann mátti. Sýslubúar hans kölluðu hann stoltan, en siðsaman og siðavandan; eigi var hann ríkur; hann var mesti snildarmaður í handverki sínu, bíldhöggvara íþróttinni. Amtmaður Bjarni Thorarensen setti stúdent Eggert Briem um tíma fyrir Eyjafjarðarsýslu frá dauða kammerráðs Briems föður hans, og til þess tèður stúdent sama haust fór utan til meiri lærdóms frama. Þá setti tèður amtmaður fyrir sýsluna candidatum juris Sigfús Skúlason, þar til konungur gjörði þar á aðra skipun.

## Þórður Jónasson[1].

*Faðir:* síra Jónas að Nesi í Aðalreykjadal 1797, svo til Höfða og Grýtubakka 1803[2]. Hans faðir var Jón Jónsson bóndi á Skúfstöðum og seinna á Höfða á Höfðaströnd, af bóndafólki. Móðir síra Jónasar var Margrèt, sem átti launbarn með Hallgrími Bakkmann, þá er hann var í skóla á Hólum (það barn dó), en Margrèt giptist þar eptir nefndum Jóni: hennar faðir var Ólafur briti á Hólum, sem átti fyr Oddnýju Gísladóttur og með henni 17 börn, hvar af tèð Margrèt var eitt. Faðir Ólafs brita var Jón bóndi Þorsteinsson, sem átti Steinunni[3] dóttur Steingríms á Hofi í Skagafirði, lögrèttumanns, Guðmundssonar frá Vatnshlíð Magnús-

---

1) Um föður- og móðurætt Þórðar yfirdómsforseta Jónassonar, sjá Tímarit mitt 4. B. bls. 1—6.

2) Seinast varð síra Jónas prestur í Reykholti.

3) Ólafur briti og Steinn biskup voru systrasynir, og voru mæður þeirra dætur Steingríms Guðmundssonar, er sumir segja að búið hafi á Hofi í Vesturárdal í Hegranessþingi, en aðrir á Flugumýri. Steingrímur var systurson síra Björns Jónssonar á Hvanneyri, sonar síra Jóns Guðmundssonar, er þar var og prestur, Guðmundur var bóndi á Siglunesi. Systir síra Björns, móðir Steingríms, var Steinunn, og var maður hennar Guðmundur á Lóni í Viðvíkursveit, en eigi er getið um, hvers son að hann hafi verið.

sonar. Systir síra Jónasar var Steinunn[1], er giptist Jóni Sveinssyni. Síra Jónas var fæddur nálægt 1770, ólst mest upp hjá móðursystur sinni, Ingibjörgu, er þá bjó á Hofi á Höfðaströnd; með hennar tilhlutun komst hann í Hólaskóla, á ölmusu, hvaðan hann útskrifaðist 1793. Síra Jónas var skarpur og vel gáfaður maður.

*Móðir* Þórðar var Þórdís, dóttir síra Jóns, er kapellán varð 1769 í Garði og fèkk það brauð, en dó 1796. Fyrri kona síra Jóns í Garði var Guðrún, dóttir Jóns Björnssonar á Eyrarlandi og Helgu Magnúsdóttur. Hennar faðir var Magnús á Stórhóli, sonur Björns sýslumanns Pálssonar. Faðir síra Jóns í Garði var síra Sigurður, er þar var og prestur 1732, dó 1781, son Benidikts bónda Þórðarsonar. Kona síra Sigurðar var Þórdís, dóttir síra Guðmundar á Þönglabakka Þorlákssonar prests á Auðkúlu. Albróðir Þórðar sýslumanns var Jónas[2]. Þórdís móðir Þórðar sýslumanns var seinni kona síra Jónasar, en fyrri kona hans hèt Sigríður, og var systir seinni konu hans. Jón í Vík í Hèðinsfirði, var son þeirra.

*Kona,* er hann giptist í Reykjavík 1838, varð Sophía[3] Erasmusdóttir Lynge, verzlunarþjóns á Akureyri; faðir hennar var danskur, en móðir íslenzk bóndadóttir, er aptur giptist bóndamanni.

1) Jón faðir síra Jónasar átti og aðra konu, og bjó þá á Dúki; mun Margrèt hafa verið seinni kona hans. Hálfbræður síra Jónasar voru þeir Einar Dúkur, er bjó í Þingholtum hjá Reykjavík, faðir Bergþóru, móður Magnúsar Arasonar og systkina hans, og Jón er bjó í Dúkskoti, faðir Odds föður Jóns hafnsögumanns.

2) Síra Jónas yngri varð kapellán hjá föður sínum, en dó ógiptur, barnlaus. Auk þeirra Þórðar og síra Jónasar, átti síra Jónas, faðir þeirra, fleiri börn, er flest giptust um Borgarfjörð.

3) Hún var samfeðra systir framannefndrar Friðriku Rasmusdóttur, og sammæðra systir Karenar konu Lúðvígs, sonar Björns sýslumanns Blöndals. Móðir frú Sophíu hèt Rannveig Ólafsdóttir.

*Börn:* A. Eggert Theódór[1].
B. Jónas[2].
C. Friðrik Andrès[3].
D. Anna[4].

Þórður las lög og tók embættispróf með bezta vitnisburði (laudabilis). 1834 24. febrúar veitti konungur honum Vaðlaþing, kom hann út samsumars og tók sèr aðsetur á Akureyri; en 1836 veitti konungur honum efra assessoratið við yfirrèttinn, en samt var hann kyrr á Akureyri til vordaga 1837, þá flutti hann til Reykjavíkur, en danskur maður Borgen, er 1836 hafði fengið Mýrasýslu, en eigi þangað komið, fèkk veitingu fyrir Vaðlaþingi 1837; þann sama dag fèkk annar danskur maður Lund veitingu fyrir Mýrasýslu. Assessor Þórður Jónasson tók við sínu nýja embætti og flutti í Reykjavík 1837, og giptist þar 1838 áður nefndri konu sinni, er þá var bústýra hans[5].

1) sjá um Theódór Mýrasýslu.

2) Jónas varð læknir í Reykjavík og nokkrum hreppum þar í kring, átti Þórunni dóttur Pèturs amtmanns Havsteins.

3) dó úngur.

4) Anna dó uppkomin og barnlaus.

Enn voru börn þeirra hjóna:
E. María, seinni kona póstmeistara Óla Finsens.
F. Sigurður cand. philos.
G. Sigríður.

Launson Þórðar yfirdómsforseta, með Margrèti Stefánsdóttur frá Sauðanesi, sjá hèr að framan: Þórður prófastur í Reykholti, kona hans var Margrèt dóttir Ólafs læknis á Hofi, sonar konferenzráðs og amtmanns Stefáns Þórarinssonar, sjá að framan, börn þeirra komust eigi upp.

5) 1856, þegar konferenzráð Þórður Sveinbjörnsson dó, varð Þórður Jónasson yfirdóms-forstjóri, og 1860, þegar stiptamtmaður greifi Trampe sigldi hèðan alfarinn, var hann settur stiptamtmaður hèr á landi, og þjónaði hann því embætti auk síns eigins til 1865, er landshöfðingi Hilmar Finsen varð hèr stiptamtmaður; á meðan Þórður gegndi stiptamtmannsstörfum, mætti hann á alþinginu sem konungsfulltrúi árin 1861, 63, 65, og á alþingi næsta eptir sem aðstoðarmaður konungsfulltrúa;

**Bertel Holm Borgen,**

danskur candidatus júris, fèkk veitingu fyrir Mýrasýslu 1836, en kom aldrei til hennar. Þá er Þórður Jónasson, sýslumaður í Vaðlaþingi, varð dómari í yfirdóminum, fèkk tèður Borgen Eyjafjarðarsýslu. 1837 fór hann til sýslunnar og settist að á Akureyri.

Kona Borgens nefnist Anna Signý Álfhildur. 1843 sigldi hann með konu og börnum til Kaupmannahafnar, en fèkk með amtsleyfi fyrir umboðsmann sinn, meðan burtu væri, candidatum júris Jón Pètursson, er þá var hjá sýslumanni Birni Blöndal. 1844 kom sýslumaður Borgen út aptur með konu og börnum til Akureyrar, og tók við embætti sínu af Jóni sýslumanni Pèturssyni, er 1843 hafði verið veitt Strandasýsla. 21. ágúst 1847 fèkk sýslumaður Borgen konungsveitingu fyrir hèraðsfógeta og skrifara embætti í Nörlyngs og Fjends hèraði í Víborgar amti á Jótlandi og flutti hèðan algjörlega með konu og börnum 1848.

**Eggert Ólafur Gunnlaugsson Briem.**

Sjá um hann við Ísafjarðarsýslu. Konungur veitti honum Eyjafjarðarsýslu, þegar Borgen fèkk embætti utanlands og flutti sig burt með konu og börnum 1848; tók Eggert þá við Vaðlaþingi sama sumar.

---

á alþinginu mætti hann sem konungkjörinn þingmaður frá 1845 til 1859 og aptur seinna frá 1869 til 1875. 1849, þegar amtmaður Grímur dó, var Þórður Jónasson settur amtmaður yfir norður- og austurumdæminu, fór hann þá norður og sat á Akureyri, en árið eptir, þá er Pètur Havstein varð þar amtmaður, fór hann aptur suður til embættis síns við yfirdóminn. Hann þjónaði og eitt sinn Gullbringusýslu, þá hún var sýslumannslaus (sjá Gullbringusýslu), og landfógetaembættinu 1851, þá er amtmanni Kristjáni var vikið úr því, og til þess sumarið eptir, að hæstarèttar assessor Dr. júris Vilhjálmur Finsen tók við því. Hann varð Commandeur af dannebroge og dannebrogsmaður, riddari af heiðursfylkingunni. Skömmu eptir þjóðhátíðina veiktist yfirdómsforseti Þórður Jónasson, og árið 1877 var hann leystur frá embætti með fullum launum sökum sinnuleysis. Hann dó 25. ágúst 1879.

## Viðbætir.

Eggert sýslumanni var veitt Rangárvallasýsla 17. apríl 1858, en fluttist aldrei þangað, heldur þjónuðu fyrir hann þar Stefán Helgason Thordersen, sonur Helga biskups, og Magnús, sonur Björns sýslumanns Auðunssonar Blöndals. 18. febrúar 1861 var honum veitt Skagafjarðarsýsla, og flutti hann þangað sumarið eptir. Meðan hann hèlt Vaðlaþíng, bjó hann á Espihóli.

### Stefán Oddsson Thorarensen.

*Faðir:* Oddur lyfsali, sonur Stefáns amtmanns Þórarinssonar.
*Móðir:* Solveig Bogadóttir frá Staðarfelli Benidiktssonar.
*Kona:* Ólavía, dóttir Júbýs bakara í Kaupmannahöfn.
*Börn:* 1. Solveig.
2. Oddur.
3. Emilía.

Honum var veitt Eyjafjarðarsýsla 22. október 1858, en áður var hann assistent í íslenzku stjórnardeildinni; hann settist að á Akureyri, þá er hann inn kom. Síðar, 8. júlí 1863, var hann jafnframt skipaður bæjarfógeti á Akureyri.

## Leiðrèttingar.

Bls. 4, 23. línu: Þorvaldur var brenndur inni 1228.
— 7, 17. línu: Helga væna átti með Þorkeli í Hraundal; börn þeirra einn son; les: Helga væna átti með Þorkeli í Hraundal börn; þeirra einn son.
— 26, 7. línu: í stað 1461, les 1362.
— 53, 20. línu: Ásgeirs Hallssonar, les Ásgríms Hallssonar.
— 66, 7.—8. línu: Jóni Ásgeirssyni, les Jóni Ásgrímssyni.
— 89, 3. línu: syndur, les rýndur.
— 102, 18. línu: 88 ára, mun eiga að vera 68 ára.
— 120, 22. línu: 1616 les 1716.
— 137, 7. línu: Ólafsdal, les Ólafsfirði.
— 141, 7—8. línu: Herdísar Oddsdóttur, systur, les Herdísar, móðursystur.
— 141. 9.—10. línu: svo þeir Haukur og Gissur hafa verið bræðrasynir, les: svo þau Steinunn, kona Hauks, og Gissur hafa verið bræðrabörn.
— 151, 5.—6. línu: Björnssonar Drumbs í Hjarðarholti, Svarthöfðasonar samastaðar, Dugfússonar Þórarinssonar frá Snóksdal; les: Björnssonar, Svarthöfðasonar, Dugfússonar, Þorleifssonar.

## III. Skagafjarðarsýsla.

Héröð þau, er liggja í millum Deildarhamars á Skaga og Úlfdalafjalla, kallast nú almennt Skagafjarðarsýsla, fyrrum Hegranesþing.

Þar voru í fyrndinni þessir þingstaðir:

1. Vallnalaug, þriggja hreppa þing.
2. Skefilsstaðir.
3. Sauðá í Borgarhreppi.
4. Seila á Langholti.
5. Lýtingsstaðir í Tungusveit.
6. Akrar í Blönduhlíð.
7. Rípur í Hegranesi.
8. Viðvík í Viðvíkursveit.
9. Hof á Höfðaströnd.
10. Fell í Sljettuhlíð.
11. Holt í Fljótum.

---

### A.
### Höfðingjar,
(er eg held að hafi haft þar völd).

Fornsögur telja marga merkilega og góða menn, er hèr höfðu þá völd, en frá því Sturlunga og Árna biskups saga hætta, er lengi torvelt að finna sýslumenn. Ætla má að þessir hafi í fornöld haft nokkur völd í Skagafirði:

**Geir auðgi,**
**Kálfur, sonur Brands Kolbeinssonar,**

**Þorgeir. bróðir hans,**
**Rafn Jónsson í Glaumbæ.**

Rafn[1] meinast sonar son Rafns Oddssonar, átti og Rafn Oddsson son þann, er Jón Korpur hèt. Glaumbæjar-Rafn var hinn mesti höfðingi í Skagafirði um sína daga fyrir utan biskupana. 1319 stillti Rafn bóndi í Glaumbæ bændur, svo þeir eigi fönguðu Auðun biskup. Þess er getið, að Lárentíus biskup þröngvaði honum þó með kirkjuaga. er honum þótti Rafn bjróta kirkjulög með kvennafari og öðru þvílíku, þó kom

---

1) Það getur enginn vafi verið á því, að Glaumbæjar-Rafn hafi verið son Jóns Korps, sonar Rafns Oddssonar, því auk annars átti Rafn Oddsson Glaumbæ, og bjó þar. Glaumbæjar-Rafn virðist og að hafa verið náskyldur Auðkúlumönnum, Benidikt Kolbeinssyni og bræðrum hans, því 1373 vitnar Marteinn prestur Þjóðólfsson, Þórður prestur Þórðarson, Brynjólfur Bjarnarson og Ásgrímur Snorrason, að þeir heyrðu Þórð Arnórsson, er hafði umboð þeirra bræðra Benidikts og Þorsteins í 20 ár, segja, að þeir bræður Benidikt og Þorsteinn ættu fjórða hlutann í Mallandi, og Reynistaðarklaustur annan fjórða hluta, en Rafn fjórðung og áttung. en einn áttung Benidikt í Ólafar parti, eins að Benidikt og Kolbeinn (ɔ: sonur Benidikts) ættu hálfan Brókarlæk, en Rafn fjórðung og áttung, og Benidikt áttung í Ólafar parti, og hvar sem Ólafar partar stóðu í, þá voru þeir allir í hluta Rafns, (mun þetta eigi ritvilla, og eiga að vera í hluta Benidikts?). Rafn hefði aldrei kallað eptir meiru í þessum eignum og eigi heldur Oddný eptir hann. Líkast er, að móðir Rafns hafi verið systir þeirra bræðra og dóttir herra Kolbeins Auðkýlings Bjarnasonar, og að systir eða náfrænka þessara systkina hafi heitið Ólöf, er dáið hefir barnlaus, og þau því erft hana. Fyrnefnd Oddný hefir verið kona Glaumbæjar-Rafns og gipzt aptur, því hún er auðsjáanlega sú Oddný, er annálar segja að Brattur — það virðist að vera viðurnefni — hafi 1344 (sumsè að ári eða tveim árum liðnum frá dauða Rafns) fengið. Það er auðvitað, að ekkja Rafns hefir verið mjög rík, og að það því hefir verið mikið fè, er Ormur

aldrei til bannfæringar og var Rafn optast í vinfengi við biskup. 1333 fór Rafn utan. Misklíð varð og millum Egils Hólabiskups og Rafns 1340 út af landamerkjum og 1341; sömdu þó þar um sjálfir með góðra manna tilhlutun. 1342 gipti Rafn dóttur sína Steinunni Bótólfi hirðstjóra Andrèssyni; var boð inni í Glaumbæ og boðið stórmennum um land allt; var það hin dýrðlegasta veizla. Son Bótólfs hirðstjóra og Steinunnar var Rafn, er átti Ingibjörgu, dóttur Þorsteins hirðstjóra og lögmanns Eyjólfssonar. Nálægt 1344 drukknaði Rafn frá Glaumbæ Jónsson austur í Þjórsá; hafði hann verið hinn göfugasti maður og er líklegt, að hann hafi haft völd eigi alllítil í þá daga, og ef til vill verið umboðsmaður Eiríks riddara Sveinbjarnarsonar og annara hirðstjóra yfir sýslum norðanlands. Rafn son Bótólfs, er var hirðstjóri 1342, bjó þar eptir í Lönguhlíð í Hörgárdal, en 1390 tók skriða bæinn í Lönguhlíð og þar með Rafn lögmann Bótólfsson, konu hans Ingibjörgu og 10 heimilismenn. Dóttir Rafns lögmanns hèt Steinunn; hún fór til Grænlands og var þar gipt.

## Þorsteinn Eyjólfsson[1].

*Faðir* hans meinast með getgátu að hafa verið Eyjólfur, son

---

biskup, er gekkst fyrir því, að Brattur fengi hennar, hefir orðið að gefa honum, er sjálfur var fátækur, til þess að hann nokkurn veginn hefði fè á móti henni, enda er sagt í annálunum, að mönnum hafi þótt þetta ráðlag biskups undarlegt, því hann varð að leggja fjeð út af gótsi staðarins á Hólum. Enn má geta þess, að í Auðuns biskups máldaga, eða rjettara sagt, í viðaukagrein aptan við hann, en sem þó verður að vera gjörð fyrir 1360, stendur við Þverárkirkju í Skagafirði, að messubók og grallari, kaleikur og messuföt hafi gefizt kirkjunni eptir Þorleifu, móður Oddnýar, en Glaumbæjar-Rafn átti Þverá, og er því hèr án efa meint til fyrnefndrar Oddnýar, konu hans. (Sjá um Rafn og ætt hans Vaðlasýslu bls. 144.—145. og Þingeyjarþing bls. 24.).

1) Sjá um Þorstein Eyjólfsson Þingeyjarsýslu bls. 16., og Lögmannatal Jóns Sigurðssonar.

Ásgríms Þorsteinssonar, er Árna biskups saga um getur (aðrir Eyjólfur Arnfinnsson).

*Móðir:* Ólöf dóttir Björns Þorkelssonar og Arnfríðar, dóttur Böðvars Breiðavaðs.

*Kvinna:* Arnþrúður, dóttir Magnúsar á Svalbarði Brandssonar, Eiríkssonar, Einarssonar, Guðmundssonar Dýra.

*Börn:* 1. Solveig, kona Björns Jórsalafara Einarssonar, sjá Ísafjarðarsýslu.

2. Sumarliði[1], af honum halda menn að hafi verið komin Kristín Oddsdóttir, frilla Lopts ríka. 1387 átti Sumarliði Þorsteinsson skæru við kaupmenn í Hvalfirði og efldist svo að flokkum. 1389[2] voru á-

---

1) Sjá um Sumarliða, Vaðlaþing bls. 145. Að vísu er sagt, að Sumarliði, sonur Lopts og Kristínar, hafi verið látinn heita eptir Sumarliða Þorsteinssyni, en að Sumarliði Þorsteinsson hafi verið forfaðir Kristínar, þykir mjer næsta ótrúlegt, því 1388 keypti Arnfinnur Þorsteinsson, bróðir Sumarliða, að henni hluta þann í jörðunni Hálsi í Svarfaðardal, er hún hafði erft eptir föður sinn Odd; það virðist því, sem að hún hafi varla verið seinna fædd, en um 1360, og aldursmunur þeirra því varla svo mikill, að hann hafi verið afi hennar, auk þess, að slíkur höfðingi, sem Sumarliði var, varla hefði þolað það, að sonar- eða dótturdóttir sín væri frilla gipts manns, þótt göfugur væri, eður, ef Loptur hefir eigi verið giptur, þegar hann var að eiga börnin með Kristínu, að hann þá eigi skyldi eiga hana.

2) Eptir annálum Á. M. var það 1391 er áverkar urðu með þeim Sumarliða og Runólfi Pálssyni; það ár er þess og getið, að hirðstjóri (ɔ: Vigfús Ívarsson) hafi kallað til Skóga, en Sumarliði haldið föður síns vegna; í árbókunum stendur, að hirðstjóri hafi kallað til Holts, en Sumarliði haldið föður síns vegna, en það er víst skakkt, því í annálum Á. M. er sagt, að árinu áður, 1390, hafi Markús Þorsteinsson (Árbækurnar kalla hann Þórðarson) í Skógum verið veginn af Sæ-

verkar með Sumarliða og Runólfi Pálssyni. 1393[1] var Sumarliði með Birni Jórsalafara. 1394 var hann enn lifandi og þá kvittaði hann um sauðarverð. Má vera, að þessi Sumarliði hafi verið faðir Eiríks, föður Bjarna, föður Eirík í Ási, föður Sæmundar, er þar bjó og, og hans systkina, en þá hefði son hans Eiríkur mátt vera orðinn gamall 1380.

3. Arnfinnur[2] faðir Eyjólfs riddara. Arnfinnur Þorsteinsson kallar sig konungsins hirðmann við eiðatöku 1419. 1430 var hann enn lifandi, því það ár var hann einn af dómsmönnum Jóns biskups Vilhjálmssonar.

4. Ingibjörg átti Rafn Bótólfsson, þeirra dóttir Steinunn.

---

mundi dótturmanni sínum; það gat nú svo atvikazt, að Sæmundi hefði borið erfðin eptir Markús, en hirðstjóri álitið eigur Sæmundar fallnar undir konung og því gjört tilkall til Skóganna, en Þorsteinn annaðhvort verið faðir Markúsar og því álitið að sjer bæri að erfa Skógana, eður þá, sem er líklegra, að Markús hafi verið veginn fyr á árinu 1390, en Þorsteinn hafði lagt niður hirðstjórnina, og Þorsteinn því álitið, að sèr bæru Skógarnir, því hann hafði haft allar tekjur landsins móti ákveðnu afgjaldi um árið, eins og hirðstjórar þá stundum höfðu. Þess skal getið, að það virðist sem Þorsteinn hafi einn haft hirðstjórn yfir öllu landinu, þegar Vigfús kom út, því 1387 hafði Eiríkur Guðmundsson komið út með hirðstjórn, en þá var Andrès Sveinsson og hirðstjóri, svo þeir hafa þá báðir haft hirðstjórnina, en um haustið sigldi Andrès, og tók þá Þorsteinn við hirðstjórninni af honum, en árið eptir, 1388, var Eiríkur veginn, svo Þorsteinn hefir við það einn haft hirðstjórnina, þangað til Vigfús kom út 1390.

1) Þess er eigi getið, að Sumarliði hafi verið með Birni Jórsalafara, 1393, á fundi þeirra Björns og Þórðar Sigmundarsonar undir Gnúpi í Dýrafirði, en þar á móti er sagt í annálum, að hann hafi farið utan það ár.

2) Sjá um Arnfinn Þorsteinsson, Vaðlaþing, bls. 146.

5. Sesselja[1], kona Páls á Eyðum Þorvarðarsonar: þau voru foreldri Ingibjargar, konu Lopts ríka.
6. Kristín[2] átti Ólaf Björnsson, sjá hèr síðar.

Þorsteinn Eyjólfsson var orðinn fulltíða 1344, var hann þá á Urðum, og held og að hann hafi sýsluvöld tekið í umboði hirðstjóra, fyrst Bótólfs og síðan Ívars Hólms, sem sveinn þeirra, þó er það eigi fullvíst. Af því hann bjó lengst á Víðimýri[3], meina eg, að hann hafi haft umboð í Hegranesþingi, þó það færi eigi ætíð saman um bústaði: en það er ritað, að hann hafi fyrst gjörzt lögmaður 1352[4] norðan og vestan, en Þórður Egilsson sunnan og austan, verður hann því áður að hafa verið orðinn valinkunnur maður. 1356 fór Þorsteinn utan og kom út 1357[5] með hirðstjórn norðan og vestan ásamt Jóni skráveifu Guttormssyni. 1358 keypti Þorsteinn Reppsá í Ólafsfirði. 1359 eða 1360 mun hann hafa sleppt hirðstjórn, þá er Smiður Andrèsson tók við henni, en lögmannsdæminu meinast hann þó að hafa haldið til 1360[6]. Smiður hirðstjóri kom sjer illa við alþýðu: lögðu því Eyfirðingar saman, og var Þorsteinn flokksforingi: vógu þeir Smið og hans fylgjara á Grund

---

1) Að Sesselja Þorsteinsdóttir, kona Páls á Eyðum Þorvarðarsonar og móðir Ingibjargar konu Lopts ríka Guttormssonar, hafi verið dóttir Þorsteins lögmanns Eyjólfssonar, er án efa ekki rjett, því þau hjónin Loptur og Ingibjörg hefðu þá verið þrímenningar, og sízt hafa þær Ingibjörg og Kristín Oddsdóttir verið öðrum og þriðja.

2) Um þessa Kristínu, sjá hjer síðar, þar sem sagt verður um Þorstein hirðstjóra Ólafsson.

3) Það er að vísu sagt í sumum ættartölum, að Þorsteinn hafi búið á Víðimýri, en eg hef samt engan þann gjörning sèð, er lúti að því; aðalaðsetur hans hafa verið Urðir og Grýtubakki.

4) Þorsteins er víst eigi fyr getið sem lögmanns, en 1362.

5) Þeir voru í Hjaltlandi um veturinn og komu eigi út fyrri en 1358.

6) Þetta: að Þorsteinn muni hafa haldið lögmannsdæminu til 1360, ætti eptir hinu fyrsagða að falla burt.

í Eyjafirði 1361[1] (sjá Árbækurnar 1. þátt, bls. 93). Eptir þetta stórvirki fór Þorsteinn utan, ásamt göfugustu mönnum í Eyjafirði; en þá er þeir komu við Hálogaland, lèt Hreiðar Darri fanga þá alla, og taka fjárhluti þeirra og skip, en færði leikmenn til konungs í haldi; Þorsteini var þó sleppt úr fangelsi; en er hann kom í Halland, var hann fangaður 1362[2], en þaðan útleystur af konungunum Magnúsi Smekk og Hákoni 1363; sættust þeir og við hann um aftöku Smiðs og aðrar sakir, því 1364[3] kom hann út af konungs hendi, sem lögmaður norðan og vestan, og nokkrir segja, að hann hafi haft sýslur og stærri mál sunnan og austan (sem sè hirðstjórn). Ólafur Pètursson hafði þá hirðstjórn norðan og vestan. Það er og skrásett, að þetta ár hafi verið lögtekið, að sami maður væri lögmaður og hèraðsdómari, og hèlzt það lengi síðan. 1366 slepptu þeir Þorsteinn og Ólafur hirðstjóraembætti, en Andrès Gíslason tók við því, ásamt Ormi Snorrasyni, Þorgeiri[4] og Magnúsi[5]. 1367 lèt Þorsteinn af lögsögn um sinn og fór utan: var hann þá fangaður hjá Henrik, Holsetujarli, 1368[6]; en varð þó aptur laus

---

1) Grundarbardagi var án efa 1362.

2) Það er víst rèttara, að Þorsteinn hafi eigi tvisvar verið fangaður í þetta skipti, heldur að hann hafi setið í fangelsi, eptir að Hreiðar Darri hafði fangað hann, veturinn 1362—63, unz Magnús konungur um vorið 1363 gaf hann lausan í brúðkaupi sonar síns Hákonar og Margrètar, dóttur Danakonungs, á Varðbergshúsi í Hallandi.

3) 1364, þegar Þorsteinn kom út, hafði hann af Magnúsi konungi lögsögn um Norðlendingafjórðung og Vestfirðinga, en hann skyldi skipa lögmann fyrir sunnan (og þá víst líka fyrir austan) og þar að auki hafði hann hirðstjórn og sýslu um Sunnlendingafjórðung og Vestfirðinga.

4) Þorgeir var Egilsson.

5) Magnús Jónsson.

Þessir 4 menn komu út 1366 með völd um allt land, en hirðstjórn, sem sè öll stærri mál, höfðu þeir Andrès og Ormur um land allt.

6) Í annálum stendur, að 1368, þegar Þorsteinn lögmaður

og kom til Íslands 1369, var hann þá lögmaður yfir allt land og hèlt því um hríð. Meðan Þorsteinn var utanlands, hefir Einar Gilsson 1367 og 1368 haft lögsögn norðan og vestan; hann dæmdi um veiði í Húnavatni 1368. En nú fór Þorsteinn lögmaður utan 1376 (aðrir: 1375), og kom út aptur 1377 og var þá enn lögmaður, ásamt Sigurði Guðmundssyni, (Sigurður varð lögmaður 1376 og var það 1377; Klofa-Björn varð lögmaður sunnan og austan 1378). 1381 tók Rafn Bótólfsson við lögsögn norðan og vestan á Islandi, varð þá Þorsteinn lögmaður sunnan og austan[1] og var það enn 1386; 1387 varð Narfi Sveinsson lögmaður sunnan og austan, og var það til 1406. 1386 gaf Þorsteinn Arnfinni syni sínum jarðir, og giörði þá testamenti sitt, gaf og mikið fè til kirkna og sálumessna, alls 80 hndr. í lausafè auk jarða, og um það leyti lèt hann af lögsögn og tók hirðstjórn 1387 ásamt Eiríki Guðmundssyni, er veginn var 1388; tók þá Þorsteinn hirðstjórn yfir öllu landi til þess Vigfús Ívarssonur Hólmur tók hana 1389[2]. 1390 var Þorsteinn skipaður á ný lögmaður norðan og austan af Vig-

---

fór austan frá Magnúsi konungi, hafi hann verið fanginn af þýðverskum mönnum í Noregi, og færður til Lýbeks og haldinn þar í hinu þröngvasta varðhaldi fram til Ólafsmessu fyrri, en síðan verið gefinn þar laus, en fangaður aptur á Skáni af hertoga Hinrik og færður í Lund, og þá gefinn laus af Albert konungi, og síðan komið út 1369 lögmaður yfir öllu Íslandi. Einar Gilsson hefir verið lögmaður norðan og vestan, sem hèr segir, meðan Þorsteinn var erlendis, og ekki lengur, og gæti verið, að hann hefði haft lögsögnina á hendi í umboði Þorsteins; Þorsteinn er og kallaður lögmaður 1368, þegar hann var fangaður í Noregi.

1) Það mun varla vera annað en getgáta, að Þorsteinn hafi tekið lögsögn sunnan og austan, og Klofa-Björn misst hana, þegar Rafn Bótólfsson 1381 varð lögmaður norðan og vestan.

2) Það mun vera rèttara, að Vigfús Hólmur hafi tekið hirðstjórnina 1390, og að hann hafi skipað Þorstein fyrir lögmann 1391.

fúsi Hólm hirðstjóra, og samþykkti það öll alþýða. 1394, þá er Björn Jórsalafari og Þórður Sigmundsson áttu miklar deilur saman, var Þorsteinn enn lögmaður, og reið með Birni vestur að Núpi í Dýrafirði ásamt mörgum öðrum merkilegum mönnum; tókst þá Þorsteini með beztu manna ráði, að koma sætt á á millum þeirra Þórðar og Björns; var Þorsteinn þá orðinn mjög hniginn að aldri. 1397 vitnar Þorsteinn um gjöf Vigfúsar hirðstjóra Hólms til konu sinnar Guðríðar. 1401 er enn nú viðgetið lögsagnar Þorsteins, því það ár úrskúrðar hann ættleiðingu Benidikts Brynjólfssonar til Þorðar prests löglega, og sama ár[1] krafði Pètur Hólabiskup Þorstein lögmann úrskurðar, hvort Hólakirkja ætti að njóta konungs verndarbrèfs eða eigi; sagði þá Þorsteinn lögmaður með fullum lagaúrskurði, að Jón Grímsson, er þá var í máli við biskup, væri skyldur að lúka Hólakirkju hálfaukinn rètt sinn fyrir brèfsins sakir, og hèlzt sá úrskurður um rètt Hólakirkju lengi síðan. 1402, þá er plágan mikla gekk yfir Ísland, dó ásamt fjölda mörgum öðrum Þorsteinn lögmaður Eyjólfsson, hið mesta mikilmenni; hafði hann haft um 50 ár æðstu völd á landinu, sem þá voru hirðstjóra- og lögmannsembætti; en sýslur meina eg að hann hafi haft frá unga aldri, þó hefi eg hvergi sèð hans lögmanns- eða hèraðsdóma. En þá er lögtekið var, að lögmenn hefðu sýslur, er eigi annað líkara, en að Þorsteinn hafi sýslur haldið optast nær, eins þá er hann var lögmaður, og það optast Hegranessýslu, þar eð hann bjó lengst æfi sinnar í Glaumbæ[2]; þó meina eg, að Arnfinnur sonur hans hafi þar haft sýslu af og til, meðan Þorsteinn lifði, og til þess Þorleifur tók við, þó eigi í sífellu.

---

1) Af lögmannatali Jóns Sigurðssonar sèst, að þessi úrskurður Þorsteins hefir verið gefinn 1393.

2) Eg hefi hvergi sèð, að Þorsteinn hafi búið í Glaumbæ, og held því, að þetta sè ritvilla, og eigi að vera á Víðimýri, því Bogi hefir áður sagt, að Þorsteinn hafi búið þar, þótt eg haldi, sem fyr sagt, það miður rètt.

## B.
## Sýslumenn
### Þorleifur Árnason.
(Sjá um ætt hans og afsprengi með fleiru, Ísafjarðarsýslu)[1].

Snemma hefir Þorleifur verið orðinn maktarmaður. því eigi hefði Björn Jórsalafari gipt honum Kristínu dóttur sína árið 1405, hefði Þorleifur verið smámenni eða valdalaus; er því meining mín, að hann hafi við giptingu sína verið orðinn valdsmaður, þar eð í því þótti ríki nokkurt, en óvíst í hverri sýslu. Voru og margir merkilegir menn um þær mundir nyrðra, sem hafa að líkindum haft sem sveinar hirðstjóra sýsluvöld, er þá voru mjög stopul. Arnfinnur Þorsteinsson[2] hefir ekkert smámenni verið, sem sèst þar af meðal annars, að hann hèlt Hofi fyrir hirðstjórum, þegar faðir hans eigi hafði hirðstjórn, og er líklegt, að hann hafi einhver sýsluvöld haft. Nær Þorleifur hefir tekið Hegranessþing eða sleppt því, er óvíst; hitt er víst, að hann var þar sýslumaður 1415, og lèt þá 12 manna dóm ganga á Ökrum í Blönduhlíð millum Ásgeirs — föður Jóns, er seinna gjörðist valdsmaður í Ísafjarðarsýslu og fèkk Kristínar dóttur Guðna Oddssonar Lepps lögmanns, sjá Ísafjarðarsýslu — Árnasonar Einarssonar og Sveins Hallvarðssonar um skuldir þeirra og kúgildamál. Þorleifur var mjög opt á ferðalögum og í utanlandsferðum, svo, þótt hann hafi haft sýsluvöld, hefir hann mátt halda umboðsmenn, og eitthvert konungsvald hefir hann haft 1419 eða rèttara 1420, þá er konungur boðaði hann utan til fundar við sig. Þorleifur dó nálægt 1432.

Þess er við getið, að 1417 seldi Ingibjörg Loptsdóttir Magnúsi Jónssyni og Ingunni konu hans Grund í Eyjafirði, Dvergstaði, Eyrarland, Kotá, Hrafnsstaði í Kræklingahlíð og Snartastaði í Gnúpasveit, og átaldi Þorleifur Árnason Magnús bónda fyrir hálfa Grund; gekk þar um dómur Rafns lögmanns

---

1) Sjá og Vaðlaþing, bls. 150—151.

2) Þessi saga um Arnfinn er víst missögn, en það var Sumarliði Þorsteinsson, er hèlt móti hirðstjóranum Skógum vegna föður síns, eins og áður hefir verið sagt.

Guðmundssonar að Hrafnagili 1420; og í mörgum öðrum jarðaþrætum átti Þorleifur. Stundum var Þorleifur í Vatnsfirði, höfuðbóli konu sinnar, og hefur, ef til vill, haft þar sýsluvöld um hríð. Í ættartölu Sigurðar gullsmiðs Þorsteinssonar nefnir Hannes biskup hann hirðstjóra; ef til vill hefir hann í einhverjum landsparti haft hirðstjórn um hríð, og því hefir konungur kallað hann utan; hann getur hafa haft 1418, 1419 og 1420 umboð Árna biskups.

## Þorsteinn Ólafsson[1].

*Faðir:* Ólafur Björnsson auðgi á Ökrum í Skagafirði.
*Móðir:* Kristín, dóttir Þorsteins lögmanns og hirðstjóra Eyjólfssonar.
*Kona:* Sigríður Björnsdóttir[2]; þau giptust á Grænlandi 1408.

---

1) Sjá um Þorstein Ólafsson, Þingeyjarþing, bls. 10.; það, sem hèr stendur um föðurætt hans, er með öllu skakkt, og eins er það röng getgáta, að hann hafi verið dótturson Þorsteins gamla Eyjólfssonar, því þau hjónin Þorsteinn og Sigríður hefðu þá verið þrímenningar; það virðist liggja langbeinast við, að hann hafi verið bróðir Árna biskups milda, og þannig er hann líka sumstaðar talinn til ættar.

2) Sigríður kona Þorsteins Ólafssonar var dóttir Björns Brynjólfssonar á Ökrum í Blönduhlíð, sjá Þingeyjarþing, bls. 10. Bróðir Björns var Benidikt á Sjáfarborg. Systir þessara bræðra virðist að hafa verið Ingunn Brynjólfsdóttir, hèt maður hennar Þorgils Jónsson; 1404 á Víðimýri seldu þau Benidikt Brynjólfssyni Kirkjuból í Langadal, Bakka, Brekku, annan Bakka, Laugadal, Nauteyri, Hafnardal, Unaðsdal og Sandeyri, fyrir jafndýrar jarðir norðanlands. Af Benidikt keypti aptur allar þessar jarðir Björn Einarsson (Jórsalafari) fyrir Hól, Rafnstaði, Garðshorn í Fúlukinn og fleiri jarðir. Það virðist og, sem þessi systkin hafi verið skyld herra Kolbeini Auðkýling, bæði virðast nöfnin í báðum ættunum benda til þess í sambandi við það, að Kolbeinn átti Sjáfarborg, og ættingjar hans að sögn eptir hann, en Benidikt Brynjólfsson átti þá jörð.

*Dóttir:* Akra-Kristín; hún giptist fyr, um 1436, Helga[1] lögmanni Ólafssyni hirðstjóra Pèturssonar lögmanns; hann dó 1452. Þeirra börn:

1. Ingveldur, hana átti um 1460 Þorleifur hirðstjóri Björnsson á Reykhólum og mörg börn (sjá Dalasýslu).
2. Þorsteinn á Reyni í Mýrdal átti Ragnheiði[2] dóttur

---

1) Fyrri maður Akra-Kristínar var Helgi lögmaður Guðnason, sjá Þingeyjarþing, bls. 38.

2) Um Ragnheiði Eiríksdóttur, konu Þorsteins á Reyni Helgasonar, sjá Vaðlaþing, bls. 168. Ættartölum ber eigi saman um þessa Ragnheiði, hverra manna hún hafi verið, flestar láta þær hana einnig hafa átt Magnús Jónsson á Krossi, er Þorvarður son Eiríks Slónefs lèt drepa, og loksins segir síra Jón Egilsson í biskupaannál sínum, að hún hafi einnig átt Eyjólf lögmann, og telur hann Eyjólf fyrsta mann hennar, Þorstein annan, og hinn þriðja Magnús; systir Ragnheiðar segir hann að verið hafi Ingibjörg, er Jón Ólafsson Loptssonar ríka átti; einnig segir hann, að faðir Eiríks, föður þeirra systra, hafi verið Krákur á Skarði á Landi, er kallaður hafi verið hinn gamli. Ragnheiður hefir þannig án efa verið þrígipt, en þegar menn gæta að því, að Krossreiðardómur var 1474, og að Magnús þá var dáinn, og að Eyjólfur lögmaður lifði fram yfir 1490, virðist allt lúta að því, að Þorsteinn hafi verið fyrsti maður hennar, eður hinn annar, en Eyjólfur lögmaður seinasti maður hennar. Að Ragnheiður hafi verið dóttir Eiríks Slónefs, getur ekki verið, eins og sýnt er á bls. 168, og það er heldur ekkert í Krossreiðardómi, er bendi á það, að Þorvarður, sonur Eiríks Slónefs, er drap Magnús mann Ragnheiðar, hafi verið bróðir hennar; en því síður getur það verið rètt, sem hèr stendur, og sagt er í sumum ættartölubókum, að Ragnheiður hafi verið dóttir Eiríks Sumarliðasonar Eiríkssonar Slónefs Loptssonar ríka; því þessi Eiríkur Sumarliðason var Eiríkur ábóti, bróðir Sveins Sumarliðasonar, er átti dóttur Finnboga lögmanns Jónssonar. Í Krossreiðardómi er Ólöf ríka Loptsdóttir kölluð föð-

Eiríks Sumarliðasonar, Eiríkssonar Loptssonar, þeirra börn:

---

ursystir Þorvarðar, en hefði átt að vera langafasystir hans, hefði hann verið sonur Eiríks ábóta; Eiríkur ábóti var og löngu seinna uppi, en að Þorsteinn hefði getað átt dóttur hans.

Sumir hafa og sagt, en það lítur svo út sem það hafi verið ágizkun fyrir þeim, að Ragnheiður Eiríksdóttir, kona Þorsteins á Reyni, Helgasonar lögmanns, hafi verið systir Sæmundar Eiríkssonar í Ási, en þetta getur víst eigi heldur staðizt tímans vegna, því Sæmundar mun varla vera getið fyrri en eptir 1520, og líka hefðu þá þeir Pètur Loptsson, er átti Sigríði dóttur Þorsteins Helgasonar og Ragnheiðar Eiríksdóttur, og Árni Gíslason á Hlíðarenda, er átti dóttur Sæmundar í Ási, átt að vera hèr um bil jafnaldrar, en Pètur var fyr uppi, en að það geti verið rètt. Eins getur það eigi staðizt tímans vegna. að Jón Ólafsson, faðir Torfa í Klofa, hafi átt systur Sæmundar. Sæmundur, sonur Árna Gíslasonar á Hlíðarenda, og dótturson Sæmundar í Ási, kvað og hafa rakið ætt Sæmundar afa síns þannig upp, að hann telur Eirík, föður Sæmundar, Bjarnason (ekki Kráksson), þann Bjarna Sumarliðason, Sumarliða þenna Eiríksson, og þenna Eirík Sumarliðason.

Þegar menn nú gæta að öllu þessu, bæði tímanum, sem Ragnheiður hefir verið uppi á, og að því, að hún er talin skyld Sæmundi í Ási, þótt hún eigi hafi verið systir hans, og loksins að því, að Eiríkur faðir hennar er sumstaðar, sem hèr, kallaður Sumarliðason Eiríkssonar, þá virðist það augljóst, að þessum síðast nefnda Eiríki er ranglega slengt saman við Eirík Slónef, og að faðir Ragnheiðar Eiríkur hafi verið bróðir Bjarna Sumarliðasonar, forföður Sæmundar í Ási, og hefir þá ef til vill Krákur í Skarði verið föðurbróðir þessara bræðra og þá afabróðir Ragnheiðar, en ekki afi hennar.

Að Ragnheiður, kona Þorsteins í Reyni, og hafi átt Eyjólf lögmann, eins og síra Jón Egilsson segir, sèst ljóslega af því, að árið 1525 á alþingi, kærði Pètur Loptsson vegna Sigríðar

a. Sigríður áiti Pètur, son Lopts Ormssonar Lopts-
sonar ríka, þeirra börn:

---

Þorsteinsdóttur, konu sinnar, Eyjólf Einarsson um arf, er henni hafði fallið eptir Ragnheiði Eiríksdóttur móður hennar; brèf kom fram, er taldi mála Ragnheiðar 60 hndr., og með því Pètur sór, að hann væri ógoldinn, voru þeir bræður Eyjólfur og Erlendur Einarssynir dæmdir skyldir að láta hann; þetta lýsir, sem sagt, því ljóslega, að Eyjólfur lögmaður, afi þeirra Eyjólfs og Erlendar Einarssona, hefir, að Þorsteini látnum, átt ekkju hans Ragnheiði, en ekkert barn með henni, munu þau og bæði hafa verið orðin gömul, er þau áttust; málanum hefir eigi verið skilað við dauða Ragnheiðar, og hefir hann því verið runninn inn til afkomenda Eyjólfs lögmanns.

Við þetta tækifæri skal eg leyfa mèr að geta þess, þótt það eigi heyri beinlínis hèr við, að það virðist svo, sem Pètur Loptsson hafi verið seinni maður Sigríðar Þorsteinsdóttur, og að hún áður hafi verið gipt Árna Einarssyni í Djúpadal, bróður Eyjólfs lögmanns, en ekki átt barn með honum, er lifað hafi, því 1495 í Dal í Eyjafirði heitir Þorlákur Þorsteinsson Sigríði Þorsteinsdóttur, að láta af hendi alla hálfa peninga, er fèllu til arfs eptir Árna Einarsson, bónda Sigríðar, Einari Hálfdánarsyni; reiknaði Þorlákur sèr umboð Einars (hefir hann að líkindum verið móðurfaðir hans), en Sigríður lofaði í mót, að láta allt fram koma til skoðunar, er í hennar vörzlum var. Það hefir áður verið sagt (sjá Þingeyjarþing, bls. 28—29), að þeir Eyjólfur, Árni, Björn og Hálfdán voru bræður. Árni bjó í Djúpadal, og höfðu forfeður hans átt þá jörðu og búið þar (sjá Tímarit mitt, 1. B., bls. 53—54), og hann gjörði Ólafi biskupi Rögnvaldssyni skil fyrir fè kirkjunnar þar 1491, en hefir dáið skömmu seinna, og ekkjan síðan gipzt Pétri Loptssyni, er við þetta hefir orðið eigandi Djúpadals, því Pètur átti þá jörðu skömmu þar eptir og bjó þar, hefir Árni son þeirra Pèturs og Sigríðar, verið látinn heita eptir fyrra manni hennar, en Ragnheiður dóttir þeirra eptir Ragnheiði Eiríksdóttur móður hennar.

1. Ragnheiður átti Jón á Svalbarði Magnússon og börn[1].
2. Sesselja fylgdi síra Sigurði, syni Jóns biskups Arasonar[2].
3. Árni Dalskeggur átti Guðrúnu Bessadóttur og börn[3].

---

1) Börn Jóns og Ragnheiðar (hún kallaðist Ragnheiður á rauðum sokkum) voru:
a. Magnús sýslumaður í Ögri.
b. Páll sýslumaður á Staðarhóli.
c. Jón lögmaður.
d. Sigurður, sjá hèr síðar.
e. Steinunn, fyrst barnamóðir síra Björns Jónssonar biskups Arasonar, sjá hèr síðar, átti svo Ólaf Jónsson frá Geitaskarði, sjá Húnavatnssýslu; hún átti og Eggert lögmann Hannesson, og var hans seinasta kona, eins og hann var hennar seinasti maður.
f. Þórdís átti Þorgrím í Lögmannshlíð Þorleifsson.
g. Solveig átti Filippus Þórarinsson á Svínavatni; hann var veginn; þeirra son Þórarinn á Dálkstöðum átti Guðrúnu Halldórsdóttur, hálfsystur Benidikts ríka Halldórssonar.

2) Börn Sesselju og síra Sigurðar komust eigi upp.

3) Guðrún Bessadóttir, kona Árna Pèturssonar í Djúpadal í Eyjafirði, er sögð systir Þorbergs sýslumanns Bessasonar, sonur þeirra Árna og Guðrúnar var
a. Magnús í Djúpadal, átti Þuríði dóttur síra Sigurðar á Grenjaðarstað, móðir hennar hèt Guðrún Markúsdóttir. Seinni kona Árna Pèturssonar var Þuríður, dóttir Þorleifs á Möðruvöllum, þeirra dóttir:
Guðrún, kona Eiríks sýslumanns Árnasonar, þau voru barnlaus. Enn fremur var sonur Árna:
b. Síra Ólafur, hans son Hallur prestur digri á Hofða, hans son síra Ólafur í Grímstungu, sjá Tímarit mitt, 1. B., bls. 19. og 20.

4. Loptur í Víðidalstungu átti mörg börn[1].

b. Eiríkur á Keldum átti Ragnhildi Eiríksdóttur Erlendssonar; börn:

1. Steinunn átti Þorleif lögmann Pálsson og börn.
2. Kristín átti Örnólf Ólafsson, þeirra dóttir Helga eða Halla[2] átti Björn son Þorleifs lögmanns.

Akra-Kristín giptist aptur um 1453 Torfa Arasyni, er varð riddari 1448 og hirðstjóri sama ár eða 1450; hann dó í Noregi 1458; börn:

3. Málmfríður átti 1467 Finnboga lögmann Jónsson, sjá Þingeyjarþing[3].
4. Guðrún fylgdi Einari ábóta, syni Ísleifs beltislausa, þeirra son Finnbogi ábóti, faðir Guðrúnar[4].

Hvort Þorsteinn hefir strax eptir dauða Þorsteins lögmanns Eyjólfssonar tekið Hegranesþing, er mèr óljóst, en 1419 nefndi Jón Hólabiskup Þorstein í dóm um Vallholt, sem Ástríður Jörundardóttir gaf með sèr í prófentu. 1421 var Þorsteinn Ólafsson[5] orðinn lögmaður sunnan og austan, sumir halda, að Þorsteinn hafi 1420 tekið lögsögn, en Oddur Leppur

---

1) Síra Loptur í Víðidalstungu, hans börn:
   a. Síra Jón á Skinnastöðum.
   b. Árni í Sælingsdal.
   c. Helga.
   d. Sigríður.

2) Sjá Þingeyjarþing, bls. 11. Það virðist varla geta verið annað, en að Björn hafi verið launson Þorleifs lögmanns.

3) Bls. 33.

4) Guðrún Finnbogadóttir var móðir síra Einars í Eydölum Sigurðssonar, föður Odds biskups í Skálholti.

5) Sjá um Þorstein Ólafsson Lögmannatal Jóns Sigurðssonar.

hafi sleppt henni 1419. 1423 staðfesti Þorsteinn Ólafsson, lögmaður sunnan og austan á Íslandi, 12 manna dóm, útnefndan á Þingvelli af Baltasar hirðstjóra, er dæmdi Guðríði Sæmundardóttur[1] jörðina Skarð í Landmannahreppi, er hún hafði fyrirboðið Jóni presti Þórðarsyni að selja; bæði brèfin eru útgefin fimmtudaginn eptir Pètursmessu 1423 (Árb. 11. þ., bls. 18). 1427 meinast hann að hafa orðið hirðstjóri norðan og vestan, því 1428 kallast hann hirðstjóri, þá er hann lèt dóm ganga í Hvammi í Hvammssveit í 9. viku sumars um Ásgeir Árnason og Jón son hans um dráps rikti. Líkast er, að hann hafi haft hirðstjórnina í 3 ár. 1430 er Þorsteinn Ólafsson lögmaður norðan og vestan. Eg held, að hann hafi haldið lögsögn til þess um 1436 eða lengur; þá mun hann hafa útvegað Helga, dótturmanni sínum, lögsögn, eða sleppt henni við hann; en Hegranessýslu mun hann í hirðstjóra umboði hafa haldið lengur. Hann bjó á Ökrum í Skagafirði.

## Torfi Arason.

*Faðir:* Ari[2] stóri.
*Kona:* Kristín, dóttir Þorsteins lögmanns Ólafssonar nýnefnds.
*Börn:* A. Málmfríður átti Finnboga lögmann, sjá Þingeyjarþing[3].
B. Guðrún; við hana hèlt Einar ábóti á Munkaþverá, sonur Ísleifs beltislausa; þeirra son var
Finnbogi ábóti á Munkaþverá, sem átti með Ingveldi Sigurðardóttur
Guðrúnu, er átti síra Sigurð Þorsteinsson, og með honum síra Einar Sigurðsson í Eydölum og hans systkin.

Torfi gjörðist mikill maður og þjónaði utanlands Kristj-

1) Guðrún Sæmundsdóttir var kona Jóns Ófeigssonar, sjá Vaðlaþing, bls. 163.

2) Um Ara, föður Torfa, vita menn ekkert, hann er á einstaka stöðum kallaður stóri, sem hèr er gjört.

3) Bls. 33, og hèr á undan.

áni konungi 1.; þar fyrir gjörði konungur hann að hirðstjóra 1448 eða 1450, og gaf honum riddara nafnbót, og bar hann hvítabjörn í bláum feldi í skildinum, og hálfan hvítabjörn á hjálminum. Torfi hefir haldið sýslur, í hið minnsta meðan hann var hirðstjóri; hann ljet af hirðstjórn 1457, þá er Björn Þorleifsson tók við henni. Torfi fór utan 1458 og gjörði testamenti sitt sunnudaginn fyrir Bartholomeimessu 1459 í krankleik sínum, og meina menn, að hann þá hafi dáið, því eigi geta sagnir hans þar eptir. 1445 hafði Torfi bóndi Arason[1] jarðakaup við Skúla bónda Loptsson (sjá Þingeyjarþing).

## Sumarliði Loptsson.

*Faðir:* Loptur ríki á Möðruvöllum Guttormsson, sjá Vaðlasýslu[2].

*Móðir:* Kristín Oddsdóttir, hún var frilla Lopts, bæði meðan hún og hann voru gipt og ógipt, og til hennar kvað Loptur hinn nafnkennda háttalikil sinn. Mælt er, að Loptur hafi látið Kristínu kjósa sèr mann, og hafi hún kosið einn hinn helzta af sveinum Lopts, þá hafi Loptur átt að segja: «Kjörvilt varstu, Kristín, þú kaust mig ekki», en hún hafi það eigi þorað. Fróðir menn segja, að Kristín hafi verið komin af Þorsteini Eyjólfssyni og hans syni Sumarliða; hún hefir verið ríkra manna, því til giptingar hafði hún hálft þriðja hundrað hundraða.

*Kona:* Ólöf[3], dóttir Ara á Reykhólum, er drukknaði 1418, Guðmundssonar. Móðir Ólafar nefnist Þorgerður Ólafsdóttir (sjá Strandasýslu).

*Börn:* A. Kristín átti Jón Dan, launson Björns ríka, þau voru barnlaus, sjá Ísafjarðarsýslu.

B. Sesseljâ hèt laundóttir Sumarliða með Karítasi Grímsdóttur, vildi Sumarliði eigi meðganga Sesselju, en Karítas sór fyrir síra Jóni Kolbeinssyni

---

1) Bls. 38.
2) Bls. 157.
3) Sjá Þingeyjarþing, bls. 24.

Sumarliða svo sannan föður að Sesselju, sem hún væri móðir. Sesselja átti Jón Guðmundsson og voru börn þeirra:

1. Grímur; arf hans tók undir sig Ari í Saurbæ á Rauðasandi, en Björn sýslumaður Guðnason dæmdi arf þann Grími 1517 (sjá Barðastrandar, Dala og Mýra sýslur). Börn Gríms voru:
   α. Jón, er veginn var í Síðumúla 1570[1].

---

1) Kona Jóns Grímssonar var Sigurborg dóttir Þorsteins Sighvatssonar, þeirra son:

a. Síra Grímur á Húsafelli, merkismaður, hans synir:
   1. Jón.
   2. Síra Helgi á Húsafelli.
   3. Hallur.

   Jón Grímsson hafði verið sveinn Jóns biskups Arasonar, og átti barn með Kristínu dóttur Vigfúsar hirðstjóra Erlendssonar, er fylgt hafði síra Magnúsi syni Jóns biskups, en sem þá var dáinn; þar eð þau Jón og Kristín voru fjórmenningar, sigldi Jón til þess að útvega þeim leyfi til að mega eigast, en er hann kom aptur, var hún dáin, eptir því, sem sagt var, af gremju út af þessari óvirðingu, er henni hafði viljað til; eptir að hún var dáin, var það að Jón giptist Sigurborgu. Arfurinn eptir Sesselju hafði frá Ara runnið inn til Eggerts Hannessonar; þegar Guðbrandur biskup kom utan og hafði unnið mál sín, og náð jörðum Jóns Sigmundssonar, varð Eggert hræddur um, að Jón mundi ná undan sèr arfi Sesselju, en til að hamla því, vo Jón Murti, son Eggerts, Jón Grímsson. Sonur Jóns og Kristínar hèt

b. Vigfús; eitt af börnum hans var:
   Helgi lögrèttumaður í Borgarfirði, hann átti Arnarholt, Kaðalstaði, Einifell, Lunda, Skóga, Múlakot, Þorgautsstaði, Tinda, Heydalsá og Stórugröf og bjó þar seinast; sonur Helga var
   Halldór, hans son

β. Bergþór, er gjörðist prófentumaður Guðbrandar biskups.

γ. Agnes, er átti Halldór Brandsson (sjá Húnavatnssýslu); þeirra dóttir:
Vigdís, átti fyr Þorvald Björnsson (sjá Húnavatnssýslu), síðar Torfa á Hrauni Vigfússon.

δ. Jón, laungetinn, hans dóttir:
Valgerður, er átti Jón son Jóns Hálfdánarsonar, Guðmundssonar Finnssonar á Ökrum á Mýrum. Af Valgerði er komið margt bændafólk.

Sumarliði tjáist elzta barn Lopts ríka og fæddur fyrir 1388, en dáinn fyrir 1440; honum gaf Loptur þrjú hundruð hundraða. Þótt engin sè vissa fyrir sýsluvöldum Sumarliða, og ekki fremur í þessari sýslu en annari, set eg hann hèr sem merkismann og stórbónda; er og eins víst, að Sumarliði hafi verið í Dalasýslu, því á Kvennabrekku var Ólöf kona hans, þá er hún 1441 gaf Birni ríka umboð sitt, að innkalla hjá bróður sínum Guðmundi ríka fè sitt, sjá Strandasýslu. Engan dóm eða dómara atgjörðir hefi eg sèð eptir Sumarliða, en get til, að hann líkt og margir aðrir auðmenn hafi um hríð haft sýsluumboð, líkast í Húnavatnsþingi, þó er það ekki fullvíst.

### Brandur Jónsson lögmaður.

Sjá um hann Vaðlaþing; hann bjó að Hofi á Höfðaströnd og átti í máli við Magnús Benidiktsson 1433 út af kirkjufè á Hofi[1]. Nokkru þar eptir meinast hann að hafa haldið Hegra-

---

Árni, hans dóttir
Halldóra, móðir síra Pèturs Björnssonar á Tjörn, sjá Tímarit mitt. Enn eru sögð börn Sesselju

2. Bergþór, átti Helgu Einarsdóttur, er áður hafði átt Þorstein Jónsson.
3. Þórey á Móbergi.

1) á Höfðaströnd.

nesþing, ef til vill, þangað til Torfi Arason tók hirðstjórn 1450, og þá verið hans umboðsmaður til 1457, en síðan haft sýsluna til þess að Ólafur biskup tók hana 1460, en ágreiningur hefir orðið um afgiptina 1463. þar biskup lèt það sama ár (1463) til dæma sèr alla skatta og skyldur af sýslunni; mun umboðsmaður Ólafs biskups hafa stundað að halda sýslunni undir biskup, því hefir Brandur þar um tjeðan dóm látið ganga. Brandur varð lögmaður eptir 1450, og það var hann orðinn 1455, en sleppt lögsögn 1479; hann bjó fyrst að Hofi á Höfðaströnd, sem fyr er sagt, og hafði Hegranesþing um 1450 til 1460, þar eptir flutti hann að Lögmannshlíð, og hèlt Vaðlaþing. Um eða eptir 1480 flutti hann að Mýrum í Dýrafirði, og lifði fram um 1490.

### Ólafur bóndi Grímsson.

Hverra manna hann hefur verið, eða hverjir hans afkomendur, er mèr dulið: hitt er víst, að hann hefir haldið Hegranesþing sem umboðsmaður eptir að Ólafur biskup Rögnvaldsson tók það; það virðist annars, sem Ólafur og Jón Þorðarson, er hèr getur seinna, hafi báðir haldið sýsluna, áður en Ólafur biskup fèkk hana sèr veitta, og nauðugir viljað sleppa henni við biskup, unz úrskurður Brands lögmanns gekk um það, að biskupi bæri afgjaldið af sýslunni, og hafi þeir þá gjörzt umboðsmenn biskups. 1467 var Ólafur fyrsti kaupvottur, er Finnbogi lögmaður giptist Málmfríði Torfadóttur á Ökrum.

### Ólafur biskup Rögnvaldsson.

Hann var merkur að ætt, fyrst prestur í Odda, svo á Breiðabólstað, var kosinn til biskups á Hólum 1458, og sigldi eptir biskupsvígslu til Niðaróss sama ár, þaðan fór hann til Danmerkur og fèkk hjá Kristjáni konungi veitingu fyrir Hegranesþingi 1459; brèfið hljóðar þannig:

«Kong Christjern unner og forlener brefviseren, Hra Ólaf bisk-
«op til Hola kirkju i Island, sit og krununnar leen, Skaga-
«fjorð, i tio samfelden ár, i svo mata, at han skal ärlega
«gefa kongen til hans Fatabur hundrada letta gyllina, so
«lenge han það i verju hafer, og antvorda sig edur sin um-

«bodsmenner i Bjorgvin; og skal hann gjora sig goda reidu «og reikningskap af strandrak, sem þar falla kan, etc. uppá «sit slot Kaupmannahöfn in vigil. Ste Andreæ apostoli «1459.»

Ólafur biskup kom út 1460, eptir lærðustu manna meiningum, tók hann þá að sýna vald sitt; var það eigi lengi, áður menn urðu þess varir, að hann var bæði harður og fègjarn; má lesa um framgangsmáta hans, bannfæringar og harðræði í Hólabiskupa sögum, sjá Hist. Ecl. Tom. II. p. 590. og Árb. 2. þ.; get eg þess hèr einasta, hvað sýslumanns verkum við kemur. Svo sýnist sem Ólafur bóndi Grímsson áður nefndur hafi þá við komu biskups og þar eptir í nokkur ár í umboði biskups haldið sýsluna og frá 1469 til 1474 ásamt með Jóni Þórðarsyni, er hafði biskups umboð: 1469 hefir Ólafur biskup og tekið Jón Þórðarson fyrir sinn umboðsmann, og var hann það lengi þar eptir. Þegar útrunnin voru þau 10 ár, er konungsbrèfið hafði tiltekið um sýsluveitingu biskups, sýnist sem ágreiningur hafi komið um sýsluvöldin; var þá Henrik Kerken höfuðsmaður, og þá hafi Ólafur bóndi með biskupi staðið fyrir lögmannsdómi 1473, svo biskup hèlt sýslunni mjög lengi þar eptir, en óljóst er, hverjir hans umboðsmenn hafi verið eptir það að Jón Þórðarson dó 1492, eða hvað lengi hann hèlt sýslunni, eða hvort Jón Þórðarson hafði hans umboð til dauða síns. Ólafur biskup dó utanlands 1494, og hefir hann verið einhver hinn harðdrægasti og fègjarnasti af Hólabiskupum, annar var Gottskálk biskup Nikulásson. Björn Ásmundsson nefndist einn af lögsögnurum Ólafs biskups.

## Jón Þórðarson.

Hverra manna hann var, eða hvort hann átti nokkra afkomendur, er mjer dulið. Þessi Jón hefir verið orðinn sýslumaður í Skagafirði, líklegast í umboði Ólafs biskups, 1468, því þá lætur hann dóm ganga í Viðvík um vígsbætur til Runólfs Árnasonar og bræðra hans, og kallast Jón þá hafa konungssýslu í Hegranesþingi. Dæma þessir 12 menn málið undir Brand lögmann Jónsson (útfall þess, sjá Árb. 2. þ. bls. 71). Opt getur Jóns þessa síðan, og var hann sem verkfæri í hendi

Ólafs biskups. Hèr um 1489 gefur hann heilagri Hólakirkju jörðina Skuggabjörg í Deildardal 20 hndr, sèr til sáluhjálpar, og vill liggja inn í Hólakirkju fyrir framan Stc Jóhannes; vottar: Snjólfur Sigurðsson, ráðsmaður heilagrar Hólakirkju, Guðmundur Jónsson, etc.; gjörðist hann þá prófentumaður á Hólum og áskildi sèr til fæðis mjólk og blautan fisk. 1492 hefir hann dáið, því þá vitnar Guðmundur Kollason, Eiríkur Sigmundsson, prestar, og Einar Þorvaldsson messudjákn, að Jón Þórðarson hafi gefið Ólafi biskupi jörðina Skarðsdal með 3 kúgildum. Efnamaður hefir Jón verið, en sýnist hafa verið lítill höfðingi.

### Jón þorgrímsson[1].

Hann lætur 12 manna dóm ganga að Ökrum í Skagafirði 1500 um Sigurð Magnússon, sem hafði verið í aðför til Hóls á Skaga með Þorsteini Bessasyni, að slá í hel þorstein Guðmundsson, og sýnist sem hann þá hafi verið þar sýslumaður.

### Sigurðar Finnbogason.

*Faðir:* Finnbogi lögmaður Jónsson (sjá Þingeyjarþing).
*Móðir:* Málmfríður Torfadóttir riddara Arasonar (sjá Þingeyjarþing).
*Kona:* Margrèt[2] Þorvarðardóttír, sonar Bjarna sýslumanns í Múlasýslu Marteinssonar og Ragnhildar dóttur Þorvarðar á Möðruvöllum Loptssonar ríka.

---

1) þorgeirsson er víst rèttara.

2) Jón Magnússon telur ætt konu Sigurðar með öllu eins og hèr er gjört, og er það víst með öllu rètt, en kona Þorvarðar Bjarnasonar og móðir Margrètar hèt Ingibjörg Ormsdóttir; giptust þau á Auðkúlu, hafði þorvarður til kaups við Ingibjörgu 2 hndr. hundraða, og gaf henni þar af 60 hndr., þar í tilskilinn Böðvarsdalur í Vopnafirði. Margrèt Gunnlaugsdóttir gaf Ingibjörgu dóttur sinni 1 hndr. hundraða. Brèf um þetta var gjört á Marðarnúpi 1489. Gunnlaugur faðir Margrètar hefir auðsjáanlega verið Gunnlaugur á Marðarnúpi sonur síra Þorkels, bróður Árna biskups milda Ólafssonar. Margrèt Gunn-

(Flestar ættartölur, bæði Ólafs Snogdalíns og Jóns sýslumanns Jakobssonar, segja, að Margrèt kona Sigurðar sýslumanns Finnbogasonar hafi verið dóttir Þorvarðar lögmanns Erlendssonar og Kristínar dóttur Gottskálks biskups á Hólum; en ættartölubók, sem Dr. Hannes biskup átti, og var afskrifuð, hefir svo, sem eg að ofan hefi ritað. Hafi Sigurður ekki gipzt fyrri en í fyrsta lagi 1524, gat það staðizt, að hann ætti Margrèti dóttur Þorvarðar lögmanns og Kristínar, því Þorvarður og Kristín giptust 1508, og hefði þeirra dóttir Margrèt 1524 verið 15 vetra, líklega fædd 1509; hafi Sigurður eigi orðið langlífur, en verið orðinn sýslumaður fyrir 1514 eða jafnvel strax eptir 1500, er bágt að koma því saman: þó getur verið, að Sigurður hafi verið tvígiptur og átt þessa Margrèti Þorvarðsdóttur fyr, en Margrèti Þorvarðsdóttur lögmanns seinna; þá er þó í óvissu, hvor Margrètanna var móðir barna hans. Þorvarður Bjarnason á Eyðum gat átt vaxna dóttir um 1500).

Eptir lát Sigurðar sýslumanns giptist Margrèt Magnúsi á Eyðum, þeirra börn:

α. Þorbjörg átti Vigfús sýslumann Þorsteinsson, sjá Þingeyjarþing[1].

*Börn:* A. Ísleifur Sigurðarson á Grund í Eyjafirði, sýslumað-

---

laugsdóttir hefir því verið systir Guðrúnar konu Guðna á Urðum og sem seinna átti Jón lögmann Sigmundsson; það virðist þannig óefandi, að Gunnlaugur Þorkelsson hafi átt, annaðhvort Ingibjörgu eða Ólöfu, dóttur Arngríms Þórðarsonar á Marðarnúpi og Steinunnar, dóttur Rafns lögmanns Bótólfssonar, því auk þess að þetta kemur vel saman við tímann, þá sezt Gunnlaugur að í Marðarnúpi, er Arngrímur hefir átt, og nöfnin benda á hið sama, því dóttir Margrètar Gunnlaugsdóttur hèt Ingibjörg, og dóttir Guðrúnar Gunnlaugsdóttur Ólöf.

1) Bls. 68.

ur, giptist 1533 Þórunni dóttur Jóns biskups Arasonar, sjá Vaðlaþing[1].

B. Helga kvinna Þorbergs sýslumanns Bessasonar, sjá hèr síðar og Vaðlaþing[2].

C. Ingibjörg átti Bjarna, son Torfa sýslumanns í Klofa, Jónssonar sýslumanns Ólafssonar[3]. Börn:

1. Sigurður átti Ragnheiði, dóttur síra Björns á Melstað, þeirra barn:
   α. Bjarni á Stokkseyri (sjá Vestmannaeyjar).
2. Þórunn áti Þorgrím Oddsson lögrèttumann; börn:
   α. Bjarni í Haga.
   β. Arnbjörn.
   γ. Sesselja.
   δ. Una.
   Af þeim eru fjölmennir afkomendur.
3. Ingibjörg átti Hrólf sterka Bjarnason; þeirra börn:
   α. Bessi.
   β. Bjarni.
   γ. Þorbergur sýslumaður.
   δ. Sigurður sýslumaður, sjá Þingeyjarþing[4].

Seinna hefir Ingibjörg Sigurðardóttir gipzt 1542, sunnudaginn næstan eptir páskaviku í Reykjahlíð við Mývatn, Jóni Skúlasyni, er taldi sèr 80 hndr., en hún sèr 1 hndr. hundraða; brjefið er skrifað á Eyðum 6 ár-

---

1) Bls. 184.
2) Bls. 193.
3) Loptssonar ríka.
4) Enn eru talin börn Hrólfs sterka og Ingibjargar:
   ε. Bjarni annar; Hrólfur kallaði annan Bjarnann góða Bjarna, en hinn illa Bjarna.
   ζ. Þorsteinn.
   η. Þóra.

um síðar; vottar: Kolbeinn Auðunsson og Teitur Magnússon prestar.

Hvert ár Sigurður tók Hegranesþing, er eigi víst, en sýslumaður var hann þar orðinn 1514, því þá lætur hann dóm ganga á leiðarþingi við Vallnalaug um verðlag á vörum, sjá Litra A. 1517, föstudaginn næstan fyrir Dýradag um vorið í Reykjahlíð við Mývatn, votta Þorsteinn Finnbogason og Þorkell Snjólfsson, að Þorvarður Guðmundsson hafi gefið Sigurði bónda Finnbogasyni og konu hans Margrèti Þorvarðardóttur Egilsstaði í Fljótsdalshèraði og Vallaneskirkjusókn til framfæris og fullrar prófentu með sèr og sinni kvinnu Guðlaugu Tómasdóttur.

Líkindi eru til, að Sigurður hafi tekið Hegranesþing litlu eptir 1500, en sleppt því nálægt 1518, eða fyr.

Hvað lengi Sigurður lifði, eða hvort hann bjó á Grund um sína daga, er óljóst, eða hvað markvert er fleira um hann að rita. Sigurður fór utan og dó í þeirri ferð. Mælt er, að þegar hann sleppti Hegranesþingi, hafi hann flutt að Eyðum. Margrèt kona hans giptist þar eptir Magnúsi á Eyðum, sem fyr segir.

Litra A., Inntak úr dómi Sigurðar sýslumanns um kaupskap á varningi, skreið og öðrum peningum, um lausamenn, vinnufólk, karlmenn og konur, sem eigi vilja vinna og eiga enga alin.

Dæma þeir þá hirðstjóra Pinningsdóm um sama efni stöðugan og myndugan í öllum sínum articulis. Item dæma þeir:

| | |
|---|---|
| 12 stikur varningsklæðis, fyrir | 1 hndr. |
| 8 stikur með þriðjungaklæði, fyrir | 1 hndr. |
| 6 stikur tvígilds klæðis, fyrir | 1 hndr. |
| 4 stikur stokkbreiðs lèrepts, fyrir | X áln. |
| 10 stikur striga, fyrir | XX áln. |
| 5 fjórðunga ketil, fyrir | 1 hndr. |
| salttunna, fyrir | X aura. |
| grjónatunna, fyrir | X aura. |
| lás, fyrir | 1 eyrir. |
| 9 fjórðunga vætt fiska, fyrir | mörk. |

sölfavætt fyrir XV álnir (alías eyrir).

kaup á að slá vikuverk . . . . . . . . . . .. XL áln.
á dagsláttu eyrir, en X álnir, ef hún er slegin á dag.
2 tunnur malts og hunángsáttungur . . . . . . . 1 hndr.
tvíbryrgð húfa . . . , . . . . . . . . . . . . XX áln.
Allir þeir, sem minna fè áttu en 3 hndr. tíundarvirt, skyldu engan kaupskap gjöra mega, heldur skyldu vera skyldugir að vinna hjá bændum. Enginn mætti lausamaður róa fyrir sjálfan sig, sem minna fè ætti en 5 hndr. Þeir einir megi klæði bera, er lögmálið leyfir. 6 fjórðungar lýsis fyrir XX álnir. Sekur skyldi sá 4 mörkum til konungs, sem öðruvisi kaupir eða selur, en hèr segir; og skyldast vissir menn til í hverjum hreppi að hafa gætur á fyrtèðum kaupskap; sekur skyldi hverr eyri (rèttara 4 mörkum) er eigi vill þeim fylgja. Sömu sektir leggja þeir á þá, er leyna kaupskap á móti þessum dómi, eða rjúfa hann (sem sè 4 merkur).

### Grímur Jónsson á Ökrum.

Hvort hann nálægt þessum árum hefir haft sýslu í Skagafirði, er óvíst, þótt hann yrði lögmaður 1519, eða, sem aðrir segja, 1520, og væri það þangað til Teitur við tók 1523.

*Kona* Gríms lögmanns: Guðný Þorleifsdóttir hirðstjóra Björnssonar.

*Börn:* 1. Sigríður átti Magnús Björnsson sjá hèr síðar.
2. Jón átti Þóru Thomasdóttur, sjá hèr síðar.
3. Guðrún átti Thomas á Þorleifsstöðum, sjá annars um börn þessi, Dalasýslu.

### Rafn yngri Brandsson.

*Faðir:* Brandur prestur á Hofi í Vopnafirði, son Rafns eldra frá Barði í Fljótum Brandssonar.

*Kona* Rafns yngra var Þórunn, dóttir Jóns biskups Arasonar; giptist Rafn henni á Hólum 1526, var hún þá 14 vetra og voru henni talin 3 hndr. hundraða og 60 hndr. en hann taldi sèr 6 hndr. hundraða. Var Jón biskup óspar með veitingar og glaðværðir við það brúðkaup. Sumir rita, að þau Rafn og Þórunn hafi átt saman

eitt barn, og hafi átt að heita Ísleifur, en ekki finnst það sannað.

Espólín fróði heldur, að Rafn hafi orðið sýslumaður í Skagafirði 1519, og hafi haldið þá sýslu inn til þess, að Jón biskup fèkk sèr hana veitta 1525: var þó Rafn sem áður við sýsluna, en sem fullmektugur biskups og bjó á Hofi á Höfðaströnd. Eg held að Grímur hafi verið sýslumaður í Skagafirði 1519, næst eptir Sigurð Finnbogason, og haldið henni til 1525. Með kænsku gat biskup komið því til leiðar, að Teiti Þorleifssyni var vikið frá lögmannsdæminu, en Rafn tengdason hans aptur kosinn lögmaður 1526. Eptir vilja Jóns biskups byrjaði Rafn sama ár Sveinstaðamálsskærur við Teit (sjá þar um Húnavatnsþing), er dæmdist í aleigumissi og friðleysi, sigldi þá Rafn og fèkk staðfestingu konungs upp á þann dóm, tók svo undir sig og tengdaföður sinn allt fé Teits, það er hann gat náð, þar á meðal búið í Glaumbæ ásamt jörðunni, 1528; en Teitur flýði á Vestursveitir. Rafn hafði þar eptir bú í Glaumbæ, og var þar líka stundum sjálfur.

Svo bar við 1529, þá er Rafn var staddur í Glaumbæ, að hann í drykkjuskap gjörðist missáttur við svein sinn þann, er Filippus hèt, og manaði hann með mörgum frýjunarorðum, að skilmast við sig með vopnum; um síðir fóru þeir út á hlað fram undan karldyrum, og eptir fárra höggva viðskipti, veitti Filippus Rafni banasár; kenndi Rafn sjálfum sèr öll þau völd og sættist við Filippus, því Filippus hefði hlotið að verja hendur sínar; reið Rafn heim til Hofs, lifði þar 3 nætur og dó svo. Þórunn varð ekkja 17 vetra og fór heim að Hólum til föður síns. Þræta var um arf eptir Rafn, og náðu erfingjar Rafns litlu eða engu. Rafn dó á æskuskeiði; hann var mesti uppgangs- og lukkumaður, áður en hann komst í Teits-mál, en þar eptir þvarr gæfa hans.

### Jón biskup Arason.

*Faðir:* Ari á Grítu í Eyjafirði, son Sigurðar príors á Möðruvöllum[1]

---

1) Sigurður príor var Jónsson, og sá Jón Ólafsson (sjá Tíma-

*Móðir:* Elín, kölluð blátönn eða bláhosa, Magnúsdóttir; móðir hennar var Þóra Brók, dóttir Ísleifs beltislausa, en systir Einars ábóta a Þverá[1]; móðir Þóru var Oddný Steindórsdóttir, en móðir Steindórs Oddný[2], dóttir Brands á Svalbarði Eiríkssonar, Einarssonar, Guðmundarsonar hins Dýra á Bakka.

*Barnamóðir* Jóns biskups var Helga Sigurðardóttir, Barna-Sveinbjarnarsonar, prests í Múla — hann átti 50 börn, er hann kenndist við, fyrir utan nokkra vafagepla — Þórðarsonar. Áður hafði Helga fylgt að lagi Ólafi Daðasyni, og var þeirra dóttir Þóra.

*Börn:* A. Ari lögmaður, sjá um hann Vaðlaþing[3].

B. Björn prófastur á Melstað, hèlt við Steinunni, dóttur Jóns á Svalbarði Magnússonar; börn:

1. Jón sýslumaður, sjá Húnavatnsþing.
2. Árni á Sauðafelli átti Önnu Björnsdóttur (bróður Eggerts lögmanns) Hannessonar; þeirra börn:
   a. Daði[4].
   b. Þóra[5].
   c. Kristín[6].
   d. Guðrún[7].

---

rit mitt), Ari Sigurðarson, faðir Jóns biskups, hafði Miklagarðs umboð, en er Ari var dáinn, fór Elín að Grítu.

1) Sumir telja, að bróðir Þóru Ísleifsdóttur hafi heitið Ísleifur og sonur hans hafi verið Einar ábóti, en það mun eigi rètt.

2) Oddný Brandsdóttir var systir Magnúsar Brandssonar: ætt hans er rakin upp, sjá Þingeyjarsýslu, bls. 8.

3) Bls. 182.

4) Daði var sveinn Odds biskups, drukknaði barnlaus í Hvítá 1609, ætlaði að draga upp á ísinn hest annars manns.

5) Hún átti Sigurð Þorbergsson.

6) Kristín átti Þorleif Bjarnason Sumarliðasonar.

7) Guðrún átti Árna Skúlason Jónssonar.

e. Halldóra lg., hennar móðir Valgerður Þorkelsdóttir[1].

3. Bjarni[2] á Læk átti Sesselju, laundóttur Eggerts lögmanns Hannessonar með Herdísi, dóttur síra Þorleifs á Reykhólum Björnssonar; þeirra börn:

a. Herdís.

b. Steinunn.

c. Þórunn.

d. Björn.

e. Einar.

f. Þorleifur.

---

1) Enn voru börn Árna og Önnu:

f. Ingiríður eða Ingveldur átti Narfa Guðmundsson Jónssonar á Fellsenda, hennar seinni maður Ívar.

g. Þuríður átti Einar Ormsson á Stóruhvestu.

h. Steinunn átti Jón á Þverá Jónsson á Reykjum Egilssonar.

2) Bjarni bjó á Brjánslæk, kona hans hèt Sesselja, fyrst kölluð Sigurðardóttir, en síðan föstnuð Eggertsdóttir lögmanns Hannessonar; móðir Sesselju óskilfengin hèt Herdís dóttir síra Þorleifs frá Reykhólum Björnssonar; móðir Herdísar hèt Jórunn systir Sesselju móður Ragnheiðar Eggertsdóttur lögmanns. Börn Bjarna og Sesselju voru:

α. Þorleifur átti Kristínu dóttur síra Teits í Gufudal, drukknaði barnlaus,

β. Björn átti Halldísi Hallsdóttur frá Kambi, bjuggu á Læk í Króksfirði, en seldu hann fyrir Kamb.

γ. Einar lg. átti Þorgerði Jónsdóttur Koðránssonar, og síðan Ragnhildi Þorvaldsdóttur Ásmundssonar.

δ. Steinunn. giptist, dó barnlaus.

ε. Þórunn átti Lopt Árnason í Sælingsdalstungu.

ζ. Elín,

η. Hallbjörg, báðar barnlausar.

ϑ. Herdís átti síra Þorleif Bjarnason.

4. Halldóra Björnsdóttir, hana átti Bjarni í Skriðu Pálsson; þeirra börn:
   a. Bergljót[1].
   b. Hallur í Möðrufelli[2].
   c. Margrèt[3].
   d. Jón[4].
   e. Ljótunn[5].
   f. Magnús[6].
   g. Páll[7].
   h. Helga[8].
   i. þorbjörg[9].
   k. Þuríður[10].
   l. þórunn[11].
5. Teitur Björnsson á Holtastöðum átti Þuríði dóttur síra Erlendar á Breiðabólstað Pálssonar; börn: a, Jón[12].

---

1) Bergljót átti síra Sigurð í Goðdölum Jónsson prests í Laufási Sigurðssonar Jónssonar príors Finnbogasonar lögmanns.

2) Sjá Vaðlaþing, bls. 233.

3) Margrèt átti síra Þorstein Ásmundsson í Vesturhópshólum.

4) Jón átti Ólöfu dóttur Jóns Arnfinnssonar í Bjarnastaðahlíð í Skagafjarðardölum.

5. Ljótunn átti Ólaf Arason Tómassonar.

6) Frá Magnúsi er ekki talið.

7) Frá Páli eigi heldur.

8) Helga átti Guðmund Árnason, bróður Daða Árnasonar; hann var mikill drykkjumaður; börn þeirra komust eigi upp.

9) Maður þorbjargar hèt Þorsteinn, og er ætt frá þeim.

10) Þuríður, aðrir nefna hana Halldóru, átti Ólaf í Núpufelli Jónsson, bróður síra Sigurðar í Goðdölum.

11) þórunn og sumir nefna enn Guðrúnu, hafa dáið barnlausar.

12) Jón Teitsson átti Agnesi dóttur Pèturs Magnússonar

b. Árni[1].
c. Helga[2].
d. Björg[3].
e. Gunnlaugur í Bæ í Borgarfirði[4].
f. Guðrún[5].
g. Filippus hèt launson Teits[6].

6. Magnús Björnsson átti Halldóru Eiríksdóttur Snjólfssonar; börn:
a. Björn í Bólstaðarhlíð[7].
b. Síra Jón[8].
c. Eiríkur í Djúpadal[9].

---

Arnasonar Pèturssonar Loptssonar. Jón átti Stóra-Dunhaga og seldi fyrir smájarðir Þorvaldi Ólafssyni í Auðbrekku, bróður Halldórs lögmanns.

1) Arni á Holtastöðum og Hofi í Vatnsdal átti Sesselju Pètursdóttur systur Agnesar, konu Jóns bróður hans.

2) Helga átti Jón son Gríms á Guðrúnarstöðum í Vatnsdal.

3) Björg átti síra Gísla á Bergstöðum Brynjólfsson, var hún hans fyrri kona, og þau barnlaus.

4) Gunnlaugur dó barnlaus.

5) Guðrún er sögð af sumum óskilgetin, maður hennar hèt Magnús son Þorsteins í Þykkvabæ Magnússonar; Þorsteinn var bróðir Pèturs í Vík föður Agnesar, konu Jóns Teitssonar, bróður Guðrúnar.

6) Filippus lg. átti Kristínu Guðmundsdóttur Magnússonar.

7) Björn Magnússon fell fyrst með bræðrungu sinni, Kristínu dóttur Jóns sýslumanns Björnssonar, var náðaður af konungi, því seldi Magnús sinn part í Grund Jóni. Síðan áttti Björn Oddnýu, dóttur Jóns Einarssonar, föðurbróður Þorláks biskups, hafði numið hana að heiman, en með hennar vilja.

8) Síra Jón Magnússon á Ljósavatni átti Kristínu dóttur síra Jóns Gottskálkssonar í Hvammi í Laxárdal: hún átti Krossanes í Eyrarsveit, en hann Ljósavatn og fleiri jarðir.

9) Eiríkur í Djúpadal átti Guðfinnu Isleifsdóttur yngra Þorbergssonar á Hofi á Höfðaströnd; hann átti Þorleiksstaði í Blönduhlíð, en hún Djúpadal, Lundarbrekku og Mannskaðahól.

d. Þórdís[1].

7. Ragnheiður Björnsdóttir átti fyr Sigurð Torfason[2]; þeirra son:

a. Bjarni á Stokkseyri[3].

Svo átti hún Markús sýslumann Ólafsson; þeirra börn[4]:

b. Ólafur.

c. Sigurður.

d. Rannveig.

e. Margrèt.

1543 föstudaginn fyrir Bartolomeimessu á Melstað ættleiddi Jón biskup Arason, og síra Björn[5] sonur hans, Jón og Magnús Björnssyni og Ragnheiði Björnsdóttur, og 1548 skipti síra Björn með börnum sínum, fèkk hann Jóni 3 hndr. hundraða, Magnúsi 3 hndr. hundraða, Ragnheiði 2 hndr. hundraða; hinum minna.

C. Sigurður officialis á Grenjaðarstað hèlt við Sesselju Pètursdóttur; þeirra börn, Pètur og Halldóra, dóu barnlaus. Laundóttir síra Sigurðar Þuríður[6], sjá Strandasýslu. Launson síra Sigurðar Guðmundur[7], hans dóttir Helga átti börn. Síra Sigurður dó 1595.

---

1) Þórdís átti Stóru-Laugar í Reykjadal; maður hennar Þorvaldur Jónsson á Reykjum í Tungusveit; þeirra einberni Steinunn kona Eggerts á Ökrum í Blönduhlíð. Nokkrir segja, að Þórdís hafi gipzt aptur og þá átt Þorstein á Tjörnum í Eyjafirði.

2) Þessi maður Ragnheiðar Björnsdóttur var Sigurður Bjarnason Torfasonar sýslumanns í Klofa Jónssonar.

3) Bjarni Sigurðsson á Stokkseyri dó 1653, 86 ára, átti Salvöru dóttur síra Guðmundar Gíslasonar í Flóa.

4) Um börn Ragnheiðar og Markúsar verður hèr seinna talað.

5) Eins og hèr segir, arfleiddi síra Björn nefnd 3 börn sín með samþykki Jóns biskups föður síns.

6) Þuríður dóttir síra Sigurðar átti Magnús Árnason í Djúpadal, sjá hèr að framan.

7) Af Guðmundi var kominn síra Jón Ólafsson, er samið hefir ættartölubók, er hann endaði «Vítusmessu mirgin 1681».

D. Síra Magnús á Grenjaðarstað. 10 ár, dó 1534, hèlt við Kristínu Vigfúsdóttur lögmanns Erlendssonar, þeirra barn:
Guðrún átti Gunnar á Víðivöllum Gíslason, sjá hèr síðar.

E. Helga átti Eyjólf í Dal undir Eyjafjöllum, son Einars Eyjólfssonar og Hólmfríðar Erlendsdóttur; Helga giptist 1531, taldi Eyjólfur sèr 6 hndr. hundraða og gaf henni fjórðungsgjöf; þeirra börn:

1. Eiríkur á Eyvindarmúla og Kirkjulæk átti Ólöfu Nikulásdóttur; þeirra börn:
   a. Magnús[1].
   b. Eyjólfur[2].
   c. Ingibjörg[3].
2. Einar í Dal átti Vilborgu dóttur Bjarna sýslumanns Erlendssonar á Ketilsstöðum, áttu ekki börn, hann drukknaði í Fljótinu, sjá Múlaþing.
3. Magnús giptist ekki, hans laundóttir var Steinunn í Steinsholti, sem átti síra Eirík[4] Stefánsson á Snæfuglsstöðum, aðrir kalla hann Þorsteinsson.
4. Ísleifur Eyjólfsson ógiptur, átti þó son, er Jón hèt. Ísleifur dó af brennivíns ofdrykkju.
5. Anna[5] í Dal átti Vigfús, son Þorsteins sýslumanns Finnbogasonar, sjá Þingeyjarþing.
6. Anna eldri[6] átti Illuga.

---

1) Magnús á Kirkjulæk átti Kristínu dóttur síra Árna Gíslasonar í Holti.

2) Eyjólfur í Múla í Fljótshlíð átti Þórdísi dóttur Eyjólfs Halldórssonar í Saurbæ.

3) Ingibjörg átti síra Odd Stefánsson Gíslasonar biskups.

4) Síra Eiríkur maður Steinunnar telst Stefánsson Þorsteinssonar, hann missti prestinn og dó 1654; þau voru barnlaus.

5) Anna var seinni kona Vigfúsar sýslumanns, sjá Þingeyjarþing, bls. 69.

6) Anna eldri er sögð laundóttir Eyjólfs.

(Þau Helga og Eyjólfur áttu alls 13 eða 14 börn)
7. Guðmundur faðir Kolbeins, er átti Helgu Kolbeinsdóttur og við henni fjölda barna.
8. Þorsteinn átti 17 börn.
9. Hólmfríður, barnlaus, var á Eyðum.

F. Þórunn Jónsdóttir átti fyrst Rafn lögmann Brandsson, barnlaus, svo Ísleif sýslumann Sigurðsson barnlaus, seinast Þorstein Guðmundsson, barnlaus; hún lifði alla menn sína.

G. Þuríður Jónsdóttir biskups var sett í Reynistaðarklaustur; því undi hún illa, fór þaðan, sumir segja til Þorleifs lögmanns, sjá Dalasýslu; ritað er, að hún átti börn.

Jón Arason er borinn á Grýtu 1484; ungur missti hann föður sinn og ólst hann upp hjá móður sinni í mikilli fátækt um hríð, til þess að Einar[1] ábóti á Munkaþverá, móðurbróðir hans, tók hann til læringar, kenndi honum lestur, ritgjörð, söng og önnur prestleg fræði; fór Jón frá móður sinni, er þá var flutt að Laugalandi, 1500, til þessarar læringar, þjónaði hann þá jafnframt á klaustrinu sem lèttadrengur. Síðan komst Jón til Gottskálks biskups á Hólum, tók þar vígslur og gjörðist prestur í Þingeyjarsýslu. Árið 1508 fór Jón prestur til Hrafnagils 24 ára gamall, var þar prestur um hríð, og prófastur gjörðist hann þá í Vaðlaþingi 1509, því það ár lætur hann dóm ganga yfir Thómasi Hjálmssyni; var hann sjálfur stefnandi, sækjandi og dómari yfir Thómasi (sjá Árb. 3. þ. c. 19. pag. 27.). Hann gjörðist og Hólakirkju ráðsmaður, officialis, og til biskups á Hólum var hann kosinn 1521, en utanferð hans drógst til 1524. 1522 arfleiddi Jón biskup börn sín, Ara, Magnús, Björn og Þórunni, skyldi hún hafa jafnan hlut við bræður sína. Frá því að hann var kosinn til biskups og til þess hann sigldi, hafði hann vald sem biskup í Hólabiskupsdæmi, og þó Ögmundur biskup stæði af alefli móti honum, náði hann biskupsvígslu 1525, og kom út sama ár. Hans aðgjörðum í biskupstign sinni geng eg fram hjá, því bóksögu mætti þar um rita.

---

1) Einar ábóti Ísleifsson er almennt talinn bróðir Þóru, móður Elínar, móður Jóns biskups Arasonar.

Lífssögu Jóns biskups hafa ritað Björn á Skarðsá, Jón prófastur Halldórsson, síra Eyjólfur á Völlum, Finnur biskup og nú síðast Espólín sýslumaður fróði í sínum Árbókum, að ótöldum biskupi Harboe og fleirum: vísa eg þar til lesendum. Ásetningur minn er að geta sýslumanna, og hverjir í hverri sýslu hafa verið: finn eg, að Jón prófastur Arason er orðinn sýslumaður í Vaðlaþingi 1518 (sjá þar um Vaðlaþing), en Hegranesþing hefir Jón biskup tekið 1525, sjá litra A. hèr á eptir. Hann mun hafa slegið sèr fyrir Húnavatnssýslu 1528 næst eptir Glaumbæjar-Teit um nokkur ár, og Páll Grímsson og fleiri hafa þá haft umboð hans. Skagafjarðarsýslu mun hann hafa haldið meðan hann lifði, því maðurinn var fègjarn og ráðríkur; hann vildi vera mestur maður á landinu; gat fyrst fyrirkomið Teiti lögmanni Þorleifssyni af maktarmönnum; gipti dætur sínar ríkum maktarmönnum; Ara syni sínum kom hann til lögmannsdæmis og sleppti við hann Vaðlaþingi. Björn son sinn gjörði hann prófast á Melstað; Magnúsi syni sínum fèkk hann Grenjaðarstað, og eptir dauða hans, Sigurði syni sínum, sem þar var mjög lengi prófastur og stundum officialis; hann tók og ásamt Ögmundi biskupi að sèr hirðstjórn 1536; fangaði Martein biskup 1549 og síra Árna í Hítardal, tók þá og undir sig Skálholtsstað og vildi koma þar Birni syni sínum til biskupstignar, stjórnaði þá og flestu í Skálholtsbiskupsdæmi, og lèt þá kenna valds og maktar sinnar, er eigi lètu allt vera eptir vild hans. Við þá, er honum voru auðsveipnir, var hann vel. Hann var í mörgum greinum mesti höfðingi, skáld var hann gott, en eigi lærður á latínumál. Fráleitur var hann að afleggja páfatrúarbrögð, stundaði, að þau viðhèldust á Íslandi ásamt sinni og sona sinna makt og auðæfum, svo að hann hefði allt landið undir sinni stjórn. Um konungsboð skeytti hann lítið, var hann því gjörður friðlaus, og lèt Daði í Snóksdal fanga hann á Sauðafelli ásamt Ara og Birni sonum hans, þá er þeir vildu ræna fè Daða, er biskup hafði áður bannfært. Voru þeir síðan fluttir í Skálholt og þar afhöfðaðir án dóms og laga. Yfirgangur þeirra, dramb og fjárfýkn ásamt fastheldni við páfatrú og óhlýðni við konung sinn steypti þeim, annars miklum mönnum, í slíka ógæfu. Sèrlega ættsæll varð Jón

biskup Arason, og eru nálega flestir miklir menn á Íslandi frá 1600 af honum komnir.

Litra A. Eg Jóhann Pètursson, hirðstjóri og höfuðsmaður yfir allt Ísland, gjöri góðum mönnum vitanlegt með þessu mínu opnu brèfi, að eg hefi veitt og unnt verðugum föður með Guði, biskupi Jóni Arasyni á Hólum, míns herra konungsins sýslu og umboð að halda og hafa milli Úlfdalafjalla og Hrauns á Skaga með sköttum og skyldum, rekum og renningum, hvölum og hafrekum, og með öllum þeim rètti og rentu, sem konungdóminum og mèr tilheyrir og eigi er áður löglegur sáttmáli á kominn. Skal hans Náð öll mál stærri og smærri sekta og sækja, semja og niðursetja, fyrir sig stefna, próf að taka, dóm yfir nefna eður nefna láta, þar sem þess þarf með og hans skylda til ber. Skal hans Náð míns herra konungsins vegna víseyri samantaka eður taka láta í greindu takmarki, bæði fornan og nýjan og mèr þar af rèttan reikningsskap standa og gjöra, að afluktu nefndarmönnum sínu þingfararkaupi. Skal hans Náð fulla makt og vald til hafa þeim mönnum dag að gefa, sem í vandræði kunna að falla eða fallið hafa, eður aðrar útlegðir, og þar um semja og sáttmála og fulla kvittun á gjöra með góðra manna ráði, sem eg sjálfur, sèrdeilis þeim, sem á kirkjunnar náðir komast. Svo og skal hans Náð fullt vald hafa til að stefna þeim mönnum aptur í sína sýslu, sem þar hafa brotlegir orðið og hlaupast í aðrar sveitir. Biður eg nú alla góða menn og sèrlega mína og míns herra konungsins vini, að þèr sèuð fyr nefndum föður, biskupi Jóni, greiðir og góðviljugir í hverju helzt hann kann með að þurfa og látið vel reiðulega afkomast þann góðvilja, sem þèr viljið hans Náð gjört hafa, og skal fyr nefndur biskup Jón fullt vald til hafa öðrum manni umboð að gefa, lög og rètt að gjöra í áður greindri Skagafjarðarsýslu að öllu jafnfullu sem fullmektugur sýslumaður á að gjöra. Bíð eg fyr nefndum virðugum biskupi Jóni eða hans umboðsmanni, að þeir tali lög og rètt til hvers manns, og þó með vægð og miskunn þar, sem það til heyrir: en þrjózkum og þrályndum sè hann eða hans umboðsmaður rèttur dómari og refsingasamur, etc., skrifað á Þingvelli daginn eptir Pètursmessu og Páls ano dní M.D.XXV.

Vèr, sem hèr undir skrifum vor nöfn, hver með sinni eigin hendi, meðkennum, að vèr höfum sèð og yfirskoðað svo látandi höfuðsmanns brèf á Íslenzku, sem hèr fyrir framan stendur, orð eptir orð, skrifað á pappír með undirþryktu signeti, eptir hverju Oddur Einarsson biskup í Skálholti lèt skrifa 20. ágústí 1625.

Biskup Oddur Einarsson m. e. h., skólameistari Jón Gissursson m. e. h., kirkjuprestur Vigfús Illugason m. e. h.

### Stígur Höskuldarson.

*Faðir:* Höskuldur Gunnarsson[1]. Ekki þekki eg móður, konu eða barna hans ætt, en sýslumaður Jón Jakobsson skrifar um hann þannig: «Stígur Höskuldarson var forfaðir síra «Sigurður Gottskálkssonar[2], beneficiarii á Bæsá, föður Illuga «prófasts á Hólum, og lögrèttumanns Halldórs Sigurðssonar, «hvers kona var Ragnhildur Kráksdóttir, hennar faðir Krákur[3] »Jónsson Sveinssonar frá Barði í Fljótum; sonur Halldórs lög»rèttumanns og Ragnhildar var Sveinn, er eignaðist og bjó á «Bæsá hinni syðri í Öxnadal og Vaðlaþingi, en giptist 1772 «Þuríði dóttur síra Skúla Illugasonar, Möðruvallaklausturs «prests; hún er systir síra Tómasar Skúlasonar í Saurbæ og «síðan Grenjaðarstað. Móðir Þuríðar og síra Tómasar var «Helga Tómasdóttir, ættuð úr Vöðluþingi; hún giptist síðan «síra Jóni Þórarinssyni Ólafssonar prests í Mývatnsþingum. «Sveinn Halldórsson og Þuríður áttu eitt stúlkubarn, að nafni «Helga[4]; hann andaðist af scorbuto maligno 1782 á Bæsá».

---

1) Hvaðan Bogi hefir haft það, að Höskuldur faðir Stígs hafi verið Gunnarsson, veit eg ekki; það er ekki ósennilegt, að hann hafi verið af ætt Höskulds Runólfssonar, er fyr hefir verið getið.

2) Gottskálk þessi er talinn Stígsson, sem síðar segir.

3) Krákur faðir Ragnhildar var sonur síra Sveins á Barði.

4) Helga dóttir Sveins á Bægisá og Þuríðar átti fyr Jón, son síra Árna á Bægisá Tómassonar, þeirra börn:

Í ættartölubók nokkurri stendur þannig: «Síra Halldór «son síra Þorláks Halldórssonar á Auðkúlu fèkk Bæsá 1686, «dó 1707, átti Guðríði Ólafsdóttur, þeirra dóttir Kristín átti «síra Sigurð á Bæsá 1708—1746 Gottskálksson Stígssonar, «þeirra börn : 1. Halldór bókbindari, 2. síra Illugi, kirkjuprest-«ur á Hólum, 3. Ragnheiður, 4. Helga, 5. Gróa». Þannig er líkast, að Stígs-nafn föður Gottskálks hafi verið ættarnafn Stígs Höskuldssonar.

Að Stígur hafi verið með heldri mönnum og í lögrèttumannaröð, er auðráðið af því, að 1527 er hann meðdómsmaður Rafns lögmanns Brandssonar um mál Teits lögmanns Þorleifssonar á Seilu. Stígur hefir líklega verið umboðsmaður og lögsagnari Jóns biskups, sem fleiri, þótt oss sè nú dulið. Þessi Stígur hefir látið 12 manna dóm ganga 1543 að Vallnalaug í Skagafirði, um klögumál Herdísar Helgadóttur, að sá þýðverski maður Iclis, förunautur skipherra Hans Meyers og kaupmanns Hans Benichs hefði nauðgað sèr á helgum degi Fylgdi Jón biskup Arason hinum útlendu á þinginu og vildi gjöra lítið úr misgjörningi Iclis, að líkindum þess vegna, að biskup var fègjarn, en útlendu kaupmennirnir ósparir á varningi sínum, einkum þegar í þvílíkar raunir rak.

Dómurinn hljóðar þannig: «Það gjörum vèr, Eyjólfur «Arngrímsson, Eyvindur Gunnarsson, Oddur Þorkelsson, Narfi «Ingimundarson, Jón Jónsson, svarnir lögrèttumenn, Sæmundur «Símonarson, Gottskálk Tómasson, Þorgrímur Guðmundsson, «Magnús Jónsson, Magnús Gunnsteinsson, Jón Jónsson og «Einar Jónsson góðum mönnum kunnigt með þessu voru opna

---

a. Árni.

b. Þuríður.

c. Jón átti Guðrúnu Arnbjörnsdóttur frá Giljá, voru þau bræðrabörn; Guðrún var systir Helgu, seinni konu Bjarna á Ósi, sonar síra Friðriks á Breiðabólstað Þórarinssonar. Seinni maður Helgu Sveinsdóttur var síra Ólafur Tómasson í Blöndudalshólum; áttu þau mörg börn.

«brèfi, að árum eptir guðs burð M.D.XL.III, þriðjudaginn næsta «eptir Bartholomæi apostoli við Vallnalaug í Skagafirði vorum «vèr í dóm nefndir af ærlegum manni Stígi bónda Höskulds- «syni að dæma um þann útlenda mann, er Iclis nefnist, er þar «var þá fanginn og dæmdur undir lög fyrir þá sök, að Herdís «Helgadóttir hafi lýst, að greindur Iclis hefði legið sig nauð- «uga; en landslögin skipa svo, að þótt eigi sè vitni til, ef «kona segist nauðug hafa legin verið, þá skal sverja hvort «þeirra, er líkra er til sanninda. Kom þar fram brèf og boð- «skapur tveggja skilríkra manna, skipherrans Hans Meyers og «kaupmanns Hans Benichs með þeim bænastað, að þessi «mann mætti komast á herra konungsins náðir og fá lífsgrið af «honum, ef það væri eigi á móti konungsins lögum; sagði «biskup Jón og þeir fleiri góðir menn. er þar voru á þinginu, «að þessi skipherra og kaupmaður hefðu siglt hingað mörg «sumur og aldrei gjört íslenzkum mönnum nokkur óskil eða «yfirvald, heldur hefðu þeir farið með rèttum kaupskilum. Því «að svo prófuðu máli, sem fyrir oss kom, dæmdum vèr nefnd- «um Iclis tylftareið, að hann hefði nefnda Herdísi eigi nauð- «uga legið, þó með því skilorði, að nefndir menn skipherra «Hans Meyer og kaupmaður Hans Benich með öðrum góðum «mönnum, löglega tilkvöddum af rèttinum, sanni þenna eið «með honum. Fallist honum þetta undanfæri, þá hafi hann «fyrirgjört fè og friði, landi og lausum eyri, en líf hans standi «til herra konungsins náða, hverja skipun hans Majestas vill «þar á gjöra, af að taka eða við að auka, og með því sè hann «flytjandi fram af landinu, að þessi fyrnefndur skipherra og «kaupmann setji fulla borgun fyrir með sínum innsigluðum «brèfum, að hans mál skuli fyrir herra konunginn koma innan «næstu 12 mánaða, svo hann hlaupist eigi undan lögum eða «gjöri nokkur óskil í Noregs ríki. En fyrir þær sakir, að það «var opinbert riktað og almennilega byggðar fleygt, að nefnd- «ur Iclis hefði viljað og tilburði til haft að gjöra svoddan «verk, sem fyr skrifað stendur, með mörgum konum móti þeirra «vilja, en svo stendur í landslagabókinni, að þótt kona geti «varið sig fyrir góðkvennsku sakir, svo að hann eigi geti kom- «ið vilja sínum fram, þá ber þó með engu móti, að hann missi

«refsing eptir dómi. Því dæmdum vèr, að höggva skyldi hinn «minnsta fingur af fyrnefndum Iclis, þótt hann gerði fyr sagða «undanfærslu. En ef hann gjörir eigi fyrgreint undanfæri, þá «skyldu höggvast tveir fingur af hans hægri hendi. En ef hann «eða nokkrir aðrir hans vegna vildu leysa þessa refsing, þá «skyldu þeir gjalda mega konungs umboðsmanni 3 merkur «fyrir hvern fingur, og skal hann sig svo í frið kaupa við herra «konunginn, sem hans náð og miskun er til. Hèr með dæmd«um vèr Herdísi Helgadóttur tvöfalt fullrètti, fimm merkur «fyrir þá þrúgun, er greindur Iclis gjörði henni svo stóran «hátíðs dag. Samþykkti þenna vorn dóm áðursagður konungs «umboðsmaður, og setti sitt innsigli með vorum innsiglum «undir þetta brèf, sem gjört var í Glaumbæ í Skagafirði á sama «ári og degi, sem fyr segir».

Hvert útfallið varð fyrir þessum Iclis, er dulið, en líkast er, að aðrir hafi komið fyrir hann fèbótum, svo eigi missti limu. Hvort Stígur hefir haft sýsluna að veitingu eða verið umboðsmaður Jóns biskups, er óljóst, eins hvað lengi hann hèlt Skagafjarðarsýslu, eða hvað fleira markvert eptir hann liggur, eða nær hann dó; þó má geta til, að Stígur hafi haldið sýslunni hálfri, til þess Oddur Gottskálksson við tók eða Páll Grímsson[1], sem flutti að Hofi á Höfðaströnd, eptir að hann sleppti Húnavatnssýslu; en 1549, 1550—52 Þorbergur Bessason.

## Oddur Gottskálksson.

*Faðir:* Gottskálk biskup hinn síðari Nikulásson[2], er gjörðist Hólabiskup 1499, en var áður 1487 orðinn prestur á Íslandi (af norskum aðli), hann fór til Noregs 1491, kom út 1492, var kjörinn til biskups á Hólum 1497, fór utan sama ár til Noregs, en kom út biskup 1499, dó 1520, hann kallaðist Gottskálk hinn grimmi.

---

1) Af Oddeyrardómi 1551 (sjá Vaðlaþing, bls. 200) sèst ljóslega, að Páll Grímsson hefir þá verið sýslumaður í Hegranesþingi.

2) Nikulás, faðir Gottskálks biskups, er sagður bróðir Ólafs biskups Rögnvaldssonar.

*Móðir:* Um hana er meiri vafi; nokkrir rita, að Guðrún, dóttir Eiríks Slónefs á Grund Loptssonar ríka hafi fyrst fylgt að lagi Gottskálki, og að hún hafi farið utan með honum til Noregs, og alið þar Odd. Aðrir rita, að honum hafi fylgt Valgerður, dóttir Jóns á Mannskaðahóli; getur það með því heim komizt, að Guðrún Eiríksdóttir hafi verið hans fyrri fylgikona, en Valgerður hin seinni; þá er þó í óvissu, hver börn Gottskálk biskup átti með hvorri þeirra, og má þar um hver ætla, sem vill[1].

---

1) Systur Odds lögmanns voru þær: Kristín, er 1508 átti Þorvarð lögmann Erlendsson, og Guðrún, er ætlaði að eiga Gissur biskup Einarsson, hèr um 1543. Kristín hefir víst verið elzt þeirra systkina, og getur eigi hafa verið dóttir Guðrúnar Eiríksdóttur, því hún og Þorvarður hefðu þá verið þrímenningar og eigi mátt eigast, en þar á móti hefir Valgerður verið móðir hennar. Af þessu leiðir aptur, að Valgerður hefir verið fyrri fylgikona Gottskálks biskups, en Guðrún hin síðari; þó virðist Eiríkur að hafa verið orðinn gamall, er hann átti Guðrúnu, er hún og sögð laundóttir hans; Guðrún hefir aptur verið móðir þeirra Odds lögmanns og Guðrúnar Gottskálksdóttur. Þetta er og samkvæmt eldgömlum ættartölublöðum, er hafa verið rituð um 1600, en sem allt ein göt voru dottin á; það, sem er millum sviga, er getgáta mín um það, hvað þar hafi staðið. Blöð þessi að því, er þetta snertir, hljóðuðu þannig:

«Þetta voru börn Lopts hins ríka á Möðruvöllum: Þor-«varður, hans dóttir 1. Guðríður, hennar (synir Þorvarður) og «Fúsi. 2. dóttir Þorvarðar, Ingi(björg), hennar afsprengur eng-«inn. 3. dóttir Þorvarðar (Ragnhildur), hennar synir: Erlend-«ur, Þorvarður, en dætur: Ragnhildur, I(ngi)björg, sem átti «Fúsi ríki á Borg. 3. dóttir (Ragnhildar) Hólmfríður, sem átti «Sæmundur Lángsson. Annar son Lopts hins ríka skilgetinn «var Eiríkur í Eyjafirði, var auknefndur Slónefur, hans s(on «Þorvarður), hans dóttir Guðrún, hennar synir: Þorvarður, «(Steinn). Laungetinn son Eiríks var Sumarliði, hans s(on «Sveinn) annar Eiríkur ábóti, en laundóttir Eiríks bónda var

*Kona* Odds var Þuríður stóra Einarsdóttir, sem fyrst fylgdi honum að lagi, en giptist honum seinna. Þessi Þuríður fylgdi fyrst að lagi síra Þórði Einarssyni í Hítardal, voru þeirra dætur Jórunn[1] og Þórunn[2]; síðan

---

«Guðrún Eiríksdóttir, en hennar börn: Guðrún og (Oddur) lög-«mann Gottskálksson; hans son (Pètur) Oddsson, natus Reykjum í «í Ölvesi 15 j(ulii eða unii) (orien eða occiðen) te sole, Aº 1543, «eodem anno fuit soror ejus .... tizata et ex Schalholtia ejecta, «qvod Ott(o erat) crux valida. Pètur giptist hèr á Íslandi ... «Helgu Torfadóttur frá Höfn í Melasveit, (átti með) henni 3 «börn, Odd, Þorleif og Guðrúnu, fór (síðan með) konu og börn-«um til Noregs og andaðist þar». Við þetta má athuga: 1. Hólmfríður Bjarnadóttir kemur eigi fyrir í ættartölubókum, sem eg hefi sèð, en það er þó vafalaust, að ein af dætrum Bjarna Marteinssonar hefir heitið svo, sjá Tímarit mitt 1. B., bls. 49; það virðist sem Sæmundur þessi hafi verið seinni maður hennar. 2. Er í mörgum ættartölum talið, að Eiríkur hafi átt 3 sonu, 2 skilgetna, Þorvarð og Þórodd, og 1 laungetinn, Sumarliða, og er þar Þóroddi talin dóttir Guðrún, og hennar synir taldir Þorvarður og Steinn; en það virðist auðsætt, að höfundurinn hefir eigi þekkt fleiri sonu Eiríks en tvo, annan skilgetinn, en hinn óskilgetinn; nú tel eg víst, að hann hefir þekkt Þorvarð, sem er alþekktur af heimreið sinni til Kross, og því talið hann og þá álitið, að Guðrún, móðir þeirra Þorvarðar og Steins, hafi verið dóttir hans, og það er og án efa hið sanna, að Eiríkur hefir eigi átt annan son skilgetinn, sízt er afkvæmi hefir átt, en Þorvarð, því arfurinn eptir Eirík fèll til sonum Sumarliða, er eigi hefði verið, ef Eiríkur hefði átt aðra skilgetna afkomendur en Þorvarð, en Þorvarður, sem annar óbótamaður, hafði fyrirgjört erfðarètti sínum; þar á móti getur það vel hafa verið, að Þorvarður hafi átt son, er hafi heitið Þóroddur.

1) Jórunn dóttir síra Þórðar í Hítardal og Þórunnar stóru Einarsdóttur, átti Þórð lögmann Guðmundsson.

2) Þórunn átti síra Finnboga Gíslason á Hofi í Vopnafirði.

fylgdi hún síra Sigmundi biskupsefui, þeirra dóttir var Katrín[1]; svo fylgdi hún Oddi Guttskálkssyni og giptist honum seinna algjörlega; þeirra

*Son:* Pètur; þá er hann var orðinn fulltíða, giptist hann Helgu, dóttur Torfa Brandssonar í Höfn í Melasveit og Ástríðar Eiríksdóttur, systur Einars á Hvanneyri. Pètur fór með konu sinni til Noregs, að kalla til arfs eptir Guttorm lögmann afabróður sinn; en aðrir frændur hans þar höfðu tekið arfinn. Pètur náði ekki fènu, og dó í Noregi, og átti þá eptir sig tvö börn; Helga ekkja hans kom til Kaupmannahafnar 1608.

Oddur Gottskálksson er borinn í Noregi fyrir 1500 (um 1498), kom faðir hans honum til fósturs hjá bróður sínum, Guttormi Nikulássyni lögmanni í Björgvín í Noregi. Oddur tjáist að hafa komið til Guttorms lögmanns, þá er Oddur var 6 vetra, og verið undir hans umsjón til fulltíða aldurs. Guttormur setti Odd þar í skóla hjá skólameistara Magister Gebelius Pèturssyni, er þar (○: í Björgvín) varð síðar biskup, og hinn fyrsti lutherskur; þar fræddist fyrst Oddur um hinn nýja sið; þaðan hyggja menn að hann hafi farið til Þýzkalands, og styrkzt betur í lærdómi Luthers, og síðan til Íslands, og komst seinast í þjónustu hjá Ögmundi biskupi. Þormóður í Bræðratungu, sem kom til veru hjá Oddi 17 vetra gamall árið 1565, hefir sagt nokkuð öðruvísi Oddi biskupi Einarssyni, hvað Jón prófastur Halldórsson hefir innfært í prestaannál sinn (sjá þar Reykholt). Þegar Oddur var kominn til veru í Skálholt, tóku þeir sig saman síra Gísli Jónsson, Gissur Einarsson, sveinn Ögmundar biskups, og Oddur ráðsmaður Einarsson, er allir unnu hinum nýja sið, að lesa biblíuna og rit Luthers, en Oddur, sem líklega hefir verið bezt að sèr í tungumálum, tók til að útleggja ýmislegt þar af á íslenzku, og hèlt því líka seinna fram, eptir áeggjun Gissurar biskups; þessar bækur ber flestum saman um að Oddur hafi útlagt:

---

1) Katrín Sigmundardóttir átti Egil Einarsson, bónda á Snorrastöðum í Grímsnesi.

1. Nýja Testamentið af þýzku eptir Luthers útleggingu (er mælt, að hann hafi þar með byrjað í fjósinu í Skálholti, hvar hann hafi látið gjöra sèr pall, því ekki mátti Ögmundur biskup það vita). Það var prentað í Hróarskeldu 1540.
2. Luthers minni catekismus, prentaður 1594.
3. Corvíní postilla, prentuð í Rostoch 1546.
4. Ejusdem Antonii Corvini predikanar prentaðar á Breiðabólstað í Vesturhópi, in 4to 1559.
5. Píníngar historía Kristí með hans upprisu historíu samanskrifuð á Reykjum í Ölvesi 1545.
6 Jerúsalems eyðilegging, og margar lögmáls- og lærdómsgreinir á norrænu útlagðar og prentaðar í Kaupmannahöfn 1558.

Oddi var og eignuð útlegging yfir Jónam spámann og yfir Eliæ 53 kapítula, prentað í Kaupmannahöfn.

Eptir það að Gissur biskup hafði tekið við Skálholti, gjörði Oddur bú á Reykjum í Ölfusi með Þuríði stóru og átti þar með henni Pètur. 1545 fór Oddur utan og lèt prenta Píningarhistoríuna og fleira; hann kom út 1546 með bækur sínar, þá veitti Gissur biskup honum Reykholt, og hèlt Oddur þar prest til messugjörða, en flutti sig þangað sjálfur 1547; er og ritað, að honum einnig hafi verið veittir Melar í Borgarfirði, hafi hann þar og haldið prest til að þjóna brauðinu og gipt sig um þær mundir. 1549 gjörðist hann og sýslumaður í Þverárþingi. 1550 dæmdi hann með 6 dómsmönnum að Kjalardal um lausamenn; sama ár lèt hann og dóm ganga að Þingnesi, var hans dómur samþykktur af Erlendi lögmanni. 1553 fèkk Oddur Reynistaðarklaustur og Hegranessýslu. 1554 varð hann lögmaður norðan og vestan eptir Orm Sturluson; það ár rita og sumir að hann hafi tekið Húnavatnsþing eptir Orm, en eigi er það fullvíst (sjá Húnavatnsþing). 1554, mánudaginn næstan eptir Díónysíusmessu að Bólstaðarhlíð nefnir Oddur í dóm Gísla Jónsson, Guðmund Skúlason, Erlend Jónsson, Jón Gíslason, Odd Halldórsson og Ásgrím Þorsteinsson um hestgrip, sem Þórður Guðmundsson dóms á beiddist, þá síra Guðlaugur hafði, óafvitandi Þórði, gripið hest hans og lèð Gert bartskera suður í sveitir. Dæmdu dómsmenn síra Gunn-

laug sekan eyri fyrir hverja viku sumars í vinnumissi, en hálfan eyri um viku á vetri, svo lengi sem hann hefði hestinum órèttilega haldið, þar að auki fullrètti Þórðar, og prest skyldan að færa aptur til Þórðar hest hans, en borga konungi 4 aura, svo framt hann eigi hefði lýst hestinum að lögum.

1554, miðvikudaginn fyrir Lárentíusmessu um sumarið í Spjaldhaga í Eyjafirði, að skipun Knúts hirðstjóra Steinssonar, nefnir Oddur lögmaður í dóm Jón Magnússon, Grím Þorleifsson, Gunnar Gíslason, Einar Brynjólfsson, Þorberg Bessason, Jón Einarsson, Þorstein ....., Hall Egilsson, Guðmund Nikulásson, Teit Magnússon, Ásgrím Jónsson og Odd Halldórsson til að dæma um kærumál síra Torfa Jónssonar til síra Odds Þorsteinssonar[1], að hann hefði svikið síra Torfa í allri trú og lokkað hans ómaga til samlags við sig með göldrum, sem sè Arnfríði Torfadóttur; dæmdu dómendur, ef síra Oddur gyldi eigi ráðspjöll, skyldi skera af honum bæði eyrun; í rèttarfar skyldi hann lúka 20 hndr.; hann skyldi útlægur af fjórðungi alla æfi; hann skyldi og missa aðra höndina. Þenna harða dóm, er víst var lögmannsdómur Odds, mýkti höfuðsmaðurinn Knútur Steinsson, gaf síra Oddi limu sína; varð síra Oddur þar eptir prestur í Tröllatungu, og lifði nálægt 40 árum þar eptir.

1555 að Vík í Skagafirði dæmir Oddur lögmaður sem sýslumaður Arnfríði nokkra seka fyrir það, að hún hafði vistast hjá 2 mönnum í senn, til að þola 6 vandarhögg, en lúka þeim, er hún hafði hlaupið frá úr vist, svo mikið sem hún átti í vinnuskyldu að hafa. 1555, mánudaginn næsta fyrir Úrbanímessu á Sauðá í Sæmundarhlíð lætur Oddur Halldórsson í umboði Odds lögmanns Gottskálkssonar ganga 6 manna dóm um rekaþjófa. 1556 laugardaginn næstan fyrir Jónsmessu Hólabiskups lætur Oddur Gottskálksson 12 manna dóm ganga að Víðivöllum með tilnefndum dómsmönnum, Jóni Grímssyni, Páli Grímssyni, Gottskálki Thómassyni, Gunnari Gíslasyni, Bjarna Skúlasyni, Erlendi Jónssyni, Filippusi Ólafssyni, Árna

1) Síra Oddur var launsonur Þorsteins Guðmundssonar á Grund, seinasta manns Þórunnar, dóttur Jóns biskups Arasonar.

Gíslasyni, Árna Þóroddssyni, um þá ákæru, er Ólafur Hólabiskup hafði til Jóns Finnbogasonar, að hann hefði ólöglega að sèr tekið og ásezt Hólakirkjujarðir, Ósland og Illugastaði í Fljótum, en biskup tapaði því máli.

1556, þriðjudaginn eptir Jónsmessu Hólabiskups lætur Oddur Gottskálksson 6 manna dóm ganga á Seilu um ómagann Björgu Hallsdóttur, sem þá var dæmd á Seilu- og Rípur hreppa. 1556, mánudaginn fyrir Tiburti et Valeriani að Hofi á Höfðaströnd lætur Þorbergur Bessason í umboði Odds lögmanns Gottskálkssonar ganga 6 manna dóm um skattgjald yngra manns en tvítugs. Dæma þeir þá alla skylda skatt að gjalda, hvort ungir eru eða gamlir, myndugir eða ómyndugir, ef þeir eiga fè til eptir lögum, svo 15 vetra gamall maður sem ómagi, eptir rèttarbót Hákonar konungs, þá umboðsmaður svarar fyrir ómaga. Um atburði við drukknun Odds lögmanns í Laxá í Kjós þetta ár 1556, sjá Árb. 4. þ. kap. 16. Skrifað er, að Oddur lögmaður hafi verið mjög forspár um marga hluti óorðna, eins um dauða sinn, og telur Jón prestur Egilsson þar upp á nokkur dæmi.

Eptir þeirrar aldar máta hefir hann verið lærður maður og iðinn við útleggingar, fram fylgdi og af alefli Luthers lærdómi, hafði því hylli höfuðsmanns og biskups, svo Gissur biskup veitti honum, sem áður segir, beneficia, en Eggert Hannesson, er þá var í hirðstjóra stað, sýslu og klaustur. Oddur var hár maður vexti og hafði gildleik eptir hæð, fríður í andliti, hafði ör hjá vinstra auga, sem lýtti hann nokkuð; hafði Ólafur í Dal, faðir Markúsar, stungið hann með pukk saklausan á hans yngri árum, varð örið nokkuð ljótt. Þuríður stóra kona hans lifði eptir hann 5 vetur. Ekki vildi Oddur vígslu taka, þótt hann væri þess beiddur af biskupunum P. Palladio og Gissuri; var hann samt einhver hinn nytsamasti maður á sinni tíð með lærdómi sínum. Þormóður Ásmundsson, er var í Bræðratungu, og áður er umgetið, hefir, þá er hann var 74 ára gamall, sagt Oddi biskupi, að Oddur Gottskálksson hafi frá Noregi komið til Íslands til föður síns, Gottskálks biskups, og verið hjá honum litla hríð, farið svo utan til Noregs (það hefir verið kynnisför). Síra Jón Egilsson gjörir mikið af bókasafni Odds

lögmanns. að hann hefði átt stóra kistu, sem taka mundi tuttugu vættir smjörs, fulla af skrifuðum bókum.

Þórður lögmaður Guðmundsson, sem tók Þverárþing eptir Odd lögmann, tók og að sèr umsjón Pèturs, sonar Odds, og í því skyni líka Reykholt, sem Oddur hafði haldið ásamt öðrum veitingum yfirmannanna til síns dánardægurs. Þórður lögmaður var þá og giptur Jórunni hálfsystur Pèturs.

## Um Reynistað.

1259 keypti Gissur jarl Reynistað af Páli Kolbeinssyni og bjó þar síðan í náðum eptir það, að hann lèt drepa Þórð Andrèsson 1264. Gissur varð kanúkur 1267, hèlt þá veizlu Jörundi biskupi; þá yfirtalaði biskup hann að gefa sig í Viðeyjarklaustur, en gefa Reynistað til klausturs; sjúkleiki Gissurar viðhèlzt, svo hann dó þar af 12. janúar 1268, og var grafinn í Reynistaðarkirkju. Jörundur biskup tók þá Reynistað, leigði hann yfir 20 ár, enn setti þar nunnuklaustur 1295, og fèkk marga auðuga menn að gefa klaustrinu; hèlzt það við til þess nýi siðurinn fèkk viðgang. Pètur fógeti Einarsson tók 1552 klaustrið með 16 rd. species afgjaldi og að forsorga Solveigu abbadís og nunnurnar. Eptir eitt ár sleppti Pètur því, en Oddur Gottskálksson tók það (og Skagafjarðarsýslu) 1553 til 1556. 1557 tók það Gunnar Gíslason og galt meira eptir það, sem sè 30 rd. species. 46 voru jarðir með því.

## Þorbergur Bessason.

*Faðir:* Bessi Hrólfsson Þorsteinssonar.
*Móðir:* Halldóra Þorbergsdóttir.
*Kona:* Helga dóttir Sigurðar sýslumanns Finnbogasonar, sjá hèr að framan.
*Börn:* A. Sigurður átti Þóru dóttur Ara lögmanns Jónssonar, sjá Vaðlaþing[1], þeirra börn:

---

1) Bls. 182.

1. Jón í Kristnesi átti Guðríði Torfadóttur[1], þeirra börn:
   a. Síra Sigurður á Helgafelli[2].
   b. Þóra átti Pál landskrifara Gíslason.
   c. Þórkatla átti Björn Hákonarson[3].
2. Ari.
3. Þorleifur.
4. Þorbergur.

B. Ísleifur yngri Þorbergsson giptist 1584 Ingibjörgu Gunnarsdóttur Gíslasonar, taldi Ísleifur sèr 1 hundrað hundraða og LL hundruð, en Gunnar bóndi dóttur sinni 1 hndr. hundraða. Ísleifur gaf í löggjöf LX hndr. og fjórðungsgjöf: þessi Ísleifur var lögsagnari Jóns sýslumanns Björnssonar í Hegranesþingi, og ljet 1594 ganga framfærsludóm um þá fáráðu konu, Guðrúnu Ólafsdóttur. Ísleifur bjó á Hofi á Höfðaströnd; hann var mikill maður og vitur. Dóttir Ísleifs Þorbergssonar var Guðfinna kona Eiríks í Djúpadal, er var sonur Magnúsar Björnssonar á Melstað officialis Jónssonar biskups Arasonar; þeirra börn:
   a. Magnús í Njarðvík maður Guðrúnar Jónsdóttur Oddssonar[4]; þeirra börn:
      α. Síra Eiríkur í Vogsósum.
      β. Þórdís[5].

---

1) Torfi, faðir Guðríðar, var á Kirkjubóli í Langadal, og sýslumaður í Ísafjarðarsýslu, sjá þar um hann.

2) Síra Sigurður átti Ólöfu dóttur Jóns lögmanns Sigurðssonar á Reynistað.

4) Björn Hákonarson var bróðir Guðmundar sýslumanns Hákonarsonar á Þingeyrum og bjó á Bakka í Yxnadal.

4) Jón Oddsson bjó í Reykjavík á Seltjarnarnesi, og var seinni maður Þórdísar dóttur Henriks Gerhans Hannessonar; meðal annara barna áttu þau 2 Guðrúnar, hin yngri þeirra var sú, er átti Magnús í Njarðvík.

5) Þórdís giptist ekki, en átti launbarn.

γ. Sigurður.
δ. Þuríður.
ε. Halldóra[1].
η. Jón[2].
b. Sigurður á Þorleifsstöðum átti Guðrúnu Stefánsdóttur[3]; þeirra börn:
α. Stefán[4].
β. Eiríkur[5].
γ. Sesselja[6].
δ. Guðrún[7].
ε Þórdís[8].
c. Gísli[9] á Silfrastöðum faðir Guðmundar í Flatatungu.

---

1) Halldóra átti síra Pál Árnason á Kolfreyjustað.

2) Jón Magnússon á Reykjarhóli í Fljótum; hann var tvígiptur, og átti börn með báðum konunum, af honum var síra Jón Oddsson Hjaltalín kominn að langfeðgum.

3) Stefán faðir Guðrúnar var síra Stefán Halldórsson á Nesi við Seltjörn.

4) Stefán bjó á Mælifellsá í Skagafirði og var seinni maður Þorbjargar, dóttur síra Ara Guðmundssonar á Mælifelli.

5) Eiríkur sigldi, kom eigi aptur.

6) Sesselja var sèrlunduð, bjó einsömul, gjörði mörgum gott.

7) Guðrún giptist ekki, átti 3 launbörn.

8) Þórdís átti Jón son Jóns smiðs á Svínavatni Jónssonar og Halldóru Jónsdóttur.

9) Gísli var efnagóður bóndi, átti Arndísi, dóttur Jóns brita á Hólum, sonar Össurar Jónssonar, er bjó á Framnesi og Þverá í Skagafirði; þeirra börn:

α. Guðmundur í Flatatungu drykkjumaður, átti Guðrúnu, dóttur Jóns í Flatatungu Sigurðssonar.

β. Magnús lögrèttumaðir, en svallari, átti Gróu Aradóttur frá Mælifelli.

γ. Jón Gíslason laungetinn, átti Halldóru Jónsdóttur Ólafssonar rauðskeggs, barnlaus.

d. Ólafur í Djúpadal átti Þóru Sturludóttur[1]; börn:
α. Guðrún[2].
β. Sturla[3].
e. Ingibjörg átti Þórð Erlendsson[4].
f. Þorbjörg[5].
g. Þuríður[6].
h. Guðrún[7].

C. Þorbjörg Þorbergsdóttir giptist Grími Jónssyni á Reynistað 1580; þessi Grímur komst í útlegðarmál 1598—1599 og flúði í Hólakirkju, hann var náðaður og fèkk landsvist; þeirra börn:
a. Margrèt[8].
a. Kristín[9].
c. Ólafur.
g. Jón[10].

D. Þuríður Þorbergsdóttir, átti Ásmund, launson Þorsteins Guðmundssonar, seinasta manns Þórunnar á Grund, þeirra börn:
a. Síra Þorsteinn í Vesturhópshólum[11].

---

1) Þóra kona Ólafs var systir síra Böðvars Sturlusonar á Valþjófsstað.

2) Guðrún átti Ólaf Þorláksson í Hèraðsdal.

3) Sturla dó barnlaus. Enn var laundóttir Ólafs:
γ. Þórdís átti Guðmund Sigurðsson Þorfinnssonar daufa á Skinnþúfu.

4) Þórður Erlendsson var á Suður-Reykjum í Mosfellssveit.

5) Þorbjörg giptist ekki og átti ekki barn, bjó lengi í Djúpadal, dó 83 ára 1698.

6) Þuríður giptist ekki.

7) Guðrún giptist, var barnlaus.

8) Margrèt átti Ingimund Bessason.

9) Kristín átti Eirík Jónsson frá Stafholti.

10) Jón í Brenniborg átti Guðrúnu Stígsdóttur prests á Miklabæ.

11) Kona síra Þorsteins var Margrèt dóttir Bjarna í Skriðu Pálssonar Grímssonar.

b. Síra Þorbergur, kirkjuprestur á Hólum[1].

c. Ingibjörg[2].

Er mjög mart manna komið af Þorbergi sýslumanni. Þorbergur gjörðist sýslumaður í Vaðlaþingi eptir Ísleif 1548 og sleppti því 1550, er Þorleifur Grímsson tók þar sýsluvöld. Þorbergur lèt 12 manna dóm ganga á Spjaldhaga 1549 um peninga Ísleifs sýslumanns Sigurðssonar og afgreiðslu mála og tilgjafar Þórunnar á Grund; í þeim dómi var Þorbergur dæmdur svaramaður Þórunnar, en Þórunni máli sinn og tilgjöf 60 hndr., og innlausn á Grund með því verði, sem henni og Þorbergi umsemdi.

Þorbergur tók Hof á Höfðaströnd til umráða 1549 en sleppti því 1555. 1550 lèt Guðmundur Nikulásson, í umboði Þorbergs, dóm ganga um Grím tvídauða, sjá Barðarstrandarsýslu. 1551 er Þorbergur talinn lögrèttumaður í Oddeyrardómi, og mun hann þá hafa verið valdalaus. 1556 er Þorbergur fullmegtugur Odds lögmanns Gottskálkssonar í Skagafjarðarsýslu, sem fyr segir. 1556 lætur Þorbergur dóm ganga að Skriðu í Hörgárdal um mannjöfnuð Staðarhóls-Páls og Helgu Aradóttur, því Þorleifur Grímsson var þar við flæktur, sjá Ísafjarðarsýslu. 1557 kallast Þorbergur konungs umboðsmaður i Skagafjarðarsýslu í tveim dómum Ólafs biskups Hjaltasonar; gekk hinn fyrri á Eyrarlandi nálægt krossmessu um vorið, hvar úrskurðaðist, að síra Þorsteinn Hallsson á Mælifelli skyldi taka við þeim þremur jörðum, sem Magnús Jónsson hafði, sem Hólastaða ráðsmaður, til forráða haft. Í hinum að Stóru-Ökrum var úrskurðað, að biskup væri ekki skyldur að fá prestum leigulausar jarðir. 1557 hefir þó Gunnar Gíslason og svo látið dóm ganga í Hegranesþingi, sjá hèr síðar. Meining er sumra, að Þorbergur hafi haldið Hegranessýslu að minnsta kosti hálfri til 1565, þó aðrir hafi þau árin jafnframt látið þar dóma ganga. 1569 í dómi Benidikts Halldórssonar er Þorbergur fyrsti dóms-

---

1) Kona síra Þorbergs var Guðrún Þorláksdóttir Hólaráðsmanns.

2) Ingibjörg varð tvígipt.

maður og nefnist þá lögrèttumaður. Þorbergur sýslumaður hefir búið á Hofi á Höfðaströnd, annaðhvort ásamt eða fyrir Pál Grímsson, því árið 1613 útgefur Bjarni Sturluson þann vitnisburð, að hvorki Páll Grímsson nè Þorbergur Bessason sýslumenn hafi eignað sèr Unudals afrètt, meðan á Hofi bjuggu. Líkur eru til af þessu, að Páll Grímsson hafi tekið Hegranesþing eptir Jón biskup Arason, en Stígur eigi haft sýsluveitinguna, þótt hann gjörði sýslumanns verk. 1573, á Jakobsmessu, seldi Björn prestur Gíslason Þorbergi bónda Bessasyni Mýri í Bárðardal fyrir Káltborgará fremri þar í sveit. Óljóst er, nær Þorbergur dó. Helga[1] kona hans lifði lengur og gaf Þórunni Jónsdóttur á Grund prófentu sína og í hana virt 40 hndr., 15 málnytukúgildi, 20 hndr. í geldum nautum og sauðum, 5 hndr. í köplum; skyldi Helga hafa öl, nær hún vildi og 3 rètti daglega, þjónustukonu og 2 hús. Samþykkti þetta Þorsteinn Guðmundsson, maður Þórunnar.

### Tumi Þorgrímsson á Skíðastöðum[2].

*Faðir:* Þorgrímur Jónsson Jónssonar og Ástríðar Þorkelsdóttur á Steinum.

---

1) Það sem hèr er sagt, að Helga Sigurðardóttir, kona Þorbergs Bessasonar, hafi gefið Þórunni á Grund prófentu sína, þá er það víst eigi rètt, heldur var það Helga Sigurðardóttir, móðir Þórunnar, er gaf henni prófentu sína, með líkum skilmálum og hèr segir, sjá Tímarit mitt, 4. B., bls. 81 og 82.

2) Það, sem hèr er fyrst sagt um föðurætt og móðurætt Tuma Þorgrímssonar, er með öllu skakkt, þótt svo standi í ýmsum ættartölubókum; og er hægt, að sannfæra sig um það, þegar gætt er að því, að þeir Tumi Þorgrímsson og Þormóður Arason, sem hèr er talinn langafafaðir Tuma, voru samtíða uppi, sem sjá má af því, að þeir voru báðir í Oddeyrardómi 1551. Auk þessa hèt maður Þóru, dóttur Tuma Magnússonar, Þorgeir, en ekki Þorgrímur; þar á móti mun það með öllu rètt, er hèr stendur síðar um ætt Tuma, að faðir hans hafi verið Þorgrímur Guðmundsson, hann var með á Oddeyri að vinna

*Móðir:* Þóra Tumásdóttir Magnússonar á Arnbjargarlæk og Guðrúnar Guðnadóttur Þormóðssonar sýslumanns Arasonar Guðnasonar í Ögri. (NB. Önnur ættartala segir: Faðir Tuma var Þorgrímur Guðmundsson, en móðir Margrèt Finnbogadóttir; bróðir Tuma var síra Þorsteinn Þorgrímsson).

*Kona:* Sigríður Magnúsdóttir Björnssonar á Reykjum í Tungusveit og Sigríðar Grímsdóttur lögmanns Jónssonar á Ökrum. Þau Tumi giptust 1550, mánudaginn fyrir Mikjalsmessu á Reykjum í Tungusveit; kaupvottar: síra Guðmundur Björnsson, síra Gísli Sigurðsson, síra Þorsteinn Gunnarsson, Ólafur Ormsson, Ólafur Filippusson (þetta eptir kálfskinnsbrèfi).

*Börn:* A. Oddur átti Helgu dóttur síra Gottskálks í Glaumbæ, þeirra börn:

1. Síra Gottskálk í Mýrdal, átti fyr Jóhönnu barnsmóður Einars Þormóðssonar í Bræðratungu; missti embættið fyrir hórdómsbrot; svo Þórunni Ormsdóttur Jónssonar frá Skúmstöðum, þeirra dóttir:

---

konungi hyllingareyðinn, og móðir Margrèt Finnbogadóttir, systir þeirra Rögnu og Unu, en þær voru eigi dætur Finnboga lögmanns, þótt sumir hafi talið svo, heldur Finnboga Jónssonar, er átti Margrèti, dóttur Halldórs Brandssonar á Barði í Fljótum, sjá Þingeyjarsýslu, bls. 36 og bls. 27. Til enn meiri fullvissu um það, sem þar stendur, að Finnbogi þessi hafi verið kominn af Þorsteini lögmanni Eyjólfssyni, má geta þess, að af fornum brèfum virðist það augljóst, að Finnbogi hefir átt Grund í Svarfaðardal — fargaði Jón sonur hans henni fyrir Syðri-Bægisá — en Þorsteinn segir í testamenti sínu, að það sè bezta jörðin, er hann eigi norðanlands, sjá Tímarit mitt 2. B. bls. 116. Grund hefir þannig gengið frá Þorsteini til Arnfinns sonar hans, frá Arnfinni til dóttur hans Steinunnar, og frá Steinunni til sonar hennar Finnboga.

a. Hallgerður átti síra Snorra Jónsson[1], þeirra son:
a. Jón[2].
2. Sigurður í Svartárdal átti Engilráðu Jónsdóttur Grímssonar[3] á Brenniborg og Guðrúnar Stígsdóttur, þeirra börn:
a. Jón.
b. Helga; þau urðu fátæklingar.
c. Jón annar Sigurðsson, laungetinn.
3. Magnús Oddsson var í Eyjafirði, ógiptur.
4, Helga[4] átti Steindór Arason, bróður Guðmundar í Flatatungu.
5. Kristín átti Arnfinn Jónsson Arnfinnssonar í Hlíð í Skagafirði og Þuríðar Magnúsdóttur.

B. Björn Tumason átti Ingibjörgu, dóttur síra Gottskálks í Glaumbæ, börn:
1. Sigríður átti Tómas Arason; þeirra börn[5]:
a. Markús.
b. Ólafur.

---

1) Síra Snorri var prestur á Mosfelli í Grímsnesi.
2) Jón Snorrason átti Sesselju af danskri ætt.
3) Sjá um hann hèr að framan.
4) Hún nefnist af mörgum Herdís.
5) Aðrir telja börn Sigríðar og Tómasar, er mun vera rèttara:
a. Ólafur, barnlaus.
b. Árni átti Guðrúnu Ásgrímsdóttur.
c Karítas, af henni var kominn Sigurður Árnason í Höfnum á Skaga, faðir Árna, sem nú er þar.

Enn var sonur Björns og Ingibjargar, þau bjuggu á Álfgeirsvöllum:
2. Sigurður, hann átti Þorgerði Aradóttur, systur Guðmundar í Flatatungu; þeirra börn:
a. Ari fór um landið með sögur, barnlaus.
b. Björn átti Steinunni Þorkelsdóttur frá Egilsá.

C. Guðrún (aðrir Guðný) átti síra Jón í Hvammi Gottskálksson prests í Glaumbæ, hún dó vestur í Krossnesi; þeirra börn:
1. Ragnheiður seinni konu Runólfs Sigurðssonar[1]; börn:
a. Ragnhildur[2].
b. Þorvarður[3].
c. Jón[4].

---

c. Markús ógiptur, barnlaus.
d. Helga eldri átti Þorlák Jónsson. bróður Björns á Búströðum.
e. Helga yngri ógipt, barnlaus.
Síðan átti Sigurður Margrèti Árnadóttur frá Fossi á Skaga, þeirra börn:
f. Ólafur sigldi, barnlaus.
g. Tómas átti Ástríði Árnadóttur Guðvarðssonar; þeirra börn:
α. Jón.
β. Ingibjörg.
γ. Helga.
δ. Guðrún.
h. Arni átti Höllu Ólafsdóttur, þeirra börn:
α. Jón.
β. Ástríður.

1) Runólfur var son Sigurðar í Einarsnesi Jónssonar og Ragnhildar Asgeirsdóttur frá Lundi.

2) Ragnhildur átti Ólaf Sveinsson á Bæjum á Snæfjallaströnd, þeirra son:

Runólfur á Bæjum átti Þóru dóttur Jóns Sigurðssonar í Einarsnesi.

3) Þorvarður á Leikskálum átti Þórunni Eggertsdóttur Hannessonar og Halldóru Hákonardóttur; hann var nafnkenndur, brennivínsmaður mikill og óróasamur, reið eitt sinn í Haukadalsvatn (ætlaði að láta synda til Fríðu) og drukknaði.

4) Jón og Solveig voru börn Runólfs en ekki börn Ragnheiðar, heldur hèt móðir þeirra Elín Guðmundsdóttir.

d. Sigurður[1].

2. Tómas[2] eða Tumi átti Ingunni dóttur Jóns á Draflastöðum; þeirra börn:

a. Magnús[3].

b. Karítas.

c. Steinunn[4].

d. Ragnhildur.

3. Magnús giptist ekki og dó barnlaus.

4. Oddur[5].

5. Gottskálk prestur í Fagranesi, dó 1660, átti Sesselju, dóttur síra Ólafs á Stað í Steingrímsfirði[6].

Tumi er í alþingisdómi Eggerts hirðstjóra Hannessonar

---

1) Sigurður, son Runólfs og Ragnheiðar, bjó á Sauðafelli, hann átti Halldóru dóttur Jóns Árnasonar silfursmiðs á Narfeyri og Þórunnar Pètursdóttur; þeirra börn:

α. Ormur á Oddastöðum eða Svínahóli átti Oddnýu Símonardóttur Bjarnasonar og Sesselju Þorgeirsdóttur Ólafssonar prests Brandssonar Einarssonar; Símon átti bróðir, er Svarthöfði hèt, en var ekki son Svarthöfða Bjarnasonar, sem sumir segja; eins telja sumir, en víst með öllu ranglega, konu Símonar Margrèti Jónsdóttur Gottskálkssonar.

β. Halla átti Jón Jónsson á Hróðnýjarstöðum.

2) Tumi Jónsson átti Ey á Skagaströnd og bjó þar, kona hans var Ingunn dóttir Jóns á Draflastöðum silfursmiðs.

3) Magnús dó barnlaus.

4) Steinunn átti Eyjólf Þórðarson Sigurðsson frá Vatnsenda í Skorradal.

5) Oddur átti Arnfríði dóttur Jóns á Draflastöðum og Solveigar Pètursdóttur.

6) Þótt sumir telji síra Gottskálk í Fagranesi þannig til ættar, þá held eg, að það sè mjög óvíst, hvort það er rètt.

Enn var dóttir Guðnýar og síra Jóns:

6. Kristín kona síra Jóns Magnússonar á Ljósavatni; hún átti þá jörð. en hann Krossanes í Eyrarsveit.

1552 um banamenn Kristjáns hirðstjóra og þá talinn með lögrèttumönnum. Í alþingisdómi Odds lögmanns Gottskálkssonar segist hann 1554 vera umboðsmaður Jóns Finnbogasonar og síra Einars Magnússonar[1] til að sækja arf eptir Halldór Brands-

1) Eg hefi ekki sèð þennan alþingisdóm frá 1554, en það er auðsætt, að þetta ágrip af honum er ekki rètt; síra Einar Magnússon átti ekki Ingibjörgu dóttur Halldórs Brandssonar, heldur var hann sonarson Halldórs, en Magnús faðir hans var óskilgetinn — það er skakkt, er stendur í Árbókunum, að þessi síra Einar sè sèra Einar, sonur Magnúsar Björnssonar á Reykjum — síra Einar þóttist vera ættleiddur, og það tók Gottskálk biskup gilt, og áleit því, að hann ætti að taka arf móts við systur sínar, og keypti því af honum jarðir, er Halldór hafði átt; nú hefir dómur gengið á alþingi, sem hèr segir, um erfðarètt síra Einars eptir afa sinn Halldór, og þeim systrum Margrèti og Ingibjörgu þar þá verið dæmdur allur arfurinn eptir hann, nema ef síra Einar sannaði ættleiðingu sína, þá skyldi hann taka arf, sem dóttir. Nú hefir síra Einar eigi sannað ættleiðingu sína, og Jón Finnbogason, sonur Margrètar Halldórsdóttur, því tekið að sèr jarðir þær (Ósland og Illugastaði í Fljótum), er Gottskálk biskup hafði keypt af síra Einari. Yfir þessu klagaði Ólafur biskup Hjaltason fyrir Oddi lögmanni Gottskálkssyni, er þá var og sýslumaður í Skagafirði; nefndi þá Oddur 12 menn í dóm á Víðivöllum í Skagafirði laugardaginn næsta fyrir Jónsmessu Hólabiskups; mætti Jón Finnbogason ekki, því hann lá veikur, heldur Tumi Þorgrímsson, systursonur Jóns. Í dómi þessum er þess getið, að alþingisdómur áður hafi fallið í málinu og að Oddur lögmaður hafi samþykkt þann dóm; dómsmenn dæmdu nú, að Jón Finnbogason hefði rèttilega mátt að sèr taka jörðina Ósland og síra Einar skyldan að færa lögleg vitni með svörðum bókareiðum þau, er það bæri, að þau hefðu sèð, heyrt og yfirlesið hans ættleiðingarbrèf með heilum og ósköddum hangandi innsiglum o. s. frv.; skyldu þessi vitni leidd hið síðasta fyrir Mikjalsmessu þá um haustið fyrir lögmanninum sjálfum,

son, hvers dóttir var ektakvinna síra Einars; dæmdu dómsmenn, er voru: Þormóður Arason, Páll Grímsson, Oddur Ásmundsson, Guðmundur Skúlason, Jón Gíslason og Loptur Guðmundsson, systrunum Margrèti og Ingibjörgu Halldórs dætrum allan arf eptir föður sinn og móður; en síra Einar, nær hann sannaði sína ættleiðingu, skyldi erfa það, er faðir hans stóð til, jafnt við eina dóttur Halldórs Brandssonar. 1562, fimmtudaginn næsta fyrir tveggja postula messu um vorið við Vallnalaug, á almennilegu þriggja hreppa þingi, eru í dóm nefndir af ærlegum manni Tuma Þorgrímssyni, konungsumboðsmanni í Hegranesþingi, Gottskálk Tumason, Eyjólfur Arngrímsson, Magnús Gunnsteinsson svarnir lögrèttumenn, Grímur Einarsson, Guðmundur Magnússon, Óttar Eyvindsson, bændamenn, að úrskurða, hvar ómagarnir, börn Daða heitins Steingrímssonar og Helgu Þorláksdóttur, skyldu framfærast að lögum. 1572 vitnar Tumi Þorgrímsson um þær jarðir, sem systur Jóns Finnbogasonar fengu í heimanmund úr föðurgarði. Tumi hefir verið lögrèttumaður í heldra gildi og um tíma haft sýslu í Skagafirði um 1562 og þar eptir. Hvenær hann hefir andast, eða hvað fremur gjört sem sýslumaður, er mèr dulið. Máske að hann eigi hafi verið annað, en umboðsmaður Þorbergs.

## Gunnar Gíslason

*Faðir:* Gísli Hákonarson á Hafgrímsstöðum í Skagafirði Hallssonar, Sveinssonar, Jónssonar Langs[1].

*Móðir:* Ingibjörg Grímsdóttir (systir Þorleifs á Möðruvöllum) Pálssonar, Brandssonar; móðir Ingibjargar: Helga Narfadóttir.

*Systkin* Gunnars voru: Björn prófastur hèlt Möðruvallaklaustur og Saurbæjarstað í Eyjafirði, Árni sýslumaður á Hlíðarenda, sjá Skaptárþing; Hákon, ágætur maður, giptist eigi nè átti börn, Helga átti Jón lögmann; Herdís laungetin, átti Björn á Æsustöðum Þorvaldsson.

---

1) Sjá Langfeðgatal Gunnars, Þingeyjarþing, bls. 27. og 42. og víðar.

*Kona:* Guðrún dóttir síra Magnúsar á Grenjaðarstað, Jónssonar biskups Arasonar og Kristínar Vigfúsdóttur Erlendssonar og Guðrúnar Pálsdóttur frá Skarði[1].

*Börn:* A. Björn sýslumaður á Bustarfelli, sjá Múla- og Skaptárþing.

B. Pètur átti Halldóru í Leyningi, dóttur Gunnlaugs Ormssonar lögmanns Sturlusonar, börn:

1. Einar á Víðivöllum átti fyr Rannveigu, dóttur Björns Magnússonar[2] og Oddnýar (er í málið komst); börn:

a. Halldóra eldri[3].
b. Halldóra yngri[4].
c. Einar[5].
d. Oddný[6].

Seinni kona Einars var Ólöf Tumasdóttir[7], ekkja Jóns bartskera; Einar fluttist þá að Bæsá og settist þar í algjört bú; Ólöf var einberni og rík; Einar seldi þá Víðivelli Þorláki biskupi fyrir smájarðir. Son Einars og Ólafar var

e. Magnús.

---

1) Þótt sagt sje í ættartölum, að Guðrún dóttir Páls á Skarði hafi verið kona Vigfúsar hirðstjóra Erlendssonar, þá getur það eigi staðizt öðruvísi en svo, að Páll hafi, áður en hann giptist Solveigu Björnsdóttur, átt aðra konu, og með henni Guðrúnu, því hefði Guðrún verið dóttir Solveigar, hefðu þau hjónin Vigfús og Guðrún verið þrímenningar.

2) Björn Magnússon bjó í Bólstaðarhlíð, faðir hans Magnús var sonur síra Björns Jónssonar biskups Arasonar.

3) Halldóru eldri átti Einar Jónsson í Bjarneyjum.

4) Halldóra yngri átti Gísla Jónsson á Kollafjarðarnesi.

5) Einar, mun eiga að vera Eiríkur, hann var í Frakkanesi, átti Rósu Jónsdóttur Ögmundssonar Frakkaneskarlsins.

6) Oddný átti síra Magnús á Undirfelli Einarsson.

7) Ólöf Tómasdóttir Brandssonar hafði áður átt Jón bartskera Gíslason og börn með honum.

2. Síra Magnús[1] á Hörgslandi og Kálfafelli átti fyr Margrjeti Einarsdóttur á Hörgslandi, þeirra börn:
   a. Tómas[2].
   b. Eiríkur[3].
   c. Pètur[4].
   Svo átti hann Sigríði dóttur síra Sigurðar Jónssonar.
3. Björn átti Önnu Skúladóttur á Miðjanesi, son Stefán.
4. Gunnar átti fyr Guðrúnu Einarsdóttur úr Vestmannaeyjum, börn:
   a. Þuríður.
   b. Einar.
   c. Þorgerður.
   d. Guðlaug.
   Svo Önnu dóttur síra Jóns Erlendssonar í Villingaholti
   (Önnur ættartala segir: Gunnar átti fyr dóttur Sigurðar Markússonar, síðan Ingibjörgu Jónsdóttur[5]).

---

1) Síra Magnús á Hörgslandi átti fyr Margrèti dóttur Einars Stefánssonar og Kristínar Grímsdóttur á Hörgslandi, en síðar Sigríði dóttur síra Sigurðar Jónssonar í Goðdölum.

2) Tómas átti Þórunni Bjarnadóttur frá Búlandi.

3) Eiríkur átti Jórunni Eiríksdóttur Sigvaldasonar á Búlandi.

4) Pètur átti Kristínu Sæmundsdóttur Jónssonar Guðbrandssonar. Enn teljast börn síra Magnúsar og Margrètar:
   d. Gunnlaugur átti Valgerði Eiríksdóttur, systur Jórunnar.
   e. Þóra átti Guðmund, son síra Sigurðar Bjarnasonar, á Kálfafelli.
   f. Margrèt átti síra Bjarna Hallason.
   g. Björn átti Þorgerði Eiríksdóttur frá Holti á Síðu.
   h. Guðrún átti Árna Sigurðsson frá Marteinstungu.

5) Þetta er víst miður rètt, og ruglað saman við Gunnar Arngrímsson, sjá hèr síðar.

5. Guðrún[1] átti fyr Ólaf í Gilhaga, son Markúsar sýslumanns í Hèraðsdal Ólafssonar, sjá hèr síðar, börn:
   a. Markús á Breið.
   b. Þorbjörg.
   c. Guðrún.
   d. Jón.

C. Solveig, kvennablómi, giptist 1598 (aðrir 1596) síra Arngrími lærða á Melstað, hún dó 1627, börn:
1. Jón, hann bjó fyrst á Ökrum, svo í Sælingsdalstungu, er hann keypti fyrir Akra af Eggert; hann átti fyr Ólöfu dóttur Jóns lögmanns, þau skildu; svo Gunnhildi Ólafsdóttur, börn:
   a. Arngrímur[2].
   b. Björn[3].
   c. Gunnar[4].
   d. Guðríður[5].
   e. Sólveig[6].
2. Gunnar[7] átti Ingibjörgu Jónsdóttur, barnlaus.
3. Helga, seinni kona Björns sýslumanns Magnússonar, sjá Barðastrandarsýslu.

D. Gísli Gunnarsson, studeraði utanlands, dó í Þýzkalandi, barnlaus.

E. Páll Gunnarsson, studeraði utanlands, drukknaði með fleirum í Hamborgarelfu.

---

1) Seinni maður Guðrúnar Pètursdóttur var síra Sigurður Jónsson sálmaskáld í Presthólum.

2) Arngrímur átti Ólöfu Ólafsdóttur frá Suðureyri.

3) Björn átti Ingibjörgu Daðadóttur Gíslasonar frá Hrafnabjörgum.

4) Gunnar átti Sigríði Bjarnadóttur systur Bjarna í Sælingsdalstungu.

5) Guðríður átti Þórð Þorláksson Hallssonar.

6) Sólveig átti Hafliða Gunnarssou af Vestfjörðum.

7) Gunnar átti fyr Ragnheiði Sigurðardóttur Markússonar.

F. Ingibjörg Gunnarsdóttir átti Ísleif, sjá hèr fyr.

G. Guðrún Gunnarsdóttir, laungetin, átti Halldór Oddsson[1]; þeirra börn:

1. Guðrún átti Björn Arnbjörnsson; börn:
   a. Arnþrúður[2].
   b. Guðrún[3].
   c. Sigurður[4].
   d. Þorbjörg[5].
   e. Grímur[5].
   f. Jón[5].
2. Arnfríður.

H. Stefán Gunnarsson, laungetinn, bjó í Oddgeirshólum, var rector í Skálholti 3 ár, svo ráðsmaður um 40 ár; hann var seinni maður Guðrúnar Gísladóttur biskups; börn:

1. Margrèt átti síra Jón Bjarnason, þeirra son Gísli[6].

---

1) Oddur, faðir Halldórs, var son Arnfinns Jónssonar, sjá Vaðlasýslu bls. 170 og víðar.

2) Arnþrúður átti síra Skúla í Goðdölum, son síra Magnúsar Jónssonar á Mælifelli.

3) Guðrún fyrri kona síra Björns Jónssonar á Hvanneyri.

4) Sigurður átti Guðrúnu Þorleifsdóttur, launsonar Jóns lögmanns Sigurðssonar.

5) Þorbjörg, Grímur og Jón eru eigi talin í ættartölum þeim, er eg hefi sèð, meðal barna Guðrúnar og Björns Arnbjarnarsonar, heldur enn fremur.

d. Einar átti Ingibjörgu, dóttur Ingimundar á Írafelli.

e. Halldór átti Helgu Þorleifsdóttur, systur Guðrúnar; síðan átti hann Þuríði Ólafsdóttur.

f. Tómas átti fyr Þuríði, laundóttur Þorleifs, hálfsystur þeirra Helgu og Guðrúnar; síðan átti hann Guðnýu Guðmundardóttur frá Hofstöðum á Skagaströnd.

g. Gunnar átti Oddnýu Ólafsdóttur.

6) Gísli, sonur síra Jóns á Fellsmúla, var lögrèttumaður

2. Guðrún átti Svein son Gísla sýslumanns á Miðfelli, sjá Árnessþing, börn:
   a. Sveinn.
   b. Katrín.
3. Síra Jón á Mosfelli, laungetinn, átti Þorgerði Jónsdóttur; þeirra börn:
   a. Síra Jón á Fellsmúla[1].
   b Ormur[2].
   c. Þórdís[3].
   d. Gunnar[4].

Gunnar var um hríð Hólastaðar ráðsmaður og tók Reynistaðarklaustur eptir Odd lögmann Gottskálksson 1556, og festi það 1557, og galt fyrst eptir það árlega 30 rd., svo 40 rd., hann hèlt það í 13 ár, til þess Jón lögmaður slæddi það frá honum 1569. Gunnar gjörði og sýslumanns verk í Hegranesssýslu 1557 ásamt Þorbergi, því það ár nefnir hann í dóm Ólaf Tumasson, Tuma Þorgrímsson og Magnús Jónsson lögrèttumenn og 3 bændur, um það, hvert afl skuli hafa kaupmálabrèf millum Þórðar Þorleifssonar Grímssonar og Steinunnar dóttur Ólafs bónda Ormssonar, dæmdist brèfið fullmyndugt. 1592 að Ytra Djúpadal í Eyjafirði var gjörr kaupmáli millum Pèturs Gunnarssonar og Halldóru Gunnlaugsdóttur; taldi Gunnar bóndi syni sínum 1 hndr. hndr. í föstu og 1 hndr. hndr. í lausafè, en Gunnlaugur dóttur sinni LXXX hndr. í föstu og XL hndr. í lausa-

---

Högnastöðum í Hreppum, átti Kristínu frá Berghil. Síra Ólafur á Hofi í Vopnafirði var sonur þeirra.

Enn fremur var sonur síra Jóns og Margrètar: Bjarni á Hæli í Eystrahreppi, átti Vilborgu Gísladóttur frá Háholti Guðmundssonar.

1) Síra Jón á Fellsmúla Jónsson átti Margrèti Halldórsdóttur, síðan Ingiríði ekkju síra Eiríks Höskuldssonar.

2) Ormur lögrèttumaður á Skúmsstöðum átti Guðrúnu Sveinbjarnardóttur, er þar bjó áður.

3) Átti Diðrik á Vomúlastöðum, bróður Bárðar Gíslasonar.

4) Gunnar í Hvammi á Landi átti Salvöru Magnússdóttur.

gózi. Eptir að Gunnar missti Reynistaðarklaustur 1569, flutti hann þaðan að Víðivöllum í Skagafirði, og þar andaðist hann 1605, 8. Idus augusti, 77 ára að aldri. Gunnar var merkismaður í sinni tíð, og hvergi finnst hans getið nema að góðu; en ritað er, að hann hafi orðið fjevani á elliárum sínum, þótt hann hefði jarða og umboða forráð til hlítar alla sína daga. Síra Jón Ólafsson á Melanesi segir, að Gunnar hafi aldrei sýslu haft, en tekið Reynistaðarklaustur næst eptir abbadísirnar. Hið seinna er skakkt, en hið fyrra kann að vera satt, hefir hann þá verið umboðsmaður Þorbergs 1557 og, ef til vill, optar.

### Gottskálk Magnússon.

*Faðir:* Magnús bóndi á Reykjum í Tungusveit, son Björns bónda samastaðar.

*Móðir:* Sigríður dóttir Gríms lögmanns á Ökrum Jónssonar og Guðnýar dóttur Þorleifs hirðstjóra á Reykhólum, sjá Dalasýslu.

*Kona:* Guðrún dóttir síra Gottskálks í Glaumbæ Jónssonar sýslumanns frá Geitisskarði: móðir Guðrúnar var Herdís.

*Börn:* A. Ingibjörg átti Ólaf á Steinstöðum Halldórsson, þeirra börn:

1. Guðrún átti Gunnar son síra Egils Ólafssonar, börn:
   a. Guðrún[1].
   b. Oddný[2] og fleiri.
2. Sigríður átti Gísla Andrèsson og börn.
3. Oddný[3] átti Snjólf Gunnarsson og börn.
4. Þorgrímur[4] prestur á Munkaþverá átti börn.
5. Ólöf[5], barnlaus.

---

1) Guðrún átti Jón Árnason, er bjó norður í Kelduhverfi.
2) Oddný átti Ásmund Einarsson á Enni, bókbindara.
   c. Ingibjörg hèt enn dóttir Guðrúnar og Gunnars, hún átti Þorleif bónda á Skaga.
3) Sumir nefna hana Solveigu.
4) Síra Þorgrímur átti Guðrúnu Egilsdóttur frá Geitaskarði.
5) Ólöf átti Markús Egilsson á Breiðavaði.

B. Guðrún átti Sigurð á Naustum, bóndamann.
C. Helga átti Ólaf, bóndamann, Jónsson, börn:
1. Guðríður átti Jón Ljótsson[1], þeirra son Gottskálk.
2. Ólafur.
3. Þuríður.
4. Gottskálk.
5. Ingibjörg.
6. Solveig.
D. Sigríður átti Jón son Árna í Vallholti og Steinnesi Björnsson; börn:
1. Gottskálk.
2. Guðmundur.
3. Halldór.
E. Kristín átti síra Jón Stígsson[2], þeirra börn:
1. Málmfríður[3].
2. Rannveig[4].
F. Þuríður var fyrst skírð með Gottskálks nafni (þrumsignd).
G. Sigríður önnur.
H. Síra Sölfi[5] í Möðrudal á Fjöllum átti Snjófríði.

Gottskálk bjó á Reykjum og var í heldri manna röð, hann hefir og gjörzt sýslumaður í Hegranesþingi, en óvíst er um árið, nær hann varð það, eða hvort hann var ásamt Gunnari; þó er líklegt, að hann hafi 1565 einn haft sýsluna, því árið 1565 við Vallnalaug í Skagafirði, mánudaginn næsta eptir

---

1) Aðrir nefna hann Loptsson.

2) Það mun rjettara, er sumir segja, að Jón þessi hafi verið bóndi og búið í Gröf á Höfðaströnd, og verið sonur síra Stígs á Miklabæ Björnssonar; Kristín var fyrri kona Jóns.

3) Málmfríður átti síra Þórarinn Ólafsson í Bægisá.

4) Rannveig átti Kár Bergþórsson Sæmundssonar prests í Glaumbæ.

5) Síra Sölfi í Möðrudal, faðir síra Gunnlaugs, er þar var og prestur, var Magnússon og bróðir Gottskálks.

krossmessu um vorið, nefnir hann í dóm, og kallast þá konungs umboðsmaður, þessa menn: Gunnar Gíslason, Jón Grímsson, Magnús Björnsson, Gottskálk Tumason, Tuma Þorgrímsson, Magnús Jónsson, Arngrím Jonsson, Jón Pètursson, Odd Filippusson, Hallstein Einarsson og Ólaf Tumason um ferðafólk. Opt er Gottskálk nefndur í dómum með helztu lögrjettumönnum; hvort hann og Gunnar eða Þorbergur hafi verið til skiptis fyrir sýslunni, eða Gottskálk einn til þess 1569, að Jón lögmaður tók hana, er óljóst, þó það sje líklegast um Þorberg; ókunnugt er mèr fleira um Gottskálk, eða nær hann dó. Í umgetnum dómi kalla dómsmenn Gottskálk heiðursaman mann, er þá hafði konungsumboð í Hegranesþingi. 1587 getur Gottskálks sem dómsmanns Markúsar Ólafssonar. Eg held, að Gottskálk hafi einasta verið umboðsmaður Þorbergs.

### Jón lögmaður Jónsson.

Sjá um hann við Snæfellsnessýslu. Þá er hann hafði sem sveinn Jóns sýslumanns Marteinssonar farið utan 1568, fèkk hann sèr veitt Reynistaðarklaustur undan Gunnari, mági sínum er seinna varð, og Hegranesþing; er þó óvíst, hvort Gottskálk hefir haldið sýsluna næst fyrir hann. Fór Jón þá að Reynistað 1569 og hèlt þar bú um hríð 1573 lèt Jón ganga dóm um Barð í Fljótum. 1574 giptist Jón sinni fyrri konu Helgu; um það leyti varð hann og lögmaður; er og meining manna, að hann um þær mundir hafi tekið Sigurð bróður sinn til lögsagnara í Hegranesþingi. Það ár var dæmt á alþingi, að þrjú hundruð í dauðum aurum niðursetjist til 1 hndr. til tíundar. 1577 náði Jón Þingeyrarklaustri og 1578 Húnavatnsþingi; konungsbrèfið hèr fyrir er dagsett 19. maí 1579; mörg önnur lèni fèkk Jón þar eptir. 1577 fèkk Jón Sigurði bróður sínum Reynistaðarklaustur til ábúðar og umboðs fyrir sig, en frásagði sèr það 1584, og fèkk þá Sigurður veitingu Jóhanns Bucholts fyrir því; þó Jón hefði Sigurð bróður sinn fyrir umboðsmann, hefir hann eigi sleppt Hegranesþingi, sem sèst af Seiludómi 1582, þá hann sem sýslumaður nefnir 6 menn í dóm, sem sè 4 lögrèttumenn, Gottskálk Magnússon, Markús Ólafsson, Jón Jónsson og Hrólf Bjarnason, og skattbændur Einar Grímsson og

Þorvald Eiríksson, um rekaþjófnað í Skagafirði og Húnavatnssýslu; dómur þessi kallast *drumbadómur*. 1583 (aðrir 1582) á Syðri-Ökrum nefnir Jón lögmaður 6 menn í dóm, Gottskálk Magnússon, Gunnar Gíslason, Jón Jónsson, Bjarna Sturluson, Jón Einarsson og Árna Guðmundsson um ákæru, er Guðmundur Halldórsson hafði til Sigurðar sýslumanns í Hegranesþingi Jónssonar út af dómi Sigurðar, gengnum að Lýtingsstöðum veturinn fyrir yfir tèðumGuðmundi; Jón lögmaður dæmdi dóm þann ónýtan, og að hann skyldi ekki afl hafa. Af þessum 6 manna dómum sýnist, sem Jón hafi sem sýslumaður sýslunnar látið dóma ganga, en Sigurður eigi verið annað en hans lögsagnari til þess Markús Ólafsson tók við sýslumannsverkum 1585, og máske eigi verið annað en fullmektugur Jóns lögmanns; þó er það óvíst, eins og það, hvenær Jón lögmaður hefir að öllu leyti sleppt Hegranessýslu (sjá Húnavatnssýslu).

### Sigurður Jónsson.

*Faðir:* Jón bóndi Magnússon á Svalbarði á Eyjafjarðarströnd, nafnkunnugt göfugmenni; á honum byrjar hin yngri Svalbarðsætt.

*Móðir:* Ragnheiður *á rauðum sokkum*, dóttir Pèturs Loptssonar Ormssonar Loptssonar ríka, sjá Strandasýslu.

*Kona:* Guðný dóttir Jóns á Ökrum Grímssonar lögmanns Jónssonar, en móðir Guðnýar var Þóra[1], dóttir síra Tómasar á Mælifelli og Helgu, barnamóður Jóns biskups Arasonar.

*Börn:* A. Jón lögmaður og sýslumaður á Reynistað, sjá um hann hèr seinna og Húnavatnsþing.

B. Elín átti síra Guðmund á Staðastað Einarsson prests á Útskálum, Hallgrímssonar prests, Sveinbjarnarsonar prests, þeirra börn:

1. Ólöf kona síra Þorláks Bjarnasonar, barnlaus.

---

1) Móðir Þóru Tómasdóttur var Þóra Ólafsdóttir, stjúpdóttir Jóns biskups Arasonar.

2. Helga átti síra Torfa Snæbjarnarson. Torfasonar, sjá Barðastrandarsýslu; börn:
   a. Snæbjörn lögrèttumaður[1].
   b. Síra Einar prestur á Stað á Reykjanesi[2].
3. Solveig átti Jón á Kneri, son Steindórs sýslumanns, Gíslasonar lögmanns, sjá Snæfellsnessýslu.
4. Guðríður átti Hákon í Syðrigörðum, son Árna sýslumanns Sæmundssonar sýslumanns, Árnasonar sýslumanns á Hlíðarenda Gíslasonar, sjá Snæfellsnessýslu; þeirra börn:
   a. Halldís[3].
   b. Guðný[4].
   c. Elín[5].

---

1) Snæbjörn átti Helgu Eggertsdóttur frá Sæbóli.

2) Síra Einar átti Ragnheiði dóttur Jóns Magnússonar á Miðhúsum Arasonar.

Enn voru börn Helgu og síra Torfa:
   c. Teitur átti Helgu dóttur síra Jóns Arasonar í Vatnsfirði.
   d. Páll á Núpi í Dýrafirði átti Gróu dóttur Markúsar Snæbjarnarsonar í Ási.
   e. Þorsteinn drukknaði í Blöndu, þá er hann reið úr skóla.
   f. Ragnhildur átti barn við síra Snorra Jónssyni á Skutulsfjarðareyri, hún dó af barnsförum.
   g. Ragnheiður átti Rögnvald Sigmundsson í Fagradal.
   h. Margrèt kona Bjarna Gunnlaugssonar á Arngerðareyri.

3) Halldís átti barn með yfirlætisdreng Jóni Þorsteinssyni, Snorra. Síðan átti hún Þorberg. son síra Þorsteins Gunnlaugssonar, áttu ekki börn.

4) Guðný átti Bjarna í Arnarbæli Bjarnason frá Hesti í Önundarfirði Jónssonar Dans frá Eyri í Seyðisfirði.

5) Elín átti 2 launbörn, giptist svo og komst í armóð.

d. Sigríður[1].
e. Hákon[2].

C. Halldóra kona Þorbergs sýslumanns Hrólfssonar, sjá Þingeyjarþing.

D. Ragnheiður, dó 1625, giptist 1586 prófasti Sæmundi Kárssyni í Glaumbæ, með heimanmundi: 40 hndr. í jörðu og 20 hndr. í kúgildum og þarflegum munum, og 20 hndr., er síra Sæmundur var skyldugur Sigurði bónda Jónssyni[3]; þeirra börn:

1. Bergþór lögrèttumaður, dó 1647, 56 ára, á Þingeyrum; hans kona var Björg, dóttir Skúla Einarssonar og Steinunnar laundóttur Guðbrandar biskups, þeirra börn:
   a. Kár[4].
   b. Sigurður[5].
   c. Guðrún[6].
   d. Þóra[7].
   e. Ólafur djákn á Reynistað[8].
2. Guðrún átti Sigurð sýslumann Hrólfsson, sjá Þingeyjarþing.

---

1) Sigríður átti síra Jón Bjarnason á Staðarbakka, barnlaus.

2) Hákon á ekki hèr við, hann var launson Hákonar.

3) Síra Sæmundur hafði átt barn með Ragnheiði, áður en þau giptust.

4) Kár átti Ragnhildi, dóttur Jóns Stígssonar og Kristínar Gottskálksdóttur, sjá hèr að framan.

5) Sigurður átti Þuríði, dóttur Ólafs Jónssonar og Solveigar Hjaltadóttur.

6) Guðrún átti Skúla Egilsson.

7) Þóra átti Árna í Haga í Reykjadal, Björnsson frá Laxamýri.

8) Ólafur átti einn launson, var

Skúli á Seilu, átti Halldóru dóttur Halldórs Þorbergssonar.

3. Kár[1].
4. Ólafur[1].
5. Sigurður[1].
6. Bergþóra[1].

E. Halldóra.

F. Guðlaug; hvorug þeirra giptist.

Sumir segja, að Sigurður hafi verið tvígiptur, og hafi fyrri kona hans verið Þórunn, dóttir Ara lögmanns; en hún hefir þá verið laundóttir Ara með Þórunni auðgu, orðið skammlíf og eigi átt börn, sem lifðu; Sigurður, fæddur 1532, giptist Guðnýu eptir 1560, því gæti það heim komizt, að hann hafi átt Þórunni millum 1550 og 1560, þá Þórunn mun hafa dáið.

Sigurður hefir tekið lögsögn í Hegranesþingi sama ár og Jón bróðir hans varð lögmaður 1573, en óvíst, hvort heldur sem umboðsmaður bróður síns, eða að sýsluveitingu; en 1577, aðrir 1579, þá er Jón lögmaður flutti að Þingeyrum, hefir Sigurður flutt að Reynistað, og verið sem umboðsmaður bróður síns fyrir því klaustri og til þess Jóhann Bucholt veitti honum það 1584 með þeim skilmálum, að hann skyldi með skýru registri og jarðabók gjöra árlegan reikning fyrir klausturs inntektinni af landskuldum og leigum, og svara tveim pörtum, en hafa þriðjung fyrir sitt ómak (veitingarbrèf þetta er enn til, þar er undir innsigli Bucholts, datum fullskýrt, en rangskrifað 1684, fyrir 1584, er menn geta til að það eigi að vera). 1583 lèt Sigurður sýslumaður Jónsson dóm ganga að Lýtingsstöðum yfir Guðmundi Halldórssyni til sekta; þann dóm ónýtti Jón lögmaður bróðir hans með 6 dómsmönnum á Ökrum sama ár. Það sýnist sem Sigurður hafi haldið Hegranesþing til 1585, sem áður er sagt, þá Markús viðtók og eptir Markús Jón Björnsson 1590—1597; það ár sleppti Jón Björnsson sýslunni, en Sigurður á Reynistað Jónsson tók hana og lèt dóm ganga 1598, um að Jón Grímsson (bróðir konu Sigurðar sýslu-

1) Jón Magnússon nefnir hvorki Kár, Ólaf, Sigurð nè Bergþóru meðal barna síra Sæmundar, og er það án efa með öllu rètt.

manns) væri rètt tækur; skipaði höfuðsmaður Sigurði, að láta taka Jón; en hann hafði flúið á náðir Hólakirkju, en Guðbrandur biskup gefið það höfuðsmanni til vitundar. Sigurður sýslumaður fèkk engan til að taka Jón, og svo slampaðist yfir brot hans. Komst hann utan og fèkk uppgjöf hjá konungi. 1598 var Sigurður sýslumaður í helmingadómi með Guðbrandi biskupi og útnefndi Ísleif Þorbergsson og Ara Guðmundsson til dómsmanna í landaþrætumáli millum Fells-staðar og Fjalls í Slèttuhlíð; nefnist Sigurður þá konungs umboðsmaður í Skagafjarðarsýslu og staðfestir dóminn. Árið 1600 var Jón prestur Magnússon klagaður fyrir biskupi og Sigurði sýslumanni fyrir falsbrèfagjörð; hafði Sigurður þá fengið fyrir sinn umboðsmann Ísleif Þorbergsson, sjá hèr að freman, er tók eiða af 5 bændum í Fljótum, að eigi hefðu verið viðriðnir þessa brèfagjörð. Þetta ár 14. janúar stefnir Sigurður sýslumaður Erlendi Pálssyni að Bólstaðarhlíð fyrir Jón lögmann, vegna þess að hann hafi haldið fyrir sèr í 6 eða 7 ár Stóra-Dunhaga, 30 hndr. 1601 segir Björn á Skarðsá að Sigurður Jónsson hafi haldið Skagafjarðarsýslu, og riðið til þings suður Holtavörðuheiði vegna þeirra stórharðinda, er þá gengu; hefir hann haldið sýslunni til þess að hann dó að Reynistað 16. september 1602, þá er hann hafði haldið Reynistaðarklaustur í 25 ár alls, en Hegranessýslu, sem áður er um getið: Sigurður tjáist þá að hafa verið rúmlega 70 ára. Hann var talinn minni maður, en hinir 3 bræður hans, þó í mörgu vænn maður. Hallur orti níð um Sigurð sýslumann.

## Markús Ólafsson í Hèraðsdal.

*Faðir:* Ólafur Ormsson[1] (Ólafur meinast af nokkrum son Orms lögmanns Sturlusonar, en það er þó óvíst, og eigi veit eg neitt um þann Ólaf), aðrir telja Ólaf Tómasson.

---

1) Það er víst með öllu rètt, sem hèr er sagt um föður Markúsar, að faðir hans hefir verið Ólafur Ormsson, er bjó í Hèraðsdal og átt hefir þá jörðu; gipti hann 1556 Steinunni dóttur sína Þórði launsyni Þorleifs Grímssonar á Möðruvöllum

*Móðir:* Margrèt[1] Jónsdóttir.

*Kona:* Ragnheiður dóttir síra Bjórns á Melstað Jónssonar biskups Arasonar; hún hafði áður átt Sigurð á Stokkseyri.´ Börn Markúsar og Ragnheiðar:

*Börn:* A. Rannveig kona Egils, sonar Jóns Egilssonar á Geitisskarði og Reykjum, sjá Húnavatnsþing; þeirra börn:

1. Jón Egilsson lögrèttumaður átti Sigríði, dóttur Jóns Dans. Þeirra börn:

a. Jón á Gunnsteinsstöðum átti fyr Steinunni Árnadóttur, börn:

α. Guðný átti Gísla í Reykjarfirði Jónsson, barnlaus. Svo átti Jón Hallberu Guðmundsdóttur; þeirra börn:

β. Steinunn átti síra Markús í Hvammi Eiríksson prests í Fagranesi.

γ. Guðmundur dó í bólu, barnlaus.

b. Guðmundur[2] giptist eigi nè átti börn.

c. Halldór[3] Jónsson lögrèttumaður átti Halldóru Benidiktsdóttur, þeirra dóttir Guðrún giptist, en átti eigi barn.

d. Ragnheiður átti Guðbrand sýslumann Arngrímsson, sjá Húnavatnsþing.

e. Arndís átti síra Jón á Gilsbakka Eyjólfsson.

f. Rannveig og

---

en það er með öllu skakkt, að faðir Ólafs hafi verið Ormur lögmaður Sturluson, er átti systur Þórðar.

1) Margrèt Jónsdóttir, kona Ólafs og móðir Markúsar, átti systur, er Þóra hèt, hennar son Björn, hans dóttir Anna, hennar dóttir Guðrún Þorsteinsdóttir.

2) Guðmundur giptist, en átti ekkert barn með konunni, en þar á móti 3 óskilgetnar dætur.

3) Halldór átti og laundóttir, sem hèr stendur, en hún nefnist af sumum Þórun.

g. Guðrún; hvorug þeirra giptist[1].
2. Gunnlaugur[2] Egilsson í Miklagarði í Skagafirði átti Sigríði dóttur Ólafs, sonar síra Jóns Sigurðssonar í Laufási.

---

1) Enn voru börn Sigríðar og Jóns Egilssonar:
h. Bjarni á Eyvindarstöðum lögrèttumaður, átti Guðrúnu Árnadóttur.
i. Halldór yngri á Hóli í Norðurárdal, átti Margrèti Grímsdóttur Tómassonar.

1) Gunnlaugur var lögrèttumaður og átti heima í Miklagarði í Eyjafirði. Börn hans og Sigríðar voru:
a. Síra Jón á Ríp og víðar, átti Þuríði Grímsdóttur.
b. Egill átti Elíni Pètursdóttur Jónssonar á Skáldstöðum.
c. Þorvaldur átti Guðrúnu Gunnarsdóttur og Guðnýar Gottskálksdóttur, þeirra son:
Gottskálk lögrèttumaður á Möðrufelli í Eyjafirði, seinna á Þorleifsstöðum í Blönduhlíð, var tvígiptur; hans fyrri konu son var
α. Síra Þorvaldur á Miklabæ, hans sonarson Albert Thorvaldsen, hinn nafnfrægi myndasmiður; en seinni konu son Gottskálks var
β. Gottskálk Blander á Miðgrund í Skagaf., merkur bóndi.
d. Björg átti Halldór Guðmundsson.
e. Ólafur átti Ingiríði Þórðardóttur.
f. Halldór barnlaus.
g. Jón yngri lögrèttumaður.
3. Markús Egilsson á Breiðavaði átti Ólöfu Ólafsdóttur.
4. Guðrún átti síra Þorgrím Ólafsson, þeirra son:
Síra Jón á Þóroddstað átti Steinvöru Jónsdóttur.
5. Guðríður átti síra Sigurð Magnússon á Auðkúlu, þeirra börn:
a. Síra Magnús á Bergstöðum átti Steinunni Skúladóttur.
b. Steinvör, hennar fyrri maður Benidikt Sigurðsson, seinni maður Ólafur Tómasson.
c. Illugi átti Margrèti Þorsteinsdóttur Jónssonar frá Holti í Svínadal.

B. Sigurður í Hèraðsdal átti Guðbjörgu Torfadóttur sýslumanns, sjá Barðastrandarsýslu; Sigurður dó 1653 áttræður.

C. Margrèt átti síra Snæbjörn Stefánsson í Odda, og var hans seinni kona; þeirra börn:

1. Markús sýslumaður í Vestmannaeyjum, sjá þar um hann.
2. Ragnheiður, aðrir Ragnhildur, átti Hákon[1] Bjarnason; þeirra börn:
   a. Torfi skipherra í Hollandi.
   b. Ragnheiður kona síra Gissurar[2], dó barnlaus.
   c. Snæbjörn dó barnlaus.

---

d. Egill, hans son
Jón, er Reynistaðarmálið hlauzt af, hans son
Sigurður hreppstjóri í Krossanesi í Vallhólmi, fóstri síra Jóns Hallssonar í Glaumbæ.

6. Steinunn átti síra Halldór á Ríp Þorsteinsson Tómassonar; þeirra börn:
   a. Síra Þorlákur á Auðkúlu átti Þórdísi Illugadóttur.
   b. Guðný kona síra Björns Þorvaldssonar í Hvammi í Laxárdal.
7. Gunnvör átti Jón Bessason á Gunnsteinsstöðum, þeirra börn:
   a. Guðríður átti Halldór Jónsson á Geirmundarstöðum í Sæmundarhlíð.
   b. Ragnheiður, seinni kona Eiríks Guðmundssonar á Lýtingsstöðum.
8. Ragnheiður átti Einar lögrèttumann á Breiðabólstað í Vatnsdal, Sturluson prests á Tjörn á Vatnsnesi; þeirra barn:
   a. Egill á Harastöðum átti Ingibjörgu Pálsdóttur Þorlákssonar.

1) Hákon var merkisbóndi, honum var 19 vetra gömlum dæmt á alþingi fè sitt til umráða.

2) Á að vera síra Gísla Jónssonar í Reykjadal.

d. Sesselja, dó ógipt.

e. Katrín átti Gísla á Reykjum, þeirra son Björn.

D. Ólafur í Gilhaga átti Guðrúnu Pètursdóttur[1], sjá hèr að framan.

Nokkrir telja ætt Markúsar sýslumanns þannig[2]:

Faðir hans var Ólafur, átti Ljótunni Bjarnadóttur.

Faðir Ólafs var Ari, heitinn eptir Ara lögmanni Jónssyni

Faðir Ara var Ólafur skáld á Hafgrímsstöðum í Tungusveit, dó 1595.

Faðir Ólafs skálds var síra Tómas á Mælifelli, er hèlt við Þóru dóttur síra Ólafs Daðasonar og Helgu, er seinna hèlt við Jón biskup Arason.

Og enn telja aðrir ætt Markúsar sýslumanns þannig:

1. Ólafur á Hallgrímsstöðum Tómasson (sjá að framan) átti Guðrúnu Tómasdóttur; þeirra börn:
   a. Ari á Vindheimum, faðir Ólafs, sem átti Ljótunni, og Tómasar, sem átti Sigríði Björnsdóttur Tómassonar. Annað barn Ólafs á Hallgrímsstöðum var
   b. Markús sýslumaður.

Móðurætt Markúsar verður þá þannig:

1. Grímur Jónsson, lögmaður á Ökrum, hans dóttir
2. Guðrún, sem átti Tómas á Þorleifsstöðum, þeirra dóttir
3. Guðrún átti Ólaf á Hafgrímsstöðum, þeirra son:
4. Markús sýslumaður.

Markús var lögrèttumaður og stórbóndi í Skagafirði, er hans því víða getið í dómum. Hann hefir haft lögsögn í Skagafirði, sem sjá má af því, að hann hefir veturinn 1585, þriðjudaginn eptir Maríumessu nefnt í dóm Gunnar Gíslason,

1) Pètur var son Gunnars Gíslasonar á Víðivöllum.

2) Að telja Markús sýslumann kominn af Ólafi syni síra Tómasar Eiríkssonar á Mælifelli, er með öllu rammskakkt, því Markús og Ólafur hafa verið hèr um bil jafnaldra: því Ólafur var fyrir innan tvítugt, er Jón biskup Arason var tekinn á Sauðafelli, og Markús hefir þá verið hèr um 6 ára.

Gottskálk Magnússon, Jón Ólafsson, Bjarna Sturluson, lögrèttumenn, Ísleif Þorbergsson og 7 aðra stattbændur um ákæru síra Tómasar Þorsteinssonar til Stígs Þorkelssonar, að hann hèldi 3 ám sínum í óheimild o. s. frv.; dæmdust presti ærnar og fullrètti, en 3 merkur til konungs af Stígi. Aptur í Viðvík, 22. nóvember lætur konungs valdsmaður í Hegranesþingi Markús Ólafsson 6 manna dóm ganga um ómagaflutning o. fl. 1587, þriðjudaginn næsta eptir allraheilagra messu í Viðvík, eptir skipun höfuðsmanns fullmektugs, Tómasar Pèturssonar, nefnir Markús í dóm Gottskálk Magnússon, Árna Björnsson, Hrólf Bjarnason, lögrèttumenn, Ísleif Þorbergsson yngra, Guðmund Hallgrímsson, Ísleif Jónsson um ákæru Jóns lögmanns til Halls Magnússonar um hald og meðferð á jörðunni Gautastöðum í Fljótum; dæmdu dómendur málið undir höfuðsmann og 24 dómendur: á alþingi var Jón lögmaður en Tómas[1] kom þar ekki. 1590, mánudaginn fyrir uppstigningardag, dæmir Guðbrandur biskup og Markús, biskup með 6 prestum og Markús með 6 leikmönnum, um sölu Ólafs biskups á jörðunni Hrólfsvöllum frá dómkirkjunni; dæma þeir jörðina undir kirkjuna aptur. Þetta sama ár gengu þrætur og klögumál milli Guðbrandar biskups og þeirra bræðra Markúsar og Jóns Ólafssona; en Markús andaðist þetta sama sumar í Hèraðsdal, og var þá 46 ára að aldri, og hafði verið 6 ár hèraðsdómari í Hegranesþingi og líklega haft það að veitingu.

## Jón Björnsson.

(Sjá um hann við Húnavatnsþing).

Eptir Markús hefir Jón tekið Hegranesþing til umráða, því 1591 lætur hann dóm ganga um hálft Ósland, sem dæmdist Hólakirkju. 1592 er Jón í helmingadómi með Guðbrandi biskupi um hjónaband Einars Helgasonar og Agnesar Ólafsdóttur. Sama ár lætur Jón dóm ganga við Vallnalaug um hórdóm Gríms Þórðarsonar. 1593 nefnir Jón 12 menn í dóm um það, að Þorsteinn Jónsson hafði barið Skúla Hákonarson, og sama ár í Viðvík um tilkall til hálfs Stafsholts, er Ólafur biskup

1) Mun það eigi eiga að vera: Hallur?

hafði tekið í sitt rèttarfar af Bjarna Sturlusyni, en fengið síra Jóni, ef Arnarvatn gengi af honum; sýndist því vítalaust, að láta þá hálflendu, fyrst Arnarvatn gekk til dómkirkjunnar. 1594 við Vallnalaug nefndi Jón Björnsson 12 menn í dóm um Sigmund Ólafsson, er á sèr hafði sýnilegt þjófsmark, en með því að hann meðkenndi á sig stórþjófnað í Eyjafirði, dæmdist hann til hegningar af sýslumanni þar. Sama ár lætur hann dóm ganga um hrossakjötsát í Flókadal, og innsetti það til lögmanna, sem 1596 dæmdu þeim 3 merka útlát og þar að auki húðlát, er ætu það án neyðar. Sama ár í Viðvík um ákæru Bessa Guðmundssonar til biskups Guðbrandar um hálfa jörðina Stafshól. Vann biskup það mál. Sama ár að Viðvík dæmdi Ísleifur Þorbergsson í umboði Jóns sýslumanns um ómagaframfæri. Sama ár í umboði Jóns sýslumanns tekur Ísleifur Þorbergsson eið af Bryngerði Jónsdóttur um það, að Jón biskup Arason hafi byggt salinn á Hólum þar, sem laukagarðurinn var áður. 1594, eða sama árið, lèt Ari sýslumaður Magnússon dóm ganga að Seilu um hestakaup, líklega í umboði Jóns Björnssonar. 1595 lèt Jón sýslumaður Björnsson dóm ganga við Vallnalaug með 6 mönnum um kúgildisskuld, og sama ár með 12 mönnum um þá, sem stela í mörgum sýslum, og 1595, þegar Jón var fluttur að Grund, dæmdi Guðbrandur biskup og Benidikt bóndi Halldórsson með prestum og leikmönnum Jón bónda Björnsson skyldugan að útheimta og útsvara Grundarkirkjupeningum; áður eða 1551 höfðu prestar og leikmenn, eptir skipun Sigurðar officíalis Jónssonar biskups, tekið portionsreikning Grundarkirkju, meðan Ísleifur bóndi og Þórunn höfðu garðinn haldið, sem voru 17 hndr., en 1595 var portionin orðin 30 hndr. 1595 gekk helmingadómur Guðbrandar biskups og Jóns bónda Björnssonar um hálfkirkjur í Skagafirði, og sama ár halda menn að Jón Björnsson hafi skipt jarðagózi sínu millum 7 dætra sinna. 1596 lætur Guðbrandur biskup og Jón bóndi Björnsson, konungs umboðsmaður í Hegranesþingi, með þremur prestum og 3 leikmönnum dóm ganga í Viðvík um það, að Magnús Björnsson, eignarmaður Hofskirkju á Höfðaströnd, sè löglegur sóknari kirkjutíundanna á Hofi, síðan Jón biskup seldi Rafni lögmanni

sagða jörð. Af dómi þessum sèst, að Jón biskup keypti Ho af Páli Grímssyni 1528, og seldi það sama ár Rafni lögmanni og Þórunni dóttur sinni, sem hèldu það 5 ár, þá Ísleifur á Grund Sigurðsson 16 ár, þá Þorbergur Bessason 6 ár, þá Páll Grímsson og synir hans 17 ár, þá Jón Sigurðsson 6 ár; var þá Magnús Björnsson eignarmaður Hofskirkju og hefir erft Hof eptir Þórunni á Grund[1]. 1597 lætur Jón Björnsson, konungs umboðsmaður í Hegranesþingi, dóm ganga í Viðvík, laugardaginn fyrstan í sumri, með Árna Björnssyni, Ísleifi Þorbergssyni, Daða Árnasyni, Oddi Gottskálkssyni, Sigurði Jónssyni, Ísleifi Jónssyni um kýr, sem Hólastóls landsetar gjalda með leynandi löstum. Það ár mun Jón hafa sleppt sýslunni á alþingi. 1608 hafði Jón skipti á jörðu við Magnús bróður sinn.

**Jón Sigurðsson.**

(Sjá um hann Húnavatnsþing).

Jón er borinn nálægt 1565, tók Hof á Höfðaströnd til forráða 1588, fór utan 1592, þá 27 ára, með Jóni lögmanni Jónssyni, föðurbróður sínum, sem sveinn hans eða ritari. Hofi sleppti hann 1595, tók hálft Þingeyjarþing 1596 eða 1597. Þegar faðir hans dó 1602, tók hann Hegranesþing af hirðstjóranum, og 1603 tók hann og Reynistaðarklaustur með veitingu hirðstjóra, en konungsbrèf fyrir Reynistaðarklaustri og Hegranesþingi honum til handa er dagsett 13. apríl 1607. 1602 lætur hann dóm ganga að Ökrum í Skagafirði um utansveitar fátækt fólk. Sama ár lætur hann og dóm ganga að Lýtingsstöðum um innsveitar fátækt fólk. 1603 lætur Ari Guðmundsson, umboðsmaður Jóns Sigurðssonar, dóm ganga við Vallna-

---

1) Guðbrandur biskup telur þannig eigendur Hofs.
1528 seldi Jón biskup Hof Þórunni og Rafni.
1549 seldi Þórunn það Þorbergi.
Þorbergur átti það í 6 ár, Páll Grímsson klagaði það af honum.
Páll og synir hans áttu það í 17 ár.
Þórunn náði þá Hofi aptur og átti í 17 ár,
svo fèkk Jón Sigurðsson Hof og hèlt í 5 ár,
þá tók Magnús Björnsson við Hofi.

laug, með Isleifi Þorbergssyni, Árna Björnssyni, Tómasi Ólafssyni, Grimi Jónssyni, Sigurði Markússyni, Skúla Einarssyni, Sturlu Sigurðarsyni, Oddi Tómassyni, Árna Pèturssyni, Árna Sigurðssyni, Jóni Jónssyni og Halldóri Þorsteinssyni um fátækt aðkomufólk. Það ár dóu í harðrètti 800 manns í Hegranesþingi. 1603 drap Jakob Vinoch kaupmaður í Hofsós kokk sinn, þar eptir brotnaði kaupskipið þar í spón, náðist samt gózið; lèt þá Jón sýslumaður Sigurðsson frá Reynistað taka Jakob Vinoch og þingaði um hann við Vallnalaug; var hann og mál hans dæmt fram, og fór hann utan á Akureyri. Sama ár lèt Jón dóm ganga á Ökrum um þá, er skera niður innstæðu og um óskil leiguliða. 1603 lèt hann og dóm ganga á Ríp um rèttaryrði. 1605 lèt hann dóm ganga að Lýtingsstöðum um kveðskap. 1606 var hlutfall lagt á Björn Benidiktsson á Munkaþverá, Jón Magnússon eldra og Jón Sigurðsson sýslumann, hver verða skyldi lögmaður, og kom hlutfallið yfir Jón sýslumann og klausturhaldara á Reynistað. Sama ár lèt hann dóm ganga við Vallnalaug um prjónlesgjörð og vaðmála, að það skyldi vanda. Fyrir lögmannsdæminu fèkk Jón sýslumaður Sigurðsson staðfestingu konungs 14. apríl 1607. 1610 lætur Sigurður Markússon í umboði Jóns lögmanns 6 manna dóm ganga á Lýtingsstöðum, um það, er síra Arngrímur dóms á beiddist: hversu nærri annars landi maður mætti setja sinn stekk eða fjárhús, svo eigi væri lögum móti, eða hinum skaði að; dæmdu dómendur, að athuguðum L.L. b., 16. 32. 57. kap., að enginn megi stekk eða fjárhús setja nær annars landi, en tvö hundruð faðma tólfræð, án nágrannans leyfis, nema þar sem löggarðar eru bæja á milli, eða þeir forvaðar og hömlun, er löggörðum samgildi. 1610 á Geirþrúðardag var hinn mikli Geirþrúðarbilur, fórust þá margir menn og mikill fjöldi penings, einnig skip á sjó. 1611 lèt Jón Sigurðsson dóm ganga að Hofi um ráðspjöll; sama ár kvartar Guðbrandur biskup yfir, að Jón lögmaður eigi hafi viljað láta dóm ganga um mál það, er biskup hafði móti Bjarna Þorkelssyni í Viðvík um jörðina Háls í Kinn; en Jörgen Daníelsson, Gísli lögmaður og lögrèttan fríkenndu Jón lögmann þar frá 28. júní. Sætti Jörgen biskup og Jón, 7. ágúst næsta eptir. Þrætuefni þeirra

var af rekum, er Jón tileignaði Reynistaðarklaustri, en biskup Hólastóli.

1612 lèt Jón ganga dóm um jörðina Á í Kræklingahlíð. Sama ár, 12. júlí, var dæmt þingvíti fyrir boðfall *eyrir*, en fyrir þau 4 þing: konungsbrèf að heyra, manndrápsþing, manntalsþing, hreppstjóraþing dæmdu þeir tveim aurum sekan hvern, er eigi sækir, svo einvirkja sem gildan bónda. Sama ár við Vallnalaug, að viðveranda Guðbrandi biskupi og Jörgen Daníelssyni, var þingað um Þórdísi Halldórsdóttur, er meðkenndi, að hún hefði fallið með systurmanni sínum Tómasi, sem þá strauk af þinginu og komst í enska duggu. Þeir dönsku Commissarii dæmdu 1618 þau bæði til dauða. 1613 lèt Jón lögmaður og síra Arngrímur dóm ganga um það, að allir niðjar og erfingjar Helgu, dóttur Jóns biskups Arasonar, skyldu skyldugir að svara til Lögmannshlíðarkirkju portíónar frá 1531 til 1613 eptir tiltölu. Sama ár dæma þeir Guðbrandur biskup og Jón lögmaður Sigurðsson um ágreining Skúla Einarssonar og síra Brynjólfs Árnasonar út af Fossárdal. Þetta ár, 1613, lèt Jón Sigurðsson dóm ganga á Lýtingsstöðum um fingurbit, og 16. nóvembermánaðar sama ár á Ökrum um Krakavelli, milli Guðbrandar biskups og Steindórs Gíslasonar, með 6 dómsmönnum; voru Ísleifur Þorbergsson og Grímur Jónsson þar fyrst taldir.

1616 skikkar Jón lögmaður Sigurðsson Guðbrandi Jónssyni að greiða af hendi löggjöf, er Ormur Þorleifsson gaf Ormi Illugasyni á Syðra-Rauðamel, um þetta gekk dómur 23. desember sama ár. 1617, 14. júní, á Miðgörðum, lèt hann helmingadóm ganga um mál Árna Gíslasonar, og sama ár lèt hann á Sveinsstöðum dóm ganga um öreiga; þetta viðkemur samt lögmannsstörfum Jóns Sigurðssonar, þótt eg geti þess hèr.

1617, 16. desember, lèt Jón dóm ganga með sýslumönnunum Þorbergi og Sigurði Hrólfssonum og 4 öðrum á Seilu um makaskiptí Ólafs biskups á Tungufelli og Völlum. 1618 lèt Sigurður Markússon í umboði Jóns lögmanns dóm ganga á Ökrum um stefnu, er Guðbrandur biskup hafði með stefna látið Steindóri Gíslasyni út af haldi hans á Brúnastöðum og kirkju portíón á Víðimýri. Jón lögmaður stefndi þá og

Steindóri fyrir Commissarios á alþingi; en þeir dæmdu stefnuna ógilda, þar Steindór ætti að lögsækjast á þeirra varnarþingi fyrir ópartískum dómara (NB. þetta var Steindór, son Gísla lögmanns, gjörðist hann seinna sýslumaður í Snæfellssýslu; hafði hann verið umboðsmaður Jóns lögmanns, þá er hann hèlt Stapaumboð og sýslu 1613—1615). Þetta ár, 1618, dæmdu Commissarii Jón lögmann frá lögmanns- og sýsluembættum fyrir barneign framhjá; lèt Jón stúlkuna eigi lýsa sig föður, en kom henni til síra Guðmundar Einarssonar á Staðastað og rèði honum að afleysa hana; missti síra Guðmundur þar fyrir prestskap, en fèkk hann þó aptur seinna. Af dómi Commissaríanna yfir Jóni lögmanni Sigurðssyni sèst, að hann fyr hafi tekið framhjá og fengið þar fyrir kvittun hjá Herluff Daae höfuðsmanni. Skagafjarðarsýslu missti Jón Sigurðsson vegna þessarar barneignar, en hèlt þó klaustrinu. 1619 bauð konungur, að skyldi taka sýslu af Jóni ásamt lögmannsembætti. Af því Jón var ágætur maður og vel að sèr, þótti hinum eptirkomandi höfuðsmanni Holgeir Rosenkrantz hann verða hart úti, svo 1622 bauð konungur eptir suplicatíu Jóns og meðmælum höfuðsmannsins, að veita Jóni Húnavatnsþing, sjá þar um hann meira. 1627 var Jón Sigurðsson ásamt síra Þorláki biskupsefni í virkinu á Bessastöðum með Holgeir Rosenkrantz, þá er ræningjaskipið kom í Seiluna, en hinir bjuggust til varnar.

1628, þá er Gíslí Hákonarson tók Skagafjarðarsýslu eptir höfuðsmannsins skipun af Halldóri lögmanni Ólafssyni fyrir skuldir, veitti hann hana Jóni Sigurðssyni, sem það árið hafði báðar sýslurnar, en 1629 fèkk Halldór sýsluna aptur.

Björn á Skarðsá skrifar, að Jón hafi haft sýslur frá ungdómi, en eigi veit eg fleiri að telja.

Það sèst af fyrrituðu, að Jón hefir stundum haft lögsagnara hèr í sýslu, eins og aðrir sýslumenn um þessar mundir höfðu, voru það optast lögrèttumenn og einasta við ýms mál settir dómarar, svo sem voru:

1. Ísleifur Þorbergsson, hann lèt og dóm ganga í umboði Jóns Björnssonar 1594 og optar.
2. Sigurður Markússon var og stundum lögsagnari Jóns lögmanns Sigurðssonar, til að mynda 1610, 1618 og optar.

Margir lögrèttumenn aðrir voru þá og í stöku tilfellum höfðir fyrir hèraðsdómara bæði í þessari og öðrum sýslum.

Mál manna var, að Steindór Gíslason hefði eigi verið lítil orsök til, að Jón Sigurðsson missti bæði lögmannsembættið og sýsluna, því Steindór var þá í uppgangi og vel þokkaður af tignum mönnum utanlands, en mikill óvinur Jóns lögmanns Sigurðssonar[1].

## Halldór lögmaður Ólafsson.

*Faðir:* Ólafur á Möðruvöllum 1605 (sjá um hann Þingeyjarþing); Ólafur var sonur Jóns í Búðardal, er kallaður var Rebbi og var 1549 fylgdar- og njósnarmaður Daða sýslumanns í Snóksdal, en því hafði Daði útvalið Jón fyrir njósnarmann, að Jón þótti áræðisgóður og brögðóttur (sjá um hann Árb. 3. þ. 134. Cap., síðu 47). Kona Jóns Rebba var Margrèt, dóttir Eiríks í Ásgarði Guðmundssonar (sjá Dalasýslu). Faðir Jóns Rebba var Sigurður í Búðardal; hann átti Steinunni, dóttur Sturlu sýslumanns Þórðarsonar (sjá Snæfellssýslu). Faðir Sigurðar var Oddur á Hvoli í Saurbæ, hann dó 1506, (sjá Dalasýslu). Faðir Odds var Sigurður á Hvoli (sjá sömu sýslu) Geirmundarson, er átti Guðrúnu dóttur Ólafs eldra Tóna Þorleifssonar Svartssonar. (Ólafur yngri Tóni á Rauðamel var bróðir Sigurðar á Hvoli, en son Geirmundar og Guðrúnar).

*Móðir* Halldórs var lögmanns og kona Ólafs klausturhaldara var Þórunn, dóttir Benidikts sýslumanns ríka á Möðruvöllum (sjá Vaðlaþing).

*Kona* Halldórs: Halldóra dóttir Jóns sýslumanns Björnssonar Jónssonar biskups Arasonar (sjá Húnavatnsþing). Halldóra dó 1661 í Skálholti.

*Börn:* A. Benidikt sýslumaður, sjá hèr síðar.

B. Margrèt giptist 30. ágúst 1640 í Skriðu í Hörgárdal Brynjólfi biskupi, hún var fædd 1615 og dó 1670. Þeirra börn:

---

1) Guðbrandur biskup mun og hafa átt mikinn þátt í því, að Jón missti lögmannsembættið.

1. Halldór dó í Englandi 1666, barnlaus.
2. Ragnheiður átti launson Þórð með síra Daða, dó litlu síðar og sonur hennar 11 vetra.

C. Hallgrímur átti Ólöfu dóttur Jóns lögmanns Sigurðssonar, Ólöf var áður tvígipt (sjá Húnavatnsþing).

D. Jón ráðsmaður í Skálholti 1640, drukknaði 1645, átti fyr Málmfríði Hallgrímsdóttur, barnlaus, svo 1644 Ingibjörgu Jónsdóttur sýslumanns, þeirra son Jón dó 1466, (Ingibjörg giptist síðan Þorleifi lögmanni Kortssyni, sjá Ísafjarðarsýslu).

E. Helga, hún giptist 1646 síra Páli í Selárdal Björnssyni; börn þeirra voru:
1. Halldór eldri dó ógiptur, barnlaus.
2. Halldór yngri í Selárdal 1706, dó 1733, átti Ingibjörgu, dóttur Magnúsar sýslumanns á Eyri í Seyðisfirði (sjá Ísafjarðarsýslu); þeirra son Björn á Sveinseyri átti Ólöfu Jónsdóttur, barnlaus.
3. Helga átti 1671 síra Sigurð í Holti í Önundarfirði, son síra Jóns í Vatnsfirði Arasonar sýslumanns í Ögri; þeirra börn:
   α. Síra Sigurður í Holti[1].
   β. Guðbrandur[2].
   γ. Ragnheiður[3].
4. Þóra átti Árna í Bíldudal (sjá Barðastrandarsýslu).
5. Ingibjörg átti Jón son Magnúsar sýslumanns á Eyri í Seyðisfirði (sjá Ísafjarðarsýslu).

---

1) Síra Sigurður var þrígiptur, fyrsta kona hans var Ásta Pálsdóttir á Núpi í Dýrafirði Torfasonar. Önnur kona hans Elín Markúsdóttir sýslumanns Bergssonar, og hin þriðja Katrín, systir síra Vernharðar í Otrardal Guðmundssonar.

2) Guðbrandur bjó á Geithömrum og átti Ástríði dóttur síra Jóns Tómassonar á Söndum í Dýrafirði.

3) Ragnheiður átti síra Teit Pálsson á Eyri.

F. Guðrún átti Vigfús í Lögmannshlíð Jónsson, þeirra son Jón sýslumaður, sjá Þingeyjarþing.

G. Sigríður átti 1651 síra Torfa í Gaulverjabæ, hún dó 1704 um áttrætt; þeirra börn:

1. Síra Halldór í Gaulverjabæ átti Þuríði dóttur Sæmundar Eggertssonar Sæmundssonar sýslumanns, Árnasonar sýslumanns, þau voru barnlaus.
2. Síra Jón á Breiðabólstað í Fljótshlíð, hann átti Sigríði dóttur Björns sýslumanns á Espihóli Pálssonar Guðbrandssonar biskups (sjá Vaðlaþing). Þeirra börn:
   α. Ólafur í Ölvaldsholti[1].
   β. Rannveig[2], barnlaus.
   γ. Björn[3] undir Núpi í Dýrafirði, faðir Magnúsar, er átti Jósabetu.
3. Sveinn klausturhaldari 1715 á Munkaþverá, átti 1688 Margrèti, systur Benidikts Bechs. Þeirra börn:
   α. Páll djákni[4].
   β. Eggert lögrèttumaður[5].

---

1) Ólafur átti Solveigu Magnúsdóttur úr Vestmannaeyjum.

2) Rannveig átti síra Filippus Gunnarsson í Kálfholti.

3) Björn átti Guðrúnu Magnúsdóttur, Níelssonar Jónssonar Dýrafjarðarsmiðs Jónssonar; sonur Björns og Guðrúnar var Magnús, hans fyrri kona Guðný Ólafsdóttir, þeirra son Magnús á Núpi, er átti Jósabetu.
Meðal annara barna Björns og Guðrúnar var Sigríður, móðir Kristjáns Guðmundssonar í Vigri, er var nafnkenndur merkisbóndi.
Enn var son síra Jóns og Sigríðar:
δ. Jón á Mikjunesi í Holtum, hans kona: Sólrún.

4) Páll djákni í Gufunesi var seinni maður Oddnýar Ketilsdóttur, systur Magnúsar sýslumanns Ketilssonar; þau barnlaus.

5) Eggert lögrèttumaður átti Þóru laundóttur Guðmundar Lýðssonar prests Magnússonar.

γ. Valgerður[1].
δ. Þóra[2].
Þessara afkomendur fjölmennir.
4. Ragnheiður Torfadóttir átti Jón sýslumann í Einarsnesi (sjá Mýrasýslu).
5. Þórunn Torfadóttir átti síra Högna Ámundason, þeirra börn:
α. Síra Páll[3].
β. Benidikt[4].
γ. Einar[5].
6. Þóra Torfadóttir giptist 1680 síra Einari Einarssyni, þeirra börn:
α. Margrèt[6], þrígipt, sjá síðar.
β. Málmfríður giptist 1709 Sigurði eldra Sigurðssyni sýslumanni í Árnesþingi, sjá þá sýslu.
γ. Ingibjörg átti Sigurð yngra, sýslumann í Mýrasýslu (sjá þá sýslu).
δ. Brynjólfur dó 1707; hans dóttir Þuríður.
7. Rannveig dó 1688, fyrri kona Vigfúsar Hannessonar sýslumanns í Arnesþingi (sjá þá sýslu).
8. Katrín átti síra Árna Þorleifsson, barnlaus.
9. Þorsteinn.

H. Valgerður átti 1644 Guðmund lögrèttumann á Keldum austur, son Torfa Eiríkssonar Björnssonar

1) Valgerður átti síra Eirík Brynjólfsson í Miðdal.

2) Þóra átti síra Hannes Björnsson á Kvennabrekku.

3) Það mun vera rèttara, að síra Páll á Valþjófstað hafi verið sonur síra Högna Guðmundssonar, og á því hèr að falla burt.

4) Benidikt átti Guðnýu Þorsteinsdóttur prests í Holti; þau bjuggu í Skógum undir Eyjafjöllum.

5) Einar, kallaður Einar sterki, lögrèttumaður, í Skógum, átti Þórunni Þórðardóttur frá Kirkjubæjarklaustri Þorleifssonar.

6) Margrèt dóttir síra Einars í Görðum á Álftanesi og Þóru átti fyrst Benidikt sýslumann Beeh, sjá um hann hèr síðar.

Þorleifssonar lögmanns Pálssonar. Guðmundur dó 1669, en Valgerður 1702, 83 ára. Þeirra börn:

1. Torfi átti Kristínu dóttur Jóns Vigfússonar eldra frá Stórólfshvoli sýslumanns (sjá Árnesþing).
2, Þórunn átti síra Pál á Kolfreyjustað Ámundason; þeirra börn:
   α. Síra Guðmundur[1].
   β. Síra Ámundi[2].
   γ. Torfi[3].
   δ. Björn.
3. Jón drukknaði 1681, átti Helgu Gísladóttur Bjarnasonar, barnlaus.
4. Guðlaug átti Odd digra, klausturhaldara á Reynistað (sjá hèr síðar). Þeirra börn:
   α. Ingibjörg.
   β. Guðrún.
   γ. Þórunn.

Um uppvöxt og menningu Halldórs finn eg eigi getið, og ekkert markvert fyrri en hann giptist 1606 Halldóru Jónsdóttur; voru honum þá talin í föstu 2 hndr. hundraða, þar í Vindheimar, Laugaland, hitt smájarðir og 1 hndr hundraða í lausafè; en Halldóru var talin til giptingar hálf Grund LXXX hndr; lofaði og Jón faðir hennar að selja þeim Halldóri hinn helming Grundar. Eg held að þau fyrst hafi búið í Eyjafirði, en eigi er þess getið, að hann hafi haft þar völd.

1619 fèkk Halldór Hegranesþing og lögmannsdæmið, þegar Jón Sigurðsson missti hvorttveggja algjörlega, en lögmannseið sór Halldór eigi fyrri en 1620. 1619, 9. dag ágústmánaðar, nefnir Halldór í dóm nærri Grafargili í Skagafirði 6 menn, Ísleif Þorbergsson, Jakob Hannesson, Björn Jónsson, Ara Guðmundsson, lögrèttumenn, Björn Magnússon og Björn Hallsteinsson um landeign milli Seilu og Grafargils, hvar um ágreindi

---

1) Síra Guðmundur á Kolfreyjustað átti Þórunni Pálsdóttur.
2) Síra Ámundi dó barnlaus.
3) Torfi átti Ólöfu Einarsdóttur prests Bjarnasonar.

Magnús bónda Björnsson og Þorberg bónda Hrólfsson: gekk málið á Magnús, en Þorbergur hlaut hinn umþráttaða landspart undir Grafargil. 1621 lèt Halldór ganga lögmannsdóm um siglingakostnað þeirra 4. sem utan fóru 1619: Jón Magnússon eldri, sýslumaður í Haga, kvað sig hafa kostað utanferðin 400 rd; var hver skattbóndi dæmdur skyldur að greiða í í þann toll 5 álnir sýslumönnum á vorþingum, en þeir 2½ alin, sem eigi væru í skiptitíund: þetta skyldi gjaldast á Norðurlandi og Vesturlandi, og Jón eldri sýslumaður móttaka fyrir vestan.

Björn á Skarðsá heldur, að Halldór hafi eigi tekið Hegranesþing fyrri en 1622, en það mun vilt, sem sèst af umgetnum 6 manna hèraðsdómi 1619. 1622 kom konungs staðfesting upp á lögmannsdæmi Halldórs. Hann hèlt sýslunni til 1628, þá er Gísli lögmaður Hákonarson tók hana af honum vegna skulda eptir skipun höfuðsmannsins, hvers umboðsmaður Gísli þá var, og veitti hana Jóni Sigurðssyni á Reynistað: þó veitti þá Gísli lögmaður konu Halldórs lögmanns Möðruvallaklaustur þeim hjónum til skaðabóta; flutti Halldór sig þá að Möðruvöllum.

Vorið 1629 reið Halldór lögmaður með konu sinni snemma suður í Skálholt og biðu þar höfuðsmannsins til þess að hann kom út; og er spurðist koma hans, riðu þau til Bessastaða, og Oddur biskup með þeim: hittu þar höfuðsmann Holgeir Rosenkrantz, sem kom út í Seilunni á herskipi, báru fram afsakanir sínar og erindi, og með tillögum Odds biskups fèkk Halldór aptur lèni sitt og virðingar, þá er hann hafði lokið skuldirnar.

Seinna varð enn tregða á sýslugjaldi Halldórs lögmanns, og hann sjálfur orðinn heilsutæpur, var því á ný tekin af honum Skagafjarðarsýsla 1636 og veitt Benidikt syni hans. Halldór lögmaður gjörðist þrotinn að heilsu 1637 með blóðuppgangi, svo að hann um hríð hafði litla næringu og enga fótaferð, hresstist þó nokkuð aptur, og reið 1638 til alþingis með veikum burðum: eptir dauða Gísla biskups, er á kviktrjám var fluttur í Skálholt, var Halldór fluttur á sömu kviktrjám dauðsjúkur í Skálholt, dó þar, og var 9. júlí grafinn í miðri Skálholtskirkju. Það var 20. alþing, er hann þá seinast sat: hafði

hann verið lögmaður 19 ár og fengið gott orð í lögsögn sinni; sýslu hafði hann í Skagafirði 15 ár.

Hans mörgu dóma hirði eg eigi um að ritfæra, þar víst er um hans embættisár: einn dómur hans að Hofi 1625 var um skattgjald, að sá skyldi fjáreið vinna, er eigi vildi gjalda, annars sekjast fyrir skatthald að lögum að auk. Annar dómur hans var 1628 að Víðvík um tíundir af konungs- og kirknajörðum.

Ekki var Halldór lögmaður mikill auðmaður, en átti opt þröngt með peninga, þó hann ætti jarðagóz til hlítar. Benidikt Pálsson, sem fèkk klaustrið eptir Halldór, klagaði lengi um álag á Möðruvallakirkju, en loks komst sætt á það mál á alþingi 1647.

Halldór lögmaður tjáist að hafa verið maður ráðvandur og guðhræddur, en óstilltur við öl.

## Sigurður Markússon.

*Faðir:* Markús sýslumaður Ólafsson í Hèraðsdal, sjá hèr að framan.

*Móðir:* Ragnheiður, dóttir síra Björns á Melstað, sonar Jóns biskups Arasonar.

*Kona:* Guðbjörg dóttir Torfa sýslumanns á Kirkjubóli í Langadal.

*Börn:* Þóra átti Jón son Jóns lögmanns á Reynistað Sigurðssonar (sjá Húnavatnsþing).

Sigurður gjörðist umboðsmaður Halldórs lögmanns í Hegranesþingi; að vísu var hann það 1630 og þar eptir, hann dó áttræður 1653.

## Benidikt Halldórsson.

*Faðir:* Halldór lögmaður Ólafsson, nýnefndur.

*Móðir:* Halldóra eldri, dóttir Jóns sýslumanns Björnssonar.

*Kona:* Jórunn dóttir Hinriks sýslumanns Gíslasonar á Innra-Hólmi á Akranesi (sjá Kjósarsýslu), hún dó 1693.

*Dætur:* A. Ingibjörg, miðhúsfrú Gísla biskups á Hólum; þau giptust 1664, aðrir 1665, voru biskupi talin 4 hndr.

hundraða í föstu og lausu, en henni 2 hndr. hundraða; hún dó 1673, barnlaus.

B. Guðrún giptist 1661 síra Skúla á Grenjaðarstað Þorlákssyni, barnlaus.

C. Þórunn átti 1661 Guðbrand sýslumann Þorláksson, sjá Húnavatnsþing.

D. Ragnheiður ógipt, barnlaus.

Benidikt er borinn 1607; um ungdóm hans og menningu finn eg ekkert ritað; hann bjó á Grund 1633 og var þá giptur; þar eptir 1636 fèkk hann veitingu fyrír Hegranesþingi; flutti hann sig þar eptir að Seilu í Skagafirði, en 1641 er hann fluttur að Sjávarborg; þetta er að ráða af brjefum hans til Eggerts Björnssonar, hvers jarðaumboð hann hafði þar nyrðra (eitt er dagsett 20. apríl 1633 á Grund, annað 18. marz 1641 á Sjávarborg, þriðja á Grund í Eyjafirði 19. apríl 1641, virðist hann þá að hafa verið þar á ferð, eða hann hefir haft þar annað bú). Þar eptir flutti hann sig að Reynistað, því hann tók það klaustur í umboði Sigurðar lögmanns í Einarsnesi, og verið getur, að hann eigi hafi flutt að Seilu fyrri en hann hafði sleppt sýslunni. Nokkrir skrifa, að hann hafi búið á Víðimýri.

Óþarft virðist að rita hèr dóma hans, því víst er um valdstjórnarár hans í Skagafjarðarsýslu, þó skal eg nefna þessa dóma hans, sem markverðasta: 1648 á Syðri-Ökrum um töku fóðrapenings, dæmt, að kotungar megi eigi taka fóðrapening, en ef taka án landsdrottins leyfis, og gjöra þar fyrir ófær kúgildin, taki landsdrottinn fóðrapeninginn til sín, nema eigandi vilji borga skaðabætur. Kotungar mega eigi kúgildin burtselja, ef það gjöra, taki eigandi þau sem vitafè Kotungar mega eigi skuldir borga fyrri en landskuld er goldin landsdrottni. 1649 um ákæru Mælifellsprests til sjöttungsreka í Víkurlöndum á Skaga; dæmdu dómendur Vestari-Víkur tilheyra Glaumbæ, en Asbúðir Mælifelli. 1652 á Syðri-Ökrum var dæmt um hrossabeit; að reka skyldi hross á afrèttir eða fjöll úr búfjárhögum eigi seinna en hálfum mánuði eptir fardaga; þeir, sem eigi hafa afrèttir, kaupi beitina af þeim, er þær hafa; en nauðsynjahross á bæ varðveiti þeir, svo engum gjöri skaða; þessi dómur var af Magnúsi lögmanni Björnssyni samþykktur. 1659

kom til alþingis dómur Benidikts um nauðgun Katrínar Andrèsdóttur af Guðmundi Einarssyni, en 1660 um vinnufólk, sem alizt hefði upp á sveit, að vinna í þeirri sveit. 1666, um eiðstöku. 1637, 27. apríl, lèt hann dóm ganga á Ökrum um ómagaframfæri. 1638 var hann meðdómsmaður á alþingi.

Benidikt sýslumaður sleppti Skagafjarðarsýslu og Reynistaðarklaustri, er hann, sem fyr sagt, hafði haft í umboði Sigurðar lögmanns, 1677, og hafði þar eptir eigi utan umboðsjarðir, var þó í virðingum sem áður. Hann gjörðist hrumur af elli og karlægur hin tvö seinustu ár, er hann lifði; hann dó 1688, áttatíu og eins árs að aldri, og var sýslumaður í Skagafirði 44 ár; var hann haldinn mætur maður í mörgu.

Þorlákur Markússon ritar í annál sínum, að Sigurður lögmaður Jónsson (líklega í Einarsnesi) hafi fengið Reynistaðarklaustur 1665 og haldið það í 13 ár; sè það rètt, hefir hann tekið það eptir Arna lögmann og haldið því til dauða síns, 1677. Benidikt Björnsson lögrèttumaður í Bólstaðarhlíð nefnist 1645 klausturhaldari Reynistaðarklausturs, en hann verður að hafa haldið það í umboði Árna lögmanns, því Þorlákur Markússon segir í annál sínum, að Árni lögmaður Oddsson hafi fengið Reynistaðarklaustur 1634 og haldið það í 31 ár.

### Oddur Jónsson.

*Faðir:* Síra Jón í Vatnsfirði Arason sýslumanns (sjá Barðastrandarsýslu).

*Móðir:* Hólmfríður Sigurðardóttir Oddsonar biskups Einarssonar.

*Kona:* Guðlaug dóttir Guðmundar á Keldum Torfasonar Eirikssonar, Björnssonar[1]. Þau Oddur giptust 1671: hún dó 1703.

*Börn:* A. Ingibjörg átti síra Þorstein Ketilsson, dó 1746, barnlaus.

B. Guðrún (fædd 1677, dó 1733) átti 1710 síra Magnús Markússon; þeirra son:

1. Gísli biskup á Hólum (fæddur 1712, dó 1779)

---

1) Faðir Björns Þorleifur lögmaður Pálsson.

átti Ingibjörgu Sigurðardóttur frá Geitisskarði (sjá Húnavatnssýslu), þeirra börn:

α. Síra Oddur[1].

β. Magnús sýslumaður, sjá Húnavatnssýslu.

γ. Kristín[2].

2. Oddur landþingisskrifari, sjá hèr síðar.

3. Guðlaug átti síra Erlend á Hrafnagili Jónsson; þeirra börn:

Magnús prófastur á Hrafnagili átti Ingibjörgu[3].

C. Þórunn (fædd 1675, dó 1755) átti síra Arnbjörn Jónsson, barnlaus.

1674 fór Oddur norður með Gísla biskupi og gjörðist ráðsmaður á Hólum; útvegaði biskup honum Reynistaðarklaustur 1677, þangað fluttist Oddur og lifði þar að munuðum sínum, til þess hann sleppti því 1699 (Þorlákur segir, að hann hafi verið klausturhaldari 21 ár). Oddur dó í Gröf hjá Ragnheiði systur sinni 1711. Á miðjum aldri varð hann svo þungur og feitur, að hestar báru hann eigi; kallaðist hann *Oddur digri.* Eigi hafði hann sýsluvöld.

## Þorsteinn Þorleifsson.

*Faðir:* Þorleifur sýslumaður á Hlíðarenda, son Magnúsar sýslumanns á Ögri, Jónssonar á Svalbarði, sjá Skaptárþing.

*Móðir:* Sesselja dóttir Björns á Laxamýri Magnússonar. Sesselja dó á Hlíðarenda 1687, þá 83 ára, hún var seinni kona Þorleifs, sjá Skaptárþing.

*Kona:* Elín, dóttir Þorláks biskups Skúlasonar; henni giptist hann 8. september 1661. Elín dó á Víðivöllum hjá Þrúði dóttur sinni 1726, þá 88 ára.

---

1) Síra Oddur á Miklabæ átti Guðrúnu dóttur síra Jóns í Goðdölum Sveinssonar.

2) Kristín átti Magister Hálfdán Einarsson.

3) Ingibjörg var dóttir Sveins lögmanns Sölvasonar.

*Börn:* A. Þrúður giptist Birni biskupi Þorleifssyni á Víðivöllum 1689, barnlaus.
B. Gróa dó ung.
Þrúður bjó lengi á Víðivöllum og flutti þaðan að Hlíðarenda í elli sinni í slæmum rigningum og dó þar 1738, 72 ára.

Þorsteinn mannaðist vel, lærði hjer í landi, fór svo utan til lærdómsframa. Hann var í Haag, Rotterdam, Hamborg og Kaupmannahöfn við lærdómsmenntir, kom út vellærður og gjörðist umboðsmaður mágs síns, Gísla sýslumanns í Múlaþingi og klausturhaldara nálægt 1658, en fèkk veitingu fyrir allri Múlasýslu, þá er Gísli sýslumaður tók Rangárþing 1659, hann fèkk og Skriðuklaustur og giptist 1661; hèlt Þorsteinn tèðum lènum um hríð.

Eggert er maður nefndur, son Jóns eldra Dalasýslumanns, Magnússonar sýslumanns í Ögri, sjá Dalasýslu. Eggert bjó á Ökrum í Skagafirði og var lögrèttumaður. Kona hans Steinunn, dóttir Þorvaldar á Reykjum Jónssonar. Steinunn dó á Ökrum 1669. Börn þeirra voru: 1. Ragnheiður, bjó ógipt á eign sinni Reykjum í Tungusveit og dó þar barnlaus 1695. 2. Þórður, barnlaus, og 3. Jón er fæddist 1643. Eggert drukknaði í Hèraðsvötnunum 1656, 27. ágúst, 53 ára; var þá Jón son hans í för með honum 13 ára, og komst af nauðulega. Jón ólst þar eptir upp og gjörðist mannvænlegur maður, þótt eigi gengi hann í skóla til lærdóms, en utan fór hann til frama, var hann skarpvitur, örðígur og minnugur. Svo bar til eptir dauða Benidikts klausturhaldara á Möðruvöllum 1669, að hann rèðst til ekkju hans, Sigríðar Magnúsdóttur, er kölluð var hin stórráða (sjá Húnaþing), giptist henni og fèkk veitingu fyrir Möðruvallaklaustri hjá lènsherrans fullmektugum, Tómasi Nikulássyni 25. febrúar 1665, hafði orðið að gefa í fyrstu 500 — aðrir 300 — spesíudali; bjuggu þau Jón og Sigríður um hríð á Möðruvallaklaustri. Son þeirra var Eggert á Ökrum, sem átti Ragnhildi, dóttur síra Eiríks í Höfða Hallssonar, þeirra börn:

1. Jón á Ökrum lögrèttumaður átti Ingibjörgu Skaptadóttur. Þeirra dóttir Guðrún átti Pál Sveinsson smið á Steins-

stöðum í Tungusveit. Þeirra börn: Sveinn kírurgus og mörg fleiri, sjá hèr síðar.

2. Eiríkur lögrèttumaður á Víðivöllum í Skagafirði átti fyr Ragnheiði Þorbergsdóttur, þeirra börn:

α. Síra Eggert í Glaumbæ.

β. Ragnhildur[1].

3. Ragnhildur átti Svein Bjarnason frá Holtastöðum.

Jón yngsti sonur Þorláks biskups og bróðir Gísla biskups hafði numið hèr í landi skólalærdóm, gjörðist síðan þènari höfuðsmannsins Henriks Bjelkes og hafði verið það í 6 ár. Þegar hèr er komið sögunni, veitti Bjelke Jóni Möðruvallaklaustur með brèfi dagsettu 11. marts 1666, ætlaði það ár að koma út, en kaupfarið, er hann ætlaði að ferðast á til Íslands, var af Skotum hertekið; komst þó Jón út 1667, og heimti Möðruvallaklaustur af Jóni Eggertssyni, sem var tregur að standa upp fyrir honum; en Gísli biskup, bróðir Jóns Thorlaciusar, tók sèr orsök af klögun klausturprestsins síra Þorgríms Ólafssonar (sem tvo sunnudaga samfleytt hafði ekki fengið lykilinn að kirkjunni nè hana opnaða, ekki heldur messuvín til sacramentisútdeilingar nokkrum mönnum, er hann hafði skriptað, svo

---

1) Maður Ragnhildar var Björn á Silfrastöðum Guðmundsson. Síðan átti Eiríkur Arnfríði Guðmundsdóttur af Flatatungu-ætt, hún var systir Björns á Silfrastöðum, þeirra börn:

γ. Hinrik á Reykjum í Tungusveit, hann átti þá jörð, kona hans var Ragnhildur systir Ara læknis á Flagumýri, þeirra börn:

a. Eggert, giptist, en börn hans komust eigi upp.

b. Ragnhildur átti fyr Ólaf Þorbjörnsson á Lundum í Borgarfirði og með honum börn. Seinni maður hennar var Árni Jónsson, bróðir síra Búa á Prestbakka, þau barnlaus; millum manna átti hún son.

δ. Randalín hèt laundóttir Eiríks með Guðlaugu Þorbergsdóttur frá Írafelli, hennar maður var Eyjólfur Jónsson, var hann launson fyrnefndrar Arnfríðar, seinni konu Eiríks.

þeir hlutu sakramentislausir burt að fara) til að ásaka Jón klausturhaldara Eggertsson auk þess kala, sem orsakaðist af viðskiptum þeirra Jóns Eggertssonar og Jóns Thorlaciusar. Hèr að auki hafði Jón Eggertsson í kirkjugarði á Möðruvöllum slegið prestinn á helgum degi, hártogað og illa útleikið, og vildi presturinn sökum þessa ekki meðtaka hann til heimuglegrar aflausnar, þar fyrir stefndi Jón Eggertsson presti fyrir prófast Þorstein Illugason, en hann vísaði frá sèr til biskups Gísla, sem á prestastefnu dæmdi Jón skyldugan að standa opinberar skriptir og á konungs náð eða ónáð. Frá dóminum appelleraði Jón og fór utan til Kaupmannahafnar 1668, klagaði þar biskupinn og meðdómsmenn hans fyrir konungi og höfuðsmanni, að þeir 1. hefðu dregið sig ranglega frá sínu varnarþingi, 2. ekki gefið sèr 14 daga stefnufrest, 3. forskotið gögnum sínum, vitnum og bevísingum, 4. látið óærlega menn bera vitnisburð á móti sèr. Jón Eggertsson fèkk ytra góða áheyrn máls síns og mikið af festupeningum sínum og var fógeta Jóhanni Pèturssyni Klein boðið að sætta Jón og biskup. Jón kom út 1669, og gekk í þessari misklíð enn um hríð, þóttist Jón hafa fengið mikinn sigur. Fyrir tilstilli Kleins, með 24 beztu manna ráði, gjörðist á alþingi sætt millum Jóns og biskups Gísla, útnefndi Jens Roðsteen mennina til gjörðar, en fyrir sættinni voru mest til meðalgöngu Brynjólfur biskup, lögmennirnir báðir Sigurður og Þorleifur og helztu sýslumenn; fannst mörgum til, hvað viturlega og djarflega Jón Eggertsson svaraði fyrir sig og þó skikkanlega; gekk sættin saman án útláta á báðar síður.

Jón Þorláksson kom inn sem áður var sagt 1667; mátti Jón Eggertsson víkja frá klaustrinu, þá Jón Þorláksson tók það; gjörði Jón Eggertsson Jóni Þorlákssyni sem örðugast, allt hvað hann gat, þótt sátt að kalla væri ákomin við biskup; var Jón Þorláksson enginn skörungur í skapi, eða máladeilumaður; kom því Gísli biskup málum Jóns svo, að hann hefði lènaskipti við Þorstein sýslumann Þorleifsson með samþykki fógeta, og fóru skiptin fram 1670, því Jóni Þorlákssyni þótti þar eigi viðvært fyrir áreitingum og göldrum Jóns Eggertssonar, fór hann því austur í Múlasýslu og var þar sýslumaður meðan hann lifði.

Þorsteinn flutti um haustið að norðan, en er hann var kominn yfir brúna á Jökulsá með lest sína, gjörði með kveldinu veður mikið með snjókomu og braut brúna, var það kallaður brúarbylur og eignað fjölkynngi og völdum Jóns og Sigríðar.

Þorsteinn settist þar eptir að á Möðruvöllum, og var þar um hríð; af Múlasýslu áskildi hann sjer 4 norðustu þingstaði sýslunnar: Skeggjastaða, Ásbrandsstaða, Brúar og Ás fyrir 20 rd. árlegt afgjald.

1677, þá er Benedikt sýslumaður Halldórsson sleppti Hegranesþingi fèkk Þorsteinn veiting þess.

1679 fór Jón Eggertsson enn nú utan og með honum Guðmundur sonur síra Sveins á Barði, er hafði verið heyrari á Hólum, en þá var í ósátt við biskup og slóst því í lið með Jóni.

1680 kom Jón út, og hafði fengið veiting fyrir Möðruvallaklaustri, 'skyldi hann gjalda eptir það árlega 148 rd. sp. Þessa veiting sína auglýsti hann án dvalar og gekk svo ríkt eptir, að hann fór með fjölmenni og rak Þorstein Þorleifsson burt af klaustrinu, og lèt bera allan varnað út fyrir túngarð á Möðruvöllum á holkn og hæðir, svo Þorsteinn lèt færa góz sitt svo fljótt sem hann gat því viðkomið, um og eptir mitt sumar að Víðivöllum til húsfrúr Kristínar Gísladóttur; bjó Þorsteinn þar meðan hann lifði.

Jón Eggertsson hafði ófrægt utanlands marga landshöfðingja, en mest Gísla biskup og tínt til ýmislegt, þá stefndi hann og Magnúsi lögmanni fram fyrir konung; en Þorsteinn sýslumaður Þorleifsson stefndi Jóni fyrir róg og lýgi; Jón sinnti því eigi og sigldi um haustið. Um það leyti tók Gísli biskup, Þorsteinn sýslumaður og Jón sýslumaður Þorláksson ásamt fleirum vitnisburði sína.

1681 á alþingi buðust þeir Þorsteinn og Jón Þorláksson sýslumenn til varnar móti róg og lýgi Jóns Eggertssonar og lögðu fram varnir og skjöl áhrærandi mál þeirra.

1682 samdi Jón Eggertsson ófrægðarklögun í 21. pósti yfir Gísla biskupi, Þorleifi Kortssyni, er verið hafði lögmaður, Sigurði Björnssyni og Magnúsi Jónssyni, er þá voru lögmenn, samt öðrum fleirum og bar hana fyrir konung og ríkisráð hans. Jón kom og sjálfur út tèð sumar með utanstefnur til Þorleifs

Kortssonar, er fyr hafði verið lögmaður og dæmt í málum hans, Magnúsar og Sigurðar lögmanna og Daða sýslumanns; fór Daði og Hannes son Þorleifs Kortssonar í þeim málum utan, og týndust við Noreg Boðið var, að niður skyldu falla utanstefnur Jóns Eggertssonar, en fógeti Heiðemann með 24 helztu mönnum skyldi prófa þann dóm, er Jón ákærði; var þá 1683 sent eptir Jóni undir þing, að hlýða þessu boði, því Jón var þá hèr á landi; eigi vildi hann til þings koma, og var málið dæmt sem fyr, og Jóni sektir, að eigi hlýddi stefnu konungsins. Brá þá Jón til utanferðar með Hollendingum, en Magnús stjúpsonur hans með Frökkum.

1684 lèt Heiðemann stefna Jóni Eggertssyni fyrir utanför sína með Hollendingum og skuldir eptir klaustrið; var hann dæmdur til búslóðarmissis fyrir utanförina, hafa fyrirgjört klaustrinu vegna skulda, og þar að auki til lagaákæru fyrir önnur sín afbrot Magnús lögmaður Jónsson hafði áður óskað af sýslumönnum norðanlands svars upp á ákærupósta Jóns, og gáfu þeir það á þessu þingi; gjörðu og almenna játningu um ófriðsama kynningu og skaðlega fyrirtekt Jóns, með þeirri ósk, að guð og konungurinn vildu hana alvarlaga niðurþrykkja, svo Jón megnaði ekki að framkoma sínum illa ásetning og sviksamlega forráða landið undan konungsins vernd.

Þegar þetta kom fram til Kaupmannahafnar, var Jón tekinn í hald og sat í járnum um hríð; ritaði hann hèr til lands, að það væri fyrir skuldir, en slapp úr fangelsi 1687, og komst til Svíaríkis. Það sama ár voru eignir hans gjörðar upptækar til konungs.

Klaustrið fèkk eptir hann 1684 Þórarinn Vigfússon, sem hèlt það til 1695, þá er það var veitt Scheving, sjá Vaðlaþing.

Jón Eggertsson var mjög vel gáfaður og vanur umgengni útlendra, kom hann sèr svo vel í Svíaríki, að hann fèkk borgmeistaratitil í Málmey 1689, en dó um veturinn áður, en hann tók við því embætti, og var upp á konungsins kostnað send líkkista hans til Íslands 1690.

Þegar þau Jón Eggertsson og Sigríður misstu Möðruvallaklaustur, flutti hún sig að Auðbrekku, lèt þar byggja stórmannlega og bjó þar rausnarlega til þess að hún dó 1694.

Jón Illugason prests, sem bjó í Skógum á Þelamörk, var haldinn mesti fjölkynngismaður og mikill vin Jóns Eggertssonar

og Sigríðar: var það sögn, að þau hefðu fengið af Jóni í Skógum, að gjöra fjölkynngi að óvinum sínum, þar af hafi orðið *brúarbylur* og *skipströndunin við Noreg*. Tèðum Jóni í Skógum var og eignað, að hann með fjölkynngi hefði fyrir komið óvin sínum Jóni Guðmundssyni á Hellu á Árskógsströnd, sem heima á hlaðinu hjá sèr dó snögglega, eptir að hann hafði spýtt 3 blóðgusum, þótti sá Jón ganga aptur og var margrætt um velferð hans, þar út af var orkt: „*Bæði koma eg og þú og Jón á Hellu fyrir dóm í himnahöllu, hvað er að gjöra sèr skraf úr öllu*". Aðrir hafa vísuna þannig: „*Jafnt mun koma jeg og þú og Jón á Hellu fyrir guð o. s. frv.* Málastapp varð þar um, en vitnaðist ekkert.

Eggert son þeirra Jóns og Sigríðar varð í heldri bændaröð og bjó á Ökrum í Skagafirði, sjá hèr að framan. Hann dó 1719, 49 ára gamall.

Þorsteinn sýslumaður tók Skagafjarðarsýslu, sem áður er sagt, 1677. Af embættisverkum hans tel eg hèr, að 1682 setti hann niður landið á Ríp í Hegranesi til 16 hndr. 1684 lætur hann dóm ganga um 11 vetra förupilt, sem úti varð á skírdag. 1686 lèt hann dóm ganga um rekinn hvalfangarabát, er þeir höfðu nýtt sèr er fundu. Margt fleira mætti rita um Þorstein, því hans getur víða, t. a. m. 1684 gefur hann út vitnisburð um giptingu síra Eiríks Bjarnasonar á Hallormsstað og Arndísar Magnúsdóttur. 1688 er hann klagaður fyrir kaupstaðarskuld og áminntur af Magnúsi lögmanni Jónssyni til að borga hana. 1689 er honum skipað að rannsaka um ófría höndlun í Skagafirði, og sama ár um lögþingistollinn. 1702 dæmir hann þjóf. 1703 samþykkti hann, að þeir skuli svara helgidagabroti, sem forsóma að sækja heitdaginn norðanlands.

Þorsteinn sýslumaður dó á Víðivöllum 10. nóvember 1705, 70 ára að aldri; lík hans var flutt heim að Hólum og þar grafið; hafði hann verið virkilegur sýslumaður 45 ár, en 2 ár í umboði Gísla sýslumanns Magnússonar.

Þorsteinn var maður vel lærður, fastúðigur, drjúglyndur; aldrei kvartaði hann um galdra Jóns, meðan þeir áttu þrætur saman, enda var hann sjálfur haldinn fjölkunnugur.

Um hann orkti Halldór sýslumaður í Þingeyrarþingi og Jón skólameistari Einarsson, þar í er þetta: «Til rífkunar sínu ráði hann rèðist til siglingar, Amsterdam hýsti höfðingjann,

til Haag þar eptir var, Rotterdam, Leyden, líka þann leiddi til Hamborgar, þýzka höfuðstaði 5 þá fann, fór til Kaupinhafnar. Kongleg borg tók við kunnum gest, kom svo hingað þaðan, föðurlandselska allra mest og ástvinir knúðu hann, hjónaband síðan hefir fest við hágöfgan sprakka þann, sem þá hans gæfu sómdi bezt. sèr og þægasta fann: full 7 ár tugar fimmta hann fyllti embættisins, loflega hvert af leiða vann, löngun til himinsins, árum tveim færri aldur rann ektaskaparstandsins, sjötíu ár þó allskært brann yndisljós hèraðsins».

Þetta er því hèr ritað, að sanna hið áður sagða um Þorstein. Hann tjáist að hafa verið ágætur maður, friðsamur og enginn ertingamaður, en hèlt hluta sínum, þá er á þurfti að halda. Heldur ófríður þótti hann sýnum. Þorsteinn sýslumaður hèlt lögsagnara, sem þá var títt, voru það optast vel vitibornir lögrèttumenn. Skúli Ólafsson (ætt hans þekki eg ekki) var lögsagnari Þorsteins framan af, og það var hann líka 1689. Jafnframt var líka lögsagnari hans Skapti Jósepsson, er síðar getur; en seinast Nikolás Einarsson, sem sýsluna tók eptir hann.

## Skapti Jósepsson.

*Faðir:* Síra Jósep, son síra Lopts Skaptasonar, sjá Barðastrandarsýslu.

*Móðir:* Sigríður dóttir Ísleifs[1] í Saurbæ Árnasonar.

*Kona:* Guðrún[2] dóttir Steingríms á Hofi Guðmundssonar í Vatnshlíð.

*Börn:* A. síra Þorleifur[3] í Múla, stiptprófastur. Var kirkju-

---

1) Ísleifur í Saurbæ á Kjalarnesi, faðir Sigríðar, var sonur Eyjólfs Halldórssonar Ormssonar, Einarssonar frá Hofstöðum Þórólfssonar.

2) Foreldri Guðrúnar voru Steingrímur Guðmundsson og Solveig Kársdóttir frá Vatnshlíð, sá Kár var Arngrímsson, og systurson síra Sæmundar í Glaumbæ Kárssonar.

3) Sumir telja síra Þorleif að eins tvígiptan, en aðrir, sem hèr er gjört, þrígiptan, og telja þeir fyrstu konu hans Ingibjörgu Stefánsdóttur Sigurðssonar frá Djúpadal, en þótt þetta væri satt, hefir hann með henni engin börn átt, eins og hann og engin börn átti með seinustu eða seinni konu sinni Oddnýu,

prestur á Hólum 1707, og prófastur í Skagafirði, svo á Múla 1724, dó 1748, 65 ára. Miðkona hans var Ingibjörg, dóttir Jóns Hóla-ráðsmanns á Nautabúi Þorsteinssonar; þeirra börn:

1. síra Jón í Múla átti Kristínu Konráðsdóttur, barnlaus.
2. síra Ari á Tjörn og víðar, átti fyr Helgu Þórðardóttur, börn:
   α. María[1].
   β. Jón[2].
   svo Þorkötlu, dóttur síra Sigurðar Einarssonar, þeirra börn:
   γ. Jóhannes[3].
   δ. Ari[4].
   ε. Sigurður[5].
   ζ. Þorsteinn[6], og fleiri.
3. Magnús átti Herdísi Pètursdóttur Bjarnasonar þeirra börn:
   α. Steingrímur stúdent, dó ógiptur, barnlaus.

---

er var ekkja síra Magnúsar í Húsavík og móðir Skúla fógeta Magnússonar.

1) María átti Ara Ólafsson á Skútustöðum.

2) Jón bjó í Hreiðarstaðakoti og víðar.

Enn var sonur síra Ara og Helgu:

γ. Þorleifur Aðaldal, stúdent, sigldi og var dáti.

3) Jóhannes á Kappastöðum og víðar, átti fyrr Guðnýu Bjarnadóttur frá Brekkum, svo Hólmfríði, dóttur síra Sveins á Knappstöðum Jónssonar.

4) Ari læknir á Flugumýri átti Sesselju dóttur síra Vigfúsar í Garði Björnssonar.

5) Sigurður hefir dáið barnlaus.

6) Þorsteinn lærði, sigldi, varð lífvarðarkarl, kom inn allur hnýttur og bæklaður, barnlaus.

Enn voru börn síra Ara og Þórkötlu:

η. Ragnhildur kona Hinriks Eiríkssonar á Reykjum í Tungusveit, sjá hèr að framan.

ϑ. Jón.

ι. Magnús.

β. Halla[1].
γ. Pètur.
4 síra Stefán á Presthólum átti fyr Þórunni dóttur síra Jóns, er þar var fyr prestur; börn:
α. Þorbjörg[2].
β. Gróa[3].
Svo átti síra Stefán Guðnýu Jónsdóttur[4].
5. Gróa átti síra Sæmund á Stað í Kinn; börn:
α. Síra Þorleifur, þar og prestur[5].
β. Halldóra[6].
γ. Kristín[7].
6. Jórunn átti síra Ólaf á Skútustöðum[8], börn:
α. Ari[9].
β. Bessi[10].

---

1) Halla á að vera Hallgrímur, þessir bræður eru nefndir fyr, sjá Þingeyjarþing, bls. 94; Steingrímur dó meðan hann var í skóla.

2) Þorbjörg átti síra Stefán Lárusson Scheving.

3) Gróa átti fyrst launbarn, giptist svo Jóni Grímssyni, þau áttu ekki barn saman og skildu.

4) Með þessari sinni seinni konu, Guðnýu dóttur Jóns Heródesar á Landi í Axarfirði, átti síra Stefán engin börn.

5) Síra Þorleifur átti Þóru, dóttur síra Ketils í Húsavík, svo Björgu Jónsdóttur Nikulássonar.

6) Halldóru átti Vigfús sýslumaður Jónsson, sjá Þingeyjarþing, bls 125.

7) Kristín var kona Vigfúsar Þorsteinssonar (aðrir Sigurðssonar) í Naustavík eða Náttfaravík.

8) Maður Jórunnar Þorleifsdóttur var Ólafur, sonur Þorláks Markússonar á Sjávarborg.

9) Ari átti Maríu dóttur síra Ara á Tjörn Þorleifssonar, sem fyr segir, þau bjuggu á Skútustöðum. Síðan átti hann Þuríði Árnadóttur Gíslasonar frá Halldórsstöðum.

10) Bessi dó utanlands

Þegar Jórunn var orðin ekkja átti hún launbarn með Kristjáni syni síra Ólafs á Eyjadalsá.

7. Guðrún eldri átti Guðmund Ásmundsson[1] og börn.
8. Guðrún yngri átti Gunnlaug Þorgrímsson[2].
9. Sigríður[3].

Seinni kona síra Þorleifs; Oddný Jónsdóttir

B. Síra Árni[4] á Sauðanesi átti fyr Valgerði Pètursdóttur, þeirra börn:

1. Síra Skapti á Hofi átti Guðrúnu Guðmundsdóttur[5]; börn:
   α. Síra Árni[6].
   β. Síra Skapti[7].
   γ. Guðmundur prestur[8].
   δ. Sigríður[9].
   ε. Valgerður[10].

---

1) Guðmundur þessi Ásmundsson var í Reykhúsum í Eyjafirði.

2) Sumir nefna Gunnlaug þenna Jónsson og segja, að hann hafi verið lögrèttumaður í Skagafirði, aðrir þar á móti segja, að hún hafi verið ógipt

Önnurhvor þessara Guðrúna átti laundóttur, sem hèt Guðrún Ingimundardóttir og hèt maður hennar Guðmundur.

3) Sigríður giptist ekki, en átti launson, er hèt Kolbeinn Jónsson, hann fór suður, hans sonur var Þorleifur á Háeyri.

4) Síra Árni var tvígiptur, hèt seinni kona hans Guðrún Árnadóttir, átti hann með henni 2 börn, er bæði dóu ung.

5) Guðrún var dóttir síra Guðmundar Eiríkssonar á Hofi í Vopnafirði.

6) Síra Árni Skaptason átti fyr Steinunni, dóttur síra Sveins Halldórssonar, þau áttu eigi börn saman; seinni kona síra Árna var Helga Vigfúsdóttir Jónssonar sýslumanns.

7) Síra Skapti átti Guðrúnu Einarsdóttur prests frá Sauðanesi Árnasonar.

8) Síra Guðmundur á Ási í Fellum átti Guðríði Jónsdóttur úr Seyðisfirði.

9) Sigríður giptist ekki, varð úti

10) Valgerður var tvígipt. átti fyr Stefán Stefánsson frá

ζ. Hákon[1].
η. Helga[2].
ϑ. Guðrún[3].
2. Helga[4] seinni kona Högna Eiríkssonar, þeirra börn:
α. Eiríkur.
β. Þorleifur
3. Guðbrandur átti fyr Guðnýu Gunnlögsdóttur, og síðan Sigríði Hjörleifsdóttur.
4. Gróa mun eigi hafa gipzt.
5. síra Einar Árnason á Sauðanesi 1767, dó 1822, átti Margrèti Lárusdóttur[5].

C. Magnús á Víðimýri[6] flutti þangað 1727, hans son Sæmundur[7] á Víðimýri, konur hans nefnast: fyrsta Gróa Bjarnadóttir, önnur Ragnheiður Þorláksdóttir, þriðja Sigríður Jónsdóttir, fjórða Sesselja Gísla-

---

Landamóti í Kinn; þau voru aðskilin með dómi; síðan átti hún Guðmund Bjarnason bróður Jóns Bjarnasonar í Hrísey.

1) Hákon var regents-karl í Kaupmannahöfn og giptisi þar.

2) Helga hefir dáið barnlaus.

3) Guðrún átti Björn stúdent frá Böðvarsdal Björnsson

4) Afkvæmi Helgu dó út.

5) Það er almanna mál, að síra Árni á Kirkjubæ, er kallaður var Þorsteinsson, muni hafa átt skylt við síra Árna Skaptason.

6) Skapti Jósepsson, faðir Magnúsar, bjó eigi nema skamma stund á Frostastöðum, keypti Þorleifsstaði í Blönduhlíð, og flutti sig þangað. Magnús sonur hans hefir fengið Þorleifsstaði eptir hann, því hann keypti af Benidikt lögmanni Víðimýri fyrir Þorleifsstaði og flutti sig þangað. Magnús var orðlagður ákafamaður.

7) Sæmundur var ákaflega stór og sterkur, en mikill svakamaður, eru um hann margar skrítnar smásögur; hann eyddi öllu fè sínu. Afkvæmi hans dó út. Fyrsta kona Sæmundar var Gróa Ísleifsdóttir Bjarnasonar; önnur Ragnheiður dóttir Þorláks Markússonar frá Sjávarborg, þriðja Sigríður Jónsdóttir og hin fjórða Sesselja Jónsdóttir.

dóttir; aðrir nefna þær öðruvísi. Börn Sæmundar og Sigríðar:

α. Ragnheiður.

β. Ragnhildur.

D. Ingibjörg átti fyrst Ólaf Þorláksson[1], þeirra börn:

1. síra Jósep á Eyjadalsá átti Ragnheiði[2]; börn: síra Ólafur Hjört, prestur á Finnmörk.
2. Gunnlaugur lögrèttumaður í Sölvanesi átti Ingunni[3]; börn:

   α. síra Ólafur prestur í Grænlandi.

   β. síra Gunnlaugur[4] á Hálsi.

   Seinni maður Ingibjargar var Jón[5] son Jóns Eggertssonar, sjá hjer að framan; þeirrra dætur:
3. Guðrún átti Pál á Sveinsstöðum Sveinsson, þeirra son

   Sveinn læknir, og fleiri[6].

---

1) Ólafur Þorláksson var í Hèraðsdal.

2) Ragnheiður kona síra Jóseps var dóttir síra Sigurðar á Bægisá Gottskálkssonar Stígssonar, (sjá hèr að framan).

3) Gunnlaugur átti Ingunni Magnúsdóttur, þau voru systrabörn.

4) Síra Gunnlaugur var tvígiptur, átti fyrst Steinvöru, svo Helgu; voru þær systur og dætur síra Gunnars Hallgrímssonar á Upsum.

5) Jón seinni maður Ingibjargar bjó á Steinsstöðum, og var sonur Eggerts á Ökrum, lögrèttumanns; sá Eggert varð 49 ára og dó 1719, en foreldri hans voru þau Jón Eggertsson og Sigríður stórráða.

6) Börn Guðrúnar og Páls á Sveinsstöðum voru:

a. Sveinn læknir, bjó í Vík í Mýrdal, átti Þórunni dóttur Bjarna landlæknis Pálssonar.

b. Þorsteinn bjó á Reykjavöllum, eignarjörðu sinni, átti Ingibjörgu Skúladóttur.

c. Jón átti Kristínu, systur Jóns prentara Jónssonar.

d. Eiríkur átti fyrst Arnfríði Ormsdóttur frá Krákugerði, síðan Guðríði Gunnlaugsdóttur.

4. Steinunn[1] átti síra Jón í Goðdölum Sveinsson.

E. Kristín átti síra Magnús Arason, þeirra börn:
1. Margrèt átti síra Jón á Óslandi, barnlaus.
2. Ingunn áður nefnd átti Gunnlaug lögrèttumann í Sölvanesi, sjá hèr að framan
3. Þórunn.

F. Jósep[2] (eg veit ekkert um hann eða hans afkomendur).

Skapti var lögrèttumaður, bjó fyrst á Frostastöðum, svo á Þorleifsstöðum í Blönduhlíð. Hann varð lögsagnari Þorsteins sýslumanns Þorleifssonar; hann lèt dóm ganga 16. marz 1689 yfir Jóni nokkrum Eyjólfssyni fyrir þjófnað, og 1697 kemur dómur Skapta fyrir í lögrèttu, er hann eptir skipun Lárusar lögmanns lèt ganga í Hegranessýslu um dauða barnsins Sigríðar Illugadóttur í Norðurá. Skapti var jafnan vel virtur, dó á Þorleifsstöðum 1722 og var grafinn á Miklabæ. Fram yfir 1700 var hann lögsagnari Þorsteins. Markúsar-annáll telur hann lögsagnara 1701.

## Nikulás Einarsson.

*Faðir:* Einar biskup Þorsteinsson, Tyrfingssonar í Hjörtsey Ásgeirssonar prests á Lundi.

*Móðir:* Ingibjörg Gísladóttir Brynjólfssonar prests á Bergstöðum og Sesselju Grímsdóttur.

*Kona:* Ragnheiður Pálsdóttir Jónssonar á Melstað og Guðrúnar Erlendsdóttur; þau giptust 1703, en Ragnheiður dó 1707.

*Börn:* A. Einar á Söndum í Miðfirði átti Guðrúnu dóttur Jóns prófasts Þorvaldssonar á Miklabæ. Einar dó 1756; þeirra börn:
1. Ragnheiður átti Halldór klausturhaldara Vídalín, sjá Húnavatnsþing. Þeirra börn:

---

e. Benidikt átti fyrst Ketilríði, svo Guðfinnu.
f. Guðrún átti Tómas son Tómasar Björnssonar á Reykjum.

1) Steinunn var dóttir Ingibjargar og Ólafs Þorlákssonar.
2) Jósep dó í stóru-bólu, víst barnlaus.

α. Bjarni.
β. Einar, urðu úti.
γ. Páll[1], allir barnlausir.
δ. Hólmfríður[2].
ε. Benedikt[3].
ζ. Elín[4].
η. Sigríður[5], þau giptust öll ög áttu börn.
2. Erlendur.

B. Erlendur Nikulásson, nokkra stund heyrari í Skálholti, átti Ingigerði (aðrir Ingiríði) Ólafsdóttur frá Lækjamóti. 1734, þegar Jóhann Gottrúp frásagði sèr Vatnsdals- og Strandajarðir, tók Erlendur þær að lèni; hann var fæddur 1704 og lærði í Hólaskóla. Dóttir Erlendar og Ingigerðar var Guðrún, giptist Tómasi Hafsteinssyni.

C. Pètur hèt launson Nikolásar.

1695, 18. apríl, fèkk Nikulás vonarbrèf konungs fyrir Hegranesþingi og Reynistaðarklaustri, þegar fèlli (hann meinast þó að hafa orðið lögsagnari í Þingeyjarsýslu um tíma 1685). Eptir Reynistaðarklaustur átti hann árlega að gjalda 128 rd. 24 sk. spec., en með því hvorugur þeirra, er þá höfðu lèni þessi, vildi sleppa þeim, gaf hann sig fyrir lögsagnara Þorsteins, sem var orðinn hrumur af elli. Áður hafði Nikulás verið um hríð þènari hjá Christopher Heidemann, en þetta ár 1696 skuldbindur Nikulás sig til, að gjöra ekki tilkall til sýslunnar og klaustursins fyrri en þeir, er þau lèni hèldu, vildu

---

1) Páll var utanlands, varð mál út af arfi hans.

2) Hólmfríður átti Árna Jónsson; er eitt sinn var skólahaldari á Bessastöðum.

3) Benidikt á Víðimýri, skólagenginn, átti Katrínu, dóttur Jóns biskups Teitssonar.

4) Elín átti síra Pál Erlendsson á Brúarlandi.

5) Sigríður átti síra Magnús Magnússon í Glaumbæ.

Enn voru börn Ragnheiðar og Halldórs:
θ. Anna átti síra Stefán Einarsson á Sauðanesi.
ι. Björg, fyrri kona síra Sigurðar Árnasonar á Hálsi.

þeim sleppa, og þar undir skrifar Einar biskup, sem borgunarmaður.

1699, þá er harðindi tóku að halla velgengni manna í Norðurlandi, lèt Oddur á Reynistað sem hann vildi sleppa klaustrinu; því bauðst Nikulás á Seilu 31. maí 1699 að taka á móti Reynistaðarklausturs kúgildum, og sama ár heimtaði Nikulás, að klaustrið væri úttekið, fór þá Oddur þaðan að Gröf, en Nikulás tók klaustrið og hèlt það, meðan lifði.

Þorlákur Markússon segir, að Nikulás hafi tekið klaustrið 1698, og haldið það í 9 ár.

Þegar Þorsteinn sýslumaður dó 1705, tók Nikulás sýsluna, en var síðan af höfuðsmanni og fógeta staðfestur 1706 í sinni fyrri veitingu, og hèlt þar eptir sýsluna, meðan lifði.

1707 hefir hann haldið þing í 4 daga á Ökrum út af aðtekt á hesti, og aptur í sama máli í maímánuði tvo daga. Varð úrskurður dómsmanna, að málið var dæmt undir lögmann, sem, þá er til alþingis kom, heimvísaði því aptur til löglegri undirbúnings í hèraði upp á kostnað Nikulásar sýslumanns. Sama ár, 25. júlí, inngaf Jens Madtzen Spendrup klögun til lögmanna og amtmanns Christjáns Möllers um forsómun Nikulásar sýslumanns að dæma yfir arfstilkalli Spendrups hjá Hólmfríði Sigurðardóttur í Síðamúla í Borgarfirði. Þetta ár 1707 dó Nikulás sýslumaður og kona hans í stóru-bólu. Mèr er ókunnugt um fleira markvert í lífssögu Nikulásar sýslumanns.

### Halldór Þorbergsson.

*Faðir:* Þorbergur sýslumaður Hrólfsson, sjá Þingeyjarþing.

*Móðir:* Geirdís Halldórsdóttir, bóndadóttir; var Halldór launson Þorbergs, og ól Halldóra kona Þorbergs Halldór upp, sem sinn eiginn son.

*Kona:* Vigdís dóttir síra Ólafs á Miklabæ Jónssonar.

*Börn*[1]: A. Halldóra kona Skúla Ólafssonar á Seilu; þeirra börn:

1. Þorlákur á Seilu átti Steinunni, dóttur síra Jóns Guðbrandssonar á Flugumýri.
2. Síra Björn á Hjaltastöðum Skúlason átti Halldóru Stefánsdóttur, þeirra börn:

---

1) Sjá Þingeyjarþing, bls. 88—90

α. Stefán skólameistari, nafnfrægur í reikningi.
β. Síra Jón Björnsson á Kúlu átti Halldóru dóttur Árna í Bólstaðarhlíð Þorsteinssonar; þeirra börn:
  a. Björn Munkaþverárklausturhaldari o. s. frv.
  b. Halldóra kona síra Auðuns Jónssonar í Blöndudalshólum.
γ. Skúli Björnsson[1] á Neðri-Mýri í Húnavatnssýslu, hans börn:
  a. Þorsteinn dó ógiptur.
  b. Guðrún[2].

3. Málmfríður kona Marteins prentara Arnoddssonar.
4. Jón.
5. Guðrún.
6. Hómfríður.

B. Björg Halldórsdóttir, kona Jóns Illugasonar á Spákonufelli; þeirra dóttir
Guðrún[3].
C. Helga kona Þórarins í Garði Þorlákssonar; þeirra son:
Þorlákur í Ólafsdal.

Seinni kona Halldórs Þorbergssonar var Ingiríður Ingimundardóttir; þeirra son:

---

1) Skúli Björnsson átti Svanhildi Þorgrímsdóttur frá Miðgrund.

2) Guðrún átti Erlend Guðmundsson á Torfalæk Loptssonar; þau barnlaus.

Guðrún átti laundóttur með Bjarna, launsyni Jóns Árnasonar í Bólstaðarhlíð, hèt Sigurlaug, hennar maður Arnbjörn á Gilljá, son síra Árna Tómassonar á Bægisá, sjá hèr að framan.

Enn var laundóttir Skúla Björnssonar:

c. Hólmfríður, hennar fyrri maður Gísli Árnason Tómassonar, en hinn síðari Jóhannes í Hofstaðaseli, son Jóns launsonar Jóns læknis Pèturssonar; þeirra son var
Síra Gísli á Reynivöllum, er átti Kristínu dóttur Eiríks sýslumanns Sverrissonar.

3) Guðrún átti Illuga á Finnstöðum Sveinsson.

D. Síra Jón á Völlum í Svarfaðardal.
Launbörn Halldórs voru:
E. Gunnvör kona Þórðar Þorlákssonar, bróður Þórarins, sem átti Helgu.
F. Hallgrímur á Steini á Reykjaströnd, skáld og ryndur vel[1].

Halldór var listamaður, vel að sèr í lögum og ýmsum fróðleik, hann var og lögrèttumaður og opt í dómi með Benidikt sýslumanni á Seilu. Þegar Nikulás sýslumaður Einarsson dó, var Halldór settur lögsagnari 1707, til þess Benidikt sýslumaður viðtók. Um of þótti Halldór kvennhollur; hann ritaði annál fram yfir 1710.

Eggert á Ökrum tók Reynistaðarklaustur eptir Nikulás.

### Benidikt Magnússon Bech.

*Faðir:* Síra Magnús á Kvíabekk í Ólafsfirði, sonur Sigurðar Björnssonar frá Laxamýri og Þuríðar[2] dóttur síra Sigurðar á Grenjaðarstað, Jónssonar biskups Arasonar, sjá Strandasýslu. Föðurmóðir Benidikts var Steinvör dóttir síra Magnúsar í Laufási Ólafssonar.

*Móðir:* Valgerður Ásgrímsdóttir skálds Magnússonar á Höfða á Höfðaströnd.

*Kona:* Margrèt Einarsdóttir prests í Görðum á Álptanesi Einarssonar prests og Þóru Torfadóttur prests í Gaulverjabæ Jónssonar (Benidikt var Margrètar fyrsti maður, annar Guðmundur skólameistari Steinsson, þriðji síra Björn Magnússon),

*Barn:* Hjalti andaðist í barndómi í Möðrufelli.

Benidikt var fæddur 1674. Eptir afstaðinn latínuskólalærdóm, fór hann utan til Kaupmannahafnar og dvaldi þar 1

---

1) Auk barna Halldórs Þorbergssonar, sem talin eru hèr og á tilvitnuðum stað við Þingeyjarþing, telst
Helga, laungetin, kona Jóns á Balaskarði Sigurðssonar.

2) Þuríður, laundóttir síra Sigurðar á Grenjaðarstað, var kona Magnúsar Árnasonar, Pèturssonar Loptssonar og móðir Björns á Laxamýri Magnússonar, var Björn faðir Sigríðar, föður síra Magnúsar, föður Benidikts sýslumanns.

eða 2 ár, kom svo út og gjörðist djákni á Möðruvöllum, átti þar barn með giptri konu, er Þuríður hèt, og missti því djáknabrauðið. Þar eptir var hann hospítalshaldari á Möðrufelli í Eyjafirði nokkur ár, gipti sig þá þar og átti umgetinn son; síðan gjörðist hann Hólastaðar-ráðsmaður og flutti sig þangað til veru.

Sýslumaður Jón Jakobsson segir, að hann hafi orðið sýslumaður 1709, en konferenzráð Magnús Stephensen heldur, að hann hafi orðið það 1707 eða 1708, og getur það svoleiðis heimkomizt, að það hafi verið 1708, sem þeir fullmektugu veittu honum sýsluna, og Björns á Skarðsá annálaviðbót tjáir, að það hafi verið 1708.

Dóm Benidikts finn eg eigi fyr en 1711 um barnsfaðernislýsingu, og 1712 þingar hann á Ökrum um sama mál. 1713 er Benidikt eptir amtmannsráðstöfun í synodusi með Steini biskupi. Sama ár tekur hann þingsvitni um skyldugleika síra Jóns Gottskálkssonar á Hvanneyri og konu hans Halldóru Runólfsdóttur. Sama ár að Lýtingstöðum dæmir hann um barneign Kristínar Hallsdóttur 16 vetra gamallrar með Grímólfi Gunnarssyni, hálfbróður að móðurinni við Hall föður Kristínar; kvað stúlkan sig hafa verið tekna nauðuga, en var þó dæmd frá lífi. Það ár flutti Benidikt að Sjávarborg. 1715, 25. júlí, afstóð sýslumaður Benidikt Bech hálfri Hegranessýslu við Jens Spendrup með leyndum skilmálum. Jens sótti um og fèkk af þeim fullmektugu Lárusi Scheving og Beyer þar upp á embættisbrèf fyrir henni 15. júlí 1716, en rentukammerið ónýtti það síðar og vísaði til tilskipunar frá 20. febrúar 1717. 1716 kaupir Benidikt sýslumaður 10 hndr. í Þóroddstöðum fyrir 10 hndr. í Daðastöðum og önnur 10 hndr. í Þóroddstöðum fyrir lausafè, en 1724 keypti Margrèt þá ekkja 18 hndr. í Þóroddstöðum af Jens Spendrup fyrir 90 rd. 1716 kaupir Benidikt sýslumaður hálfa Daðastaði, 10 hndr., fyrir 5 hndr. í Syðri-Brekku á Galmarströnd[1]. 1719, 7. dag maímán-

1) Benidikt sýslumaður hefir eigi átt mikið lausafè, er hann dó. Jens sýslumaður Spendrup segir, að erfingjar hans hafi gengið frá arfi og gjaldi; reitur þær, er hann eptir sig lèt, hafi verið reiðurunum til Hofsóss í hendur virtar, eptir þær höfðu

aðar, þá Benidikt ferðaðist frá Hólum, reið hann til Kálfstaða til Þorleifs prófasts Skaptasonar, sem fylgdi honum á veg, og er þeir kvöddust, bað prófastur hann að bera kveðju konu sinni; Benidikt mælti: «Hitta muntu hana fyr en eg», reið síðan leið sína á þingstað og var þar fyrir Jens Spendrup, drukku þeir af einni skál, þá mælti Benidikt: «Sú skál skal vera dauðaskál okkar beggja, og mun eg nú fara þá götu, er þú munt eptir fara». Síðan reið hann í Hegranes til Hellulands, sunnudag 4. eptir páska (7. maí), var ferjumaður við kirkju, en Páll stúdent Sveinsson, þènari sýslumanns, var með honum, vildu þeir eigi bíða. 2 voru ferjur, og tóku þeir aðra þeirra, en hittu á þá lakari; norðanveður var þá og eigi svo mikið flóð, sem þurfti, gáðu þeir þess ekki; tók ferjan að leka, en austurtrog var ekki, jós þá sýslumaður með hatti sínum, þar til hann fèll útbyrðis, hljóp þá Páll út, og náði honum, rèttu þeir sig við, en svo var grunnt, að ferjan flaut ekki, vóðu þeir þá, til þess þeim var eigi meira en í hnè, og ætluðu að halda þar vestur yfir, en þar var áll einn, er þeir vissu eigi, því eigi sá niðrí og týndust þeir þar báðir í honum Menn urðu varir við þetta, og vildu bjarga, en þeir náðust eigi fyr en örendir. Var lík Benidikts rifið nokkuð; þeir voru jarðsettir á Sjávarborg 29. sama mánaðar[1].

Benidikt var hár maður vexti og þrekinn þar eptir. fríður maður sýnum, vel æfður í bókmenntum. hugvitsmaður mikill og góðmenni. Hann var kallaður málafylgismaður mikill. Skáld var hann og ágætt, hann hefir orkt: 1. sálma út af Þórðarbænum, 2. yfir 7 orð Kristí á krossinum, 3. marga ágæta og uppbyggilega sálma og kveðlinga einstaka.

Benidikt sýslumaður var haldinn vel rýndur og margvís, var því af sumum kallaður fjölkunnugur, gjörði það eigi lítið til, að hann var mjög getspakur, og fór mikið orð af því. Þar um er fært til dæmis hið áður ritaða, og í kappræðum Jóns

---

3 ár undir forsigling staðið, og fullnægðu þær eigi fjórða parti hans restanza. Að jarðagózi Benidikts hafa menn þannig álitið að kaupmennirnir, sem útlendir menn, engan aðgang hefðu til að fá með skuldir sínar borgaðar.

1) Jens Spendrup segir, að Benidikt hafi drukknað 1718.

Steinssonar og Benidikts sagði Jón: «Ekki verður þú jafnstæltur, Benidikt, þegar selurinn rífur þig». Benidikt svaraði: «Ekki mun eg þó drepa mig sjálfur».

Guðmundur sonur Steins biskups kom einhverju sinni til Benidikts að Sjávarborg snemma morguns, svo Benidikt var eigi upp staðinn frá konu sinni. Guðmundur var þá ölhreifur, og þá er hann hafði heilsað þeim í sænginni, mælti hann: «Of góð er þèr kona sú Benidikt, slíkur sörli sem þú ert». Benidikt leit upp í glugga, og mælti: «Satt er það, góð er konan, en skamma stund munt þú njóta hennar». Eptir dauða Benidikts giptist Guðmundur Margrètu ekkju hans; og drukknaði skömmu þar eptir. Benidikt var á yngri árum haldinn kvennhollur maður. Hann bjó á Sjávarborg, eptir að hann gjörðist sýslumaður, og þótti ágætt yfirvald.

Benidikt sigldi tvisvar til Kaupmannahafnar. Laundóttir hans hèt Þuríður, hún átti Pètur Ketilsson á Gunnsteinsstöðum í Langadal, og hèt dóttir þeirra Elísabet.

## Jens Madtzen Spendrup.

Hann var danskur að kyni og er mèr ætt hans ókunnug. Hann giptist hèr á landi og var hans

*Kona* 1. Þóra dóttir Jóns[1] Hallgrímssonar lögrèttumanns Halldórssonar lögmanns Ólafssonar; var Þóra laungetin, og hèt móðir hennar Björg; átti Þóra Víkurtorfuna í Sæmundarhlíð, rúm 60 hndr., og bjuggu þau Jens þar. Þeirra barn var Hallgrímur, dó móðirin af barnsförum og barnið litlu seinna, og erfði svo Jens barnið.

*Kona* 2. Helga dóttir Jóns biskups á Hólum Vigfússonar; hún var þá ekkja Vigfúsar Gíslasonar á Hofi á Höfðaströnd; þau giptust 1710 og flutti Jens sig þangað frá Vík í Sæmundarhlíð. Spendrups og Helgu börn voru:

A. Vigfús lærði í skóla, sigldi og dó utanlands.

B. Þorsteinn dó ungur af meinlætum.

Jens var fæddur á Jótlandi 1680 í bæ þeim, er Spendrup kallast; óljóst er mèr um ungdóm hans, þar til hann var undir-

1) Jón giptist ekki, átti Víkurtorfuna og bjó þar.

kaupmaður í Spákonufellshöfða, og þá er hann hafði verið það um hríð, sleppti hann því starfi, giptist, sem áður er sagt, og fór að búa í Vík á eign konu sinnar; gjörðist hann mikill framkvæmdarmaður og búmaður. Þá er hann var giptur sinni annari konu Helgu, fór hann að leitast við að fá Hegranessýslu hjá Benidikt Bech, er honum til vilja afstóð henni hálfri; fékk þó Spendrup ekki konungsstaðfestingu þar upp á, svo hann var að álíta sem lögsagnara Benidikts sýslumanns.

Óvild kom millum Odds lögmanns Sigurðssonar og Spendrups, svo hann stefndi Oddi lögmanni fyrir lögrètturètt 1713, en lögmenn dæmdu þá stefnu ónýta, fyrir það að hún hefði verið birt á þeim tíma, sem lögin banna, N. L. 1—2—3 þgf. b. 9. kap. 1713 stefnir og Spendrup Benidikt Bech fyrir röggsemda- og lagaleysi á Víðimýrarsamkomu 1710, sömuleiðis Oddi vicelögmanni Sigurðssyni, en lögmenn dæmdu stefnur hans og sakargiptir ólöglegar, og skyldi Benidikt sýslumanni standa frítt fyrir að lögsækja hann; þeim dómi appelleraði Spendrup. Þá er Spendrup eigi hafði ávinning við Benidikt sýslumann, fékk hann í vinsemd hjá Benidikt samning gjörðan um, að Spendrup fengi hálfa sýsluna (þó meira að nafni en rentu). fram fór það 1715, og þeir fullmektugu gáfu Spendrup þar upp á veitingarbrèf, en rentukammerið ónýtti þessa veitingu þeirra. Samt tók hann að gjöra sýslumannsverk 1716, því það ár grennslast hann eptir í Viðvík 25. maí um stuld á 20 rd. frá Halldóru Þorsteinsdóttur á Hólum, þá uppvíst varð, að Sigurður Ívarsson og Pètur Björnsson, stólsins vinnumenn, hefðu svo marga peninga burtfengið. Aptur sama ár, 1. júlí, tekur hann fyrir sama mál, en setur til lögrèttunnar, hvað háan eið Sigurður skuli vinna fyrir þessa grunsemi; úrskurðuðu lögmenn honum sjöttareið. Þá lýsir Spendrup á alþingi áður nefndum Pètri Björnssyni sem burtstroknum og rygtuðum fyrir tèðan þjófnað.

1717, 1. maí. að Seilu dæmir hann Árna og Kolfinnu, hverra 4 vetra gamalt stúlkubarn fyrir athugaleysi farizt hafði, til að lúka 1 rd. til næsta hospítals.

Það er áður ritað, að eptir dauða Nikulásar sýslumanns Einarssonar tók Eggert á Ökrum Reynistaðarklaustur, og sleppti Eggert því 1712, en Eyjólfur Einarsson bróðir Halldórs sýslumanns í Norðursýslu tók það þá í sameiningu við Þorlák Hóla-

ráðsmann Björnsson. Eyjólfur átti Björgu dóttur Ara á Sökku (sjá Barðastrandarsýslu); þeirra börn: Jón, Þorsteinn, Katrín, Kristín, Ari, Helga, Einar, Þorbjörg. Konan og börnin urðu sek um sauðatöku og hilmingu, og fengu refsing meiri og minni, en Björg var þar frá keypt. Eyjólfur var þessa óvitandi, en af vanvirðu þessari sagði hann sig frá klaustrinu; tók þá sýslumaður Benidikt Bech það, en frásagði sèr það aptur 1717, var það þá enn uppboðið, og hlaut það Jón á Sólheimum, er verið hafði sýslumaður í Dala- og Strandasýslum eptir að hann hafði misst prestskap, sjá Dalasýslu. Hafði Jón ekki móttekið klaustrinu, þá hèr er komið sögunni, en þeir sem áður hèldu það, voru í skuldum. Stefndi því sýslumaður Spendrup, sem landfógeta Wulfs fullmektugur, til 14. júlí á alþing þeim, er í skuldum voru fyrir afgjaldið af Reynistaðarklaustri:

1. Eyjólfi Gunnarssyni fyrir . . . . , . . 202 rd. 36 sk.
2. Þorláki Björnssyni fyrri . . . . . . . . 27 — 12 —
3. Benidikt Bech sýslumanni fyrri . . . . 261 — 24 —

Og ályktuðu lögmenn þá skylduga, að svara skuldum sínum eptir veitingarbrèfum þeirra innan útgöngu ágústmánaðar, annars skyldi sýslumaður gjöra útpöntun hjá þeim, ef eigi næg veðsetning væri tillátin. En þar klausturhaldarinn Jón Magnússon enga veðsetningu setti fyrir klausturafgjaldinu, var Reynistaðarklaustur 25. júlí 1718 uppboðið á ný, og varð sýslumaður Spendrup hæstbjóðandi með 95 rd. (Árb. 8. Hl. p. 38. segir 100 rd.) og fèkk konungs staðfestingu þar upp á 3. maí 1723. Marga dóma lèt Spendrup sýslumaður ganga, sem hèr er bæði óþarft og oflangt að upp telja, þar víst er um hans seinni valdaár. En sýsluna fèkk hann algjörlega við dauða Benidikts sýslumanns 1719[1], en konungsstaðfestingu þar upp á 17. marz 1721. Þess get eg hèr, að 1722, hinn 15. október, eptir beiðni landfógeta C. Wulfs, mætir hann ásamt vicelandskrifara Jóni Jónssyni og Sölva Tómassyni til að taka út kirkju og klaustur á Möðruvöllum af erfingjum Lárusar Schevings og afhenda það Hans Scheving. Undir klaustursúttektina eru skrifaðir Hans Scheving, Jón Jónsson, Hannes Scheving, Sölvi Tómasson, Jens Matzen Spendrup. En undir kirkjuúttektina, sem var fyr á sama ári, Steinn Jónsson, Lárus Scheving, Jón

1) Verður líklega að vera 1718.

Markússon, Þorleifur Halldórsson, Jón Jónsson, Hannes Lárusson, Jón Steinsson, Guðmundur Steinsson, Sæmundur Magnússon, Sigurður Vigfússon, Þorvarður Bárðarson.

1731 var Spendrup settur af amtmanni Furmann til að gegna á alþingi lögmannsverkum sunnan og austan.

1733 var hann af amtmanni Furmann settur til að sitja synodalrèttinn á Flugumýri með biskupi.

1735, nóttina milli hins 5 og 6. októbermánaðar, þegar sýslumaður Spendrup ætlaði yfir Hèraðsvötnin heim til sín, drukknaði hann af ferju eptir mikla vosbúð í byljaveðri ásamt þènara sínum, stúdent Jóni Guðmundssyni, og fannst sýslumaður degi síðar; var hann grafinn á Reynistað 18. október hjá fyrri konu sinni, var útför hans gjör hin heiðarlegasta (les um tildrög og atburð dauða hans í Árbóka 8. Hl. cap. 87, p. 127, hvar greinileg saga þar um finnst).

Sýslumaður Spendrup var með lægri meðalmönnum, en næsta gildur, kringluleitur og dökkur í andliti; ekki var hann fríður sýnum. Hann var hversdagslega gæfur og umgengnishægur; enginn var hann skrautmaður, og klæðnaður hans allur meir til þarfa en yfirlætis. Hann var ólærður maður að öðru en því, sem hann af dönskum og íslenzkum lögum hafði numið hèr á landi; útsjónar- og bústandsmaður var hann góður og mikill fjárgæzlumaður. Hann bjó fyrst, eptir að hann hætti að vera kaupmaður, í Vík í Sæmundarhlíð, þar eptir á Hofi á Höfðaströnd, þá er hann hafði gipzt Helgu, síðan á Reynistað eptir að hann tók klaustrið; hann var í 20 ár við sýslumannsembætti, en 17½ ár klausturhaldari, varð 55 ára að aldri og var jafnast heilsugóður.

Steinn biskup orkti eptir hann ljóð, dróttkveðin í 15 vísum áttmæltum, og hrósar honum mjög; landþingsskrifari Oddur Magnússon hefir kveðið eptir hann undir sýslumanns Spendrups nafni, sub titulo: Hodie mihi, cras tibi, melod: Far heimur, far sæll; og undir hans eptirlifandi ekkju nafni, sub titulo: gemebundus sed gratulatorius Echo, melod: Hymnus Davidis: Princeps stelliferis etc. í 20 stefum, vel og snoturlega samsettum og kveðnum, samt 2 áttmæltum versum í grafskript. Þorlákur prófastur Þórarinsson hefir og orkt sálm eptir Spendrup, sem finnst í ljóðmælakveri hans prentuðu á Hólum í Hjaltadal 1780.

Eptir boði amtmanns uppskrifaði landþingsskrifari Oddur Magnússon dánarbú Spendrups, sem var orðinn slíkur auðmaður að lausafè, að í 3 vikur var verið að virða þar og skipta auðnum, sem hljóp 6040 rd. spc. Bróðir Spendrups lifði þá utanlands, og var honum sendur arfurinn. Jarðagóz var og mikið, lagt eptir gömlu lagi, hvert jarðarhundrað á 4 rd. spc., það var hèr innleyst, mest af stjúpbörnum Spendrups, Jóni og Guðrúnu.

Bæði urðu þau Jens og Helga veik strax eptir giptingu þeirra og þó hún meira; almúgi kvað það vera af óhreinum anda.

**Oddur Magnússon.**

*Faðir:* Magnús prófastur í Þingeyjarsýslu og prestur á Grenjaðarstað, dó 1733, 60 ára.
*Móðir:* Guðrún Oddsdóttir, sjá æfi Gísla biskups.
*Kona:* Sigríður dóttir Sigurðar á Geitisskaði Einarssonar, sjá Húnavatnsþing; þau giptust 1736.
*Barn:* Einar dó í hvítavoðum.

Oddur var borinn á Grenjaðarstað 24. marz 1715; hann lærði fyrst í Múla hjá Þorleifi prófasti Skaptasyni og var af honum dimitteraður 1731, fór utan til meiri lærdómsframa með Akureyrarskipi 1733, fèkk landþingsskrifaraembættið 26. marz 1734, og kom út með Búða-skipi samsumars, ásamt með þá orðnum sýslumanni í Skaptafellssýslu, Skúla Magnússyni (þá var kaupmaður við Búðir nafnfrægt góðmenni Jónas Riis, er þar byggði að nýju kaupstaðinn fyrir austan ósinn, sem á seinni tíðum var færður vestur yfir). Oddur fór strax af skipsfjöl norður að Geitisskarði, en gaf Skúla sýslumanni fullmakt að gjöra verk sín á alþingi um sumarið. Oddur giptist um haustið 1736, 21. október, áður nefndri Sigríði Sigurðardóttur. Þegar sýslumaður Spendrup dó, var Oddur af amtmanni Lafrens settur sýslumaður í Skagafjarðarsýslu, umsjónarmaður og skiptaráðandi í dánarbúi Spendrups 1735, fèkk og Reynistaðarklaustur til forráða, hvar hann á því hálfu setti bú vorið 1736 til móts við ekkjuna Helgu Jónsdóttur. Hann var og af þáverandi lögmanni Magnúsi Gíslasyni settur til að útgefa rèttarstefnur þeim, er með þurftu, í norðurlögdæminu (en Guðmundur sýslumaður Sigurðsson skyldi útgefa þær í Vestfirðingafjórðungi).

Um Skagafjarðarsýslu sótti hann 1736, og spáðu honum henni allir, en Skúli sýslumaður Magnússon varð hlutskarpari, sem og svo sótti um hana, og fèkk fyrir henni veiting 1737, en Oddur hafði samt klaustrið til forráða. 1738 burtkallaðist að Reynistað 10. janúar settur sýslumaður Oddur Magnússon, þá 23 ára að aldri, maður bæði að ásýndum, námsgáfum og flestri atgjörfi nafntogaður, hann var 20 ára settur til embættis, og dó hálfu ári eptir það, að Skúli kom út með sýsluvöldin. Ekkja hans Sigríður flutti sama ár frá Reynistað að Geitisskarði til föður síns, giptist svo árinu eptir 20. sunnudag eptir trínitatis síra Stepháni Ólafssyni á Höskuldsstöðum. Börn þeirra voru:

1. Oddur lagði sig eptir lögvísi utanlands, kom út, og var um hríð hjá hálfbróður sínum, seinna stiptamtmanni, Ólafi á Bessastöðum, svo hjá stiptamtmanni Thodal handskrifari, varð svo notarius við yfirrèttinn 1772, giptist þar eptir Hólmfríði dóttur Pèturs sýslumanns í Múlaþingi Þorsteinssonar 1776, en var samt á Bessastöðum, en 1782 var honum tilslegið Þingeyraklaustur, og flutti hann þangað.
2. Sigurður uppólst um hríð hjá hálfsystur sinni Sigríði yngri á Grund; útskrifaður úr Hólaskóla fór hann utan og tók reynslupróf í guðfræði. Sigurður kom út, og varð heyrari við Hólaskóla 1769, þar eptir varð hann prestur til Möðruvallaklausturs, en prestur til Helgafells 1781 og prófastur í í Snæfellsnessýslu 1782; hann var kosinn til biskups 1788, kom út vígður og tók við Hólastól 1789, dó 1798. Kona hans var Guðríður Halldórsdóttir prests á Hnappsstöðum í Fljótum og Valgerðar Jónsdóttur, er seinna átti síra Benidikt Pálsson. Þau biskup Sigurður og frú hans Guðríður voru barnlaus.

**Skúli Magnússon.**

(Sjá um hann við austurpart Skaptárþings).

Hann fæddist í Húsavík 1711, 12. desember; sigldi, eptir að hafa lært í skóla, í september 1731. Austur-Skaptárþing var honum veitt 15. febrúar 1734 og kom út um sumarið, hann var og í júní 1735 settur sýslumaður í Vestur-Skaptafellssýslu, en missti hana 1736 og fór utan samsumars; fèkk 14. apríl 1737 Hegranesþing og kom út samsumars, giptist 15. september 1739, varð landfógeti 9. desember 1749, en var los-

aður við það embætti af rentukammerinu og fékk eptirlaun 1793 og dó 9. nóvember 1794.

Meðan hann var í Skagafjarðarsýslu, bjó hann lengst á Stóru-Ökrum. Hann var framkvæmdarmaður mikill, og þótti hèraðsríkur og harðgjör þau 12 ár, sem hann hèlt Hegranesþing.

1751 flutti hann í Viðey, og var þar síðan meðan hann lifði; hann lèt gjöra þar stofu og kirkju með steinveggjum. 1752 gaf konungur til Íslands 15,000 rd., byrjuðust þá nýju innrèttingarnar, konungur gaf enn 1753 til þeirra 16,000 rd. og 1756 10,000 rd.

### Björn Markússon.

*Faðir:* Markús sýslumaður í Ísafjarðarsýslu Bergsson, sjá Ísafjarðarsýslu.

*Móðir:* Elín Hjaltadóttir[1].

*Kona:* Anna Dórothea Glan, er þá var ung ekkja, en Björn giptist henni í Kaupmannahöfn 1749, er mælt að hún hafi styrkt hann þar fátækan með peninga. Ekki áttu þau barn.

*Launson* átti Björn, er Davíð hèt, hann átti Þóru frá Fitjum Snæbjörnsdóttur prests á Lundi, var hún ekkja, og hèt fyrsti maður hennar Þóroddur Þórðarson, og var þeirra dóttir Guðný, er átti Jens Sæmundsson og 3 börn. Guðný dó 1815. Annar maður Þóru hèt Oddur Bjarnason, þau barnlaus, en þriðji maður hennar var Davíð. Þeirra börn:

1. Kristrún, hún átti Odd Jónsson frá Botni á Hvalfirði, bróður Úlfdísar[2].
2. Guðmundur, er átti Salvöru Gunnlaugsdóttur frá Vogatungu.
3. Launsonur Davíðs með Herdísi Gísladóttur hèt Björn, fæddur 1792, hann átti Sigríði Þorleifsdóttur; þeirra börn:

---

1) Elín var dóttir síra Hjalta í Vatnsfirði Þorsteinssonar.

2) Úlfdís var kona Finns sýslumanns Jónssonar; faðir Jóns, föður þeirra Odds og Úlfdísar, var Ísleifur Ólafsson.

a. Þorleifur.
b. Þuríður.
Móðir Davíðs var Solveig, dóttir Guðmundar bónda á Hrauni í Helgafellssveit, var hún þá frumvaxta, en Björn giptur.

Björn fæddist að Ögri við Ísafjörð 1716, 31. ágúst, ólst hann upp hjá foreldrum sínum og var settur í Skálholtsskóla 1733, þaðan útskrifaðist hann 1735 af þáveranda skólameistara Jóni Þorkelssyni, var hann svo heima hjá foreldrum sínum til 1741, gjörðist hann þá 2 ár þènari hjá Ólafi sýslumanni Árnasyni. þaðan fór hann fyrir þènara og skrifara til amtmanns Lafrens, og var hjá honum til þess hann dó 1744. Það sama sumar brá hann til utanferðar, til Kaupmannahafnarháskóla; fèkk Árna Magnússonar stipendium, og tók reynslupróf í lögum með loflegum vitnisburði; hann þjónaði þar við útgáfu hinnar íslenzku fátækra hússbiblíu, giptist 1749, og fèkk sama ár 9. desember veiting fyrir Skagafjarðarsýslu; kom út á Eyrarbakka 1750 og gjörðist sama ár, 4. desember, vísilögmaður sunnan og austan hjá þáveranda lögmanni, en síðar amtmanni, Magnúsi Gíslasyni, þjónaði þó í 8 ár sem virkilegur sýslumaður í Skagafirði og lèt þar ganga marga dóma.

1753 byrjuðu fyrir alvöru óaldarvetrar norðanlands og vöruðu til 1758, en 1754 gjörðist vísilögmaður Björn ármaður (oekonomus) Hólastóls og lèt prenta á Hólum sögubækur og fleira; en þá er Gísli biskup kom til Hólastóls 1756, gat Björn honum ekki útsvarað; jafnaðist þó seinna millum þeirra eptir sannsýni.

1757 gjörðist Björn virkilegur lögmaður og flutti að Hvítárvöllum 1758, bjó hann þar í 8 ár, síðan 1 ár í Höfn og þaðan flutti hann að Leirá. 1769 brann þar stofan með miklum fjármunum og bókum lögmannsins, var hann samt bæði búandi og búlaus á Leirá til 1789, þá flutti hann að Innra-Hólmi til Ólafs stiptamtmanns Stefánssonar, hvar hann dó 9. marz 1791 á 78. aldursári.

Björn lögmaður var vel lærður og hafði skyn á flestu; hann var lipur, mildur og heppinn í dómum sínum, góðmenni að náttúru; ásjálegur, hægferðugur og grundaður í tali. Hann var haldinn kvennhollur maður.

Að telja upp dóma hans er hèr óþarfi; en þar menn

þekktu hans miklu vitsmuni, var hann nefndur í ýmsar nefndir (commissionir) hèr á landi, er lempni og sannsýni þurfti við að hafa, til að mynda:

1. Í Hólastóls commission og úttekt millum Halldórs biskups Brynjólfssonar og landfógeta Skúla Magnússonar ásamt amtmanni Magnúsi Gíslasyni.
2. Í hinu svo kallaða Sunnefu-máli, ásamt sýslumanni Þórarni Jónssyni móti Hans sýslumanni Víum.
3. Í bæði fyrri og seinni separations commissionum biskupsstólanna á Íslandi, ásamt fleirum.
4. Í liqvidations commission milli Dr. Finns biskups og Skálholts biskupsstóls.
5. Í Þingeyra arfaþrætumáli eptir Bjarna sýslumann Halldórsson, ásamt nótaríus Oddi Stefánssyni.
6. Var hann í mörg ár directeur við tugthúsið á Arnarhóli og verksmiðjuna (fabrikuna) í Reykjavík, ásamt mörgu öðru hèr ótöldu, og greiddist flest vel af hendi fyrir honum.

Ekki var Björn lögmaður auðmaður, en fè hafði hann til hlítar, meðan hann lifði.

## Jón Snorrason.

*Faðir:* Snorri prófastur á Helgafelli, son Jóns, er fyrst var prestur og síðan sýslumaður (sjá Dalasýslu), Magnússonar prests á Kvennabrekku og síðar sýslumanns (sjá Dalasýslu), Jónssonar prests í Gufudal (sjá Barðastrandarsýslu).

*Móðir:* Kristín, dóttir síra Þorkels á Miklabæ Ólafssonar og Ingibjargar, dóttur síra Þórðar Sigfússonar á Myrká.

*Kona:* Guðrún eldri, dóttir Skúla landfógeta Magnússonar (sjá Skaptárþing).

*Börn* áttu þau ekki, er lifðu.

Þá er Jón var útskrifaður úr skóla frá föður sínum, var hann um tíma handskrifari í Reykholti hjá þáveranda prófasti, síðar biskupi, Finni Jónssyni; þar eptir fór Jón utan, og lagði sig í Kaupmannahöfn eptir guðfræði um nokkur ár; kom þá fógeti Skúli því til leiðar (eptir sögn), að Jón fèkk veiting fyrir Hegranesþingi eptir Björn Markússon 6. júní 1757; bjó hann

á Stóru-Ökrum[1] í Skagafirði og hafði stundum andstætt í málum, þar hann hafði lagt sig lítið eptir lögum, fyrri en hann varð sýslumaður.

1769 var Magnús Gíslason settur dómari í þessari sýslu.

1771 dó Jón sýslumaður Snorrason; Guðrún ekkja hans bjó eptir mann sinn á Stóru-Ökrum til þess að hún flutti suður í Viðey.

Jón sýslumaður hefir skrifað um akuryrkju Íslendinga, og tjáist hann að hafa verið vel að sèr í mörgum lærdómsgreinum, en eigi svo vel að sèr í lögum, sem sambauð embætti hans.

## Vigfús Hansson Scheving.

*Faðir:* Hans Scheving, Möðruvallaklausturhaldari, son Lárusar Schevings sýslumanns og klausturhaldara sama staðar (sjá Vaðlaþing).

*Móðir:* Guðrún dóttir Vigfúsar á Hofi á Höfðaströnd, móðir Guðrúnar var Helga[2], dóttir Jóns biskups á Hólum Vigfússonar. Guðrún dó 1767.

*Kona:* Anna dóttir síra Stefáns á Höskuldsstöðum Ólafssonar prests Guðmundssonar prests. Móðir Önnu var Ragnheiður, dóttir Magnúsar bónda á Stórahóli Björnssonar sýslumanns Pálssonar (sjá Vaðlaþing). Anna var fædd 11. desember 1729, giptist 1760, dó 30. október 1820, 91 árs.

*Börn:* A. Stefán, umboðshaldari svo nefnds Stapaumboðs, skólalærður, átti Helgu dóttur síra Jóns á Staðastað Magnússonar og Þórunnar Hansdóttur, systur Vigfúsar sýslumanns. Þeirra börn:

1. Anna giptist Ólafi syni Björns sekrítera á Esjubergi. Þeirra börn:
   α. Helga[3].

---

1) Hann bjó seinast á Hofi á Höfðaströnd.

2) Seinni maður Helgu var, sem fyr er sagt, Jens sýslumaður Spendrup.

3) Helga átti Bjarna Brynjólfsson á Kjaranstöðum, þeirra börn:

a. Brynjólfur í Engey á Þórunni Jónsdóttur Erlendssonar frá Brunnastöðum.

β. Margrèt[1] giptist 1838 Sigurði snikkara, syni Jóns lausamanns og borgara í Reykjavík.
γ. Þórunn[2].
δ. Stefán[3].
ε. Björn[4].
ζ. Oddgeir[5].
η. Jónas[6].
ϑ. Hannes[7].
2. Þórunn gipt Pètri, sýslumanni á Mýrum Oddssyni (sjá Mýrasýslu).

---

b. Ólafur í Litlateig á Akranesi á Katrínu Oddsdóttur prests Sveinssonar.
c. Helga á Níels Magnússon á Lambhúsum á Akranesi.
d. Ólína á Ásmund á Háteig.
e. Þórunn ógipt.
1) Börn Margrètar og Sigurðar Jónssonar:
a. Bjarni var við verzlun í Reykjavík, dó í mislíngunum 1882, átti Ingunni dóttur Hans Hofmanns.
b. Rafn skósmiður í Reykjavík á Guðleifu Stefánsdóttur frá Kalmannstungu.
c. Sigríður dó ógipt, barnlaus.
d. Elín.
e. Ólafur átti Helgu Magnúsdóttur.
2) Þórunn átti Ólaf Ólafsson, dó barnlaus.
3) Stefán í Kalmannstungu á Ólöfu, þeirra börn:
a. Þórunn ógipt.
b. Anna á Siggeir á Laxfossi Þórðarson.
c. Ólín á Björn.
d. Guðleif á Rafn fyr nefndan.
e. Ólafur ógiptur.

4) Björn á Korpólfsstöðum átti Sigríði Jónsdóttur, sonar Björns Ólafssonar stiptamtmanns, þeirra börn:
a. Jón ógiptur.
b. Sigríður ógipt.
6) Oddgeir átti Helgu Halldórsdóttur, dó barnlaus.
7) Jónas dó barnlaus,
8) Hannes á Akranesskaga á Höllu Björnsdóttur, þeirra börn:

B. Jónas fæddur 1770, sem eptir venjulegan skólalærdóm og utanför gjörðist sýslumaður, sjá hèr eptir.

C. Guðrún, fædd 7. febr. 1762, giptist 11. sept. 1788 konferenzráði, dr. juris Magnúsi Stephensen í Viðey; hún dó 12. júlí 1832. Þeirra börn:

1. Ólafur sekriteri við landsyfirrèttinn, átti fyrst Sigríði Stefánsdóttur amtmanns Ólafssonar stiptamtmanns Stefánssonar. Þeirra börn:

α. Guðrún[1].

β. Sigríður[2].

Sigríður var fædd 30. ágúst 1792, giptist 21. júní 1819, dó 2. nóvember 1827.

Önnur kona Ólafs sekritera var Marta Stefáns-

---

a, Guðfinna ógipt.
b. Anna ógipt.
c. Þórunn ógipt.
d. Ólín ógipt.
e. Ólafur ógiptur.
f. Björn ógiptur.

1) Guðrún átti síra Ólaf Pálsson, er seinast var prestur á Melstað. Þeirra börn:

a. Síra Páll á Prestbakka í Hrútafirði á Arndísi dóttur Pèturs í Akureyjum Friðrikssonar.
b. Ólavía átti fyr síra Pál á Hesti, son síra Jóns á Stóra-Núpi Eiríkssonar, þeirra börn dóu ung; svo átti hún síra Lárus í Selárdal, son síra Benidikts Þórðarsonar; þau eiga börn.
c. Síra Ólafur í Garpsdal, ógiptur.
d Theodor á Arndísi, dóttur síra Guðmundar á Melstað Vigfússonar og Guðrúnar Finnbogadóttur.
e. Kristín seinni kona Böðvars, sonar síra Böðvars á Melstað Þorvaldssonar og seinni konu hans Elísabetar Jónsdóttur.
f. Þorvaldur ógiptur.
g. Stefán ógiptur.
h. Sigríður ógipt.

2) Sigríður átti fyr síra Þorstein Jónsson í Vogsósum, þau skildu; síðan átti hún Guðmund gullsmið Stefánsson á Varmalæk og var hans fyrri kona: hún dó barnlaus.

dóttir amtmanns, systir Sigríðar fyrstu kona hans. Þeirra börn:
γ. Magnús[1].
δ. Þórður[2].
Marta dó 27. október 1833.
Ólafur giptist í 3. sinn 1844 Sigríði Þórðardóttur, ekkju síra Tómasar Sæmundssonar[3].
2. Þórunn Magnúsdóttir, hún giptist síra Hannesi, presti á Akranesi, syni Stefáns amtmanns Ólafssonar stiptamtmanns. Þeirra börn:
α. Guðrún[4].
β. Magnús[5].
γ. Ragnheiður dó barn.
3. Sigríður dó frumvaxta, ógipt, barnlaus.
D. Ragnheiður giptist 1783 amtmanni, síðar konferenzráði og dannebrogsriddara, Stefáni Þórarinssyni, hann dó 1823[6].

Vigfús, sonur Hans klausturhaldara Schevings, er borinn á Möðruvallaklaustri 15. janúar 1735. Hann lærði skólalær-

---

1) Magnús í Viðey, hans kona Aslaug, dóttir Eiríks sýslumanns Sverrissonar, sjá Snæfellsnessýslu.

2) Þórður dó ungur,
Enn var dóttir Ólafs og Mörtu:
ε. Sigríður, miðkona Pèturs amtmanns Havsteins, sjá Norður-Múlasýslu, síðan átti hún síra Stefán í Kálfholti, son Helga biskups Guðmundssonar Þórðarsonar.

3) Sigríður var dóttir Þórðar sýslumanns Björnssonar, sjá Þingeyjarsýslu, bls. 130.

4) Guðrún var fyrsta kona amtmanns Havsteins, sjá Norður-Múlasýslu.

5) Magnús dó á háskólanum í Kaupmannahöfn, barnlaus.

6) Bogi hefir talið hèr börn Ragnheiðar og Stefáns konferenzráðs, en með því að þau eru áður talin neðanmáls á bls. 272—273 við Eyjafjarðarsýslu, og nokkuð fyllra en hjá Boga, er þeim sleppt hèr. Þó skal þess getið, að börnin voru alls 18, en á tilvitnuðum stað eru ekki talin nema 17; hið 18. var Jóhann Pètur, sem lærði gullsmíði í Kaupmannahöfn og dó þar barnlaus.

dóm hèr í landi, fór svo utan til Kaupmannahafnar til meiri lærdómsframa, og lagði sig þar eptir lögvísindum um hríð; en eg efa, að hann tæki í þeim reynslupróf[1]. Eptir að Vigfús kom út, hèlt hann um hríð Hólastól, tók hann við honum eptir Svein lögmann og Þórarinn sýslumann, sem höfðu haldið hann frá 1758, en slepptu til Vigfúsar 30. september 1762; einnig fèkk hann Möðruvallaklaustur; líka var hann settur sýslumaður í Vaðlaþingi, þegar Þórarinn dó, 1767, til þess er Jón sýslumaður viðtók 1768; einnig fèkk hann veitingu fyrir Hegranesþingi 21. febrúar 1772; hafði Magnús Gíslason, sem þar var settur eptir dauða Jóns Snorrasonar, og svo sótt um sömu sýslu. Vigfús sýslumaður fèkk til bústaðar og eignar Víðivelli í Skagafirði og bjó þar síðan, meðan hann var í Norðurlandi. Son sinn Jónas tók hann sèr til aðstoðar í sýslumannsverkum 1795, en fèkk umbeðna lausn frá sýslumannsembættinu 1800; var þó á Víðivöllum með konu sinni þar eptir í 4 ár. Síðan flutti hann með konu sinni til dótturmanns síns (síðar konferenzráðs) Magnúsar Stephensens, fyrst að Innra-Hólmi, og síðan með honum til Viðeyjar; dvaldi hann svo í húsum þeirra frá 1804 til þess að hann dó í Viðey 14. desember 1817, á 82. aldursári, var útför hans gjörð heiðarleg 22. sama mánaðar.

Vigfús var þrekinn meðalmaður að vexti og hafði verið hraustmenni; hann var að ásýnd í andliti all-manndómslegur, og hafði verið yfir höfuð fríður maður; mikinn ættarsvip hafði hann af bróður sínum, Davíð sýslumanni; þó var hann gildari vexti, en lítið lægri. Hafði hann á ungdómsárum verið nokkuð kringluleitur í andliti, og var um sextugsaldur þykkleitur og rjóður í kinnum. Hann tjáist að hafa verið maður fastúðugur og drjúglyndur, ekki fljótráður nè fljóttalandi, en yfir höfuð valmenni. Ekki var gjört af lærdæmi hans, þó var hann athugasamur um flest, ástundunarsamur i embætti sínu og heppinn í málaferlum, en friðsamur og hægur í umgengni. Hann var búþegn góður og auðmaður, húsaði vel bæ sinn. Hann giptist 1760 og hafði lifað í hjónabandi með ástúðlegri sambúð við konu sína 57 ár (sem nærri níræð sárt saknaði hans). Anna kona hans var andlitsfríð, en heldur ófríð til augna, röskleg í viðmóti og tali, en ekki laus við tilgerð, þótti líka fèföst.

1) Hann varð kandídat í lögum 1757.

### Jónas Vigfússon Scheving.

*Faðir:* Vigfús sýslumaður, nýnefndur.
*Móðir:* Anna Stefánsdóttir, nýnefnd.
*Kona:* Ragnheiður Ólafsdóttir stiptamtmanns. Þau voru barnlaus.

Jónas er borinn 1770 á Víðivöllum í Skagafirði[1]. Þá er hann hafði aldur til, var hann látinn nema það, er ungum sveinum var títt af heldra standi; numdi hann skólalærdóm hjá þáveranda Hólaskóla-kennara Halldóri Hjálmarssyni; útskrifaður fór hann utan til lærdómsframa; lagði fyrir sig lög, og tók í þeim reynslupróf (examen romano-juridicum) með meðalvitnisburði, Hann gjörðist svo aðstoðarmaður föður síns í sýslumannsembætti 1795, en fèkk veitingu fyrir sömu sýslu 1800; sýsluskipti hafði hann við Jón sýslumann Espólín 1802 og fèkk honum með konungs leyfi Hegranesþing fyrir Þverárþing sunnan Hvítár. Jónas flutti sig þá frá Víðivöllum (hvar hann hèlt bú, meðan hann hèlt Hegranesþing) að Leirá í Borgarfirði, hvar hann bjó síðan, meðan lifði. Hann giptist 1804 Ragnheiði, dóttur Ólafs stiptamtmanns, sem áður er sagt; hún dó 1826 1. marz, með miklu kvennprýðisorði, mjög söknuð af flestum, sem til hennar grannt þekktu.

Jónas sýslumaður varð kansellíráð 26. apríl 1816; sagði af sèr sýslunni 1827 og fèkk umbeðna lausn í náð 19. maí sama ár; lifði svo ekkjumaður á Leirá til þess að hann dó 1831. Útför hans var gjörð hin heiðarlegasta.

Jónas kansellíráð var mannalegur ásýndum, nokkuð stórnefjaður, og mátti heldur kallast fríður en ófríður; fullkominn meðalmaður var hann að vexti, bar jafnan halt höfuðið, sem þó lýtti hann eigi, Hann var djarfmæltur og fastur á meiningu sinni. Fjárgæzlumaður var hann mikill, en stórhöfðingi, þá er til þess tók, í útlátum; og sýndist sem hann stundaði til höfðingsskapar og stórmennsku í flestu; eins hýsti hann bæ sinn stórmannlega og varð auðmaður mikill: enginn lögvitringur var hann haldinn; hann hafði sèrlegt auðslán, þó opt væri eigi forsjállega stofnað með ásetning lifandi penings; hann skeytti eigi um, þótt hann feldi þar af mikið, þá er eigi gat bjargað sèr sjálft úti á vetrum; einkum gekk svo með hesta, er hann varla vissi tölu á.

1) Hann mun ekki hafa verið fæddur á Víðivöllum; líklegra er, að hann hafi fæðzt á Möðruvallaklaustri.

### Jón Espólín hinn fróði.

*Faðir:* Jón sýslumaður Jakobsson, sjá Vaðlaþing.
*Móðir:* Sigríður yngri, dóttir síra Stefáns á Höskuldsstöðum Ólafssonar; sjá Vaðlaþing.
*Kona:* Rannveig, dóttir merkisbóndans Jóns Egilssonar á Vatnshorni í Haukadal, sjá Dalasýslu. Hún er fædd 6. janúar 1773, og giptist á Leirá 7. júlí 1797.
*Börn:* A. Jakob fæddur 1797, dó 5 vikna gamall.
B. Hákon, borinn 30 ágúst 1801, lærði latínu og fleira í Núpufelli hjá Jóni presti lærða, og giptist síðar Sigríði dóttur hans. Hákon bjó þar eptir á Yztu-Grund í Skagafirði, sem stúdent í 11 ár, en vígðist svo til kapelláns að Stærra-Árskógi[1]; þeirra börn voru:
1. Jón, fæddur 1824.
2. Jakob, fæddur 1828.
3. Rannveig Sigríður, fædd 1830.
4. Helga, fædd 1831.

Jón sýslumaður Espólín er borinn í þenna heim að Stórhóli (Espihóli) í Eyjafirði 22. október árið 1769. Til læringar fór hann til síra Einars á Grenjaðarstað, þá 12 ára, 1781. Árið 1782 og 1783 var hann heima hjá foreldrum sínum, síðar nefnda árið var hann fermdur. 1784 fór hann 15 vetra til læringar suður að Odda, en 1785 heim aptur; 1786 var honum 17 vetra komið til læringar að Núpufelli til Jóns prests lærða. 1788 gjörðist hann krankur, fór þó utan, deponeraði sama ár og varð gratisti á Regenzi, er hann þó nokkru seinna fékk. 1789 tók hann annað reynslupróf (í heimspeki og philologiu) með mesta hrósi og var innkallaður. 1790 kom hann út, var það ár hjá foreldrum sínum, en fór utan 1791. Reynslupróf í rómverskri lögvísi tók hann 1792 með meðalheppni (haud illaudabilis). Sama ár fékk hann veitingu fyrir Snæfellsnessýslu, kom út fyrir sunnan land, ferðaðist þaðan til Snæfellsnessýslu, og var um veturinn hjá frænda sínum, umboðshaldara Stefáni Scheving á Ingjaldshóli; en um vorið reisti hann bú á Brekkubæ við Hellna. Réðst með honum til búsforráða Rannveig, 20 ára að aldri, dóttir hins merkilega, fróða og efnaða bónda, Jóns Egilssonar á Vatnshorni í Haukadal í Dala-

---

1) Síra Hákon var síðast prestur á Kolfreyjustað.

sýslu (sjá Dalasýslu). Rannveig tjáist snemma að hafa verið mikil bústands- og framkvæmdarkona. 1796 flutti Jón sýslumaður að Fróðá, og bjó þar 1 ár. Um þær mundir samdi hann sig mjög að sið ungra manna, og var í mörgu óráðinn; komu í greinir með Ásgrími presti Vigfússyni og honum, þó af áleitni og kveðskap prests, hverju sýslumaður svaraði honum með fullum mæli í sama. 1797 skipti hann sýslum við Finn sýslumann Jónsson og tók Borgarfjarðarsýslu, flutti sig þá á hálft Þingnes í Borgarfirði, og bjó þar meðan hann hèlt tèða sýslu. Sama ár giptist hann, sem fyr er sagt, 7. júlí að Leirá, bústýru sinni Rannveigu, og hèlt þáverandi lögmaður Magnús Stephensen brúðkaup þeirra með rausn. 1802 tók hann Skagafjarðarsýslu í skiptum við kanselliráð Jónas Scheving, og flutti norður 1803, fyrst að Stóru-Ökrum, síðan á hálfa Flugumýri í Skagafirði. 1805 hóf hann lestrarfèlag þar nyrðra, og var til þess forgöngumaður. 1806 flutti hann búferlum að Viðvík og bjó þar um hríð. 1818 dó Sigríður móðir hans, og fèkk hann fjármuni eptir hana til góðra muna (Sjá ætt hennar við Vaðlaþing, hún var fædd 1734, giptist í fyrra sinn 1753 19 vetra Þórarni sýslumanni Jónssyni, varð ekkja eptir hann 22. maí 1767; giptist í annað sinn 26. maí 1769; varð ekkja í annað sinn 22. maí 1808, dó sjálf 16. maí 1818 á 84. aldursári. Hún átti með mönnum sínum alls 9 börn, en barnabörn hennar voru við hennar dánardægur orðin 48).

1821 eða 1822 flutti hann að eignarjörðu sinni Frostastöðum, og bjó þar síðan, meðan hann lifði. 1824 sótti hann um lausn frá sýslumannsembætti sínu og Skagafjarðarsýslu og fèkk lausn í náð 1825. Konungur gaf honum árlega 100 rd. sem lærdómsmanni, eptir að hann sleppti embætti. 1828 var hann kosinn heiðurslimur af hinu íslenzka bókmenntafèlagi í Kaupmannahöfn.

Með aldrinum gjörðist Jón sýslumaður heilsuþrotinn, einkum eptir að hann lagðist í hinum mikla sjúkdómi, þá er hann varð hálfur að kalla máttvana, þó hresstist hann mikið aptur, en varð aldrei jafngóður í öðrum handleggnum og að öðru leyti ekki heldur fullbata. Þannig bjó hann á Frostastöðum, sem áður er sagt, við nægtir, sífeldar bókiðnir og lærdómsmenntir, einkum í sagnafræðum, eins eptir það, að hann 56 ára gamall sleppti sýslunni, og þótt hann, sem fyr er sagt, á sínum sein-

ustu árum væri mjög heilsutæpur. Hann var vinsæll af öllum góðum og lærðum mönnum.

Árið 1836, 31. dag júlímánaðar, bar svo til, að hann tók ferð sèr á hendur að finna vin sinn, hinn gamla öldung Pètur prófast Pètursson á Víðivöllum, og fylgdi honum sonarsonur hans Jón: vegurinn er ekki hálf þingmannaleið frá Frostastöðum og að Víðivöllum: kom sýslumaður að Víðivöllum að kvöldi hins 31. júlí; varð þar mikill fagnaðarfundur þeirra miklu öldunga; kvaðst sýslumaður kominn í síðasta sinn að sjá vin sinn og kveðja hann, áður en hann dæi. þar Pètur prófastur mundi sig eigi heimsækja (var Pètur prófastur orðinn 82 ára og hrumur mjög). Espólín sýslumaður naut hinnar beztu aðhlynningar, sem Pètur prófastur gat veitt, og vöktu þeir með samtali langt fram á nótt. Um morguninn færði þóra, kona prófastsins, honum kaffi í rúm sitt og talaði við hann um hríð, og til þess tengdasonur þeirra hjóna, stúdent Sigurður, kom til samtals við hann; nokkru þar eptir fór sýslumaður á fætur og út, svo inn aptur, og ræða þeir Sigurður um ýmislegt; eptir borðhald syfjaði sýslumann; Sigurður biður hann að leggja sig og fara upp í rúmið, það vill eigi sýslumaður, en kvaðst sem fyrst vilja halda heim, því sèr væri nú með lèttasta móti við það, sem lengi hefði verið. Þegar reiðskjótar voru búnir, og sýslumaður hafði kvatt vin sinn, Pètur prófast, í rúmi hans, því hann var þá svo lasburða, að hann treysti sèr eigi á fætur, fór sýslumaður frá Víðivöllum á líðandi miðmunda, fylgdi stúdent Sigurður honum ásamt fyr nefndum sonarsyni sýslumanns að Miklabæ, hvar hann dvaldi, meðan heitt var kaffi. Jón prestur á Miklabæ fylgdi honum þaðan út á Dalsáreyrar; vill þá sýslumaður eigi, að hann fylgi sèr lengra, hvarf því prestur aptur, þá hinn tjáðist svo frískur, sem þá bezt var. Þegar sýslumaður kom nálægt Rèttarholti, mælti hann við fylgdarmann sinn: «mèr er svo illt, að eg þoli ekki að ríða», fer þá af baki, en strax á bak aptur og ríður með hægð spöl lítinn, fer enn af baki, mælti ekkert, sezt niður og hallar sèr upp við þúfu; fylgdarsveinn hans verður hræddur, hleypur heim að Rèttarholti, og tjáir frá þessu bóndanum; hann fer beinasta veg upp að Flugumýri og tilkynnir Ara lækni þetta, sem með fleirum bregður þegar við, hittir sýslumann að eins ódauðan, opnar honum æð, en ekkert blæddi, og skildist þá öndin við

líkamann; var þar tjaldað yfir líkinu um nóttina, og vakti ekkja hans þar og fleiri. Þetta var að kvöldi 1. dags ágústmánaðar. 2. ágúst var líkið flutt heim að Flugumýri og veittur heiðarlegur umbúnaður.

Þannig lèzt þessi mikli og merkilegi öldungur með hægu andláti eptir bæn sinni í sálmabókarinnar Nr. 133, á 67. aldursári; var hann í þremur sýslum valdsmaður frá sínu 22. aldursári og til þess að hann var vetri betur en hálf-sextugur (í 33 ár), en bjó þar eptir í 11 ár embættislaus. Hann var að hæð 73 þumlungar, (danskt mál) og þar eptir þrekinn; fríður maður var hann sýnum; hafði bjartan hárslit og var velfarinn að skapnaði; hann var nokkuð lotinn í herðum; sköllóttur gjörðist hann þegar á unga aldri; með hraustustu mönnum, sem nú gjörast, var hann að afli, þótti og jafnan skemtilegt, að þreyta aflraunir; á yngri árum var hann gefinn fyrir ölföng, sem kom illa við á þingferðum, þar embættisverk hans þá opt voru miður vönduð, en skyldi, af fljótræði hans; stóð honum það fyrir verðskulduðu áliti; á efra aldri var ölfanga nautn hans með mestu stillingu. Hann var fyr og seinna hið mesta góðmenni; enginn var hann búhöldur; en gáfur hafði hann mjög góðar til lærdóms verka, og var þar við mjög iðjusamur; ágætt skáld var hann og mesti trúmaður með sannleikselsku og rannsókn í guðfræði og öðrum lærdómsgreinum; hálærður mátti hann kallast í þeirri vísindagrein (ɔ: guðfræði); rètt vel að sèr í lögum, þegar hann gætti sín; en í sagnafræði var hann fremur öllum Íslendingum, sem eg til veit; í ættvísi, bæði á fyrri og seinni tíðum, mun hann og hafa verið með hinum beztu, og mjög vel að sèr i tungumálum; hann ritaði margt, bæði útlagði og samdi sjálfur, bæði í ljóðum og óbundinni ræðu, með skynsemd, varkárni og sannleikselsku, einkum í sagnafræði; munu lærdómsverk hans lengi uppi; gjörð hefir verið saga af minna manni. Það er í sannleika undarlegt, að slíkur lærdómsmaður eigi skyldi verða fyrir neinni sæmd hjá stjórninni.

Við andlát þessa öldungs varð amtmanni Bjarna Thorarensen að orðum þetta.

»Sálar höllu hárri,
er hrapaði rambyggð,
skilar hèr jörðu
Jón Espólín,

fæddur 22. október 1769,
en dó 1. ágúst 1836.
Önd hans alkristna,
ofar stjörnum,
fögur og fölskvalaus
fann sinn elskhuga,
en lærdómsverk hans lengur
hjá lýðum vara,
en grafletur á grjóti».

Sigurður skáld Breiðfjörð orti þetta framvarp við fregn um lát Jóns sýslumanns Espólíns:

1. Syrtir mjög að móður hjarta
meina níði svo í eina,
kveða tindar andvörp undir,
Ísastorðar sona vísra,
falla varð fyrir efldri elli
örðuglegur fræða vörður,
málin hvöss sem hefur þulin
hálig forðum landa norður.
2. Öldnum Jóni Espólíni
öðling þjóðar hinum fróða
dagar hvurfu að skapa skerfi,
skaðinn svall í hjörtum allra,
sjötíu ár á vangi várum
vann að fræðum sagna þannig;
lengi hefir annar enginn
einn svo vitur þjónað ritum.
3. Lifir dauðum orðstír æfa
ofar jörð í hávu lofi,
verkin hans hin vísdóms styrkvu
vara meðal þjóða skara.
Andagipt hans okkra landa
ætíð veki fræði og kæti,
önn og snilldir mikilmennis
í minnum vari þúsund sinnum.
4. Sendi aptur ossu landi
alda stýrir speki valdur
einhvern þann á þrumu fanna
þeim jafn snjallan, sem er fallinn.

Lifi hafinn heimum ofar
hálig önd og sigurmálum
hvellum þar um dægur dilli,
sem dragast aldri fá að kvöldi.

Auk þess, sem út er komið á prent af ljóðmælum hans í Messusöngsbókinni, Smáritasafninu, Gamni og alvöru, Klausturpóstinum, Tíðindunum, Frèttablöðunum, Skírni og nokkrum æfisögum, (nú eru og komnir út eptir hann «andlegir sálmar», útgefnir af syni hans 1839, og prentaðir í Viðey), en í sundurlausri ræðu á dönsku rit í Oldnordiska-fèlaginu, veraldarsagan og 10 hlutir Íslands Árbóka og fleira, hef eg sannfrètt, að hann hefir ritað og lokið við (en sem er þó í handriti) Viðbót Árbókanna (1 hluti fullbúinn, en 2 ekki fullbúnir), ásamt löngu riti á dönsku móti Rationalistum.

Hèr að auki fundust í bókasafni hans að honum látnum af verkum hans í handritum:

A. Sannar sögur af nafnkenndum fornmönnum, ritaðar 1827 í 3 bindum og 2 blaða broti.

Nr 1 inniheldur:



Nr 2. Þar á eru:

Nr. 3. Þar á eru *sannar sögur* af merkilegum seinni tíða mönnum, ritaðar 1831, með formála rithöfundarins (meinast að vera fyrir öllum þessum bókum):



Öll þessi 3 bindi eru með þèttri og hreinni hendi sýslumanns Espólíns, í sterku íslenzku bandi, þokkalegu, og sýnast ekki mega aðskiljast.

Nr. 4. Metamorphosis Ovidii, snúið í hendingum; skemmd á fyrstu og seinustu blaðsíðu, óinnbundin.

B. Sögubækur, í 4 blaða broti, fornra Norðurálfubúa og annara merkisþjóða í fornum sið, sannar og sem fáorðastar.

Fyrsti hluti

af Rómverjum, uppgangi þeirra og stórvirkjum meðal annara þjóða, ritaðar um 1800, með formála rithöfundarins.

Nr. 5. fyrsta bindi:

35. Saga Friðriks kyrra og Tyrkja.
36. Saga Maximilíusar og samaldra hans.
37. Saga Karls keisara hins ríka (5.)
38. Saga Austurríkiskeisara og Hinriks ríka Frakkakonungs.
39. Saga Austurríkiskeisara og Lúðvíks hins ríka eða 14 Frakka konungs.
40. Nýju aldar saga.

Öll þessi 4 bindi eru með góðri settaskript og í rètt góðu bandi, vel innbundin og verða ekki að skilin.

Nr. 9. Persakonungatal í settu letri og íslenzku bandi, lítið snjáð.

Nr. 10 og 11. Agrip af Danakonunga sögum með formála, byrjar á Cimbrum, anno Christí 111, og endar við andlát Christjáns 7., með kviðu aptan við yfir alla konungana í settu letri, en söguágripin sjálf eru með fljótaskript. Bindin eru tvö í íslenzku bandi, samkynja, óskemmd.

Nr. 12. Tímatal, mest útdregið eptir Evald; ljósast í kirkjusögunni, nefnir þó flest stórmerki; með formála; heldur 173 blaðsíður; í bezta settletri og sterku bandi.

Nr. 13. Ágrip af Svíasögum, byrjar fyrst frá stöðu og skipun Svíþjóðar og Ynglingatali með tímatali allt til 1818, samt registri aptan við yfir konunga frá Gylfa 70 ár anno Christí og til Carls Jóhanns (Bernadotte); í sterku bandi nýju.

Nr. 14. Ágrip af Þjóðverjasögum á 1783 blaðsíðum, með ártölum víða út á röndinni og stuttum formála, í 1 bindi íslenzku, vel bundið.

Nr. 15. Sigurður með Gjúkungum, hetjukvæði, tilraun, í 8 bókum, halda 178 blaðsíður; innsaumað í pappír.

Nr. 16. *Kviður fornar*, úr svo kallaðri Sæmundar-Eddu, uppskrifaðar af J. Espólín, (NB. safn Sæmundar á að enda á sólarljóðum; koma þá fleiri fornkviður inn, sem eg eigi veit hvort safni hans til heyra, en set á spatíuna þær eg veit), 381 bls., innsaumaðar í mórauðan pakkpappír.

Nr. 17—24. Ættartölubækur Jóns sýslumanns Espólíns, í 8 bindum, vel bundnum, nema sú einasta er saumuð í pergament (þessi 8 bindi verða að fylgjast að, þar hvert vísar í annað).

Framan og ofan skrifað bókaregistur er af mèr ritað eptir

því registri, sem hinn merkilegi öldungur Pètur prófastur á Víðivöllum, eptir tilmælum mínum, hefir fengið son sinn Pètur prest til að upptaka yfir eiginhandarrit Jóns sýslumanns Espólíns.

Af fjölda framanritaðra sagnabóka, er Jón sýslumaður Espólín hefir sjálfur samið allt aptur að nr. 16, og af ýmsum fræðibókum útdregið, en ort sjálfur hèr nefndar kviður, utan nr. 16, og þar að auki margt uppskrifað fyrir utan nr. 16—24, má sjá, hvílíkur iðju- og lærdómsmaður hann hefir verið og hvað nytsamur meðal lærðra manna, einkum í sagnfræðum. Fáir munu þar í fylla hans spor eða vera þar til færir; og þetta gjörði hann allt launalaust.

Valinkunni valdsmaður konungs, Íslands og aldarprýði
Jón Espólín hinn fróði.
Fæddur 22. október 1769. Dáinn 1. ágúst1836.
Kandídatus juris tók hann veiting konungs fyrir Snæfellssýslu 1792.
Borgarfjarðarsýslu 1797. Skagafjarðarsýslu 1802.
Fèkk lausn (umbeðna) í náð frá sýslumannsembætti 1825.
*Kosinn heiðurslimur bókmenntafèlagsins í Kaupmannahöfn 1828.*
Hann giptist jómfrú Rannveigu Jónsdóttur 7. júlí 1797, þeirra sonur enn lifandi, Hákon prestur Espólín, sem ásamt *ekkjunni harmar hinn látna þjóðmæring.*
Jón valdsmaður Espólín hinn fróði var:
*Mikill* að *líkama* og *sálargáfum*, þriggja sýslna valdsmaður.
*Meiri* að *snotrum skáldskap*, *guðfræði* og *guðrækni*.
*Mestur* að *lærdómsmenntum*, *sagnafræði*, *góðmennsku*, og *ljúfu skapi*.

---

Vara munu vísdómsgreina verkin dýr í miklum tíri.

## Lárus Stefánsson Thorarensen.

*Faðir:* Konferenzráð, amtmaður Stefán Þórarinsson, sjá Vaðlaþing.

*Móðir:* Ragnheiður dóttir Vigfúsar sýslumanns Schevings, sjá hèr að framan.

*Kona:* Elín, dóttir Jakobs Havsteins, kaupmanns á Hofsósi (dönsk í báðar ættir).
*Barn:* Maren Ragnheiður Friðrikka[1].

Lárus er borinn á Möðruvallaklaustri 1799[2]. Þegar á unga-aldri var hann settur til bókmennta, og eptir numinn venjulegan skólalærdóm fór hann utan, tók 1. og 2. examen við háskólann með vitnisburðinum laudabilis, las þar svo lög, og tók í þeim fullkomið reynslupróf 1823[3], með sama vitnisburði, síðan gjörðist hann volonteur í rentukammerinu og var þar 2½ ár, fjekk svo veitingu fyrir Hegranessýslu 2. maí 1825, og kom út samsumars, og settist að í Hofsósi og giptist þar 1826 fyr nefndri Elínu. Þar eptir reisti hann bú á Enni á Höfðaströnd, og farnast allvel, lèt hann þar og byggja sæmilega stofu handa sèr.

## Viðbætir.

### Lárus Stefánsson Thorarensen.

Lárus sýslumaður fèkk lausn frá Skagafjarðarsýslu 1853, bjó einlægt í Enni, unz hann dó 1864, 19. apríl; kona hans Elín dó 1873. Hann var valmenni og vel að sèr í mörgum greinum, almennt elskaður af sýslubúum sínum og öllum þeim, er komust í nokkurn kunningskap við hann.

### Kristján Kristjánsson.

(Sjá um hann við Skaptafellssýslu).

Skagafjarðarsýsla var honum veitt 2. febrúar 1854, og kom

---

1) Kona Jóhannesar sýslumanns Guðmundssonar, sjá Strandasýslu.

2) Lárus ólst upp hjá Vigfúsi sýslumanni Scheving, afa sínum, fyrst á Víðivöllum og síðan í Viðey, er afi hans flutti þangað.

3) Hann tók embættispróf í lögum 1821, var svo í rentukammerinu, unz honum var veitt 13. mai 1826 Skagafjarðarsýsla, kom hann þá inn um sumarið og var veturinn eptir í Hofsós og giptist þar 1827, og fór svo að búa í Enni, sem hèr fyrir ofan er sagt.

hann þá inn um sumarið, og var fyrsta árið í Hofsós; síðan fór hann að búa í Hofstaðaseli, en 8. maí 1860 var honum veitt Húnavatnssýsla, þar bjó hann á Geitisskarði. 1871, 13. apríl varð hann amtmaður yfir norður- og austurumdæminu og flutti sig þá að Möðruvöllum í Hörgárdal, en er stofan þar brann, flutti hann að Akureyri. 9. júní 1881 fèkk hann lausn frá embætti sínu og dó árið eptir 13. maí.

Kristján amtmaður var gjörður að riddara dannebrogsorðunnar 1874.

**Eggert Gunnlaugsson Briem.**

(Sjá um hann Ísafjarðarsýslu og Vaðlaþing),

Eins og áður er sagt (sjá Vaðlaþing, bls. 294) var honum veitt Skagafjarðarsýsla 18. febrúar 1861, og 1876 var hann og settur fyrir Húnavatnssýslu, og fèkk veitingu fyrir henni 2. nóvember sama ár. en hann flutti sig eigi þangað, og fèkk 12. apríl árið eptir leyfi til að vera kyrr í Skagafjarðarsýslu. Þar bjó hann fyrst á Hjaltastöðum, en flutti sig þaðan að Reynistað og býr þar enn.

1880 var Eggert sýslumaður gjörður að riddara dannebrogsorðunnar.

# IV.

## Húnaþing.

Hèruð þau í Norðlendingafjórðungi, sem liggja millum Hrútafjarðarár og Deildarhamars á Skaga, kallast Húnaþing eður Húnavatnssýsla.

Hinir gömlu þingstaðir í Húnavatnsþingi:

1. Staður í Hrútafirði.
2. Torfastaðir í Miðfirði.
3. Kirkjuhvammur á Vatnsnesi.
4. Þverá í Vesturhópi.
5. Þorkelshóll í Víðidal.
6. Sveinstaðir í Neðra-Vatnsdal.
7. Ás í Fremra-Vatnsdal.
8. Torfalækur á Kolgumýrum.
9. Svínavatn í Svínadal.
10. Bólstaðarhlíð í Langadal.
11. Engihlíð í Langadal.
12. Vindhæli á Skagaströnd.

---

### Kolbeinn Auðkýlingur[1].

*Faðir:* Bjarni á Auðkúlustöðum, auðmaður og höfðingi mikill á seinni hluta 13. aldar.

*Kona:* Frú Guðrún Þorsteinsdóttir[2], er bjó á Holtastöðum

---

1) Herra Kolbeinn Auðkýlingur er í Sjávarborgar-máldaga kallaður jarl, er beinlínis bendir á það, að hann hefir haft hirðstjórn, eða, ef til vill, verið jarl, þótt þess eigi sè getið í annálum.

2) Bæði föður og móður ætt frú Guðrúnar er rakin í Sturlungu og Landnámu; fyrri maður hennar hèt Benidikt, og hefir Benidikt sonur hennar og herra Kolbeins heitið eptir honum

1322, þá er hún gjörði heimboð Lárentíusi biskupsefni.

*Börn:* A. Þorsteinn. B. Benidikt. C. Þórður. D. Jón[1].

Kolbeinn hefir verið höfðingi mikill á sinni tíð. 1301 kom út frá Noregi herra Kolbeinn Bjarnason. 1309 var hann veginn af Karlamagnúsi Magnússyni (Andrèssonar) fyrir það, að hann hefði látið yrkja flym um hann; 1310 vógu Þorsteinn Finnbogason og Þórður Kolbeinsson Karlamagnús og Orm steipi. Þorsteinn son Kolbeins hefir og gjörzt höfðingi. Hann komst í þrætu við Lárentíus biskup, út af því, að hann ókvæntur lagði í sæng hjá sèr fjórmenning sinn að frændsemi; sættist hann þó seinna við biskup fyrir milligöngu Guðrúnar Þorsteinsdóttur, móður hans, og Benidikts, bróður hans. Þorsteinn seldi Agli Hólabiskupi reka nokkra 1332; hann lifði 1347[2], þá er hann skipti jörðum við Orm biskup. Benidikt Kolbeinsson bjó á Auðkúlu eptir föður sinn, höfðingi mikill og auðmaður; þess er getið, að 1323 kom út skip frá Noregi, er Benidikt Kolbeinsson átti einn[3], þá er sagt, að Benidikt hafi komið með sýslubrèf, en eigi er getið hvar, líklega hefir það verið í Húnavatnsþingi[4]. 1326 gjörðist Benidikt samningsmaður millum Lárentíusar biskups og Guðmundar ábóta á Þingeyrum; má af þessu marka, í hverjum metum Benidikt hefir verið. 1332 seldi hann nokkra reka Agli biskupi. 1345 getur utanferðar Benidikts. Þá er Ormur biskup kom til Hóla, settu höfðingjar margir norðanlands úfa nokkurn við honum og einkum Benidikt, fór biskup utan og rægði marga Íslendinga, og af því var honum stefnt utan ásamt fleirum höfðingjum nyrðra 1351. 1352 gat Ormur biskup látið fanga nokkra sveina Benídikts

---

1) Það getur og varla verið nokkur vafi á því, að móðir Glaumbæjar Rafns hafi verið dóttir þeirra herra Kolbeins og og frúr Guðrúnar, sjá Hegraness þing.

2) 1346 lèt Þorsteinn Orm biskup fá jörðina Enni með veiði í Blöndu, en fèkk í staðinn jörðina Tungunes.

3) Þetta er víst tekið úr Árbókunum, að 1323 hafi skip komið frá Noregi, er Benidikt hafi átt, en í annálum A. M. er að eins getið þess, að Benidikt þá hafi komið út með sýslu.

4) Sjá bls. 6.

dikts[1]; eptir það gekk hann til sátta við biskup, var hann hniginn að aldri. 1365 stefndi konungur utan nokkrum ríkismönnum, vitnaði það Benidikt Kolbeinsson ásamt fleirum, og þá hefir hann enn lifað. 1373 fram fór vitnisburður um reka nokkra, er Benidikt bóndi Kolbeinsson hafði gefið Reynistaðarklaustri með Ólöfu[2] dóttur sinni, meinast Benidikt[3] þá dáinn. Börn hans nefnast tvö Ólöf[4] og sonur Kolbeinn; hans getur við rekasölu til Egils biskups árið 1332[5]; það sýnist sem Hallotta Pálsdóttir hafi verið kona þessa Kolbeins, og þeirra son hafi verið Bjarni. 1377 fram fór vitnisburður, að Kolbeinn Benidiktsson hafi gefið Þingeyraklaustri þann hluta í Hafnarlöndum á Skaga, er hann átti; var það svarið, að þá er Kolbeinn bóndi var stiginn á bak hesti sínum og ætlaði að ríða til Austfjarða, hefði hann lýst gjöf þessari og sagt, að það skyldi vera hans testamenti; en í þeirri sömu ferð, þá er Kolbeinn var kominn til Austfjarða vorið 1374 eða 1375, var hann veginn af Böðvari Jónssyni frænda sínum á sunnudag. Voru við þenna gjörning Bjarni Kolbeinsson[6] og Hallotta Pálsdóttir móðir hans. Áður taldir feðgar sýnast líklegir að hafa haft sýsluvöld, einkum í Húnavatnsþingi; og það er víst, að 1323, þá er Benidikt Kolbeinsson kom með skip sitt frá Noregi, hafði hann konungssýslu, eins og fyr er sagt, og 1357 getur dómara-

---

1) Það er sagt, að 1351 hafi Kolbeinn Benidiktsson (ekki Benidikt) verið í stórmælum, og 1352 hafi Ormur biskup sent marga menn til og látið handtaka sveina Kolbeins fjóra og setja í fjötur og flytja heim til Hóla og sett þrjár kárínur hverjum þeirra, hafi þá Kolbeinn litlu síðar gengið til sátta við biskup.

2) Þessi dóttir Benidikts hèt Ingibjörg, en ekki Ólöf, sjá Skagafjarðarsýslu.

3) Það er sagt í annálum, að Benídikt hafi dáið 1379.

4) Á að vera Ingibjörg,

5) Þetta virðist varla að geta verið rètt.

6) Það er sagt, að Bjarni Kolbjörnsson hafi 1373 vegið á Dýradag mann þann, er Þorkell hèt, og hefir það víst verið þessi Bjarni. Þessi maður, er vígið vann, er þó sumstaðar nefndur Björn Kolbeinsson, en hitt er líklega rèttara.

verka Benidikts yfir Birni nokkrum[1]. 1351 bannsetti Ormur biskup Kolbein Benidiktsson, en leysti hann úr banni 1352 og sættist við hann[2].

## Gissur Galli Bjarnarson.

*Faðir:* Björn; móðurnafn Gissurar hefi eg eigi fundið. En í ættartölubók hefi eg fundið framætt hans talda þannig: 1. Úlfur úargi, 2. Hallbera, 3. Kvöldúlfur, 4. Skallagrímur, 5. Egill, 6. Þorgerður, 7. Þorbjörg digra, 8. Kjartan í Vatnsfirði, 9. Þorvaldur þar og, 10. Ingiríður, 11. Vigdís[3], 12. Óli, 13. Oddur, 14. Herdís (kona Svarthöfða Dugfússonar Þorleifssonar), 15. Björn, 16. Gissur galli, 17. Hákon, 18, Jón[4], 19. Guðný, 20. Þorleifur Árnason, seinni maður Vatnsfjarðar-Kristínar. Önnur ættartala telur þannig: 1. Þorgils orrabeinn, hans son

---

1) Það er sagt í annálum, að Benidikt Kolbeinsson hafi 1357 fangað þann mann, er Björn hèt, og látið brenna fyrir glæp nokkurn, sem þar er getið; sýnir þetta, að hann hefir þá haft sýsluvöld, eða jafnvel hirðstjórn.

2) Þetta er sama, sem sagt hefir verið hèr að framan.

3) Í viðbætinum við Þórðar sögu Hreðu, er prentuð var í Kaupmannahöfn 1848, er ættin rakin, sem hèr ofan til Jóns Hákonarsonar, nema hvað Vigdís er talin þar kona Óla Þorvarðarsonar á Söndum í Dýrafirði, sem án efa mun rèttara. Það virðist engum vafa geta verið undirorpið, að sú saga af Þórði Hreðu, sem áminnzt brot hefir verið endir af, hefir verið rituð undir umsjón Jóns Hákonarsonar í Víðidalstungu, sem var mikill fræðimaður, því þar er á tveim stöðum rakin ætt ofan til hans, og er þetta áþekkt því, að í Landnámu þeirri, er kallast Hauksbók, er á ýmsum stöðum rakið ofan til Hauks lögmanns og konu hans; og eins er gjört í Landnámu þeirri, er kallast Melabók, að þar er talið ofan til Snorra Markússonar á Melum og konu hans, en af þessu leiðir þá aptur, að Ingileif sú, sem ætt er og rakin niður til í sögubroti þessu, hefir verið kona Jóns Hakonarsonar; sjá meira hèr um síðar.

4) Jón á að falla hèr burtu, því Guðný dóttir Jóns Hákonarsonar var ekki móðir Þorleifs Árnasonar, heldur hèt bóndi hennar Sveinn Bergþórsson, sjá Þingeyjarþing, bls. 23.

2. Grímur glammaður, 3 Ingjaldur, 4. Grímur, 5. Einar, 6. Hallkatla[1], 7. Steinunn[2], 8. Bjarni (Björn), 9. Gissur galli (Steinunn hefir, ef til vill, verið kona Björns og móðir Gissurar). Gissur galli er fæddur 1269[3], og hefir snemma á ungdómsárum orðið mikill uppivöðslumaður, þó finn eg ekki getið atgjörða hans fyrri en hann var yfir hálffertugt, er ekki ólíklegt, að hann bæði hafi átt konu og börn á yngri árum, þótt þess sè eigi getið.

1306 er þess getið, að Gissur vo mann þann, er Höskuldur hèt; dulin er orsök þar til og afleiðing vígsmálsins. 1308 fór Gissur utan ásamt öðru stórmenni og gjörðist 1309 hirðmaður Hákonar Noregs konungs Magnússonar lagabætis, er þá hafði ófrið mest við Svía konung; hafði Hákon konungur engan finnskatt fengið um nokkur ár, sendi því Gissur galla og með honum Valtý bróður Pretta Páls, ásamt öðru liði að heimta skattinn; fóru þeir 1310 með liði sínu norður á Finnmörk, áttu erfiða ferð, en með atburðum og fylgi þeirra fengu þeir finnskattinn og hèldu heimleiðis. 1311 færði Gissur konungi skattinn og þótti konungi rösklega eptirsótt, og var Gissur með konungi um hríð. 1312 fór Gissur með herra Ívari Holm til Íslands og tókst þeim greiðlega ferðin. 1313 fèkk Gissur galli Þuríðar Ögmundsdóttur Þórðarsonar úr Bæ; hafði Gissur þá bú í Víðidalstungu. Þetta sumar kom misklíð millum Gissurar og norrænna kaupmanna, er lágu á Gáseyri; var herra Úlfur af Dunka fyrir kaupmönnum, og veittust að þær tvær skipshafnir, er þar lágu, hlupu að Gissuri og hans mönnum með bardaga, er voru ofurliði bornir. Gissur, sem hefir getið sig mest fram, særðist þá svo, að hann lá 12 mánuði í sárum, en varð þó alheill. 1315 fór Gissur enn utan og til Hákonar konungs, var hann optast í hirð hans, vel metinn sakir karlmennsku og hugprýðis, átti konungur í stríði við Svía, er höfðu

---

1) Hallkatla var kona Rafns Sveinbjarnarsonar.

2) Steinunn hèt kona Odds Ólasonar, þeirra börn voru þau Rafn Oddsson, og Herdís kona Svarthöfða Dugfússonar, þeirra son hefir Björn faðir Gissurar galla verið.

3) Gissur galli hafði nafn Gissurar jarls Þorvaldssonar, er andaðist árinu áður eða 1268.

herjað í Víkinni. 1317 bauð Hákon konungur út leiðangri og fór til Víkurinnar með mikinn her og herjaði, en Svíar flýðu undan: um haustið sneri konungur aptur með herinn; herra Gjarðar stýrði einu herskipi, er inni fraus, þá er konungur var farinn, skipið varð eigi svo fljótt vakað út, sem þurfti, og því söfnuðust Svíar saman og sóttu að Norðmönnum, er vörðust vel. Gissur hefir verið annar fyrirmaður skipsins, sýndi karlmannlega vörn og var skotinn með spjóti gegnum aflvöðvann á vinstra handlegg; loks urðu Norðmenn bornir ofurliði, þá var Norðmönnum heitið griðum og gáfust upp, en Svíar hèldu eigi loforð sitt, fönguðu þá alla og hjuggu strax eptir alla utan Gjarðar og Gissur; þeir voru settir í járn og dýflissu á imbrudögum á jólaföstu; litlu síðar var herra Gjarðar höggvinn, en 1318 var Gissur útleystur úr fangaturninum í Svíaríki laugardaginn fyrir páska, og fór sem fyrst til Hákonar konungs. Þá er Gissur var kominn til Noregs fèkk konungur honum veizlu nokkra um hríð, en skömmu þar eptir 1319 í maímánuði dó Hákon konungur, en Magnús, er kallaðist smekkur, Eiriksson, dóttursonur Hákonar konungs, var sama sumar til konungs tekinn ungur að ráði, og því voru mest ráð undir lendum mönnum, er skeyttu lítið um Gissur sem útlendan mann. 1320 virðist Gissur að hafa farið út til Íslands og til bús síns, en 1322 fór hann enn utan, en kom út aptur 1323, og er eigi þar eptir getið utanferða hans. 1324 fæddist Hákon son Gissurar galla. Hvort Gissur hafi hèr á landi haft lèni nokkurt, er ekki víst, þó er eigi ólíklegt, að hann hafi fengið umboð yfir sýslu hjá Eiríki hirðstjóra Sveinbjarnarsyni, sem opt sat í Vatnsfirði, og tel eg líkast þar til Húnavatnsþing, þótt eigi færi ætíð eptir, hvar þeir sátu, en stopult hefir það vald hans verið. Gissur var mikill kvennamaður og hèlt frillur; Lárentíus Hólabiskup fann að því við hann, gjörðust og þar af millum þeirra margar greinir; líka fann biskup að tíundar-afdrætti Gissurar, þó fór svo loks, að Gissur lèt undan og sættist við biskup, urðu þeir þar eptir allgóðir vinir. 1359, þá er Gissur var níræður, kom Jón biskup Eiríksson til Hóla, vingaðist Gissur við hann og fèkk honum reka nokkra á Vatnsnesi fyrir sálu sinni, fór allt vel með þeim. Í elli sinni lifði Gissur í kyrrð og dó 1370, vetri betur en tíræður.

Gissur hefir verið kappi mikill, ekki jafnaðarmaður, auð-

ugur og mesti höfðingi. Hákon, son Gissurar, var borinn 1324; þá er hann hafði aldur til, fór hann utan, og gjörðist höfðingi; hann fèkk eptir föður sinn meiri hluta af fè hans, því hann var skilgetinn, en flest önnur börn Gissurar hafa verið óskilgetin. Snemma gipti Hákon sig, og voru ektabörn hans Guðný, er átti Árna bónda Einarsson í Auðbrekku, þeirra son var Þorleifur í Vatnsfirði, er fèkk Vatnsfjarðar-Kristínar, og Jón Hákonarson í Víðidalstungu, sem fæddist 1350. Hákon átti skip í förum sem faðir hans[1], og var talinn mikill höfðingi.

Svo óljósar eru þá sagnir, að eigi finn eg heiti konu Hákonar; annálaritarar tjá, að Hákon hafi látizt 1381; óljóst er, hvort hann hafi haft sýsluvöld, en auðmaður hefir hann verið mikill og kallaður í fornum ritum höfðingi. Jón Hákonarson var fæddur 1350, og tók föðurleifð sína Víðidalstungu, hann var og auðugur höfðingi. Synir hans tjást að hafa verið Hákon[2] og Helgi; Helgi átti Margrètu Þorleifsdóttur Marteinssonar, þau voru barnlaus, dæmdi því Rafn lögmaður Guðmundsson 1416 um arf eptir þau[3]. Sumir ætla og, að Guðný móðir Þorleifs

---

1) Að Gissur galli eða Hákon sonur hans hafi haft skip í förum, hefi eg eigi annarstaðar sèð, og efast um, að það sè rètt, sjá hèr síðar.

2) Að nokkur son Jóns Hákonarsonar hafi heitið Hákon, hefi eg hvergi sèð, og held það varla rètt.

3) Rafn úrskurðaði, að 1/2 Víðidalstunga hefði tilfallið eptir Helga Jónsson, son Jóns Hákonarsonar, konu hans, Margrèti Þorleifsdóttur, dóttur Þorleifs Marteinssonar, en hálf Guðnýu Jónsdóttur, dóttur Jóns Hákonarsonar, og bæri því sá partur Þorleifi Árnasyni eptir kaupi hans við Svein Bergþórsson, mann Guðnýar. Jón Hákonarson hafði gefið Víðidalstungu Helga syni sínum til jafnaðarskipta við önnur börn sín. Þorleifur Marteinsson hefir nokkru seinna dáið barnlaus, því 1427 úrskurðar Rafn lögmaður Guðmundsson, að arfinn eptir hann ættu að taka bróðurdætur hans, Solveig Ólafsdóttir og Þuríður Ólafsdóttir; faðir þeirra og bróðir Þorleifs hèt Ólafur Marteinsson og var kallaður Staði, hann hafði verið tvígiptur, hèt fyrri kona hans Hallbera Kolbeinsdóttir, og var þeirra dóttir Solveig, en seinni kona hans hèt Ingibjörg Árnadóttir, og þeirra dóttir var Þu-

Árnasonar hafi verið dóttir Jóns Hákonarsonar, en ekki systir Jóns[1]. 1382 er þess getið, að skip hafi fundizt fyrir Austfjörðum Hákonar bónda Jónssonar með 90 manna[2] (er líklegt að það hafi verið getið tèðum Hákoni, þá barni af afa sínum og nafna, þó er líklegra, að Hákon hafi skipið átt og hafi það verið við hann kennt, þó hann þá væri dáinn, en föðurnafn Hákonar sè villt ritað og hafi átt að vera Hákonar Gissurarsonar). 1396 tjáist að Páll Gaddur hafi í þingreið sært Jón bónda Hákonarson, komst Páll í kirkju á Eyðum austur, og var borinn út þaðan sofandi af þremur mönnum í dularklæðum og síðan höggvinn í Húnavatnsþingi. Sýnist sem þessir feðgar, hver eptir annan, hafi verið stórhöfðingjar og valdamenn, líkast til í Húnavatnsþingi.

### Benidikt[3] Brynjólfsson.

*Faðir:* Brynjólfur ríki, dó 1381, máske valdamaður.

*Kona:* Margrèt dóttir Eiríks ríka á Möðruvöllum, sjá Vaðlaþing.

*Barn:* Magnús á Espihóli faðir Brynjólfs samastaðar, föður Einars, föður Jóns.

Benidikt og Brynjólfur voru höfðingjar og stórbændur um aldamótin, en óvíst er um sýsluvöld þeirra, þó virðist líklegt, að þeir hafi um tíma haft umboð nokkurt, líkt og aðrir auðmenn, sem fengu annaðhvort um lítinn eða lengri tíma lèni hjá hirðstjórum, þegar þeir gáfu þeim fè til þess og guldu

---

ríður. Maður Solveigar hèt Sveinn Bjarnarson, en Þuríðar Guðmundur Þorláksson; og hjá þeim fèkk Þorleifur Árnason hinn helminginn af Víðidalstungu.

1) Það er skakkt og getur, sem sagt, eigi staðizt, að Guðný Jónsdóttir hafi verið móðir Þorleifs Árnasonar.

2) Þetta skip hefir án efa átt Hákon Jónsson, er var maktarmaður í Noregi, og 1390 varð fèhirðir í Björgvín (sjá um hann Tímarit mitt 1. B. bls. 46). Formenn á skipi þessu voru: Guðbrandur í Auðnargarði og Brandur Þórðarson.

3) Bróðir Benidikts var, sem fyr hefir verið sagt, Björn Brynjólfsson á Stóru-Ökrum, faðir Sigríðar, konu Þorsteins hirðstjóra og lögmanns Ólafssonar.

ríkulega afgift, en óvíst er, að þeir hafi heldur haft völd í þessari sýslu, en öðrum norðanlands. 1432 sýnist sem Benidikt sè dáinn, því þá afhenti ekkja hans og son þeirra Magnús Jóni biskupi Vilhjálmssyni jörðina Sjávarborg[1], þar hafði Margrèt búið 1403. Systir Margrètar hafði fylgt Steinmóði presti, og átt með honum tvo sonu, sem Steinmóður prestur arfleiddi, þar eptir dó Steinmóður prestur í plágunni miklu 1403, erfðu þá synir hans það, er þeim var testamenterað, en dóu skömmu þar eptir í tèðri plágu, en móðirin erfði sonu sína, og dó litlu síðar; þá erfði Margrèt systur sína; hinar systurnar kölluðu þá eptir arfi og varð þras um það; Margrèt gaf þá biskupi sinn hluta arfsins, sem eigi vantaði fylgi að ná honum undir sig[2]. Magnús son Benidikts og Margrètar flutti að Espihóli frá Hofi, þá Brandur Jónsson, seinna lögmaður, tók Hof[3]. 1433 klagaði Brandur upp á Hofs kirkjufje, þar um dæmdi Jón biskup Vilhjálmsson kirkjunni fje og bætur. 1471 seldi Magnús Þorleifi hirðstjóra Björnssyni Ingveldarstaði á Reykjaströnd. Magnús var maður auðugur, átti marga sonu og fèkk sitt höfuðból hverjum; Brynjólfur á Espihóli var einn af sonum hans[4].

---

1) Biskup hefir rètt á eftir því, er hann fèkk Sjávarborg, fengið hana Lopti ríka Guttormssyni, því Loptur átti hana, er hann dó.

2) Þessi saga, að ein af dætrum Eiríks ríka á Svalbarði hafi fylgt síra Steinmóði Þorsteinssyni, stendur svo víða, að hún verður víst eigi rengd, þótt eg viti eigi, hvaðan hún er tekin.

3) Þau mæðgini Margrèt og Magnús Benidiktsson áttu í þrætu út af Hofi á Höfðaströnd við Brand Jónsson, og lítur svo út, sem Brandur hafi borið þar hærri hluta, því Brandur lögmaður Jónsson sat fyrst á Hofi.

4) **Ásgeir Árnason.**

*Faðir:* Árni, almennt talinn Einarsson.
*Kona:* Guðfinna Þorgeirsdóttir (ekki Þorgríms eins og stendur í Árbókunum).
*Sonur:* Jón Ásgeirsson, sjá Ísafjarðarsýslu,

Asgeir hefir verið ríkur höfðingi á sinni tíð, og búið fyrst fyrir norðan, en flutt síðan vestur á land. Hann átti í máli

### Einar Þorleifsson.

*Faðir:* Þorleifur Árnason í Vatnsfirði (sjá Ísafjarðarsýslu).
*Móðir:* Vatnsfjarðar-Kristín Björnsdóttir Jórsalafara.

Einar giptist eigi, og sum rit segja, að hann eigi hafi átt launbörn, er giptust, en aðrar fræðibækur segja, að hann hafi

---

við Svein nokkurn Hallvarðsson, og nefndi 1415 Þorleifur Árnason, er þá hèlt Skagafjarðarsýslu, tólf menn í dóm á Ökrum í Blönduhlíð til að dæma það mál. Sveinn þessi Hallvarðsson var ríkur bóndi í Skagafirði og hafði eignast Ríp í Hegranesi, en bæði hann og kona hans Ástríður Jörundardóttir gáfu seinast biskupinum á Hólum próventu sína, og við það komst Rípur undir Hólastól.

1421 hafði Ásgeir mikil jarðaskipti við Þorleif Árnason og fèkk honum með samþykki fyrnefndrar konu sinnar hálfa Auðkúlu í Svínadal, hálft Mosfell, hálfa Geithamra, hálfa Grund, hálfa Ljótshóla, hálfa Snæðingstaði (= Snæringstaði), hálf Hrafnabjörg og hálft Holt og þar að auki alla jörðina Tungunes; en Þorleifur fèkk honum aptur með samþykki konu sinnar Kristínar Björnsdóttur Hvamm í Hvammssveit, Kyrínastaði (= Kyrnastaði), Skarfstaði, Glerárskóga og Leysingjastaði, þar með fylgdu og Hvammskirkjujarðir, Akur og Efri-Hvammur. Þetta virðist beinlínis benda á það, að annaðhvort Ásgeir sjálfur, eða kona hans Guðfinna, hafi verið kominn af Þorsteini syni herra Kolbeins Auðkýlings, því höfuðbólið Auðkúla með tilliggjandi jörðum mun hafa skipzt til helminga eptir herra Kolbein, millum sona hans Benidikts og Þorsteins (þeir Þórður og Jón Kolbeinssynir hafa annaðhvort verið óskilgetnir eða sem önnur skilgetin börn herra Kolbeins, hafi þau verið fleiri, fengið aðrar jarðir), og Tungunes hafði Þorsteinn, sem fyr er getið, fengið hjá Hólabiskupi.

1422 er Ásgeir sýslumaður í Húnavatnssýslu, og útnefnir þar þá á Torfastöðum í Miðfirði 12 menn í dóm, sama ár sleppir hann sýslunni; eigi mun hægt að segja, hvenær hann hefir orðið þar sýslumaður. Fyr tèður dómur hljóðar þannig:

Öllum mönnum, sem þetta brjef sjá eður heyra, senda Matteus Pètursson, Hákon Magnússon, Arnbjörn Einarsson, Guðmundur Þorláksson, Kolbeinn Andrèsson, Ari Vigfússon,

átt tvö launbörn og testamenterað þeim 10 hndr. hundraða, hafi annað þeirra verið Þuríður, sem Sigvaldi Langalíf numdi frá móður sinni Ólöfu ríku. Þótt Einar hefði þetta gefið, hefði

---

Þorvaldur Bergþórsson, Þórarinn Oddsson, Þorkell Ásbjarnarson, Magnús Þormóðsson, Ófeigur Þorgeirsson, Svartur Stefánsson kveðju guðs og sína, kunnigt gjörandi, að á Torfustöðum í Miðfirði á almennilegu þingi vorum vèr í dóm nefndir af ærlegum manni Ásgeiri Árnasyni, er þá hafði konungsumboð yfir allt Húnavatnsþing, að dæma á milli þeirra Jóns Arnbjarnarsonar og Rafns Sveinbjarnarsonar (af einni hálfu) og Þorvarðsar Ólafssonar af annari hálfu, og greindur Þorvarður var rèttilega þá fyrirstefndur, og sakir þess að áður greindur Jón og Hrafn kærðu það til Þorvarðs Ólafssonar, að hann hefði að halda vostakk með briggishnappa með vír og spensl með silfur, er Katrín móðir hans hafði skipað síra Ásgrími Snorrasyni fyrir borð og kennslu Þorvarðar sonar síns, og hennar brèf þar fyrir gjört vottar. Því dæmdum vèr þrátt nefndir dómsmenn þrátt nefndan Þorvarð Ólafsson skyldugan að afhenda og lúka áður greinda gripi Jóni Arnbjarnarsyni og Hrafni Sveinbjarnarsyni, eða þeirra löglegum umboðsmanni innan mánaðar að heyrðum dóminum hèr á Torfustaðaþingi í Miðfirði, ef þeir eru til, en ef þeir eru eigi til, þá aðra svo góða undir sinn svarinn eið, nema hann sverji með svörðum vottum, að þeir sèu afhentir áður. Item í annari grein, svo [báru ski]líkir vottar, að títt nefndur Þorvarður hefði ha[ndlagt síra Ásgrími] Snorrasyni í fjárskipti og reikningsskap fimm kúgildi til fullrar eignar, því dæmdum vèr opt nefndan Þorvarð skyldugan að lúka að næstu fardögum fimm kúgildi með þessum fríðleika, kú og ásauðarkúgildi með fullum lögvöxtum og þrjú geldfjárkúgildi með leigum og leiguleigum, ef þeir geta það sýnt, að þeir hafi beitt og krafið að lögum, en þeim fullrètti. Jóni v merkur en Hrafni 4 merkur, rètt lúkt í öllum lögaurum innan mánaðar hèr á Torfustöðum að heyrðum dóminum; en ef þeir sýna ekki, að þeir hafi krafið að lögum, gjaldi þá með leigum þessi 5 kúgildi, nema títt nefndur Þorvarður geti sýnt, að hann hafi lúkt áður; skal hann öll sín próf leiða hèr á Torfustöðum í Miðfirði fyrir konungs umboðsmanni innan mánaðar, að heyrðum dóminum.

það verið meira en löggjöf, hefir Björn bróðir Einars eigi látið það haldast, allra sízt sè það satt, að Þuríður dóttir Einars hafi verið numin burt frá Skarði, að óvilja Björns. Einar sat

---

Item í 3. grein um þann eið, er Þórarinn Hallvarðsson sór og tveir vottar aðrir sóru eins vitnis, þann eið og skrá, dæmdum vèr til lögmanns og svo mikið, sem oss bar yfir að taka, en konungi rètt eptir bók; og til sanninda hèr um setjum vèr fyr nefndir menn vor innsigli fyrir þetta brèf, skrifað á Torfustöðum í Miðfirði mánudaginn fyrir jónsmessu baptistæ, anno domini M° CD° XX° secundo.

Af þessum dómi má sjá, að áður en Ásgeir varð sýslumaður í Húnavatnssýslu, hafa þar stundum verið fleiri en einn sýslumaður í senn.

1428 lèt Þorsteinn Ólafsson, er þá var hirðstjóri norðan og vestan á Íslandi dóm ganga í Hvammi í Hvammssveit um Ásgeir Árnason og Jón son hans um drápsrikti (sjá bls. 311).

**Guðmundur ríki Arason.**

*Faðir:* Ari Guðmundsson á Reykhólum, sjá bls. 24 og 25 og Stranda- og Barðastrandarsýslur.

*Móðir:* Ólöf Þórðardóttir Sigmundssonar.

*Kona:* Helga dóttir Þorleifs Árnasonar og Kristínar Björnsdóttur Jórsalafara; Helga átti síðar Skúla son Lopts ríka Guttormssonar.

*Börn:* 1. Solveig kona Bjarna, hins góða manns á Brjánslæk Þórarinssonar; Einar son Björns ríka Þorleifssonar lèt veita honum heimsókn og drepa.

2. Andrès laungetinn átti Þorbjörgu, dóttur Ólafs yngra Tóna Geirmundarsonar.

Sjá um Guðmund Barðastrandar- og Strandasýslur; hèr skal að eins geta þess, að Guðmundur hefir tekið Húnavatnssýslu 1422, þegar Ásgeir sleppti henni; þetta er ljóst af fylgjandi dómi:

Þeim góðum mönnum, sem þetta brèf sjá eða heyra, senda Hallr Þorgrímsson, Pètr Þórðarson, Jón Þorgrímsson, Arnbjörn Einarsson, Guðmundr Þorláksson, Bjarni Gunnarsson, Hallr Þorkelsson, Þorkell Ásbjarnarson, Kolbeinn Andrèsson, Einar Þorðar-

á eign sinni Auðkúlu, er líkast að hann hafi völd haft í Húnavatnsþingi, áður en hann varð hirðstjóri, en sjálfsagt eptir það, þó var hann ýmist erlendis eða hèr. Ágreiningur mikill er um,

---

son, Þórarinn Ásbjarnarson, Jón Oddsson, Svartr Stefánsson (kveðju guðs og sína) kunnugt gjörandi, að þá er liðið var frá hingaðburði vors herra Jesu Christs M° DC° (á að vera M° CD°) vícesimo secundo, miðvikudaginn fyrstan í vetri vorum vèr í dóm nefndir af Guðmundi bónda Arasyni á Torfustöðum í Miðfirði á þingstað rèttum, að dæma í millum Pètrs Finnssonar og Þorbjarnar (á að vera Þorvarðar) Ólafssonar um þá peninga, er Ingibjörgu Klementsdóttur fèllu eptir Margrèti móður sína og Ólafur tók að sèr eptir Margrèti móður þeirra, og svarið er af tveimur skilríkum vottum, að Magnús Grímsson reiknaði níu tigi hundraða sèr og sinni kvinnu hið næsta haust áður en hann deyði og vann þar á fullan bókareið, því dæmum vèr áður nefndum Pètri í umboði konu sinnar hálfan fimmta tug hundraða af þeim níutíu hundruðum með leigum og leiguleigum síðan hann fèkk Ingibjargar til þess er Pètur beiddi og krafði, síðan dæmdum vèr með fullum laga-ávexti um þau tvö ár, að svarið var, að Pètr hefði bæði beitt og krafið. Idem dæmdum vèr Þorvarð Ólafsson skyldugan að lúka þessa peninga heima á Auðunnarstöðum að næstu fardögum, skyldi títt nefndur Þorvarðr sýna með svörnum eiðum, hvort meira væri frítt eða ófrítt, innan mánaðar særra daga; en ef eigi verður sýnt, þá dæmdum vèr þriðjung frítt en tvo hluti ófrítt, annað en það í jörðu liggur, skal Þorgrimur (á að vera Þorvarður) þessi próf leiða fyrir Guðmundi sýslumanni eða hans löglegum umboðsmanni. Síðan dæmdum vèr opt nefndum Pètri v merkur í fullrètti á hverri kröf og lúkast innan mánaðar heima á Torfustöðum að heyrðum dóminum í öllum lögaurum. Og til sanninda hèr um setjum vèr fyr nefndir menn vor innsigli fyrir þetta dómsbrèf, gjört í sama stað dag og ári, sem fyr segir.

Það virðist eigi ósennilegt, að Guðmundur hafi enn haldið sýsluna 1427, því þá er sagt í annálum um norðurreið Guðmundar Arasonar til Húnvetninga, að mörgum hafi þótt þungt að verða fyrir henni af þeirra manna framferði, er með bóndanum riðu.

hvenær hann tók hirðstjórn, nokkrar bækur telja það verið hafa 1428[1]—38—46, en eg meina sannast, að hann hafi orðið hirðstjóri 1436, sleppt hirðstjórn 1439, þá er Ólafur Nikulásson tók hana, Einar hafi gjörzt hans umboðsmaður eptir Stagenberg, nálægt 1441, og það hygg eg að hann hafi verið 1443, þá er þeir bræður veittust að Guðmundi Arasyni og fèflettu hann, því þá tók Einar Reykhóla, og hafði þar annað bú: af kvittun síra Þorleifs, er hann gaf Staðarhóls-Páli, sýnist, að Einar hafi keypt þá af konungi, en testamenterað þá Þorleifi, bróðursyni sínum. Hvað lengi Einar hefir haldið Húnavatnsþing eða aðrar sýslur, bæði sem hirðstjóri og hirðstjóra umboðsmaður, fæ eg eigi uppgötvað, en það er nokkurn veginn víst, að hann kól til dauða á Sölvamannagötum 1463 (sjá Árb. 2. þ. bls. 61). Hvað sè markvert um hann að rita, utan það, er finnst í ættartölum, er mèr dulið. Líklegt er, að hann bæði hèr og í öðrum sýslum hafi hafi umboðsmenn, þegar hann var hirðstjóri, eða hirðstjóra umboðsmaður, þótt eigi viti eg nöfn þeirra með vissu, því gáta mín er, að einn þeirra hafi verið Skúli Loptsson.

### Skúli Loptsson.

*Faðir:* Loptur ríki Guttormsson (sjá Vaðlaþing).
*Móðir:* Kristín Oddsdóttir.
*Kona:* Helga dóttir Þorleifs Árnasonar og Vatnsfjarðar-Kristínar (sjá Ísafjarðarsýslu). Helga hafði áður átt Guðmund ríka Arason á Reykhólum, sjá Strandasýslu.
*Börn:* A. Guðmundur prestur, hans barnamóðir, dóttir Brands lögmanns Jónssonar[2] (sjá Vaðlaþing); þeirra börn:
1. Skúli sýslumaður, sjá hèr síðar.

B. Þórunn átti Stein son Brands lögmanns Jónssonar. Þeirra börn:

---

1) Eg held að rèttast sè, að Guðmundur Arason hafi misst Húnavatnssýslu 1428, og að Einar þá hafi tekið hana.

2) Barnamóðir síra Guðmundar Skúlasonar telst Guðrún dóttir Brands lögmanns, sjá Vaðlaþing, bls. 171, og hèr síðar.

1. Guðný[1]. 2. Þorgerður. 3. Solveig[2] átti Einar Brynjólfsson á Stórhóli; börn:
   α. Málmfríður.
   β. Sigríður.

Loptur ríki hafði gefið Skúla syni sínum 2 hndr. hundraða, og svo erfði hann móður sína, gjörðist hann höfðingi og maktarmaður; hann meina eg að hafi orðið um hríð sýslumaður í Húnavatnsþingi, máske í umboði annara, líkast Einars Þorleifssonar nálægt 1440 eða seinna; hann hafði mikil jarðaskipti, seldi Silfrastaði 1454, keypti Ás í Vatnsdal og Tungu í Miðfirði 1467; en 1477 kvittaði Helga Þorleifsdóttir Skúla Loptsson bónda sinn um 37 kúgildi, er hún hafði erft eptir Guðnýu systur sína í Auðbrekku. Sagt er, að Skúli á eldri árum hafi flutt sig suður á land, og setið þar að eignum sínum. Síra Eyjólfur ritar, að 1488[3] hafi Skúli gefið fyrir sálu sinni til Viðeyjarklausturs Hlíðarhús og Víðgarð, en aðrir rita, að það hafi verið Heiðarhús í Útskálasókn, með því skilyrði, að hann dæi á Suðurlandi og væri grafinn í Viðey; en sú gjöf eða lofun hlýtur fyr skeð hafa, því 1479 vildi Guðmundur prestur, son Skúla, ripta þeirri gjöf og varð því fyrir stefnuförum og málssóknum, sýnist sem Skúli hafi þá verið dáinn og grafinn í í Viðey.

### Bessi Einarsson.

*Faðir:* Einar[4] sýslumaður Árnason (sjá Þingeyjarþing). Einar

---

1) Guðný átti Arnfinn Jónsson, sjá Vaðlaþing, bls. 170.

2) Kona Einars Brynjólfssonar var Solveig dóttir Gríms Pálssonar, sjá Þingeyjarþing, bls. 44, ekki Solveig Brandsdóttir.

3) Eptir gamalli dómabók framfór þetta 1478. Skúli gaf þá klaustrinu í Viðey jörðina Heiðarhús, er liggur í Útskálakirkjusókn, til æfinlegrar eignar og frjáls forræðis þannig, að hann kjöri sèr legstað í kirkjunni í Viðey, ef hann dæi sunnanlands, en dæi hann norðanlands, þá skyldi jörðin samt vera óbrigðuleg eign klaustursins í Viðey, en hann skyldi sèr þá aptur á mót fyrir jörðina sálumessu eitt ár um kring.

4) Það er án efa skakkt, að faðir Bessa hafi verið Einar Árnason, sjá hèr um Þingeyjarþing, bls. 28 og 29. Eyjólfur lögmaður var ekki heldur Árnason.

var bróðir Eyjólfs, föður Einars í Dal, sem átti Hólmfríði Erlendsdóttur.

*Kona:* Sæunn Guðnadóttir Oddssonar lögmanns Lepps Þórðarsonar. Sæunn var ekkja[1], þegar hún giptist Bessa.

*Börn:* A. Þorbjörg átti Daða sýslumann son Ara í Snóksdal Daðasonar Dalaskalla; móðir Daða Arasonar var Þórunn Þórarinsdóttir. Börn Daða og Þorbjargar:

1. Þórunn átti Guðmund Finnsson frá Ökrum Pèturssonar; börn:
   - a. Halldór bóndi í Hlíð í Hörðudal.
   - b. Ingiríður[2] átti Ólaf sýslumann Guðmundsson (sjá Strandasýsln).
   - c. Þorbjörg átti Ólaf Guðmundsson í Bolungarvík.
   - d. Bjarni[3] á Hörðubóli.
   - e. Guðrún átti Helga Helgason.
   - f. Daði sýslumaður í Snóksdal, (sjá Snæfellsnessýslu).
2. Sigurður sýslumaður í Húnaþingi.
3. Elín átti Illuga Ormsson á Dunki.
4. Matthildur, móðir Bessa á Auðólfsstöðum[4].

---

1) Eg hefi eigi sèð, að Sæunni hafi verið eignaður annar maður en Bessi.

2) Ingiríður átti fyrst, sem hèr segir, Ólaf Guðmundsson Andrèssonar og síðan Pètur Einarsson, bróður Marteins biskups.

3) Bjarni átti Ólöfu dóttur Björns Þorleifssonar á Reykhólum og Ingibjargar Pálsdóttur.

4) Bessi þessi var Einarsson, hèt bróðir hans Jón Einarsson, er 1569 í Finnstungu í Blöndudal giptist Helgu Guðmundsdóttur; taldi Jón sèr til kaups við Helgu LX hndr., þar af XL í jörðunni Auðólfsstöðum og XX hndr. í öðrum góðum peningum; hèr í móti gáfu foreldri Helgu, Guðmundur Einarsson og Ljótunn Pálsdóttir, henni X málnytukúgildi og þar til góð XX hndr. í öðrum peningum. Bessi Einarsson, bróðir Jóns, lofaði að selja honum þau XX hndr., er hann átti í nefndri jörðu Auðólfsstöðum, þegar hann vildi þau selja,

5. Sæunn átti Sæmund; þeirra son Jón[1].

B. Guðrún[2], fyrri kona Árna Pèturssonar Loptssonar Ormssonar Loptssonar ríka, sjá Strandasýslu.

Í ættartölum nefnist Bessi Einarsson sýslumaður í Húnavatnsþingi, en eigi er getið valdaárs hans, og eigi hefi eg sèð dóma hans; eigi er heldur víst, hvort hann hefir verið umboðsmaður eða haft sýsluveitingu; um tíma er eigi ólíklegt, á að gizka nálægt 1450, þó er það óvíst; hitt er víst, að 1467 var Bessi dómsmaður með Brandi lögmanni. Bessi seldi Vatnsfirðingum eignir konu sinnar í Bolungarvík fyrir fasteign í Húnavatnsþingi. 1450 seldi Bessi[3] með samþykki konu sinnar, Sæunnar Guðnadóttur, jörðina Vörðufell og 8 hndr. í Brokey Árna Oddssyni, en nefndur Árni lúkti seinna 8 hndr. í Brokey Snorra Hallgrímssyni upp í fè dóttur sinnar Þórhöllu, sem hún átti í arf eptir móður sína Þuríði Tómasdóttur.

## Jón Guttormsson skráveifa[4].

*Fóðir:* Guttormur Narfason, bróðir lögmannanna Þorláks og Þórðar Narfasonar,

1356 fóru þeir utan Árni Þórðarson[5], Jón Guttormsson og Þorsteinn Eyjólfsson, en árinu áður hafði Andrès Gíslason utan farið; þessir allir sóktu um hirðstjóraembætti, og leigði konungur þessum 4 mönnum landið í 3 ár 1357; ætluðu þeir sam-

---

1) Þessi Jón Sæmundsson er án efa sá Jón Sæmundsson, er Gottskálk biskup lèt dæma af Reyki í Tungusveit 1519 vegna skulda, er Jón var kominn í við kirkjuna þar.

2) Guðrún Bessadóttir, er átti Árna Pètursson Loptssonar, er almennt talin systir Þorbergs sýslumanns Bessasonar, og Bessi, faðir Þorbergs, Hrólfsson Þorsteinssonar.

3) Bessi og Árni eru í kaupbrèfinu kallaðir «velbornir menn».

4) Sjá um Jón lögmann skráveifu Guttormsson lögmannatal Jóns Sigurðssonar. Það er án efa óvíst, að Guttormur faðir Jóns hafi verið bróðir þeirra Þórðar og Þorláks Narfasonar, en hitt má án efa telja víst, að hann hafi verið bróðir frú Unu, er herra Ketill Þorláksson átti.

5) Dóttir Árna hirðstjóra Þórðarsonar hefir án efa verið Ingileif, kona Jóns Hákonarsonar í Víðidalstungu (sjá sögu Þórðar hreðu).

sumars til Íslands, en höfðu harða útivist og náðu nauðulega Hjaltlandi um haustið, þar voru þeir um veturinn. Þá fèll Jón Guttormsson í óbótamál og var dæmdur af Hjöltum á konungs náðir; fór hann þá snemma um vorið á konungs fund, og fèkk náð hans og að halda sýslu sinni. Samsumars 1357 kom hann út og hafði Norðlendingafjórðung. 1348 hafði hann á Íslandi fallið í óbótamál og var dæmdur á konungs náðir, fór hann þá utan og gaf konungur honum upp þá sök. 1375, þegar hann kom hingað út sem hirðstjóri, gjörði hann ýmsar óspektir, og var harður og fègjarn í sýslu sinni; þoldu Norðlendingar það eigi. Þá er Jón ætlaði að ríða yfir sýslu sína, söfnuðust Norðlendingar saman um 300 manna hjá Þverá í Vesturhópi, og bönnuðu honum yfirreið (það mun hafa verið 1359). Fór Jón þá vestur að Kolbeinsstöðum, til heimilis síns, og leið svo af hans valdstjórnarár. Jón var mesti ójafnaðarmaður og gjörði óspektir syðra, fèkk í fylgi með sèr Markús Barkað Marðarson, fóru þeir með hernað og rán um sýslu Árna Þórðarsonar. Árni náði ekki Jóni en lèt vega Markús. 1360 hittust þeir Árni og Jón á alþingi og varð þar bardagi millum þeirra, en hvorugur vann á annan og skildu ósáttir. 1360 kom út Smiður Andrèsson með hirðstjórn, batt Árni Þórðarson, sem þá hafði misst hirðstjórn syðra, vináttu við hann; en Jón Guttormsson gat spillt því, komið sèr í kærleika við Smið, sem gjörði Jón að lögmanni norðan og vestan. Jón gat svo umtalið við Smið, að hann lèt fanga og aflífa Árna, gaf hann það Árna að sök, að hann hefði látið aflífa Markús Barkað Marðarson, sem með konu sinni og sonum hafði gjört heimsókn að Ormi á Krossi og sært hann, en það var í sýslu Árna, Rangárþingi; honum þótti og Norðlendingar ofstopafullir og hótaði þeim útlegð. Jón biskup skalli var um þessar mundir ósáttur við marga bændur í Norðurlandi, einkum Eyfirðinga; Jón lögmaður skráveifa var og mikill óvinur þeirra og hvatti Smið til hefnda; hafði Smiður boðað mörgum þeirra útlegð; voru þá uppi margir stórbændur norðanlands. Í Skagafirði var Þorsteinn Eyjólfsson á Víðimýri, sem verið hafði lögmaður norðan og vestan 1352 til 1356 og hirðstjóri yfir Vestfjörðum 1357 til 1360, var hann og mesti óvildarmaður Jóns lögmanns Guttormssonar. Í Húnavatnsþingi Gissur galli í Víðidalstungu og Hákon son hans: Benidikt bóndi Kolbeinsson og sonur hans

Kolbeinn, er opt höfðu nokkur völd. Í Eyjafirði voru Einar Eiríksson á Grund, sem opt var í förum eða sat að eignum sínum í Vatnsfirði, Magnús Brandsson á Svalbarði og Eiríkur son hans. Í Þingeyjarþingi Jón Langur í Axarfirði og fleiri. Þessir og margir aðrir kunnu illa yfirgangi og hótunum Smiðs og Jóns lögmanns skráveifu. Nú hugði Smiður að niðursetja ofmetnað þeirra og ásamt að sætta Jón biskup skalla og hans óvildarmenn. Safnaði hann sèr því liði, var þar með honum Jón lögmaður skráveifa og frændi hans Ormur Sturluson, Snorrasonar lögmanns Narfasonar og margir fleiri; riðu þeir fyrst norður að Hólum til sáttarfundar, er lagður var millum Jóns biskups skalla og Norðlendinga, var það eptir alþingi 1362. Ekki komst á sætt með biskupi og Norðlendingum. Þaðan riðu þeir í Eyjafjörð og að Grund, var þá Einar bóndi eigi heima, en Helga kona hans tók þeim sæmilega og gjörði þeim beina. Smiður var stráklyndur og kvennamaður og heimti konur til sængur, hvar sem hann kom og svo einnig á Grund, tók Helga því líklega, en bauð konum, er fylgdu þeim til sængur, að snúa um annari brókinni. Öl lèt hún bera þeim, sem þeir vildu, lögðust þeir þar eptir til svefns.

Eptir samfundinn á Hólum söfnuðust Norðlendingar saman, meinast að fyrir liði þeirri hafi verið Þorsteinn bóndi Eyjólfsson, sóktu þeir til Grundar og komu þangað snemma morguns, brugðu þá hinir við, náðu vopnum sínum og hringbrynjum og bjuggu sig. Atlagan tókst um miðjan morgun og varð þar hart viðnám og bardagi bæði langur og harður nálægt um dagsmark; var Smiður hinn harðfengasti og varðist vel, særðust sumir, en sumir fèllu; þá vildi Smiður flýja, er hann sá sitt óvænna, hljóp upp á skálabitann og síðan bita af bita, til þess að hann kom að mjólkurskemmu Helgu, þá hjó einn Norðlendinga á háls honum, svo aflauk höfuðið og lenti í mjólkurtrogi (segja sumir, að Helga hafi eigi viljað láta spilla mjólkinni að heldur og kveðið á, að öllu skyldi slá saman til grautargjörðar). Jón Guttormsson flýði þá, og ætlaði að komast út um kamarsaugað, en var þá lostinn með járnrekinni kylfu til bana (áður en hann fór að heiman, hafði hann gjört testamenti sitt og gefið Kolbeinsstaðakirkju hálft Einarslón). Í þessum bardaga fèllu 6 af Norðlendingum, en af Smiðs mönnum 7, þar með talinn Jón langur; veit eg eigi fyrir víst,

hvort það var Jón úr Axarfirði. Ormur Sturluson komst í kirkju, og voru honum gefin grið; flutti hann með sèr vopn og hesta og reiðtygi þeirra, er fallið höfðu. Lík Smiðs var flutt til Hóla, en Jóns lögmanns til Kolbeinsstaða; hann tjáist að hafa verið maður óeirinn, en þreklítill og lítt hugaður.

## Egill Grímsson.

Hans finn eg fyrst getið 1454[1], þegar Björn ríki seldi honum Eyvindarstaði og fleiri jarðír í jarðakaupum; voru vottar Skúli Loptsson, Oddur Brandsson og fleiri. 1461 lèt hann 6 manna dóm ganga á Sveinsstöðum um ágreining Þorsteins Guðleikssonar og Guðfinnu Jónsdóttur, sem kenndi honum að hann hefði slegið sig 10 hnefa högg o. fl.; var Egill þá sýslumaður í Húnavatnsþingi. 1472 lætur Egill ganga 6 manna dóm um Mjófadal; sama ár keypti Egill Síðu á Skagaströnd. 1473 lætur hann dóm ganga um heimsókn á Laugamýri. Egill Grímsson er og fyrsti dómsmaður út nefndur af Rafni lögmanni Brandssyni 1482 um arfaþrætu Árna Þorleifssonar og Páls Brandssonar, umboðsmanns Orms Brandssonar[2] áhrærandi arfinn eptir Soffíu Loptsdóttur móður Orms en föðurmóður Árna (máske ártalið sè eigi rètt; Soffía dó eptir hirðstjóra annál nálægt 1500, annars getur þetta varla verið Soffía dóttir Lopts ríka, því það getur eigi komizt heim, að hún hafi verið móðir Þorleifs í Vatnsfirði, hygg eg þetta annað fólk). 1480 var Egill Grímsson í þeim dómi, sem Þorleifur hirðstjóri útnefndi á Lundi í Lundareykjadal um arf þess barns, er útlægur maður getur með konu sinni, og 1470 var hann vottur að sátt þeirra Lopts Ormssonar og Þorleifs Björnssonar. 1494 mánudaginn næstan eptir Dýradag nefnir Egill Grímsson í dóm í Engihlíð í Langadal, Grím Pálsson, Jón Asgrímsson, Örnúlf Steinsson,

---

1) Í eptirriti af þessu brèfi, sem eg hefi sèð, stendur að kaupin hafi framfarið 1453.

2) Á að vera Bjarnasonar, sjá Þingeyjarþing, bls. 21. Það er engin ástæða til að rengja þennan dóm, eða til að halda, að það sè ekki Soffía dóttir Lopts ríka, er þar er verið að tala um; að eins virðist Ormur af einhverjum öðrum ástæðum en æsku eigi hafa getað haft fjárhald sitt sjálfur.

Sigurð Jónsson, Grím Þorkelsson, Eyjólf Ólafsson, Brand Ingimundarson, Þorkel Jónsson, Hallvarð Hallsson, Þorstein Bessason, Gamla Þorsteinsson og Jón Þorsteinsson til að álíta þá ákæru, sem Þórður Þórðarson hafði til Ásgríms Þorbjarnarsonar og Þorbjargar Brandsdóttur konu hans, áhrærandi þá peninga fríða og ófríða, er Þórði af Ásgrími lúkast áttu Ingibjörgu Illugadóttur bróðurdóttur hans til eignar, sömuleiðis áhrærandi þann silfurkross, sem Þórður hafði keypt af Ásgrími og Þorbjörgu fyrir 5 málnytu kúgildi; dæmdu dómendur Ásgrím skyldugan, að afhenda Þórði á Tindum heima eða á Steiná alla þá peninga fríða og ófríða, er hann meðtók eptir Illuga dauðan, bæði föður- og móðurarf Ingibjargar Illugadóttur. Af framanskrifuðum dómi er auðsèð, að Egill Grímsson hefir verið orðinn sýslumaður í Húnavatnsþingi 1461, og verið þar enn sýslumaður 1494; eg held, að hann eigi hafi haft utan hálfa sýsluna, því þar finnast fleiri sýslumenn á sama tímabili, en aðrir meina, að hann ýmist hafi haldið sýsluna eða sleppt henni. Egill var míkilmenni og bjó á Geitisskarði 1494. Ása Egilsdóttir, er giptist 1480 Einari Oddssyni (seinna sýslumanni), meinast dóttir þessa Egils. 1464 hafði Brandur Sigurðsson hálfa sýsluna og lèt dæma Egli sýslumanni lambatoll[1]. 1480 gaf Egill Þorleifi hirðstjóra Björnssyni vitnisburð um hollustu Þorleifs við konung, fram fór það í Flatey. 1481 voru Egill og Sigurður Daðason sýslumenn, og 1492 voru þeir báðir þar sýslumenn enn þá; 1494 hafði Jón Sigmundsson sýsluna ásamt Egli. 1470 var Egill á alþingi vottur að sátt millum Þorleifs Björnssonar og Lopts Ormssonar um fè Solveigar Guðmundsdóttur.

## Brandur Sigurðsson.

1464, þriðjudaginn næstan eptír Mikaelsmessu að Svínavatni á Ásum, segist Brandur Arnþórsson[2], Einar Hallfreðarson, Ólafur Björnsson, Rafn Jónsson, . . . . .[3], Árni Geirsson

---

1) Það er að segja, af Eyvindarstaðaheiði, er Egill hafði keypt af Birni Þorleifssyni.

2) Á að vera Arnoztson (ɔ: Arnoddsson).

3) Vantar: «Ari Böðvarsson og».

vera í dóm nefndir af ærlegum manni Brandi Sigurðarsyni, er þá hafði konungs sýslu í Húnavatnsþingi um misklíð þeirra Egils Grímssonar (ɔ: sýslumanns) og Magnúsar Jónssonar viðvíkjandi því, að Egill kærði til Magnúsar, að hann hvorki hefði rekið fè á Eyvindarstaðaafrètt eða toll goldið eptir gömlum vana, þá Egill lèt lesa transskriptarbrèf af úrskurði Einars Gilssonar lögmanns norðan og vestan á Íslandi, svo látandi, að Einar hefði úrskurðað alla bændur milli Göngaskarðsár í Skagafirði fyrir vestan Vötn og Laxár á Skagaströnd fyrir norðan Blöndu, er eiga 10 lömb eða fleiri, frjálslega eiga heimild að reka lambfènað sinn á sumrum á Eyvindarstaða afrètt og lúka að hausti eitt lamb af rekstri Eyvindarstaðamönnum, er af fjalli kemur, og dæmdu dómendur opt nefndan fjalltoll í skyldugjald Magnúsar. Er að sjá sem Brandur hafi haft hálfa sýsluna. 1458 er getið Brands Sigurðssonar í Húnavatnsþingi við nokkra gjörninga.

## Rafn Brandsson eldri[1].

*Faðir:* Brandur Halldórsson frá Barði.

*Móðir:* Ragna, dóttir Rafns lögmanns Guðmundssonar.

*Kona:* Margrèt dóttir Eyjólfs riddara Arnfinnssonar; þeirra fjárskilmálar fram fóru á Grýtubakka í Höfðahverfi 1467, sjá Ísafjarðarsýslu; taldi Rafn sèr þá til konumundar þrjú hundruð hundraða:

*Börn:* A. Brandur, fyrst prestur á Hofi, er hann tók 1488 (aðrir: 1489) og hèlzt það í 46 ár; þar eptir gjörðist hann 1534 príor í Skriðu, og er ritað að hann hafi mjög hniginn að aldri lifað 1552, þá er hann sleppti príors embætti, og átti að setja þar skóla, var hann þá í hið minnsta 83 ára: Hans börn:

1. Rafn lögmaður átti Þórunni dóttur Jóns biskups Arasonar, þau voru barnlaus; hann fèll í einvígi í Glaumbæ 1529, sjá Hegranessþing.
2. Árni átti Úlfheiði, aðrir Úlfhildi, dóttur Þor-

---

1) Sjá lögmannatal Jóns Sigurðssonar.

steins sýslumanns Finnbogasonar lögmanns: sjá Þingeyjarþing[1], börn:

a. Eiríkur sýslumaður (sjá Múlaþing):
b. Guðún átti Erlend Bjarnason[2] á Borg.
c. Guðlaug átti Þórð Björnsson á Eyvindará, sjá Múlaþing.
d. Helga átti Jón Björnsson á Egilstöðum, barnlaus.
e. Ingibjörg átti Þorvarð prófast Magnússon í Vallanesi, þeirra börn:
  α. Síra Árni á Stöð og Vallanesi, giptist[3] og átti börn.
  β. Úlfheiður, kona síra Höskuldar á Eydölum[4].

Árni Brandsson nefnist í ættartölu sýslumaður í Múlaþingi, líklega umboðsmaður.

3. Snjólfur Brandsson, óvíst um hann[5].

B. Snjólfur átti Salnýu Pálsdóttur, systur Ögmundar biskups.

1. Eiríkur[6] bjó eptir föður sinn undir Ási í Fellum í Múlasýslu; er mælt, að kona hans hin fyrri hafi verið Ólöf, dóttir Eyjólfs á Hjalla í Ölfusi; þá hefir Ásdís ekki verið hennar móðir; þeirra dóttir telst:

---

1) Bls. 65.

2) Á að vera Hjaltason.

3) Kona hans hèt Gróa, dóttir síra Halls Högnasonar í Kirkjubæ.

4) Enn var son Ingibjargar og síra Þorvarðar:
  γ. Einar prestur á Klifstað átti Þuríði Halldórsdóttur.

5) Sumir telja þenna Snjólf föður Eiríks í Ási, er átti Ólöfu Eyjólfsdóttur frá Hjalla, sjá hèr síðar; en það er, ef til vill, miður rètt.

6) Ef Eiríkur maður Ólafar hefir verið sonur þessa Snjólfs og Salnýar, systur Ásdísar, er það líklegt, að Ásdís eigi hafi verið móðir Ólafar.

30

a. Þorgerður átti Jón Indriðason í Arnarnesi. Aptur giptist Eiríkur 1559 Þuríði dóttur Þorleifs sýslumanns á Möðruvöllum Grímssonar, var Þuríður þá ekkja eptir Árna Pètursson Loptssonar; taldi Eiríkur sèr þá til konumundar 4 hndr. hundraða, en Þorleifur taldi Þuríði dóttur sinni 1 hndr. hundraða og 100 ál.; þeirra börn:

b. Halldóra átti Magnús son Björns officialis á Melstað Jónssonar biskups Arasonar (sjá Strandasýslu).

c. Ólöf átti Magnús á Eyðum Vigfússon sýslumanns Þorsteinssonar sýslumanns Finnbogasonar lögmanns, sjá Þingeyjarþing.

α. Árni sýslumaður, sjá Múlaþing.

β. Þorbjörg átti Jón lögmann Sigurðsson á Reynistað, sjá Húnavatnsþing[1].

2. Valgerður (aðrir Salgerður) seinni kona Vigfúsar lögmanns Erlendssonar, barnlaus, sjá Rangárþing[2].

C. Solveig Rafnsdóttir, hún hèt Ólafi Hólabiskupi 1490 að gefa sig til Reynistaðaklausturs undir reglu hins heilaga Benidikts og gaf til klaustursins Skarð í Fnjóskadal, var vígð til abbadísar

---

1) Enn voru börn Ólafar og Magnúsar:

γ. Eiríkur átti Þórunni Einarsdóttur prests á Valþjófstað Magnússonar.

δ. Þorsteinn átti Ólöfu Gísladóttur frá Staðarfelli.

ε. Eiríkur.

ζ. Helga.

2) Það er sagt, að fjórmennings meinbugir hafi verið millum Salgerðar og Vigfúsar; þeirra börn teljast:

a. Guðrún kona Páls Eyjólfssonar á Hjalla.

b. Ingveldur.

Ásbjörn telst enn son Snjólfs; hann átti börn.

á tèðu klaustri 1508. Hún mátti sleppa klaustrinu, þá er konungur lèt taka það 1551, hafði þar þó uppeldi ásamt öðrum nunnum, til þess er hún dó fjörgömul 1562 hjá Gunnari Gíslasyni, er þá hèlt það klaustur.

Ekki vitum vèr, hvenær Rafn er fæddur, en þess er getið, að þeir bræður, Halldór, Rafn og Snjólfur skiptu með sèr jörðum 1464, var það föðurarfur þeirra, fèkk hver bróðir í jörðum 100 hndr., en Sólveig 50 hndr.[1] 1467 giptist Rafn Margrètu og bjó þá í Skriðu í Hörgárdal[2]. Svo sýnist sem Rafn hafi haldið Þingeyjarþing fyrir, um og eptir 1460, máske eigi utan hálft, eptir að Finnbogi fèkk þar hálfa sýslu, eða var í fyrstu sem umboðsmaður Rafns[3]. Það er meining margra, að Rafn hafi haldið hálft Húnavatnsþing, af dómi þeim, er hann lèt ganga á Þorkelshóli 1480, en það gat verið lögmannsdómur hans. Hvort Rafn hefir verið lögmaður 1478 eða 1479, þá er hann á alþingi samþykkti dóm, að Gísli Filippusson, sem vegið hafði mann, væri flytjandi til Noregs, kemur eigi öllum saman um, en víst er, að hann var lögmaður orðinn 1480.

Rafn og bræður hans höfðu handabandað Rögnu móður sinni, að svara kirkjufjám á Barði í Fljótum, var það upplesið 1479, en missætti kóm út af tèðum kirkjufjám millum Rafns og biskups 1480. Rafn þoldi eigi heldur allar kröfur biskups eða uppásetningar hans, þrútnaði svo óvild þeirra á millum, að biskup forboðaði Rafn með fram af því, að Rafn hèlt með Hvassafells-Bjarna Ólafssyni, en svo stóð á hans máli, að Randíður hèt dóttir Bjarna, en sá kvittur kom upp, að Bjarni mundi halda við hana; lèt þá biskup fanga Bjarna og setja í járn, og

---

1) Í skiptabrèfinu er engin systranna nafngreind, nè getið, hvað þær fengu í jarðagózi á móti bræðrunum.

2) Rafn fèkk í sitt hlutskipti Skriðu í Reykjadal, og þar hefir hann búið, en ekki í Skriðu í Hörgárdal. Skriða í Reykjadal var og höfuðból Rafns lögmanns Guðmundssonar, afa Rafns Brandssonar.

3) Sjá Þingeyjarþing, bls. 174.

þröngva honum, til þess að hann meðkenndist að hafa haft samræði við dóttur sína Randíði; svo gjörði biskup af honum allt hans fè, en Bjarni var stórauðugur bæði að löndum og lausafè. Þá er Bjarni slapp úr prísund, flúði hann til Rafns lögmanns, klagaði þetta og vildi engu á sig játa; lèt þá Rafn dóm ganga á alþingi, að Randíður mætti hreinsa sig með tylftareiði frá ákvæði því, er Ólafur biskup bar á hana. Randíður sór eiðinn fyrir Rafni lögmanni ásamt eiðvættum sínum. Rafn dæmdi og fangan Bjarna ólöglega að óprófuðu máli hans, og þareð hann eigi hafði fengið leyfi til að færast undan með lögum, dæmdi og mál Bjarna undir konungs-valdið, og honum undanfærslu með tylftareiði, ef tilfær væri. Þann eið sór Bjarni fyrir Rafni, og bar fyrir, að hann hefði verið til neyddur af prísund biskups, að ljúga þessu upp á sig, til að sleppa. 1481 fyrir kyndilmessu um veturinn fundust þeir Ólafur biskup og Rafn á Miklabæ í Skagafirði, gekk eigi saman sætt þeirra, kom til nýrrar þrætu um kirkjufè á Barði, var Rafni stefnt og Barð dæmt undir kirkjuna fyrir eytt kirkjufè. Um hálfkirkju Rafns í Skriðu var og þræta og Rafn dæmdur til hennar skyldugur að svara; voru í þessum málum 18 prestar í dómi með biskupi, en Rafn skeytti því eigi nè linaðist, bannaði hann konungs þegnum að búa á Hólakirkjujörðum eða þjóna biskupi á búum hans, einnig prestum að dæma í veraldlegum málum; biskup lèt þrisvar lýsa til banns yfir Rafni, við það skipaðist hann ekki. Biskupinn lèt um sumarið lýsa bæði því og öðru í lögrèttu; Rafn og menn hans æptu á móti, hröktu biskup og klerka hans þaðan með hótunum og aðsúg, ef eigi lètu af uppteknum hætti og báru sakir á biskup; biskup klagaði á móti. Rafn sigldi þá með Þýzkum; biskup hèlt sèr það óþarft og brá til utanferðar, en lèt áður samankalla 24 presta til Hóla og þá bera um viðureign þeirra Rafns og biskups skriflega með klögun yfir Rafni, en bón til erkibiskups, konungs og hans ríkisráðs, að halda með biskupi. Gauti erkibiskup gaf þá út dóm sinn eptir þessum undirbúningi, að allir dómar Rafns lögmanns í Hvassafells málinu skyldu ónýtir vera, en allir dómar og gjörningar Ólafs biskups gildir; skipar Bjarna að fara utan til helgra staða o. s. fr., en Randíði að taka skriptir og lausn í

landinu, áminnir alla til hlýðni við Ólaf biskup o. s. fr. Rafni varð ekkert ágengt, því biskupavaldið var þá orðið svo mikið, að konungarnir máttu undan láta, kom inn aptur og hèlt lögsögn, framfór þetta 1480 — 1481. 1482 lèt Rafn dóm ganga að Þorkelshóli um umboð Orms Bjarnasonar, dæmdist umboðið Guðmundi presti Skúlasyni, er hústrú Margrèt hafði í setið. 1482 lèt hann dóm ganga að Þorkelshóli um lífgjöf Lopts Ormssonar til Gunnhildar Pètursdóttur, dæmdist Gunnhildi lífgjöfin; hann lèt og á Þorkelshóli dóm ganga um arf eptir Sophíu Loptsdóttur. 1486 (aðrir 1483 eða 1484) lèt Rafn af lögsögn til fullnustu, og var þá í banni, sættist og eigi við biskup, það frekast menn vita, en sat að búi sínu í Skriðu til þess að hann dó. Hvassafells-Bjarni fór eigi af landi, en komst undir skjól Páls á Möðruvöllum og vildi, að hann nyti fjár síns; því stóð Páll eptir mætti með Bjarna. Menn meina, að Bjarni hafi dáið nálægt 1491 í banni, en Randíður fór í Skálholt, og er hennar þar seinast getið 1497, er hún seldi jörð.

### Sigurður Daðason.

*Faðir:* Daði Arason Daðasonar Dalaskalla, sjá Dalasýslu.
*Móðir:* Þorbjörg dóttir Bessa sýslumanns Einarssonar. Í sumum ættartölum telst Sigurður launson Daða, og hefir Þorbjörg þá eigi verið móðir hans.
*Kona:* Valgerður[1] Narfadóttir frá Narfeyri Þorvaldssonar.
*Börn:* 1. Ólöf, hennar maður Haukur, þeirra son:
a. Jón, hans son
Haukur á Hálsi, er átti Þorbjörgu dóttur Þórðar á Kirkjufelli; þeirra börn:
α. Jón á Hálsi á Skógarströnd, hans dóttir Sigrún, er átti Björn Jónsson og mörg börn[2].
β. Bjarni átti Brynhildi Eyjólfsdóttur og börn.
γ. Vigfús átti og börn.

---

1) Valgerður var systir Helgu, konu Gríms Pálssonar á Möðruvöllum.

2) Björn bjó í Purkey.

2. Narfi, hans son:
Árni[1], et átti Karítasi dóttur síra Jóns í Gufudal Þorleifssonar Guðmundssonar: börn:
a. Halldór Indíafari[2].
b. Jón silfursmiður á Eyri[3].
c Þórður[4].
d. Inga[5].
3. Steinunn.
4. Hallbera.
5. Helga.
6. Daði, faðir Bjarna. föður Odds í Saurlátri, föður Guðrúnar þriðju konu Jóns Pèturssonar í Borkey.

Sigurður var auðmaður og bjó í Bjarnarhöfn; hann var umboðsmaður frúr Gunnhildar í Noregi, að innkalla morgungjöf þá, er Loptur Ormsson bóndi hennar hafði henni heitið, 20 merkur gulls; keypti þá Sigurður sjálfur þar upp í halfa Saurbæjarfjöru fyrir 20 hndr., og útvegaði fèð allt eptir dómi Rafns lögmanns Brandssonar 1480 frú Gunnhildi. Sigurður

---

1) Árni bjó á Narfeyri og kallast það Narfeyrarætt, ætt sú, er frá honum er.

2) Halldór var mikið og orðlagt hraustmenni, dó í barbaríinu, barnlaus.

3) Jón átti fyr Þuríði Finnsdóttur úr Flatey, þau barnlaus; seinni kona hans var Þórunn Pètursdóttir Magnússonar frá Vík á Svalbarðsströnd, þau áttu börn.

4) Þórður átti Valgerði. dóttur síra Ólafs Einarssonar á Helgafelli.

5) Inga eða Ingveldur átti Jón eldra, son síra Ólafs Einarssonar á Helgafelli.

Enn eru talin börn Árna Narfasonar:

e. Rósa, þriðja kona síra Lopts Skaptasonar.

f. Þóra giptist ekki.

g. Kristín átti Jörfa-Gvönd, son síra Þorvaldar á Ferjubakka. Guðmundur seldi síra Jóni Guðmundssyni í Hítardal Jörfa í Kolbeinstaðahreppi.

er talinn lögrèttumaður í dómi Rafns lögmanns á alþingi um ráðspjöll kvenna 1478 svo og í dómi Finnboga lögmanns um ættleiðingu Pèturs Loptssonar af móður sinni Steinunni Gunnarsdóttur. En 1481 nefnist Sigurður sýslumaður í Húnavatnsþingi og eins 1491, er þó Egill þar og svo sýslumaður jafnframt; sèst þar af, að 2 sýslumenn hafa þar jafnast verið. Eptir fróðra manna meiningu hefir Sigurður fyrst tekið hálfa sýsluna í umboði Rafns lögmanns frá Barði 1480, en sleppt henni 1494 (það ár meinar og Magnús Ketilsson að Sigurður hafi dáið). 1491 gefur Sigurður sýslumaður Agli sýslumanni Grímssyni umboð sitt að dæma í mannslags máli Jóns Sigmundssonar. 1497 er Sigurður fyrsti dómsmaður útnefndur af Einari Oddssyni um arf eptir Solveigu Björnsdóttur. Sigurður gaf með sèr í próventu til Helgafellsklausturs jörðina Bjarnarhöfn, þar um varð ágreiningur seinna. 1502, föstudaginn eptir þrettánda í Viðvík í Viðvíkursveit dæma bróðir Einar Benidiktsson ábóti á Munkaþverá, bróðir Nikulás príor á Möðruvöllum o. s. frv. um ákæru Gottskálks biskups Nikulássonar til Sigurðar bónda Daðasonar um Þverá hina syðri í Vesturhópi í Húnavatnsþingi, er Einar Björnsson hafði pantsett Ólafi biskupi, og dæmdu þeir þá Hólakirkju jörðina. Sigurður virðist að hafa lifað lengi eptir að hann sleppti sýslunni. Hann var á Leiðarhólmssamþykkt 1517, og það sýnist sem hann í aldurdómi sínum hafi gjörzt próventumaður á Helgafelli. 1507 vitnaði Sigurður ásamt með Snjólfi Rafnssyni, að Rafn lögmaður hefði úrskurðað ættleiðingu Stefáns Loptssonar löglega.

### Jón Sigmundsson[1].

*Faðir*: Sigmundur prestur Steindórsson.

*Móðir*: Solveig dóttir Þorleifs og Vatnsfjarðar-Kristínar.

*Kona* hin fyrri: Guðrún Gunnlaugsdóttir frá Marðarnúpi; áður hafði hún átt Guðna, son Eyjólfs riddara Arnfinnssonar og Snælaugar Guðnadóttur Oddssonar lög-

1) Sjá um Jón lögmann Sigmundsson lögmannatal Jóns Sigurðssonar og kirkjusögu Finns biskups.

manns Lepps, var þeirra dóttir Ólöf, er erfði föður sinn; hún dó í plágunni, og fèll svo auður hennar undir hennar hálfsystkyni, börn Jóns Sigmundssonar: enn fremur voru börn Jóns og Guðrúnar:

A. Einar, ráðdeildarlítill[1].

B. Annar son[2], er af vanvara brann til dauðs í grautarpotti 3 vetra, og erfði faðir hans hann, því Jóns fyrri kona var þá dáin. Jón og Guðrún giptust að vitni Guðbrands biskups 1483, aðrir segja 1482.

*Kona* seinni: Björg dóttir Þorvaldar á Móbergi Jónssonar, systir Jóns ábóta Þorvaldssonar. Þau giptust 1497.

---

1) Sumar ættartölur telja Einar son Jóns og Bjargar, en sumar sem hèr, son Jóns og Guðrúnar. Kona Einars hèt Guðrún Jónsdóttir, var hún systir síra Gilbrikts Jónssonar og gaf honum umboð sitt, var hann og dæmdur löglegur fjárhaldsmaður hennar á prestastefnu á Víðivöllum 1520, því Einar var þá búinn að vera 3 ár í banni. 1526 sættist Einar við Jón biskup Arason þann'g, að biskup gaf hann kvittan og ákærulausan af öllum þeim sökum, dómrofum og málefnum, sem hann hafði opinberlega brotlegur orðið við Hólakirkju og biskuplegt vald í Hólabiskupsdæmi; en hèr fyrir gaf og galt Einar biskupi jarðirnar Marðarnúp, Haukagil, Auðunnarstaði, Klömbur, Mýri og Þóreyjarnúp. Einar gaf þá og biskupi æfinlega próventu sína og Guðrúnar konu sinnar og þar til lagði hann til heilagrar Hólakirkju þær jarðir konu sinnar, er heita Vindhæli og Enni, og þar með alla þá peninga, er hann reiknaði Teit Þorleifsson hafa að sèr tekið, en sèr og konu sinni tilheyrðu. Þau hjónin skyldu hafa sæmilegt borðhald heima á Hólum, sem frjálsum mönnum vel heyrði, og þar til sína voð vaðmáls á hverju ári og 12 stikur klæðis og 10 stikur lèrepts og tvær skógærur; svo skyldi og Einar fá 60 hndr. þá er hann vildi heimta.

2) Gottskálk biskup ásakaði Jón lögmann Sigmundsson um það, að hann hefði fargað barni í Gljúfurá á Múlavatnsheiði og látið drekkja öðru tvævetru í soðkatli, er hann sjálfur hefði átt með Guðrúnu Gunnlaugsdóttur.

*Börn:* C. Guðrún Vatnshyrna átti Jón Hallvarðsson, bróður Kráks. Þeirra börn:

1. Jón á Auðunnarstöðum átti Ingibjörgu Loptsdóttur þeirra börn:
   a. Síra Arngrímur[1] lærði á Melstað, átti börn.
   b. Hildur, sem átti Ingjald Illugason.
   c. Guðrún átti fyrr Odd Andrèsson, svo síra Gissur Hallgrímsson.
   d. Jón Skagfirðingur átti börn.

D. Vilborg, kölluð Söngvaborga, giptist eigi, en átti barn með drengtetri, varð seinast úti.

---

1) Síra Arngrímur var tvígiptur, var fyrri kona hans Solveig, dóttir Gunnars Gíslasonar á Víðivöllum: þeirra börn:

α. Gunnar átti Ingibjörgu Jónsdóttur Magnússonar.

β. Jón í Sælingsdalstungu átti fyrst Ólöfu, dóttur Jóns lögmanns Sigurðssonar; þau skildu. Svo átti hann Gunnhildi Ólafsdóttur frá Miklabæ.

γ. Helga átti fyrst Björn Magnússon í Bæ á Rauðasandi, svo átti hún síra Þorbjörn Einarsson í Kvígindisdal.

Seinni kona síra Arngríms var Sigríður dóttir síra Bjarna Gamalíelssonar; þeirra börn:

δ. Síra Þorkell í Görðum á Álptanesi, hans kona Margrèt Þorsteinsdóttir prests frá Holti; þeirra son var:
Meistari Jón biskup Vídalín.

ε. Síra Þorlákur á Staðarbakka, hans kona Björg Jónsdóttir Teitssonar.

ζ. Síra Bjarni á Höskuldsstöðum átti Sesselju Þorvarðardóttur.

η. Guðbrandur átti Ragnheiði Jónsdóttur Egilssonar frá Geitisskarði.

θ. Hildur kona Jóns Þorkelssonar á Víðidalstungu; þeirra son var
Páll lögmaður Vídalín.

ι. Solveig átti Jón, son Jóns Árnasonar á Narfeyri.

κ. Ingibjörg kona Gísla eldra Jónssonar í Svefneyjum.

E. Helga átti fyrr Krák Hallvarðsson frá Auðunnarstöðum, þeirra börn:
1. Síra Jón í Görðum átti Jarðþrúði, dóttur Þórólfs (er kallaður var prestur) Eyjólfssonar, þeirra börn:
a. Síra Ólafur í Görðum[1],
b. Margrèt[2].
c. Sturla[3].
2. Síra Ólafur[4] á Breiðabólstað norður og í Görðum.
3. Björg átti síra Erlend Pálsson á Breiðabólstað[5], börn:
a. Síra Ólafur[6].
b. Þuríður[7].
c. Páll sýslumaður.
d. Margrèt[8].
(Þeir Jón og Krákur Hallvarðssynir drukknuðu í Víðidalsá við veiðiskap). Þar eptir varð Helga fylgikona síra Þorláks Hallgrímssonar, er fyrst var prestur að Stað í Hrútafirði; seinna rak Ólafur biskup Hjaltason síra Þorlák til að eiga hana; þeirra börn:
α. Þórður á Marðarnúpi, 1638, 85 ára.

---

1) Síra Ólafur dó barnlaus.
2) Margrèt átti Gísla lögmann Hákonarson.
3) Sturla var faðir síra Böðvars á Valþjófsstað.
4) Síra Ólafur Kráksson á Breiðabólstað í Vesturhópi.
5) Björg var fyrsta kona síra Erlendar.
6) Kona síra Ólafs var Sigríður Þorvarðardóttir Brandssonar Einarssonar. Síra Ólafur var prestur á Breiðabólstað eptir föður sinn.
7) Þuríður átti Teit Björnsson á Holtastöðum, þeirra son Jón faðir Bjargar, konu síra Þorláks Arngrímssonar, sjá hèr að framan.
8) Margrèt átti síra Illuga Ingjaldsson.

β. Guðbrandur biskup; frá þeim er fjöldi manna kominn.

Jón er fæddur 1460 í Víðidalstungu (ef það ártal er rètt, hafa þau Ormur og Solveig verið skilin áður, því Ormur afhenti Hítárdal 1463 síra Sigurði Beigalda). 1478 vitnuðu þeir Ólafur Koðránsson og Jón Snorrason, að Jón Sigmundsson hefði vegna föður síns sett Flatatungu 100 hndr. í pant Ólafi biskupi fyrir sektir þær, er Sigmundur átti að lúka Ólafi biskupi Rögnvaldssyni. Sama ár sunnudaginn fyrir Matteusmessu seldi húsfrú Solveig Þorleifsdóttir Jóni syni sínum Staðarhól, er hún hafði erft eptir son sinn Lopt Ormsson, en áskildi sèr fría ábúð á honum sína daga. Nokkru þar eptir dó Solveig. Lýsti þá síra Sigmundur Steindórsson, að Solveig hefði í banasótt sinni ákveðið, að Ólafur biskup skyldi hafa Flatatungu, yrði hún eigi leyst í tækan tíma og svo fór, að biskup hèlt Flatatungu. Sama ár 1479 útnefndi Þorleifur hirðstjóri 12 manna dóm á Staðarhóli um gjafir og skuldir Solveigar, dæmdust þær gjafir löglegar, er hún hafði gefið börnum sínum lifandi. Jóni og Bergljótu Sigmundar börnum og Lopti Ormssyni ektabörnum. Jón varð uppgangsmaður og auðugur og gjörðist sýslumaður í Vaðlaþingi, og þar var hann sýslumaður 1481, þá er Hvassafells-Bjarna jarðir voru dæmdar upptækar konungi og biskupi, því Jón skyldi annast þá peninga til umsjónar. Hvað lengi Jón þá hefir haft Vaðlaþing (líklega hálft), er óvíst, en um þær mundir eða 1482 (aðrir segja 1483) giptist hann fyrri konu sinni Guðrúnu, er dó 1495. Eptir að Jón sleppti Vaðlasýslu, var hann þar þó um hríð að fá inn biskupstíundir.

1494 var Jón orðinn sýslumaður í hálfri Húnavatnssýslu, því þá lætur hann dóm ganga að Þorkelshóli með 6 mönnum um arf eptir Guðnýju Þorvaldsdóttur, er Þórarinn Jensson og Þórólfur Gissurarson um deildu. Dómsbrèfið er ritað á Hofi í Vatnsdal laugardaginn næstan fyrir hvítasunnu. Jafnframt var þar þá sýslumaður Egill Grímsson og lèt síðar ganga dóm um fjárheimtu Þórðar. Sýnist þar af, að sýslunni hefir eigi verið skipt að plássi, þótt tveir væru sýslumenn; skömmu þar eptir sleppti Egill sýsluvöldum. 1488 seldi Jón með samþykki

Guðrúnar konu sinnar jörðina Skarðsdal með Leyningi í Siglufirði Jóni Þórðarsyni, umboðsmanni Ólafs biskups. Í Jóns fyrra brúðkaupi var veginn Ásgrímur bróðir hans; þeim Ásgrími Sigmundssyni og Ólafi Filippussyni bar þar til, og hjuggust á með vopnum í kirkjugarðinum í Víðidalstungu; en fylgdarmaður Ólafs, Smiður Andrèsson, lagði spjóti í gegnum kirkjugarðsvegginn til Ásgríms, svo að hann fèkk þar af bana; vildi þá Jón Sigmundsson hefna bróður síns, hljóp eptir Smið, sem þá hljóp í kirkjuna og rak aptur hurðina; kom þar í spjótslag Jóns Sigmundssonar, og missti hann Smiðs; varð þar um mál síðan.

Jón Sigmundsson hèlt Húnavatnsþing að helmingi um hríð og lèt dóm ganga að Sveinsstöðum í Vatnsdal 1505, þriðjudaginn næsta eptir Kalixtusmessu með 6 mönnum um, að þriðjungur með öllum peningum úr jörðunum Ásgeirsám og Lækjamóti, ásamt 4 jörðum á Ströndum, væri og verið hafi fullkomin eign Finnboga Jónssonar, eptir útlúkningu og meðkenningu Narfa bónda Sigurðssonar og Sigurðar sonar hans, í arf og fjárskakka þeirra við Teit bónda Þorleifsson, nema Teitur sýndi annan gjörning gjörðan. Dæmdust Finnboga fèn að tiltölu[1].

1505 stefndi Gottskálk biskup Jóni, og gaf honum að sök, 1. að hann hefði tekið 6 kúgildi frá kvíum; 2. að hann hefði eigi borgað 3 kúgildi, er faðir hans hafði verið biskupi umskyldugur; 3. eigi goldið biskupi gistingarlaun af 3 kirkjum, hverra umboðsmaður hann var, með fleiru; 4. að hann í 3 ár hefði eigi goldið biskupstíundir; 5. að hann hefði innihaldið fátækratíund og Pèturspeningum og gripið tíundir biskups; 6. lofað Jóni Þorvaldssyni að vera eigi móti Hólakirkju; 7. frambáru 2 menn með eiði, að Jón Sigmundsson hefði undirskrifað falsbrèf o. s. frv.; 8. að hann hefði vísvitandi bundið hjúskap við Björgu í fjórmenningsmeinum. Ekki mætti Jón eptir stefnunni eða gaf biskupi færi á sèr; lèt biskup þá dæma af Jóni offjár, og lýsti því á alþingi og forboði yfir Jóni 1506. 1507 á alþingi bar Jón af sèr allar sakir, fór eigi til Hóla nè tók

1) Sjá hèr um að framan, bls. 35 og víðar.

aflausn biskups, því að hann óttaðist pintingar hans. Af téðu forsvari Jóns reiddist biskup og bannsöng Jón 1507.

Um veturinn 1507 stefndi biskup Björgu konu Jóns fyrir dóm sinn til Hóla, að taka skriptir og lausn fyrir það, að hún vísvitandi hefði bundið hjúskap við Jón Sigmundsson í fjórmenningsmeinum, og dæmdi af henni stórfé.

Jón var mjög auðigur, en eptir dómi biskups og þegar hann var bannsunginn var allt fé hans fallið undir biskup og Hólakirkju. 1508 stefndi biskup Jóni enn nú fyrir það, að hann hefði undir sig dregið fé Urða og Víðidalstungu kirkna og gripið þeirra eign fasta og lausa; þess vegna hótaði hann honum á ný banni, og dæmdi af honum 45 merkur með fleiru: einnig Másstaði og Hvamm; hann skuldaði og Jón um þjófnað frá Svalbarðskirkju, dæmdi hann þar fyrir í tvöfaldar bætur til Svalbarðskirkju og 60 merkur Hólakirkju, og loks fyrir skriftarof, sáttrof og dómsrof mikið fé. Tók biskup þá Urðir og allt fé Jóns fast og laust, er hann náði. Til að geta betur yfirbugað Jón, fékk biskup í fylgi með sér stórbændur í Húnavatnsþingi, Einar sýslumann Oddsson og Pétur Loptsson, er biskup setti þá á Víðidalstungu, höfuðból Jóns; lét biskup þá taka allt fé Jóns, hvar sem það náðist, en Jón flúði þá af landi burt, að menn meina (Guðbrandur biskup segir, að Teitur Þorleifsson í Glaumbæ hafi tekið flestöll skjöl Jóns, þaðan hafi þau komist til Daða sýslumanns í Snóksdal og nokkur þeirra frá niðjum hans til sín). Klagaði hann þá fyrir erkibiskupi aðgjörðir Gottskálks biskups, einnig kærði hann fyrir Kristjáni konungssyni ofríki Gottskálks biskups, og að hann hefði bannsungið sig. Jón fékk erkibiskupsbréf, að Stefán biskup skyldi með beztu mönnum rannsaka málið (sjá Árb. 3. þ., bls. 27), og hjá Kristjáni konungssyni, er þá var í konungsstað í Noregi, og Jón þá hitti þar. Hjá honum fékk Jón skipun til Björns sýslumanns Guðnasonar, að hann skyldi í lögmannsstað prófa dóm Gottskálks biskups um nokkrar jarðir, er Jón ákærði; einnig gaf hann Jóni lögmannsembætti, því Finnbogi lögmaður hafði þá verið mjög aftluttur fyrir konungi. Ágreiningur er samt um það, hvenær Jón varð lögmaður, og skrifa sitt hverjir um það. Að vísu sýnist af bréfi Gauta erki-

biskups, er dagsett er 16. marz 1509, sem Jón þá hafi verið í Noregi, en Jón virðist samt að hafa komið aptur út 1508 síðla sumars, því hann hefir í umboði hirðstjórans Vigfúsar Erlendssonar útgefið sýslubrèf Björns Guðnasonar 14. febr. 1509, og nefnir sig þá lögmann norðan og vestan, nema þeir Vigfús hafi þá báðir verið utanlands, eða ártal sýslubrèfsins eigi að vera 1510. 1509 tók Stefán biskup fyrir mál Jóns og dæmdist hið sama, sem Gottskálk biskup hafði áður dæmt; halda menn þó, að dómsmenn hans hafi dæmt eptir gögnum þeim og vitnum, er þeir þá gátu fengið. Á alþingi dæmdi Björn Guðnason jarðirnar Jóni Sigmundssyni til handa; var þá Gottskálk biskup riðinn af þingi, en er hann frètti þetta, lèt hann klerka sína dæma ónýtan dóm Björns sýslumanns, þar eð biskupi og klerkum hans tilheyrði einum að dæma í þesshattar málum, og skeytti ekkert boði Kristjáns annars. Þá er Jón sá, að þetta tjáði ekki, gjörði hann sátt við Gottskálk biskup með því, að hann lúkti honum um tvö hundruð hundraða af jarðagózi sínu og lausafè; afleysti Gottskálk biskup þá Jón í Þingeyrakirkju 8. september 1510. Litlu rèði Jón Sigmundsson í lögrèttu 1509, og eigi gat hann látið dóma ganga það ár; líkast er og til, að hann hafi misst sýsluna 1507, en 1510 tekur Jón fyrst til lögmannsembættis á alþingi, og lætur 12 menn dæma órjúfanlegan kaupmála Sveins Sumarliðasonar og Guðríðar Finnbogadóttur; þann dóm staðfesti Hans Rantzow hirðstjóri sama ár á Þverá í Laxárdal, mánudaginn næstan eptir höfuðdag. 1510 dæmdi og Jón lögmaður með 12 manna dómi brèf Björns sýslumanns Guðnasonar gild, um arftöku Guðna eptir Jón Dan. Aptur ásakaði Gottskálk biskup Jón Sigmundsson fyrir illa meðferð á Ólafi (Beggu-Láfa), er þá var klerkur og stefndi biskup Jóni til Hóla þar fyrir, en Jón mætti ekki, var sektaður og þar næst bannsettur í annað sinn, og meina eg að þetta hafi verið 1512, sama ár og Ólafur hirðstjóri Diðriksson úrskurðaði Jón friðhelgan. Jón Sigmundsson hèlzt eigi við í Norðurlandi fyrir ofríki Gottskálks biskups og flúði á Vestfjörðu undir skjól Björns sýslumanns Guðnasonar og styrkti Björn með dómum sínum, en Björn hann aptur með valdi sínu. 1512, fimmtudaginn fyrir festum Lambertii episcopi að Marð-

arnúpi í Vatnsdal lèt Jón Sigmundsson 12 manna dóm ganga um ákæru Björns Guðnasonar til Jóns Jónssonar, 1. að hann tók Jón Þórðarson á framfæri, en móðirin misfórst; 2. að Jón hefði eigi skatt goldið í 9 ár; 3. heimreið Jóns til Eyrar í Seyðisfirði um vorið, rán hans og ýfingar; 4. að hann hefði þangað sent og látið reka pening Björns á fjall upp. Var Jón Jónsson dæmdur rèttækur og útlægur og hálft fè hans konungi. (Þessi Jón Jónsson mun hafa verið sonur Jóns Þorlákssonar og Solveigar dóttur Björns ríka, hann var seinna í Sauðlauksdal, en seinast hèlt hann hálfa Strandasýslu, sjá þar um hann). Sama ár staðfesti Jón lögmaður þann 6 manna dóm, sem Guðmundur Loptsson birti honum á Marðarnúpi um landeign með Bólstað í Steingrímsfirði. 1513 útnefndi Jón 12 manna dóm að Leiðarhólmi (Árb. 3. h., bls. 34). Það ár lèt hann og dóm ganga um Auðkúlu.

1514 á þriggja hreppa þingi í Vatnsfirði voru útnefndir dómsmenn af Jóni lögmanni, og dæmdu þeir Jóni Murta Einarssyni hálfa jörðina Nes í Grunnavík (Árbók 3. þ. bls. 38). Sama ár á þriggja hreppa þingi í Vatnsfirði, mánudaginn næsta eptir Ólafsmessu lèt Jón ganga 12 manna dóm um þá, er rofið hafa brèf konungs, um góz og óðul Björns sýslumanns Guðnasonar, er honum bar að erfð eptir föður sinn, móður og móðurbróður Jón Dan, ítem Eyri í Seyðisfirði, er Björn hafði keypt af Ormi Jónssyni, föðurbróður sínum, ítem Vatnsfjörð með hörðum atkvæðum og fleira.

Sama ár 1514, mánudaginn eptir allraheilagramessu, lèt Jón á þriggja hreppa þingi á Hvammi ganga dóm um arf eptir Solveigu, Einar og Þorleif, Björns börn, (sjá Árb. 3. þ. bls. 36—37), og var hann staðfestur af Hannesi hirðstjóra. «Konungs umboðsmaður upp á Ísland, Hannes Eggersson staðfestir «þenna lögmanns dóm í öllum greinum. Ökrum í Hraunhreppi «miðvikudag eptir Mart. messu 1514».

«Kong Chirtèrn samtycher, fuldbyrder og staðfester thenne «laghorskurd sine elskelige laugmands Jón Sigmundsson vidt «fuld makt at blive uti alle sine poster, sine puncte og artículer, «Kjöbenhavn Torsdagen næst eftir Ste Schol. Vg. 1518».

Þessum dómum og öðrum þvílíkum skeytti ekki Stefán

biskup nè Björn Þorleifsson; lèt Stefán biskup marga dóma ganga um Björn Guðnason (sjá fremur um þau mál við Dalasýslu). Jón lögmaður tjáist um þessar mundir að hafa haldið Barðastrandarsýslu.

Af málaþrætum Björns Guðnasonar bannsetti Stefán biskup Jón lögmann og stefndi honum til Skálholts; sá Jón þá eigi annan sinn kost til að verjast fangelsi og prísund, en að láta biskup ráða, og vann honum eið um bót og betrun, og apturkalla og ónýta alla sína dóma, er hann hafði dæmt í vil Birni Guðnasyni, en efla og styrkja í öllum hlutum kirkjuna og biskupinn; leysti biskup hann síðan af banni í margra manna viðurvist fyrir allt það, er hann hafði til banns gjört í Skálholtsbiskupsdæmi og lýsti því síðan opinberlega. (H. Ecc. T. ii bls. 518). Árni Gíslason bar seinna fram fyrir konung þessa meðkenningu, er kúguð hefði verið af Jóni lögmanni, og því vann Árni málið móti Eggert lögmanni.

Þá er Jón slapp frá biskupi, fór hann vestur og bar þröngun þessa undir aðra höfðingja landsins, þar af orsakaðist Leiðarhólmssamþykkt 1517, þó hún kæmi fyrir ekkert. Biskup Guðbrandur segir, að Jón hafi utanfarið 1516, klagað fyrir Kristjáni konungi öðrum um sèr gjörðan órètt og Einari syni sínum, hafi þá konungur gefið þeim báðum verndarbrèf og skipað höfuðsmanni Tyla, að sjá svo til, að þeir gætu fengið aptur jarðir sínar; þeir komu út 1517, fóru til alþingis; hafi Tyli þá tekið mútu af Gottskálk biskupi, svo hann liðsinnti ekki Jóni; var nærfellt, að Jón yrði þá veginn, hefði Vigfús lögmaður eigi hjálpað honum úr þeirri hættu. Flestöll ártöl í málum Jóns og biskupa eru eigi fullviss, þannig segja aðrir, að Jón hafi siglt 1517 og í þeirri ferð útvegað samþykkt konungs upp á fyrnefnan Hvammsdóm sinn. Það ár 1517 klagaði Gottskálk biskup Jón harðlega, að hann hefði eigi haldið eið sinn, þá er hann var leystur nè gjört iðrun, þó að hann opt hefði verið kallaður til Hóla til að taka aflausn o. s frv., og eptir að hann í annað sinn hefði verið bannfærður af Gottskálk biskupi, hefði hann nærfellt í 6 ár haft samneyti með öðrum mönnum iðrunarlaust, forsmáð og einskis aktað flesta helgidóma, og margt fann hann annað honum til saka.

1518 kom Jón út aptur, en með því Björn sýslumaður Guðnason dó sama ár, og Stefán biskup hafði fengið á Jóni óvild á ný vegna útsiglingar hans og klögunar, og af því að hann hafði fengið staðfesting konungs upp á Hvammsdóm sinn, hèlzt hann eigi við fyrir vestan og flutti 1579 norður að Krossanesi á Vatnsnesi; en þá klagaði Gottskálk Hólabiskup til Jóns[1] lögmanns Sigmundssonar eða umboðsmanna hans um kirkjufè á Reykjum í Tungusveit og tók undir sig jörðina (sjá Árb. 3. þ., bls. 58). Áður hafði biskup fellt Einar son Jóns í stór fjárútlát, og tekið af honum jarðirnar Marðarnúp, Haukagil, Auðunnarstaði, Klömbur, Mýri, Þóreyjarnúp, fyrir það að hann hafði gefið föður sínum, er þá var í banni, umboð sitt. Jón var nú orðinn vinum horfinn og snauður að fè. Um haustið 1520 tók Jón sótt þá, er leiddi hann til bana, var í ummælum, að hann hefði stefnt Gottskálki biskupi fyrir guðs dóm og áminnt börn sín til guðlegs athæfis, en falið sig á hendur guði og Kristi. Hafði Jón verið vel að sèr um flesta atgjörfi, en átt mjög andstreymt. Mælt er, að Gottskálk biskup hafi verið að veizlu á Hrafnagili, þá er hann frètti lát Jóns, og hafi hann þá sagt, að nú mundi ráð að búa sig til brottferðar, og riðið í skyndi heim að Hólum; tók hann þar þá skyndilega sótt, bað Guðmund hinn góða og Ste Jóhannes að duga sèr. Biskup andaðist á Marteinsmessu.

Jón biskup Arason hræddi Einar[2] son Jóns Sigmundssonar til að gefa sèr í prófentu 3 höfuðból og fjórar jarðir aðrar, en sá gjörningur var ónýttur 1569, náði og Guðbrandur biskup seinna af eigum Jóns nálægt þrem hundruðum hundraða í jörðum, því Gottskálk biskup hafði gjört allt fè Jóns upptækt.

Jón sleppti eigi lögmannsdæminu, þó eigi kæmi hann lög-

---

1) Þetta er án efa rangt, að Gottskálk biskup hafi dæmt Reyki í Tungusveit af Jóni lögmanni Sigmundssyni, heldur dæmdi hann þá af Jóni Sæmundssyni, sem án efa var son Sæunnar, dóttur Daða og Þorbjargar Bessadóttur og Sæunnar dóttur Odds Lepps, sjá hèr að framan.

2) Sjá það, sem hèr um er fyr sagt.

sögn við (sjá brèf Kristjáns konungs annars 1519, Hr. For. 1. D., bls. 171, og Hist. Eccl. T. II., bls. 258, Hist. Eccl. T. IV. bls. 322).

**Einar Oddsson.**

*Faðir:* Oddur[1] bóndi Pètursson, aðrir segja föður hans Finnboga gamla í Ási (sjá Þingeyjarþing). Oddur var lögrèttumaður og meinast að hafa haft um hríð sýslu í Húnavatnsþingi fyrir 1480. Á alþingi 1470 var hann vottur að sætt Þorleifs hirðstjóra Björnssonar og Lopts Ormssonar um fè Solveigar Guðmundsdóttur[2].

*Kona* hin fyrri: Ása dóttir Egils sýslumanns Grímssonar; hefir hún verið hjá Solveigu Þorleifsdóttur[3]; þau giptust á Staðarhóli í Saurbæ sunnudaginn næsta fyrir Kalixtusmessu 1480; voru kaupvottar bróðir Jón Gamlason, ábóti á Þingeyrum, Þorsteinn Guðmundsson, Sveinn Helgason, Sveinbjörn Pálsson og Gunnsteinn Arngrímsson, prestar; Guðni Jónsson, Oddur Pètursson, Vernharður Einarsson, Björn Jónsson, Þorsteinn Bjarnason og Sigmundur Halldórsson, leikmenn. Hafði Einar til kaups við Ásu konu sína tvö hundr. hundraða, er faðir hans Oddur Pètursson hafði gefið honum, þar til nefndar jarðir, jörðin Bár í Eyrarsveit, með þeim jarðapörtum, er þar fylgja, 60 hndr.; ítem jörðin Gröf í Eyrarsveit 16 hndr.[4], Laugar í Hvammssveit 16 hndr., Goddastaðir í Laxárdal 24 hndr., ítem part í jörðunum Brandagili og Geithóli í Hrútafirði 16 hndr., og þar

---

1) Oddur, faðir Einars sýslumanns, var Pètursson en engan veginn sonur Finnboga gamla. Oddur bjó á Hvoli í Saurbæ vestra, sjá hèr að framan.

2) Sem sè dóttur Guðmundar ríka Arasonar á Reykhólum.

3) Sem sè á Staðarhóli, því Solveig var þá þar.

4) Í eptirmála af kaupmálabrèfi þessu, sem eg á, stendur: Gröf í Grundarfirði IX hndr., en á víst að vera XX hndr., því við það koma út II hndr. hundraða.

með jörðin Þóroddstaðir 24 hndr., og hèr til 60 kúgildi og 20 hndr. í þarflegum peningum. Hèr á móti hafði Ása Egilsdóttir við bónda sinn Einar Oddsson tvö hndr. hundraða, voru tilgreindar jarðir: Ey á Skagaströnd 60 hndr., í Hofi í Vatnsdal 100 hndr[1], Brúsastaðir 40 hndr, Saurbær 20 hndr. og þar til 80 hndr. í lausafè.

*Börn:* 1. Jón sýslumaður, sjá hèr síðar.

2. Einar Einarsson, sem gjörði þær ódáðir, að slá föður sinn í sænginni, og hrækja í andlit hans, er faðirinn mjög klagaði yfir.[2]

*Kona* seinni: Ólöf Pètursdóttir[3].

Til vitnis um, að Einar átti þessa konu er það, að í dómi Orms lögmanns Sturlusonar, gengnum fimmtudaginn næsta fyrir visit. Mariæ 1569, segir, að Hákon

---

1) Þar stendur og: 2 hluti í jörðinni Hofi, er liggur í Vatnsdal, fyrir XL hndr., sem hlýtur að vera rètt, því við það fram koma II hndr. hundraða. Úr peningum þeim, er Einar hafði til kaups við Ásu, gaf hann henni 80 hndr. í tilgjöf, að fráskildum jörðum í Hrútafirði.

2) Það er án efa óvíst, að sá Einar Oddsson, er barinn var af Einari syni sínum, hafi verið þessi Einar Oddsson; mig minnir eigi betur, en eg hafi sèð, þótt eg eigi finni það nú, að þessir feðgar ættu heima sunnanlands.

3) Jafnvel þótt hèr sè sagt, að Einar Oddsson hafi verið tvígiptur og seinna átt Ólöfu Pètursdóttur, þá er þetta víst ekki rètt, því það getur eigi staðizt tímans vegna, að Einar, er átti Ólöfu þessa, hafi verið sami maðurinn, sem Einar Oddsson sá, er átti Ásu. Jón biskup Arason hafði fengið hjá Jóni nokkrum Halldórssyni 40 hndr. í Eyvindarstöðum, og fengið honum í staðinn jörðina Ytra-Vallholt. Nú hefir Einar Oddsson, maður Ólafar, álitið, að Jón biskup, eða Hólakirkja, eigi hafi verið rèttir eigendur Vallholtsins, er Jón biskup fargaði því, og að konu sinni bæri rèttur til þess hálfs (hún hefir sjálfsagt átt systir, er Einar hefir álitið að bæri rèttur til hinnar hálflendunnar, þeim hefði báðum átt að skiptast það eptir hinn rètta eiganda þess), og þess vegna klagað eptir því vegna konu

31*

Jónsson skuli eiga 24 hndr. í Eyvindarstöðum fyrir hálft Ytra-Vallholt í Skagafirði, sem Einar bóndi Oddsson hafi innkallað, vegna konu sinnar Ólafar Pètursdóttur. Það virðist svo, sem Ólöf þessi hafi eptir dauða Einars gipzt Jóni nokkrum og átt með honum þennan Hákon.

1482, mánudaginn næstan fyrir allraheilagramessu, kaupir Einar Oddsson 20 hndr. í jörðunni Hofi í Vatnsdal af Steindóri Sölfasyni; vottar Gunnlaugur Þorkelsson og Ljótur Þorleifsson.

1491 gaf konungs umboðsmaður Sigurður Daðason Agli Grímssyni umboð.

1495 mun Einar hafa orðið sýslumaður í Húnavatnsþingi hálfu móts við Jón Sigmundsson

1496 dæmir hann á Svínavatni (Árb. 2. þ. bls. 129).

1497 lèt Einar Oddsson dóm ganga um sakargipt Ólafs Filippussonar til Guðna Jónssonar fyrir töku og hald á erfðafè.

1497 lætur hann og dóm ganga í Bólstaðarhlíð (Árb. 2. þ. bls. 130).

1502 lætur hann og dóm ganga að Vindhæli (Árb. 3. þ, bls. 16).

---

sinnar og fengið það henni dæmt, en þetta hefir eigi verið fyrri en eptir siðaskiptin nyrðra, eða eptir 1550, því þá fyrst tóku menn til að reyna til að ná aptur jörðum þeim, er þeir álitu að biskuparnir ranglega hefðu haft af sèr eða sínum. Það er nú auðsætt, að Einar Oddsson, maður Ásu, er hann giptist 1480, muni hafa verið dáinn 1550. Auk þessa hefir Einar, maður Ólafar, verið nýbúinn að ná hálflendunni í Vallholtinu, þegar Hákon Jónsson, sem hefir verið sonur fyrnefns Jóns Halldórssonar, 1569 gjörði fyrirspurnina um, hvaðan hann ætti að leita andvirðisins fyrir hálft Vallholt. Dómurinn dæmdi, að hann hefði aðgang aptur að 20 hndr. í Eyvindarstöðum; en þetta tilkall hans til 20 hndr. í Eyvindarstöðum keypti Guðbrandur biskup að honum fyrir 16 hndr. í lausafè, sem borgast áttu þannig: að biskup fèkk honum 4 kúgildi, og hèt honum að búa afgjaldslaust í 4 ár á ábýlisjörðu sinni eða þá annari dómkirkjunnar jörðu jafngóðri.

Eg man ekki til, að eg hafi fundið Einars, manns Ásu, getið seinna en 1520.

1503, þá er Jón Sigmundsson lèt dóm ganga um jarðirnar Ásgeirsár og Lækjarmót o. fl. á Sveinsstöðum í Vatnsdal, er að ráða af 12 manna dómi Finnboga lögmanns á alþingi 1504, að Einar Oddsson hafi eptir undirlagi Teits Þorleifssonar látið í Bólstaðarhlíð og svo dóm ganga 1503 móti dómi Jóns Sigmundssonar, en Finnbogi dæmdi dóm Einars og vitnaleiðslu Teits allar ónýtar 1505 (aðrir 1504). Þriðjudaginn næstan fyrir krossmessu lèt Einar 12 manna dóm ganga milli Ásgríms Þorbjarnarsonar og Guðmundar Indriðasonar, um það að Ásgrímur hèlt þá enn arfi Ingibjargar, er Guðmundur átti, og var Ásgrímur skyldaður að gjalda Guðmundi arfinn. Sigurður Daðason var fyrstur dómsmanna; Finnbogi lögmaður samþykkti dóm þenna á Sveinsstöðum um haustið 1506, þriðjudaginn fyrir Lúcíumessu, og 1507 var sami dómur staðfestur á alþingi; árið eptir eða 1508 var Ásgrímur dæmdur útlægur[1], fyrir dómarof og þrjózku og til að lúka skuld sína. 1508 nefnir Einar Oddsson 12 menn í dóm á Svínavatni mánudaginn næstan fyrir Blasíusmessu um dómsrof Ásgríms. Sama ár tekur Björn sýslumaður Guðnason vitni um viðtal sitt og Einars Oddssonar á Öxarárþingi, að Einar hefði fengið sèr til fullrar eignar jarðir og kúgildi, sem Einar hefði boðið sèr vegna Ólafs Filippussonar fyrir Bólastaðarhlíð, hverju Einar síðan neitaði.

1510 tók Einar Oddsson, konungs umboðsmaður í Húnaþingi, eið af Illuga Guðmundssyni, að hann eigi hafði leyft Jóni Sigmundssyni að láta gjöra signet sitt.

1511, þá er Ólafur Filippusson vegna Einars sonar síns seldi Gottskálki biskupi grimma Auðkúlu fyrir Grund og Holt í Svínadal, er Einar einn af kaupvottunum.

1490 finn eg fyrst dóm Einars Oddssonar um, að Bjarni nokkur hefði fargað af hlutafiski sínum, og dæmir honum lýrittareið þar fyrir; en hann hefir þá, ef til vill, verið umboðsmaður Egils sýslumanns.

Í dómi þeim, er Finnbogi lögmaður útnefndi á alþingi 1501 um, að Solveig Guðmundsdóttir (er þeir Björns synir Þorleifur og Einar höfðu kallað getna í útlegð og því eigi arfgenga) skyldi taka allan arf eptir móður sína, Helgu Þorleifs-

1) Úr lögmannsdæmi Finnboga.

dóttur, 6 hndr. hundraða; var Einar Oddsson einn dómsmanna.

Af framanrituðum dómum sèst, að Einar hefir orðið sýslumaður í hálfu Húnavatnsþingi 1495, ef eigi fyr, fyrst móts við Jón lögmann Sigmundsson og síðan líklega móts við Ara Guðnason, því það samsvarar bezt þeim tíma, er Ari gat haldið það hálft. Hvenær Einar hefir látið af sýsluvöldum eða dáið, eða hvenær hann var fæddur, veit eg ekki, því það eina, er menn geta haft sèr til leiðbeiningar um hann, eru dómar hans, en þótt mèr eigi sèu dómar hans kunnir eptir 1509, þá þá held eg þó, að hann hafi lengur haldið sýsluna, að vísu hálfa, en óvíst er, að hann hafi tekið part Jóns lögmanns Sigmundssonar, er Jón sleppti honum; þar til er eins líklegur Ari Guðnason, eða Pètur Loptsson, sem Guðbrandur biskup tjáir að settur hafi verið til að heyja fèránsdóm eptir Jón Sigmundsson.

### Ari Guðnason.

*Faðir:* Guðni sýslumaður Jónsson á Kirkjubóli.

*Móðir:* Þóra, laundóttir Björns ríka Þorleifssonar; þó halda aðrir, að Ari hafi verið launson Guðna, og ef svo hefir verið, vita menn eigi neitt um móður hans.

*Kona:* Hver hún hafi verið, veit eg ekki.

*Sonur:* Þormóður sýslumaður, sjá hèr síðar.

Þótt eg enga fullvissu hafi um, hvenær Ari var sýslumaður í Húnavatnsþingi, set eg hann hèr af þeim rökum: 1. Jón Sigmundsson og Guðni voru góðir vinir, og er eigi ólíklegt, að hann hafi tekið Ara fyrir umboðsmann sinn í hálfri sýslunni fyrst þá er Jón komst í málin við Gottskálk biskup, hafi Ari síðan fengið sýslupartinn, þegar Jón flýði vestur til Björns. 2. finn eg engan sýslumann nefndan í Húnavatnssýslu frá 1508, og til þess að Jón Einarsson viðtók; hygg eg því, að Ari hafi verið fyrir þeim sýsluparti, sem Jón Sigmundsson áður hafði, þótt sýslan væri ekki sundurskipt frá 1506 til 1513, en Einar haldið sínum parti eða eptirlátið hann Jóni syni sínum. Um Ara veit eg ekkert markvert að ritfæra.

### Jón Einarsson.

*Faðir:* Einar sýslumaður Oddsson, sjá hèr að framan

*Móðir:* Ása Egilsdóttir sýslumanns, sjá hèr að framan.

*Kona:* Kristín dóttir Gottskálks biskups grimma; hún var þá ekkja eptir Þorvarð lögmann Erlendsson, er dó utanlands 1513; hafði hún gipzt honum á Hólum 1508, en Jón og Kristín giptust á Hólum 1516, fimmtudaginn næstan fyrir purific. Mariæ virg. Taldi Jón sèr til kaups við Kristínu 7 hndr. hundraða í jörðum og lausafè, en biskup taldi dóttur sinni 3 hndr, hundraða í jörðum, þar á meðal Hól og Bessastaði (er hann hafði kúgað af Björgu, konu Jóns Sigmundssonar) og 2 hndr. hundraða í lausafè; skyldi hún vera málakona í garð Jóns og eignast fjórðungsgjöf úr öllum hans peningum. Kristín dó háöldruð 1579.

*Börn:* A. Ólafur átti Steinunni Jónsdóttur frá Svalbarði, eptir dauða síra Björns, þeirra börn:

a Guðrún átti Hannes í Snóksdal (sjá Snæfellsnessýslu.

Ólafur erfði Hól og Bessastaði eptir móður sína og svo Guðrún eptir föður sinn, en þá er Guðbrandur biskup tók að hefja jarðatilkall eptir móðurforeldri sín, seldi Hannes Hól og Bessastaði fyrir lítið verð þeim Markúsi og Jóni Ólafssonum, er hèldu þeim fast móti biskupi.

B. Egill á Geitaskarði[1] átti Guðrúnu dóttur Þorleifs lögmanns á Skarði. Egill dó 1560, þeirra börn:

a. Jón á Reykjum í Tungusveit[2], sjá um hann síðar, átti Guðnýu Einarsdóttur frá Bólstaðarhlíð. Þeirra börn:

1. Þorvaldur á Reykjum átti Þórdísi Magnúsdóttur Björnssonar prests á Melstað, þeirra dóttir Steinunn, sem átti Eggert Jónsson á Ökrum, sjá Hegranessþing.
2. Egill átti Rannveigu Markúsdóttur, þeirra son Jón lögrèttumaður, sjá hèr síðar.

---

1) Hann var kallaður Egill hinn fyrri á Geitaskarði.
2) Jón bjó á Geitaskarði fyrst, svo á Reykjum.

3. Guðrún átti fyr síra Ólaf Halldórsson á Stað í Steingrímsfirði, þeirra börn:
   α. Þorleifur.
   β. Guðrún.
   γ. Sezelja.
   Seinni maður Guðrúnar síra Ólafur Ólafsson í Grímstungum.
4. Jón Jónsson á Þverá átti Steinunni Árnadóttur Björnssonar Jónssonar biskups Arasonar, sjá fleiri börn Egils hèr síðar.

C. Síra Gottskálk í Glaumbæ átti Herdísi[1], börn:
   a. Síra Jón í Glaumbæ[2] átti Guðnýu Tómasdóttur[3]; börn:
      1. Ragnheiður[4].
      2. Tómas[5].
      3. Oddur[6].
      4. Magnús[7].
      5. Síra Gottskálk[8].

---

1) Herdís var Sæmundsdóttir, og föðursystir síra Sæmundar Kárssonar í Glaumbæ.

2) Síra Jón Gottskálksson var prestur í Hvammi í Laxárdal, flutti síðan að Krossnesi í Eyrarsveit og dó þar.

3) Guðný var dóttir Tuma Þorgrímssonar á Skíðastöðum.

4) Ragnheiður var seinni kona Runólfs Sigurðssonar á Brennistöðum.

5) Tómas eða Tumi á Ey á Skagaströnd átti Ingunni dóttur Jóns silfursmiðs Jónssonar á Draflastöðum

6) Oddur átti Arnfríði dóttur Jóns á Draflastöðum og Solveigar Pètursdóttur.

7) Magnús, barnlaus.

8) Þetta á víst að vera síra Gottskálk Jónsson á Fagranesi, en sá síra Gottskálk var víst ekki son þessa síra Jóns. En móðir hans hèt Anna Jónsdóttir (nornaleg formælinga-kerling) bróðir hennar var Jón gamli á Dúki.

Enn fremur var dóttir síra Jóns í Hvammi Gottskálkssonar frá Glaumbæ:

5. Kristín kona síra Jóns Magnússonar á Ljósavatni.

b. Helga átti Odd Tómasson[1]; þeirra börn:
1. Síra Gottskálk[2].
2. Sigríður[3].
3. Magnús[4].
4. Helga[5].
5. Kristín[6].

c. Guðrún átti Gottskálk Magnússon á Reykjum, sjá Hegranessþing. Þeirra börn:
1. Ingibjörg[7].
2. Guðrún.
3. Helga.
4. Sigríður.
5. Kristín.
6. Sigríður önnur.
7. Þuríður[8].

d. Ingibjörg átti Björn Tómasson[9], þeirra son:

---

1) Faðir Odds var Tumi Þorgrímsson á Skíðastöðum.

2) Síra Gottskálk Oddsson í Miðdal átti fyrst Jóhönnu barnsmóður Einars Þormóðssonar í Bræðratungu, síðan átti hann barn í hórdómi, og missti prestinn; gaf svo prófentu Benidikt Þorleifssyni, en giptist úr prófentunni dóttur Jóns Ormssonar á Eyrarbakka, Jónssonar á Skúmstöðum.

3) Á að vera Sigurður; hann bjó í Svartárdal og átti Engilráð dóttur Jóns Grímssonar á Brenniborg og Guðrúnar Stígsdóttur Björnssonar, (sjá að framan).

4) Magnús giptist ekki.

5) Herdís, er víst rèttara, hennar maður Steindór Arason, bróðir Guðmundar Arasonar í Flatatungu.

6) Kristín átti Arnfinn son Jóns Arnfinnssonar í Bjarnastaðarhlíð (sjá Eyjafjarðarsýslu).

7) Það er víst rèttara, að maður hennar Ólafur Halldórsson Sigurðssonar hafi verið frá Steinsstöðum, en Steinum.

8) Þuríður var fyrst skírð Gottskálk, en síðan prumsignd Þuríður.

9) Björn bjó á Álfgeirsvöllum og var son Tuma Þorgrímssonar á Skíðastöðum.

Sigurður[1].

D. Kristín Jónsdóttir átti Árna á Kimbastöðum Þorbjörnsson Árnasonar Gulls, er hafði siglt til Englands og auðgast þar. Þeirra son:
Gísli, er átti Gróu, dóttur Ásgríms Sigmundarsonar úr Steingrímsfirði og Sigríðar; þeirra börn:
a. Árni; hann átti margar dætur.
b. Þórunn; hún átti Jón Ormsson skipara Einarssonar Runólfssonar, þeirra son:
Jón titlingur á Ingveldarstöðum, dó 1582, átti Guðrúnu Ketilsdóttur frá Ketu, Ingimundssonar; börn: Björn á Skarðsá, fæddur 1574, en dó 1655.

E. Guðrún átti 1541 Erlend lögmann Þorvarðarson á Strönd.

Jón mannaðist, var vellauðigur og fèkk því Kristínar með tilstyrk föður síns, en að hann að lifandi föður sínum hafi gjörzt sýslumaður í Húnavatnssýslu, líklega hálfri fyrst, sèst af þeim dómi, er hann með 12 mönnum lèt ganga árið 1513, föstudaginn næstan fyrir tveggja postula messu, Filippí og Jakobí, að Bólstaðarhlíð, um áburð Jóns Sigmundssonar lögmanns og undanfæri Ólafs Filippussonar á vígi Ásgríms Sigmundssonar 1483, í brúðkaupi Jóns Sigmundssonar, og sór Ólafur svofelldan eið, að hann hefði eigi í það sinn komið að Víðidalstungu með þeim huga, að Ásgrímur væri lífi sínu fjær, eða honum nokkur skömm gjörð, og eigi hefði hann ráðið honum banaráð, sem Jón Sigmundsson hèlt; dómurinn skrifaður á Gunnsteinsstöðum í Langadal, miðvikudaginn næstan fyrir hvítasunnu, og samþykktur af valdsmanninum Jóni Einarssyni.

Svo bar til 1516, að Jóni sýslumanni Einarssyni og Ólafi Diðrikssyni, umboðsmanni höfuðsmannsins á Bessastöðum, sló í deilu mikla út af afgjaldi Húnavatnsþings; mun Jón hafa orðið stórorður og máske illyrður, svo að umboðsmaðurinn lèt

---

1) Sigurður átti Þorgerði Aradóttur, systir Guðmundar Arasonar í Flatatungu.

e. Ása hèt enn fremur dóttir síra Gottskálks; af henni var komið fátækt fólk.

fanga Jón og setja í fjötur, þar til Ólafur Ásbjörnsson leysti hann út með ærnu gjaldi, hvar með fylgdi eignarjörð hans Njarðvík. Hèr af slapp Jón úr fangelsi og galt Ólafi Ásbjörnssyni alla jörðina Stóru-Ey á Skagaströnd í Höskuldsstaðasókn, og kvittaði Jón þar Ólaf um verðið. Þetta vottar bróðir Guðmundur ábóti í Viðey 1516, laugardaginn eptir Dynstani Episc. Er líklegt, að Jón hafi þá misst sýsluna og eigi getur þess, að hann hafi haldið sýslu síðan; þó átti hann góða styttu, þar sem var Gottskálk biskup; en Teitur Þorleifsson, sem þar eptir tók Húnavatnsþing, var óvildarmaður mikill þeirra feðga Jóns og Einars, og Gottskálk biskup dó skömmu þar eptir, 1520.

Jón var talinn með mestu höfðingjum norðanlands, á meðan hann lifði. Hann mun hafa haldið alla sýsluna 1515 og 1516. Jón Einarsson bjó fyrst í Saurbæ á Kjalarnesi, en síðan að Geitisskarði í Langadal, líklega eptir föður sinn, sem sjá má af lýsingu Kristínar um Syðri-Ey á Skagaströnd, vottaðri að Saurbæ 1572.

## Teitur Þorleifsson.

Árni í Fagradal, son Þorleifs Árnasonar og Vatnsfjarðar-Kristínar (sjá þar um Ísafjarðarsýslu), tjáist seinni maður Soffíu Loptsdóttur og þeirra börn Eiríkur og Þorleifur.

*Faðir* Teits var tèður Þorleifur.

*Móðir* Teits, Kristín, dóttir Teits ríka Gunnlaugssonar í Bjarnanesi.

*Kona:* Inga Jónsdóttir Erlingssonar, Þorgeirssonar[1] í Ögri, Ólafssonar, Loptssonar ríka.

*Börn* áttu þau Teitur og Inga engin, er lifðu. Sigurður Þorleifsson, bróðir Teits, giptist í Ási í Axarfirði og Kelduhverfi Kristínu dóttur Finnboga lögmanns, á Jónsmessu 1509; reiknaði Sigurður peninga sína alla 4 hndr. hundraða, en Finnbogi gaf dóttur sinni Skarð, Hvamm og Vatnshorn í Haukadal, Sigurður gaf henni 100 hndr. í tilgjöf og bekkjargjöf[2].

---

1) Það hefir áður verið sýnt, að Þorgeir þessi eigi hefir verið son Ólafs, sonar Lopts ríka.

2) Eins og áður hefir verið sagt, lentu eigur Sigurðar hjá Finnboga lögmanni. Bróðir þeirra Teits og Sigurðar var

Teitur bjó í Glaumbæ í Skagafirði og fèll lítt á með þeim Gottskálki biskupi, því að hann þoldi eigi álögur og yfirgang biskups, en Teitur var maður ráðríkur og mjög auðigur.

Þegar Jón Einarsson missti Húnavatnsþing 1516, tók Teitur það að veitingu.

1517 bar svo til, að Margrèt nokkur Ólafsdóttir átti barn og lýsti föður að því Guðmund Guðmundsson, er áður hafði barn átt með móður hennar. Teitur sýslumaður í Húnavatnsþingi stefndi þessum Guðmundi að Bólstaðarhlíð til undanfærslu, en þá er Gottskálk biskup Nikulásson spurði þetta, lèt hann sama ár (1517) stefna Guðmundi þessum fyrir sig að Viðvík, hvar hann þriðjudaginn næstan fyrir Bótólfsmessu með dómsmönnum Þorbirni Jónssyni, ráðsmanni heilagrar Hólakirkju, Pètri Pálssyni, Jóni Arasyni og fleirum dæmdi Guðmund skyldan, að synja fyrir með tylftareiði lýsingu Margrètar, og þenna tylftarareið skyldi hann afleggja fyrir biskupi, eða hans umboðsmanni í Húnvatnsþingi, en eigi fyrir sýslumanni konungs þar, Teiti Þorleifssyni. Þriðjudaginn næstan fyrir Mikaelsmessu sættust þeir biskup og Teitur 1517, og gaf Teitur í biskups vald allan þann hugmóð og þær svívirðingar, sem hann hefði fengið á sínum garði og mönnum, að fráteknu vígi því, er unnið var af biskupsmönnum, en biskup hèt Teiti svo mikilli sæmd, sem honum bezt lynti af sèr sjálfum að taka. Það heit var þó lítið efnt, þar eigi lá í því skauti, sem biskup vildi, sjá Árb. 3. þ., bls. 48—49.

1518 bar Teitur dóm fyrir Vigfús lögmann, sjá samastaðar, bls. 55.

1519 kærði biskup til Teits 14 hndr., samastaðar, bls. 58.

1522 byrjaði mál Jóns biskups Arasonar, er þá var officialis og Teits sýslumanns, út af Einari, er Jón hafði fyrir sökum, en Teitur vildi hjálpa manni þessum, er fyr hafði verið sveinn hans; þar af orsakaðist Sveinsstaðareið og fèll Árni Bessason af mönnum biskupsefnis, sjá Árb. 3., bls. 64, og fylgjandi. Jón biskupsefni lèt stefna Teiti til prestastefnu á Flugu-

---

Síra Árni, hann tjáist að hafa verið barnlaus, eða í hið minnsta ekki hafa átt börn, er erfðu hann.

mýri fyrir þessar og fleiri sakir. Teitur mætti ekki, og var dæmdur í bann og til fjártjóns o. s. frv. Sama ár lèt Grímur Jónsson á Ökrum af lögsögn, en Teitur tók við henni eptir brèfi Hannesar Eggertssonar og annara beztu manna, brèfið hljóðar þannig:

«Hannes Eggertsson hirðstjóri og höfuðsmaður yfir allt Ísland, Erlendur Þorvarðarson, lögmaður sunnan og austan á Íslandi, Fúsi Þórðarson, Jón Þórðarson, Narfi Sigurðsson, Sigurður Narfason, Þorleifur Grímsson, Salómon Einarsson, Guðmundur Guðmundsson, Rafn Guðmundsson, o. s. frv., mánudaginn næstan eptir Pètursmessu og Páls 1523 á almennilegu Öxarárþingi kjörinn og samþykktur Teitur bóndi Þorleifsson fyrir fullmektugan lögmann norðan og vestan á Íslandi, og biðja konung Kristján að hylla og styðja þetta sitt kjörbrjef. Datum ut supra (undir sumum afskriftum er datum 1522).

1523 á alþingi ályktaði lögrèttan, að Teitur væri sýkn saka af mannslaginu í Sveinsstaðaför, svo framarlega ekkert sannaðist upp á hann frekar, en þá var fram komið o. s frv. Teitur tók þá og kvittun af Hannesi hirðstjóra Eggertssyni, er átti öll hálf sakferli á landinu. Var svo Teitur um hríð bæði lögmaður og sýslumaður.

Millum Ögmundar biskups og Teits lögmanns gjörðist mikil vinátta, þar báðir voru óvinir Jóns Arasonar, er þá var innkominn með biskups tign, og þóttust báðir eiga sakir við hann, og seldi þá Teitur lögmaður Ögmundi biskupi eignir þær í Hornafirði, er hann hafði erft eptir foreldri sín, sem voru eitt hundrað hundraða, níutíu og sex hundruð í jörðum, en tók þar á móti af Ögmundi biskupi jarðir vestra að jöfnu afgjaldi, en að hundraðatölu, tvö hundruð hundraða og fimmtíu og fjögur hundruð (sjá Árb. 3. þ., bls. 87). Kaup þetta fram fór 1525. Þá er mestu deilur Jóns og Ögmundar biskups voru endaðar, sótti Jón biskup eptir að rètta hluta sinn við Teit lögmann, og gat hann með kænsku komið því til leiðar 1527, að Teiti var vikið frá lögmannsembætti, en Rafn Brandsson, sýslumaður í Hegranesþingi, gjörðist lögmaður norðan og vestan, því til að koma sèr í mjúkinn við sem flesta höfðingja, hafði Jón biskup upp hugsað og við haft mesta klókskap, og stundum undirferli; giptir hann því Þórunni dóttur sína, 14 vetra gamla, Rafni sýslumanni 1526, að hann þekkti hann frændmargan,

mikilmenni og höfðingja, framgjarnan og lögvitran, sem gæti verið grjótpáll fyrir ályktunum sínum.

Undir eins og Rafn var orðinn lögmaður 1527, reið hann með fjölmenni til Glaumbæjar, og stefndi Teiti fyrir 12 manna dóm að Seilu mánudaginn næstan fyrir Pálsmessu um víg Árna Bessasonar. Voru dómsmenn: Þorsteinn Finnbogason lögmanns, Einar Brynjólfsson á Espihóli, Auðunn Sigurðarson Sveinbjarnarsonar, Pètur Tómasson, Stígur Höskuldsson og fleiri; Teitur kom eigi til þingsins, nè færði afbatanir, og hefir álitið hinn fyrri lögrèttu úrskurð og kvitteringu Hannesar hirðstjóra vera sèr fullgilda vörn. Teitur var dæmdur útlægur til konungs náðar, og allt hans fè fast og laust, hálft fallið undir konung, en hálft fallið undir Teits nánustu erfingja, en Rafn lögmaður skyldi sem umboðsmaður konungs í Hegranesþingi taka að sèr allt fèð, og að afgoldnum öllum löglegum skuldum mega halda þeim hluta fjárins, sem erfingjum tilheyrði, þar til sá lögarfi Teits tilkæmi, sem hefði fullar vörzlur, og afhenda svo fèð ávaxtarlaust. Líkt skyldi og fara með konungs helminginn; en Bersa, föður hins vegna, dæmdu þeir 30 hundruð. Til þess að Teitur fengi eigi uppreisn, sigldi Rafn samsumars með dóminn, og fyrir tilstyrk Jóhanns hirðstjóra Pèturssonar, (er þeir Rafn og Jón biskup að sögn gáfu mikið fè til fylgis), fèkk Rafn staðfestingu Friðriks konungs á Seiludómi, útgefna á Gottorpsloti. Rafn keypti þá þann helminginn af eigum Teits, er fèllu undir konung fyrir 300 rínsk gyllini. 1528 kom Rafn út með brèf sín, og tók undir sig með tilstyrk Jóns biskups allt fè Teits, er hann gat náð, helzt norðanlands, og ætla menn það hafi verið nálægt tólf hundruðum hundraða eða meira; var þó aldrei virt eða uppskrifað. Af jörðum norðanlands, er Teitur átti, og þeir náðu, eru þessar nefndar: Glaumbær, Meðalheimur, Elvogar, Vatnsskarð, Vatnshlíð, hluti í Vík, Hof í Dölum, Gil, Þorljótsstaðir, Víðivellir, Vatn, Ytra-Vallholt, Krossanes, Lækjamót og fleiri. Rafn lögmaður lagði ekkert aptur af eigum Teits, og bauð engin lagaskipti, þó það væri móti dómi hans og staðfestingu konungs Árni Eiríksson, bræðrungur Teits, var nánasti erfingi hans; hann hafði áður átt í höggi við þýzkan mann Hans Ethen, þjón höfuðsmannsins. Maður þessi yfirfèll Árna og særði hann, en þar kom að, að Árni varð honum að bana; kom þetta í dóm, og voru Árna dæmdar vægar bætur, 15 hndr.,

þar hann hefði átt hendur sínar að verja, og þótt Árni svaraði tèðum bótum, var hann af Dönum á Bessastöðum hrakinn af jörðu sinni, og fór landflótta, til þess Teitur frændi hans, er lögmaður var orðinn, lèt dæma honum jörð sína. Svo var þá skekinn þróttur úr Árna, að eigi vogaði hann að kalla eptir fè Teits í hendur þeim Rafni og biskupi, er sættu því lagi, og sátu með fèð í náðum. En þótt erfingjar kærðu síðan opt eptir þeim eignum, fengu þeir lítið eða ekkert.

Nú hèlzt Teitur eigi lengur við í Glaumbæ, og hlaut að víkja þaðan fyrir valdi Jóns biskups og Rafns. Er mælt, að hann stigi á bak fram undan karldyrum, þar sem honum var lesin stefnan og harðmælti þeim er viðtæki; flutti hann þá vestur í Hvamm í Hvammssveit, og lifði þar í skjóli Ögmundar biskups, og var kallað af eigum konu sinnar Ingu; gat hann haldið með fulltingi Ögmundar biskups nokkru af jörðum þeim, er biskup hafði fengið honum fyrir Bjarnarnes-eignir, svo sem Hvammi, Ásgarði, Magnús-Skógum, Ketilsstöðum og nokkrum fleirum. Teitur bjó 16 ár að Glaumbæ, og hafði gefið hvert ár eina kú Hofsstaða-Mariu, (Mariukirkju á Hofsstöðum). Sjá meira um Teit, Árb. 3. þ. bls. 91.

Frá Rafni lögmanni er það að segja, að hann bjó á Hofi á Höfðaströnd, en eptir burtflutning Teits setti hann bú í Glaumbæ, og þá er hann hafði því nær eitt ár haldið þar bú, var hann veginn í Glaumbæ, þar sem Teitur steig á bak seinast, sjá um Rafn Hegranesþing.

Teitur Þorleifsson hafði misst lögmannsdæmið 1527, og Húnavatnsþing 1528, flutti hann þá að Hvammi og missti þar Ingu konu sína; kölluðu til arfs eptir hana synir Þorleifs og Ingibjargar systur Ingu, en náðu ekki, utan síra Jón náði einu hundraði hundraða og fjörutíu hundruðum, en hvorugur Bjarnanna eða Guðmundur prestur náðu fènu, því Teitur vildi eigi laust láta. Teitur var brjóstveikur og dó af þeim veikleika í yfirgeysandi kvefsótt 1537. Þau Teitur bjuggu fyrst á Ásgeirsá, svo 16 ár í Glaumbæ, þá 11 vetur í Hvammi. Teitur þótti að mörgu mikill maður, og hinn auðugasti af örfum, áður en þeir biskup og Rafn hremmdu fè hans.

Ögmundur biskup kallaði þá til Hvamms og annara jarða Teits, svo erfingjar náðu þeim eigi.

Jón biskup Arason kallaði og seinna til Bjarnarnes eigna,

er konungur hafði kastað eign sinni á eptir Ögmund biskup. En hvorugur biskupanna eða þeirra erfingjar höfðu löng not af þeim eignum.

Það er sumra meining, að Jón biskup og Rafn hafi tekið undir sig Húnavatnsþing næst eptir Teit, og til þess Páll tók það.

### Páll Grímsson.

*Faðir:* Grímur sýslumaður Pálsson á Möðruvöllum, Brandssonar lögmanns Jónssonar, sjá Vaðlaþing og Hegranesþing.

*Móðir:* Helga dóttir Narfa á Narfeyri Þorvaldssonar Þorkelssonar.

*Kona:* Margrèt dóttir Erlendar sýslumanns í Múlasýslu, Bjarnasonar sýslumanns, sjá Múlaþing. Henni giptist Páll að Reykjahlíð við Mývatn 1522, sunnudaginn næstan eptir allraheilagramessu, að hjá veranda Teiti Magnússyni og Jóni Magnússyni, prestum, Auðunni Sigurðssyni, Erlendi Jónssyni, Þórarni Steindórssyni, Birni Skafinssyni, . . . . . Úlfssyni og Jóni Pèturssyni, þegar Þorsteinn bóndi Finnbogason í umboði Bjarna bónda Erlendssonar á Ketilsstöðum, bróður Margrètar, taldi henni tvö hundruð hundraða í fasteign og lausafè, en Páll taldi sèr þar á móti þrjú hundruð hundraða, Einarsstaði LL hndr., Hof á Höfðaströnd LXXX hndr. og þar til útjarðir og lausagóz, er allt reiknaðist þrjú hundruð hundraða; þá gaf Páll Margrèti konu sinni jörðina Hof í tilgjöf. Brèfið var ritað á Einarsstöðum í Reykjadal, ári síðar, en fyr segir.

*Börn:* A. Bjarni í Skriðu í Hörgárdal átti Halldóru Björnsdóttur officialis á Melstað; þeirra börn:

a. Bergljót[1] átti síra Sigurð í Goddölum Jónsson prests í Laufási, þeirra börn:

---

1) Espólín, Snógdalín og síra Jón Ólafsson telja Bergljótu, sem hèr er gjört, dóttur Bjarna Pálssonar, og mun það rètt, þar á móti segir Jón Magnússon, að Bjarni hafi átt son, er Páll hafi heitið, og dóttir hans hafi verið Bergljót, og eins Ljótun, sem hèr kallast Bjarna dætur.

1. Þuríður[1].
2. Sigríður[2].
3. Sigríður yngri[3].
4. Steinunn[4].
5. Ólöf[5].
6. Ólöf yngri[6].

b. Hallur harði[7] í Möðrufelli, sjá Vaðlaþing, hann var lögrèttumaður og lögsagnari; átti fyr Herdísi Jónsdóttur; börn:
1. Síra Bjarni á Grund.
2. Teitur gullsmiður.
3. Páll.
4. Jón.
5. Bergljót.
6. Halldór.
7. Guðrún.
8. Halldóra og fleiri.

c. Margrèt átti síra Þorstein Ásmundsson; börn:
1. Síra Bjarni í Vesturhópshólum[8].
2. Ásmundur[9].

---

1) Þuríður átti Einar, son Skúla Einarssonar og Steinunnar Guðbrandsdóttur.

2) Sigríður eldri átti Hallgrím son síra Halls Ólafssonar í Höfða.

3) Sigríður yngri var seinni kona síra Magnúsar Pèturssonar á Hörgslandi.

4) Steinunn átti Rafn, son Jóns Arnfinnssonar í Bjarnastaðarhlíð.

5) Ólöf eldri atti Guðmund, son Kolbeins Hjálmssonar, sem lengi var bartskeri Guðbrandar biskups; þau bjuggu á Merkigili.

6) Ólöf yngri átti Jón á Hofi, son Jóns Arnfinnssonar í Bjarnastaðarhlíð. Kona Jóns hèt Guðrún Rafnsdóttir.

7) Um börn Halls harða, sjá Eyjafjarðarsýslu bls. 233—239.

8) Kona síra Bjarna var Filippía Þorláksdóttir Þórðarsonar frá Marðarnúpi.

9) Ásmundur Þorsteinsson átti Þórdísi Jónsdóttur frá Draflastöðum.

3. Guðrún[1].
4. Halldóra[2].
5. Þorbjörg[3].
6. Málmfríður.

d. Ljótunn[4] átti Ólaf[5] Arason Tómassonar.
e. Magnús.
f. Þorbjörg[6].
g. Páll.
h. Helga átti Guðmund Árnason, bróður Daða sýslumanns
i. Þuríður[7] átti Ólaf Jónsson í Núpufelli.
k. Þórunn átti Ólaf Benidiktsson.
l. Jón á Hofi í Skagafjarðardölum átti Ólöfu Jónsdóttur[8].

Börn Bjarna og Halldóru voru 11 á lífi, þegar Bjarni drukknaði á Grímseyjarsundi.

B. Síra Erlendur á Breiðabólsstað í Vesturhópi; hann var fyrst skólameistari á Hólum, fèkk svo 1569 Breiðabólstað, og hèlt hann fram yfir 1600; hann var fjórgiptur; fyrsta kona hans var Björg Kráksdóttir[9], þeirra börn:

---

1) Guðrún átti Illuga fálkafangara Þórðarson Halldórssonar í Sólheimum í Svínadal.

2) Halldóra var seinni kona síra Þórarins Jónssonar á Hrafnagili.

3) Þorbjörg dó ógipt, barnlaus.

4) Ljótunni telur Jón Magnússon, sem fyr er sagt, dóttur Páls Bjarnasonar; Espólín nefnir að vísu Pál Bjarnason, en heldur að mann nú geti ekki rakið frá honum.

5) Ólafur var bróðir Halldóru á Keldulandi.

6) Þorbjörg átti Þorstein nokkurn.

7) Hún er af sumum nefnd Halldóra, með henni átti Ólafur ekkert barn.

8) Ólöf var dóttir Jóns Arnfinnssonar í Bjarnastaðarhlíð.

9) Björg var alsystir síra Jóns Kráksonar og hálfsystir Guðbrandar biskups.

a. Síra Ólafur prestur samastaðar, dó 1650, átti Sigríði Þorvarðardóttur[1]; börn:
   1. Síra Erlendur á Melstað[2].
   2. Síra Þorvarður[3] á Breiðabólstað norður.
   3. Gísli[4] á Ánastöðum.
   4. Björg, sem átti síra Svein á Barði, jubilkennara.

b. Þuríður átti Teit á Holtastöðum son síra Björns á Melstað Jónssonar biskups Arasonar, börn:
   1. Árni á Holtastöðum[5].
   2. Jón[6].
   3. Helga[7].
   4. Björg[8].
   5. Guðlaugur[9].
   6. Guðrún[10].

Önnur kona síra Erlendar Pálssonar var Kristín Jónsdóttir, hin þriðja Gróa Guðmundsdóttir. Börn hans með þeirri konu:

c. Páll sýslumaður í Hnappadalssýslu átti Guðríði, barnlaus.

---

1) Þorvarður var sonur Brands (Moldar-Brands) Einarssonar, bróður Marteins biskups.

2) Síra Erlendur var mikill lærdómsmaður og auðugur vel, kona hans var Þórunn Þorvaldsdóttir Ólafssonar frá Auðbrekku. Þorvaldur var bróðir Halldórs lögmanns Ólafssonar.

3) Kona síra Þorvarðar var Valgerður, dóttir Ísleifs Eyjólfssonar frá Saurbæ á Kjalarnesi.

4) Gísli átti Sigríði Ólafsdóttur.

5) Árni átti Sesselju, dóttur Péturs Magnússonar frá Vík á Svalbarðsströnd.

6) Jón átti Agnesi Pétursdóttur, systur Sesselju, er Árni bróðir hans átti.

7) Helga átti Jón á Guðmundarstöðum Grímsson Jónssonar Guðmundssonar Indriðasonar.

8) Björg var kona síra Gísla á Bergstöðum Brynjólfssonar Árnasonar.

9) Gunnlaugur varð úti, barnlaus.

10) Guðrún átti Magnús í Árbæ son Þorsteins Magnússonar á Þykkvabæjarklaustri.

d. Margrèt átti síra Illuga Ingjaldsson[1] á Tjörn; þeirra son
Síra Erlendur á Tjörn á Vatnsnesi.

C. Björn átti Halldóru Björnsdóttur, þeirra dóttir
Ingibjörg.

D. Ingibjörg Pálsdóttir átti Bjarna Sturluson[2], þeirra son[3]
Sturla[4], hans son
Jón.

E. Ljótunn Pálsdóttir átti Guðmund[5] Einarsson; þeirra börn:
a. Þuríður, átti síra Bjarna Gamlason á Grenjaðarstað; þeirra börn:
1. Síra Guðmundur prestur samastaðar[6].
2. Sigríður[7].
3. Sigríður önnur[8].

---

1) Ingjaldur, faðir síra Illuga á Tjörn, bjó á Reykjum í Miðfirði, og var kallaður Ingjaldur sterki; faðir hans var síra Illugi í Múla Guðmundsson, en kona Ingjaldar og móðir síra Illuga var Hildur systir síra Arngríms lærða.

2) Sturla faðir Bjarna var Smíða-Sturla, er að framan hefir verið getið.

3) Son Bjarna Sturlusonar hèt
Oddur sterki, er bjó á Melum í Svarfaðardal, sjá Tímarit mitt, 1. B., bls 15. Af Jóni syni Odds var og kominn í beinan karllegg síra Jón lærði í Möðrufelli, seinna Dunhaga.

4) Sturla þessi, er án efa síra Sturla Bjarnason á Tjörn á Vatnsnesi og hefir hann verið bróðir Odds.

5) Guðmundur var bróðir Skúla, föður Þorláks biskups.

6) Kona síra Guðmundar var Kristín, dóttir Árna Magnússonar á Grýtubakka.

7) Sigurður eldri átti síra Sigurð á Kálfafelli í Hornafirði Bjarnason Jónssonar gullsmiðs.

8) Sigríður yngri, seinni kona síra Arngríms lærða Jónssonar.

4. Ingunn[1].
5. Margrèt[2].
6. Halldóra[3].
7. Halldóra önnur.
8. Vigfús[4].
9. Ljótunn[5].
10. Guðrún.
11. Ingibjörg.
12. Þorlákur[6].

b. Ári átti Steinunni Einarsdóttur[7]; þeirra synir:
1. Guðmundur, lögrèttumaður í Flatatungu.
2. Steindór[8].

F. Þuríður Pálsdóttir átti Jón Gíslason í Tungu í Vatnsdal.

---

1) Ingunn kona síra Bjarna Gíslasonar í Garði í Kelduhverfi.

2) Margrèt átti síra Ólaf Hallsson.

3) Halldóra átti Hjörleif Hallsson, bróður síra Ólafs.

4) Vigfús átti Málmfríði Hallsdóttur frá Höfða, systur þeirra síra Ólafs og Hjörleifs, barnlaus.

5) Ljótunn átti Einar Hjörleifsson lögrèttumann í Flögu í Breiðdal, barnlaus.

6) Enn var dóttir síra Bjarna og Þuríðar:

13. Ólöf kona síra Illuga í Húsavík, sonar Björns Magnússonar á Laxamýri.

Sumir telja enn son síra Bjarna Gamlasonar:

14. Halldór á Þverá, er á að hafa verið langafi síra Ingjaldar, er var í Múla, en það mun vera miður rètt, því síra Ingjaldur telur þenna Halldór langafa sinn, son síra Bjarna Gíslasonar í Garði og Ingunnar Bjarnadóttur, sjá hèr að framan.

7) Steinunn var dóttir Einars Eiríkssonar á Hvanneyri.

8) Steindór átti Helgu Oddsdóttur Tumasonar frá Skíðastöðum, sjá hèr að framan.

Dætur Ara og Steinunnar:

3. Ólöf átti Geirmund Árnason.
4. Þorgerður.

G. Jón Pálsson, laungetinn, bjó í Reykjadal. Þá er Jón missti konu sína, fór hann til Árna Gíslasonar á Hlíðarenda, en uppalin voru börnin af náungum hans.

a. Guðrún átti Jón Ólafsson á Minni-Ökrum í Skagafirði. Hún var til giptingar uppalin hjá síra Birni Gíslasyni.

b. Halla[1] átti Ólaf Ásbjörnsson, sonur:
Síra Jón í Rauðasandsþingum, og fleiri.

c. Halldóra[2], uppalin af Gunnari Gíslasyni, átti Össur, lögsagnara í Barðastrandarsýslu; þeirra börn:
1. Þorsteinn.
2. Jón.

---

1) Halla var dóttir Jóns Ólafssonar og Guðrúnar Jónsdóttur; hún átti fyrst Pètur bókbindara Engilbertsson Gamlasonar af ætt Guðbrands biskups; þeirra son:

a. Einar giptist og átti börn.
Svo giptist Halla aptur Ólafi Ásbjarnarsyni Ólafssonar í Raknadal, Guðmundssonar, sonar síra Sigurðar á Grenjaðarstöðum, Jónssonar biskups Arasonar. Þeirra son meðal annara fleiri

b. Síra Jón í Rauðasandsþingum; hans kona Ragnheiður Þorláksdóttir Bjarnasonar prests í Selárdal, sonar síra Halldórs Einarssonar, bróður Gissurar biskups. Síra Jón var lærður maður og hefir skrifað ættartölubók.

2) Halldóra var dóttir Jóns Pálssonar, hún átti Össur lögsagnara, þau bjuggu í Framnesi og Þverá í Skagafirði, en fluttu seinna vestur á Barðaströnd. Þeirra son
Jón Össurarson, hans son
Grímur Jónsson fálkafangari í Galtardalstungu, átti, sem hèr segir, Margrèti dóttur Jóns Pèturssonar í Brokey, þeirra son
Grímur lögsagnari á Gilja; af honum eru þeir komnir dr. Grímur á Bessastöðum og Eggert Grímsson Laxdal verzlunarstjóri á Akureyri; amtmaður Grímur Jónsson var og sonarson Gríms á Gilja.

Fleiri voru börn Jóns Pálssonar.

3. Gunnlaugur.
4. Jón annar.
5. Jón þriðji.

Fyrst var Jón (ɔ: Jón Össurarson þriðji) hjá síra Arngrími lærða, svo hjá Birni sýslumanni í Barðastrandarsýslu, ráðsmaður og lögsagnari stundum, átti Ingibjörgu Gunnlaugsdóttur og mörg börn; hans son var Grímur í Brokey og Dagverðarnesi, fálkafangari, er átti Margrètu dóttur Brokeyjar-Jóns Pèturssonar.

1528 seldi Páll Grímsson Jóni biskupi Arasyni Hof á Höfðaströnd fyrir aðrar jarðir (Árb. 3. þ., bls. 92). Kaupvottar: Þorsteinn Gunnarsson og Þormóður Snorrason prestar, Marteinn Einarsson og Jón Hallsson leikmenn. Páll staðfesti og þetta kaup síðar, 1553, við Ólaf biskup Hjaltason að Naustum í Eyjafirði, viðverandi Ormi lögmanni Sturlusyni, vitna Gunnar Gíslason, Höskuldur Jónsson, Snorri Hallsson. Löngu seinna klagaði sonarsonur Páls, síra Ólafur, upp á kaupin, en árangurslaust

Páll Grímsson bjó á Holtastöðum. 1533 segja sumir að Páll hafi tekið Húnavatnsþing og 1536 lèt hann dóm ganga að Ási í Vatnsdal um lambarekstur, sama ár hafði hann jarðaskipti við Ara lögmann. 1538 lèt hann í Engihlíð í Langadal laugardaginn næstan fyrir níu vikna föstu dóm ganga um lambarekstur og lambatoll á Eyvindarstaðaheiði (Árb. 3. þ., bls. 117), voru þá dómsmenn hans Jón bóndi Ólafsson, Einar Einarsson, lögrèttumenn, Egill Jónsson, Koðránn Ólafsson, Einar Sigurðsson og Sveinn Jónsson, bændur.

Eins og áður er sagt, virðist sem Jón biskup og Rafn hafi tekið Húnavatnsþing eptir Teit, og Jón biskup einn haldið sýsluna eptir dauða Rafns, og haft Pál fyrir umboðsmann sinn, unz Páll sjálfur tók sýsluna.

Það er ekki ljóst, hvenær Páll Grímsson hafi sleppt sýslunni, sumir halda, að hann hafi gjört það um 1550 eða fyr, en sumir síðar og í Oddeyrardómi 1551 er hann talinn meðal

helztu manna næst eptir Þorleif bróður sinn, og Björn á Skarðsá kallar hann þá sýslumann[1].

1549, aðrir segja 1551, föstudaginn næstan eptir geisladag útgefur Páll Grímsson vitnisburð á Gunnsteinsstöðum í Langadal um umboðskröfu Jóns heitins Magnússonar, móðurföður barna síra Björns Jónssonar biskups Arasonar, og segist Páll sjálfur hafa það brèf diktèrað og skrifað, þá Jón hafi sagt sig fullveðja fyrir fè og peningum barna síra Björns, en þetta ártal er auðsjáanlega rangt, því Jón Magnússon lifði fram um 1560, og mun því eiga að vera 1561.

1556, í dómi þeim, sem Oddur lögmaður Gottskálksson, umboðsmaður konungs í Hegranesþingi, lèt ganga að Víðivöllum, laugardaginn næstan fyrir Jónsmessu Hóla biskups um ákæru Ólafs biskups Hjaltasonar til Jóns Finnbogasonar, að hann hafi ólöglega að sèr tekið dómkirkjunnar fasteign, Ósland og Illugastaði í Fljótum, eru Páll Grímsson og Jón Grímsson taldir með fleirum í lögmannsdóminum, en Tumi Þorgrímsson var þá til staðar, að svara vegna Jóns Finnbogasonar.

Í heitbrjefi því, er gjört var að Miklabæ í Óslandshlíð 12. dag maizmánaðar 1566 af Ólafi biskupi og öðrum höfðingjum, er Páll Grímsson undirskrifaður; þar af er ljóst, að hann hefir þá lifað, en af því leiðir eigi, að hann þá hafi haft sýsluvöld.

Páll Grímsson tók Hof á Höfðaströnd til forráða 1555, og bjó þar um hríð, þar eptir höfðu synir hans Hof til 1571, en Þórunn á Grund átti þó jörðina[2].

Eg meina, að Páll hafi ekki sleppt hálfri sýslunni fyrri en 1551, að Ormur lögmaður tók hana í lögmannskaup sitt.

### Skúli Guðmundsson.

*Faðir:* Guðmundur prestur, son Skúla, launsonar Lopts ríka á Möðruvöllum. Sá Skúli Loptsson var seinni maður

1) Hann er talinn sýslumaður í hyllingareiðnum á Oddeyri.

2) Eptir því sem Guðbrandur biskup segir, náði Þórunn Hofi 1571 eða 1572, og átti það þá í 17 ár, þá fèkk það Jón Sigurðsson, og hèlt í 5 ár, þá eignaðist það Magnús Björnsson.

Helgu dóttur Þorleifs Árnasonar og Vatnsfjarðar-Kristínar. Hafði Helga fyrst átt Guðmund ríka Arason á Reykhólum, er missti eignir sínar fyrir þeim Birni og Einari, bræðrum konu sinnar, 1443 eða 1442, og þar eptir gipzt Skúla. Þau lifðu bæði 1477, því þá kvittar Helga Skúla Loptsson bónda sinn um 37 kúgildi, er hún hafði erft eptir Guðnýju systur sína að Auðbrekku, (sem dáið hefir barnlaus). Guðmundur prestur Skúlason er sá, sem 1481 lúkti Ólafi biskupi Rögnvaldssyni Syðraholt í Svarfaðardal (er móðir hans húsfrú Helga Þorleifsdóttir hafði erft eptir systur sína Guðnýju) fyrir skuldir sínar og föður síns Skúla Loptssonar, er þeir áttu að svara biskupi í tíundir og útlausnir.

Fyrst er Skúli þessi Guðmundsson á Hólum í Hjaltadal einn af vottunum undir kaupmálabrèfinu, þá er þau Rafn Brandsson og Þórunn dóttir Jóns biskups Arasonar giptust 1526, og mun hann þá hafa verið ungur.

Í ættartölum nefnist hann (að sögn Jóns sýslumanns Jakobssonar) sýslumaður í Húnavatnsþingi; en óvíst er, hvert ár hann var þar sýslumaður. Ekki er það ólíklegt, að hann um tíma hafi haldið hálfa sýsluna móti Páli Grímssyni, eða verið umboðsmaður hans nálægt 1540.

Barnamóðir Guðmundar prests Skúlasonar var Guðrún dóttir Brands lögmanns Jónssonar[1].

*Kona* Skúla Guðmundssonar var Þórunn dóttir Marteins biskups Einarssonar, en aðrar ættartölur segja, að hún hafi verið kona Skúla Guðmundssonar, Sigvaldasonar langalífs, og

---

1) Þetta stendur í flestum ættartölubókum, að barnamóðir síra Guðmundar Skúlasonar hafi verið Guðrún dóttir Brands lögmanns Jónssonar, og getur það verið satt, ef það er ekki ruglingur, sprottinn af því, að Guðmundur nokkur Skúlason (líklega sonarson síra Guðmundar) í Húnavatnssýslu átti konu, er Guðný hèt og var Brandsdóttir; en þessi Guðný var systir síra Jóns Brandssonar á Barði og síra Páls Brandssonar, giptist hún 1542 á Engihlíð fyr tèðum Guðmundi; einn af kaupvottunum var Skúli Guðmundsson, sjálfsagt faðir hans.

mun það rèttara, en Marteinn Einarsson hèt bóndi í Húnavatnsþingi, sem fyr sagt, og gat Þórunn kona Skúla hafa verið hans dóttir[1].

Skúli var lögrèttumaður 1542, og er líklegast, að hann hafi verið umboðsmaður sýslumanna í Húnavatnsþingi, og ef til vill Jóns biskups Arasonar, ef Páll hefir eigi tekið sýsluna fyrri en 1533.

## Egill Jónsson.

*Faðir:* Jón sýslumaður Einarsson, sjá hèr að framan.
*Móðir:* Kristín dóttir Gottskálks biskups.
*Kona:* Guðrún dóttir Þorleifs lögmanns á Skarði, Pálssonar.
*Börn:* A. Jón á Reykjum og Skarði, sjá hèr síðar.
B. Rannveig (aðrir Ragnhildur), fyrri kona Jóns[2] Einarssonar á Gunnsteinsstöðum í Langadal; þeirra dóttir:
Oddný, sem Björn Magnússon[3] tók í óleyfi, og flutti til Bólstaðarhlíðar, en hún var heitmey Jóns Dans, þar af varð mikið málavastur, loks giptust þau, þeirra börn:
1. Síra Gunnar á Hofi[4].
2. Rannveig[5].

---

1) Það er án efa með öllu rètt, að Þórunn kona Skúla var dóttir þessa Marteins Einarssonar.

2) Jón var bróðir Skúla Einarssonar, er átti Steinunni dóttur Guðbrandar biskups.

3) Magnús var sonur síra Björns á Melstað Jónssonar biskups Arasonar.

4) Síra Gunnar var prestur til Hofsþinga á Höfðaströnd og á Höskuldsstöðum, hann átti Þórunni, dóttur síra Jóns í Hítardal Guðmundssonar. Þeirra dóttir var
Guðrún kona meistara Gísla Vigfússonar á Hofi á Höfðaströnd.

5) Rannveig átti Einar son Pèturs Gunnarssonar Gíslasonar Hákonarsonar.

3. Benidikt[1].
4. Solveig, er átti Þorlák frá Marðarnúpi[2].

C. Eiríkur á Stóruborg átti Solveigu, dóttur Nikulásar á Múkaþverá, klausturhaldara Þorsteinssonar, þeirra son:

a. Jón á Núpi ólst upp í Bólstaðarhlíð hjá stjúpföður sínum, átti þá 5 launbörn, neyddist að ekta barnsmóður sína atkvæðalitla, Halldóru Bjarnadóttur; þeirra son:

1. Eiríkur á Núpi átti Málmfríði, sjá Dalasýslu.

Önnur kona Jóns var Sesselja Grímsdóttir; þeirra börn dóu. Jón varð undir heygarði og dó af því.

Eiríkur Egilsson var mikill lauslætismaður, eins fram hjá konu sinni, en hún dró þar yfir fjöður eptir mætti; Jón lögmaður Jónsson hjálpaði honum, þá er lífi hans var hætt, því seldi Eiríkur Jóni lögmanni Stóruborg.

D. Ragnhildur átti fyr Halldór á Fróðá Jónsson Halldórssonar[3]; þeirra börn:

a. Jón á Fróðá, svo í Garpsdal, seinast í Svefn-

1) Benidikt í Bólstaðarhlíð átti Guðrúnu dóttur síra Þorsteins Tyrfingssonar í Hvammi í Norðurárdal.

2) Þorlákur var son Þórðar Þorlákssonar, bróður Guðbrandar biskups.

Enn hèt son Björns og Oddnýjar

5. Eiríkur, hans laundóttir

Solveig átti Guðmund, launson Einars Skúlasonar; Einar bjó á Hraunum í Fljótum og var bróðir Þorláks biskups.

3) Jón Halldórsson var stjúpsonur Daða í Snóksdal Guðmundssonar. Sumir telja Ragnhildi laungetna, og móður hennar Sigríði Ormsdóttur Guðmundssonar Andrèssonar, og er ekki ólíklegt, að það sè rèttara.

eyjum, átti Guðnýju dóttur Eyólfs á Ballará[1] og Ingibjargar; þeirra börn:
1. Gísli[2].
2. Gísli annar[3].
3. Ívar[4].
4. Snorri[5].
5. Pètur[6].
6. Steinunn[7].

b. Dóróthea átti Jón Bjarnason á Ketilsstöðum[8]; þeirra börn:
1. Sigríður[9].
2. Halldóra[10].
3. Þuríður[11].

c. Valgerður átti Andrès[12] Bjarnason, börn:

---

1) Eyjólfur var son Einars Gíslasonar í Stóruhvestu, og Ingibjörg kona hans var dóttir Staðarhóls Páls.

2) Gísli eldri átti Ingibjörgu dóttur síra Arngríms lærða Jónssonar, hann fèkk Fróðá eptir föður sinn og seldi hana Guðmundi Jónssyni fyrir Svefneyjar og hálfa Bessatungu.

3) Gísli yngri í Svefneyjum átti Halldóru Einarsdóttur Pètursssonar, Einars er hèr fyr getið.

4) Ívar bjó á Kletti í Kollafirði átti Ingibjörgu Bjarnadóttur, sonar síra Guðmundar Jónssonar á Stað á Reykjanesi.

5) Snorri átti Guðrúnu Þorleifsdóttur Jónssonar á Kirkjubóli á Bæjarnesi.

6) Pètur, hann var kallaður Pètur hrútur, átti fyr Guðrúnu Helgadóttur, síðan Guðrúnu Loptsdóttur frá Sælingsdalstungu.

7) Steinunn átti Guðmund Eysteinsson á Kletti í Króksfirði.

8) ɔ: í Hvammssveit, þau áttu þá jörð.

9) Sigríður átti Jón Ögmundsson frá Bæ í Hrútafirði, kona Ögmundar hèt Guðrún Böðvarsdóttir Sigmundssonar, launsonar Þorleifs lögmanns Pálssonar.

10) Halldóra fór til Skálholts.

11) Þuríður giptist á Vestfjörðu.

12) Andrès var á Melgraseyri, orðlagður söngmaður.

1. Halldór á Melgraseyri[1].
2. Svanborg[2].

d. Steinunn átti Jón Oddsson[3], er strauk 1610; þeirra börn:
1. Brandur[4].
2. Halldór.
3. Oddur[5].

e. Sigríður, fell með Jóni Oddssyni, henni drekkt.

f. Steinunn önnur átti sèra Þorstein[6] Oddsson, börn:
1. Guðrún[7].
2. Gísli[8].

---

1) Kona Halldórs var Kristrún Bjarnadóttir Einarssonar frá Hamri, hennar móðir Guðrún dóttir Þorláks Einarssonar bróður Gissurar biskups.

2) Svanborg átti Þórarinn, son síra Gísla Einarssonar í Vatnsfirði. Enn voru börn Valgerðar og Andrèsar:

3. Þorgerður, hún giptist Greipi Jónssyni á Gillastöðum, sonar síra Greips á Snæfjöllum, Þorleifssonar Björnssonar frá Reykhólum.
4. Valgerður Andrèsdóttir átti Bjarna nokkurn Bjarnason, er brenndur var fyrir galdra.

3) Jón Oddsson var sonarson Þorsteins, seinasta manns Þórunnar á Grund.

4) Brandur, hans kona Anna Bjarnadóttir.

5) Oddur, hans son
Þorsteinn, frá honum er ætt.

Guðrún var enn dóttir Jóns Oddssonar og Steinunnar, hún átti Hnausa-Björn Jónsson Ingimundarsonar, og var ætt frá þeim.

6) Síra Þorsteinn Oddsson var bróðir áður nefnds Jóns Oddssonar.

7) Guðrún, hennar maður Jón Ketilsson á Heinabergi.

8) Gísli átti Halldóru Magnúsdóttur af Vestfjörðum.

3. Böðvar[1].
4. Oddur.
5. Helga.
6. Tómas[2].
7. Ráðhildur[3].
8. Guðbjörg.
9. Bergur.
10. Ólafur. Þeir báðir dóu í Englandi, fleiri dóu ung.

G. Guðrún átti fyr Guðmund Gíslason í Finnstungu; þeirra börn:

a. Ólafur í Sölfatungu, átti Steinunni Þorleifsdóttur[4]; þeirra börn:
   1. Síra Þorleifur[5].
   2. Guðrún.

b. Helga átti Björn Þorleifsson á Skálmarnesi og börn:
   1. Sigríður[6].
   2. Guðrún[7].
   3. Hallbjörg[8].

c. Gísli.

d. Ingunn átti Bjarna Ólafsson[9] og mörg börn.

---

1) Böðvar var seinni konu son síra Þorsteins og Helga eins.

2) Tómas átti Húnbjörgu Halldórsdóttur Jónssonar.

3) Ráðhildur dó barn, og eins hafa víst Oddur og Guðbjörg gjört.

4) Þorleifur faðir Steinunnar var Bjarnason frá Fellsenda, en sumar ættartölur telja Ólaf eigi son þessa Guðmundar.

5) Síra Þorleifur átti Þórunni Kortsdóttur Þormóðssonar.

6) Sigríður átti síra Ásgeir Einarsson í Tröllatungu.

7) Guðrún átti Árna Einarsson á Ósi, bróður síra Ásgeirs í Tröllatungu.

8) Hallbjörg ógipt, barnlaus.

9) Ólafur faðir Bjarna var Ólafur á Hafgrímsstöðum, son síra Tómasar Eiríkssonar á Mælifelli og Þóru Ólafsdóttur prests á Helga-

e. Ástríður[1] átti Finnboga á Keldulandi, svo Hjálmar, og börn mörg.

f. Oddur.

g. Guðrún[2].

h. Signý[3] og fleiri.

Langtum fleiri eru afkomendur þessara manna, sem eg nenni eigi að ritfæra.

Um uppvöxt og menningu Egils er óljóst að öðru leyti en því, að hann kallast mikill höfðingi í sinni tíð og er talinn meðal þeirra, sem konungur Kristján þriðji skrifaði 1550 um að fanga Jón biskup Arason. Er ekki ólíklegt, að hann hafi nokkur ár haft hálft Húnaþing, þótt ekki hafi eg sjeð, að hann hafi látið þar dóma ganga; en í sumum ættartölubókum kallast hann sýslumaður í Húnaþingi, en eg efa samt, að hann hafi haft það utan hálft, annaðhvort móts við Pál Grímsson eða Þormóð Arason, því sýsluna hèldu þá opt 2 sýslumenn.

Egill bjó á Geitaskarði í Langadal, (það kallaðist fyrrum stundum Skarð) og dó þar að sögn Björns á Skarðá 1560. Tilgáta mín er, að Egill hafi haldið sýslunna hálfa eptir 1556, eða þá í fyrstu verið umboðsmaður Odds lögmanns Gottskálkssonar, og síðan 1556 haldið alla sýsluna til síns dauða 1560.

---

stöðum, stjúpdóttur Jóns biskups Arasonar. Tómas son Bjarna Ólafssonar hefir rakið ætt sína til Helgu, barnamóður Jóns biskups Arasonar, til Gottskálks biskups grimma og til Lopts ríka.

1) Ástríður seinni kona Hjálms Stefánssonar var ekki dóttir Guðmundar Gíslasonar í Finnstungu, heldur Flatatungu.

2) Guðrún átti Pètur Gunnarsson frá Víðivöllum; en Guðrún laundóttir Guðmundar var kona síra Brynjólfs Árnasonar á Bergstöðum.

3) Signý var kona Einars Rafnssonar á Lækjamóti.

Valdís hèt enn dóttir Guðmundar, hún var kona síra Sumarliða Einarssonar.

### Þormóður Arason.

*Faðir:* Ari sýslumaður Guðnason, sjá hèr að framan[1].

*Börn:* A. Guðni[2] í Húnavatnssýslu, átti Þóru, þeirra börn:

a. Sigurður, átti Margrèti, dóttur Fúsa, launsonar Jóns Grímssonar[3] og Margrètar, þeirra börn:

1. Gísli í Flóatanga, barnlaus.
2. Guðni í Hraunhöfn og Kirkjufelli, átti Guðrúnu dóttur Jóns á Knerri Steindórssonar sýslumanns; sjá Snæfellsnessýslu, þau áttu börn:
3. Bjarni í Múla átti Eydísi, aðrir Elísabetu Ólafsdóttur og börn.
4. Halldóra átti Hallstein í Fellsöxl og börn.
5. Þóra[4] átti 2 menn, og börn með báðum.
6. Guðrún átti Svein Steinólfsson[5] og börn.
7. Guðrún ýngri átti Rafn á Mógilsá.

b. Snjálaug átti Freystein Jónsson, börn:

1. Jón[6].

---

1) *Kona* Þormóðar hèt Ingibjörg Salómonsdóttir; hafði hún áður verið gipt Sigurði nokkrum, og hèt sonur þeirra Einar. Ingibjörg virðist að hafa verið ættuð sunnan úr Borgafirði.

2) Það er sagt, að Guðni hafi búið á Sámstöðum í Hvítársíðu, og þetta er víst, því í vitnisburðarbrèfi nokkru, er hann hefir útgefið 1596, segist hann hafa búið í Borgarfirði síðan hann kom úr Norðurlandi, í 36 ár, á þessum jörðum: Sleggjulæk, Hjarðarholti, Síðumúla og eignarjörðu sinni Sámstöðum.

3) Jón Grímsson, er veginn var í Síðumúla af Jóni Murta Eggertssyni. Móðir Vigfúsar var Kristín dóttir Vigfúsar hirðstjóra Erlendssonar.

4) Þóra átti fyrst Sæmund Brandsson, þeirra son Vigfús í Múlakoti. Seinni maður hennar Páll Oddson á Kjalarnesi

5) Steinólfur var Loptsson og hèt kona hans Asdís Höskuldardóttir.

6) Kona Jóns hèt Þóra Bárðardóttir.

2. Eiríkur[1].
3. Guðni[2].
4. Gissur[3].
5. Þóra[4].
6. Ingibjörg[5].
7. Guðrún[6].

c. Þórlaug átti Jón í Lambhaga[7], þeirra börn:
1. Guðni[8].
2. Ólöf[9].

d. Guðrún átti Tuma á Arnbjargarlæk, sjá Hegranesþing, þeirra börn:
1. Jón[10].

---

1) Eiríkur átti Önnu dóttur Jóns Magnússonar og Úrsölu Einarsdóttur.

2) Guðni átti Sigríði dóttur Vermundar Pèturssonar og Guðrúnar Þórðardóttur.

3) Gissur átti Oddnýju dóttur síra Jóns Nikulássonar í Hítarnesi.

4) Þóra giptist ekki, átti 2 launbörn.

5) Ingibjörg var seinni kona Pèturs Þorsteinssonar á Karlsá nyrðra.

6) Guðrún átti Jón son Þórðar Ketilssonar á Veggjum og Sigríðar Sigurðardóttur.

7) Jón var bróðir Freysteins, er átti Snjólaugu systur Þorlaugar; þau bjuggu í Árdal.

8) Guðni átti Vilborgu dóttur Jóns Nikulássonar á Sleggjulæk og Elínar Sígurðardóttur; þau bjuggu í Lambhaga.

9) Ólöf átti Ásbjörn á Læk, bróður Vilborgar.

10) Jón á Arnbjarnarlæk átti Margrèti, dóttur Þorkels Gíslasonar; þeirra börn:

α. Jón átti Sigríði Vermundardóttur Pèturssonar, hann var hennar seinni maður.

β. Guðrún átti Hall, son Jóns Guðmundssonar vestra og Guðrúnar Árnadóttur.

γ. Ástríður átti Narfa, son síra Jóns gamla á Staðarhrauni (hann varð 113 ára gamall) og Þórdísar Jónsdóttur.

2. Jón annar[1].
3. Þormóður[2].
4. Guðmundur[3].
5. Salómon[4].
6. Sigurður[5].
7. Þóra[6].
8. Matthildur[7].
9. Oddný[8].

e. Ingibjörg[9] átti Bergþór Hallsson, þeirra börn:
1. Þorbjörg.
2. Hallbera.
3. Helga.
4. Þorbjörn.
5. Halldóra.

B. Ari Þormóðsson, hans son:

a. Guðmundur, hans synir:
1. Sveinn.
2. Jón á Kinnastöðum, átti börn.

---

1) Jón yngri Tumason á Spóamýri, hann átti Hallberu, dóttur Jóns Jónssonar á Steinum og Ástríðar Þorkelsdóttur.

2) Þormóður Tumason átti fyrst Ingiríði Árnadóttur Skúlasonar, síðan Kristínu Aradóttur Tumasonar.

3) Guðmundur átti Guðrúnu Þorkelsdóttur, síðan Ástríði Grímsdóttur.

4) Salómon Tumason, afkvæmi hans komst eigi upp,

5) Sigurður Tumason átti Þórdísi Erlendsdóttur Bjarnasonar.

6) Þóra Tumadóttir átti Þorkel, son Jóns Jónssonar og Ástríðar Þorkelsdóttur á Steinum.

7) Matthildur Tumadóttir átti Jón Jónsson Magnússonar og Ingveldar, dóttur síra Jóns gamla Jónssonar.

8) Oddný Tumadóttir átti Jón Jónsson, bróður Freysteins (Freysteinn hefir að líkindum átt tvo Jóna fyrir bræður).

Hallur Tumason á Stóru-Reykjum í Flókadal átti Sigríði Sigurðardóttur.

9) Sumir nefna konu Bergþórs Ingunni; Hallur faðir Bergþórs var son síra Ólafs í Saurbæ Kolbeinssonar.

b. Þormóður bjó í Múlakoti við Þorskafjörð og átti börn.

C. Sigurður[1], hvað af honum er komið, er mèr óljóst. Hvort Þormóður hefir verið laungetinn og hvort hann sjálfur hefir gipzt, er mèr dulið, en ritfært er, að hann hafi verið kunnugur Steinunni Jónsdóttur, barnamóður síra Björns á Melstað, þegar Steinunn var á millum manna, og hefði það þá átt að vera 1551 eða 1552, því Steinunn giptist Ólafi 1553, en Steinunn sór bókareið fyrir Þormóð Arason, svo orðrómur þessi hefir verið ósannur.

Þormóður mannaðist vel og var haldinn maður vitur.

1543, fimmtudaginn eptir tveggja postula messu Simonis et Judæ, hefir Þormóður með Jóni biskupi staðfest útskript af Kristjáns konungs fyrsta löngu rèttarbót.

1550 er Þormóður orðinn sýslumaður, því svo kallast hann í Oddeyrardómi 15. júní 1551; er líklegast, að hann hafi haft hálfa sýsluna. Að Bessastöðum var hann og kallaður af hirðstjóranum Knúti Steinssyni ásamt öðrum landsins helztu höfðingjum 1555 á Jónsmessu til að svara upp á erindagjörðir Knúts, sem hann hafði út hingað frá Kristjáni konungi 3., dagsettum Nyborg, onsdaginn eptir dominica oculi 1555, um 1. hálfkirkna og ónauðsynlegra bænhúsa aftekningu; 2. veraldlegar fjársakir fyrir sýslumönnum; 3. um tíundir af öllum jörðum; 4. skólanna uppheldi; 5. beneficia og prestsetur af hverjum haldast skuli; 6. um biskupa visitatíur og fylgd sýslumanna.

Að vísu hefir Þormóður haldið hálft Húnaþing til 1554, þá virðist Oddur lögmaður Gottskálksson að hafa tekið það (1553 virðist hann að hafa verið umboðsmaður Orms lögmanns). Hann kallar sig svarinn lögrèttumann ásamt Páli Grímssyni, Oddi Ásmundssyni, Guðmundi Skúlasyni, Jóni Gíslasyni og Lopti Guðmundssyni; er Þormóður fyrstur talinn í þeim dómi, er Oddur lögmaður lèt ganga á alþingi um arf eptir Halldór

---

1) Þormóður Sigurðsson kemur fyrir í Húnavatnssýslu á þeim tíma, er samsvarar því, að hann væri son Sigurðar Þormóðssonar.

Brandsson, sem Tuma Þorgrímssyni, vegna Jóns Finnbogasonar, og síra Einari Magnússyni eigi um samdi.

Ellefu árum síðar eða 1565 er Þormóður aptur sýslumaður í Húnavatnsþingi, því þá ljet hann, sem sýslumaður konungs, dóm ganga að Sveinsstöðum í Vatnsdal, laugardaginn næstan fyrir hvítasunnu, með tilnefndum 12 mönnum: Jóni Gíslasyni, Sigurði Þormóðssyni, Þórarni Gíslasyni, lögrjettumönnum, og 9 bændum, um fátæka, sem eigi eiga framfæri eða hreppsvist, en hafa fyr gengið; þar um gengu dómar í öðrum sýslum, og urðu eins atkvæðin. Jeg held þó, að Þormóður hafi þá fremur verið umboðsmaður Árna sýslumanns Gíslasonar, heldur en að Árni hafi sleppt við hann hálfri sýslunni[1].

---

1) Þormóður lifði enn 1572, en var þá orðinn svo veikur og sinnulaus, að í máli nokkru, er Guðbrandur biskup þá höfðaði gegn honum, Sigurði syni hans og Einari Sigurðssyni, stjúpsyni hans, út af jörðinni Másstöðum, dæmdu dómsmennirnir, að Sigurður sonur Þormóðar hefði svar og umboð föður síns, þar þeim virtist, að hann í engan máta mætti það sjálfur hafa sakir veikleika og sinnuleysis. Jón lögmaður Sigmundsson hafði átt Másstaðina, en Einari syni hans höfðu skipzt þeir, ásamt jörðunum: Marðarnúpi, 20 hndr. í Tungu, Melatúni, Grund og Gilјá í arfaskipti eptir móður sína Guðrúnu Gunnlaugsdóttur til móts við bróður sinn Guðna, er þá var nýdáinn (er skiptin fóru fram) og erfði Jón Guðna son sinn. Einar Jónsson fèkk síðan Jóni biskupi Arasyni Másstaði, sem fyr er getið (þótt þess sè eigi getið í dóminum), og Jón biskup aptur Þormóði fyrir Galtarholt í Borgarfirði, er var málajörð konu Þormóðar, Ingibjargar Salómonsdóttur. Dómsmennirnir dæmdu Helgu Jónsdóttur, móður Guðbrandar biskups, og hennar meðörfum Másstaðina til arfs og eignar eptir bróður sinn Einar heitinn Jónsson, svo sem skiptabrèfið ávísaði, og að Guðbrandur biskup eptir umboði sínu mætti taka þá að sèr þá í fardögum, en þeim bræðrum Einari og Sigurði andvirði sitt, jörðina Galtarholt, er vera skyldi móðurarfur þeirra eptir móður þeirra Ingibjörgu. Dómur þessi fram fór á Sveinsstöðum í Vatnsdal 1572, mánudaginn næstan eptir páskaviku, og út-

**Einar Þórarinsson.**

*Faðir*: Þórarinn[1], kallaður Laga-Þórarinn, og rekja sumir ættina þannig: Þóra Einarsdóttir í Bólstaðarhlíð, hennar

---

nefndi Ormur lögmaður Sturluson dómsmennina, er voru 12, hafði þó málið áður verið dæmt í áður sagðan stað og dag undir útnefnd Jóns Björnssonar, er þá hafði konungsins sýslu og umboð í Húnavatnsþingi, en sakir þess, að Guðbrandur biskup, Þormóður og Sigurður urðu samþykkir sín á milli með handsölum, að málið gengi undir utnefnd lögmannsins, fyrst hann var svo nálægur, þá þótti dómsmönnum það eigi á móti lögum vera, þótt hann þing setti og dóma útnefndi. Jón Björnsson (ɔ: sýslumaður) var einn af dómsmönnunum, og fyrst nefndur þeirra.

Af þessum dómi má sjá, að Einar hefir ekki verið sonur Bjargar, seinni konu Jóns, þótt sumar ættartölur telji svo, heldur Guðrúnar fyrri konu hans. Það er og í sumum ættartölum talin ætt niður frá syni Einars, en sá sonur Einars hlýtur að hafa verið óskilgetinn.

1) Sjá um framætt Þórarins, Tímarit mitt, 1. b., bls. 17. Þóra var dóttir Dálks Einarssonar, er bæði átti Bólstaðarhlíð og Reyki í Tungusveit, og líklega hefir dáið í banni, og því eigi fyrst verið grafinn í kirkjugarði, en síðan leystur úr því dauður, og þá tekinn upp og jarðaður í kirkjugarði: á þetta sýnist vísan benda:

Langt er síðan Dálkur dó,
drottinn hefir friðað hann,
hans dóttirin há og mjó
úr haugnum dró út trèsleðann.

Sonur Þóru hèt Einar, faðir Bergs, föður Steindórs, föður Þórarins, föður Einars lögrèttumanns í Bólstaðarhlíð. Þórarinn Steindórsson var veginn af Gísla presti Finnbogasyni, föður Guðrúnar Gísladóttur, móður Steinunnar, laundóttur Guðbrandar biskups. Þessi Þórarinn var ekki kallaður Laga-Þórarinn, og hann var ekki faðir Ólafar, seinni konu síra Einars Sigurðssonar í Eydölum, heldur hèt faðir hennar Þórarinn Gíslason og var kallaður Laga-Þórarinn, bjó hann í Húnavatnssýslu og var bróðir Þórunnar Gísladóttur, konu Jóns Ormssonar á Dratla-

son, Bergur samastaðar; hans son Steindór samastaðar; hans synir: 1. Síra Sigmundur og 2. Þórarinn, mikill lagamaður; hans börn: α. Ólöf seinni kona síra Einars í Eydölum, β. Einar lögsagnari í Bólstaðarhlíð fyr nefndur.

*Móðir:* Oddný Jónsdóttir.

*Kona:* Guðrún Þorsteinsdóttir[1].

*Börn:* A. Skúli á Eiríksstöðum í Svartárdal átti Steinunni laundóttur Guðbrandar biskups með Guðrúnu dóttur síra Gísla Finnbogasonar; þeirra börn:

1. Þorlákur biskup, fæddur 1597, átti Kristínu Gísladóttur[2]. Þorlákur biskup dó 1656, 59 ára.
2. Einar, Fljóta umboðsmaður, átti Þuríði dóttur síra Sigurðar Jónssonar[3]; börn:
   a. Sira Jón á Reynisstað[4].
   b. Skúli[5].
   c. Einar[6].
   d. Illugi[7].
   e. Bergljót[8]
   f. Ragnheiður[9].

---

stöðum nyrðra. Það er heldur ekki rètt, að síra Sigmundur Steindórsson, faðir Jóns lögmanns, hafi verið sonur Steindórs þessa og bróðir Þórarins Steindórssonar.

1) Móðir Guðrúnar Þorsteinsdóttur hèt Guðrún Bessadóttir.

2) Faðir Kristínar var Gísli lögmaður Hákonarson.

3) ɔ: í Goðdölum, sjá hèr að framan.

4) Síra Jón átti Steinunni dóttur síra Hallgríms í Glaumbæ; hann drukknaði í Hèraðsvötnum, og var að eins prestur í hálft ár.

5) Skúli átti fyrst Guðrúnu dóttur Sigurðar Hólabrita Jónssonar, síðan Valgerði Jónsdóttur að austan.

6) Einar skólagenginn, lögrèttumaður á Héðinshöfða, átti Halldóru dóttur síra Jóns Guðmundssonar á Rúgstöðum.

7) Illugi trèsmiður í Sólheimum átti Þorbjörgu Gunnarsdóttur að austan.

8) Bergljót átti síra Guttorm Sigfússon á Hólmum í Reyðarfirði.

9) Ragnheiður átti Martein Rögnvaldsson sýslumann.

g. Björg[1]
h. Halldóra[2].
i. Síra Jón[3].
k. Bergþór[4].
l. Guðmundur[5], laungetinn.
3. Þorvaldur átti Guðrúnu Erlendsdóttur[6]; þeirra börn:
a. Jón[7].
b. Steinunn[8].
c. Björg[9].
d. Síra Björn[10].

---

1) Björg átti launbarn með Jóni í Vík Hallgrímssyni, Halldórssonar lögmanns. Þóra dóttir Jóns og Bjargar átti Jens sýslumann Madtson Spendrúp.

2) Halldóra átti Jón Árnason Daðasonar frá Eyrarlandi.

3) Víst sami og fyr var talinn.

4) Bergþór átti fyrst launbarn með Þórdísi Bjarnadóttur Styrssonar, hèt Sigurður. Svo giptist hann fyrir austan Ragnhildi dóttur Ásmundar Guðmundssonar og Hróðnýjar.

5) Guðmundur átti Solveigu Eiríksdóttur Björnssonar, sá Eiríkur var bróðir síra Gunnars á Hofi í Skagafirði (sjá hèr að framan).

Enn teljast börn Einars:

m. Helga átti Jón lögrèttumann Jónsson á Grund í Svínadal.
n. Steingrímur, laungetinn, átti Lísbetu Jónsdóttur að austan.

6) Erlendur var Magnússon, en móðir Guðrúnar var Þórdís Hinriksdóttir, svo átti Þorvaldur Kolfinnu Þorleifsdóttur (búramanns).

7) Jón átti Sesselju Jónsdóttur Jónssonar prentara.

8) Steinunn Þorvaldsdóttir, var kvenna fríðust, átti síra Gísla Bjarnason í Blöndudalshólum.

9) Björg átti fyr Helga Hallsson frá Hálsi í Svarfaðardal, svo Svein Pálsson bróður Jóns á Yztagili.

10) Síra Björn í Hvammi í Laxárdal, missti kallið, átti Guðrúnu Halldórsdóttur prests Þorsteinssonar frá Þingeyrum og Steinunnar Egilsdóttur frá Geitaskarði, sjá hèr að framan.

4. Valgerður átti síra Vigfús[1] Árnason; börn:
   a. Síra Vigfús[2].
   b. Síra Árni[3].
   c. Björg[4].
   d. Ingunn[5].
   e. Guðrún[6].
   f. Þorbjörg[7].
   g. Steinunn[8].
5. Björg átti Bergþór Sæmundsson prests, hann dó 1647. Þeirra börn:
   a. Kár[9].
   b. Sigurður[10].
   c. Guðrún[11].

---

Enn teljast börn Þorvaldar:

e. Guðrún átti Odd Jónsson, lögrèttumann í Skaptárþingi.
f. Hallfríður átti Jón Jónsson í Þverdal.
g. Bjarni átti Kristínu Jónsdóttur Grímssonar frá Guðrúnarstöðum í Vatnsdal.

Það er sagt, að Þorvaldur hafi alls átt 20 börn. Kolfinna var móðir síra Björns og Guðrúnar.

1) Síra Vigfús var prestur á Hofi í Vopnafirði.

2) Síra Sigfús eða Vigfús á Dvergasteini átti fyr Sigríði Þorsteinsdóttur, barnlaus, svo Önnu Björnsdóttur frá Gilsárteigi.

3) Síra Árni á Hólmum, dó ógiptur, barnlaus.

4) Björg átti síra Ólaf Gíslason á Hofi.

5) Ingunn átti Jón Ásmundsson á Ormarsstöðum.

6) Guðrún átti Sigurð í Krossavík Þorgrímsson.

7) Þorbjörg átti Pètur Ásmundsson frá Ormarsstöðum.

8) Steinunn átti Pètur sýslumann á Bustarfelli Bjarnason.

Enn teljast börn Valgerðar og síra Vigfúsar:

h. Helga átti síra Guðbrand Jónsson (hann var kapellán hjá föður sínum síra Jóni Bessasyni á Sauðanesi).
i. Ingibjörg kona síra Sigfúsar Sigurðssonar á Refstað.

9) Kár átti Rannveigu Jónsdóttur Stígssonar prests á Miklabæ.

10) Sigurður átti Þuríði, dóttur Ólafs Jónssonar og Solveigar Hjaltadóttur.

11) Guðrún átti Skúla Egilsson frá Yztu-Grund

d. Þóra[1].
e. Ólafur[2], laungetinn.
6. Björg yngri átti Hrólf sýslumann, sjá Þingeyjarþing.
7. Guðrún kona síra Halldórs Teitssonar í Gufudal; börn:
a. Síra Teitur[3], prestur samastaðar.
b. Þorgrímur[4].
c. Þóra[5].
8. Halldóra átti Illuga Hóla ráðsmann Jónsson, sjá Þingeyjarþing[6]; þeirra börn:
a. Síra Þorsteinn á Völlum.
b. Jón á Urðum.
c. Skúli snikkari.
d. Þórdís og fleiri[7].

B. Guðný Einarsdóttir, átti Jón sýslumann Egilsson, sjá hèr síðar.

C. Jón á Gunnsteinsstöðum í Langadal átti fyr Rann-

---

1) Þóra átti Árna í Haga í Reykjadal, son Björns á Laxamýri.

2) Ólafur telst son Bjargar, og þá víst son Bergþórs, en hann átti launson, er hèt

Skúli, var lögrèttumaður og bjó á Seilu, átti Halldóru dóttur Halldórs Þorbergssonar. Ólafur var djákni á Reynisstað.

3) Síra Teitur átti Margrèti Eggertsdóttur Sæmundssonar, sonar Árna Gíslasonar á Hlíðarenda, barnlaus.

4) Þorgrímur átti Sesselju Sæmundsdóttur Eggertsonar Sæmundssonar.

5) Þóra átti síra Hannes Benidiktsson á Snæfjöllum.

6) Bls. 77.

7) Enn voru börn Skúla og Steinunnar:
9. Ingunn kona síra Magnúsar á Mælifelli Jónssonar.
10. Helga, kona síra Þórðar sonar síra Gísla Jónssonar og Ingunnar frá Hrafnagili.
11. Sesselja kona Bárðar Gíslasonar Diðrikssonar; hann var mikill lagamaður; bjuggu þau á Ási í Vatnsdal.

veigu Egilsdóttur, sjá hèr að framan; svo Solveigu Nikulásdóttur, þau barnlaus.

D. Guðmundur átti Ljótunni, dóttur Páls Grímssonar, sjá hèr að framan, þeirra börn:

1. Þuríður átti síra Bjarna Gamlason, þeirra börn:
   a. Síra Guðmundur á Grenjaðarstað.
   b. Sigríður.
   c. Sigríður önnur.
   d. Ingunn.
   e. Margrèt og fleiri.
2. Ari átti Steinunni Einarsdóttur, börn:
   a. Guðmundur lögrèttumaður í Flatatungu átti Guðrúnu Björnsdóttur[1]; börn:
      1. Síra Ari á Mælifelli[2].
      2. Síra Guðmundur[3] í Stærra-Árskógi.
      3. Ingjaldur[4].
      4. Ólafur[5].

---

1) Foreldri Guðrúnar voru Björn Magnússon á Laxamýri og Guðrún Þorsteinsdóttir Illugasonar.

2) Síra Ari á Mælifelli átti Ingunni, dóttur síra Magnúsar Jónssonar á Mælifelli og seinni konu hans Ingiríðar Jónsdóttur.

3) Á að vera síra Jón, hans kona Ingibjörg dóttir síra Þórarins Ólafssonar á Bægisá. Síra Jón var mesti listamaður og skáld gott.

4) Ingjaldur átti Þuríði dóttur Jóns Jónssonar á Hafgrímsstöðum.

5) Ólafur var lögrèttumaður, en var ómögum hlaðinn og fátækur; kona hans hèt Kristín, systir Ingibjargar konu síra Jóns bróður hans.

Enn voru börn Guðmundar Arasonar í Flatatungu:

5. Ólöf, af henni telst síra Jónas Benidiktsson kominn.
6. og 7. Guðrúnar tvær.
8. og 9. Kristínar tvær.

Í ættartölu Einars nokkurs Ólafssonar er enn fremur talinn son Guðmundar:

b. Steinunn[1] átti Helga Oddsson Tómassonar. Laga-Þórarinn[2] er í flestum ættartölum kallaður Gíslason, en aðrir segja Steindór hafi verið faðir Þórarins, og sá Steindór son Gísla á Hafgrímsstöðum og bróðir Árna sýslumanns á Hlíðarenda.

1569 (ártalið er auðsjáanlega rangt og á víst að vera 1579

---

10. Gísli, hans son
Bjarni á Brekkulæk, hans son
Vilhjálmur í Happahlíð, svo Bjargi og seinast Röfu, hans kona hèt Signý Bjarnadóttir, þeirra son
Ólafur, fæddur 1. nóvember 1771, hans son nefndur
Einar.

Af dómi nokkrum sèst og, að einn son Guðmundar hefir heitið Pètur og að systir hans hefir heitið Helga, af henni var komin Margrèt nokkur Ólafsdóttir, sem 1676 var dæmd á þá bræður Ingjald og Pètur.

Guðmundur Arason var merkismaður, og er margt heldra bændafólk í Skagafirði af honum komið; hann var annálað hraustmenni, skólagenginn og lögrèttumaður.

1) Þetta er án efa misskrifað og á að vera: Steindór átti Helgu Oddsdóttur o. s. frv., sjá hèr að framan.

2) Það er rètt, eins og áður er sagt, að Þórarinn sá, er kallaður var Laga-Þórarinn, var Gíslason, en hann var ekki faðir Einars Þórarinssonar í Bólstaðarhlíð; að Steindór faðir Þórarins, föður Einars í Bólstaðarhlíð, hafi verið son Gísla Hákonarsonar á Hafgrímsstöðum og þá bróðir Árna Gíslasonar á Hlíðarenda og þeirra bræðra Gísla sona, nær engri átt, hitt kynni að sýnast rèttara, sem sumir hafa haldið (en eg hef samt hvergi sèð það nema sem getgátu), að Filippus Þórarinsson á Svínavatni, er veginn var á Auðkúlu og átti eina af þeim Svalbarðssystrum, hafi verið bróðir Einars Þórarinssonar í Bólstaðarhlíð, þó held eg þetta eigi rètt, heldur álít eg að Filippus þessi hafi verið son Þórarins þess Jónssonar, er 1514 gjörði Gottskálk biskupi reikningsskap Svínavatnskirkju, því bæði kemur þetta heim við tímann, er báðir hafa lifað á, svo áttu og báðir Svínavatn, og loksins benda nöfnin á þetta, og eg verð að álíta þetta vafalaust.

eða eptir 1572, því Jón lögmaður fèkk eigi Húnavatnsþing fyrri en 1577, og Guðbrandur varð eigi biskup fyrri enn 1570) dæmdi Guðbrandur biskup og Jón lögmaður Jónsson um klögun Skúla Einarssonar í Hlíð, sem eignarmanns Stafns í Svartárdal, og síra Brynjólfs Árnasonar á Bergstöðum, sem verjanda; er þá getið Einars Þórarinssonar umboðsmanns í Húnavatnsþingi, sem þetta ár hefir dæmt Bergstaða kirkju Fossárdal. Sè getgáta mín sönn um ártalið, hefir hann verið umboðsmaður Jóns lögmanns Jónssonar; ef hið fyrra ártal væri rètt, þá hefði hann mátt vera Þorvalds eða Jóns Björnssonar umboðsmaður; en Jón sýslumaður Jakobsson heldur, að hann hafi verið umboðsmaður Árna sýslumanns Gíslasonar, hefði það þá átt að vera fyrir 1569, því það ár hafði Árni Gíslason sleppt sýslunni, en Guðbrandur var þá eigi orðinn biskup. Hitt er víst, að Einar hefir um tíma haft umboð í Húnavatnsþingi.

### Ormur Sturluson.

Sjá um hann við Snæfellsnessýslu. Ormur hafði Húnavatnssýslu í lögmannslaun 1551, 1552 og 1553, en missti þessa sýslu og Munkaþverárklaustur og lögmanns embættið 1553.

### Oddur Gottskálksson.

Sjá um hann við Hegranessýslu. Hann tók við lögmannsdæminu eptir Orm og líklega sýslunni (í lögmannslaun) 1554; en fyrir og um 1550 hafði hann Þverárþing, til þess að hann tók Hegranesþing og Reynistaðarklaustur 1553. Áður, 1545, hèlt hann Reykholt og þessum veitingum hèlt hann, til þess að hann drukknaði í Laxá í Kjós á þingferð 1556.

Óljóst er, hver hans umboðsmaður hefir verið í Húnavatnsþingi, þó gáta sè um áður áminnzta menn og Odd Halldórsson 1554. Oddur lögmaður lèt 1554 dóm ganga í Bólstaðarhlíð með 6 mönnum, um gripdeild á hesti. 1556 laugardaginn næsta eptir fardagaviku á Reynistað, lèt Oddur dóm ganga um Gautastaði.

### Árni Gíslason.

Sjá um hann við Skaptárþing, hann var fyrst áhangandi síra Jóni Eiríkssyni í Vatnsfirði. Árni hafði ungur lagt sig eptir lærdómsmenntum, og sigldi hèðan af landi til meiri menn-

ingar. Þegar Árni var í Vatnsfirði umboðsmaður síra Jóns, hèlt hann við Helgu dóttur síra Tómasar á Mælifelli, og keypti Hnífsdal handa henni til ábýlis, þá er hann giptist Guðrúnu Sæmundsdóttur. Guðrún hèt dóttur Helgu og Árna, er hann gipti Jóni á Svarfhóli nálægt 1561. Eptir það að Árni giptist Guðrúnu Sæmundsdóttur frá Ási, tók hann að ákæra yfirgang Björns sýslumanns Guðnasonar og tengdamanna hans; gekk þar í dómur Odds lögmanns, og var málið dæmt undir konung 1554; Árni sigldi sama ár, fèkk nokkra uppreisn, hafði það ár hálft Rangárþing, en óvíst hvort það var að veitingu eða í umboði Páls Vigfússonar á Hlíðarenda. 1556 gat hann þrengt sèr inn í Ísafjarðarsýslu til bekknis við Eggert Hannesson. 1558 föstudaginn næstan eptir fardagaviku hefir hann fengið Húnavatnsþing, því þá kallast hann þar umboðsmaður konungs, er hann um vorið lætur dóm ganga að Sveinsstöðum í Vatnsdal, og nefndi í dóm Einar Sigurðsson, Sigurð Þormóðsson, Þórarinn Gíslason, Guðmund Ingimundarson, Gísla Brandsson og Fúsa Ólafsson um það, hver með rèttu hafa skyldi umboð barna síra Björns heitins Jónssonar; var þar til staðar Jón Björnsson tvítugur að aldri, og beiddist dóms á, hvort hann að lögum væri skyldugur að taka að sèr umboð barna síra Björns. Dæmdu dómsmenn, að með því Jón Bjarnarson væri ættleiddur af föður sínum og ætti að lögum að taka arf eptir systkini sín, væri hann skyldur eptir Herjólfs rèttarbót, að takast á hendur umboðið, svo mikið sem hann hefði vörzlur fyrir[1].

1559, 5, dag marzmánaðar, veitti Friðrik konungur annar, sonur Kristjáns þriðja, Árna sýslumanni Þingeyraklaustur með eitt hundrað Jóachims dala árlegu afgjaldi.

Sama ár, þriðjudaginn næstan fyrir Pálsmessu, var dæmdur helmingadómur Árna sýslumanns og síra Þorsteins prófasts Gunnarssonar á Sveinsstöðum um það, hvort löglegt væri hjóna-

---

1) Árni Gíslaon hefir verið orðinn sýslumaður í Húnavatnssýslu 1557, því það er til vitnisburður Hálfdáns Einarssonar og tveggja manna annara um samning Bjarnar Eyjólfssonar og Árna Gíslasonar, að Björn kvittaði Árna um andvirði Barkastaða, en Árni aptur Björn um allt það, er hann mætti kvitt gefa sem konungs umboðsmaður í Húnavatnsþingi, Stóruborg 1557.

band Guðmundar Ingimundarsonar, er fengið hafði Guðrúnar án ráðs foreldra hennar og skilgetins bróður, og þar að auki var Guðrún áður öðrum manni lofuð, dæmdu þeir hjónabandið ógilt.

Árni var mesti auðmaður og höfðingi, og framkvæmdarmaður hinn mesti, harðgjörður, lögvitur og málafylgismaður hinn mesti. Fyrir utan fè Sæmundar tengdaföður síns, hafði hann og vörzlur á fè Jóns prests Eiríkssonar. Í miklu þrasi átti Árni um fè hans og fleira við Eggert lögmann; þeir sættust fyrir helztu manna tillögur 1560, og fèkk þá Árni til viðurlags hjá Eggerti 40 (aðrir 60) hundruð. Árni var og hafður dómari við flest vandamál; hann er fyrstur talinn dómsmanna 1564 í Stóradómi.

1568 fór Árni utan, var Benidikt Halldórsson, er síðan gjörðist sýslumaður í Vaðlaþingi, þá sveinn hans; í þeirri ferð hygg eg að hann hafi fengið veitingu fyrir Þykkvabæjar eða Kirkjubæjar klaustri, en sjálfsagt fyrir allri Skaptafellssýslu.

1569 kom Árni út, og flutti sig 1570 alfarinn að Hlíðarenda (aðrir meina, að hann hafi ekki flutt sig frá Þingeyrum suður fyrri en 1571).

Í Húnavatnsþingi halda menn að Árni hafi sett fyrir umboðsmann sinn Þorvald bónda Björnsson, þá er Árni sigldi 1568; Þorvaldur tók aptur Sigurð Þormóðsson fyrir umboðsmann 1569. Árni sýnist að hafa sleppt Húnaþingi 1570, sem fyr er sagt, en Skaptafellssýslu mun hann hafa sleppt nálægt 1580.

Árni virðist og að hafa tekið Rangárþing að minnsta kosti hálft 1570, því það ár nefnir hann 6 menn í dóm að Kirkjulæk í Fljótshlíð um próventu Guðnýjar, nefnist hann þá valdsmaður konungs í Rangárþingi; þó virðist Nikulás Bjarnarson að hafa verið þar jafnframt sýslumaður eður þá Árna umboðsmaður.

1582 finn eg seinast dóm Árna í Rangárþingi, en fyrst 1570.

Hvort Árni hefir haldið þá sýslu meðan hann lifði eða frásagt sèr hana eptir 1582, veit eg eigi, þó líklegast sè, að hann hafi haldið henni til dauða síns 1587[1].

---

1) Þess ber að geta, að meðan Árni Gíslason hèlt Húna-

## Þorvaldur Björnsson.

*Faðir:* Björn Þorvaldsson Árnasonar á Æsustöðum.

*Móðir:* Herdís, laundóttir Gísla Hákonarsonar á Hafgrímsstöðum; þau Herdís og Björn giptust 1533.

*Kona:* Vigdís dóttir Halldórs Brandssonar[1], hún átti seinna Torfa Vigfússon á Hrauni.

*Son:* Björn í Haukadal í Dýrafirði, fyrri maður Þóru, dóttur Ólafs í Hjarðardal í Dýrafirði, Jónssonar sýslumanns samastaðar, Ólafssonar sýslumanns; þeirra son: Þorvaldur söngmaður einsýni, sjá Dalasýslu, átti Jarðþrúði dóttur Ólafs launsonar Björns Eggertssonar[2]. Þeirra börn:

a. Jón í Hvammi í Dýrafirði átti Ingibjörgu, dóttur Magnúsar timburmanns á Kúlu, sonar síra Guðmundar á Rafnseyri, Skúlasonar lögrèttumanns Jónssonar; börn:
   1. Elín.
   2. Dýs; þeirra börn dóu í stórubolu.

b. Jón yngri á Ketilseyri, átti Halldóru Sigurðardóttur; þeirra börn:
   1. Björn, dó barnlaus.
   2. Elín[3] giptist og átti börn.

c. Guðrún fyrri kona Sæmundar Magnússonar, sjá Ísafjarðarsýslu.

d. Ingveldur, seinni kona Jóns Pálssonar Ólafssonar

---

vatnssýslu, bjó hann til með Ólafi biskupi Hjaltasyni hinn reformeraða kirkjurètt.

1) Kona Halldórs Brandssonar og móðir Vigdísar hèt Agnes Grímsdóttir, var hún systir Jóns Grímsonar, er veginn var í Síðumúla; bróðir Halldórs hèt Helgi.

2) ɔ: lögmanns Hannessonar.

3) Mun eiga að vera Einar, hann átti Elínu, dóttur Jóns Pálssonar Bjarnasonar og Höllu dóttur síra Jóns Ólafssonar á Lambavatni.

prests á Söndum í Dýrafirði, Jónssonar Erlingssonar, Gíslasonar[1] þeirra börn:

1. Þorvaldur í Haukadal[2].
2. Eggert, tvígiptur[3].

e. Björn í Hvammi átti Sigríði í Nesi Bjarnadóttur[4], börn:

1. Jón samastaðar[5].
2. Sigríður[6].
3. Ingibjörg[7].
4. Kristín[8].
5. Herdís[9].
6. Vigdís[10].

Af þessum systkinum er kominn mikill fjöldi bændafólks, einkum í Ísafjarðarsýslu.

---

1) Gísli faðir Erlings á Brjámslæk var Filippusson sonar Sigurðar fóstra, en kona Erlings og móðir Jóns var Kristín, dóttir Orms, bróður Páls, föður Þorleifs lögmanns.

2) Þorvaldur átti fyr Helgu Ísleifsdóttur prests á Eyri við Skutulsfjörð, barnlaus, síðan Jóhönnu, dóttur Snæbjarnar bartskera í Tjaldanesi, sonar síra Björns Snæbjörnssonar á Staðastað.

3) Eggert átti fyr Höllu Jónsdóttur Þorvaldssonar, seinni kona hans er eigi nefnd.

4) Aðrir telja konu Björns Guðrúnu Bjarnadóttur frá Nesi, Arnórssonar frá Rekavík á Ströndum og Guðrúnar Ísleifsdóttur.

5) Jón átti Margrèti Jónsdóttur Kálfarssonar.

6) Sígríður átti Jón Jóhannsson prests í Otrardal Jónssonar.

7) Ingibjörg átti Jón Sveinsson á Sveinseyri.

8) Kristín átti Sigurð Guðmundsson.

9) Herdís (dó 1704) átti Magnús Níelsson Jónssonar Dýrafjarðarsmiðs á Hvammi í Sandasókn Jónssonar. Kona Níelsar og móðir Magnúsar hèt Guðrún Jónsdóttir, en kona Jóns Dýrafjarðarsmiðs og móðir Níelsar var Herdís Halldórsdóttir frá Breiðadal í Önundarfirði.

10) Vigdís átti Magnús Sigurðsson Egilssonar frá Gesteyri við Patreksfjörð.

Þorvaldur Björnsson bjó á Æsustöðum í Langadal, og var merkisbóndi. Árni sýslumaður Gíslason hafði hann fyrir umboðsmann sinn, og þá er Árni fór utan 1568, setti hann Þorvald í sinn stað. Dóma eptir Þorvald hef eg eigi sèð, en af dómi umboðsmanns hans, Sigurðar Þormóðssonar, 1569, er auðsèð, að hann hefir þar þá verið sýslumaður. Í tèðum dómi kallast hann sýslumaður konungs; er eg þó efandi, að hann hafi haft veitingu fyrir sýslunni, þó eigi sè ólíklegt, að Árni hafi viljað hjálpa frænda sínum til sýsluvalda; en frá sýslunni er Þorvaldur 1571, og hefir hann þá ef til vill verið dáinn, því eigi getur hans seinna.

Þorvaldur fèkk að lèni 1568 Stafholt um 3 ár, 1569 fór hann utan með höfuðsmanni Kristjáni Walkendorph, og hefir þá sett Sigurð Þormóðsson fyrir sýsluna. 1571, í fardögum, átti Vigdís kona hans að afhenda síra Jóni Egilssyni Stafholt; var þá Vigdísar vegna fyrir afhendingunni Benidikt son Halldórs Brandssonar, og mun hann hafa verið bróðir Vigdísar, en Þorvaldur þá dáinn.

## Sigurður Þormóðsson.

*Faðir:* Þormóður sýslumaður fyrnefndur. Hvað móðir[1] hans kona og börn hafa heitið, eða hvort hann hefir verið giptur eða átt börn, veit eg ekki. Sigurður bjó á Torfustöðum. Hann lèt dóm ganga miðvikudaginn næstan fyrir trínitatis í umboði Þorvaldar bónda Björnssonar, sýslumanns konungs í Húnavatnsþingi, með útnefndum 12 mönnum 1569, hvert afl það vonda rikti, kvis og bakmælgi skyldi hafa, sem af tali Brands Halldórssonar hafði uppkomið um óheyrilegan vinskap Erlendar Tómássonar og systurdóttur hans Herdísar Erlendsdóttur. Dæmdu dómendur Erlendi Tómassyni tylftareið, er unninn skyldi innan 10 vikna.

Án dags og ártals hefir síra Eyjólfur ritað dóm, er hann tjáir genginn í Skagafirði af Sigurði Þormóðssyni um við, tekinn af lagnarísi, sem lá fyrir konungsjörðunni Mýrum í Hrútafirði, því þar á beiddist dóms síra Erlendur Þorgrímsson, sem umboðsmaður þessarar og fleiri jarða, er Walkendorph hafði lènt honum, og dæmdu dómsmenn presti viðinn, ef hann hefði

1) Móðir Sigurðar hèt Ingibjörg Salomonsdóttir, sem fyr er sagt.

verið í fiskhelgi, eða svo að sjá hefði mátt fisk á borði; kallast Sigurður hèr umboðsmaður.

Jón Björnsson.

*Faðir:* Björn officialis Jónsson biskups Arasonar.
*Móðir:* Steinunn dóttir Jóns á Svalbarði Magnússonar.
*Kona:* Guðrún, dóttir Árna á Hlíðarenda Gíslasonar, hún var fædd nálægt 1544, og dó 1603, sjá Skaptárþing.
*Börn:* A. Halldóra eldri átti Halldór lögmann Ólafsson, hún dó nálægt 1661, sjá þeirra afkvæmi við Skagafjarðarsýslu.

B. Helga átti Odd biskup Einarsson, hún dó 1662, 98 (aðrir 95) ára gömul, þeirra börn:

a. Gísli biskup í Skálholti átti Guðrúnu Benidiktsdóttur[1] þau barnlaus.
b. Árni lögmaður, sjá Árnesþing.
c. Síra Sigurður í Stafholti, dó 1675 84 ára, átti Hólmfríði Jónsdóttur, barnlaus[2], svo 1636 Guðrúnu Jónsdóttur[3], þeirra son:
Gísli í Oddgeirshólum dó 1666, átti Þorbjörgu[4]; þau barnlaus.
d. Sigurðnr yngri, átti Þórunni ríku, sjá Barðastrandasýslu.
e. Eiríkur á Fitjum dó 1666, átti fyr Helgu Guðmundsdóttur[5]; þeirra börn:
1. Guðrún[6].

---

1) Á að vera Björnsdóttur Benidiktssonar, hún var systir Magnúsar lögmanns Björnssonar.

2) Hólmfríður var dóttir Jóns Vigfússonar frá Galtarlæk.

3) Guðrún seinni kona síra Sigurðar var dóttir síra Jóns Guðmundssonar í Hítardal.

4) Þorbjörg var dóttir Vigfúsar sýslumanns Gíslasonar á Stórólfshvoli.

Síra Sigurður í Stafholti átti fleiri börn en Gísla; en afkvæmi hans dó út.

5) Helga var systir hins nafnfræga smiðs, Guðmundar í Bjarnastaðarhlíð í Skagafjarðarsýslu.

6) Guðrún átti Snorra Sigurðsson handleggjastutt.

2. Oddur[1].
3. Helga[2].

C. Halldóra ýngri átti Þorvald í Auðbrekku, bróður Halldórs lögmanns, hann dó á alþingisferð 1650, en hún dó 1665, sjá Þingeyjarþing, þeirra börn:

a. Jón, átti Guðrúnu Pètursdóttur, bjó í Auðbrekku, þeirra börn:
   1. Jón[3]; bjó á Vindheimum.
   2. Þorvaldur[4].
   3. Halldór[5].
   4. Hallfríður[6].

b. Benidikt, sjá Hnappadalssýslu, átti Ástu dóttur síra Torfa á Gilsbakka, barnlaus.

c. Björn átti fyr, 1663, Margrèti Örnólfsdóttur, þeirra börn:
   1. Kristín, átti síra Þorkel Oddsson, dó barnlaus 1707.
   2. Elín, dó 1709, átti síra Pál Ketilsson, börn:
      α. Böðvar á Slitvindastöðum; hans son Árni skáld.
      β. Síra Páll á Staðastað.

---

1) Oddur á Fitjum, lögrèttumaður, ritaði annál; fyrri kona hans var Sesselja Halldórsdóttir. Sesselja var systir Árna, móðurföður síra Pèturs Björnssonar á Tjörn á Vatnsnesi, sjá Tímarit mitt, 1. B. bls. 15., en hin síðari Guðríður Einarsdóttir prests á Reynivöllum Illugasonar.

2) Helga átti síra Pál Gunnarsson á Gilsbakka. Bæði Oddur og Helga voru seinni konu börn Eiríks, en hún hèt Þorbjörg, dóttir Bjarna á Bustarfelli Oddssonar.

3) Jón var fyrst ráðsmaður á Hólum í tíð Jóns biskups Vigfússonar, varð svo sýslumaður í Hnappadalssýslu, sjá þar um hann.

4) Þorvaldur átti Ragnheiði Rögnvaldsdóttur.

5) Halldór átti Guðrúnu Þorvarðsdóttur Stígssonar í Núpsdalstungu.

6) Hallfríður átti síra Erlend Illugason á Tjörn á Vatnsnesi.

Seinni kona Björns Sigríður Jónsdóttir[1]; þeirra son:

3. Síra Þorvaldur[2].

d. Daði Þorvaldsson, í Glatardalstungu, átti Steinunni Pètursdóttur frá Ballará, börn:

1. Kristín[3]; átti Benidikt.
2. Sigríður, hennar maður Snorri, barnlaus.
3. Sigríður yngri átti tvíbura með síra Lýð, átti svo Þórhalla[4].
4. Halldóra[5].
5. Hildur[6].

e. Ólafur átti Guðrúnu, dóttur Einars á Lækjamóti; þeirra son:

Þorvaldur[7].

f. Guðrún átti 1651 síra Stefán í Vallanesi Ólafsson; þeirra son:

1. Síra Ólafur í Vallanesi[8].
2. Síra Þorvaldur á Hofi[9].
3. Anna[10].

---

1) Sigríður var dóttir síra Jóns í Fellsmúla Jónssonar.

2) Síra Þorvaldur var barnlaus.

3) Kristín var fyrri kona Benidikts í Hrappsey Jónssonar Pèturssonar.

4) Þórhalli var Einarsson og bjó á Fellsströnd.

5) Halldóra átti launbarn með síra Eiríki í Hjarðarholti; maður hennar hèt Ormur Ólafsson og var frá Stóraskógi; bjuggu á Goddastöðum.

6) Hildur átti Svein Guðnason á Þóreyjarnúpi, sumir segja Svein Brynjólfsson, sem líklega ekki er rètt; Jón Magnússon telur hins vegar, og hlaut hann að vera því kunnugur.

7) Þorvaldur giptist, en var barnlaus; annar son Ólafs var Ólafur á Haukagili, átti Guðrúnu dóttur Hákonar, sonar Jóns lögrèttumanns.

7) Síra Ólafur átti Halldóru Björnsdóttur Magnússonar lögmanns.

8) Síra Þorvaldur á Hofi í Vopnafirði átti Kristínu, systur Halldóru.

9) Anna átti síra Ólaf Guðmundsson á Hrafnagili.

4. Rannveig[1].
5. Guðrún[2].
6. Þóra[3].

g. Þórunn átti síra Erlend Ólafsson á Melstað; þeirra börn:
1. Halldóra[4].
2. Guðrún[5].
3. Sigríður[6].
4. Steinunn[7].

D. Þóra átti sèra Snæbjörn Torfason, börn:

a. Síra Torfi á Kirkjubóli, átti Helgu Guðmundsdóttur[8]; þeirra börn:
1. Snæbjörn[9].
2. Síra Einar[10].
3. Páll sýslumaður[11].
4. Ragnheiður[12].
5. Ragnhildur[13].

---

1) Rannveig átti síra Egil Guðmundsson á Stafafelli í Lóni; hennar seinni maður var Jón á Ormarsstöðum, barnlaus.

2) Guðrún átti síra Bjarna Einarsson undir Ási í Fellum.

3) Þóra átti síra Pál Högnason á Valþjófsstað.

4) Halldóra átti Þorstein sýslumann Benidiktsson í Bólstaðarhlíð, sjá hèr síðar.

5) Guðrún átti síra Pál Jónsson á Melstað.

6) Sigríður átti Markús Pálsson frá Vatnsskarði.

7) Steinunn átti fyrst síra Brynjólf í Görðum Jónsson, svo Þórð Þorleifsson á Kirkjubæjarklaustri.

8) Helga var dóttir síra Guðmundar prests á Staðastað.

9) Snæbjörn lögrèttumaður á Kirkjubóli átti Helgu Eggertsdóttur frá Sæbóli.

10) Síra Einar á Stað á Reykjanesi átti Ragnheiði dóttur Jóns Magnússonar á Reykhólum.

11) Páll, sjá um hann Ísafjarðarsýslu.

12) Ragnheiður átti Rögnvald sýslumann Sigmundsson, sjá Strandasýslu.

13) Ragnhildur átti launson við síra Snorra, syni síra Jóns þumlungs.

6. Margrèt[1].
7. Teitur[2].

b. Síra Björn á Staðastað, átti Þórunni[3] Jónsdóttur, þeirra börn:
1. Snæbjörn[4].
2. Þóra[5].
3. Þorbjörg[6].
4. Þorbjörg önnur[7].

c. Þorkatla, átti Magnús á Lokinhömrum Gissursson, barnlaus.

E. Kristín Jónsdóttir, átti fyrst barn með Birni Magnússyni, voru þau bræðrabörn; hún fèkk kvittun, sjá Strandasýslu; svo átti hún Daða Árnason á Eyrarlandi, Oddssonar, sjá Dalasýslu.

F. Guðríður átti síra Torfa Finnsson í Hvammi, sjá Dalasýslu og Barðastrandar, þeirra börn:

---

1) Margrèt átti Bjarna Gunnlaugsson á Arngerðareyri.

2) Teitur barnlaus, ráðsmaður í Skálholti, drukknaði nýgiptur, átti launson, er sigldi til Hollands og kom eigi aptur..

Þeir bræður síra Einar og Teitur höfðu góðan byr í Danmörku fyrir ágæta framgöngu í Stormgötunni, þegar Carl Gustav Svíakonungur fèll inn í Kaupmannahöfn. Teitur var annálað karlmenni. Við leiði hans gjörði Jón biskup Vídalín þetta latínska vers:

Hic Titus herculeos artus et achillea membra
deposuit summo restituenda die.

3) Þórunn var dóttir síra Jóns Sveinssonar í Holti í Önundarfirði.

4) Snæbjörn í Tjaldanesi bartskeri, dó utanlands, átti eina laundóttur, er Jóhanna hèt.

5) Þóra átti Pál Ámundason eldra, hann hèlt hálft Kirkjubæjarklaustur; þeirra einberni

Þóra, kona síra Björns Jónssonar Thorlaciusar í Görðum á Alptanesi.

6) Þorbjörg átti síra Árna Ámundason, bróður Páls, er átti Þóru systur hennar.

7) Þorbjörg önnur átti síra Einar Gíslason á Helgafelli.

a. Jón í Flatey átti Guðríði Magnúsdóttur, sjá Barðastrandarsýslu.
b. Guðrún átti Bjarna sýslumann á Staðarhóli, sjá Dalasýslu.

G. Rannveig á Háeyri, dó 1654, ógipt og barnlaus um sjötugt.

Jón Björnsson var borinn á Melstað 1538, var síðan arfleiddur af föður sínum 1543, því þá arfleiddi síra Björn börn sín, Jón, Magnús og Ragnheiði, og 1549 gjörði hann fjárskipti þeirra á millum, og gaf Teiti löggjöf.

1558 var honum dæmt fjárhald systkina sinna, og 1566 lofaði síra Sigurður að gefa honum 20 eða 30 hundruð til giptingar, ef hann fengi Guðrúnu Árnadóttur; litlu þar eptir giptist hann.

Jón bjó fyrst 8 ár á Stóraósi, svo á Holtastöðum til þess að Þórunn föðursystir hans dó, þá flutti hann að Grund í Eyjafirði. Síra Jón Halldórsson segir, að Jón Björnsson hafi fyrst haft Þingeyraklaustur og búið þar nokkur ár, hefir það þá verið eptir 1570, máske móti Hinrik Gerken eða áður en Hinrik fèkk það.

Eg held, að Árni hafi stundum haft Jón fyrir lögsagnara; en 1569, föstudaginn næsta fyrir jól, nefndi Jón Björnsson, sem þá hafði konungs sýslu í Húnavatnsþingi, að Ási í Vatnsdal í dóm: Jón Sigurðsson, Gísla Þormóðsson, Þórarinn Gíslason, Jón Guðmundsson, svarna lögrèttumenn, og Jón Þorgeirsson og Jón Ásgrímsson, til að rannsaka og fullnaðardóm á að leggja þau hneykslyrði, að kalla annan fjölmælismann, o. s. frv. Af þessu virðist, að Jón hafi þá haft hálfa sýsluna, móts við Þorvald, og Árni Gíslason þá verið búinn að sleppa Húnavatnsþingi.

Jón hefir tekið alla sýsluna 1570, því þá dó Þorvaldur.

1572, fimmtudaginn í fardagaviku, lætur Jón Björnsson dóm ganga í Bólstaðarhlíð, og dæma þar dómendur Árna Einarssyni til eignar svo mikið í jörðunum Finnstungu, Brekku í Blöndudal og Gautsdal í Laxárdal, er Guðmundur Gíslason hèlt, sem svaraði 40 hundruðum í Marðarnúpi í Vatnsdal, er af honum gengu haustið fyr á Bólstaðarhlíðarþingi, ásamt þeim 60 hundruðum, er Guðmundur Gíslason átti í Marðarnúpi, hver jörð þá var dæmd Helgu Jónsdóttur, og meðörfum hennar, en

móðurfaðir þeirra Arna og Guðmundar, Brandur Ólafsson, hafði keypt hana af Teiti Þorleifssyni fyrir áður greinda jarðarparta[1].

Þess er áður getið, að áður, 1557, laugardaginn næstan fyrir hvítasunnu, seldi Steinunn Jónsdóttir Jóni syni sínum þau 60 hundruð í jörðum, sem hún átti hjá Páli bróður sínum, meðkenndist þá og Steinunn, að Jón og systkini hans ættu hjá sèr ellefutíu hundruð í jörðum (auk löggjafa, sem hún hafði gefið þeim, er eigi voru arfleidd), og þar til 80 hundruð í öðrum góðum gripum, en Steinunn skyldi eiga af þeim tíutíu hundruð og þar til 40 hundruð, er hún skipti Jóni Björnssyni í sinn hlut; en vildi Páll eigi greiða Jóni nefnd 60 hundruð eptir loforði sínu í jörðum í næstu fardögum, skyldi Jón Björnsson eiga rètta lagaheimtu til Staðarhóls, það frekasta Steinunni að lögum tilkoma kynni. Brèfið er dagsett að Hofi í Vatnsdal, vottar: Gísli Jónsson, Bjarni prestur Helgason, Fúsi Ólafsson, Jón Asgrímsson.

1575 höfðu þeir bræður Jón og Árni jarðaskipti, fèkk Árni Jóni bróður sínum Sanda í Miðfirði 24 hundruð, Hól í Fljótum 20 hundruð, fyrir Tinda í Króksfirði 30 hundruð og Hlíð í Kollafirði, gjörðist þetta í Snóksdal á Maríumessu síðari; vottar: Gunnar prestur Þorláksson, Hannes Björnsson, Teitur Björnsson, Ormur Erlingsson, Torfi Andrèsson, (kálfskinnsbrèfið hefir verið með 4 hangandi innsiglum, ritað á Holtastöðum).

1576 er Jón Björnsson á Holtastöðum forsagnarvottur að skiptum þeim, er Guðrún Þorleifsdóttir kona Egils Jónssonar á Skarði í Langadal gjörði milli barna sinna og Egils.

Til 1577 eða 1578 held eg að Jón Björnsson hafi haldið Húnavatnsþing eða þar til Jón lögmaður tók það, en 1591

---

1) Teitur hefir án efa fengið Marðarnúpinn hjá Einari, syni Jóns Sigmundssonar (sjá hèr að framan). Ólafur faðir Brands er sagður Sölfason, en dóttir Brands og móðir Guðmundar er sagt að heitið hafi Sigríður; hefir hún víst verið tvígipt, og hinn maður hennar heitið Einar, og þeirra son hefir Árni verið. Guðmundur hafði erft 60 hndr. í Marðarnúpinum, en Árni 40 hndr., og í því hlutfalli átti andvirðið (sum sè: Finnstunga, Brekka og Gautsdalur) að skiptast millum þeirra.

hefir Jón tekið Hegranesþing, og haldið það til 1598, þá Sigurður Jónsson tók það, sjá Vaðlaþing.

Eptir það að Þórunn á Grund dó 1593, 13. des., flutti Jón frá Holtastöðum að Grund, og dó þar 1613, 75 ára að aldri.

1603 dó Guðrún Arnadóttir kona Jóns Björnssonar.

Errur voru milli Jóns sýslumanns Björnssonar og Péturs sýslumanns Pálssonar, því í skjali sem Pètur fram lagði út af arfi eptir Þórunni, kallar Pètur Jón sinn mótpart, og sótti hjá hirðstjóra Hinrik Krag um Hegranesþing undan Jóni, er þá hafði fengið veitingu fyrir því.

Jón Björnsson var göfugastur af systkinum sínum, og af ætt hans hafa flestir höfðingjar á Íslandi síðan verið komnir. Auðmaður var hann mikill, og ákvarðaði sèrhverrar sinnar dóttur arfahluta í jörðum eptir sig og móður þeirra 1595.

### Hinrik Gerken Hansson[1].

Sjá um hann við Strandasýslu. Eptir Árna Gíslason fèkk Hinrik Þingeyraklaustur 1560, veitti honum það Walkendorph, en missti það 1577, þegar Jóhann Buchholt veitti það Jóni lögmanni, og útvegaði honum þar upp á konungsbrèf, og settist þá Jón lögmaður að á Þingeyrum. Bæði hafði Hinrik verið umboðsmaður í Húnaþingi 1574 og optar. Síðan útvegaði Jón lögmaður honum hálfa Strandasýslu 1580, líklega af því að hann hafði náð undan honum hálfu Þingeyraklaustri. Þó biskup Guðbrandur í brèfi til Hinriks 1574 kalli hann sýslumann, mun hann eigi hafa verið utan umboðsmaður, líklegast Jóns Björnssonar, því sama árið, 1574, kallast hann í helmingadómi Guðbrandar biskups og Jóns lögmanns umboðsmaður, og eigi hef eg sèð dóma hans í þessari sýslu.

Hann var þýzkur læknir og giptist hèr Jarðþrúði, ekkju auðugri.

### Jón lögmaður Jónsson.

Sjá um hann við Snæfellsnessýslu. Hann tók Reynistaðaklaustur og Hegranessýslu 1569, en fèkk Þingeyrarklaustur 1577 eptir hirðstjóra veitingu, og flutti sig þá þangað, en konungur

1) Hannesson er víst rèttara.

staðfesti það 9. maí. Húnavatnssýslu meinast hann og að hafa tekið 1578. 1573 varð hann lögmaður norðan og vestan á Íslandi. 1574 5. apríl staðfesti konungur lögmanns embætti Jóns; það ár sleppti hann Hegranesþingi til Sigurðar bróður síns; en Reynistaðarklaustri hefir hann sleppt til bróður síns 1584, því það ár veitir Jóhann Buchholt nefnt klaustur Sigurði, móti því að hann skili til Bessastaða tveim þriðju pörtum inntekta, en hafi þriðjung í ómakslaun. Hafði Sigurður klaustrið að höfuðmanns veitingu í 18 ár, en í umboði Jóns bróður síns í 7 ár. Jón flutti að Þingeyrum 1578, þar missti hann konu sína 1597, flutti að Arnarstapa 1598, og giptist þá í annað sinn, hèlt hann þá Stapa umboð og sýslu, Vatnsdals, Miðfjarðar og Stranda jarðir, hafði hann marga umboðsmenn í lènum sínum. Að telja upp Jóns mörgu dóma væri ónauðsynlegt, þó má þessa nefna.

1578 að Sveinsstöðum (Árb. 4. þ. bls. 27.), þá var Jón Björnsson á Holtastöðum, er þar var áður í sýslu sýslumaður, fyrstur dómsmanna Jóns lögmanns. 1572 klagar Jón, að Ormur lögmaður hafi hlaupið inn í sitt embætti, og sama klagaði Jón sýslumaður Marteinsson.

1582 lèt Jón ganga Drumbadóm á Seilu (Árb. 4. þ., bls. 45.).

1583 um fjárrekstur til Forsæludals og Vatnsdalsheiða (samastaðar bls. 46).

1586 seldi Jón lögmaður Benidikt sýslumanni Halldórssyni Auðbrekku.

1577 er að sjá, sem þeir Guðbrandur biskup og Jón lögmaður hafi verið góðir vinir, því þá ráðfærir biskup sig við Jón um fröktun á skipi sínu, og nefnir hann *sinn fróma vin.*

1588 lèt Jón ganga 12 manna dóm (Árb. 4. þ., bls. 55.), er Jón Björnsson þar fyrstur dómsmaður. 1573 stóð yfir þræta biskups og Jóns lögmanns út af Barði, sleppti Jón lögmaður því við biskup fyrir beztu manna milligöngu. Sama ár lètu þeir Jón lögmaður og biskup ganga helmingadóm (Árb. 4. þ., bls. 58.).

1591 stefndi biskup og Jón lögmaður hvor öðrum fyrir konung um margar sakir, og sigldi Jón lögmaður. Kærði þá Jón lögmaður til biskups og geistlegra um *ágirnd, þrætugirni,*

*ásælni* við almúga, *frekju* í kirkjureikningum; en biskup og síra Arngrímur hans vegna kærðu til Jóns, að hann væri viðriðinn *falsbrèfagjörðina*, og margt bar þeim fleira á milli.

1593 sættust þeir biskup og Jón lögmaður í annað sinn fyrir beztu manna milligöngu (þó var grunnt á góðu).

1593 dæmdu þeir Jón Egilsson og Pètur Pálsson á Sveinsstöðum í Vatnsdal, í umboði Jóns lögmanns, um hór.

1598, þriðjudaginn eptir Maríumessu seinni, lètu Guðbrandur biskup og Jón lögmaður að Giljá ganga helmingadóm um uppeldi fátækra uppgjafapresta, og marga helmingadóma lètu þeir ganga, sem hèr er of langt upp að telja.

1600 lætur Jón Ólafsson í umboði Jóns lögmanns ganga dóm 14. maí að Bólstaðarhlíð um landamerki.

1603, 19. okt., að Engihlíð lèt Jón bóndi Einarsson, sýslumaður í Húnavatnsþingi, dóm ganga um illt tal Snorra Hjaltasonar um Þorvald Jónsson.

Jón lögmaður hèlt völdum sínum og virðingu til dauðadags, sem að bar á Bessastöðum 1606.

Jón var maður stórvitur, kænn, vel talandi og mesti framkvæmdarmaður.

Jón og Þórður lögmenn voru ástundunarsamir að halda við góðri skikkun og lögum og lögleiddu á alþingi með beztu manna ráði 1576, 1. að lögmenn og lögrèttumenn skuli skyldir hvert ár að koma til alþingis á Pètursmessu, og að heyrðu guðsorði ráðslaga, hvernig landið mætti halda sínu frelsi, lögum og fornum rètti innbúunum til nytsemdar móti ágangi og nýungum óráðvandra; 2. um góða og gamla skikkun, að mætti haldast, o. s. frv.; 3. að lögrèttumenn sèu þráttunarlausir og frómir dánumenn, og hafi vel lært lögin; 4. að allar löglegar lagahefðir sèu haldnar; 5. að ótilbærilegur kaupskapur og fals fyrirbjóðist; 6. að koma í veg fyrir forpaktaranna ágirni og rangsleitni; 7. að engin völd veitist utan ráðvöndum mönnum og skynsömum; 8. að biðja konung, að íþyngja eigi almúga með ólögum; 9. að konungur setji Íslendingum mild yfirvöld, og um margt annað sóttu þeir til konungs.

## Jón Egilsson.

*Faðir:* Egill á Geitaskarði sýslumaður Jónsson, sjá hèr að framan.

*Móðir:* Guðrún dóttir Þorleifs lögmanns Pálssonar.

*Kona:* Guðný dóttir Einars í Bólstaðarhlíð, Þórarinssonar Steindórssonar Gíslasonar[1].

*Börn:* A. Þorvaldur á Reykjum í Tungusveit átti Þórdísi dóttur Magnúsar Björnssonar officialis á Melstað; þeirra börn:
- a. Steinunn átti Eggert á Ökrum Jónsson; þeirra son
  - 1. Jón á Ökrum átti Sigríði stórráðu; þeirra son:
    - α. Eggert á Ökrum, sem átti Ragnhildi Eiríksdóttur.

B. Egill átti Rannveigu[2], dóttur Markúsar sýslumanns í Hèraðsdal Ólafssonar; þeirra börn:
- a. Jón[3] lögrèttumaður á Geitaskarði átti Sigríði Jónsdóttur yngra, er kallaður var Dan; þeirra börn:
  1. Halldór lögrèttumaður átti Halldóru Benidiktsdóttur; dóttir þeirra Þórunn dó barnlaus.
  2. Jón, tvígiptur, átti börn, bjó á Gunnsteinsstöðum.
  3. Ragnheiður átti Guðbrand Árngrímsson og börn.
  4. Arndís dó 1730, gipt 1682 síra Jóni Eyjólfssyni.
  5. Guðmundur[4] á Gunnsteinsstöðum, giptist og átti mörg börn.

---

1) Sjá hèr að framan.

2) Aðrir nefna hana Ragnheiði.

3) Það sem síðar verður sagt um Jón og afkomendur hans er nákvæmara og rèttara en það, sem hèr stendur og á bls. 367.

4) Guðmundur átti ekki barn með konu sinni, er lifði, en 3 laundætur.

6. Björn lögrèttumaður[1] á Eyvindarstöðum í Húnavatnsþingi átti Guðrúnu Árnadóttur og fjölda barna.
7. Halldór yngri á Hóli í Norðurárdal, fæddur 1643, dó 1690, átti Margrèti Grímsdóttur Tómassonar og börn.

b. Ragnheiður átti Einar[2] lögrèttumann Sturluson; börn:
1. Rannveig átti Björn Þorláksson.
2. Egill átti Ingibjörgu Pálsdóttur.

c. Markús[3].
d. Gunnlaugur.
e. Guðríður.
f. Steinunn[4].
g. Gunnvör[5].
h. Guðrún.

C. Guðrún Jónsdóttir átti síra Ólaf Halldórsson á Stað í Steingrímsfirði; þeirra börn:

a. Þorleifur, bjó í Köldukinn á Ásum norður, var mesti smiður, smíðaði Bessastaðastofu fyrir Pros Munt. Hann átti fyr Guðrúnu Eiríksdóttur. Þau voru barnlaus. Síðan átti hann Guðrúnu Magnúsdóttur prests á Kúlu Eiríkssonar.
b. Guðrún átti Hermann Pálsson skyttu á Stafnnesi; þeirra börn:
1. Hinrik.
2. Lilja.
3. Hermann.

---

1) Aðrir nefna hann víst rèttara Bjarna, hann átti Guðrúnu Árnadóttur Daðasonar, sá Árni var lögrèttumaður, bjó á Stórhóli, Ásgeirsá og Tindum, varð 100 ára gamall.

2) Einar bjó á Breiðabólsstað í Vatnsdal og var son síra Sturlu á Tjörn.

3) Markús átti Ólöfu Ólafsdóttur frá Steinsstöðum Halldórssonar Sigurðssonar.

4) Steinunn átti síra Halldór á Ríp Þorsteinsson.

5) Gunnvör átti Jón Bessason á Gunnsteinsstöðum.

c. Sesselja átti síra Gottskálk á Fagranesi Jónsson; seinna átti Guðrún síra Ólaf Ólafsson[1]; þau barnlaus.

D. Jón Jónsson á Þverá átti Steinunni Árnadóttur, Björnssonar officialis á Melstað, Jónssonar biskups Arasonar; þeirra dóttir:

a. Guðný átti Gísla í Reykjarfirði, son Jóns sýslumanns eldra Magnússonar, sjá Barðastrandarsýslu.

Jón Egilsson bjó fyrst á Reykjum í Tungusveit, en síðan á Geitisskarði. Hann gjörðist umboðsmaður Jóns lögmanns í Húnavatnsþingi um hríð, og það var hann 1593; þá lætur hann dóm ganga á Sveinsstöðum í Vatnsdal, en hvenær hann varð umboðsmaður Jóns lögmanns, eða hvenær hann lèt af því, er óljóst. Jón Egilsson var annars áður og eptir lögrèttumaður, og haldinn skynsamur. Vel var hann við efni og í heldri bændatölu.

### Pètur Pálsson.

Sjá um hann við Strandasýslu. Hvenær hann hefir gjörzt umboðsmaður Jóns eða sleppt því umboði, er óljóst; seinast finnst hann umboðsmaður 1593.

### Jón Einarsson.

*Faðir:* Einar bóndi í Bólstaðarhlíð Þórarinsson Steindórssonar, Gíslasonar á Hafgrímsstöðum Hákonarsonar[2].

*Móðir:* Guðrún Þorsteinsdóttir.

*Kona fyrri:* Rannveig, dóttir Egils sýslumanns á Geitaskarði; sjá hèr að framan.

*Barn:* Oddný, hún var trúlofuð Jóni Dan af föður sínum, en sjálf leynilega lofuð og átti launfundi við Björn son Magnúsar Björnssonar officialis á Melstað. Tók Björn hana í óleyfi foreldra hennar, og flutti að Bólstaðarhlíð, sjá annála Björns á Skarðsá. Eptir mikið mála-

---

1) í Grímstungu, er kallaður var lærði karl.

2) «Gíslasonar — Hákonarsonar» ætti að falla burt, sjá hèr að framan.

vastur hèr um giptist Björn Oddnýju og unnust vel. Þeirra börn:

a. Síra Gunnar á Hofi á Höfðaströnd, átti Þórunni dóttur síra Jóns í Hítardal Guðmundssonar frá Hvoli þeirra börn:
   1. Guðríður, átti Magister Gísla Vigfússon, þeirra son:
      Vigfús[1]; á Hofi; sjá Vaðlaþing.
b. Rannveig átti Einar á Víðivöllum Pètursson Gunnarssonar klausturhaldara (bróður Árna á Hlíðarenda) Gíslasonar; börn:
   1. Halldóra[2].
   2. Síra Magnús[3]; á Hörgslandi.
   3. Björn[4].
   4. Gunnar[4].
   5. Guðrún[4].
c. Benidikt lögrèttumaður í Bólstaðarhlíð, klausturhaldari á Reynisstað, átti 1645 Guðrúnu Þorsteinsdóttur[5]; þeirra börn:
   1. Þorsteinn sýslumaður.
   2. Oddný[6].

---

1) Vigfús átti Helgu Jónsdóttur, er seinna átti Jens sýslumann Spendrúp, sjá Hegranesþing.

2) Halldóra átti Einar Jónsson í Fagurey á Breiðafirði.

3) Síra Magnús á Hörgslandi var ekki son Einars, heldur bróðir hans, Pètur faðir þeirra seldist síra Magnúsi syni sínum í elli sinni arfsali.

4) Hvorki Björn, Gunnar nè Guðrún hef eg sèð talin börn Einars, og veit ekkert um þau, en börn Einars voru enn fremur:
   2. Halldóra yngri átti Gísla yngra í Svefneyjum, Jónsson.
   3. Eiríkur var vestur á Skarðsströnd, átti Rósu dóttur Jóns Ögmundssonar (Frakkaness karlsins).
   4. Oddný kona síra Magnúsar á Kvíabekk Einarssonar prests á Myrká Magnússonar.
   5. Magnús í Þistilfirði, hans kona Þorgerður Jónsdóttir.

5) Guðrún var systir Einars biskups.

6) Oddný átti síra Pál Jónsson, barnlaus.

3. Halldóra[1].
4. Gunnvör[2].

d. Solveig átti Þorlák Þórðarson á Marðarnúpi, þeirra börn:

1. Síra Þórður[3] á Undirfelli.
2. Björn[4] á Auðunnarstöðum lögrèttumaður.
3. Guðmundur[5] á Stóruborg.
4. Björg.
5. Halldóra[6].
6. Filippía[7].

e. Eiríkur, hans laundóttir Solveig átti Guðmund Einarsson.

Jón Einarsson var lögrèttumaður, og bjó á Gunnsteinsstöðum í Langadal. Nálægt 1600 gjörðist hann umboðsmaður Jóns lögmanns í Húnavatnsþingi, því Jón lögmaður var þá optast á Arnarstapa sjálfur. Áður greindir dómar Jóns Einarssonar sýna, að hann hefir verið hèr lögsagnari 1600 og 1603, held eg að hann hafi haldið þeirri lögsögn til þess Páll sýslumaður Guðbrandsson tók Húnavatnsþing 1607.

Seinni kona Jóns var Solveig dóttir Nikulásar á Hèðinshöfða og í Reykjahlíð, Einarssonar, Nikulássonar, Þorsteinssonar (aðrir segja hana dóttur Nikulásar klausturhaldara Þorsteinssonar, sem mun rèttara)[8]. Þau Jón og Solveig giptust á Þing-

---

1) Halldóra átti Halldór lögrèttumann Jónsson, sjá hèr að framan.

2) Gunnvöru átti Björn Hrólfsson, sjá Þingeyjarþing, bls. 98.

3) Síra Þórður átti Þóru dóttur Páls Gíslasonar landþingsskrifara frá Hvanneyri.

4) Björn átti Rannveigu Einarsdóttur Sturlusonar prests Bjarnasonar, sjá hèr að framan.

5) Guðmundur átti Hólmfríði Jónsdóttur, systur síra Bjarna á Melum.

6) Halldóra átti Jón í Klömbur í Vesturhópi Sturluson.

7) Filippía átti síra Bjarna Þorsteinsson í Vesturhópshólum. Enn telja sumir:
7. Halldóra önnur átti Magnús Tómasson frá Eyri.

8) Sjá bls. 59.

eyrum 1590, taldi þá Einar bóndi Þórarinsson syni sínum Jóni Bólstaðarhlíð 80 hundruð, 40 hundruð í Gunnsteinsstöðum, og eitt hundrað hundraða í lausafè, en Jón lögmaður Jónsson taldi Solveigu fremra Núp 60 hundruð, og Heggstaði 20 hundruð, einnig 60 hundruð í lausafè. Solveig hafði áður átt Eirík á Stóruborg Egilsson, voru þeirra börn: 1. Jón á Núpi, faðir Eiríks á Núpi; sjá Dalasýslu; 2. Helga; 3. Gísli; 4. Guðmundur[1]; eigi finn eg börn hennar með Jóni.

### Páll Guðbrandsson.

*Faðir:* Guðbrandur biskup á Hólum Þorláksson.

*Móðir:* Halldóra, dóttir Árna sýslumanns Gíslasonar.

*Kona:* Sigríður, dóttir Björns sýslumanns í Vaðlaþingi Benidiktssonar. Þau Páll giptust 1605, og taldi Guðbrandur biskup syni sínum 4 hundruð hundraða, en Björn sýslumaður dóttur sinni 2 hundruð hundraða.

*Börn:* A. Björn á Stórhóli, sýslumaður í Vaðlaþingi, sjá þar um hann[2].

B. Þorlákur Pálsson í Víðidalstungu, dó 1657, átti Kristínu, dóttur Jóns lögmanns Sigurðssonar, þau giptust á Reynistað 1631, voru honum talin í jörðum 3 hundruð hundraða, en í lausafè 2 hundruð hundraða; börn:

a. Jón í Víðidalstungu, giptist 1664 Hildi dóttur síra Arngríms lærða á Melstað, þeirra börn:

1. Páll lögmaður Vidalin, sjá um hann við Dalasýslu.
2. Kristín átti síra Jón Magnússon, sjá Dalasýslu.
3. Sigríður átti síra Magnús[3] í Hvammi Magnússon; þeirra börn:

α. Síra Jón á Setbergi[4].

---

1) Sjá bls. 59.

2) bls. 228.

3) Síra Magnús prófastur var bróðir þeirra Árna assessors og Jóns sýslumanns.

4) Síra Jón átti Önnu Margrèti Hannesdóttur danska.

β. Ástríður[1].

γ. Þórður gullsmiður.

b. Páll dó 1666, hans laundóttir Ingibjörg, átti Egil lögrèttumann Einarsson[2]: þeirra dóttir Þórunn átti Guðmund Skúlason[3], barnlaus.

C. Benidikt Pálsson borinn 1608, sigldi til lærdómsframa, og lagði sig eptir bartskeralærdómi í Hamborg; 1633 ætlaði hann til Íslands með Hamborgurum, en skip þeirra var tekið með allri áhöfn af Tyrkjum frá Algier, og hann fluttur til Tyrklands. Benidikt skrifaði um útlausn sína, og bað um 1000 rd. spec. sèr til útlausnar, og 400 rd. spec. til tæripenings, komust þau brèf til Hamborgar, og síðan til Íslands. Gekk þá hèr dómur um, að verja skyldi fè hans í peninga honum til útlausnar. Framfór það, og voru peningarnir sendir vissum kaupmanni í Hamborg, sem ráðstafaði þeim til útlausnar Benidikts. Hann kom út 1636, og dvaldi hjá höfuðsmanninum á Bessastöðum, Pros Mundt, um veturinn 1636—37. Benidikt gjörðist ráðsmaður Hólastaðar 1636—38, en fèkk Möðruvallaklaustur 1639; giptist svo sinni fyrri konu Hólmfríði dóttur Einars sýslumanns í Rangárþingi Hákonarsonar, hún dó af mislingum, aðrir segja barnsförum, 1645, og lèt eigi börn eptir.

Magnús hèt maður, sonur Jóns á Svalbarði[4] Jónssonar á Ökrum, Grímssonar, lögmanns á Ökrum, Jónssonar. Móðir Magnúsar var Sigríður dóttir Þorgríms í Lögmannshlíð Þorleifssonar og Þórdísar, dóttur Jóns Magnússonar á Svalbarði og Ragnheið

---

1) Astríður átti síra Þórarinn í Hjarðarholti Jónsson; þeirra son Árni biskup Þórarinsson.

2) Sjá hèr að framan.

3) Síra Guðmundur Skúlason var prestur í Vesturhópshólum, þau voru barnlaus; Þórunn giptist aptur Teiti lögrèttumanni Eiríkssyni á Núpi í Miðfirði, þau áttu börn, er lifðu.

4) Á að vera Sjávarborg.

ar á rauðum sokkum Pètursdóttur, sjá Strandasýslu. Kona Magnúsar var Steinunn Sigurðardóttir[1]. Magnús var góður bóndi og auðugur, hann var lögrèttumaður og skáld, og að mörgu leyti vel að sèr; hann dó 1656, börn hans og Steinunnar voru Jón og Sigríður. Sigríður var allra kvenna fríðust, hár hennar var gult sem silki, og fèll niður fyrir mitti, hún var og þá nálægt tvítugs aldri; þessarar meyjar bað Benidikt sèr til handa og giptist henni 1647. Brátt varð vart við, að Sigríður var stór í skapi, stolt og dróttnunargjörn, og var hún því kölluð Sigríður *stórráða*. Margt var henni fleira til lýta fundið, þar á meðal fjölkyngi, og að hún hèldi fram hjá manni sínum, og að aðrir ættu börn hennar. Til að hrinda af sèr því ámæli fór Sigríður til alþingis og sór Benidikt bónda sinn svo sannan föður að öllum börnum sínum sem hún væri móðir, þá sór hún og fyrir alla menn utan Benidikt bónda sinn. Stirt var samlyndi þeirra Benidikts og Sigríðar, var henni það kennt, því Benidikt var vel þokkaður maður og í mörgu höfðinglega sinnaður. Hann lèt mjög vel byggja Möðruvallakirkju og fleiri hús staðarins. Með óhægindum í sambúð voru þau Benidikt á Möðruvöllum til þess að hann dó 1664, á 56. aldursári. Er ritað, að hann hafi þá verið mjög aðþreyttur, og hafi jafnvel viljað heldur vera hjá Tyrkjum, en í þvílíku hjónabandi. Var og ekki umræðulaust af sumum um dauða Benidikts. Strax sem Beuidikt dó, giptist Sigríður aptur Jóni Eggertssyni frá Ökrum, sjá hèr um Hegranesþing.

*Börn* Benidikts Pálssonar og Sigríðar stórráðu:

a. Hólmfríður, allra kvenna fríðust og væn kona, giptist síra Jóni á Myrká (bjó á Yxnahóli), syni síra Þórðar á Myrká, þau unntust vel; börn:

---

1) Sigurður faðir Steinunnar var son Markúsar Ólafssonar sýslumanns, og bjó í Hèraðsdal

1. Þorbjörg átti síra Jón Ketilsson[1] í Garði, börn:
α. Hólmfríður átti Þorstein Benidiktsson á Laxamýri.
β. Guðrún[2]; átti síra Stefán Halldórsson.
2. Sigríður, dó ógipt barnlaus.
3. Guðrún.
b. Þorlákur átti Helgu, dóttur síra Pèturs á Upsum; börn:
1. Jón[3]; hans son:
Síra Þorlákur í Húsavík 1764, gaf upp brauðið 1808, dó 1823, átti Sigríði Ketilsdóttur[4]; en móðir síra Þorláks var Helga, systir síra Sveins á Hnappstöðum.
2. Halldóra átti Tómas á Lundarbrekku Flóventsson; börn:
Björn sýslumaður í Þingeyjarþingi.

---

1) Síra Jón var bróðir síra Þorsteins Ketilssonar á Hrafnagili.

3) Dóttir sú síra Jóns Ketilssonar, er átti síra Stefán Halldórsson í Laufási, nefnist í ættartölubókum og prestatali Hallgríms djákna, Þuríður.

Enn fremur voru börn síra Jóns og Þorbjargar:
γ. Magnús atti Ásdísi Jónsdóttur frá Steinsstöðum í Öxnadal Ólafssonar, bjó í Myrkárdal.
δ. Benidikt átti Katrínu Árnadóttur frá Krókum í Fnjóskadal, systur síra Benidikts á Kvennabrekku.
ε. Helga átti síra Árna Tómasson á Bægisá.
ζ. Kristrún átti Svein Eiríksson í Svellatungu.
η. Guðrún átti Runólf Hallsson í Hörgárdal, barnlaus.
ϑ. Vigfús átti Kristínu Hallsdóttur, barnlaus.

3) Jón Þorláksson á Gili átti Helgu dóttur Jóns í Tungu í Fljótum, hún var systir síra Sveins á Knappstöðum, sem hèr segir, og Guðrúnar Jónsdóttur, konu síra Pèturs Björnssonar á Tjörn á Vatnsnesi, sjá Tímarit mitt, 1. b., bls. 15.

4) Sigríður kona síra Þorláks var dóttir síra Ketils Jónssonar í Húsavík og systir Magnúsar sýslumanns í Búðardal Ketilssonar.

3. Páll, aðrir Pètur[1].
4, Björn[2].
5. Sigríður[3].
6. Þuríður.
7. Steinunn.
8. Solveig.

c. Björn[4].

d. Magnús var haldinn líkur móður sinni í skaplyndi; hann gat fengið til ekta Ingibjörgu, dóttur Þorkels sýslumanns á Þingeyrum Guðmundssonar sýslumanns Hákonarsonar; var haldið, að Sigríður Stórráða hefði fengið fjölkyngismann til að snúa hugarfari Ingibjargar til Magnúsar, sonar síns, því frændur Ingibjargar voru því allir mótfallnir. Solveigu móður Ingibjargar gramdist það giptumál, svo að hún reið til veizlu þeirra Magnúsar og Ingibjargar og lagði þunga formæling yfir þau og þeirra hjónaband; hún lýsti og á þingi 1690, að hún gjörði dóttur sína Ingibjörgu arflausa þessa vegna.

Magnús var haldinn illmenni, ósvífinn og óvinsæll. Hann var áklagaður 1686 fyrir það, að hann hefði farið utan með Hollendingum; lèt Björn sýslumaður í Vaðlaþingi þar um dóm ganga, og var dæmd 8 marka sekt á Magnús fyrir brèfabrot, og að synja með sèttar eiði, að engar vörur hefði hann flutt frá landi eða til. Þá er Magnús var giptur bjó hann á Hólum í Eyjafirði og tók að eiga börn, voru þau:

---

1) Pètur átti Guðnýju Eggertsdóttur frá Svalbarði.
2) Björn á Grýtubakka átti Þórdísi Jónsdóttur.
3) Sigríður átti fyr Juchum Jónsson í Hvammi, þeirra dóttir Ólöf.
Síðan átti Sigríður Sigurð lögrèttumann í Hvammi, Tómasson Helgasonar, þeirra; son
Pètur á Einarstöðum, hans son.
Sèra Jón Pètursson, er síðast var í Steinnesi.
4) Björn dó barnlaus.

1. Nikulás, sýslumaður í Rangárþingi (sjá þar um hann).
2. Hákon í Haga átti Halldóru dóttur Ara sýslumanns Þorkelssonar, þau skildu; þeirra börn:
   a. Guðrún átti síra Magnús Þórhallason Pèturssonar í Villingaholti, þeirra börn:
      α. Þorkell verzlunarmaður í Reykjavík, barnlaus.
      β. Margrèt átti Árna Eiríksson[1] og mörg börn.
      γ. Síra Þórhalli á Breiðabólstað, átti Ingibjörgu, dóttur Magister síra Bjarna í Gaulverjabæ Jónssonar.
      δ. Ragnhildur seinni kona síra Halldórs á Torfastöðum Þórðarsonar.
      ε. Björn[2].
      ζ. Ari dó 1803[3].
3. Þuríður átti síra Bjarna á Mýrum Jónsson, þeirra börn:
   a. Jón átti Guðrúnu Jónsdóttur Jónssonar.
   b. Guðrún, átti Jón[4] á Hjöllum í Skötufirði, þeirra börn:
      α. Bjarni.
      β. Jón.
      γ. Jóhanna.
   c. Ragnheiður, átti Björn Gíslason, barnlaus.
   d. Ingibjörg, fyrri kona Jóns Pálssonar, barnlaus.
   e. Anna, hennar dætur:
      α. Halldóra.
      β. Ragnhildur.

---

1) Árni Eiríksson var bróðir Jóns konferentsráðs Eiríkssonar.

2) Björn í Nesi í Villingaholtshreppi átti Katrínu Jónsdóttur, er þar bjó, Jónssonar.

3) Ari dó af fallbyssuskoti.

4) Jón var Bárðarson. og bróðir Guðmundar í Arnardal Bárðarsonar.

f. Magnús.
g. Magnús annar.
h. Indriði.
i. Jón.
k. Gunnhildur; öll barnlaus.

4. Jarðþrúður átti Þórð[1] Hákonarson í Norðtungu klausturhaldara (1728); þeirra dóttir
Anna, uppalin að nokkru leyti í Skálholti, átti Ólaf prófast Einarsson í Skarðsþingum, síðar á Álptamýri; þeirra börn:
α. Síra Þórður kapellán í Skarðsþingum, átti Kristínu Bogadóttur[2], þeirra dóttir
Guðrún[3].
β. Guðrún átti síra Hjalta Þorbergsson; börn:
1. Þorbergur[4].
2. Ólafur[5].
3. Magnús[6].

---

1) Faðir Þórðar var Hákon sýslumaður Hannesson.

2) ɔ: í Hrappsey.

3) Guðrún var kona Ebenesers sýslumanns Þorsteinssonar.

4) Var tvígiptur, önnur kona hans hèt Elísabet Guðmundsdóttir.

5) Ólafur, seinast prestur á Breiðabólsstað í Vesturhópi átti Guðfinnu Bergsdóttur; Bergur var timburmaður og Sigurðsson, bróðurson Björns lögmanns Markússonar; eitt af börnum síra Ólafs og Guðfinnu:

Bergur amtmaður, er fyr átti Sesselju Þórðardóttur frá Sviðholti, síðan Elinborgu, dóttur Pèturs biskups.

6) Magnús var við verzlun á Ísafirði, bjó svo í Kirkjubóli, átti Sigríði Benidiktsdóttur.

Enn voru börn Guðrúnar og síra Hjalta:

4. Bergljót átti Ólaf Magnússon í Höfða í Grunnavíkursókn Sigmundssonar og Guðríðar Árnadóttur frá Sæbóli í Bolungarvík.
4. Rannveig átti Gísla stúdent Ívarsson frá Botni í Patreksfirði Skúlasonar.
6. Ólafia átti barn með Gísla Sveinssyni þilskipsformanni í Skutulsfirði.

4. Einar.
5. Árni.
6. Skarphèðinn.
7. Ólafía.

γ. Ingibjörg átti Magnús Thorlacius, svo Bjarna; barnlaus.

δ. Kristín átti Pálma[1] Þorleifsson á Breiðabólsstöðum; þeirra börn:
1. Ólafur[2].
2. Margrèt[3].

ε. Jarðþrúður átti fyr Guðmund[4] stúdent Pètursson; þeirra börn:
1. Þorkell[5].
2. Anna.
3. Ólöf
4. Guðrún.
5. Steinvör[6].

Svo átti hún launbarn með Jóni Arngrímssyni
6. Vigdís.

---

1) Pálmi var bróðir síra Einars í Guttormshaga.

2) Ólafur átti Herdísi Hrómundsdóttur Jónssonar frá Krossholti Torfasonar.

3) Margrèt átti Benidikt á Breiðabólsstað, son síra Þórðar Þorsteinssonar í Hvammi í Norðurárdal.

4) Guðmundur bjó á Bæ á Selströnd og var hálfbróðir síra Bjarna Pèturssonar á Utskálum.

5) Þorkell átti Guðrúnu Jónsdóttur, þau bjuggu á Hellu á Selströnd. Þeirra son Þorkell, er á Jensínu dóttur Óla Víborgs í Ófeigsfirði: hún er systir konu Jakobs kaupmanns í Kúvíkum, sjá bls. 272. Óli var danskur í föðurætt, en móðir hans íslenzk, ættuð norðan úr Skagafirði; Óli var hinn mesti búhöldur og prýddi jörð sína Ófeigsfjörð með stórum og góðum húsum, garðalagningum og öðrum mikilvægum jarðabótum.

6) Steinvör átti Benidikt Þórðarson á Ánastöðum.

Síðan átti hún síra Erlind Hannesson; barn:
7. Hannes[1].
ζ. Ástríður giptist ekki, barnlaus.
5. Sigríður Magnúsdóttir átti Sigurð[2] Tómasson; þeirra börn:
a. Tómas í Klettakoti átti Guðrúnu Magnúsdóttur; barnlaus.
b Solveig átti Sigurð Vigfússon á Setbergi; þeirra börn:
1. Sigurður stúdent á Geitareyjum[3].
2. Vigfús gullsmiður[4].
3. Gísli á Klungurbrekku[5].
4. Þorbjörg á Haugabrekku[6].
5. Margrèt í Fagurey[7].
6. Sigríður á Straumi[8].
c. Margrèt átti Jón í Brokey Jónsson; þeirra son Jón á Kársstöðum, tvígiptur, átti börn.
d. Guðmundur á Ósi átti Guðrúnu Jónsdóttur Helgasonar; þeirra börn:

---

1) Hannes var skósmiður í Reykjavík, átti Sigríði Hallsdóttur norðan úr Tungusveit; þeirra son:
Erlindur á Melnum í Reykjavík.

2) Sigurður bjó á Ósi og var Tómas faðir hans Illugason.

3) Sigurður átti fyr Guðrúnu Guðmundsdóttur í Geitareyjum, svo Hildi, dóttur Jóns conrectors Vigfússonar.

4) Vigfús kallaði sig Fèldsteð, átti fyr Steinunni Guðmundsdóttur frá Hrauni í Helgafellssveit, svo Karítas, dóttur Magnúsar sýslumanns Ketilssonar.

5) Gísli á Klungurbrekku átti Kristínu Ólafsdóttur frá Vörðufelli.

6) Maður Þorbjargar hèt Sigurður Daðason, Hannessonar frá Narfeyri.

7) Margrèt átti fyr Guðmund Einarsson í Fagurey, svo Jón Þórðarson.

8) Sigríður átti Teit á Straumi Jónsson Sighvatssonar.

1. Ragnhildur.
2. Margrèt

e. Halldóra (dó 1802) átti Sigurð Jónsson, barnlaus. Launson Sigríðar Magnúsdóttur með Einari

f. Jón átti Ólöfu[1].

D. Páll Pálsson giptist ekki, bjó lengi á Másstöðum, barnlaus; fór seinast til bróður síns að Stórhóli, arfleiddi börn hans, og dó þar.

E. Hákon Pálsson, dó 1633, 16 vetra.

Nú víkur sögunni til Magnúsar Benidiktssonar, þar áður eru taldir niðjar hans og föðurbræður; það var orðfleygt um Magnús, að hann hefði sèð fyrir stúlku, er menn ætluðu að hann mundi eiga þunga með: en af því maðurinn var vel ættaður, og Lárus sýslumaður Scheving spaklátur, var eigi skjótt gjörður rekstur í því máli; hafði þó sýslumaður tekið rannsókn í því, og Páll vicilögmaður Vídalín dæmt síðan að Saurbæ eptir vitnaleiðslunni; þótti honum eigi nógu augljóst, hvort Magnús mundi sannur að sök

Amtmaður bauð Halldóri sýslumanni Einarssyni, að láta sök þá koma til sóknar, og það gjörði hann árið 1705, þótti Magnús falla á eiðnum, því hann skorti bæði lýritta og fangavotta, og var skotið til lögmanns; en sýslumaður Halldór skaut til Lárusar sýslumanns, að taka Magnús í varðhald, því Eggert Jónson á Ökrum, systkinabarn hans og svaramaður afsagði að annast hann. Lárus lèt þá taka til járnin, en Magnús gekk í tjald sitt; sýslumaður gekk þar eptir, og sendi hreppstjóra Jón Skúlason í tjaldið undan sèr; kallaði hann á Magnús, sem

---

1) Launbörn Magnúsar Benidiktssonar:

6. Guðrún Magnúsdóttir kona Sigurðar Vigfússonar Þorlákssonar frá Vöglum.
7. Árni átti Guðnýju Steingrímsdóttur Þorsteinssonar, sonar Solveigar Kársdóttur Sæmundssonar prests í Glaumbæ.
8. Önnur laundóttir Magnúsar með Margrèti dóttur síra Eiriks í Höfða Hallssonar, hennar son hèt Eiríkur Árnason.

lèzt bráðum mundi koma. En er menn gættu að, var Magnús horfinn; þeir sáu mann ríða í fjallinu fyrir ofan Saurbæ, þar sem þingið var; voru 5 menn sendir til eptirfarar, þá dundi á nótt, og höfðu þeir hans ekki. Daginn eptir var fast leitað, náðist Magnús á Yxnadalsheiði eða Yxnadal, var færður Lárusi Scheving og settur í varðhald, vildi hann ekkert meðkenna. Jón Hálfdánarson húskarl Magnúsar var og í varðhaldi, því menn ætluðu, að hann hefði beint að illvirkinu. Páll Vídalín dæmdi, 1706, Magnús útlægan af landi og friðlausan innan 3 nátta. Þar eptir slapp hann úr járnum, og náðist eigi aptur að því sinni; en því dæmdi lögmaður hann friðlausan, að honum þótti morðið eigi sannað, en þó líkur um nokkur banaráð við Guðrúnu Jónsdóttur barnsmóður sína (ɔ: Magnúsar). 1706 kom Magnús sèr utan með Höfðaskipi, en 1707 kom hann út með Akureyrarskipi, og Jón Jónsson af Barðaströnd, sem hafði því til leiðar komið, að þeim, sem voru viðriðnir við mál Magnúsar, var stefnt til hæstarèttar, en utanfarir töfðust það ár vegna Stórubólu, er þá geysaði yfir landið. Magnús fór þó utan samsumars, en kom út aptur 1708. Það ár sigldi Lárus sýslumaður Scheving, að verja aðgjörðir sínar í máli Magnúsar. 1709 kom Lárus út; var þá mál Magnúsar dæmt fyrir hæstarètti, og þóttu ófagrar líkur honum til áfellis, var hann því dæmdur á Brimarhólm. Þetta ár, 1709, kom út konungsbrèf til Odds vicilögmanns Sigurðssonar um að láta fanga Magnús og færa hann utan; hafði hann veturinn fyrir verið að búi sínu á Hólum í Eyjafirði, og átti þá eptir hæstarèttardómi að borgast af fè Magnúsar til sýslumanns Lárusar Schevings 400 rd. spec. og falla undir konung það afgangs var skuldum, svo Magnús stóð eptir fèlaus. Pata af öllu þessu frètti Magnús um sumarið, þá er skip komu, lèzt hann þá ætla suður á land; úr þeirri ferð setti hann undan og náðist ekki, en var um hríð á laun með Eggerti á Ökrum; þar eptir fór hann víða um land, en varð loks fangaður 1713 og sendur til Brimarhólms, en konungur gaf honum þaðan lausn 1722 (admirals Judiches brèf um lausn Magnúsar er dagsett 10. apríl 1722 eptir boði konungs 8. apríl s. á.). Sama ár kom Magnús út, var hann þá allur hnýttur og bakladur; þar eptir lifði hann í kyrrlæti

og fátækt af velvild annara, unz hann dó 1730. Hann hafði aldrei meðgengið morðið á stúlkunni.

Þar er nú til máls að taka, sem áður var frá horfið, að Páll sonur Guðbrandar biskups fæddist á Hólum í Hjaltadal 1573 (að vitni Páls lögmanns Vídalíns, er heitinn var eptir honum, en í Árb 4. þ, bls. 22, er sagt, að hann hafi verið fæddur 1575). Þegar Páll hafði aldur til, var hann settur til lærdóms mennta og látinn sigla 1600, var hann treggáfaður til lærdóms og var mælt, að hann hefði um of verið fyrir ölföng ytra, og tekið litlum lærdóms framförum. Páll kom út 1605, og fyrir tilhlutan föður síns fèkk hann sama ár Sigríðar, dóttur Björns sýslumanns Benidiktssonar, sem áður er sagt, var hann fyrnefnt ár á Hólum, og gjörðist skólameistari, því Guðbrandur biskup vildi, að hann gæfi sig til prestsembættis, en það vildi eigi Páll.

Þegar Jón lögmaður Jónsson var andaður 1606, en Herluff Daae hafði tekið við hirðstjórnarembætti, var Jón lögmaður Sigurðsson settur fyrir Húnavatnssýslu, en árið eptir, 1607, þá er Herluff Daae reið norður að Hólum, veitti konungur honum Þingeyraklaustur og Vatnsdals jarðir, sjá veitingabrèf konungs í forordningasafni Magnúsar Ketilssonar, 1. h. bls. 230; ekki er getið, hvað festan hafi verið mikil; á þeim tímum fèllu optast festur í sjóð höfuðsmanna, var þeim því geðfellt að opt yrðu embættaskipti. Þetta ár, 1607, var Björn sýslumaður Benidiktsson í fylgd með Herluff Daae, og segir, að höfuðsmaður hafi farið suður með 40 pd. af silfri: Björn var þá handskrifari Herluffs.

Þá er Þingeyraklaustur og kirkja skyldi útlakast af Guðrúnu ekkju Jóns lögmanns og Ara sýslumanni, umsjónarmanni hennar, urðu þeir Páll og Ari eigi á eitt sáttir, því Páll vildi fá bæði klaustrið og kirkjuna afhent í góðu standi (sjá Árb. 5. þ. bls. 110 í 5. D.); konungsbrèf kom og 1608 um, að Þingeyrakirkja skyldi niður rífast, og byggjast minni, einnig klaustrið í stand setjast á kostnað ekkju Jóns lögmanns og Páls klausturhaldara, skyldi því síðan vel við halda Sömdu þau Páll þar um, en eigi varð af Páli kirkjan fyr fullgjörð, en 1619, var hún vandað hús.

Í veitingabrèfi Páls fyrir Þingeyraklaustri var hann skyldaður til að borga til konungs árlega: «Tvö hundreðe half sette og treðive daler og en ort» af Vatnsdalsjörðum: «threi ok fyrge thíuffve daler» af Húnavatnssýslu: «Otte ok fyrgethjuffve voðer vaðmel, sotten daler en Föie mand til Soes» so vel sem: «femb ok fyrge thiuge daler, som er lougmands kiob af samme Syssel». Hèr af sèzt afgjaldið á þeirri tíð, þar að auki kjöri konungur sèr af rekum hvalatennur og hvalambur, o. fl. Meðal dóma Páls sýslumanns eru þessir: 1608, á Sveinsstöðum í Vatnsdal (Árb. 5. þ. bls. 120) 1609 jarðaþrætu mál (Árb. 5. þ. bls. 121) og orðamál 1611, um gil í Svartardal (Árb. 5. þ. bls. 126). 1612 var Páll við Undirfells úttekt. 1614 átti hann í rekaþrasi við síra Arnfinn á Stað í Hrútafirði. 1614 var hann í hjúskapardóms máli að Giljá. 1618 vildi hann semja millum síra Ólafs og Teits Björnssonar á Holtastöðum, þeirra jarða þrætu, um hálfan Torfulæk, kom þó til dóms, og eignaðist Teitur jarðarpartinn.

Alla þá tíð, sem Páll hafði sýslu og bjó á Þingeyrum, var hann maður góðgjarn, vellátinn og veitingasamur. Hann var á vöxt með hærri mönnum, líkur föður sínum, bjartleitur, en þó fyrirmannslegur að öllu andlitsfalli Hann var að kynferði sínu nokkuð ör til alls þess, er hann fyrir tók sèr, djarfmæltur á mannfundum og fljótlegur; fornlyndur, góðgjarn við bágstadda og allgóður bústandsmaður.

1621 bar svo til, að Páll ætlaði að ríða til fundar við föður sinn, Guðbrand biskup, gisti hann þá á Víðimýri hjá Sigurði sýslumanni Hrólfssyni, tók hann þar stranga sótt, lá fjóra eða fimm daga, og lèzt þar ; var þetta í júlí mánuði eða fyr, síðan var hann fluttur vestur til Þingeyra og grafinn þar; þótti að honum skaði mikill, voru flest börn hans þá ung og var skipt umboði þeirra og fè, því auðsæld hans hafði verið í góðu lagi þau 15 ár, sem hann hèlt Húnavatnsþing, Þingeyraklaustur og Vatnsdalsjarðir. Sigríður Björnsdóttir, ekkja Páls, flutti eptir lát bónda síns að Másstöðum í Vatnsdal, og andaðist þar 1633 sama ár og Hákon, sonur hennar, sem hafði verið í Skálholtsskóla um veturinn, en fór þaðan á alþing, og af þingi ásamt öðrum; tók hann sótt á fjöllunum, komst með kvalningu til

byggða, og andaðist; var hann 15 vetra. Sigríður var sögð ágæt kona; hún fèkk þungan krankleika með bólgu í holdinu, lá þar í lengi áður en hún dó.

**Guðmundur Hákonarson.**

*Faðir:* Hákon sýslumaður, er bjó í Vík á Seltjarnarnesi, og svo í Nesi við Seltjörn.

*Móðir:* Solveig dóttir Jóns sýslumanns Marteinsonar, sjá Vaðlaþing.

*Kona:* Halldóra dóttir Ara sýslumanns í Ögri Magnússonar.

*Börn:* A. Þorkell sýslumaður, sjá hèr seinna.

B. Helga giptist Birni sýslumanni Magnússyni á Munkaþverá, sjá síðar.

(Ritfært er, að þegar Gísli Þorláksson, er seinna varð biskup, var skólameistari, hafi hann beðið Helgu, en fengið afsvar um kvöldið; snemma um morguninn eptir lèt hann búa ferð sína frá Þingeyrum og vildi ekkert þiggja. Þegar hann var á bak kominn, hèlt Guðmundur á bikar og rètti að honum; Gísli mælti þá fram vísu þessu:

Samt skal eg glaður í geði,
þótt góð mèr þyki fljóðin,
ráði sú rík er auði,
rètt er að iðrist eptir.
Guð hefir gnægð af góðu,
gleð eg mig æ þar meður,
oss mun auðið verða
annars jafngóðs svanna.

Kastaði bikarnum og reið af stað).

Guðmundur Hákonarson lærði fyrst venjulegan skólalærdóm bæði í Skálholts og Hóla skóla, sigldi svo tvisvar til enn meiri lærdómsframa, og var utanlands í tiginna mannna þjónustu. Þá er hann kom út í seinna sinni, gjörðist hann Hólastaðar ráðsmaður eptir Þorkel Gamlason.

Þann tíma var á Hólum fósturdóttir og dótturdóttir Guðbrands biskups, Halldóra dóttir Ara sýslumanns í Ögri Magnússonar; hún var þá ung og gjafvaxta, er mælt, að þeim Guð-

mundi hafði litizt vel hverju á annað, og verið kunnug, svo orð fór af; þá er Ari heyrði það, lètzt hann ætla að sækja dóttur sína norður um haustið, eða sókti hana sjálfur, og var hún í Ögri um veturinn. Guðmundur hafði sett til mann áður að biðja sèr til handa Halldóru og hafði Ari veitt afsvar; ástir þeirra Guðmundar og Halldóru voru þá svo miklar, að hvorugt undi sèr. Er mælt, að Guðmundur hafi þá um veturinn farið vestur að Snóksdal til Eggerts lögrèttumanns Hannessonar, og verið þar um hríð; hafi Guðmundur komið því til leiðar, að Eggert fèkk vel skíran sendimann vestur að Ögri með brèf og erindi til Ara, sem hann tilfann sèr, en jafnframt með brèf frá Guðmundi til Halldóru, sem sendimaðurinn ætti að koma til hennar leynilega. Þá er maðurinn kom í Ögur, grunaði Ari hann, og vildi sporna við, að hann næði fundi Halldóru; kallaði hann því manninn í stofu til sín og talaði þar við hann. Rúm var tjaldað í stofunni; einhverja vitneskju fèkk maðurinn um það, að Halldóra var í rúminu, Ari gekk um gólf, og eitt sinn, er Ari sneri sèr frá honum, kastaði sendimaðurinn brèfinu upp í rúmið. Um morguninn eptir fór Ari eins með manninn, en er Ari einhverju sinni snèri sèr undan, var brèfi kastað úr rúminu til mannsins. Sumarið eptir reið Ari til þings, og líka Eggert í Snóksdal, og Guðmundur með honum, þá er sagt, að þeir hafi í þeirri ferð orðið samferða höfuðsmanninum, sem var Holgeir Rosenkrantz. Hafi höfuðsmaðurinn riðið mjög hart, og hleypt í fen, svo að hann var ekki sjálfbjarga, hafi þá Guðmundur orðið fyrstur til að hjálpa honum, en höfuðsmaðurinn sagt honum, að biðja sig einhvers; hafi þá Guðmundur beðið hann að fara með sig til Ara, og það hafi höfuðsmaðurinn undir eins gjört, og sagt við Ara: «Guðmundur skal hafa dóttur þína, Ari bóndi»! Þá er mælt, að Ari hafi svarað, að höfuðsmaðurinn yrði þá að fá honum einhverja þúfuna til að búa á; en höfuðsmaðurinn svaraði, að hann skyldi hafa Þingeyraklaustur (á þetta víkur síra Jón Halldórsson í Hirðstjóraannál sínum, að Guðmundur hafi fengið Halldóru fyrir tillögur höfuðmannsins, og árinu eptir Þingeyraklaustur, en það sem hèr stendur, hefir Magnús sýslumaður ritað, og kveðst hann hafa ritað það eptir munnlegri frásögn gamalla fróðra manna).

Árið 1621, annan dag septembermánaðar, giptist Guðmundur Hákonarson Halldóru, dóttur Ara bónda Magnússonar og Kristínar Guðbrandsdóttur biskups. Taldi þá Hákon bóndi syni sínum Guðmundi móts við þá frómu heiðursstúlku, Halldóru Aradóttur, jörðina Kolbeinsstaði, sem til kaups og konarmundar er talin eitt hundrað hundraða, en til arfaskipta sextíu hundruð; hálfa jörðina Haukatungu tuttugu hundruð, Kiðnafell tuttugu hundruð, hálfa Núpsdalstungu tuttugu hundruð, er Eggert bóndi gaf Guðmundi. Hèr til gaf Hákon bóndi syni sínum í góðum og gjaldlegum aurum áttatíu hundruð, til rèttra skipta móts við systkini Guðmundar. Skyldi fasteignin öll, er bóndinn Hákon gaf syni sínum, þá strax vera hans eign til alls ágóða; en lausafè greiðast að næsta vori; svo og lofaði bóndinn Hákon að láta hýsa jörðina Kolbeinsstaði, svo að reiknaðist tuttugu hundruð. Hèr á móti taldi bóndinn Ari Magnússon sinni dóttur Halldóru áttatíu hundruð í jörðum og fjörutíu hundruð lausafjár; en það meira væri og henni til stæði eptir föður sinn og móður, skyldi hún að þeim önduðum uppbera hèr að auki tuttugu og fjögra hundraða jörð, sem Ari bóndi hafði gefið Halldóru að löggjöf, item tuttugu hundraða jörð, er biskup Guðbrandur hafði henni gefið, sömuleiðis fimmtíu hundraða jörð, er hennar móðursystir Halldóra hafði henni gefið; auk þess sem hún sjálf átti, er virðing skyldi á leggjast síðar. Tilskildi Ari bóndi dóttur sinni sextíu hundraða tilgjöf af Guðmundi í fasteign, sem Halldóra vildi sjálf kjósa, þar að auki fjórðungsgjöf í föstu og lausu, er Guðmundi aflast kynni, þar hann ætti eigi tvo hluti móts við hana; sem Hákon bóndi allt samþykkti, vottar: Halldór lögmaður Ólafsson, Þorbergur Árnason, Ari Guðmundsson, Vigfús Illugason yngri, Jón Sveinsson, Bjarni Jónsson, Brynjólfur Sveinbjörnsson.

Páll sýslumaður hefir dáið fyr á árinu 1621 en Björn á Skarðsá segir (10. nóvbr.), því búið hefir verið að veita Guðmundi sýsluna í september 1621, sem sèst af eptirfylgjandi dómi:

1621, 26. dag september á Torfustöðum í Miðfirði, lætur Guðmundur sýslumaður Hákonarson ganga 6 manna dóm, um lögrekstur til afrètta og fjallagöngur, og voru allir með dómi til þess skyldaðir, og þeir, sem ræki 10 lömb, að svara

einu í lambatolli, en þeir sem ræki 20, svari 20 álnum eptir venju í Miðfirði.

Það er og til merkis því, að Páll sýslumaður hefir verið dáinn fyrir alþing, að höfuðsmaðurinn hèt Guðmundi Þingeyrarklaustri, sem fyr er sagt, þegar þeir riðu til þings 1621, en ekkjan hèlt klaustrinu til næstu fardaga 1622; hann setti það ár Guðmund fyrir Húnavatnsþing, því þá hafði Jón Sigurðsson inngefið supplicatiu til konungs, og Rósenkranz mælt fram með honum.

1621, 2. október, að Engihlíð, lætur Guðmundur Hákonarson, sem umboðsmaður konungs í Húnavatnsþingi, með Einari lögrèttumanni Jónssyni, Egli Jónssyni, Árna Teitssyni, Gísla Bessasyni, Þorsteini og Jóni Tómassonum dóm ganga, um framfæri ómagans Guðrúnar Vilhjálmsdóttur, er þá var dæmd á fè Þorsteins Þórðarsonar til framfæris.

1621, 3. október, lætur Guðmundur aptur 6 manna dóm ganga á Vindhæli um þá stefnu, er Magnús Jónsson hafði með stefnt síra Sæmundi Kárssyni, og dæmdu dómendur stefnuna ónýta, þar hún hefði yfir presti á helgum degi lesin verið. Sama dag lætur hann virða hest Sveins heitins Þorsteinssonar, erfingjum tilheyranda, 12 aura.

1622, 29. apríl, að Bólstaðarhlíð, lætur hann dóm ganga (Árb. 5. þ., bls. 19) og á sama stað og degi um sauðfjárrekstur (sama staðar). Sama ár, 30. apríl, um ólofaða hestabeit í annars landi. Sama ár, 2. maí að Vindhæli, 6 manna dóm um framfæri Þóru Guðmundsdóttur, er þá var dæmd á bræður sína[1]. Sama ár, að Ási í Vatnsdal 4. maí, 6 manna dóm yfir Jóni Brandssyni, er rofið hafði dóm Páls heitins Guðbrandssonar, vorið fyr, 1621, uppkveðinn á Ássþingi. 1622, 6. maí að Sveinsstöðum, var Guðbrandur biskup dæmdur svaramaður barna Páls heitins Guðbrandssonar. 1622, 10. maí, að Torfustöðum í Miðfirði, lætur Guðmundur sýslumaður Hákonarson 6 manna dóm ganga um misklíð milli Arngríms Styrkárssonar og Ólafs Ólafssonar út af vinnudreng Arngríms lögráðnum, sem Ólafur hèldi; dæmdu dómsmenn Arngrími svo mikið af Ólafi, sem átti að svarast drengnum af Arngrími, sem var vetur-

1) Hún var dæmd á bræðrasonu sína, síra Eirík og Guðmund Stefánssonu og Jón Pètursson.

gömul gimdur, 4 álnir vaðmáls, og þar að auki öfundarbót Arngrími, en konungi mörk.

Þetta sama ár var af höfuðsmanninum Holgeir Rósenkranz tekin Húnavatnsssýsla af Guðmundi Hákonarsyni og veitt Jóni lögmanni á Reynistað Sigurðssyni, eptir veitingu konungs, en þetta ár fèkk Guðmundur brèf hirðstjórans fyrir Þingeyraklaustri; en þá er Jón dó, var Guðmundi aptur veitt sýslan 1635; því 1635, 15. júlí að Sveinsstöðum í Vatnsdal, lætur hann 6 manna dóm ganga um ranglega fluttan ómaga, Guðrúnu Jónsdóttur að forlagi síra Þórarins á Bægisá Ólafssonar; á sama þingi dæmir hann um framfæri. 1635, 5. október, að Torfulæk í Miðfirði lætur hann ganga 6 manna dóm um húsrof og burtflutning, skyldi sá, er húsið reif, uppbyggja það aptur.

1636 lætur Guðmundur marga dóma ganga:

1. um þjófnað Hákonar Þorsteinssonar.
2. um framfæri Guðmundar Jónssonar.
3. um mál milli Ara Hallssonar og þeirra hjóna, Tómasar Jónssonar og Málfríðar Jónsdóttur um fjár aðtekt.
4. um hórdómsbrot í annað sinn framið.
5. um framfæri barna Jóns Finnbogasonar.
6. um framfæri Herdísar Þorláksdóttur.
7. um ágreining á hesti og fjórum skeifum.
8. um framfæri Steinunnar Jónsdóttur.
9. um ágreining Jóns Sturlusonar og Ingibjargar, um arfaskipti.
10. um framfæri Gunnhildar Árnadóttur.
11. um að Jón Þorgrímsson hafði stungið gat á hempu Oddnýjar Guðmundsdóttur, honum dæmd 3 aura sekt.
12. um stuld Þorkels Pèturssonar.
13. um sviksamlega höndlun Þorkels á hesti o. s. frv.

1639, 18. apríl, að Bólstaðarhlíð, að prófentumaður Jón Jónsson sè skyldur að gjalda 2 ára skatt, að undanförnu ógoldinn, og skatthald eptir lögum.

1642, 12. febr. að Sveinsstöðum, um erfingja.

1642, 3. ágúst, stóð yfir mál Guðmundar sýslumanns Hákonarsonar og kaupmanns á Skagaströnd, Kristjáns Hesselbergs; var Jón Egilsson á Geitaskarði þar í settur dómari af lögmanni Magnúsi Björnssyni. Sakir sem Guðmundur hafði við kaupmanninn voru:

1. Að sýslumaður sannaði, að kaupmaður hefði við sig sagt, að hann hefði ekki rèttilega við sig höndlað í þessum kaupstað (Spákonufellshöfða).

2. Að kaupmaður hefði með hastyrðum afsagt að framleggja fyrir sýslumann reikningsbók sína, að sýslumaður mætti sjá, hvort höndlað væri eptir lögum, hvað sèr eptir lögum bæri að gjöra.

3. Kaupmaður hefði eigi sýnt sèr leyfisbrèf konungs fyrir, að hann mætti hèr vera og höndla, þar sem hann þó hefði hèr útlegðarverk unnið.

4 Kaupmaður hefði látið rista og stinga á sèr tiltrúaðri konungsjörð, og útheimti, að hann framlegði leyfi þar fyrir eða af hvers myndugleika hann hefði það gjöra látið.

Eigi fèll dómur í málinu, því kaupmaður og sýslumaður sættust sama dag, að óskertri virðingu þeirra á báðar síður o. s. frv, var haldið að kaupmaður hefði í kyrrþey gefið sýslumanni til sátta talsvert, þó eigi geti þess í sáttarbrèfi þeirra.

1643 lèt hann að Torfustöðum 17. maí ganga dóm um illyrði, og kom dómur sá til alþingis.

1644 lætur Guðmundur ganga dóm um framfæri Hallberu Magnúsdóttur. Dæmdist það á Bergþór Sæmundarson í Skagafirði, lögrèttumann, og Tuma Jónsson búanda á Ey.

1648, 13. desember að Torfalæk, lætur Guðmundur dóm ganga um ómagann Margrètu Þorbjarnardóttur, sem dæmdist á síra Hall og son hans Ólaf prófast Hallsson.

1651, að Engihlíð, lætur hann dóm ganga um vistarráð (Árb. 5. þ., bls, 158).

Í lögrèttu gjörði hann opt fyrirspurn um ýmislegt, til dæmis um hegningu; honum var þar upp á svarað, að 6 aura hegning afplánast með 6 vandarhöggum. Mannþurrðareyrir sè hinn almenni 6 álna eyrir.

Guðmundur sýslumaður gjörðist í aldurdómi sínum þrotinn að heilsu, sagði því af sèr lögsögn í Húnavatnsþingi 3. júní 1656, með loflegum orðstír landshöfðingja og beztu manna honum kunnugra, hèlt svo klaustrinu til þess að hann dó á Þingeyrum 21. maí 1659, sem var laugardagur næstur fyrir hvítasunnu.

Guðmundur var höfðingi mikill, lærður maður og guðhræddur, röggsamlegur í embætti sínu, örlátur og veitingasam-

ur, auðmaður og vitur. Til uppeldis fátækum í Húnavatnsþingi gaf hann jörðina Hamar með tilheyrandi kúgildum. Ása í Svínavatnssókn, 20 hundruð, gaf Guðmundur fátækum eptir sig.

Margir vildu Guðmund fyrir lögmann hafa, þegar Magnús Björnsson varð lögmaðnr, 1639, að höfuðsmannsins tilhlutun. Guðmundur samdi rit um fríunareiða, sem bæði að efni og orðfæri er merkilegt.

Hann varð mjög þungfær og feitur með aldrinum; er það að orði gjört, að einn hans manna var svo þrekmikill, að hann bar Guðmund upp mjög örðuga brekku í Þingeyratúni að gamni sínu; er mælt, að Guðmundur hafi gefið honum fyrir það þrekvirki 1 hundrað.

### Jón lögmaður Sigurðsson.

*Faðir:* Sigurður Jónsson sýslumaður á Reynistað, sjá Hegranesþing.

*Móðir:* Guðný Jónsdóttir Grímssonar.

*Kona:* Þorbjörg Magnúsdóttir, Vigfússonar sýslumanns, Þorsteinssonar sýslumanns, Finnbogasonar lögmanns, sjá Þingeyjarþing.

*Börn:* A. Jón giptist 1629, Þóru Sigurðardóttur, Markússonar í Hèraðsdal. Sigurður bóndi Markússon og húsfrú hans Guðbjörg Torfadóttir töldu dóttur sinni Þóru 100 hundruð, en Jón Sigurðsson og Þorbjörg Magnúsdóttir töldu þessum syni sínum tvö hundruð hundraða, þar í Svalbarð á Eyjafjarðarströnd 100 hundruð, hálfa Lögmannshlíð 50 hundruð, Hvamm í Grýtubakkasókn 20 hundruð og 70 hundruð í lausafè. Brèfið er ritað á Fagranesi á Reykjaströnd 1630. Vottar Þorbergur og Sigurður Hrólfssynir sýslumenn, Magnús Sigurðsson, Sigurður Jónsson, Gottskálk Jónsson, prestar, Magnús Jónsson, Björn Jónsson, Björn Magnússon, Eiríkur Magnússon, lögrèttumenn. Börn Jóns og Þóru voru:

a. Ragnheiður, átti Odd snikkara, Árnason lögrèttumanns, Daðasonar á Eyrarlandi, Árnasonar sýslumanns Oddssonar, sjá Dalasýslu; þeirra börn:

1. Benidikt[1].
2. Guðlaug[2].
3. Guðbjörg.
4. Guðný[3].

b. Sigurður á Svalbarði lögrèttumaður, átti Katrínu dóttur síra Jóns í Laufási skálds, Magnússonar, sjá Barðastrandarsýslu; þeirra börn:
1. Hallgrímur á Svalbarði[4].
2. Sigurður lögsagnari[5].
3. Magnús[6].
4. Jón[7] í Tungu í Svalbarðssókn.
5. Steinunn[8].

c. Ragnhildur átti Pètur Þórðarson á Innra-Hólmi, sýslumanns Hinrikssonar sýslumanns, sjá Þverárþing sunnan Hvítár.

d. Guðný átti síra Þórarinn á Hrafnagili, þeirra börn dóu.

e. Steinunn, átti síra Þorlák Ólafsson, börn:
1. Ólafur[9] í Hèraðsdal lögrèttumaður.

---

1) Benidikt sigldi, var snikkari, giptist í Kapmannahöfn, dó þar með öllum sínum í pestinni 1711.

2) Þess er eigi getið, að Guðlaug hafi giptzt, en hún átti son með Helga Gunnarssyni er hèt

Bergur, bjó í Þröm á Langholti, átti Þóru Illugadóttur Asgrímssonar.

3) Guðný átti Arngrím Tómasson í Brekku.

4) Hallgrímur átti Ingunni Hallgrímsdóttur Hallssonar, prests í Höfða Ólafssonar Árnasonar.

5) Sigurður bjó á Brjámslæk, átti fyrst 2 launbörn, giptist svo Guðrúnu Nikulásdóttur prests í Flatey.

6) Magnús átti Herdísi Árnadóttur frá Garðsvík Árnasonar.

7) Jón var lögrèttumaður og tvígiptur, hèt fyrri kona hans Ólöf Þórðardóttir Jónssonar frá Laxamýri, barnlaus; hin síðari Ragnheiður Ólafsdóttir Oddssonar úr Flatey.

8) Steinunn átti Benidikt Þórðarson Jónssonar frá Laxamýri, bróður Ólafar.

9) Ólafur átti fyr Guðrúnu Ólafsdóttur, svo Ingibjörgu Skaptadóttur, sjá Hegranesþing, bls. 398.

2 Ingibjörg[1].

B. Vigfús í Lögmannshlíð átti Guðrúnu Halldórsdóttur: þeirra son:

Jón sýslumaður í Þingeyrarþingi[2].

C. Ólöf giptist fyrst á Reynistað, 6. okt. 1623, síra Sigurði Jónssyni á Helgafelli, hann drukknaði af litlum bát á Helgafellsvatni 1624; aptur giptist hún Jóni, syni síra Arngríms lærða 1625: fèll stirt á með þeim, og voru þau með dómi skilin 1628, þá Ólöf sór fyrir alla menn nema síra Sigurð. En Jón á Ökrum Arngrímsson var 10. maí 1630 við gjörðan samning tilfundinn að borga tilgjöf Ólafar, og svaraði þá síra Arngrímur faðir hans Urriðaá í Miðfirði 24 hundruðum.

Í þriðja sinn giptist Ólöf Hallgrími lögrèttumanni, syni Halldórs lögmanns Ólafssonar, Ólöf dó 1669. Þau Hallgrímur og Ólöf bjuggu fyrst á Víðimýri svo í Vík; þeirra börn:

a. Ólafur, mikill maður, dó 1696, átti Guðríði Sigurðardóttur[3], þeirra dóttir
Ólöf dó barnlaus 1704.

b. Þórunn, átti Jón Árnason, lögmanns, og giptist honum 1678, Jón dó 1685, þau barnlaus.

c. Jón á Víðimýri og í Vík, giptist ekki, en átti laundóttur með Björgu Einarsdóttur, er hèt
Þóra, hún var arfleidd 1704, og átti Spendrúp sýslumann, sjá Hegranessýslu[4].

---

1) Ingibjörg átti síra Gísla Einarsson í Múla.
Enn var dóttir Jóns og Þóru:
f. Steinunn yngri átti síra Jón Stefánsson Hallkelssonar.
Aðrir telja þessa Steinunni dóttur Sigurðar og Katrínar, en það er víst eigi rètt, því Jón Magnússon, sem nauða kunnugur hefir verið þessari ætt, telur hana hins vegar. sem hèr er gjört; hið sama gjörir og Árni biskup Þórarinsson.

2) Bls. 105.

3) Guðríður var dóttir síra Sigurðar í Stafholti Oddssonar biskups.

4) Bls. 108.

D. Kristín giptist á Reynisstað 11. október 1631 Þorláki syni Páls sýslumanns Guðbrandssonar. Taldi Guðbrandur biskup þá Þorláki þrjú hundruð hundraða í jörðum, þar á meðal Víðidalstungu 60 hundruð, Valdarás 24 hundruð, Ytri-Þverá í Vesturhópi 20 hundruð, Mýrar 24 hundruð, sem Sigríður Björnsdóttir gaf honum, þar að auki tvö hundruð hundraða í lausafè. Vottar: Guðmundur Hákonarson, Þorbergur og Sigurður Hrólfssynir, 3 lögrèttumenn og 3 prestar.

Þorlákur bjó þar eptir í Víðidalstungu. Börn þeirra eru talin áður.

E. Margrèt, laungetin, giptist síra Jóni á Hjaltabakka Þorgeirssyni, sem alls átti 34 börn, hann dó 1674. Margrèt var 3.[1] kona síra Jóns en hin 4. kona hans var Guðrún móðir Steins biskups. Meðal barna síra Jóns og Margrètar voru.

a Sigurður, kallaður lærði, hans son Þorsteinn[2].

b Þorgeir átti Margrètu Guðmundsdóttur, barnlaus.

c Síra Jón í Görðum á Akranesi, átti Oddnýju Þórðardóttur[3], börn:

1. Þorsteinn.
2. Guðrún.

---

1) Aðrir telja hana fyrstu konu síra Jóns, sem án efa er með öllu rètt; með henni átti hann 6 börn, en hvorki síra Páll á Höskuldsstöðum, síra Jón í Görðum nè Þorgeir voru synir hennar, heldur voru þeir synir Guðrúnar Steingrímsdóttur, seinustu konu síra Jóns, og þannig albræður Steins biskups. Eptir að Guðrún var orðin ekkja, var hún um tíma hjá síra Páli syni sínum, fór síðan að Görðum til síra Jóns sonar síns, og dó þar hjá honum.

2) Kona Þorsteins hèt Elin dóttir Björns Árnasonar í Rúgeyjum.

3) Oddný var dóttir síra Þórðar á Undirfelli Þorlákssonar Þórðarsonar á Marðarnúpi, er var bróðir Guðbrandar biskups.

d. Síra Páll á Höskuldsstöðum átti Oddnýju Benidiktsdóttur, þau barnlaus.
e. Halldóra, átti Þorstein Vigfússon, barnlaus.

F. Þorleifur Jónsson, laungetinn, átti Þórunni Árnadóttur[1], þeirra börn:
a. Kolbeinn[2].
b. Sigurður[3].
c. Arni á Móbergi[4] hans son
Þórður, hans son
Árni á Arneiðarstöðum, hans son,
Jón sýslumaður á Ingjaldshóli.
d. Guðrún[5].
e. Helga[6].

Margt bændafólk er komið af börnum Jóns lögmanns. Jóni

---

1) Þórunn var dóttir Árna Magnússonar frá Grýtubakka.

2) Um Kolbein er sagt, að hann hafi verið upp á hestakaup. Hann átti Sigríði dóttur Sigfúsar frá Yxnhóli, launsonar Ólafs sonar Jóns Refs; síðan átti Kolbeinn 2 konur, en með hvorugri þeirra barn; hann átti og 2 launsonu.

3) Sigurður átti Guðrúnu dóttur Kárs Arngrímssonar í Vatnshlíð.

4) Kona Árna var Guðrún Þorvarðardóttir Sturlusonar.

5) Guðrún eldri átti Sigurð Björnsson Arnbjörnssonar, en kona Björns og móðir Sigurðar var Guðrún Halldórsdóttir Oddssonar Arnfinnssonar sýslumanns Jónssonar (sjá bls. 176 og víðar).

6) Helga átti Halldór Björnsson, bróður Sigurðar, er átti Guðrúnu systur hennar.

Enn voru börn Þorleifs og Þórunnar:
f. Guðrún yngri, hennar maður Úlfur Jónsson bróðir Þorsteins á Fjalli. Síðan átti hún Hallgrím Guðmundsson á Höfðaströnd.
g. Þuríður átti Tómas Björnsson, bróður þeirra Sigurðar og Halldórs.

Enn telja sumir launson Jóns lögmanns Sigurðssonar:
G. Sigurð, er Símon í Málmey var kominn af, faðir Gísla kaupmanns og systkina hans

lögmanni var kennt barn ungum, Guðný að nafni, er seinna var kölluð Hallberu dóttir. Jón vildi eigi kannast við það, en sýslumaður Sigurður faðir hans tók barnið og ól upp, sagði þó að hún eigi mundi vera sonardóttir sín, því hún líktist í hvoruga ættina; 2 tennur í höfði barnsins sýndu hverrar ættar það væri. (Þenna vitnisburð hafði Einar Grímsson 1609 útgefið, og forsiglað á pappír eptir Sigurði; hann fannst í skjölum Bjarna Pèturssonar frá Lögmannshlíð).

Jón lögmaður var fæddur 1565. Um sýsluvöld hans finn eg þess fyrst getið, að hann hèlt 6 ár part af Þingeyjarþingi, (sjá þar um hann); en við dauða föður síns fèkk hann sèr veitta Hegranessýslu 1602; 1606 varð hann lögmaður norðan og vestan. Hann mun og hafa fengið veitingu fyrir Reynistaðarklaustri 1602.

1606, þegar Jón lögmaður Jónsson dó, var Jón lögmaður Sigurðsson settur það ár fyrir Húnavatnsþing til þess Páll fèkk veitingu fyrir því; gjörðist þar þá umboðsmaður Jóns lögmanns Sigurðssonar Ingjaldur son Illuga prests Guðmundssonar, bjó hann á Reykjum í Miðfirði og dó 1643, og var grafinn að kórbaki á Tjörn á Vatnsnesi. Son hans var síra Illugi á Tjörn á Vatnsnesi, faðir síra Erlendar, er þar var síðar prestur. Kona Ingjaldar var Hildur systir síra Arngríms lærða. Síra Illugi í Múla var faðir Ingjalds lögrèttumanns.

1618 dæmdu útlendir commissarii Friðrik Friis og Jörgen Vind lögmannsdæmið af Jóni fyrir það, að hann átti barn fram hjá konu sinni, en lèt stúlkuna þegja yfir faðerni barnsins, og prest afleysa hana; eptir boði konungs, með Friðrik Friis höfuðsmanni missti Jón og Hegranessýslu 1619, og hafði einungis eptir Reynistaðarklaustur. En þar Jón þótti verða hart úti í dómi commissarianna, og höfuðsmaðurinn Holgeir Rósenkranz hafði eigi fyllilega veitt æfilangt Guðmundi Hákonarsyni Húnavatnsþing, og aumkaðist yfir Jón Sigurðsson, að hann skyldi hafa bæði misst lögmannsembættið og Hegranessýslu, veitti hann honum Húnavatnsþing 1622. Jeg hefi samt eigi sèð dóma hans í Húnavatnsþingi fyr en 1624; það ár 20. apríl að Ási í Vatnsdal lèt hann 6 manna dóm ganga um fóðrarsauði og eldapening (Árb. 5 þ. bls. 23).

1625, 19. september, að Ási lèt hann dóm ganga um líkt efni milli Jóns Brandssonar og Gísla Þórarinssonar.

1627, var Jón Sigurðsson ásamt öðrum til varnar á Bessastöðum mót Tyrkjum frá Algier.

1628, 8. maí, að Torfastöðum í Miðfirði, lætur Jón ganga 6 manna dóm um hrossamál nokkurt, og 1698 að Sveinsstöðum um þá, sem afrækja konur sínar (Árb. 5 þ. bls. 40).

1630, 5. maí, að Torfastöðum, lèt hann dóm ganga um nafnagiptur, uppljóstraðar af Erlendi Sveinssyni, skyldi Erlendur missa húðina, ef hann eigi gæti fríað sig frá þeim með lýrittareiði hinum meira (Árb. 5. þ., bls. 45.). Þetta sama ár var mannfundur á Ökrum í Blönduhlíð, sömdu þar Halldór lögmaður og fleiri við Jón bónda Sigurðsson og síra Arngrím lærða, um tilgjöf Ólafar Jónsdóttur frá Jóni Arngrímssyni (sjá hèr á undan).

1631, að Hvammi, var dæmt um ólöglegt kaup (Árb. 5. þ., bls. 51.), og sama ár lèt umboðsmaður hans, Egill Jónsson, dóm ganga að Vindhæli um reka (Árb. 5. þ., bls. 51.).

1632, 24. apríl, að Torfustöðum, lèt Jón ganga 6 manna dóm um 2 ær í landskuld að Fitjum, sem Gissur prestur Gamlason heimtaði: um brennivínssölu: um hótun á húsrifi á Fitjum (Árb. 5. þ., bls. 64.).

1634, 22. júlí, að Sveinsstöðum í Vatnsdal, lèt Jón ganga 6 manna dóm, eptir beiðni Þorláks í Víðidalstungu, um útlausn Benidikts bróður hans frá Tyrkjum; dæmdust þeir Þórlákur og Páll á Másstöðum skyldir að verja eignum Benidikts honum til lausnar (Árb. 5. þ., bls. 70.).

1634, 22. júlí, að Sveinsstöðum, lèt hann 6 manna dóm ganga um rekaþrætu milli Guðmundar Hákonarsonar, er bar fyrir sig Þingeyrakirkju máldaga, um Spákonufells arf og Bjarna Ólafssonar á Bakka.

1634 var Jón sýslumaður Sigurðsson á alþingi meðdómsmaður.

1634, 15. september, lèt hann dæma um þjófnað úr Spákonufellshöfða búðum, barst það að Ólafi Ólafssyni og Ingibjörgu Guðmundsdóttur. Jón Egilsson á Geitaskarði sótti málið vegna kaupmanns Kristjáns Jónssonar.

Sama ár lætur hann ganga 4 framfærsludóma í Kirkjuhvammi, Þverá og Ási í Vatnsdal, líka að Svínavatni 27. september; var þar Páli Hallgrímssyni dæmdur sjöttareiður fyrir barnsfaðernislýsingu Guðríðar Ingimundardóttur, og á Breiða-

bólsstað um eptirlátið fè Arngríms Ljótssonar. 1635, 5. marz, á Breiðabólsstað, um framfæri, og sama staðar 24. apríl, um arf Arngríms Ljótssonar; þá kom og fyrir rètt klögun Kristjáns kaupmanns Jónssonar um skuldir, er reiðarar áttu hjá fólki síðan í tíð kaupmanns Vilhjálms Jóhannssonar, og var sækjandanum Pètri Lárussyni vísað til Bíaskerjadóms Ólafs fógeta Pèturssonar.

Sama ár lætur hann ganga framfærsludóm á Vindhæli og Engihlíð, og líka tvo þjófnaðardóma á Torfustöðum og einn á Þverá; líka um barnsfaðerni Þóru Gissurardóttur á Torfustöðum; einnig á Vindhæli um framfæri Rannveigar Magnúsdóttur, og á Þórkelshóli um framfæri Þuríðar og Gróu Jónsdætra, einnig á Ási í Vatnsdal 11. maí um framfæri Torfa Jónssonar og Höllu Hallsdóttur; líka Steinunnar Þórarinsdóttur; svo og að Bólstaðarhlíð, 13. maí, um framfæri Þórðar Grímssonar, og var það hans síðasti dómur.

Af hans mörgu dómum er auðsætt, að hann hefir þá engan umboðsmann haldið, því Egils getur eigi við dómaraverk eptir 1631.

Þegar Jón lögmaður Sigurðsson kom heim úr þessari þingaferð, lagðist hann sjúkur og dó 26. maí 1635, 70 ára að aldri. Hafði hann haldið Reynistaðarklaustur 33 ár, og haft sýslur frá ungdómi. Hálft Þingeyjarþing mun hann hafa tekið 1597, og sleppt því 1602, er hann tók Hegranesþing og Reynistaðarklaustur. 1613 tók hann Snæfellsnessýslu og Stapaumboð, var þar umboðsmaður hans Steindór Gíslason; því sleppti hann 1615, þegar Sæmundur Arnason tók bæði þá sýslu og umboðið. 1619 missti hann Hegranesþing, svo sem áður er sagt. 1622 tók hann Húnavatnsþing, og hèlt það til dauða síns; tók það þá Guðmundur Hákonarson strax sama ár.

Lærdómur og lögvísi Jóns álíta menn að hafi verið í góðu lagi, og það er haft eptir Gísla lögmanni Hákonarsyni, þegar Jón Sigurðsson var af settur lögmannsembætti, að hann hafi þá sagt: «Jeg hef misst aðra hönd mína; slíkan skynsemdarmann og lögvitring í dómarasæti mun trauðlega vera að fá».

Ekki var hann búhöldur eða auðmaður að öðru en því, er hann erfði, hafði jafnan til hnífs og skeiðar, gekk þó ekki af því. 1592, þegar Jón lögmaður Jónsson fór utan, tók hann bróðurson sinn, Jón Sigurðsson frá Reynistað, með sèr fyrir

handritara, er þá var 27 ára Litlu þar eptir giptist Jón Sigurðsson, og átti þar eptir í málastappi til að ná erfðafè konu sinnar; voru málin gömul, frá tíð Þorleifs sýslumanns Grímssonar, og torsótt, og stóðu yfir 1600—1603. Náði Jón loks uppbótinni.

Jón lögmaður Sigurðsson var góðgjarn maður og gestrisinn; menn hèldu hann kvennhollan, enda varð honum að því. Að áliti líktist hann móðurfrændum sínum, sem eigi þóttu afbrigði að fríðleik, en margir föðurfrændur hans voru skrautmenni og nafnkenndir að vexti og vænleik.

## Þorkell Guðmundsson.

*Faðir:* Guðmundur sýslumaður Hákonarson, fyr nefndur.

*Móðir:* Halldóra, dóttir Ara sýslumanns í Ögri.

*Kona:* Solveig, dóttir Magnúsar lögmanns Björnssonar á Munkaþverá. Brúðkaup þeirra Þorkels og Solveigar var haldið með miklum blóma 1647 að Munkaþverá; voru honum talin 4 hundruð hundraða, en henni 2 hundruð hundraða; fóru þau að búa 1648 að Stóruborg í Vesturhópi. Solveig dó hjá Ara syni sínum í Haga 1710, 79 ára.

*Börn:* A. Hákon sigldi eitt ár, kom svo út og giptist Sigríði, dóttur síra Þorvarðar á Breiðabólsstað í Vesturhópi; bjuggu þau fyrst að Marðarnúpi, og síðan að Hofi í Vatnsdal, en þá jörð hafði Hákon keypt af Jóni Arasyni Teitssonar, er þar bjó, fyrir smájarðir. Hákon átti allar Kolbeinsstaða eignir vestra, og seldi þær móður sinni fyrir Marðarnúp og fleiri jarðir. Hákon andaðist við Höfðakaupstað 1680, og var þá barnlaus.

B. Ari í Haga, sýslumaður á Barðaströnd, (sjá þar um hann).

C. Guðmundur giptist ekki, en bjó með móður sinni á Hólum í Eyjafirði, dó 27 ára 1688 eða 89. Hann varð bráðkvaddur heima hjá sèr; launbörn hans voru:

a. Margrèt[1] átti fyr, aðrir segja seinna, Jón lögrèttumann Vilhjálmsson á Kirkjubóli, sem dó 1706; þeirra dóttir
Ingibjörg[2] átti Hákon í Kirkjuvogi Jónsson; þeirra börn:
1. Vilhjálmur[3] í Kotvogi átti Ingveldi; þeirra son Hákon[4].
2. Þorsteinn lögsagnari, sjá Gullbringusýslu.
3. Þuríður átti Jón í Laugardælum Magnússon; þeirra börn:
α. Sigurður.
β. Magnús[5].
Margrèt átti síðan Eirík Þórhallason.
b. Nikulás.
Móðir þessara launbarna Guðmundar Þorkelssonar, sem sè Margrètar og Nikulásar, var Guðrún, dóttir Jóns lögrèttumanns Narfasonar í Sandgerði á Miðnesi.

---

1) Eiríkur Þórhallason hèt annar maður Margrètar, voru þau barnlaus.

2) Ingibjörg, kona Hákonar, segir síra Sigurður á Útskálum að hafi verið Guðmundsdóttir, og er það þá án efa rètt, þótt það kynni sýnast benda á, að hún hafi verið dóttir Jóns Vilhjálmssonar, sem sagt er, að hún lèt son sinn heita Vilhjálm; en hafi Ingibjörg verið Guðmundsdóttir, hefir hún verið laundóttir Margrètar, fremur en hitt, að hún hafi verið dóttir Guðmundar Þorkelssonar og systir Margrètar, að vísu átti hann 3 launbörn, sem sè: Margrèti, Nikulás, og eitt til, er eg hef eigi sèð nafngreint.

3) Kona Vilhjálms hèt Ingiríður Tómasdóttir Árnasonar, var systir hennar Hallfríður, er átti Ingjald nokkurn Pètursson.

4) Hákon í Kotvogi átti fyr Ingveldi Guðnadóttur, svo Önnu Jónsdóttur Sighvatssonar frá Höskuldarkoti í Njarðvík.

5) Magnús í Laugardælum átti Halldóru Bjarnadóttur, barnlaus.

Enn var son Þuríðar og Jóns:
γ. Guðni í Þorlákshöfn, hans kona Þórdís Guðmundsdóttir.

D. Ingibjörg átti Magnús Benidiktsson[1].

Þorkell hefir verið um tvítugt eða lítið meira, þegar hann giptist, mun hann bæði hafa lært latínu og farið utan sèr til frama. Hann fór fyrst að búa á Stóruborg í Vesturhópi; þá var faðir hans enn við góða heilsu. Sýslur fèllu þá ekki í nánd við hann, þangað til Þórður Hinriksson sýslumaður í Þverárþingi sunnan Hvítár dó. Fèkk þá Þorkell veitingu fyrir þeim sýsluparti 1652 eða 53, en af því að hann átti þangað langt til að sækja, tók hann Björn Gíslason á Vatnsenda í Skoradal fyrir umboðsmann sinn, og hafði hann til þess Björn dó 1656. Þar eptir hefir Þorkell fengið fyrir umboðsmann sinn í tèðum sýsluparti Sigurð sýslumann í Eiarsnesi. Ekki er mjer ljóst, hve nær hann sagði af sèr þessari sýslu, þó hygg eg það hafi verið 1660, þegar hann hafði tekið við Þingeyraklaustri. Hitt er víst, að hann hafði fengið vonarbrèf fyrir Húnavatnsþingi og Þingeyraklaustri, þegar faðir hans sleppti þessum lènum, og það lèt hann upp lesa í lögrèttu 30. júní 1655. Guðmundur sýslumaður faðir hans sleppti og við hann Húnavatnsþingi árið eptir, 1656, en klaustrinu hèlt hann til þess hann dó, þá tók Þorkell það og, og flutti að Þingeyrum 1660, og bjó þar meðan hann lifði.

Eg hefi sèð fáa dóma hans í þessari sýslu, þó má nefna þessa:

1660, að Engihlíð í Húnavatnsþingi, lætur hann dóm ganga milli Magnúsar Benidiktssonar og Þorsteins Bjarnasonar, sem hafði borið Magnús því, að hann hefði hórast með Ástríði Jónsdóttur á Kúskerpi, og kom það fyrir lögmenn á alþingi sama ár; þá brigðar Þorkell á alþingi þær 2 óðalsjarðir í Selvogi, sem föðurbróðir hans Sigurður Hákonarson hafði selt. Í dómi þeim, sem lögmennirnir Árni Oddsson útnefndu 1661, 1. júlí, um óhæfilega galdra gjörninga Margrètar Þórðardóttur, er Þorkell Guðmundsson nefndur, ásamt sýslumönnunum Gísla Magnússyni, Birni Pálssyni, Benidikt Halldórssyni, Sigurði Magnússyni, Þorsteini Þorleifssyni og fleirum. Þorkell sýslumaður hefir haft meðgjörð með Kolbeinsstaða eignir (máske fyrir sjálfan sig), því hann hefir þaðan leyst 6 kúgildi kirkjunnar.

---

1) sem fyr segir.

Þorkell sýslumaður hefir verið dáinn 1. júlí 1662, því þá lætur Björn sýslumaður Magnússon dóm ganga í Húnavatnsþingi.

Eptir dauða Þorkels sýslumanns, flutti ekkja hans Solveig Magnúsdóttir norður í Eyjafjörð, og bjó þar lengi á Hólum.

Mælt er, að Þorkell sýslumaður hafi gefið í festu fyrir Þingeyraklaustri 600 rd. Þorkell varð ekki nema 35 ára gamall.

### Björn Magnússon.

*Faðir:* Magnús lögmaður Björnsson, sjá Vaðlaþing.

*Móðir:* Guðrún, dóttir Gísla lögmanns Þórðarsonar.

*Kona:* Helga, dóttir Guðmundar sýslumanns Hákonarsonar (sjá Húnavatnssýslu). Þau giptust á Þingeyrum 9. september 1655; gaf Magnús lögmaður syni sínum 8 hundruð hundraða, en Guðmundur sýslumaður dóttur sinni 4 hundruð hundraða, og boðsmönnum 80 rd. Helga dó 1688, aðri segja 1689,

*Börn:* A. Guðbrandur var eigi óskarpur, fór utan og lifði þar óreglulega, gaf sig í stríðsmannatölu í Kaupmannahöfn, og þjónaði þar í 3 ár og 7 mánuði, kom svo út með vitnisburði furstans af Würtemberg og fleiri yfirstríðsmanna; þessir vitnisburðir voru upplesnir í lögrèttu 1689. Seinna sóaði hann góssi sínu, og var loks 1711 dæmdur fèlaus á Öngulstaðahrepp til framfæris, þar hann var þar borinn; hann var barnlaus.

B. Kristín, kona síra Þorvaldar Stefánssonar á Hofi í Vopnafirði. Þeirra börn:

a. Helga átti fyrst Pètur Björnsson, barnlaus; svo 3. kona síra Hjörleifs á Valþjófsstað Þórðarsonar, barnlaus

b Guðrún átti Sören Kristjánsson Jensen á Ljósavatni; þeirra börn:

1. Þorvaldur[1].

---

1) Síra Þorvaldur á Ljósavatni, giptist á Reynistað í tíð Þóru húsfrúr, og brann þar þá allur bærinn nóttina eptir, Guðrúnu

2. Ólafur.
3. Jörgen.
4. Einar[1].
5. Jón.
6. Jens[2].
7. María[3].
8. Guðrún,
9. Sigríður[4].

C. Halldóra átti síra Ólaf Stefánsson, þau giptust 1689; þeirra börn:
a. Margrèt átti síra Sigurð á Skeggjastað Eiríksson; þeirra son
Ólafur.
b. Stefán[5].

Björn naut góðs uppeldis hjá föður sínum, Magnúsi lögmanni Björnssyni, og var settur til lærdómsmennta, en var hvorki

---

Þorkelsdóttur prests frá Fagranesi; síra Þorvaldur dó skömmu seinna, var kapellán á Breiðabólsstað í Vesturhópi.

1) Einar átti Helgu Eiríksdóttur frá Óslandi, barnlaus.

2) Jens fór út í Grímsey og giptist þar; hans synir:
α. Ólafur á Kálfskinni.
β. Eiríkur fótalausi.

3) María átti Sigurð smið Oddsson á Ljósavatni; þeirra börn:
α. Síra Bóas.
β. Síra Jóhannes á Stað í Hrútafirði.
γ. Júdít.
δ. Rut.

4) Sigríður átti Árna hreppstjóra Gíslason á Halldórsstöðum í Laxárdal; þeirra börn:
α. Jóhannes í Grenivík, mikill atorkumaður.
β. Þuríður, seinni kona Ara Ólafssonar á Skútustöðum

Enn voru dætur Guðrúnar og Sörens:
10. Elsa, hennar maður Jón Árnason; þau áttu börn.
11. Halldóra átti Magnús í Klömbur.

5) Stefán dó utanlands í för til Indlands.

námgjarn nè skarpvitur, og í því ólíkur Gísla bróður sínum. Hann fór utan til lærdóms frama; 1655 kvongaðist hann, sem fyr sagt, af tilstilli föður síns. En þegar Þorkell sýslumaður, mágur hans, dó 1662, og þegar Hinrik Bielke höfuðsmaður kom út það sama sumar, veitti hann Birni Magnússyni Húnavatnsþing, þegar hann vissi ástæður ekkju Þorkels sýslumanns, skyldi og Björn vera umsjónarmaður systur sinnar yfir Þingeyraklaustri, þá í bráð. Hèlt hún því klaustrið þetta ár og árið eptir, þangað til að Þorleifi lögmanni Kortssyni var veitt það 1664.

1655, 30. júlí á alþingi lýsti Björn þeim vitnisburði um sig, sem Hákon Ormsson og Magnús Bjarnason höfðu gefið, og margra annara.

Þótt síra Jón Halldórsson segi, að Björn hafi fyrst haft Húnavatnssýslu móts við Þorkel Guðmundsson, eptir Guðmund sýslumann Hákonarson, efa eg samt að Björn hafi fyr fengið Húnavatnssýslu en eptir lát Þorkels 1662; þó kann Þorkell að hafa tekið Björn um 1660 fyrir umboðsmann sinn, því 1661 getur hans sem sýslumanns.

Björn sýslumaður Magnússon hafði fengið vonarbrèf fyrir Munkaþverárklaustri, þegar faðir hans sleppti því, var það dagsett 1656; halda menn að Magnús lögmaður hafi útvegað honum það, og að hann hafi álítið son sinn Björn hæfilegri til klausturhaldara en sýslumanns. Á alþingi 1662 var nefnt brèf upplesið; þá sagði og Magnús af sèr lögmannsdæminu og dó nokkru síðar. Nú hlaut Björn Munkaþverárklaustur þetta ár, hafði þá og fengið Húnavatnsþing, og var umsjónarmaður Þingeyraklausturs, mátti því annast fleira, en hann var maður til, tók þess vegna fyrir umboðsmann í Húnavatnsþingi Jón Egilsson frá Geitaskarði, en sjálfur sat Björn að Munkaþverá í Eyjafirði og var hinn auðugasti maður.

Fyrir tilstilli Gísla biskups hafði Björn sýslumaður afstaðið hálfu Húnavatnsþingi til Guðbrandar Þorlákssonar, bróður hans, sem áður hafði um hríð verið Hólastaðar ráðsmaður eptir það, að hann kom út, tók því Guðbrandur hálft Húnavatnsþing 1665.

1662, 1. maí, lèt sýslumaður í Húnavatnsþingi, Björn Magn-

ússon frá Munkaþverá dóm ganga milli Þorláks Þórðarsonar og Eiríks Jónssonar um brigði á 20 hundruðum í Gunnsteinsstöðum. Það mál kom sama ár, 1. júlí, fyrir lögþingisrètt. Þar eptir tók Jón Egilsson yngri frá Skarði við lögsagnar umboði Björns.

Svo bar til, að 1670 kom misklíð millum Björns sýslumanns á Espihóli Pálssonar og fógetans Jóhanns Kleins, sem hafði hèr mest umráð í landstjórn í 20 ár og var fullmektugur höfuðsmannsins Henriks Bielkes, er jafnan var í mestu náð hjá Friðriki konungi 3. Bielke sat einkum á seinni valdaárum sínum optast um kyrt í Kaupmannahöfn; en umboðsmaður hans Jóhann Klein ferðaðist á milli, og sat opt í Kaupmannahöfn á vetrum, en setti á meðan hèr umboðsmenn sína, meðal þeirra voru 1. Jacob Benidixen, er síðan gjörðist Snæfellsnes sýslumaður, 2. Ólafur Klow, 3. Lárus Gottrup.

Út af áður nefndri misklíð millum Björns sýslumanns og Jóhanns fógeta varð það, að Björn Pálsson sleppti Vaðlasýslu. Eigi er fullljóst, hvort Björn þá frá sagði sèr sýsluna, eða fógeti tók hana af honum, sem þeir gjörðu á stundum, þegar eigi lá allt í þeirra skauti. Hitt er víst, að þetta ár 1670 veitir Jóhann Klein Birni sýslumanni Magnússyni Vaðlaþing; hafði þó Björn mátt leggja út fyrir það drjúga festu, og þar að auki hafði Helga, kona Björn sýslumanns, vikið fógeta konunni 50 rd. spec. Þegar Björn hafði fengið Vaðlaþing, frá sagði hann sèr hálfa Húnavatnssýslu 1670.

Um dóma hans í Vaðlaþingi er þar getið.

Bæði var það, að Björn sýslumaður Magnússon var enginn skörungur að dugnaði og framkvæmd, ekki heldur sèður, og gjörði sèr sjálfum óþarfa andstreymi um það, er hann gat hliðrað sèr hjá, var og í mörgu óheppinn, þá er hann gjörðist gamall, ekki vel fallinn til búskapar, og hafði mótlæti í sínu eigin húsi, enda átti hann fjölda öfundarmanna, sem gjörðu honum flest torvelt, en hann sjálfur óskarpur og einfaldur, að greiða sig út af flækjum mótstöðumanna sinna.

Grímsey, mesta fiskiver á Norðurlandi, lá hálf undir Möðruvallaklaustur, en hálf undir Munkaþverárklaustur að afgjaldi. Björn sýslumaður átti mjög stórt farmaskip, er haft var til að

flytja afgjald eyjarbúa í land og fleira. Þetta skip með áhöfn og ellefu mönnum missti Björn sýslumaður 1673.

Jón Eggertsson frá Ökrum, er þá var á Möðruvöllum, gjörði sýslumanni Birni Magnússyni allt til andstreymis og óvirðingar, sem hann gat; sjá Vaðlaþing.

Björn sýslumaður átti og í deilum við frænda sinn Magnús Jónsson, er seinna varð lögmaður og Birni var mótfallinn. Björn átti og í ávinningslausri þrætu við Ara Þorkelsson um smáræði.

Guðbrandur sonur Björns sóaði og fè sínu með óreglulegum lifnaði, sem honum lá þungt á hjarta; harðindi voru í landi, minnkuðu þá tekjur Björns bæði af sýslunni og klausturjörðum, svo hann komst í skuldir. Bygging á klaustrinu tók að hrörna og falla, og Jóhann fógeti Klein, er verið hafði honum mjög velviljaður, hafði þá sleppt hèr völdum og var farinn utan, en í hans stað var kominn Christopher Heidemann, maður harðdrægur, ágengur og gjafþæginn: var honum borið, að bygging á Munkaþverárklaustri væri að falli komin, og um skuldir Björns eptir lènin var honum eigi ókunnugt; lèt hann því stefna Birni sýslumanni til skuldalúkningar 1684, 22. april, kom það mál fyrir lögþingisrètt sama ár, var þó þá eigi meira þar aðgjört. En eptir alþing 1684 reið fógeti Heidemann norður, fyrst til prestastefnu, svo heim að Hólum og þaðan til Eyjafjarðar; tók hann með sèr hina skynsömustu menn, Magnús lögmann Jónsson, og sýslumennina Jón Sigurðsson í Einarsnesi, Jón Eyjólfsson, Þorstein Benidiktsson í Bólstaðarhlíð, og Árna Geirsson landþingisskrifara. Hann reið fyrst til Munkaþverár til Björns sýslumanns, var hann ákærður fyrir að hann hefði hvorki byggt klaustur nè kirkju og eigi gjört mönnum lög eða rètt yfir rangri kauphöndlan Akureyrarkaupmanns og annað lagaleysi, margt um skör fram ásakað Heidemann var leiddur í klausturhúsið, því þar var þá gestastofa, tók hann að deila á Björn sýslumann, er þá mælt, að Björn hafi borið fram fyrir hann silfurkönnu væna, og er hann eigi heldur lèt af ávítum, hafi Björn smámsaman komið í könnuna 10 rd. og 10 rd.; þá er sagt að Heidemann hafi í annað sinn lokið upp könnunni og litið í, og eigi viljað afláta deilunni; hafði þá

Björn gengið til Helgu konu sinnar og sagt: «Ekki líkar herranum enn þá, Helga mín!» laumaði hann þá enn þá 10 rd. í könnuna, er sagt, að Heidemann hafi hætt; dæmdur var þó Björn frá sýslunni og klaustrinu af Magnúsi lögmanni systursyni sínum, og fór hann utan um haustið með dóminn, og með honum Arngrímur, son Hrólfs Sigurðssonar, og Ólafur klausturdjákni Guðmundsson, á Akureyrar skipi; lèt konungur hann njóta aldurdóms síns og halda hvorutveggju um sinn. Björn kom út árið eptir og hafði veitingar sínar, en meðan hann var utanlands, hafði hann 27. maí 1685 skuldbundið sig og sína erfingja til að sjá assessor Jóhann Klein skaðlausan fyrir stríðshjálpar tollaskuldir og í tè láta sanna jarðabók af Vaðlasýslu; hèlt hann þá völdum sínum.

1687 báru Helga, kona Björns, og dóttir hans Halldóra brigð á sölu hans á jörðunni Vatnsleysu og 20 hndr. í Draflastöðum í Fnjóskadal, sem af honum hafði keypt síra Einar í Múla Þorsteinsson.

1693 klagaði Heiðemann yfir skuldum Björns sýslumanns Magnússonar, var hann því af rèttinum tilskyldaður, að greiða fógetanum skuldina innan næsta alþingis, ella hafa fyrir gjört veitingum sínum. Pantsetti því Björn jörð sína Núpufell fyrir 350 rd. skuld á alþingi 6. júlí, og skyldi Heiðemann halda jörðunni, ef skuldin eigi væri lokin fyrir alþing 1694. Það ár fór Heiðemann utan til lokins.

1693 mun Björn og svo aptur hafa farið utan og verið þar í sífellu. 1695 voru á alþingi upplesnar þrjár veðsetningar Björns sýslumanns, allar dagsettar í Kaupmannahöfn: 1. 29. apríl, 2. 20. október, 3. 24. október 1694; þar í veðsetti hann Skeiðarvatn og Bergstaði í Þingeyjarþingi, sem og Hól í Kaupangssveit fyrir 500 rd.

Karen hefir klagað hann fyrir notarius publicus, um ólúkt afgjald af Eyjafjarðarsýslu og Munkaþverárklaustri, samt vantandi sakafall og vogrek fyrir árið 1694. Upp á þetta hefir Björn svarað í Kaupmannahöfn 19. marz 1696, og fyrir lögþingisrètt kom það 6. júlí 1696, og var Magnús á Espihóli Björnsson tilskyldaður, sem fullmektugur umboðsmaður Björns sýslumanns, að svara því og gjalda hin uppáklöguðu sýsluafgjöld og saka-

fallsskuldir o. s. frv. til 1694, en erfingjar Björns dæmdust skyldir að gjalda í skuld veranda klaustur afgjald; (gjaldið var orðið gamalt,. því 1688 fèkk Sveinn sonur síra Torfa í Gaulverjabæ konungs veitingu fyrir Munkaþverárklaustri, og hèlt það til 1722).

1696 ríður Jón sýslumaður Eyjólfsson norður í Eyjafjörð að yfirlíta og kynna sèr hinar veðsettu jarðir Björns sýslumanns, m. m.

1698 segist Jón sýslumaður Eyjólfsson uppbjóða hið kyrsetta jarðagóz fyrir Munkaþverár afgjaldsskuldum, sem sè jörðina Gullbrekku, Seljahlíð 20 hndr., Kolgrímsstaði hálfa 6 hndr. fyrir svo marga peninga, sem þær hafa verið veðsettar. Sama ár kvartar Jón Eyjólfsson yfir, að Úlfá og Kotá byggist ekki, því af þeim hafi verið tekin kúgildin.

Um sömu mundir seldu kaupmennirnir, Pètur Keison Ytrahól í Glæsibæjarhreppi, Haga á Árskógsströnd, og Jörgen Klow Litladal í Skagafirði 40 hndr., hálfa Sigluvík á Svalbarðsströnd 30 hndr., hálfan Kaupang 30 hndr. Áður umgetnar og fleiri jarðir voru eign Björns sýslumanns og voru þær seldar; en Lárus sýslumaður Hannesson Scheving keypti margar af þeim 1699.

Þess er að geta um Björn sýslumann Magnússon, að af honum var tekið klaustrið fyrir skuldir 1688 og veitt Sveini Torfasyni; en þá, er hann eigi kom til landsins, var Vaðlasýsla tekin af umboðsmanni hans í sama skyni 1695 og veitt Lárusi Scheving; þegar Björn frètti þetta utanlands, bjó hann sig til Íslandsfarar 1696, er hann hafði nærfelt 4 ár í sífellu dvalið í Kaupmannahöfn; hafði hann frètt um giptingu dóttur sinnar Halldóru með síra Ólafi í Vallanesi 1695, og ætlaði þangað; tók hann sèr því far með Austfjarða skipi; en er hafið sóttist, varð hann krankur, elnaði honum svo sóttin, að hann fèkk þar af bana, er þeir sáu landið; var hann fluttur að Vallanesi og þar jarðaður.

Hann hafði verið góður maður en nokkuð einfaldur, og var vel látinn af öllum góðum mönnum. Hans mikli auður var víða kominn, sem sagt var, að verið hefði, þegar hann var í blóma sínum, xvi hndr. hundraða í jörðum, með fè konu hans

í reiknuðu. Hans partur eyddist að mestu, en börnin fengu móður fèð mikið til óskert.

Þegar Björn fór utan 1684 tjáist hann að hafa tekið Jón Illugason á Urðum, er um tíma hafði verið Hólastóls ráðsmaður, fyrir umboðsmann sinn; en í seinni ferð sinni Magnús á Espihóli 1693, og áður haft hann fyrir umboðsmann.

Meðan Björn hèlt Húnavatnsþing, var Jón á Geitisskarði yngri Egilsson lögsagnara Jónssonar sýslumanns Egilssonar sýslumanns umboðsmaður hans.

### Egill Jónsson.

*Faðir:* Jón á Reykjum, son Egils á Geitisskarði Jónssonar, sjá hèr að framan.

*Móðir:* Guðný Einarsdóttir, sjá að framan.

*Kona:* Rannveig, dóttir Markúsar sýslumanns í Hèraðsdal í Hegranesþingi (sjá Hegranesþing).

*Börn:* A. Jón, sjá hèr strax eptir.

B. Ragnheiður átti Einar[1] lögrèttumann, son Sturlu[2] prests á Tjörn; þeirra börn:

a Rannveig átti Björn Þorláksson Þórðarsonar; þeirra börn:

1. Steinunn[3].
2. Margrèt[4].
3. Hallgrímur[5].
4. Sturla.
5. Þorlákur[5].

---

1) Einar bjó á Breiðabólstað í Vatnsdal.

2) Síra Sturla var Bjarnason, án efa sonar Smíða-Sturlu, og hefir hann þá verið bróðir Odds sterka Bjarnasonar; hefir Bjarna og Smíða-Sturlu verið hèr getið áður.

3) Steinunn átti Jón lögrèttumann Jónsson Jannessonar.

4) Margrèt átti Guðmund, er kallaður var Laga-Gvendur.

5) Hallgrímur og Þorlákur dóu báðir um sama leyti úr sömu sótt, líklega stórubólu.

b. Egill átti Ingibjörgu, laundóttur Páls Þorlákssonar, Pálssonar sýslumanns; þeirra börn:
1. Egill.
2. Þórunn átti fyrr síra Guðmund[1] í Vesturhópshólum, svo Teit.

C. Steinunn átti síra Halldór á Þingeyrum Þorsteinsson Tómassonar; börn:

a. Síra Þorlákur á Auðkúlu, 1690, átti Þórdísi Illugadóttur[2], þeirra börn:
1. Síra Halldór á Bægisá[3].
2. Síra Illugi á Auðkúlu[4].
3. Síra Guðmundur á Þönglabakka[5].
4. Guðrún[6].
5. Valgerður[7].
6. Björn.

b. Guðný átti síra Björn í Hvammi Þorvaldarson; þeirra börn:
1. Þorvaldur.
2. Halldór.
3. Valgerður.

---

1) Síra Guðmundur dó barnlaus í stórubólu, en Þórunn giptist aptur Teiti lögrèttumanni Eiríkssyni á Núpi í Miðfirði.

2) Þórdís var dóttir Illuga Hólastóls ráðsmanns (sjá bls. 77).

3) Síra Halldór átti Guðríði Ólafsdóttur Guðmundssonar í Flatatungu, Arasonar.

4) Síra Illugi átti Björgu Jónsdóttur frá Hamrendum, dó í stórubólu.

5) Síra Guðmundur átti Guðrúnu dóttur síra Jóns Guðmundsssonar í Stærrárskógi.

6) Guðrún átti síra Gísla Einarsson í Múla, barnlaus.

7) Valgerður, hún og maður hennar Jón Jónsson yngri frá Hítarnesi bjuggu á Öndverðarnesi fyrir vestan.

Enn er sonur síra Þorláks af sumum sagður:
7. Þórður, og er ætt frá honum.

D. Gunnvör átti Jón[1] á Gunnsteinsstöðum í Laxárdal; þeirra börn:
   a. Jón sigldi, kom eigi aptur.
   b. Guðríður átti Halldór Jónsson[2] í Sæmundarhlíð og Reykjum; þeirra börn:
      1. Þórður.
      2. Benidikt.
      3. Egill.
      4. Gunnlaugur.
      5. Gunnvör.
      6. Sigríður.
      7. Steinunn.
   c. Ragnheiður seinni kona Eiríks Guðmundssonar, Kolbeinssonar[3]; þeirra börn:
      1. Gunnvör[4].
      2. Guðrún[5].
      3. Guðmundur.
      4. Bjarni[6].
      5. Solveig.
E. Gunnlaugur, lögrèttumaður í Eyjafirði, átti Guðrúnu Ólafsdóttur[7]; þeirra börn:
   a. Síra Jón á Hólum, 1674, á Bægisá 1686, á Mæli-

---

1) Jón maður Gunnvarar var Bessason.

2) Halldór bjó á Geirmundarstöðum og Reykjum.

3) Bartskera Guðbrandar biskups. Eiríkur bjó á Lýtingsstöðum.

4) Gunnvör, dó í stórubólu barnlaus, maður hennar hèt Sigurður Guðmundsson.

5) Guðrún átti Guðmund á Írafelli Björnsson í Djúpadal, Gíslasonar frá Krákugerði.

6) Bjarni átti Guðrúnu Egilsdóttur, systur Gunnlaugs, sem átti Halldóru Jónsdóttur Jónssonar prests í Laufási Magnússonar.

7) Ólafur bjó í Núpufelli, og var sonur síra Jóns Sigurðssonar í Laufási, en Gunnlaugur bjó í Gullbrekku.

felli 1707, dó 1712, átti Þuríði Grímsdóttur[1], börn:

1. Síra Gunnlaugur.
2. Síra Jón í Grímstungu[2].

b. Egill bóndi í Eyjafirði átti Elíni Pètursdóttur Jónssonar.
c. Þorvaldur[3] átti Guðrúnu Gunnarsdóttur.
d. Björg átti Halldór Guðmundsson.
e. Halldóra, dó 1680, barnlaus
f. Ólafur átti Ingiríði Þórðardóttur[4].
g. Jón yngri lögrèttumaður.

F. Markús á Breiðavaði átti Ólöfu[5] Ólafsdóttur, barnlaus.

G. Guðrún átti síra Þorgrím Ólafsson, þeirra son Síra Jón[6] á Þóroddstað.

H. Guðríður átti síra Sigurð[7] á Auðkúlu og mörg börn.

Egill gjörðist umboðsmaður Jóns sýslumanns og lögmanns á Reynistað, þegar honum var veitt Húnavatnsþing 1622. Þar eptir þjónaði hann við sýslumannsverk í Húnavatnsþingi, þegar Jón sýslumaður vildi, en eigi hefi eg sèð dóma hans. Egill var í sinni tíð haldinn stórbóndi, sem frændur hans, og bjó á Geitisskarði, er hann eltist. 1631 lèt hann að Vindhæli dóm ganga um reka, að leiguliði gangi einusinni daglega á fjöru, þegar rekavon er.

---

1) Grímur faðir Þuríðar var Eiríksson og bjó í Viðvík, ágætur smiður; Þuríður varð 92 ára.

2) Síra Jón Jónsson í Grímstungu var ekki son síra Jóns Gunnlaugssonar, heldur hèt faðir hans Jón Sighvatsson. Annars er sagt að síra Jón Gunnlaugsson hafi verið barnlaus.

3) Þorvaldur var faðir Gottskálks, föður síra Þorvaldar á Miklabæ, föður Gottskálks, föður hins nafnfræga myndasmiðs Alberts Thorvaldsens.

4) ɔ: prests á Myrká.

5) Ólöf var systir síra Þorgríms Ólafssonar.

6) Síra Jón átti Steinvöru dóttur síra Jóns í Laufási Magnússonar.

7) ɔ: Magnússon.

## Jón Egilsson[1].

*Faðir:* Egill á Geitaskarði, nýnefndur.
*Móðir:* Rannveig, dóttir Markúsar sýslumanns í Hèraðsdal.
*Kona:* Sigríður, dóttir Jóns yngra, er að viðurnefni kallaðist Dan, sonar Magnúsar sýslumanns í Ögri og Bæ.
*Börn:* A. Halldór lögrèttumaður, ágætt skáld, átti Halldóru, dóttur Benidikts í Bólstaðarhlíð Björnssonar; þeirra börn:
a. Guðrún átti Árna Sveinsson af Ásgeirsætt.
b. Gunnar sigldi, kom eigi aptur, varð stríðsmaður.
c. Sigríður átti Jón Jónsson Magnússonar; börn:
1. Marteinn.
2. Guðrún.
3. Helga.
4. Þórður.
5. Þuríður.
d. Guðrún önnur[2].
e. Steinunn.
f. Jórunn.
g. Þórunn, laungetin.
B. Jón á Gunnsteinsstöðum átti fyr Steinunni dóttur Árna, launsonar síra Björns í Saurbæ[3]; þeirra börn:
a. Guðný átti Gísla í Reykjarfirði, barnlaus.
Síðan átti Jón Hallberu Guðmundsdóttur[4] frá Straumfirði; þeirra barn:

---

1) Sjá bls. 367.

2) Önnurhvor Guðrúnanna átti Hálfdán Sigurðsson Bjarnasonar í Vesturhópi; dóttir annarhvorrar Guðrúnarinnar er og talin Halldóra, er átt hafi Jón á Hrauni í Fljótum; þeirra dóttir Hólmfríður, er átti Bjarni í Holti í Svínadal, þeirra dóttir Halldóra kona Guðmundar Halldórssonar á Ási í Vatnsdal.

3) Þetta er ekki rètt; Steinunn, dóttir Árna Björnssonar Jónssonar biskups Arasonar, átti Jón á Þverá son Jóns Egilssonar fyrra, og þeirra dóttir var Guðný, sjá hèr að framan, er átti Gísla í Reykjarfirði.

4) Guðmundur var Árnason Pèturssonar Filippussonar, er veginn var á Svínavatni, en kona Filippusar og móðir Pèturs var Solveig, dóttir Jóns Magnússonar á Svalbarði. Móðir Guð-

b. Steinunn átti síra Markús Eiríksson; þeirra dóttir Sigríður, átti síra Sigurð Jónsson í Stafholti og börn.

C. Ragnheiður átti Guðbrand sýslumann Arngrímsson, sjá hèr síðar.

D. Arndís dó 1730, átti 1682 síra Jón Eyjólfsson á Gilsbakka; þeirra börn:

a. Síra Jón á Gilsbakka átti Guðrúnu[1] Þórðardóttur, þeirra börn:

1. Síra Jón, prestur samastaðar[2].
2. Vilborg, kona síra Jóns Finnssonar.
3. Arndís kona síra Kolbeins í Miðdal[3].
4. Jón í Norðtungu.
5. Sigríður kona síra Guðbrandar á Læk[4].

E. Guðmundur átti Sigríði Ísleifsdóttur, barnlaus.

Jón Egilsson þótti merkisbóndi og var lögrèttumaður, bjó

---

mundar og kona Arna var Hallbera Benidiktsdóttir sonar Guðmundar prests Skíðasonar, er fyr hefir verið getið.

1) Móðir Guðrúnar var Margrèt, dóttir Jóns sýslumanns Sigurðssonar í Einarsnesi.

2) Síra Jón átti Ragnheiði, dóttur síra Jóns í Hvammi Sigurðssonar frá Hvítárvöllum; þeirra börn:

α. Halla, kona Jóns Árnasonar á Leirá.

β. Kristín, kona Jóns Friðrikssonar Thorarensens í Víðidalstungu.

γ. Síra Jón, seinast prestur á Bergstöðum.

3) Sjá Tímarit mitt, 1. b., bls. 28.

4) Sjá Vaðlaþing, bls. 286 og 287.

Enn voru börn Arndísar og síra Jóns Eyjólfssonar:

b. Sigríður, móðir síra Björns Halldórssonar í Sauðlauksdal.

c. Katrín átti síra Ólaf Jónsson á Snæfjöllum, hann var bróðir Sigþrúðar, móður síra Bjarna Jónssonar á Mælifelli.

d. Ingibjörg átti síra Magnús Árnason á Sauðafelli, barnlaus.

e. Halla, giptist, barnlaus, dó 1790, 96 ára gömul.

og svo á Geitaskarði og gjörðist umboðsmaður Björns klausturhaldara á Múnkaþverá og seinna sýslumanns í Vaðlaþingi, yfir Húnavatnsþingi, meðan Björn hèlt það, frá 1662 til 1668, eða nálægt þeim árum. Hvort þessi Jón hefir verið sá, er tjáist hafa verið umboðsmaður Lárusar Gottrúps 1705, þori eg eigi að segja[1], en þá hefir Jón orðið að vera um 65 ára, ef hann þá hefir lifað, en hann tjáist að hafa dáið 1691; ef það er rètt, getur hitt ekki staðizt, telst þó Jón að hafa orðið 82 ára. Þessi Jón Egilsson var umboðsmaður Guðmundar sýslumanns Hákonarsonar og mætti hans vegna í lögrèttu 1640. 1663 kom til alþingis dómur Jóns yngra Egilssonar um burthorfið barn.

## Guðbrandur Þorláksson

*Faðir:* Þorlákur biskup á Hólum Skúlason.

*Móðir:* Kristín, dóttir Gísla lögmanns í Bræðratungu Hákonarsonar.

*Kona:* Þórunn, dóttir Benidikts sýslumanns á Reynistað Halldórssonar lögmanns Ólafssonar, sjá Hegranesþing.

*Börn:* A. Þorlákur dó ungbarn.

B. Ragnheiður varð hálfviti (það er sögn, að faðir hennar hafi með ofsa kitlum, þegar hún var barn, ært frá henni vitið).

Guðbrandur var borinn 1634, lærði í Hólaskóla, fór síðan utan og til Þjóðverjalands til meiri lærdómsframa, en þegar hann kom út, gjörðist hann fyrst Hólastaðar ráðsmaður, og fór það eigi snillilega. Bróðir hans Gísli biskup útvegaði honum til ekta Þórunni, og giptust þau 1660. Seinna fèkk Gísli biskup af Birni sýslumanni Magnússyni, að afstanda við hann hálfu Húnavatnsþingi og gjörðist hann þar sýslumaður 1665.

1662, 3. júlí lýstu þeir bræður síra Skúli og Guðbrandur brigð á þær jarðir Guðrúnar Hinriksdóttur, sem maður hennar Jón Jónsson selt hafði, var Þórunn, kona Guðbrands, systur-

---

1) Það er víst engin ástæða til að rengja það, sem sagt er, að Jón Egilsson, sem hèr er verið að tala um, hafi dáið 82 ára 1691, og verður sá Jón Egilsson, er uppi var 1705, að vera annar maður.

dóttir Guðrúnar, og hafði Guðrún arfleitt allar þær Benidiktsdætur til sinna fasteigna.

1666, 26. ágúst selur hann Gísla biskupi bróður sínum heima á Hólum það kvinnu hans Þorunni bar í sinn hluta af óskiptu arfleiðslu fè Guðrúnar Hinriksdóttur til 20 hndr. móti 20 hndr. í Skógum í Reykjadal.

Fátt merkilegt finnst ritað um Guðbrand sýslumann í embættisverkum; ætla menn, að hann enginn skörungur verið hafi; hèlt hann og stutta stund við embættið, því 1676 var hann frá sýslupartinum, bjó hann þar eptir embættislaus mjög lengi í Vallholti, og þar dó kona hans Þórunn 1698.

Guðbrandur hefir 1689 undirskrifað vitnisburð Skúla Ólafssonar áhrærandi ágreining þeirra Þorsteins Benidiktssonar í Bólstaðarhlíð.

Hann seldi ýmsum jarðagóss sitt og sóaði fè sínu ýmislega og varð seinast snauður að kalla.

Guðbrandur dó 1704 og var grafinn í Víðimýrar kirkju; 1667 var Guðbrandur á alþingi með dóm um hórdómsbrot Þorsteins Högnasonar og annan dóm, sem gekk í Engihlíð um vinnufólk og fleira.

## Guðmundur Steindórsson.

*Faðir:* Steindór sýslumaður í Snæfellsnessýslu Finnsson Steindórssonar sýslumanns Finnssonar frá Ökrum.

*Móðir:* Guðlaug[1] Þórðardóttir Einarssonar prests Marteinssonar biskups.

*Kona:* Ingibjörg Guðmundsdóttir Sanda-Oddssonar.

*Börn:* A. Árni bjó seinna við Hellna og átti Þórnýju Ketilsdóttur, þeirra börn:

a. Guðmundur átti Jórunni Jónsdóttur Ólafssonar[2], þeirra börn:

1. Helgi[3].

---

1) Guðlaug var laungetin, og var móðir hennar Ólöf Bjarnadóttir frá Yxnakeldu, hún giptist svo Jóni Bárðarsyni.

2) frá Dagverðará.

3) Helgi giptist norður, átti laundóttur með Kristínu nokkurri.

2. Jón[1].
3. Þórný[2].
4. Helga[3].

b. Helga átti Helga, er bjó á Völlum 1744, Helgason; þeirra barn:
1. Helgi[4].
Svo átti Helga Magnús á Kongsbakka Bjarnason; þeirra börn:
2. Árni[5].
3. Steindór[6].
4. Þórný[7].
5. Katrín[8].

c. Ingibjörg átti Snorra á Snorrastöðum Eiríksson; börn:
1. Vilborg[9].
2. Þórný[10].

---

1) Jón sigldi og var 12 ár í Englandi og Danmörku, kom svo inn og var timburmaður á Óseyri við Hafnarfjörð, átti svo Guðrúnu dóttur Guðmundar smiðs á Hólum við Höfðakaupstað Guðmundssonar og Ásu. Eitt af börnum þeirra var

Ása, fyrri kona Óla Sandholts Egilssonar.

2) Þórný átti Jón Jónsson smið í Melabúð við Hellna.

3) Helga, fyrri kona Jóns Þorsteinssonar á Efri-Yxnakeldu, barnlaus.

4) Helgi átti Margrèti Einarsdóttur að norðan.

5) Árni giptist, dó barnlaus

6) Steindór á Saurum og Tungu átti Valgerði Jónsdóttur Sigmundssonar.

7) Þórný átti Þorleif Jónsson, bróður Valgerðar, konu Steindórs.

8) Katrín átti fyr Ólaf Guðmundsson frá Saurum, svo Guðmund Sigurðsson frá Eyri; þeirra son:

Síra Ólafur á Hjaltabakka.

9) Vilborg átti Eggert Þorvarðarson á Skiphyl.

10) Þórný átti fyr Jón Egilsson í Hjörtsey, svo Stefán Hallbjörnsson í Skutulsey.

d. Sigríður átti Björn[1] á Völlum Björnsson, börn:
1. Guðmundur[2] í Mýrdal.
2. Ólafur smiður[3] á Munaðarhóli.
3. Björn á Haugabrekku[4].
4. Halldóra[5].
5. Þórný, seinni kona Jóns í Bug Guðmundssonar.

B. Halldór átti Guðrúnu Þorsteinsdóttur, barnlaus

Guðmundur fór utan á unga aldri til Hollands og dvaldi þar um hríð, kom svo út og gjörðist kaupmaður Hollenzkra í Bjarneyjum nokkur ár; þar eptir fór hann í Norðurland og fèkk sèr veittan þann part Húnavatnsþings, er Björn sýslumaður Magnússon frásagði sèr 1670; tjáist Guðmundur að hafa þann part haldið 2 ár, og getur verið, að hann hafi fyrst orðið umboðsmaður sýslumanns Björns 1669, en fengið veitingu 1670. Í árslokin 1671 sýnist að hann hafi misst sýslupartinn, því 1672 er Guðbrandur Arngrímsson orðinn þar sýslumaður; þar eptir mun Guðmundur hafa farið í átthaga sína til Snæfellsnessýslu, hvar hans afkomendur dvöldu og eru enn nú.

Ritað er, að Guðmundur hafi haft umboð nokkurt danskra á Bessastöðum eins árs tíma.

---

1) Björn maður Sigríðar var sonur síra Þorsteins Björnssonar á Tjörn á Vatnsnesi.

2) Björn átti 2 sonu, er Guðmundar hètu, annar bjó á Kolbeinsstöðum og hèt kona hans Ingibjörg Halldórsdóttir, hann var góður smiður. Hinn Guðmundurinn var og smiður, bjó á Haugabrekku, átti Arnfríði Jónsdóttur.

3) Ólafur smiður í Munaðarhóli, var mikill gáfumaður og ágætur skipasmiður, smíðaði yfir stórt hundrað skip; kona hans hèt Ragnheiður Andrèsdóttir; hann átti mörg framhjátökubörn; dó 1819.

4) Kona Björns hèt Ástríður Pètursdóttir.

5) Halldóra var fyrsta kona Þórólfs Jóhannssonar á Óspakseyri í Bitru; eitt af börnum þeirra var Jón, hans son Hjálmar, kaupmaður á Ísafirði, og dóttir Steinunn, kona Söbeks beikis, er var í Kjós í Árneshreppi.

### Guðbrandur Arngrímsson.

*Faðir:* Arngrímur lærði, officialis á Melstað, son Jóns á Auðunnarstöðum Jónssonar Hallvarðssonar.

*Móðir:* Sigríður yngri dóttir síra Bjarna á Grenjaðarstað Gamlasonar prests á Stað í Hrútafirði Þorkelssonar.

*Kona:* Ragnheiður, dóttir Jóns Egilssonar Jónssonar Egilssonar Jónssonar Einarssonar, sjá hèr á undan. (Þeir feðgar bjuggu hver eptir annan á Geitaskarði og höfðu þeir flestir sýsluvöld um tíma). Þeirra börn:

A. Þorlákur, fyrst lögsagnari Páls Vídalíns í Dalasýslu, sjá þar um hann, svo tók hann norðurpart Ísafjarðarsýslu.

B. Síra Erlendur[1] á Kvíabekk 1706, dó 1711, átti fyr Sigurlaugu Bergsdóttur; þeirra dóttir
Agnes átti sira Jóhann Kristjánsson; börn:
- a. Síra Kristján í Stafholti.
- b. Margrèt átti síra Jón, þeirra dóttir
  Hólmfríður átti Þorstein bónda, ríkismann í Reykjahlíð; þeirra son
  Síra Jón, fyrst í Vogum, nú í Reykjahlíð, á Þuríði og mörg börn.
- c. Jón.
- d. Sigríður.
- e. Sigríður yngri.

Seinni kona síra Erlendar var Sigríður Jósepsdóttir; þeirra dætur voru:
1. Sigurlaug, fyrri kona síra Þorvarðar Jónssonar[2], barnlaus.

---

1) Síra Erlindur og afkomendur hans eiga ekkert skilt hèr við, því síra Erlindur var sonur síra Guðbrandar á Hofstöðum en ekki Guðbrandar sýslumanns; báðir Guðbrandarnir voru að vísu Arngrímssynir Jónssonar, en Guðbrandur sýslumaður var son síra Arngríms lærða, sem hèr segir, en síra Guðbrandur son síra Arngríms, er týndist með skipi Guðbrandar biskups.

2) í Fagranesi.

2. Margrèt átti 1744 Gunnar prófast lærða í Hjarðarholti Pálsson; þeirra barn:

α. Síra Páll í Staðarhólsþingum, barnlaus.

Guðbrandur var borinn 1640, var 8 vetra, þegar faðir hans dó, 27. júní 1648; fór hann þá strax til síra Páls í Selárdal og lærði þar, og síðan í Skálholtsskóla. Útskrifaður úr skóla, var hann um hríð útróðrarmaður vestra; lagði hann sig þá og síðan eptir lögvísi. Þar eptir fór hann að Víðidalstungu, til mágs síns Jóns Þorlákssonar, og dvaldi þar í 4 ár og stundaði lögvísi.

Þegar Húnavatnsþings parturinn var tekinn frá Guðmundi Steindórssyni, var hann veitttur Guðbrandi Arngrímssyni 1671 (þó nokkrir meini, að það hafi verið 1670, mun það miður grundað).

1672 finnast fyrst embættisverk Guðbrandar sýslumanns; það ár og næstfylgjandi 2 ár hafði Guðbrandur mikið að sýsla í galdramáli Páls Oddssonar, sem fèll á honum tildæmdum tylftareiði, og var því af lögrèttunni og lögmönnum álitinn sekur, 1674, og eptir fyrirsögn Guðbrands af lífi tekinn nefnt ár, á alþingi 3. júlí.

1678 lèt Guðbrandur ganga tvo dóma að Vindhæli, 22. apríl og 7. júní, um galdramál, borin upp á Magnús Benidiktsson og Klement Úlfsson, sem báðir voru á sama árs alþingi fyrir yfirbevísað galdrakukl með húðlátsrefsingu straffaðir.

1679 hafði hann ásamt sýslumanni Þorsteini Benidiktssyni enn nú galdramál fyrir.

Sama ár var og fyrir þeirra rètti margbrotið mál, sem Jón á Ökrum Eggertsson höfðaði móti Jóni Hallgrímssyni á Víðimýri, fyrst 25. apríl að Engihlíð, hvar Þorsteinn Benidiktsson kallast tilskikkaður lögsagnari af Ólafi Jónssyni Klow, landfógetans fullmektugum; lètu þeir ganga dóm í því máli sama ár að Engihlíð, 10. maí; hafði Jón Eggertsson stefnt Jóni Hallgrímssyni fyrir: 1. ólöglegan arfsalsgjörning við Jón Þorsteinsson á Stafnhóli; 2. ranglegt hald á fèmunum, er Hallgrímur faðir hans hafði viðtekið; 3. að Jón Hallgrímsson hefði allt til jarðvarps hrakið og blakað stefnuvott Jóns Eggertssonar, Guðmund á Holtastöðum; 4. stefnir Jón honum til að framleggja

illmælabrèf Skúla Illugasonar um Jón Eggertsson, sem Jón Hallgrímsson hafði áður sýnt og lesið Jóni Eggertssyni og lofað honum brèfinu, en ekki efnt það loforð, o. s. frv.

5. maí var haldin samkoma að Spákonufelli af Gísla biskupi Þorlákssyni og prestum hans í galdramáli síra Árna Jónssonar á Hofi á Skagaströnd, og meðal annars þar upplesinn vitnisburður Benidikts sýslumanns Halldórssonar á Seilu um frómt og guðrækilegt framferði Sigurðar lögrèttumanns Jónssonar, sem ásamt fleirum hafði borið Árna prest galdri og áreitingum. Voru þar um haldin tvö þing af sýslumönnum í Húnavatnsþingi. En þá er Árni prestur sá, hverju fram venti, strauk hann frá konu og heimili sínu um vorið (menn hèldu í enskar duggur, sem þá voru hèr við land), en Guðbrandur sýslumaður lýsti honum sem óbótamanni með auðkennum á alþingi 1680. Árni prestur var þá fimmtugur.

1681, 18. maí, að Sveinstöðum, lètu þeir Þorsteinn sýslumaður ganga framfærsludóm; þeir dæmdu ómagann Þorkötlu Jónsdóttur á Gísla biskup Þorláksson og hans systkini.

1682, 24. apríl, að Kirkjuhvammi, dæmdu þeir Guðbrandur og Þorsteinn í rekaþrætumáli millum Gísla biskups og Páls Jónssonar, er síðar varð prestur á Melstað, áhrærandi svo kallaðan Litlaós. Fleiri voru og misklíðir þeirra Páls og biskups, (sjá lögþingisbók 1684, nr. 40.).

1682, 25. maí, að Kirkjuhvammi, dæma þeir Guðbrandur og Þorsteinn húðlátsrefsingu Þorsteini Högnasyni.

1683, 12. júlí, tók Tómas Klein, umboðsmaður fógetans Kristjáns Heiðemanns, sýslupartinn af Guðbrandi Arngrímssyni og veitti hann í bráð Þorsteini sýslumanni Benidiktssyni; hafði Guðbrandi og umboðsmanni borið til hið fyrra árið, að sögn. Þessa afsetningu Guðbrands samþykkti Heiðemann 9. júlí 1684, en 10 sama mánaðar og árs óskaði Guðbrandur og tók vitnisburði sína á alþingi og fèkk þá góða; lenti þó við sama með embættið.

Guðbrandur átti þar eptir í málaþrasi við Lárus Gottrúp, og orsakaðist það útaf kúgildum og leigum af Ási, hvar Guðbrandur þá bjó; kom það mál til dóms og áfellis Guðbrandi; lenti þó þar við, að eigi var gjörð útpöntun eptir þeim dómi, en það ár mátti Guðbrandur rýma, þegar Gottrúp hafði byggt þar inn Sumarliða.

Guðbrandur átti og fyr í þrætumáli við Þorstein sýslumann Benidiktsson, en úr því varð lítið. Lengst af átti hann í einhverjum málum, og urðu þau á báðar síður ávinningslítil. Fjárhagur Guðbrands var jafnan óhægur. Síðast bjó hann á Lækjamóti í Víðidal og brann þar inni með konu sinni 1719, þá 79 ára gamall, en bein þeirra hjóna voru jörðuð í Víðidalstungu kirkjugarði. Mælt er að Guðbrandur hafi kveðið vísu þessa, þá er hann brann: «Rauðlitaður er refill minn af raunabaði hörðu; um litinn skiptir Lausnarinn á lifandi manna jörðu».

Guðbrandur var skáld gott; ungur kvað hann rímur af Hrólfi Gautrekssyni, Juda Machabæo og fleira. Hann var 12 ár sýslumaður í hálfu Húnavatnsþingi, var vel gáfaður, en átti jafnast mjög mótdrægt og heldri menn sèr óvinveitta.

### Jón eldri Sigurðsson.

*Faðir:* Sigurður lögmaður í Einarsnesi Jónsson sýslumanns, er þar bjó og, Sigurðssonar, sjá Borgarfjarðarsýslu.
*Móðir:* Kristín, dóttir síra Jóns í Hítárdal Guðmundssonar.
*Kona:* Bente Hans (Truels-) dóttir, dönsk.
*Börn:* A. Axel Friðrik, sjá Árnessýslu.

B. Sesselja Kristín fæddist við Hofsósskaupstað, var Bente þar þá á ferð. Sesselja ólst upp á Melstað hjá síra Erlendi Ólafssyni; þaðan veik hún til Sigurðar lögmanns Björnssonar og giptist þaðan Snjólfi Bjarnasyni prests Sveinssonar frá Fljótum í Meðallandi; þau bjuggu síðan í Skál á Síðu; þeirra börn:

a. Jón í Fljótum á Síðu átti Hallgerði Ólafsdóttur frá Steinsmýri; þeirra börn:
   1. Páll sýslumaður í Gufunesi, sjá Gullbringusýslu.
   2. Ólöf[1] á Steinsmýri.

b. Trúels á Rangárvöllum átti Ingveldi Erlendsdóttur; þeirra börn:
   1. Erlendur.
   2. Margrèt.

1) Ólöf átti Vigfús Þorgeirsson frá Arnardrangi.

c. Bjarni átti Geirlaugu; börn:
1. Einar.
2. Sigríður.
3. Margrèt.
d. Bente átti Eirík í Bolhraunum Bjarnason á Geirlandi; þeirra börn:
1. Bjarni á Brúnum[1].
2. Eiríkur[2].
3. Rannveig[3].
4. Guðríður[4].
e. Ingibjörg átti Halla Runólfsson á Syðri-Steinsmýri; þeirra son:
1. Skúli átti Helgu Bjarnadóttur Ólafssonar á Maríubakka.
f. Helga giptist ekki.

C. Guðríður[5] ólst upp hjá Guðríði Þorsteinsdóttur í Bólstaðarhlíð; um afkomendur hennar veit eg ekki.

Jón lærði í Skálholtsskóla, og átti, nýkominn úr skóla, barn þar með þjónustustúlku, og sigldi því til Kaupmannahafnar 1669, og giptist þar Bente 1672; árið eptir kom hann út, reisti bú á Reynistað og var þar á 4. ár, til þess honum var veitt hálf Húnavatnssýsla, þegar Guðbrandur Þorláksson var frá henni, eg held um sumarið 1677; fluttist hann þá búferlum að Bjargi í Miðfirði. Svo bar til, að hann sama sumar ferðaðist til kaupstaðar í Straumfirði, var honum þar vel veitt af gömlum kunningjum hans frá Kaupmannahöfn; reið hann þaðan drukkinn, en svo bar við, að hann átti ferð yfir Straumfjarðará, og drukknaði hann þá í henni.

Jón tjáist að hafa þessi árin haldið Reynistaðarklaustur og að hafa verið vel fallinn til yfirmanns. Klaustrið mun hann þó heldur hafa haldið í umboði föður síns.

---

1) Bjarni átti Sigríði Þorleifsdóttur frá Seljalandi.
2) Eiríkur átti Halldóru Ásgrímsdóttur Guðmundssonar.
3) Rannveig fyrri kona Ögmundar Ólafssonar á Núpum.
4) Guðríður giptist ekki.
5) Guðríður giptist ekki og átti ekki börn.

## Þorsteinn Benidiktsson.

*Faðir:* Benidikt, lögrèttumaður í Bólstaðarhlíð, og klausturhaldari á Reynistað, son Björns Magnússonar Björnssonar officialis á Melstað, Jónssonar biskups Arasonar.

*Móðir:* Guðrún, dóttir síra Þorsteins Tyrfingssonar í Hjörtsey, Ásgeirssonar prests á Lundi, Hákonarsonar sýslumanns. Guðrún giptist 1645 en dó 1698.

*Kona:* Halldóra, dóttir síra Erlendar á Melstað, Ólafssonar prests Erlendssonar prests Pálssonar sýslumanns, sjá hèr að framan. Halldóra giptist 1687.

*Börn:* A. Benidikt lögmaður, sjá Þingeyjarþing[1].

B. Jón } dóu barnlaus 1707.
C. Sigríður }

D. Árni í Bólstaðarhlíð átti Halldóru Jónsdóttur[2]; þeirra börn:

a. Halldóra átti síra Jón á Auðkúlu Björnsson; þeirra börn:
1. Björn (sýslumaður) í Stóradal.
2. Halldóra átti síra Auðun[3].

b. Jón Hólaráðsmaður átti fyr Margrèti Jónsdóttur Björnssonar prests á Staðarbakka, Þorsteinssonar prests; þeirra börn:
1. Síra Björn í Bólstaðarhlíð[4].
2. Margrèt[5].
3. Jón[6].

---

1) bls. 117.

2) Halldóra var dóttir síra Jóns Þorvaldssonar á Miklabæ.

3) í Blöndudalshólum.

4) Síra Björn átti fyr Ingibjörgu Ólafsdóttur frá Frostastöðum, sjá Vaðlaþing, bls. 250—251. Seinni kona síra Björns var Valgerður Klemusdóttir, systir Klemusar í Bólstaðarhlíð; þau barnlaus. Klemus keypti Bólstaðarhlíð á uppboðsþingi, þegar síra Björn dó.

5) Margrèt átti síra Jónatan Sigurðsson; hún var laungetin.

6) ɔ: Jón í Kálfárdal, átti Ingiríði Jónsdóttur, systur Guðmundar í Stóradal, sjá Vaðlaþing, bls 251.

Seinni kona Jóns Árnasonar var Elísabet Benidiktsdóttir lögmanns; þau barnlaus.

c. Jón annar[1].

Þorsteinn lærði í Hólaskóla, var síðan heima í foreldrahúsum, til þess honum var veitt hálft Húnavatnsþing 1678 (þegar Jón eldri var drukknaður), móti Guðbrandi Arngrímssyni; lètu þeir báðir 1679, 11. febrúar, á Sveinsstöðum, ganga ómaga-framfærslu-dóm.

1680 voru þeir báðir á hverjum þingstað sýslunnar; lètu þá og dóm ganga, að allar jarðir skyldu tíundast 4 tíundum, utan heimaland klaustra; annan um lýgi og ófrægð Snorra Hákonarsonar móti sýslumönnum sömu sýslu, bæði á Bessastöðum og annarstaðar, með meiru.

1681 og 1682 voru þeir báðir enn við sýslumannsverk um sýsluna; eg tel óþarft að minnast fremur hèr dóma þeirra.

1683 er Þorsteinn þar einn sýslumaður og var 9. júlí ákvarðaður að fara utan ásamt Marteini Rögnvaldssyni, Jóni Eyjólfssyni og Jóni Magnússyni í Dalasýslu (eptir skipun 25. apríl 1682); en þegar Þorsteinn reið til skips um haustið, fèll hann af baki, laskaðist og settist aptur. Hinir fóru utan, þótt til lítils góðs yrði fyrir landið, því siglingar kostnaður varð mikill, sem lenti á almenningi; árið eptir komu þeir út.

1684, 15. október, er Lárus Gottrúp kominn til Húnavatnssýslu með Þorsteini, og láta þeir þá á Torfustöðum dóm ganga um ómaga framfærslu. Þar eptir var Þorsteinn optast einn við sýslumannsverk í Húnavatnsþingi og lèt marga dóma ganga. Síra Jón á Undirfelli hafði fengið af hollenzkum skipherra að færa flutning frá Siglufirði á Skagaströnd; þar um gekk dómur Þorsteins 1686, 18. júní, að Ási í Vatnsdal.

---

1) Jón var ógiptur, barnlaus.

Enn var dóttir Árna og Halldóru:

d. Steinunn átti Einar Jónsson, hennar dóttir Steinunn, móðir Steinunnar Ólafsdóttur, þriðju konu síra Árna Illugasonar; þeirra son
Jón bókavörður í Reykjavík.

Árni í Bólstaðarhlíð giptist aptur, en afkomendur hans og þeirrar konu eru víst flestir útdánir.

1686, 14. september, að Vindhæli, eptir beiðni kaupmannsins á Skagaströnd, Laurits Bechs, tekur hann próf um, að af 2 hollenzkum duggum höfðu tveir stórir bátar í land komið með 20 manns, rofið kaupmannsbúðar þakið, og flutt þaðan hlaðna bátana með ýmsar vörur, hlaupandi eptir sögn kaupmannsins til 2600 rd. Íslendingar voru fámennir við, þekktu eigi þessa gesti og þorðu eigi að ráðast á þá til að hamla þeim ránskapnum.

Þetta ár tók Þorsteinn sinn vitnisburð á Vindhæli.

1687 var Lárus með Þorsteini á sumum þingum.

1688 var Þorsteinn einn á öllum þingum, utan á Torfalækjarþingi sat rèttinn með Þorsteini Björn Hrólfsson, 10. febrúar, og nefnir Björn sig umboðsmann Lárusar sýslumanns.

1689 er Lárus með Þorsteini að dæma um gildi stefnu þeirrar, sem Björn Hrólfsson hafði með stefnt Jóni Grímssyni, og frávísuðu þeir stefnunni; en Björn klagaði það á alþingi fyrir lögmönnum, sem þá dæmdu Þorstein og Lárus skylduga að dæma millum partanna, þar stefnan væri lögmæt.

Á sama alþingi klagar Þorsteinn sýslumaður Skúla Ólafsson fyrir sèr gjört illvirki og yfirhafnar spillingu 20. júní seinastliðins, þegar sýslumaðurinn var í konungsins erindum. Skúli framkom þar á móti með vitnisburð, dagsettan að Vallholti í Hólmi 23. júní sama ár, útgefinn af Guðbrandi Þorlákssyni og Jóni Jónssyni, að sýslumaður hefði hártogað Skúla, svo losnað hefði hár í skeggi hans; hefði Skúli neyðzt til að hafa hendur fyrir sèr til varnar, og í þeim viðskiptum hefði rifnað hempa Þorsteins. Var ekkert gjört í því máli á alþingi.

1690, 20. júní, á Torfalæk[1] í Miðfirði láta þeir Þorsteinn og Gottrúp ganga 12 manna dóm um ákæru Eiríks á Núpi Jónssonar til Bjarna Vilhjálmssonar, um að hann hefði lokkað Elínu dóttur Eiríks til samræðis við sig að Efranúpi og aflað með henni tveggja barna. Var þá Eiríki tildæmt af Bjarna í rètt sinn fjórar merkur og ein hálf, en í ráðspjöll 8 hndr., þar Eiríkur hefði gefið dóttur sinni giptri heiman 16 hndr., en rètturinn skyldi tvöfaldast, þar hún var legin í föðurgarði; en fyrir það annað brot skyldi Bjarni gjalda Eiríki einfaldan rètt (sjá um Bjarna Strandasýslu, þar sem talað er um Vilhjálm sýslumann Arnfinnsson).

1690, 21. júní, að Bólstaðarhlíð, er dagsett brèf Þorsteins sýslumanns til landfógeta Heidemanns, hvar í Þorsteinn frá

1) Á líklega að vera: Torfustöðum.

segir sèr, sökum ýmsra hindrana, sýslumannsdæmið í Húnavatnsþingi. Þetta brèf lèt Heiðemann 5. júlí upplesa í lögrèttu.

Af áður sögðu má sjá, að Þorsteinn hefir í 13 ár verið sýslumaður, opt fyrir Lárus, eptir það að hann tók hálfa sýsluna. Einnig var Þorsteinn 1 eða 2 ár umboðsmaður Gottrúps yfir Þingeyraklaustri. Þorsteinn bjó fyrst í Stóradal, þaðan flutti hann sig að Bólstaðarhlíð, en andaðist í Miðfirði 1. júlí 1697, og var jarðsettur í Bólstaðarhlíð.

## Lárus Gottrúp.

*Faðir:* Kristján Gottorph, danskur og kenndur við slotið Gottorph, nefnist og svo opt Gottrúp.

*Móðir:* Metta, og svo dönsk, kom inn 1684.

*Kona:* Katrín Pètursdóttir, og svo dönsk, dó 1721. Þau Lárus giptust 1686—87; kaupöl 1686, festaröl 1687.

*Börn:* A. Jóhann Gottrúp, sjá hèr síðar.

B. Anna Sophía, gipt 1725 síra Gísla Jónssyni, er síðar varð prestur í Saurbæjarþingum: hún dó 1748. Faðir síra Gísla var Jón[1] á Ófriðarstöðum: átti síra Gísli 12 systkini: fyrst vígðist hann 25 ára til kapelláns að Staðastað 1721, fèkk Þingeyraklaustursbrauð 1723, gjörði Önnu þungaða og giptist henni, sem fyr sagt 1725, fèkk Hellnaþing 1728, Saurbæjarþing 1747 til 1781. Sonur þeirra hjóna var:

Ólafur prestur í Saurbæjarþingum, átti Kristínu dóttur Jóns á Jörfa Ólafssonar, Guðmundssonar, börn:

1. Jóhann.
2. Halldóra[2].

---

1) Faðir Jóns á Ófriðarstöðum á Álptanesi var síra Jón Jónsson í Reykjadal, en kona Jóns og móðir síra Gísla var Guðlaug dóttir Þórhalla Oddssonar frá Hrauni hjá Eyrarbakka.

2) Halldóra giptist eigi, átti launbarn með giptum manni, Jóni Þorleifssyni, sem er síra Halldór í Tröllatungu.

3. Sigríður[1].
4. Anna Sophía.
5. Jón dó stúdent í bólu 1786.

C. Magðalena átti fyrst barn með Gunnari, syni Þorláks silfursmiðs í Viðvík 1717. Litlu fyr um veturinn átti Gunnar annað barn með vinnukonu á Þingeyrum. Gunnar var gjörður útlægur fyrir barneignina, þareð hann eigi gat borgað rètt og ráðspjöll. Svo giptist Magðalena Jóhanni Mauritsen.

Lárus var hèr fyrst við verzlun, varð svo undirkaupmaður í Straumfirði. Um 1680 gjörðist hann umboðsmaður Jóhanns Kleins og tók embættiseið af þá nýorðnum sýslumanni Pètri Pálssyni, sem og Bjarna Eiríkssyni og Þorsteini Benidiktssyni, á alþingi 1681.

Þegar Kristofer Heidemann kom út sem landfógeti og stiptamtmanns umboðsmaður 1683, var Lárus honum til aðstoðar, og sama ár hafði honum verið veitt Þingeyraklaustur, sem Jón son Þorleifs lögmanns Kortssonar hafði 1678 fengið að óvilja föður síns, en Jón dó öndverðlega ársins 1683, eða seinast á árinu 1682; þar Lárus var þetta ár syðra, tók hann Þorstein sýslumann Benidiktsson fyrir umboðsmann sinn yfir klaustrinu 1683, fór utan um haustið, en kom út 1684 með móður sína Mettu, hafði hann þá fengið konungsbrèf fyrir Vatnsdals- og Strandajörðum, þá er þær fjellu. Um sumarið 1684 flutti Lárus sjálfur að Þingeyrum, og lèt 6. október sama ár upplesa á Sveinstaðaþingi og víðar veitingu sína frá konungi fyrir Þingeyraklaustri, Vatnsdals- og Strandajörðum, sem og Heidemanns veitingarbrèf fyrir hálfu Húnavatnsþingi, einnig kaupbrèf sitt fyrir nokkrum Henriks heitins Bielkes jörðum, og loksins umboðsbrèf sitt yfir öllum jörðum Bielkes heitins hèr á landi, útgefið af erfingjum hans í Kaupmannahöfn.

1683, þegar landfógeti Heidemann kom inn, býður konungsbrèf nokkurt, að Lárus skuli vera umboðsmaður Heidemanns, ef Heidemann dæji, eða með öðru móti hindraðist frá að gegna sínum embættisverkum, því Jóhann Klein hafði tjáð konungi, að hann væri hèr gagnkunnugastur fógeta sýslunum;

---

1) Sigríður átti Nikulás son Sigurðar Þorsteinssonar í Ymburhöfða.

hafði Lárus framan af mikið gengi hjá dönskum á Bessastöðum, svo að honum leyfðist margt það, er öðrum sýslumönnum leiðst ekki, og meðal þess var það, að hann hèlt jafnast umboðsmenn að reka sín og konungsins erindi um sýsluna. Optast meðan Þorsteinn Benidiktsson hèlt hálfa sýsluna móti Lárusi, var hann fyrir þá báða í dómaraverkum; þó var lögrèttumaðurinn Björn Hrólfsson umboðsmaður Lárusar 1687, meðan Þorsteinn enn hafði hálfa sýsluna; en eptir það að Þorsteinn frásagði sèr hálfa sýsluna 1690, voru umboðsmenn Lárusar þessir:

1. Jón Illugason, 1695—99 og 1711, og líka Björn í Dal, sonur Hrólfs sýslumanns.
2. Sigurður Einarsson á Geitisskarði, 1700—1704.
3. Jón Eiríksson, 1705—8 og 1711—14.
4. Björn Þorleifsson, 1708—10.
5. Sumarliði Klementsson, sýslumaður í Strandasýslu.
6. Þórður Björnsson, og svo lögsagnari í Strandasýslu.
7. Jóhann Gottrúp sonur hans, er seinna fèkk Húnavatnssýslu og fleiri lèn.

1695, 15. apríl, varð Lárus Gottrúp lögmaður norðan og vestan; hafði hann sókt um lögmannsdæmið til konungs, er eigi hafði fyr verið, því áður voru lögmenn kosnir af landsmönnum; Lárus hèlt samt öllum sínum áður nefndum lènum. Eigi varð hann lögmaður af því, að hann væri lögspakari en margir aðrir hèr voru þá, heldur af því, að hann var þá hinn mesti uppgangsmaður; kom eigi til lögmannskosningar, heldur sótti Lárus, sem fyr er sagt, um lögmannsembættið til konungs, og studdu þá mál hans Kristofer Heidemann og amtmaður Möller (að sögn), því þá var mikil vinátta milli amtmanns og Lárusar; hafði Lárus þá og um þessar mundir tekið sèr fyrir margt nytsamlegt í bústandssökum, og var hinn mesti búþegn; gjörðist hann og auðugur. Lárus kallaði sig (og var það um hríð) umboðsmann landfógeta Heidemanns, eptir það að hann kom að Þingeyrum; tók og Lárus þá að leggja sig eptir lögvísi, og leiðbeindi Þorsteinn sýslumaður Benidiktsson honum í því. Lárus bjó fyrst ókvæntur á Þingeyrum, en þar kom að, að hann feldi huga sinn til Þórunnar dóttur Þorleifs lögmanns Kortssonar, sem bjó embættislaus á Bæ í Hrútafirði; annar danskur maður, er og svo hafði verið umboðsmaður fógetans á Bessastöðum og Lárus Scheving hèt, fèkk ástir Þórunnar og

ektaði hana, og fèkk síðan Vaðlaþing og Möðruvallaklaustur, sjá Vaðlaþing; gjörðist þar af óvinátta millum þeirra nafna, og þótti mörgum Þórunn hafa illa fyrir sèð, því þeir nafnar voru þá eigi taldir jafnmenni. Þá er þetta kvonfang brást Gottrúp, gipti hann sig Katrínu, sem áður er sagt.

1688 fèkk Lárus Gottrúp vonarbrèf fyrir Þingeyraklaustri handa konu sinni eptir sinn dag.

1698 gipti hann á Þingeyrum systurdóttur sína Sophíu Jens Jörgenssyni umboðsmanni.

Hèraðsdómar Lárusar hafa fáir komið mèr fyrir sjónir, enda er næg vissa fyrir því, hvenær hann tók og sleppti völdum í Húnavatnssýslu.

1701 voru harðindi mikil á Íslandi; hafði amtmaður Möller verið utanlands og kom út um vorið, með það brèf konungs, meðal annars, að annarhvor lögmannanna færi utan, að bera fram nauðsynjar landsmanna. Sendi amtmaður þetta konungs leyfi vin sínum Lárusi lögmanni og bað hann að búast til útferðar; hann brá þegar við, fór til alþingis með konu sína og þjónustu menn; voru það Bjarni son Einars biskups og Hallgrímur, sonur síra Bjarna á Grænavatni Ormssonar; meintu sumir, að utanferð Lárusar mundi verða sjálfum honum mest til gagns, en öðrum óþörf, og töluðu það fyrir amtmanni Jón biskup Vídalín, Páll Vídalín og fleiri, svo amtmaður vildi eigi, að Lárus færi utan; þá er Lárus lögmaður setti upp tvær súpplíkatíur, aðra til konungs og aðra til stórkansillerans, greifa af Reventlou, og lèt lesa þær upp í lögrèttu, og flestalla veraldlega þar undirskrifa, utan Pál Vídalín, Jón Eyjólfsson, Jón Magnússon, Halldór Einarsson sýslumenn, er eigi vildu undirskrifa. Lögmaður, og þeir er á hans bandi voru, sýndu amtmanni súpplíkatíuna, en hann stakk henni hjá sèr og síðan undir stól; snerist þaðan af þeirra mikla vinátta í fjandskap. Lárus fór af þingi með konu sína til Saurbæjar, þaðan til Bessastaða og var þar í 3 vikur; mæltust þeir amtmaður þá eigi orð við. Þaðan fóru þau hjónin, dóttir þeirra, fylgdarmenn og varnaður til Keflavíkur; þar hafði hann tekið sèr far og var einbeittur í utanferð sinni; þau biðu lengi í Keflavík; lagði skip það, er þau fóru á út, eigi fyrr út, en 6 dögum fyrir Maríumessu fyrri, en amtmaður hafði hálfum mánuði fyr farið utan með Hafnarfjarðarskipi. Urðu hvorutveggi vel reiðfara. Fèkk Lárus lög-

maður sjálfur að tala við konung, og bar fram þær greinir, er súpplíkatían um hljóðaði; var sú ein, að konungur gæfi til landsins 3000 tunnur mjöls, en það fèkkst eigi, en álitið betra að landið fengi vægari taxta á nauðsynja vörum, og í því tilliti eptirgaf konungur reiðurum 6000 rd. á hverju ári, er eptir var af tíð þeirra; mart annað þarflegt, lèttir af ánauð kaupmanna, peningastyrk til fátækra presta, og fleira, útverkaði Lárus til góðs; var þó af sumum illa þakkað.

1702 komu þeir amtmaður og Lárus út; var þá sama óvild þeirra á milli og áður. Lárus lögmaður hafði útvegað sèr utanlands þófaramylnu og litunarverkfæri, og bauðst til að láta lita fyrir hvern, sem vildi, allslags liti fyrir sanngjarnt verð. Hann lèt og byggja á Þingeyrum vandaða timburstofu, og margt fleira til nytsemdar.

Fátt eitt af þeim mörgu dómum, sem gengu í Húnavatnsþingi, meðan Lárus hèlt það, rita eg undir nöfnum lögsagnara hans, en hèr get eg einasta þess, að 1706, 16. júlí, skipar amtmaður Möller lögmanni Gottrúp, að dæma í máli Magnúsar Benidiktssonar úr Vaðlaþingi, en lögmaður Gottrúp afsakaði sig frá því með skjali framlögðu í lögþingisrèttinn, þar bæði lögmaður Vídalín og Halldór sýslumaður Einarsson hefðu eptir amtmannsskipun og samþykki áður gjört og dæmt í málinu, og því væri eigi heldur stefnt fyrir lögþingisrèttinn, hvers vegna hann meinti að amtmaður með 24 mönnum eptir N. l., 1. b., 6. kap., 2. art. ætti yfir sökinni að dæma, ef henni væri áður löglega stefnt. Amtmanni mislíkaði þetta mjög, og skipaði 19. júlí lögmanni Páli að fella endilegan dóm yfir Magnúsi, hvað hann og gjörði daginn eptir, 20. júlí. Lögmaður Gottrúp vildi eigi heldur hlýða þeirri skipun amtmanns, að dæma í landaþrætumálinu í Húnavatnssýslu á millum Reykja og Hreiðarstaða, sjá hèr síðar.

1706, 23. júlí, kom fyrir lögþingisrèttinn hið svo nefnda griðungsmál úr Húnavatnssýslu, í hverju fyrverandi lögsagnari Sigurður Einarsson hafði 25. október 1703 að Ási í Vatnsdal látið dóm ganga, en lögsagnari Jón Einarsson eptir skipun amtmanns upp á beiðni Brynjólfs Hálfdánarsonar í Saurbæ í Vatnsdal hafði uppástefnt Gottrúp lögmanni, sem sækjanda, en Sigurði Einarssyni sem dómara. Málið reis af því, að lögmaður hafði átt griðung í fóðri hjá Brynjólfi, en klagaði yfir skaða

af megurð nautsins og að Brynjólfur hefði lèð það og tekið toll eptir; hafði Brynjólfur gjört reikning fyrir 12 pörum sokka í bolatoll, og verið dæmdur í hèraði til að vinna lýrittareið hinn meiri um upphæð tollsins eptir kröfu lögmanns. Þótt lögmaður Gottrúp afsegði lögmann Vídalín fyrir yfirdómara í þessu máli, sem uppljóstrarmann (angiver) þessarar sakar, þar hann kvaðst og stefndur fyrir lögrèttuna, en ekki fyrir lögmann Vídalín, þá dæmdi Vídalín samt í þessu máli: 1. að Sigurður skyldi borga Brynjólfi fyrir ómak sitt til alþingis 1½ hndr.; 2. lögmaður Gottrúp skyldi borga Brynjólfi 1 hndr. og til konungs 2 merkur fyrir stóryrði lögmanns í stefnu hans. Undir þennan dóm skrifuðu ekki með Páli utan 3 lögrèttumenn.

1706 stefndi lögmaður Gottrúp amtmanni Möller á alþingi til að heyra á þingvitna yfirheyrslu í lögrèttu, áhrærandi, að amtmaður hefði látið framfara execution yfir þjófnum Þóroddi Þorsteinssyni á móti lögmannsins appelli í þeirri sök til hæstarèttar, hvað lögrèttan sannaði; Jón sýslumaður Eyjólfsson mætti þá amtmanns vegna.

1714, 24. júlí, afstóð Lárus Gottrúp fríviljuglega lögmannsembættinu til vísilögmanns Odds Sigurðssonar á alþingi, og áskildi sèr 60 rd. í lögmannslaun og lögmannstolla af Húnavatnsþingi að auk sína lífstíð; óskaði undir eins vitnisburðar af lögþingismönnum, hvern allir nálægir gáfu honum hinn loflegasta. Samþykki konungs fengu þeir Lárus og Oddur upp á lögmannsdæmis samninginn.

1715 gefur Lárus Gottrúp að öllu leyti frá sèr Húnavatnsþing, er sonur hans þá tók, en Þingeyraklaustur hèlt hann til dauða síns.

1721, 1. marz, (Markúsar annáll segir 1720), dó Lárus á Þingeyrum og er jarðaður þar; kona hans Katrín, er hann hafði útvegað klaustrið, ef hún lifði sèr lengur, hèlt Þingeyraklaustur eptir hann til þess að hún dó 1731, og var jörðuð á Þingeyrum.

Lárus Gottrúp var hinn mesti nytsemdar maður, bæði til fyrirsjónar og framkvæmdar um marga hluti, og með þeim beztu af útlendum fyrirmönnum hèr á landi; hafði hann komið sèr mjög vel við Jóhann Klein og Heidemann; var því vegna vitnisburða þeirra mjög vel metinn í Kaupmannahöfn, og fèkk optast vilja sinn hjá stjórnarráðinu. Fèglöggur þótti hann vera,

og að ósk hans hafa þeir Árni Magnússon og Páll Vídalín skipað að gjalda honum utanfararkostnað sinn 1707; átti hann að takast eptir tíundarhæð 1700, en eptir landskuldahæð 1707; var það sannsýnilegt, og eigi meira en fyr hafði verið tollað útsiglingamönnum, sem eigi gátu þó afrekað ytra eins nytsamt og Lárus lögmaður í utanför sinni.

Það fundu þeir Lárus til, að hann hefði með sölu útokrað tóbaki og brennivíni, verið harður og glöggur í tekjum. Hann var mikill auðmaður og notaði flest tækifæri til fjárafla; hamingjumaður var hann hinn mesti: átti þó marga öfundarmenn; drottnunargjarn, fljótlyndur, stoltur og ófyrirlátssamur þótti hann vera; skrautmaður mikill; heilsugóður til hins síðasta; með hærri mönnum var hann á vöxt, skarpleitur í andliti og ekki fríður; skarpvitur og ráðslunginn; ekki var hann haldinn lærður maður, farnaðist þó flest vel, og dó í virðingu sinni.

### Björn Hrólfsson[1].

*Faðir:* Hrólfur sýslumaður í Þingeyjarsýslu Sigurðsson, sjá þar um hann.

*Móðir:* Björg Skúladóttir, systir Skúla biskups.

*Kona:* Gunnvör Benidiktsdóttir, systir Þorsteins sýslumanns.

*Börn:*
1. Guðbrandur átti Ragnhildi Ólafsdóttur[2] frá Bólstaðarhlíð.
2. Guðrún átti Ólaf Bjarnason frá Steiná; þeirra dóttir Guðrún, barnlaus.
3. Halldóra átti Þorlák[3] Halldórsson frá Bægisá; þeirra börn:
   a. Guðrún átti Illuga Bjarnason og eina dóttur.
   b. Guðrún yngri átti Ólaf Sander, norskan mann; þau barnlaus.
   c. Þorbjörg dó barnlaus.

---

1) Sjá um Björn Þingeyjarþing, bls. 98 og 99.

2) Ólafur var á Haukagili, en Ólafur faðir hans á Lækjamóti.

3) Þorlákur, son síra Halldórs Þorlákssonar á Bægisá, bjó í Tungunesi.

4. Björg.
5. Guðrún yngri. } öll barnlaus[1].
6. Benidikt.

Björn bjó í Slèttárdal í Húnavatnsþingi og gjörðist lögrèttumaður þar í sýslu, líka umboðsmaður Lárusar Gottrúps 1688, og lèt það ár dóm ganga með Þorsteini Benidiktssyni á Torfalæk, 10. febrúar.

1698, 27. apríl, að Vindhæli, lætur Björn ganga dóm út af ákæru lögsagnarans Jóns Illugasonar til Tómasar Björnssonar, út af haldi á konungsskuldum; kom það mál til alþingis; voru þar dæmdar sektir, 6 aurar á skatthaldi, 4 aurar á gjaftollshaldi, 3 merkur á tíundarhaldi, og sæki sem vítafè.

Björn var skýr maður, og nýtur og heiðarlegur bóndi; dó 1720.

## Jón Illugason[2].

*Faðir:* Illugi Hólaráðsmaður Jónsson Illugasonar.
*Móðir:* Halldóra Skúladóttir, systir Þorláks biskups.
*Kona:* Margrèt, dóttir síra Guðmundar Erlendssonar.
*Börn:* A. Síra Jón á Undirfelli og í Garpsdal, dó 1744, átti Þóreyju dóttur síra Bjarna á Bakka; þeirra börn:
1 Margrèt, seinasta kona Steindórs sýslumanns Helgasonar (sjá Hnappadalssýslu); barnlaus.
2. Guðrún átti Jón Björnsson[3] á Vatnsnesi.
B. Síra Benidikt í Bjarnanesi, dó 1744, átti Rann-

---

1) Enn voru launbörn Björns Hrólfssonar:
7. Bjarni átti Helgu Jónsdóttur frá Valadal.
8. Ólöf átti fyr Skúla Skúlason Hrólfssonar, svo Sigurð Jónsson; hún átti og launbarn með Hjálmari Árnasyni.

2) Það er án efa með öllu rètt, að þessi Jón Illugason, er var lögrèttumaður í Vaðlasýslu (sjá þar um hann, bls. 249—253), eigi hefir verið sá Jón Illugason, er var lögrèttumaður eða lögsagnari í Húnavatnssýslu, heldur hefir það verið sá Jón Illugason, er hèr getur síðar, sem var lögsagnari í Húnavatnssýslu.

3) Síra Björn, faðir Jóns, var sonur síra Þorsteins í Fagranesi, sonar Jóns Finnssonar á Spákonufelli, merkisbónda.

veigu, dóttur Sigurðar lögrèttumanns í Ási, barnlaus.

C. Illugi lögrèttumaður í Þingeyraþingi átti Þorgerði Sigurðardóttur; þeirra börn:

a. Síra Skúli á Möðruvöllum átti Helgu Tómasdóttur; þeirra börn:
   1. Síra Tómas á Grenjaðarstað.
   2. Þuríður.
   3. Jón.

b. Sigurður, laungetinn, hans börn:
   1. Síra Jón á Þæfusteini.
   2. Magnús Lund.
   3. Illugi.

c. Margrèt átti Pètur, son Jóns smiðs; þeirra börn:
   1. Jón Chirurg, dó 1801.
   2. Pètur.
   3. Jórunn.

d. Jón.

e. Halldóra.

f. Helga.

D. Erlendur á Urðum átti Hildi, dó barnlaus.

E. Guðrún átti síra Jón Þorvaldsson; börn:

a. Halldóra átti Árna Þorsteinsson í Bólstaðarhlíð; þeirra börn:
   1. Jón ökónómus.
   2. Halldóra.
   3. Einar.
   4. Steinunn.

b. Guðrún átti Einar Nikulásson Einarssonar; þeirra börn:
   1. Ragnheiður.
   2. Erlendur.

c. Einar ökónómus í Viðvík.

d. Málmfríður.

e. Steinunn.

F. Guðrún önnur átti Sigfús Þórðarson, svo Arngrím Bjarnason, og með hvorugum börn.

Þótt eg sè óviss um, hvort hèr nefndur Jón Illugason sè sá, sem var lögsagnari í Húnavatnsþingi, þar hann reiknast að hafa verið lögsagnari í Vaðlaþingi (í þeirri ættartölubók, sem

eg fyrir mèr hef) og að hann hafi búið á Urðum, set eg hann samt hèr sem líklegan lögsagnara, þar eigi finn annan.

1698, 14. maí, lætur lögsagnarinn Jón Illugason dóm ganga að Bólstaðarhlíð um þá löggjöf, er foreldri sáluga Þorsteins B. höfðu honum gefið.

Sama ár, 27. apríl, klagar Jón Tómas Björnsson fyrir hald á sköttum til konungs (sjá hèr að framan).

1709, 3. maí, að Svínavatni, lætur Jón Illugason dóm ganga millum Benedikts Þorsteinssonar og Gísla Þórarinssonar.

Rèttara mun vera, að þessi Jón Illugason, sem var lögrèttumaður í Húnavatnssýslu, hafi verið sá Jón Illugason, er bjó á Spákonufelli og dó 1722; var

*Faðir* hans Illugi Einarsson Bessasonar[1] bónda á Urðum (sem 1609 missti allt sitt fè í fjúki).

*Móðir:* Helga dóttir Jóns[2] bónda á Bjarnastöðum í Kolbeinsdal og Hólakirkjusókn.

*Kona:* Björg Halldórsdóttir Þorbergssonar sýslumanns;

*Dóttir:* Guðrún[3] áður nefnd.

Jón þessi varð lögsagnari Lárusar Gottrúps og lèt í hans umboði ganga fyrnefnda dóma.

### Björn Þorleifsson.

*Faðir:* Síra Þorleifur[4] í Blöndudalshólum Ólafsson Guðmundssonar.

---

1) Bessi, faðir Einars, var Bessi son Hrólfs sterka Bjarnasonar.

2) Jón, faðir Helgu, var Jónsson, en kona hans og móðir Helgu var Ingibjörg, dóttir síra Hjalta, sonar Ólafs biskups Hjaltasonar.

3) Guðrún átti Illuga nokkurn, og er allt önnur en hin áður nefnda, eða sem átti síra Jón Þorvaldsson á Miklabæ.

4) Síra Þorleifur telst sonur Ólafs Guðmundssonar frá Finnstungu, hefir því afi hans verið Guðmundur Gíslason í Finnstungu, er fyr hefir verið getið, og sem átti Finnstungu; hefir og síra Þorleifur átt þá jörðu, þá hann byggði staðinn og bjó í Finnstungu.

*Móðir:* Þórunn Kortsdóttir Magnússonar[1] Kortssonar á Arbæ.
*Kona:* Ólöf Sigurðardóttir.
*Barn:* 1. Þorkell átti Guðríði systkinabarn sitt, dóttur Jóns Þorleifssonar, þeirra börn:
a. Guðmundur.
b. Þorleifur.
c. Jón.
2. Hallur átti Guðrúnu, dóttur Þorsteins Jónssonar á Leysingjastöðum; þau áttu börn, og þegar Hallur var fimmtugur, átti hann launbarn með Þorbjörgu, er var
Bjarni á Þóreyjarnúpi, hans son
Jón, hans son
Pètur á Hrafnstöðum í Víðidal átti Þorkötlu Guðbrandsdóttur.
3. Guðmundur átti launbörn.
4. Þorleifur.
5. Ólafur.
6. Steinunn.
7. Þuríður.

Björn var rekinn úr skóla fyrir galdrarikti eins og bróðir hans Jón í Hvammi í Öxnadal. Síðan var Björn hjá Guðbrandi Þorlákssyni og barnaði þjónustustúlku hans Ólöfu, er hann síðan giptist; bjuggu þau á Guðlaugsstöðum í Blöndudal; hann var lögsagnari Lárusar Gottrúps eitt ár, sem sè 1708, þó eigi finni eg dóma hans, og 1710.

### Sigurður Einarsson.

*Faðir:* Einar biskup á Hólum Þorsteinsson.
*Móðir:* Ingibjörg dóttir síra Gísla á Bergstöðum Brynjólfssonar
*Kona:* Kristín, dóttir síra Markúsar í Laufási Geirssonar.
*Börn:* A. Sigríður átti fyr Odd Magnússon, sjá Hegranesþing; svo síra Stefán á Höskuldstöðum Ólafsson; hún var hans seinni kona, þeirra börn:

---

1) Faðir Þórunnar var Kort Þormóðsson Kortssonar, og var Þórunn systir Þorleifs lögmanns Kortssonar.

1. Sigurður Hólabiskup átti Guðríði Halldórsdóttur; þau barnlaus.
2. Oddur, klausturhaldari á Þingeyrum og nótarius við yfirrèttinn átti Hólmfríði Pètursdóttur sýslumanns Þorsteinssonar; þeirra börn:
   a. Pètur Mýra sýslumaður, sjá þar.
   b. Sigríður átti Björn sekrítera, son Ólafs stiptamtmanns Stefánssonar, þeirra son Oddgeir[1].
   c. Lárus[2] giptist, átti einn son, veiktist síðan.
   d. Þórunn, ógipt, barnlaus, dó 1831.

B. Ingibjörg, húsfrú Gísla Hólabiskups Magnússonar; þau giptust 1736. Þeirra börn:
1. Síra Oddur á Miklabæ átti Guðrúnu Jónsdóttur[3]; þeirra börn:
   a. Síra Gísli á Ríp átti Agnesi Bjarnadóttur frá Mælifelli, þeirra börn:
      α. Bjarni[4].

---

1) Oddgeir, forstöðumaður íslenzku stjórnardeildarinnar í Kaupmannahöfn, giptur danskri konu.

2) Lárus var við verzlun í Reykjavík, átti Sigríði, dóttur Þorkels gamla Bergmanns Guðmundssonar og Sigríðar Einarsdóttur frá Klausturhólum; Lárus veiktist á bezta aldri, og var síðan alla æfi kararómagi hjá bróður sínum. Börn þeirra Lárusar og Sigríðar eru:
α. Pètur, bjó á Munaðarhóli undir Jökli, græddi fè af dugnaði sínum, keypti Ytra-Hólm að Þórunni, ekkju síra Hannesar Stefánssonar, og flutti sig þangað. Kona hans er Rósa, dóttir Jónasar í Hallsbæ
β. Valdimar var þurrabúðarmaður í Reykjavík, kona hans Elsa.

3) Faðir Guðrúnar var síra Jón Sveinsson í Goðdölum.

4) Bjarni prestur á Söndum var seinni maður Helgu Árnadóttur Magnússonar; hennar fyrri maður var síra Hákon Jónsson á Eyri við Skutulsfjörð; börn síra Bjarna og Helgu voru:
1. Hákon, kaupmaður á Bíldudal, átti Jóhönnu, dóttur síra Þorleifs Jónssonar í Hvammi í Hvammssveit.

β. Helga[1].
γ. Jón[2].
δ. Sigurlaug[3].
ε. Guðrún[4].
b. Ingibjörg átti síra Jón á Auðkúlu Jónsson Sveinssonar, þeirra börn:
α. Jón[5].
β. Sigurbjörg[6] og fleiri

---

2. Valgerður, þriðja kona síra Þorvarðar Jónssonar í Holti undir Eyjafjöllum.
3. Sigurður.

1) Helga, þriðja kona Gunnars á Kimbastöðum Magnússonar frá Vatnshlíð. Hún átti og nokkur launbörn.

2) Jón á Kimbastöðum átti Björgu Þorvaldsdóttur, er áður hafði átt launbarn með Bjarna á Sjáfarborg Jónssyni; það barn var Bjarni, faðir síra Þorkels á Reynivöllum.

3) Sigurlaug átti Jón Markússon frá Utanverðunesi, barnlaus.

4) Guðrún var svo stór, sem stórir karlmenn eru; hennar laundóttir Sigurbjörg á Magnús son Árna í Garði í Hegranesi, Helgasonar Jónssonar; Helgi var úr Eyjafirði.

ζ. Gísli, son síra Gísla, dó ógiptur, barnlaus.

Síra Gísli átti síðan Ragnheiði Eyjólfsdóttur, ekkju Jóns Erlendssonar á Silfrastöðum; þau barnlaus.

5) Jón ógiptur, barnlaus.

6) Sigurbjörg átti Þorstein Helgason, bjuggu á Grund í Svínadal; þeirra börn:

a. Ingvar á Sólheimum í Svínadal, seinni maður Ingiríðar Pálmadóttur, barnlaus; fyrri maður hennar var Andrès Þorleifsson frá Stóradal.
b. Þorsteinn átti Guðbjörgu Sigurðardóttur frá Hofstöðum.
c. Helgi á Eiðstöðum, á dóttur Guðmundar á Guðlaugsstöðum Arnljótssonar og Elínar Arnljótsdóttur frá Gunnsteinsstöðum.
d. Guðmundur á Björgu Magnúsdóttur frá Holti í Svínadal Magnússonar.
e. Jóhann prestaskólakandídat.

2. Magnús sýslumaður í Húnavatnsþingi, sjá hèr síðar.
3. Kristín átti magister Hálfdán rector Einarsson; þeirra dóttir
Ingibjörg átti Magnús Thorarensen klausturhaldara á Múnkaþverá, þeirra börn:
α. Þórarinn[1].
β. Páll[2].

C. Sigurður átti Valgerði[3] þeirra börn:
1. Steinunn átti síra Snorra á Hjaltastöðum Björnsson; þeirra börn:
a. Síra Arni[4].
b. Sigurður sýslumaður.
c. Sigríður[5].
d. Jón[6].

---

f. Jakob á Sveinínu, dóttur síra Sveinbjarnar Eyjólfssonar í Árnesi.
g. Oddný, kona Boga Smiths á Arnarbæli vestra, sonar konsúls Marteins Smiths í Reykjavík og Ragnheiðar Bogadóttur frá Staðarfelli.

Enn voru börn Ingibjargar og síra Jóns:
γ. Daníel, prestur í Ögurþingum, átti Ólöfu Thómasdóttur frá Hvalsnesi.
δ. Gísli, prestur í Kálfhaga, átti Sigríði Eiríksdóttur, systur Magnúsar kandídats Eiríkssonar, barnlaus.
ε. Helga giptist ekki.

1) Þórarinn kallaði sig Öfjörð, var sýslumaður í Skaptafellssýslu, sjá þar um hann.

2) Um síra Pál, sjá Vaðlaþing, bls. 275.

3) Valgerður var dóttir Ásgríms Einarssonar í Holti í Fljótum og systir Guðrúnar, konu síra Þorvaldar Gottskálkssonar á Miklabæ.

4) Síra Árni á Felli átti Guðrúnu Ásgrímsdóttur Þorlákssonar frá Ásgeirsbrekku.

5) Sigríður átti síra Jón, er kallaði sig Reykjalín, son síra Jóns Þorvarðarsonar frá Glæsibæ.

6) Jón seinni maður Sigríðar Ólafsdóttur Eggertssonar, bjuggu

2. Ingibjörg fyrri kona Jóns snikkara[1] þeirra börn:
α. Sesselja
β. Ingibjörg.
3. Sæunn, laundóttir Sigurðar með Helgu Önundardóttur átti Jón Pètursson[2]; þeirra son
α. Pétur[3] kaupmaður.
4. Jón[4] hans son.
Jón[5] lausamaður og assistent í Reykjavík átti Katrínu Árnadóttur.

Sigurður bjó á Geitaskarði og var stórbóndi og höfðingi, hann gjörðist lögsagnari Lárusar Gottrúps lögmanns 1700.

Það ár að Bólstaðahlíð 25. maí lætur hann dóm ganga um missætti áður nefnds Björns Hrólfssonar og Halldórs Jónssonar, þá hann skyldi borga Birni til arfaskiptajafnaðar 6 hndr.

---

seinast á Klömbrum og áttu þá jörð; Ólafur var bróðir Ingibjargar konu Brynjólfs sonar Halldórs biskups. Sigríður komst yfir 100 ár.

1) Jón snikkari, maður Ingibjargar, var Björnsson og bróðir síra Snorra, er átti Steinunni, systur Ingibjargar; Jón bjó á Lóni í Viðvíkursveit.

2) Jón var við verzlun í Húsavík.

3) Pètur giptist í Kaupmannahöfn ríkri ekkju, hafði verzlun í Reykjavík, dó barnlaus.

Enn voru börn Sæunnar og Jóns Pèturssonar.
β. Sigurður sigldi, barnlaus.
γ. Sigríður.
δ. Kristín átti Sigurð Benidiktsson frá Dvergstöðum að norðan, voru í Reykjavík.

4) Jón bróðir Sæunnar og þeirra systra, sigldi, og dó barnlaus.

5) Jón lausamaður var launson Sæunnar með Jóni á Hnjúkum; fyrri kona hans var Anna María, dóttir síra Rafns á Hjaltabakka en seinni kona hans Katrín Árnadóttir prests Skaptasonar. Launsonur Jóns lausamanns með Ragnheiði Jónsdóttur frá Svalbarði á Álptanesi, Oddssonar á Egilsstöðum í Ölfusi Gíslasonar, var

Jón prentari.

1701, 25. apríl, að Þorkelshóli lætur Sigurður lögsagnari Einarsson dóm ganga um 12 ára gamlan dreng, Þorstein Bessason, sem úti varð millum Refsteinsstaða og Titlingastaða í áhlaupsveðri; kom sá dómur til alþingis og var þar hertur.

1702, 23. júní, lætur hann dóm ganga útaf burthvarfi barnsins Jakobs Gunnarssonar, sem flutt var frá Æsustöðum í Langadal til Gunnsteinsstaða, og þaðan aptur hrakið af ábúandanum, fannst á veginum: um þetta afsagði lögsagnarinn engan endilegan dóm, en lögmenn dæmdu sama ár flytjanda barnsins húðláts refsingu, og Gunnsteinsstaða ábúanda 1 hndr. sekt til næsta spítala.

Sama ár, 18. febrúar, dæmdi hann yfir hernaðaraðferð þeirra bræðra Ólafs og Rafns Björnssona.

1703, 16. júní að Ási og 19. s. m. að Þorkelshóli, lætur lögmaður Gottrúp stefna nokkrum hèraðsbændum fyrir dóm Sigurðar lögsagnara fyrir þá sök, að eigi vildu gefa lögmanni vitnisburð; því skaut Sigurður til lögþingisrèttar, og var þar á sett nokkur peningasekt til sveitar fátækra eptir efnum hinna sakfeldu.

1703 lætur Sigurður 3 dómsprócessa ganga um harðýðgi bóndans Guðmundar Jónssonar við konu sína Þórdísi Magnúsdóttur, sem skyldi í hor og vesæld af hans tilstofnan dáið hafa, en þessu máli stefndi Guðmundur til lögþingis 1704, og urðu lögmenn og lögrèttumenn eigi á eitt sáttir, þar Sigurður lögmaður áleit þá stefnu copíu ógilda, er eigi sè vídímeruð og handskrifuð, en lögmaður Gottrúp áleit hana gilda, ef hún væri samhljóða orignalnum, eptir N. L. 1—4—4, og Krist. 1. tilskipun 1463 og Krist. 4. tilskipun 1622.

Dóm þann, er Sigurður lögsagnari Einarsson lèt ganga 1703 yfir Þorláki Ólafssyni í Forsæludal útaf ellefu marka sekt til konungs, hvar uppá amtmaður Müller hafði stefnt lögmanni Gottrúp og Sigurði til alþingis 1705, — þangað kom Sigurður en Gottrúp ekki, — ónýttu þeir amtmaður Müller og lögmaður Vídalín með forlíkunar yfirskyni 25. júlí sama ár, og lètu lögsagnara Sigurð borga Þorláki Ólafssyni 2 hndr. í umkostnaðar nafni, en lögmaður Sigurður gaf Þorláki hið þriðja hundrað; en árið eptir prótesteraði lögmaður Gottrúp sátt þessa sem ólöglega.

1703 sótti Gottrúp lögmaður um, að Sigurður Einarsson sem virkilegur sýslumaður fengi konungsbrèf þar uppá, og sömuleiðis yrði vísilögmaður og succederaði Gottrúp í lögmanns embættinu, en 10. maí 1704 synjaði ekki einungis konungur Gottrúp lögmanni þessa, heldur tilkynnir honum, að bæði yfir lögmannsins og Sigurðar dómum sèu ýmsar klaganir komnar, og því skuli strax annar lögsagnari setjast í Sigurðar stað. 1706 giptust þau Sigurður og Kristín.

## Jón Egilsson.

Hann tjáist að hafa verið lögsagnari Gottrúps 1705; hann veit eg eigi hver verið hefir. hafi það eigi verið Jón Egilsson frá Skarði, og hefði hann þá orðið að vera ærið gamall og Sigurður Einarsson þá kominn að Skarði.

Um Jón Egilsson á Skarði, lögsagnara Björns sýslumanns Magnússonar 1662 og þar eptir, sjá hèr að framan.

Eptir þenna Jón, er nefnist Egilsson, er dómur genginn að Vindhæli 27. apríl 1705, um það, hvort fasteign Þorsteins Jónssonar skuli reiknast til ómagaframfæris, það mál kom undir lögþingisdóm 25. júlí sama ár. Það er líkast, að föðurnafnið hafi misritazt, og hafi átt að vera Jón Eiríksson; Jón Eiríksson var og lögsagnari Gottrúps 1705; eigi getur heldur í Eptirmælum 18. aldar neins Jóns Egilssonar sem lögsagnara Lárusar.

## Jón Eiríksson.

Sjá um hann við Strandasýslu; þar var hann lögsagnari Páls Vídalíns 1708—11, en lögsagnari Gottrúps hefir hann orðið í Húnavatnssýslu 1705, því 1705, 22. maí, að settu fimmtarþingi að Aðalbóli í Miðfjarðarhreppi af lögsagnara Jóni Eiríkssyni, voru 12 bændur í dóm nefndir, eptir beiðni klausturhaldara Þórðar Þorleifssonar og konu hans, jarðarinnar Reykja í Miðfirði vegna, og Pèturs Markússonar húsfrúr Ragnheiðar Jónsdóttur vegna, sem stólsjörðin Aðalból unnt var upp á sína lífstíð; en Hreiðarstaðir kirkjujörð Reykja í Miðfirði, hálf konungi, en hálf Steinunni, konu Þórðar tilheyrandi, um afrètt þann, er Lambatungur heitir. Hafði lögsagnarinn með bændum

sett þetta til alþingis, en lögmaður Gottrúp afsakaði sig frá að dæma þar yfir, því konungs og kirkjuland mætti eigi undir lög leggja. Amtmaður skipaði þá Páli Vídalín að dæma í málinu; hann dæmdi Lambatungur undir jörðina Aðalból. Llb. 26.

1706, 8. maí, að Torfustöðum lèt Jón lögsagnari Eiríksson dóm ganga um tregðu á gjaftolls borgun og jarðar tíunda.

1706 var Jón af amtmanni settur áklagari í graðungsmálinu úr Húnavatnsþingi.

1714 lætur Jón lögsagnari Eiríksson dóm ganga á Sveinsstöðum milli Björns Andrèssonar og Björns Þorleifssonar útaf hesti.

Fleiri kunna dómar Jóns Eiríkssonar að vera; en áður talið er nóg til að sýna lögsögn hans í Húnavatnsþingi. Jón var og orðinn lögrèttumaður 1700.

## Sumarliði Klementsson.

Sjá um hann Strandasýslu. 1712 sókti Sumarliði Klementsson, lögsagnari í Húnavatnsþingi Guðbrand Arngrímsson og Þorlák Ólafsson fyrir ýmsar sakir, en þær komu til alþingis sama ár, og varð lítið úr.

1713, 18. janúar, að Kirkjuhvammi dæmdi hann Odd Eyjólfsson frá lífi fyrir þriðja hórdómsbrot; kallast hann þá sýslumaður, því hann var settur í Strandasýslu það ár.

Sama ár, 7. janúar, að Bólstaðarhlíð, dæmir hann í máli Páls Vídalíns og Jóns Vigfússonar; Jón áfríaði dóm þann; var honum settur talsmaður Benidikt Bech; var dómur Sumarliða dæmdur á alþingi ómerkur og hann skyldaður að borga Jóni 1½ hndr. eða 6 rd.

1717 var Sumarliði dæmdur frá dómaraverkum; 1714 var hann dæmdur í sekt á alþingi 1½ hndr. til næsta spítala fyrir óreglulegan rèttargangsmáta í barnsfaðernislýsingarmáli Guðrúnar Pètursdóttur.

## Jóhann Lárusson Gottrúp.

Sjá um hann við Snæfellsnessýslu. 1715 gaf faðir hans frá sèr Húnavatnsþing og tók það þá Jóhann son hans, og gjörði þar öll sýslumannsverk 1716; það ár gjörði hann og

Klements sýslumann ólukkulegan, sjá Snæfellsnessýslu. Að telja upp dóma Jóhanns álit eg óþarfa, þar konferenzráð Magnús Stephensen hefir sýnt með vissu valdstjórnarár Jóhanns, en í því tilliti eru dómarnir einkum nefndir, að sæist hverjir hefðu sýsluvöld.

1721, 17. marz, fèkk Jóhann Gottrúp konungsbrèf fyrir Húnavatnsþingi.

1727 tók Jóhann Gottrúp Grím á Giljá fyrir umboðsmann sinn í þessari sýslu.

1728 mun Jóhann hafa sagt af sèr Húnavatnssýslu. Snæfellsnessýslu og Stapaumboð fèkk hann eptir konungsbrèfi, dagsettu 25. maí 1722, en losaðist við hvorttveggja 1734. Þingeyraklaustur var honum veitt eptir móður sína 1731, en missti það 1737 fyrir skuldir. Var hann þá örsnauður orðinn vegna hófleysu sinnar, og ofsi hans gjörði hann óvinsælan; en þá er amtmaður Fuhrmann kom inn, gjörðist Jóhann bæði hans og landfógeta Wulfs mesti vinur, og hèlzt það um hríð: gat því með liðsinni þeirra komizt langt með hvað eina hann um sótti.

Um mál Odds Sigurðssonar og Jóhanns er getið við báða þá í Snæfellsnessýslu, samt drepið á, að Jóhann strandaði á líku skeri og Oddur, þótt konungur gæfi þeim báðum æruna aptur. Örsnauður flutti Jóhann í Grunnasundsnes til Sigríðar Salómonsdóttur vinkonu sinnar, og dó þar 1754, rèttara 1755 (J. Ó.).

## Þórður Björnsson.

Sjá Strandasýslu. Árið 1715 11. maí að Torfustöðum í Miðfirði lætur lögsagnari Þórður Björnsson dóm ganga um fjármuni Magnúsar Sigurðssonar á Skeggjastöðum, er 18. febrúar hafði skorið sig á háls með ljá til dauðs, og dæmdi Þórður fè hans konungi, en meðan barn Magnúsar væri í ómegð, skyldi það fullan forlagseyri uppbera eptir rèttarbót Magnúsar konungs (um sumarið 1715 tók Jóhann við sýslunni, er þó Þórður talinn lögsagnari 1716 sjá Eptirmæli 18. aldar, bls. 686).

### Grímur Grímsson.

*Faðir:* Grímur fálkafangari, er fyrst bjó í Brokey, síðan á Dagverðarnesi á Skarðsströnd; hann var efnamaður í fyrstu, en gekk af honum eptir það, að hann fór úr Brokey; Grímur var Jónsson Össurarsonar lögsagnara um tíma í Barðarstrandarsýslu.

*Móðir:* Margrèt, dóttir Jóns í Brokey Pèturssonar

*Kona:* Málmfríður dóttir síra Jóns Þorvaldarsonar[1], þau giptust 1730.

*Börn:* A. Jón gartner og konungsjarða forpaktari átti Guðrúnu Björnsdóttur[2] þeirra börn:

1. Björn[3].
2. Jón Laxdal[4].
3. Björg.
4. Grímur[5].
5. Þorvaldur[6] átti Guðrúnu Árnadóttur; börn:

---

1) á Miklabæ; Málmfríður var systir Halldóru, konu Árna í Bólstaðarhlíð Þorsteinssonar, sjá hèr að framan.

2) Björn var sonur Benidikts lögmanns Þorsteinssonar, sjá Þingeyjarþing, bls. 118.

3) Björn sigldi, kom eigi inn aptur.

4) Jón Laxdal, borgari í Reykjavík, giptist þar og sigldi.

5) Grímur var og borgari í Reykjavík, átti Ragnheiði Jónsdóttur snikkara á Lágafelli Jóhannssonar; Jón var bróðir síra Kristjáns í Stafholti. Launson Gríms með Guðrúnu Pètursdóttur Ólafssonar, var

Grímur Laxdal, bókbindari á Akureyri, átti Hlaðgerði Þórðardóttur Þorlákssonar Þórðarsonar Brynjólfssonar sýslumanns á Hlíðarenda, Þórðarsonar biskups. Eitt af börnum þeirra er

Eggert Laxdal, verzlunarstjóri á Akureyri, á Rannveigu Hallgrímsdóttur Tómassonar á Steinstöðum Ásmundssonar frá Silfrastöðum; kona Tómasar og móðir Hallgríms, var Rannveig systir Jónasar skálds Hallgrímssonar.

5) Þorvaldur var tvígiptur, hèt fyrri kona hans Guðrún Jónsdóttir, og móðir hennar Guðrún Árnadóttir, systir Þorbergs á

α. Stefán.

β. Stefán annar.

B. Síra Jón, fyrst biskupaþènari, svo prestur í Görðum á Akranesi, átti Kristínu Eiríksdóttur úr Rangárþingi; þeirra börn:

1. Grímur amtmaður nyrðra, giptur danskri konu, eiga börn[1].
2. Ingibjörg, gipt gullsmið og ökónómus Þorgrími[2] Thomsen á Bessastöðum.

C. Ingibjörg átti Jón Jónsson á Mýri í Kelduhverfi; þeirra börn:

1. Davíð[3].

---

Fjósum; svo átti hann Grðrúnu Einarsdóttur. Þorvaldur bjó á Gauksmýri; þar komst hann með fleirum í mál nokkurt, er kallað var beinamál, en var dæmdur sýkn fyrir hæstarètti.

1) Eitt af börnum Gríms amtmanns er

Þóra, seinni kona Páls málsfærslumanns við yfirdóminn Pálssonar Melsteðs; barnlaus. Hin önnur börn amtmanns Gríms staðnæmdust í Danmörku.

2) Faðir Þorgríms gullsmiðs var Tómas gullsmiður í Ráðagerði, Tómasson, sjá Tímarit mitt, 4. b., bls. 8—9. Börn Þorgríms og Ingibjargar

a. Dr. Grímur á Bessastöðum; hans kona Jakobína, dóttir síra Jóns Þorsteinssonar í Reykjahlíð.

b. Kristín, kona síra Markúsar í Odda, sonar Jóns lektors í Lambhúsum.

c. Guðrún, kona síra Ásmundar, bróður síra Markúsar.

3) Davíð á Hofi í Öræfum, kallaður Mála-Davíð, mjög greindur og skýr; hans fyrri kona Ólöf Þorvarðardóttir, er fyr hafði átt Steingrím Halldórsson á Hnappavöllum, og var þeirra son síra Jón Steingrímsson í Hruna, en börn hennar og Davíðs voru

a. Halldór, mikill gáfumaður og nettmenni, átti Þórunni dóttur síra Bergs á Þykkvabæjarklaustri.

b. Símon dumbi, góður skrifari, og sèrlega hraustur, giptist

2. Málmfríður[1].

D. Málmfríður.
E. Ástríður. } barnlausar.
F. Guðrún.

G. Halldóra fyrri kona Jóns[2] forpaktara Ketilssonar; börn:

1. Guðrún átti Samúel Richter beiki, og börn.
2. Ketill Melsteð[3] major, utanlands, átti Magðalenu og börn.
3. Jón útlærður, dó barnlaus.

H. Kristín átti síra Ara Guðlaugsson; börn.

1. Jón[4].
2. Halldóra.

Grímur giptist, sem áður er sagt, 1730, og bjó á Litlu-Giljá[5]. Þegar Jóhann Gottrúp hafði Snæfellsnessýslu og Stapaumboð með Húnavatnssýslu, fannst honum erfitt að gegna embættisverkum í báðum þeim sýslum; tók því Grím, sem haldinn var skýr maður, fyrir lögsagnara sinn í Húnavatnssýslu 1727; var Grímur lengi lögsagnari þar eptir við og við í tèðri sýslu, en misjafnt var hann heppinn í dómum sínum, og nefni eg hèr fáeina þeirra:

1744 dæmdi Grímur Bjarna sýslumann Halldórsson í 65 rd. sekt fyrir ólöglega útpöntun úr búi Gottrúps. Þann dóm

---

og átti börn; seinni kona Mála-Davíðs hèt Ingibjörg Jónsdóttur, og var úr Hornafirði.

1) Málmfríður fyrsta kona Ásmundar Jörginssonar.
Enn var systir Davíðs
3. Margrèt átti Pètur Jónsson á Hvítanesi.

2) Jón var bróðir Magnúsar sýslumanns Ketilssonar, hann bjó á Melum og í Kiðey.

3) Ketill maiór fèll í orustu á Anholt.

4) Jón Arason var prestur í Vestmannaeyjum.
Enn var dóttir Gríms á Giljá.
I. Guðrún átti Þorfinn í Seli Þorbjarnarson.

5) Grímur bjó á Stóru-Giljá.

átaldi Bjarni fyrir lögþingisrètti; var dómur Gríms dæmdur ógildur og Bjarna sýslumanní 4 rd. frá Gottrúp í bætur.

Dómur Gríms yfir arbitrerdómi Bjarna sýslumanns (hvar í Grímur dæmdi Bjarna í 120 rd. bætur og 50 rd í málskostnað) var og dæmdur ógildur; en fyrir það, að Bjarni sýslumaður hafði mót lögum skilið hèraðs útlegð á Gottrúp, skyldi hann lúka Gottrúp 4 hndr. og til konungs 10 rd., en Grímur 8 rd. fyrir sinn vitlausa dóm.

1743, 15. júní, dæmdi Grímur um skilmála Bjarna sýslumanns og Jóhanns Gottrúps Lögmaður ónýtti þann dóm, og skyldi Grímur gjalda 6 rd., en Gottrúp 4 rd. Bjarna, en illyrði Gottrúps til Bjarna skyldu löglega rannsakast.

Enn nú ónýtti lögmaður fjörða dóm Gríms sama ár og dag millum þeirra Gottrúps og Bjarna um þeirra millumverandi reikninga.

1744, 5. marz, lèt Grímur dóm ganga millum Gottrúps og Bjarna, út af illyrðum Gottrúps til Bjarna, og dæmdi Bjarna 8 rd frá Gottrúp, 3 rd. til konungs og 20 álnir í málskostnað. Bjarni skaut dóminum undir lögmann Svein, sem dæmdi Gottrúp lygara og fjölmælismann, borga konungi 4 merkur og sýslumanni Bjarna 8 merkur, þar Gottrúp eigi gat sannað orð sín.

Þegar Bjarna sýslumanni var vikið frá embætti 1743 út af kýrmálinu, var Grímur settur það ár sýslumaður í Húnavatnsþingi til 1746, er Bjarni kom aptur til embættisins. 1742 var Grímur settur dómari í Skagafirði og 1755 í Húnavatnsþingi um laxveiðina í Laxá.

Af áðursögðu má sjá, að Grímur hefir ekki verið heppinn dómari, þar sem hann ekki gat notað Jónsbókina, en amtmaður Müller hafði innleitt norsku lög í öllu sem hann gat; voru því dómendur lengi í vök, hvar eptir þeir skyldu dæma í málum þeim, er fyrir komu.

1761 og 1762 var mál á millum síra Björns á Hjaltabakka og Þingeyraklausturs um laxveiði í Laxá; dæmdi Grímur veiðina klaustrinu og í yfirrètti var dómur sá staðfestur 1762. Prestur reiddist Grími fyrir dóminn og óskaði, að hann sæi aldrei betur, en vegna þess að Grímur missti nokkru þar eptir sjón sina, töldu hjátrúararfullir menn, að ósk prests hefði

hrifið á hann. Af bændamönnum var Grímur vel að sèr í mörgu.

### Bjarni Halldórsson.

*Faðir:* Halldór prestur á Húsafelli Árnason Eiríkssonar prests Ketilssonar[1].

*Móðir:* Halldóra, dóttir Illuga prests Jónssonar.

*Kona:* Hólmfríður, dóttir Páls lögmanns Vídalíns.

*Börn:* A. Halldór lærði í skóla, eigi skarpur, ritari góður, var einn vetur utanlands, giptist svo Ragnheiði dóttur Einars á Söndum i Miðfirði Nikulássonar sýslumanns og klausturhaldara á Reynistað, sjá Hegranesþing[2]. Halldór fór fyrst að búa á Bjargi í Miðfirði, en fèkk svo um 1768 Reynistaðarklaustur, því hann bauðst til að upprètta þar kúgildi þau, er fallið höfðu, en gekk þó og Ragnheiður kona hans ríkt eptir við erfingja frúr Þóru; Halldór flutti sig svo að Reynistað og bjó þar meðan hann lifði. Börn hans og Ragnheiðar voru:

1. Bjarni,
2. Einar, urðu báðir úti á fjöllum.
3. Páll dó ungur.
4. Hólmfríður átti Árna kaupmann Jónsson, börn:
   a. Síra Halldór[3].
   b. Jón.

---

1) Að rekja þannig, er án efa með öllu rètt; síra Ketill var prestur á Kálfafelli í Hornafirði, og son síra Ólafs sálmaskálds í Vallanesi Guðmundssonar. Kona síra Ketils var Anna, dóttir síra Einars í Eydölum Sigurðsonar; son þeirra síra Ketils og Önnu var síra Eiríkur í Vallanesi, hans kona Kristín, dóttir síra Þorsteins á Svalbarði Jónssonar, þeirra son Árni, hann átti Guðnýju, laundóttur Björns á Búlandi Eiríkssonar; þeirra son síra Halldór, faðir Björns sýslumanns

2) Sjá bls. 199.

3) Síra Halldór átti Ragnheiði, dóttur síra Sigurðar á Hálsi, sjá hèr síðar

c. Guðrún[1].
5. Björg átti síra Sigurð á Hálsi í Fnjóskadal Árnason bónda í Sigluvík Hallgrímssonar; þeirra börn:
a. Halldór[2].
b. Guðríður[3].
c. Sigurbjörg[4].
d. Ragnheiður[5].
6. Anna átti síra Stefán Einarsson á Sauðanesi Árnasonar, þeirra börn:
a. Einar[6].
b. Sigríður.

---

1) Guðrún átti Óla Sandholt, son Egils Sandholts í Reykjavík og Aniku grænlenzku; þeirra börn:
a. Árni Sandholt kaupmaður, átti Mettu, dóttur Guðmundar kaupmanns við Búðir og Steinunnar.
b. Bjarni Sandholt kaupmaður, átti dóttur Andrèsar kaupmanns Hemmerts.
c. Ása, kona Hans Clausens kaupmanns; þeir höfðu allir verzlun á Vesturlandinu, en fluttu sig síðan til Kaupmannahafnar og settust þar að.

Enn voru börn Guðrúnar og Óla:
d. Sigríður, átti Pètur Guðmundsson, bróður Mettu, konu Árna; hann var seinast verzlunarstjóri á Ísafirði og drukknaði þar.
e. Ingibjörg átti Sigfús sýslumann Skúlason, sjá Þingeyjarþing. bls. 131 og 133.
f. Hólmfríður.

2) Halldór Sigurðsson, útskrifaður af Geir biskupi, bjó austur í Loðmundarfirði, var fyrri maður Hildar Eiríksdóttur, systur Magnúsar Eirikssonar kandídats.

3) Guðríður átti Þorstein sterka, son Guðmundar sýslumanns Pèturssonar.

4) Sigurbjörg átti Halldór Kristjánsson á Hallgilsstöðum, bróður Kristjáns amtmanns,

5) Ragnheiður átti síra Halldór Árnason, sjá hèr að framan.

6) Einar útskrifaður úr heimaskóla, umboðsmaður yfir Reyni-

c. Kristín.

7. Benidikt á Víðimýri átti Katrínu, dóttur Jóns biskups Teitssonar, þeirra börn:

a. Björg á síra Jón Eiríksson á Undirfelli.

b. Ragnheiður á Einar á Reynistað, son síra Stefáns á Sauðanesi.

8. Elín átti síra Pál son Erlendar klausturhaldara á Múnkaþverá Hjálmarssonar; barn: Ragnheiður átti Jóhann Skram.

9. Oddur laungetinn, sýslumaður í Barðastrandarsýslu, sjá þar um hann[1].

B. Ástríður Bjarnadóttir átti fyrst launbarn með Erlendi, það dó; síðan giptist hún Halldóri sýslumanni Jakobssyni, sjá Strandasýslu, þeirra dóttir Guðrún, giptist 1782 síra Einari á Grenjaðarstað Bjarnasyni; hún dó 1783.

C. Þorbjörg, átti Jón vísilögmann, son Ólafs lögsagnara á Eyri í Seyðisfirði, þeirra dóttir Hólmfríður átti síra Friðrik á Breiðabólstað í Vesturhópi Þórarinsson, þeirra börn.

a. Bjarni stúdent á Bæ í Hrútafirði[2].

b. Jón stúdent í Víðidalstungu[3].

---

staðarklaustri, keypti Reynistað, átti Ragnheiði Benidiktsdóttur, er hèr getur síðar; alsystur Einars voru:

α. Margrèt átti síra Jón Guðmundsson á Skeggjastöðum.

β. Margrèt önnur átti son með Þórði yfirdómsstjóra Jónassyni, er var síra Þórður í Reykholti.

γ. Ragnheiður.

1) Enn var dóttir Halldórs og Ragnheiðar: Sigríður, seinni kona síra Magnúsar Magnússonar í Glaumbæ.

2) Bjarni stúdent bjó fyrst í Bæ í Hrútafirði, svo Stórósi í Miðfirði; hann átti fyr Önnu, dóttur Jóns sýslumanns Jónssonar í Bæ, svo Helgu Arnbjörnsdóttur.

3) Jón í Víðidalstungu átti Kristínu Jónsdóttur frá Gilsbakka, sjá hèr að framan; þeirra börn:

α. Páll Vídalín stúdent í Víðidalstungu átti Elinborgu Friðriksdóttur úr Akureyjum.

c. Þorbjörg[1].
d. Elín[2].
e. Sigríður[3].
f. Ragnheiður[4].

D. Páll[5] sigldi stúdent, iðkaði sig við Kaupmannahafnarháskóla, síðan í Leipzig og Jena, hvar hann dó, orðlagður fyrir lærdóm.

E. Jón varð nærri 20 ára, og dó af skyrbjúgi.

Fleiri voru börn þeirra Bjarna og Hólmfríðar, en þau dóu mjög ung.

Bjarni Halldórsson er borinn 5. september 1701, útskrifaður úr Skálholtsskóla af Erlendi skólameistara Magnússyni 1721, sigldi sama ár og tók embættispróf í guðfræði með annari einkunn (haud illaudabilis), kom út 1722, og var sama ár kallaður af Jóni biskupi Árnasyni til skólameistara í Skálholti, og þjónaði hann því embætti í 5 ár. Páll lögmaður Vídalín átti á lífi eina dóttur, er hann unni mjög; hafði Páll snemma látið kenna henni mjög vel handyrðir, og haldið henni til frama; lèt Páll hana sauma í beltisband[6] vísu þessa: «Níu vetra nú í vor, næmust á íþróttir, hefur saumað hvert eitt spor, Hólmfríður Pálsdóttir». Þessari dóttur sinni kom Páll í Skálholt til

---

β. Ragnheiður átti síra Jón Sigurðsson á Breiðabólsstað í Vesturhópi.

1) Þorbjörg dó ógipt, barnlaus.

2) Elin sömuleiðis.

3) Sigríður átti Árna Björnsson Þórarinssonar.

4) Ragnheiður átti Davíð Davíðsson frá Spákonufelli, bjuggu í Dæli.

Enn var dóttir síra Friðriks og Hólmfríðar:

g. Þórunn átti Jón Guðmundsson frá Hörgshóli.

5) Páll orkti latínskt kvæði. Hann ferðaðist til Þjóðverjalands, var þar á ýmsum háskólum, dó í Leipzig, var sagt, að hann eigi hefði fengið mikinn styrk frá föður sínum. Eptir honum var haft þetta: «non modo longe a patria, verum etiam longe á Dania litterarum causa profectus sum».

6) Eg hef heyrt að það hafi verið ábreiða, er hún saumaði út, og þar í lèt Páll hana sauma vísuna.

enn meiri frömunar, og var hún þar ekki lítil yfirlætisstúlka 1726, þá er Bjarni var þar skólameistari; bar opt saman fundum þeirra. Svo bar við, að lögmaður Vídalín krenktist á alþingi 1727; en er sóttin elnaði á honum, gjörði hann boð eptir dóttur sinni, og vildi tala við hana, áður en hann lètist; en er hún kom til hans og hann leit hana, mælti hann, «hvernig ertu? guð hjálpi mèr», talaði ekkert fremur við hana, snèri sèr upp frá henni, og andaðist skömmu eptir. Er meining manna, að hann hafi sèð, að hún væri með barni og hafi honum dauðsjúkum fallið það mjög þungt. Sama sumar 1727 eptir andlát Páls giptist Bjarni Hólmfríði; en þar barnið hjá Hólmfríði kom nálægt þeim tíma, missti Bjarni prestlega verðung.

Þegar Húnavatnssýsla losnaði 1728, festi Bjarni hana, og fèkk fyrir henni veitingarbrèf 1729, mun hann þá hafa búið um hríð í Víðidalstungu. Strax tóku þá að byrja málaferli hans og Jóhanns Gottrúps, því hann klagaði Bjarna fyrir rèttarneitun, rèttarspilli og alla þings- og rèttarforsómun og stefndi honum þar upp á til lögþingis 1729, en lögmenn frávísuðu málinu, þar Gottrúp eigi kæmi með nægar sannanir fyrir því, er hann hafði skuldað Bjarna fyrir.

Sýslumaður Guðmundur Sigurðsson í Snæfellnessýslu beiddist, að Bjarni sýslumaður Halldórsson útpantaði úr búi Jóhanns Gottrúps á Þingeyrum óborgað álag á Arnarstapa umboð 1740; það gjörði Bjarni, en Jóhann átaldi það, sem fyr segir, hvar um dómur Gríms gekk til baka.

1737, þegar Þingeyraklaustur var uppboðið vegna skulda og forsómunar Jóhanns Gottrúps, fèkk Bjarni nefnt klaustur og flutti sig þar eptir að Þingeyrum, hvar hann bjó síðan.

1743 kom Titlingastaða kýrmálið fyrir, er dómari var settur í Skúli Magnússon sýslumaður í Skagafirði, og dæmdi hann í hèraði í því, en þeim dómi var skotið til lögþingisrèttar og var þá Ormur Dalasýslumaður í lögmanns stað; hann dæmdi þá alla Skúla, Bjarna og Gottrúp í bætur 22. júlí 1743.

1743 var Bjarni sýslumaður afsettur embætti af amtmanni Lafrentz, en Grímur aptur settur lögsagnari í Húnavatnsþingi; sigldu þeir þá báðir í málum sínum Bjarni og Gottrúp, og fór þeim margt á milli. Bjarni sýslumaður kom út árið eptir, reið til alþingis, og stefndi amtmanni Lafrentz í gröf sinni til

hæstarèttar með 3 stefnum (því amtmaður hafði verið mótfallinn Bjarna í kýrmálinu); vann Bjarni loks mál sín með miklu ómaki; voru og þeir Bjarni og Skúli sýslumaður jafnan andvígir, og var Skúli um hríð settur í Húnavatnsþingi, en Grímur var þá sem Skúla lögsagnari stundum í Hegranessýslu; stóð um hríð á þessu þrasi.

1744, 23. marz, dæmdi hæstirèttur í máli Bjarna sýslumanns Halldórssonar og Sigmundar Þorvarðssonar, að yfirrèttarins ógrundaða dómi sè fráfallið; Sigmundur borgi sýslumanni í málskostnað 40 rd., en dómendur 50 rd.

Frændstúlka Bjarna sýslumanns hèt Katrín, hún var fèlaus og hafði Bjarni sèð til með henni sem unglingi. Svo bar til, að Hólmfríður kona Bjarna sýslumanns grunaði hana um marglæti við mann sinn; voru og eptir Katrínu höfð þau orð, er gáfu til kynna vinfengi hennar og Bjarna, (og var hún því seinna kölluð Kjapta-Katrín); af þessu teygði Hólmfríður hana með sèr inní fjárhús eitt og lèt þar 2 menn og þernu sína flengja hana þar all óþyrmilega og eigi með góðum atvikum; varð þar af íllt mál, en Bjarni kæfði það eptir mætti, þá er Hólmfríður dó nokkru seinna, eirði þó undan, meðan fært var.

1736 dó Hólmfríður Pálsdóttir í Víðidalstungu af barnsförum, hèt það barn Þorbjörg, er mælt að lítið hafi fallið á með þeim hjónum, því bæði hafa þau verið þrálynd og stórgjörð.

1737 voru málssóknir með þeim Jóhanni Gottrúp, Grími lögsagnara og Bjarna sýslumanni í Húnavatnsþingi útaf flengingarmálinu og margt bar Bjarna fleira til þrætu fyr og síðar.

Bjarni var mjög hèraðsríkur; auðgaðist hann mjög eptir að hann kom að Þingeyrum, bjó hann þannig ekkjumaður og hèlt ráðskonur frá 1736, er kona hans dó; eigi var trútt um, að sá orðrómur legðist á, að ýmsir kvennmenn væru hjákonur Bjarna, og að sýslubúar hans yrðu að láta liggja í því skauti, sem hann vildi; þótti hann eigi alltíð jafnaðargjarn, en það var eigi kotungafæri, að klaga yfir því, því þeir höfðu þekkt sigursæld hans í málum við sèr meiri menn fyrrum.

Bjarni hèlt sig vel og ríkmannlega til fata og matar, gjörðist hann mjög feitur og þungfær með aldrinum. Hann hafði mikla og stöðuga lukku, þó eigi væru ætíð sem bezt hans málefni. Þessi stórgjörði sýslumaður hèlt með heiðri embætti

sínu í 45 ár, og dó á 72. aldursári 1773, á þrettanda dag jóla (Eptirmæli 18. aldar segja 1772).

Bjarni var lengi heilsugóður; rubbungsmenni í vexti og háttum; hann var lærdómsmaður og lögkænn; hann var settur til að vera í lagaverkinu með Jóni vísilögmanni Ólafssyni, dótturmanni sínum. Af fáum sýslubúum var hann syrgður, því flestir óttuðust hann meir, en elskuðu. Höfðingi var hann í sinni tíð, og margt vel um hann.

Í hans sýsluvaldatíð var Grímur á Giljá lögsagnari, sem áður er sagt; en á efri árum sínum tók Bjarni fyrir lögsagnara sinn Arngrím Jónsson 1765 og til þess að hann dó. Árngrímur var og opt þar eptir lögsagnari (sjá hèr síðar).

Í því auðuga búi Bjarna sýslumanns voru erfingjar myndugir; urðu millum þeirra deilur miklar; vildi Halldór og Jón vísilögmaður gjöra Ástríði arflausa fyrir barneign hennar í föðurgarði; gekk það allt slörkulega út, og urðu loks óviðkomandi menn að skera þar úr misklíðum.

Staklegt illviðri af snjóhríð og stormum gekk þá er Bjarni var jarðaður; hafði gröfin verið gjörð of stutt, svo kistunni var steypt á höfðahlutann í hana og komst eigi almennilega öll niður. Að tilhlutan Jóns vísilögmanns var fenginn utanlands frá stór legsteinn, er setja skyldi yfir gröf Bjarna, og kom steinninn inn í Höfðakaupstað, en þá kom erfingjum enn eigi saman um kostnaðinn, og enn síður höfðu þeir dugnað til að koma honum yfir leiðið, þar Jón vísilögmaður dó, er steinninn var nýkominn út, en Halldór fluttist að Reynistað 1768. Var framkvæmdarleysi erfingja að kenna, að steinninn eigi var settur yfir leiðið, og er nú sem stèttarsteinn í Höfðakaupstað.

### Arngrímur Jónsson.

*Faðir:* Jón son Jóns Eiríkssonar á Núpi Jónssonar[1] Egilssonar frá Geitisskarði Jónssonar Einarssonar.

---

1) Jón faðir Arngríms bjó á Brekkulæk, og var son Jóns Eiríkssonar lögsagnara, er áður hefir verið nefndur; Eiríkur, faðir Jóns, bjó á Núpi í Miðfirði, hans faðir var Jón, son Eiríks Egilssonar Jónssonar sýslumanns Einarssonar, sjá hèr að framan.

*Móðir:* Signý Jónsdóttir[1] á Neðri-Torfastöðum Sveinssonar Jónssonar.

*Kona:* Guðrún dóttir Páls lögrèttumanns Markússonar og Halldóru, dóttur síra Páls á Melstað, sjá Strandasýslu.

*Börn:* A. Jónas átti Guðrúnu Magnúsdóttur; þeirra börn:

1. Jón smiður átti Guðrúnu frá Skoreyjum Steinólfsdóttur og mörg börn, bæði í og utan hjónabands (Jónas var listamaður, auðnulítill).
2. Arngrímur lubbadrengur, sigldi og flæktist víða.
3. Jóhann bóndi[2].
4. Sigurður í Bug átti Katrínu Jespersdóttur.

B, Páll lærði í Hólaskóla, sigldi og varð barnaskólakennari utanlands; giptist Arnfríði, vænni bóndadóttur frá Hólum í Hjaltadal; þau barnlaus.

C. Markús átti Þórdísi, dóttur Samsonar og Ingibjargar Halldórsdóttur prests á Breiðabólstað í Vesturhópi Hallssonar; þeirra börn:

1. Páll.
2. Arngrímur.
3. Guðrún.
4. Náttfríður.

D. Guðrún átti launbarn með Eiríki, almúgamanni; það hèt

---

1) Jón faðir Signýjar var Gunnlaugsson, en kona Gunnlaugs og föðurmóðir Signýjar hèt Halldóra og var dóttir Sveins, sonar Jóns rauðbrota, er Rauðbrotaætt er frá.

2) Jóhann á Holtastöðum og var kenndur við þá og kallaður Holtastaða-Jóhann; fyrri kona hans hèt Ingibjörg Magnúsdóttir, þau barnlaus; en seinni kona hans Medonia; hann var mjög greindur maður, en kallaður nokkuð seirður; hann átti nokkur launbörn; eitt þeirra er

Kristján, ríkur bóndi norður á Möðrudalsfjöllum.

Enn voru börn Jóns á Bergstöðum og Guðrúnar:

5. Anna átti fyrst Jón nokkurn, svo Gísla Magnússon á Björgúlfsstöðum, og með þeim báðum börn.
6. Jórunn átti Jón smala Jónsson Halldórssonar Björnssonar prests á Hjaltabakka Þorlákssonar.

Gottskálk[1].

Guðrún veiktist og varð ómagi.

1765 tók Bjarni sýslumaður Halldórsson Arngrím fyrir lögsagnara sinn til þess Bjarni dó 1773. Arngrímur stóð það ár alsendis fyrir sýsluverkum, til þess Magnús Gíslason viðtók. Arngrímur var aptur settur lögsagnari 1779 og optar. Arngrímur var haldinn skýr og lögkænn maður; hann bjó í Víðidal.

## Magnús Gíslason.

*Faðir:* Gísli biskup á Hólum Magnússon prests á Grenjaðarstað Markússonar Geirssonar í Laufási.

*Móðir:* Ingibjörg dóttir Sigurðar lögsagnara frá Geitisskarði Einarssonar, sjá hèr fyr.

*Kona:* Helga, giptist á Hólum 16 vetra 1772, hún var dóttir Halldórs stiptsprófasts Jónssonar prests á Völlum Halldórssonar; hún dó 1783.

*Börn:* 1. Síra Gísli á Tjörn á Vatnsnesi, var áður þènari Sigurðar biskups á Hólum, giptist Guðrúnu dóttur Skúla bóndamanns, hann dó 1810, þeirra börn:

α. Þorbjörg[2].

β. Helga.

γ. Jón dó ungur.

2. Oddur[3] lærði sem bróðir hans í Hólaskóla, giptist síðan í Húnavatnssýslu Guðrúnu, og átti börn; hann var dáinn fyrir 1823.

3. Síra Halldór í Saurbæ á Hvalfjarðarströnd átti Guð-

---

1) Gottskálk þótti ágætur söngmaður, hann átti eitt launbarn.

2) Þorbjörg átti Stein Sigfússon Bergmann, skildu; síðan átti hún Þorgrím á Hjallalandi Þorleifsson.

3) Oddur átti fyr Guðrúnu Jónsdóttur Egilssonar, systur Sigurðar í Krossanesi í Skagafirði, þau barnlaus; svo átti hann Þóru, dóttur Nikulásar Búcks og Karenar, dóttur Björns á Laxamýri Halldórssonar biskups Brynjólfssonar; þeirra son:

Pètur á Torfalæk.

rúnu dóttur síra Arngríms á Melum Jónssonar, þeirrra börn:

a. Síra Jón á Breiðabólstað í Fljótshlíð 1842[1].

b. Síra Arngrímur á Bægisá 1844[2].

4. Ingibjörg átti fyr Jón smið á Auðunnarstöðum í Víðidal Jónsson í Hvammi í Vatnsdal og með honum 2 sonu, er búa giptir á Auðunnarstöðum sem sè:

a. Jónas átti Hólmfríði dóttur Sigurðar sýslumanns Snorrasonar[3].

b. Guðmundur[4] átti Ingibjörgu, dóttur síra Jóhannesar Ólafssonar í Vesturhópshólum.

Síðan giptist Ingibjörg síra Einari á Hjaltabakka þau barnlaus.

5. Páll mun hafa dáið ungur.

---

1) Síra Jón átti Kristínu, dóttur Vígfúsar sýslumanns á Hlíðarenda Þórarinssonar; þeirra börn:

a. Síra Sæmundur prófastur í Hraungerði, á Stefaníu, dóttur síra Siggeirs Pálssonar og Önnu, dóttur síra Ólafs Indriðasonar.

b. Ingibjörg, kona síra Guðmundar Jónssonar á Stóruvöllum.

c. Sigríður, á síra Jakob Benidiktsson á Miklabæ.

d. Anna, seinni kona Egils í Múla Pálssonar.

e. Málmfríður, ógipt, barnlaus.

2) Síra Arngrímur á Bægisá átti fyrst Guðrúnu Magnúsdóttur Beinteinssonar úr Þorlákshöfn, þau skildu; svo Margreti(?) Þorláksdóttur frá Vöglum á Þelamörk Þorlákssonar gamla í Skriðu, og seinast Ingu, ekkju Jóhannesar Jónssonar í Hofstaðaseli, dóttur Jóns Höskuldssonar á Merkigili í Skagafirði.

Enn voru börn síra Halldórs og Guðrúnar:

c. Jón á Búrfelli, stjúpi síra Jóns Björnssonar á Stokkseyri.

d. Magnús var í Reykjavík; báðir barnlausir.

3) Seinni kona Jónasar var Soffía, dóttur Sigfúsar Bergmanns og Guðrúnar Aradóttur frá Mói í Fljótum; þeirra dóttir

Guðrún, kona Björns Jónssonar Jóhannessonar prests í Grímsey.

4) Guðmundur bjó á Refsteinsstöðum.

Magnús lærði skólalærdóm á Hólum, sigldi síðan til meiri lærdómsframa, kom út og var um hríð hjá föður sínum; 1769 var hann settur hèraðsdómari í Hegranessþingi, en 1771 var hann þar settur lögsagnari, þá er Jón sýslumaður Snorrason dó, og til þess að Vigfús sýslumaður Scheving tók við þeirri sýslu 1772; en næsta ár eptir, þegar Bjarni sýslumaður Halldórsson dó, var hann settur sýslumaður í Húnavatnsþingi, og fèkk veitingu konungs fyrir tèðri sýslu 1774, 21 febrúar. Hann giptist, sem áður er sagt, 1772, og gjörði þar eptir bú á Geitisskarði, hvar hann bjó, meðan hann lifði.

Í hallærinu 1783—85 átti hann, sem flestir aðrir, örðugt, og var ekki haldinn mikill búmaður, og ekki var hann auðmaður. Hann þótti nokkuð stoltur í viðmóti og átti opt örðugt í málavastri, þótti ekki heppinn dómari, en var þó ekki illa að sèr; hann dó 1789, fóru þá börn hans til ýmissa, því Helga kona hans dó 1783, 27 ára.

## Björn Jónsson.

*Faðir:* Síra Jón á Auðkúlu, son síra Björns á Hjaltastöðum, Skúlasonar bónda Pèturssonar[1].

*Móðir:* Halldóra, systir Jóns ökónómusar Árnasonar, sjá Hegranesþing.

Björn meina eg að væri skólalærður; hann giptist ekki, en átti laundóttur, sem ekki giptist nè átti afkomendur. Björn gjörðist klausturhaldari hálfs Munkaþverárklausturs 1786; hann var og settur fyrir Þingeyraklaustur í þrjú ár, áður en Oddur Stefánsson tók það. Hann var einnig settur lögsagnari í Húnavatnsþingi, þegar Magnús sýslumaður Gíslason dó, 1789, og til þess, er Ísleifur sýslumaður Einarsson tók það. Björn bjó í Stóradal í Húnavatnssýslu, meðan hann hèlt sýsluna og lengur. Hann var að vexti í lægra lagi meðalmaður, rauðleitur í andliti og við kringluleitur. Björn var auðmaður sæmilegur[2].

---

1) Skúli var Ólafsson.

2) Björn hafði verið um tíma sveinn stiptamtmanns Thodals. Uppeldisdóttir hans, er Rósa hèt, og sem barn missti föður sinn, hafði verið mjög vanrækt og hún höfð til að bera ösku út og vatn inn, og ekkert kennt til munns nè handa; voru eigur hennar látnar ganga samt með henni.

## Ísleifur Einarsson.

*Faðir:* Einar (hann var fyrst heyrari við Skálholtsskóla, svo 1746 skólameistari þar, yfirgaf það embætti sökum augnveiki 1753; hann var 1753—54 settur sýslumaður í Snæfellsnessýslu, en 1754 ráðsmaður í Skálholti og um 1768 var hann settur sýslumaður í Vestmannaeyjum, og dó nálægt 1781). Faðir hans var Jón yngri á Knappavöllum, en móðir Ólöf, dóttir Jóns[1] Jónssonar.

*Móðir:* Kristín Einarsdóttir lögrèttumanns á Suðurreykjum Ísleifssonar[2] Erlendssonar Þorvarðssonar.

*Kona fyrri:* Guðrún dóttir síra Þorláks í Húsavík, hún dó 1800; börn þeirra lifðu eigi.

*Kona seinni:* Sigríður, dóttir Gísla prófasts Þórarinssonar í Odda, giptust 1804

*Börn:* 1. Gisli er við háskólann utanlands[3].
2. Jórunn[4].

Ísleifur var fæddur á Ási í Holtamannahreppi 21. mai 1765, var útskrifaður úr Skálholtsskóla 31. maí 1783, sigldi til háskólans 1786, tók öll reynslupróf með lofi (laudabilis), fèkk Húnavatnsþing 1790, 12. maí; varð annar assessor í landsyfirrèttinum 1800, 11. júlí, og fyrsti 18. júní 1817; etatsráð 28. janúar 1817; jústítíaríus í sama rètti 18. apríl 1834; dó 23. júlí 1836. Fyrsta veturinn, sem hann var sýslumaður í Húnavatnssýslu, dvaldi hann á Þingeyrum, en vorið eptir reisti hann bú á Geitisskarði, keypti síðan þá jörðu og húsaði hana mjög vel og bjó þar meðan hann hèlt sýsluna og gjörðist bezti búmaður.

Þegar breytingin var gjörð á lögþingisrèttinum gamla, og landsyfirrètturinn stofnsettur, var Ísleifur sem fyr sagt, gjörður 1800 assessor í honum, flutti hann sig þá suður til Reykjavík-

---

1) Jón faðir Ólafar var á Núpstað.

2) Ísleifur var Þórðarson Erlendssonar, o. s. frv.

3) Síra Gísli prestur í Kálfholti átti Sigríði Guðmundsdóttur; þeirra son síra Ísleifur á Arnarbæli á Karítas Markúsdóttur prests frá Odda Jónssonar.

4) Jórunn, fyrri kona málsfærslumanns við yfirdóminn Páls Pálssonar Melsteðs.

ur og byggði sèr þar væna timburstofu, hvar hann bjó um hríð. Áður en hann skildi við Húnavatnsþing, missti hann þar konu sína og börn; og seldi hann þá eignar- og ábýlisjörðu sína Geitisskarð. Þegar hann var orðinn assessor, fèkk hann sinnar seinni konu. Þess er að geta, að honum þótti svakksamt í Reykjavík, og fèll hann upp á, að kaupa sèr lítið kot á Álptanesi, sem nefndist Brekka; var það kostalaust og fèkkst þar að eins gras fyrir tvær kýr; þar byggði hann sèr snotran bæ og tvö lítil timburhús, slèttaði allt túnið með mikilli fyrirhöfn, umgirti það allt og byggði þar háleigu (eitt kýrgras), og fær nú af því 6 kúafóður. Fyrir utan hans miklu frámsýni og framkvæmd í búnaðarháttum telst hann með hinum beztu lögvitringum á landinu. Sumir telja hann stífan í lund og harðan í dómum, einkum meðan hann var sýslumaður, en það ber til, að hann er fastur í skapi.

Svo bar til í stríðstíðinni, að hingað til lands komu enskir menn, var helzt einn til að taka, er gjörði sig nærfellt sem konung, afsetti embættismenn og vildi ráða fyrir allri landstjórn. Sumum sýndist þetta undarlegt og var hik á flestum, en assessor Ísleifur vildi (að sögn) fanga fyrirmann þessa fyrirtækis, en sá fèkk njósn þar um, fangaði Ísleif og setti hann í húsfangelsi. Á skömmu bragði varð eytt þessum óaldarflokki og allt komst í sama lag og áður. Konungur sæmdi þá assessor Ísleif fyrir þenna dugnað sinn fyrst með jústitsráðsnafnbót og síðan var hann sæmdur með etatsráðsnafnbót.

1804, í júní, þegar amtmaður Stefán Þórarinsson tók að sèr yfirsjón stiptamtsmanns og amtmanns verka í suðuramtinu, setti hann þar fyrir assessor Ísleif sem að miklu leyti fullmektugan sinn, þangað til greifi Trampe tók við stiptamtmanns og amtmannsembættunum 1806.

1807, þegar stiptamtmaður Trampe fór utan, gaf hann assessor Ísleifi fullmagt að stjórna embættum sínum, hèlt hann því umboði þangað til 1809 að Trampe kom út með rífkuðum myndugleika. Þegar greifinn var hèr sama ár fangaður, laus látinn og farinn til Englands útgaf hann frá Lundúnum 29. martz 1810 commissorium til amtmanns Stefáns Þórarinssonar, assessors Ísleifs Einarssonar og landfógeta Frýðensbergs, að stjórna stipts- og suðuramtinu. Ísleifur fèkk þá jústitsráðs nafnbótina. 1811 bættist amtmaður Castenskjold við kommiss-

ionina, sem hèlzt til 1813. 1815, 20. maí, setti rentukammerið á ný Ísleif assessor fyrir stipts- og amtmannsverk Castenskjolds, til þess hann 12. maí 1816 sjálfur kom út og tók við embætti sínu.

### W. F. Krog.

Danskur maður í báðar ættir; fèkk veitingu fyrir Húnavatnsþingi 1800, þegar Ísleifur varð assessor; hann tók við Húnavatnssýslu 1801 og hafði aðsetur sitt á Skagastrandarkaupstað, meðan hann dvaldi hèr í landi og hèlt sýsluna; fóru litlar sögur af honum bæði við embættisverk og framferði. Hann fèkk sèr veitt fógetaembætti í Noregi 17. apríl 1803, yfirgaf því sýsluna og fór utan til Noregs til embættis síns þar 1805; hann varð fógeti í Jaðars og Dala fógetadæmi.

### Sigurður Snorrason.

*Faðir*: Snorri á Hjaltastöðum í Skagafirði, prestur til Flugumýrarþinga, sonur síra Björns í Stærrárskógi Jónssonar[1], góðs bónda, er varð á skipreika og dó 1730, Björnssonar.

*Móðir*: Steinunn, dóttir Sigurðar bónda Sigurðssonar á Geitisskarði, sjá að framan, Einarssonar biskups Þorsteinssonar.

*Kona fyrri*: Guðrún, dóttir Þorsteins á Laxamýri Benidiktssonar lögmanns Þorsteinssonar sýslumanns, sjá hèr að framan og Þingeyjarþing.

*Börn*: 1. Hólmfríður dó 1829, giptist Jónasi á Auðunnarstöðum, syni Jóns smiðs og Ingibjargar, dóttur Magnúsar sýslumanns Gíslasonar, sjá hèr að framan; þau áttu 2 pilta[2].

*Kona seinni*: Ingibjörg, dóttir síra Björns í Bólstaðarhlíð Jónssonar ökónómusar Árnasonar, sjá að framan.

---

1) Jón faðir síra Björns er nefndur Jónsson; hann hrakti úr Grímsey 1730 upp á Skaga, mætti þar guðlausri meðferð, er leiddi hann til bana.

2) Þeirra son er Sigurður Lárentius, kand. philos., í Kaupmannahöfn.

*Börn:* 2. Björn[1].
3. Guðrún[2].
Ingibjörg giptist þar eptir Benidikt stúdent, syni síra Jónasar prófasts á Höskuldsstöðum Benidiktssonar; bjuggu þau á Stórugiljá til þess að Benidikt varð prestur á Melum.

Sigurður Snorrason lærði í Hólaskóla og útskrifaðist þaðan 1788[3], var síðan um hríð hjá föður sínum til þess er hann fór fyrir þènara og skrifara til konferentsráðs, riddara, amtmanns Stefáns Þórarinssonar; var hann hjá honum nokkur ár, og til þess að hann fór utan til meiri lærdómsframa; dvaldi hann við lagavísinda iðkan í Kaupmannahöfn nálægt tvö ár og tók reynslupróf í danskri lögfræði með heppni, kom svo út og gjörðist að nokkru leyti fullmektugur amtmanns Stefáns Þórarinssonar, og var á Möðruvöllum hjá honum; hann gjörðist og lögsagnari Jóns sýslumanns Jakobssonar í Vaðlaþingi, eptir Gunnlaug Briem og Ebeneser Þorsteinsson.

Þegar Krog, sýslumaður í Húnavatnsþingi, yfirgaf þá sýslu 1805, setti amtmaður Sigurð þar sýslumann og fèkk hann veitingu konungs fyrir henni 1806, 17. apríl, var þó enn á Möðruvöllum og þjónaði 1805—6 bæði Vaðla- og Húnavatnsþingi, þar til að Gunnlaugur sýslumaður Briem kom til Vaðlasýslu.

1807 flutti Sigurður sig til Húnavatnssýslu algjörlega, giptist sinni fyrri konu og tók sèr bústað á Stórugiljá, hvar hann bjó, meðan hann lifði og þar missti hann fyrri konu sína; síðan giptist hann sinni seinni konu Ingibjörgu, sem var uppfóstruð á Svínavatni af Madm. Ingibjörgu, er þar bjó.

Sigurður sýslumaður dó á Giljá 1813. Hann var meðal-

---

1) Björn bjó í Belgsholti, átti Ingibjörgu, dóttur síra Þorvaldar Böðvarssonar; þeirra börn:
a. Síra Þorvaldur á Melstað á Sigríði, dóttur Jónasar Benidiktssonar prests á Melum og Þuríðar Þorvaldsdóttur Böðvarssonar.
b. Ólafur jarðyrkjumaður.
c. Sigurbjörg.

2) Guðrún átti síra Jón Bjarnason á Tjörn í Svarfaðardal.

3) rèttara 1789.

maður á hæð í grannvaxnara lagi, allfríður sýnum, nettmenni, bezti ritari og ritaði mörg lærdómskver fyrir skólapilta. Hann hafði liprar og góðar gáfur, liðuga skapsmuni, laglegur í öllum embættisverkum og vel látinn af flestum.

## Björn Ólafsson.

*Faðir:* Ólafur, sem átti Vindhæli á Skagaströnd og bjó þar, efnabóndi; hans faðir var Guðmundur, er lengi bjó á Árbakka á Skagaströnd, hans faðir Magnús, sem átti Margrèti dóttur síra Bjarna í Vesturhópshólum, hann bjó og á Árbakka, hans faðir Hallur og svo bóndi á Árbakka, var ættaður úr Skagafirði, allt bændafólk.

*Móðir:* Guðrún, dóttir Guðmundar bóndamanns, er bjó í Höfnum á Skaga Björnssonar[1], allt bænda- og almúgafólk upp eptir að telja.

*Kona:* Guðrún dóttir Runólfs bónda í Sandgerði og Margrètar Guðnadóttur sýslumanns Sigurðssonar. Faðir Runólfs í Sandgerði var Runólfur Sigurðsson, bróðir Guðna sýslumanns; Runólfur Sigurðsson átti Þórunni Kortsdóttur frá Kirkjubóli Sigurður faðir Runólfs var bóndi á Stafnesi og Runólfsson, en kona Sigurðar var Margrèt Andresdóttir. Runólfur, faðir Sigurðar, var Sveinsson og bjó á Stafnesi, hann átti Guðrúnu, dóttur Sigurðar í Sandgerði Gíslasonar prófasts í Grindavík, Bjarnasonar prests Gíslasonar sýslumanns í Miðfelli Sveinssonar, sjá Árnessýslu.

*Börn:* 1. Guðrún gipt Jóni stúdent syni Jóns prófasts á Auðkúlu Jónssonar biskups Teitssonar, þau eiga börn:

2. Runólfur Magnús, sjá hèr síðar.

3. Anna Margrèt átti Jósep lækni Skaptason.

(Áður átti Guðrún Runólfsdóttir Einar Hjaltesteð, factor á Akureyri, hann drukknaði á útsiglingu, voru börn þeirra:

---

1) Björn var Sveinsson og bjó í Valdarási; hann var bróðir Þuríðar, konu síra Halldórs Hallssonar á Breiðabólstað.

a. Pètur á Helgavatni í Vatnsdal, á Guðríði, dóttir síra Magnúsar í Steinnesi Árnasonar biskups Þórarinssonar.

b. Ólafur Hjaltesteð, stúdent, góðmenni[1]).

Björn Ólafsson var fæddur 1766 og ólst upp á Vindhæli hjá föður sínum og stundaði bóndalifnað, lærði þó að skrifa og reikna, gjörðist hann á unga aldri formaður hjá föður sínum og var hinn mesti aflamaður.

Þá fèll svo til, að Þórður Helgason, er á fátæki var uppalinn hjá Stiesen kaupmanni á Skagaströnd nokkur ár og sigldi síðan, komst í góðan kunningsskap hjá jústitsráði Frisch í Kaupmannahöfn, svo Frisch fèkk honum fyrst vörur til að fara með í kaupferð til Íslands og gjörði út skipið þar til; var fyrst svo, að Þórður verzlaði svo Frisch líkaði og lèt gjöra fasta verzlun á Eyjafirði og byggja þar verzlunarhús, en þegar Þórður verzlaði á Skagaströnd, gjörðist góð vinátta millum hans og Vindhælisfólks, svo Björn sigldi fyrst með Þórði og tók svo Þórður hann fyrir assistent, en systur Björns Oddnýju fyrir ráðskonu, og átti hana síðan; með henni átti hann tvær dætur sem lifa; er önnur þeirra Guðrún, gipt Birni sýslumanni Blöndal, hin giptist Pètri Pèturssyni, hreppstjóra í Miðhópi í Húnavatnssýslu. Þórður var maður skarpvitur, fljótráður og framkvæmdarsamur, yfirlætis- og eyðslumaður mikill, þegar hann hafði fè undir höndum. Svo jústitsráði Frisch væri dulin eyðsla hans, greip Þórður til ýmissa óleyfilegra meðala í reikningum sínum, sem hann af lagði fyrir honum. Loks fèkk Frisch einhvern pata af, að eigi mundi allt sem rèttast og boðaði því Þórð utan; en hann trúði illa friðnum og strauk af skipsfjöl við Svíaríki; mælt er að hann þar eptir hafi fengið lítið skip til forráða, komið til Norðurlands og boðið Oddnýju konu sinni með sèr út, en að hún hafi eigi viljað fara svo gott sem í útlegð.

Þegar Þórður gaf frá sèr verzlunina, sem áður er sagt, var

1) Síra Ólafur varð prestur í Saurbæ á Hvalfjarðarströnd; hann var afbragðs góður skrifari; hann giptist ekki nè átti börn.

Björn við hana sem faktor, og varð að gjöra Frisch skil á því, er hann undir höndum hafði af fè hans; gekk það margvíslega, sem hèr er of langt upp að telja.

Um þessar mundir, 1802, fórst og skip það, er Einar faktor Hjaltesteð fór með. Björn tók þá þátt í þeirri verzlun og giptist ekkjunni 1805, varð og að fara utan til að fullgjöra reikninga sína, sem faktor við tèða verzlun. Alls fór hann utan þrisvar, og stóð fyrir verzlun á þriðja ár.

Þegar þetta var afstaðið, var Björn settur fyrir Þingeyraklaustur 1807, og skyldi hann halda það upp á reikning. Orðasveimur var, að Björn mundi ekki hafa tapað við burtvikningu Þórðar, og kona hans mundi líka hafa verið efnagóð, og var honum því, sem auðugum dugnaðarmanni, er skila var von af, trúað fyrir klaustrinu og tekjum þess. 1807 flutti Björn sig að Þingeyrum.

Þegar í yfirgangstíð Jörundar öllu var eytt úr jarðabókarsjóðunum, var leitað láns til landsins þarfa hjá Birni, sem mesta auðmanni, hvað hann og veitti ríkulega, sem þurfti í bráð.

1811 fèkk hann til kaups heimagarðinn Þingeyra ásamt Hnausum, (Þingeyrar voru illa í standi að húsum og fleiru, þá er Björn tók við þeim); hefir hann húsað þar vel síðan og gjört marga umbót.

1813, þegar Sigurður sýslumaður Snorrason dó, var Björn settur lögsagnari í Húnavatnsþingi, til þess Jón sýslumaður Jónsson viðtók 1815.

Það er almæli um Björn, að hann sè mesti lánsauðs- og dugnaðarmaður, og í öllum hlutum framsýnn, umsjónarsamur og aðgætinn, slái engin vindhögg við fjárafla, sè fastur og glöggur í reikningum, harður í tekjum, sèður og drottnunargjarn, en valinn maður í mörgu. Guðrún kona hans tjáist mesta gæzku- og góðgjörðakvendi, örlát og hugul. Björn er stór maður vexti og þrekinn, eigi fríður í andliti nè góðmannlegur, en karlmannlegur er hann og harðlegur. Kona hans er bæði fríð og góðmannleg.

1843 dó kona Björns, Guðrún Runólfsdóttir, áður lengi örþjáð af krankleik, sárt söknuð af mörgum, nafnfræg fyrir góðgjörðir.

### Jón Jónsson.

Sjá um hann við Strandasýslu. Hann var settur í Strandasýslu 1788, fèkk veitingu fyrir henni 1794, sleppti henni 1815 og tók þá Húnavatnssýslu, sleppti henni 1820. Hann var settur í Ísafjarðarsýslu 1790; dó 1831. Veitingarbrèf hans fyrir Húnavatnssýslu er dagsett 23. júlí 1814.

### Björn Auðunsson Blöndal.

*Faðir:* Síra Auðunn í Blöndudalshólum, sonur síra Jóns á Bergstöðum Auðunssonar bónda í Borgarfirði Jónssonar.

*Móðir:* Halldóra, dóttir síra Jóns á Auðkúlu Björnssonar prests á Hjaltastöðum, Skúlasonar[1] lögrèttumanns á Seilu í Skagafirði, Pèturssonar bónda Skúlasonar.

*Kona:* Guðrún, dóttir Þórðar faktors Helgasonar; þau giptust 1821.

*Börn:*
1. Björn Lúðvíg[2].
2. Jón Auðunn[3].
3. Benidikt Gísli[4].
4. Sigríður Oddný[5].
5. Bjarni Magnús[6].

---

1) Skúli á Seilu, faðir síra Björns, föður síra Jóns, var Ólafsson, Bergþórssonar, Sæmundssonar prests í Glaumbæ, Kárssonar.

2) Lúðvík átti Karínu Jónsdóttur, hálfsystur Soffíu, ekkju Þórðar yfirdómsstjóra Jónassonar.

3) Jón var fyrst prestur á Hofi á Skagaströnd, hætti við prestskap og sló sèr til verzlunar, átti Arndísi, dóttur Pèturs í Miðhópi og Soffíu, systur Guðrúnar móður hans; þau skildu.

4) Benidikt í Hvammi í Vatnsdal á Margrèti, dóttur síra Sigvalda í Grímstungum.

5) Sigríður átti síra Sigfús á Undirfelli, son síra Jóns í Reykjahlíð.

3) Magnús átti Ragnheiði, dóttur Odds lyfsala á Akureyri, barnlaus.

6. Þorlákur Stefán[1].
7. Gunnlaugur Pètur[2].
8. Ágúst Theódór[3].
9. Lárus Þórarinn[4].
10. Jósep Gottfrið[5].
11. Páll Jakob[6].

Björn Auðunsson, er að viðurnefni kallar sig Blöndal, var fæddur í nóvember 1787 í Blöndudalshólum, kom í Reykjavíkurskóla 1802 og útskrifaðist þaðan 1809, ætlaði svo að verða kapellán, en það brást, sigldi því, og tók reynslupróf í danskri lögfræði með heppni, kom svo út[7] og gjörðist skrifari hjá stiptamtmanni Moltke.

1820, þegar Jón sýslumaður frá sagði sèr Húnavatnsþing, fèkk Björn veitingu fyrir því, tók sèr bústað í Hvammi í Vatnsdal og húsaði þar vel; hann hefir og aðra jörð með, er heitir Flaga; fjölda mikinn kvikfjár hefir hann og er sagður mesti uppgangsmaður og búhöldur góður. Hann hefir orðið að vera dómari í drápsmáli og iðulega í öðrum illvirkjamálum í sýslu sinni og farnast það vel; var þar mjög róstusamt, er hann kom til sýslunnar. Hann tjáist mikið sinnugur gætinn og spakur maður; hann var fremur öðrum sýslumönnum norðanlands valinn í

---

1) Þorlákur, drukknaði á Isafirði, átti fyr Hólmfríði Böðvarsdóttur frá Melstað, svo Jakobínu, dóttur síra Jakobs Finnbogasonar.

2) Gunnlaugur varð sýslumaður í Barðastrandarsýslu, sjá þar um hann.

3) Ágúst átti Jóhönnu Jónsdóttur frá Beinakeldu Jóhannessonar prests í Grímsey.

4) Lárus sýslumaður, sjá hèr síðar.

5) Jósep átti Önnu, dóttur Kristjáns kaupmanns Möllers.

6) Páll læknir í Stafholtsey á Elínu, laundóttur Jóns sýslumanns Þórðarsonar Þóroddssonar.

7) Áður en Björn varð skrifari stiptamtmanns Moltkes, var hann um stuttan tíma á skrifstofu í Skjelskör hjá Grími Jónssyni, er hèr varð síðar amtmaður.

embættismanna nefndina í Reykjavík og þótti opt leggja heppilega til mála[1]. 1846 í yfirgeysandi mislingasótt dó hann á 59. aldursári[2], og hafði um þær mundir[3] verið sæmdur með kanselliráðs nafnbót, en fregnin um það kom ekki hingað út, fyrri en að hann var dáinn[3]. Kona hans Guðrún var mesta búsýslu kona og þótt mikill væri barnafjöldi þeirra, rökuðu þau saman miklu fè í þau 26 ár, sem þau saman bjuggu, svo að við fráfall hans tjáist dánarbúið að hafa verið um 18,000 rd. mest í peningum.

## Runólfur Magnús Björnsson Ólsen.

*Faðir:* Björn Ólafsson, umboðshaldari Þingeyraklaustursjarða, sjá að framan.

*Móðir:* Guðrún Runólfsdóttir frá Sandgerði á Suðurlandi, sjá hèr að framan.

*Kona:* Ingunn, dóttir kammerráðs og sýslumanns Jóns á Melum við Hrútafjörð Jónssonar.

*Börn:* 1. Guðrún Ingunn.
2. Anna Margrèt.
3. Ingunn Guðlaug.
4. Jón (2 önnur dáin 1847)[4].

Runólfur Magnús er borinn um 1817, ólst fyrst upp í foreldrahúsum, fór síðan í Bessastaðaskóla og útskrifaðist þaðan um 1840, gjörðist þènari og skrifari hjá amtmanni Bjarna

---

1) Hann sat og á alþingi 1845, sem konungkjörinn þingmaður.

2) Hann andaðist 23. júní.

3) Það var 26. júlí, eða liðugum mánuði eptir lát hans, því fregnin um lát hans hefir þá eigi verið komin til Kaupmannahafnar.

4) Börn þeirra Magnúsar og Ingunnar, er upp komust, voru:
a. Ingunn átti Jón, son Ásgeirs Einarssonar á Þingeyrum, þau systra börn, sjá Strandasýslu.
b. Elín átti Eggert kaupmann Gunnarsson, dó barnlaus.
c. Björn, kennari við lærða skólann í Reykjavík, ógiptur.
d. Margrèt ógipt.

Thorarensen, sem veitti honum Þingeyraklausturs jarða umboð, þegar faðir hans vildi losast við það.

Runólfur tók sèr, þá er hann var giptur, bústað á Núpi, og bjó þar fá ár, til þess að hann flutti að Þingeyrum og tók við umboðinu af föður sínum. Runólfur er sagður búsýslumaður mikill og eptir sinni stöðu vel menntaður í mörgu. 1846, þegar Björn sýslumaður Auðunsson Blöndal dó, setti amtmaður Grímur Jónsson hann fyrir Húnavatnsþing til þess konungur veitti sýsluna; árið 1846 vildi svo til, að það ár fèllu til mörg auðug dánarbú í Húnavatnssýslu, og auðgaðist Runólfur mjög bæði af þeim og öðrum tekjum sýslunnar; hann tjáist að hafa staðið vel í embættinu þetta eina ár, sem hann hafði sýsluna, en kom á þeim tíma eigi til dómaragjörða. 1847, um miðsumarsskeið, afhenti hann Arnóri sýslumanni öll sýslunnar embættisskjöl og gegnir nú einungis jarðaumboðsembætti sínu.

### Arnór Árnason.

Sjá um hann við Þingeyjarþing. Eins og þar segir, fèkk hann veitingu fyrir Húnavatnsþingi 1847 og kom til sýslunnar um mitt sumar 1877 og tók við sýsluskjölunum.

## Viðbætir.

### Arnór Árnason.

Hann dó að Ytriey 24. júní 1859, ókvæntur og barnlaus. Hann varð kammerráð 1854.

### Kristján Kristjánsson.

Sjá um hann Skaptafellssýslu og Hegranessýslu. Eins og sagt er hèr að framan, bls. 431 og 432, var honum veitt 8. maí 1860 Húnavatnssýsla, er hann hèlt, unz hann varð amtmaður í norður- og austuramtinu hinn 13. apríl 1871. Í Húnavatnssýslu bjó hann á Geitisskarði, keypti hann þá jörð, en seldi hana aptur, þegar hann varð amtmaður, sjá Lögfræðingatal Magnúsar yfirdómara Stephensens.

## Bjarni Einar Magnússon.

Sjá um hann Vestmannaeyjasýslu og Lögfræðingatal Magnúsar yfirdómara Stephensens. Honum var veitt Húnavatnssýsla 24. júlí 1871; þar bjó hann á Geitisskarði, er hann keypti. Hann dó snögglega á heimili sínu 25. maí 1876.

## Eggert Gunnlaugsson Breim.

Sjá um hann Ísafjarðar, Eyjafjarðar og Skagafjarðar sýslur og Lögfræðingatal Magnúsar yfirdómara Stephensens. Hann var settur fyrir Húnavatssýslu 25. júli 1870 og fèkk veitiugu fyrir henni 2. nóvember s. á., en hann flutti eigi þangað, og fèkk 12 apríl árið eptir leyfi til að vera kyrr í Skagafjarðarsýslu.

## Lárus þórarinn Björnsson Blöndal.

Sjá um hann við Dalasýslu og Lögfræðingatal Magnúsar yfirdómara Stephensens. Lárusi var veitt Húnavatnssýsla 12. apríl 1877, flutti hann sig þá að Kornsá, sem er landssjóðsjörð, og býr þar. Hann sat á alþingi 1881, sem þingmaður Húnvetninga.

## Leiðrjettingar og prentvillur.

Bls. 4., línu 16., er sagt, að Sigmundur Gunnarsson hafi dáið 1235, en það er eigi rètt, því hann var í Flóabardaga með Þórði kakala, en bardagi sá var 1244.

— 4., l. 24. Þorvaldur var brenndur inni 1228.

— 7., l. 17. Helga væna átti með Þorkeli í Hraundal; börn þeirra einn son, les: Helga væna átti með Þorkeli í Hraundal börn; þeirra einn son.

— 18., l. 32. Sumstaðar telst þó Einar, son Jóns, sonur Guðrúnar, en eigi Bjargar, les: Einar (sjá um hann seinna) var þó sonur Jóns og Guðrúnar, en telst sumstaðar sonur Bjargar.

— 26., l. 7. 1461, les: 1362.

— 27. Að Arnfinnur sýslumaður Jónsson (sjá bls. 176) hafi verið sonur Jóns Finnbogasonar, sèst enn fremur af því, að Arnfinnur átti son, er Oddur hèt (sjá bls. 130), og Oddur aptur sonu, er hètu: Jón, Þorgrímur, Halldór, er allir lifðu um siðaskiptin og nokkuð eptir þau; nú fær það eigi staðizt tímans vegna, að bræður þessir — Þorgrímur átti Þórunni, dóttur Bjarna Torfasonar frá Klofa, Halldór Guðrúnu Gunnarsdóttur frá Ökrum — hafi verið synir Odds Finnbogasonar gamla; þar að auki hefi eg hvergi sèð getið þessa Odds Finnbogasonar; en þar á móti kemur það vel heim við tímann, að Oddur, faðir þeirra, hafi verið sonarson Jóns, sonar Finnboga gamla, og virðist það auðsætt, að í ættartölu þessari hefir upprunalega staðið «Arnfinnur» millum Odds og Jóns, en hefir af vanvara verið sleppt út úr af þeim, er hefir afritað ættina, og Oddur við það verið gjörður að bróður Jóns. Öðruvísi, en nú hefir verið

sagt, geta þessir menn eigi verið komnir af Finnboga gamla, en af honum hafa þeir verið komnir.

Bls 29., l. 3. a. n., vitnisbrèfi, les: vitnisburðarbrèfi.

— 53., l. 20., Ásgeirs Hallssonar, les: Ásgríms Hallssonar.

— 55., l. 2. a. n., síra Jón Ólafsson, les: síra Jón Tómasson.

— 58., síra Sigfús í Gaulverjabæ, ætti að vera: síra Vigfús í Gaulverjabæ.

— 66., l. 7.—8., Jóni Ásgeirssyni, les: Jóni Ásgrímssyni.

— 89, l. 3., syndur, les: rýndur.

— 92., l. 6., Sigurð, les: Sigmund.

— 102., l. 18., 88, mun eiga að vera 68. Fyrri kona Magnúsar í Bræðratungu hèt Jarðþrúður, ekki Arnþrúður, það sèst af legsteini í Bræðratungu kirkjugarði.

— 105., l. 3. a. n., Bjarnar, les: Bjarna.

— 105., l. 8., 1595, les: 1695.

— 118, í 2. neðanm.gr., Sigríði, les: Guðrúnu

— 120., l. 22., 1616, les: 1716,

— 137., Ólafsdal, les: Ólafsfirði.

— 141., l. 7.—8., Herdísar Oddsdóttur, systur, les: Herdísar móðursystur.

— 141., l. 9.—10., svo þeir Haukur og Gissur hafa verið bræðrasynir, les: svo þau Steinunn kona Hauks og Gissur hafa verið bræðrabörn.

— 151., l. 5.—6, Björnssonar Drumbs í Hjarðarholti, Svarthöfðasonar samastaðar, Dugfússonar Þórarinssonar frá Snóksdal, ætti að vera: Björnssonar, Svarthöfðasonar, Dugfússonar, Þorleifssonar.

— 182. Dóttir Ara lögmanns, sú er átti Sigurð Þorbergsson, nefnist ýmist Þórunn eða Þóra, en Þóra mun rèttara.

— 185., l. 13., prestur, les: prestar.

— 191., Jón Grímsson, seinni maður Ólafar Nikulásdóttur, kallaðist og Gróuson eptir móður sinni, og svo kallast hann, bls. 58.

— 192., l. 3., 1555, á að vera: 1535.

— 219. Hallottu Þorsteinsdóttur, á að vera: Hallottu Þorleifsdóttur.

— 236. Stótubrekku, les: Stórubrekku.

— 242. Það er víst rèttara, að síra Björn á Grenjaðarstað hafi dáið 1766.

Bls. 244. Þar stendur: síra Jón Torfason, o. s. frv., en á að vera: síra Jón Torfason á Breiðabólstað Jónssonar Gissurarsonar; síra Torfi testamenteraði, o. s. frv.

— 258. Þau Lárus og Sophia er sjálfsagt ritvilla og á að vera: Þau Lárus og Þórunn.

— 260., l. 29. Selárdal, á að vera: Sauðlauksdal.

— 261., l. 11. Önnu Hannesdóttur, les: Ólöfu Hannesdóttur,

— 264. l. 15.—16., af Birni bónda Magnússyni, mun það ekki eiga að vera: af Magnúsi bónda Björnssyni? sem sè föður síra Björns á Grenjaðarstað.

— 267., l. 12. Sveinssonar, les: Sölvasonar.

— 272., l. 3. a. n. Sigríður Anna, á að vera: Anna Margrèt.

— 275., l. 7. a. n. Hólmfríði, á að vera: Guðrúnu.

— 285., l. 14., sem sem hún nær, les: það sem hún nær.

— — - 11. a. n. Jón Jónsson, les: Jón Jakobsson.

— 288., l. 18. Valdimar, les: Vilhjálmur.

— — - 19. Jóhann, les: Jóhanna.

— — - 21. Steindórssonar, les: Pálssonar.

— 289., l. 3. a. n., á eptir «amtmanns Hafsteins» má bæta inn í:

ε. Síra Gunnar heitinn á Svalbarði, átti Valgerði Þorsteinsdóttur, systur Halldóru, konu Tryggva; þeirra dóttir Jóhanna.

— 299., l. 5. Eirík, les: Eiríks.

— 300., l. 5., og held og, les: og held eg.

— 315. Kona Ólafs Grímssonar hèt Salbjörg Gunnarsdóttir; þau hjón áttu Brúarland, og gaf hann það í prófentu með henni Hólakirkju. Salbjörg nefnist húsfreyja í brèfi Nikulásar príors á Möðruvöllum, er sýnir, að þau hjón hafa verið í miklum metum.

— 319., l. 10., áti, les: átti.

— 339., l. 2. a. n. Guðlaugur. les: Gunnlaugur.

— 343., l. 4. a. n. Gerhans, les: Gerkens.

— 344, l. 17., síra Stefán Halldórsson, les: síra Stefán Hallkelsson.

— 348., l. 16., í Mýrdal, les: Miðdal.

— 362. Dómur sá, er Jón lögmaður Jónsson lèt 1583 ganga út af kæru Guðmundar Halldórssonar yfir dómi Sigurðar sýslumanns, var dómur hans sem lögmanns; Guðmundur

hafði orðið brotlegur, meðan Jón var sýslumaður í Skagafjarðarsýslu, en svo liðu 2 ár, þangað til Jón hætti að vera þar sýslumaður, þá tekur Sigurður málið upp, sjálfsagt eptir að hann var orðinn þar sýslumaður. Jón lögmaður hefir því eigi haft Skagafjarðarsýslu lengur en í hæsta lagi til 1580, sjá og bls 528.

Bls. 362. Hallgrímssonar prests Sveinbjarnarsonar, les: Hallgrímssonar Sveinbjarnarsonar prests.

— 365—366. Það var Grímur, bróðir Guðnýjar, er flýði á náðir Hólakirkju, en ekki Jón.

— 369. Að vísu átti síra Sigurður á Auðkúlu son, er Egill hèt, en sá Egill mun hafa dáið barnlaus; Egill, afi Sigurðar í Krossanesi, var son Illuga, sonar síra Sigurðar.

— 377., l. 24. Halldórs var lögmanns, les: Halldórs lögmanns.

— 378., l. 10., 1466, les: 1646.

— 379., l. 1. neðanm., Solveigu, les: Sólborgu.

— 395. Það var mál manna, að síra Árni Þorsteinsson á Kirkjubæ mundi vera son síra Stefáns Þorleifssonar; hèt móðir síra Árna Þórdís, og var hún systir Þórunnar, fyrri konu síra Stefáns.

— 397. Í stað 5. neðanmálsgreinarinnar komi: Foreldri síra Einars Árnasonar á Sauðanesi voru Árni Magnússon og Þórdís Jónsdóttir í Leirhöfn á Melrakkaslèttu, en hinn sanni faðir síra Einars var af mörgum álitinn síra Jóhann Kristjánsson, er seinna varð prestur á Mælifelli; síra Jóhann var stjúpsonur síra Árna Skaptasonar.

— 398., l. 15. Sveinstöðum, les: Steinstöðum.

— 402., l. 3. a. n. Kristínu, les: Guðlaugu.

— 403., l. 2. a. n. Sigríðar, les: Sigurðar.

— 414., l. 26., síra Þorkels, les: síra Þorláks.

— 447., l. 27., Brandsdóttir, les: Steinsdóttir.

— 460., l. 12. Borkey, les: Brokey.

— 463., l. 5. a. n. Þorkelssonar, les: Þorlákssonar.

— 466., l. 3. a. n. »Þórðar«, mun líklega eiga að vera: Þórarins.

— 471., l. 2. a. n., dóttur, les: sonardóttur.

— 475., Bólastaðarhlíð, les: Bólstaðarhlíð.

— 479., l. 21., dóttur Jóns Ormssonar, les: dóttur Orms.

— 480., l. 8.—9. »Einarssonar« ætti að falla burtu.

— 490., l. 4. neðanm., Sigurður eldri, les: Sigríður eldri.
— 510., Pètur sýslumann á Bustarfelli Bjarnason, les: Pètur son Bjarna sýslumanns á Bustarfelli.
— 511. Aðrir telja, að Bárður Gíslason hafi búið í Vatnsdal í Rangárþingi.
— 512. Þótt sagt sè, að Einar Ólafsson hafi verið kominn af Guðmundi Arasyni í Flatatungu, er líklegast að hann hafi verið kominn af Guðmundi Gíslasyni í Flatatungu.
— 513. Happahlíð, les: Huppahlíð.
— 519. Kristján Valkendorph, les: Kristofer Valkendorph.
— 522. Glatardalstungu, les: Galtardalstungu.
Merkin neðanmáls: 7, 7, 8, 9, les: 7, 8, 9, 10.
— 551., l. 1., lambatolli, les: lambatoll.
— 564., Eiarsnesi, les: Einarsnesi.
— 566., neðanm. 3. β., síra Jóhannes, les: síra Jónatan.
— 582., l. 5. Þorkelssonar, les: Hallgrímssonar.
— — - 27. Þorvarður, les: Þorvaldur.
— — 1. neðanmálsgreinin er ekki alveg rètt, og ætti end-
— — irinn frá orðinu *báðir* að falla burt.
— 584., l. 5. Kristjáns Heidemanns, les: Kristofers Heidemanns.
— 596., Skúla biskups,les: Þorláks biskups.
— 598., Þingeyraþing, les: Þingeyjarþing.
— 608., l. 1. Klements sýslumann, les: Sumarliða Klemensson sýslumann.
— 610., Grðrúnu les: Guðrúnu.
— 613., l. 3. neðanm., í Vallanesi, les: í Sauðanesi.
— — - 5. n. m., hans kona Kristín, les: hans kona Guðrún dóttir Árna sýslumanns á Eyðum Magnússonar, þeirra son síra Ketill á Svalbarði, hans kona Kristín.
— — - 6. þeirra son Árni, les: og Árni.
— — - 7. Björns, les: Bjarna.
— — - 8. Björns, les: Bjarna.
— 620., l. 5. Jónas, les: Jón.
— 623., l. 5. a. n., uppeldisdóttir, les: laundóttir.
— 629. Þessa sögu um Þórð hefi eg heyrt nokkuð öðruvísi, og er það víst rèttara. Með verzlunarskipinu frá Frisch kom maður nokkur, er ganga átti mjög hart að Þórði, ef

hann eigi gæti staðið í skilum, en sama kvöldið og skipið kom, fèkk Þórður sèr hesta á laun og ötulan fylgdarmann, og hèlt af stað um nóttina, þegar allir voru háttaðir, á leið suður til Reykjavíkur; þegar hann þangað kom, var þar skip, er var með öllu ferðbúið til útlanda; náði Þórður með mestu naumindum í það, og komst í það undir eins og hann kom til Reykjavíkur. Undir eins um morguninn, eptir að Þórður um nóttina fór frá Akureyri, voru menn sendir, er áttu að elta hann og handsama, en þeir komu til Reykjavíkur rètt þegar skipið, sem Þórður var með, var komið úr augsýn. Það er með öllu víst, að Þórður kom nokkru seinna til Húnavatnssýslu sem skipherra á hollenzkri fiskiskútu, en gjörði lítið vart um sig, og vildi fá Oddnýju konu sína með sèr, en Björn bróðir hennar vildi ekki að hún færi.

# Registur yfir mannanöfn.

# Eptirmáli.

Þetta registur, er hèr kemur fyrir almenningssjónir, er í sjálfu sèr nokkuð ófullkomið, og þykir mèr því hlýða, að skýra frá því í fám orðum, hvaða frumreglu (princip) sè fylgt í því, til þess að koma í veg fyrir allan misskilning. Samkvæmt því sem mèr var falið á hendur, hef eg sleppt börnum ýmissa manna, sem aðeins eru nefnd á nafn í ættartölunum, en eigi frekar getið um þau í skýringunum neðanmáls; einnig hef eg sleppt ýmsum öðrum mönnum, er eg hugði lítt nafnkunna, og einungis koma fyrir í dómum, en marga af þeim hef eg þó talið. Það getur verið, að sumum þyki, að eg hafi tekið marga ómerka menn upp í registrið, en sleppt öðrum merkari, en við því verður ekki gjört. Eins og sjá má, hef eg enga eða mjög fáa fært til ættar, nema þar sem samnefnt var, og þörf var á frekari útskýringu, því að við það hefði registrið lengst afar mikið, en þó ekki orðið miklu greinilegra. Víðast hef eg kallað prófasta að eins presta, því að í bókinni sjálfri er sjaldan gjörður greinarmunur á því; en sumstaðar hef eg bætt við föðurnöfnum manna, þar sem eg vissi að það var óhætt. Opt hef eg verið í miklum vafa, að greiða úr nöfnunum, því að það er víða erfitt að sjá, hvort talað er um einn eða fleiri með hinu sama nafni, og getur því vel verið, að einhverjar villur eða ónákvæmni sèu sumstaðar í registrinu, en eg hygg samt, að þær sèu ekki svo stórkostlegar, að þær spilli fyrir notkun sjálfrar bókarinnar.

*H. Þorsteinsson.*